# SÝSLUMANNAÆFIR

EPTIR

BOGA BENEDIKTSSON

Á STAÐARFELLI

## MEÐ SKÝRINGUM OG VIÐAUKUM

EPTIR

HANNES ÞORSTEINSSON

III. BINDI.





REYKJAVIK
PRENTSMIÐJA ÞJÓÐÓLFS OG GUTENBERG
1905—1908

# B. II.

## Vestfirðingafjórðungur.

# B. Vestfirðingafjórðungur.

## V. Snæfellsnessýsla.

*Hinir gömlu þingstaðir í Snæfellsnessýslu* :

1. Hofgarðar í Staðarsveit.
2. Laugarbrekka í Breiðavík.
3. Ingjaldshóll í Neshreppi.
4. Grund í Eyrarsveit.
5. Staðarbakki í Helgafellssveit.
6. Drangar á Skógarströnd.

Sá annar hluti Þórnessþings, sem liggur frá Haffjarðará, (er aðskilur Hnappadalssýslu), kringum Snæfellsnesjökul og inn á Hvammstjörð, að því nú brúkanlega sýslutakmarki, er nefnist Krosssteinar, kallast Snæfellsnessýsla. Í eldri tíð voru takmörk millum sýslnanna áin Skrauma, þar eptir voru takmörkin sett sýslnanna á millum í Þverá, sem rennur til sjávar millum Gunnarsstaða i Dalasýslu og Hólmlaturs i Snæfellsnessýslu. Í Snæfellsnessýslu var Helgafellsklaustur hið ríkasta á landinu af jörðum, kallast það á seinni öldum Stapaumboð og stundum er það nefnt kongsgóz, þó það sé eiginlega eign sjálfs landsins, hvar af landsskuldir ganga til að launa embættismönnum. Nálega má telja helming jarða í þessari sýslu klausturs eða kirknajarðir; er því bændaeign lítil í henni.

Ekki hefur þessari sýslu svo eg viti skipt verið millum tveggja sýslumanna í senn, sem mörgum öðrum, og til hennar lá Hnappadalssýsla undir einum sýslumanni til 1615. Þá voru settir sýslumenn í Hnappadalssýslu út af fyrir sig til 1787, þá Hnappadalssýsla var að konungsboði lögð til Mýrasýslu.

Örðugt veitist að fá með fullvissu uppgötvað alla þá sýslumenn, er í þessari sýslu hafa verið á fyrri öldum, því óstöðugt var sýslumannsembættið, ekki einasta meðan viðhélzt, að þeir voru ei utan sveinar höfuðsmanna eptir vilja

eða vinskap þeirra litla hríð eða langa hríð, heldur og einnig eptir það höfuðsmenn tóku að gefa þeim veitingabréf fyrir sýslunum, en voru sjálfir sem kongar yfir lénunum, sviptu og veittu þau nær og hverjum þeim sýndist. Eptir mestu líkindum hef eg þó samið tölu þeirra, sem eg af fræðibókum hef getað uppgötvað, þó er það víða mjög ófullkomið og sumstaðar vantar um tíma í sýslumannatalið, til dæmis um árið 1400 og þar eptir, til þess Ormur Loptsson tók Snæfellsnessýslu; er ei ólíklegt, að Loptur ríki hafi þar um tíma sýslu haldið eða Vatnsfirðingar, þó er það gáta ein. Líka er óvíst, hvort Sturla Þórðarson hafi strax viðtekið af Þorleifi Björnssyni eða hvað lengi hann hefur þessa sýslu haldið.

---

## [Viðauki

Höfðingjar (er hér kunna að hafa haft völd).

### Sturla Þórðarson

lögmaður († 1284) bjó síðustu ár æfi sinnar í Fagurey á Breiðafirði (nálægt Stykkishólmi). Er allíklegt, að hann hafi haft mannaforráð á Snæfellsnesi um hríð eptir 1263, því að þar var föðurleifð hans. Bjó hann fyrst á Eyri í Álptafirði (Geirrauðareyri), en síðar lengstum á Staðarhóli. (Sjá frekar um hann II. B. bls. 420—422).

### Rafn Oddsson

hefur án efa haft völd á Snæfellsnesi, eins og annarsstaðar á Vestfjörðum, eptir 1262, því að 1270 hefur hann af konungi fengið vald yfir öllum Vestfjörðum og verið þar mestu ráðandi til dauðadags (22. nóv. 1289). (Sbr. II. B. bls. 252—53,425).

### Erlendur Ólafsson sterki

lögmaður 1283—1289, kom út með sýslu um Vestfjörðu 1290, og hefur þá tekið við af Rafni. Hann dó 1312 (Gottskálksannáll) en óvíst er, að hann hafi haldið sýsluvöldum svo lengi. Sjá frekar um Erlend sterka Lögsögumannatal og lögmanna, Safn til sögu Íslands II. 43—44.

Á dögum Rafns og Erlends voru uppi ýmsir mikilsháttar menn á Snæfellsnesi, er ef til vill hafa haft þar einhver völd í umboði þeirra og eru þessir líklegastir:

**Ólafur Arnórsson.** Hann tók Stað á Snæfellsnesi (Staðastað) af séra Tjörfa, þá er leikmenn tóku staðina 1284 (Bisks. I. 734).

Runólfur ábóti í Veri umboðsmaður Árna biskups bannfærði hann 1289, því að Ólafur hafði lofað að fara burt (frá Stað) í fardögum, en rauf það heit (Bisks. I. 783). Sumarið eptir (1290) frétti Ólafur lát Rafns Oddssonar, varð þá skelfdur og fór fótgangandi suður í Skálholt í ágústmánuði og var þar leystur úr banni (Bisks. I. 786). Síðan finnst hans ekki getið. Bróðir hans hét Grani og voru þeir bræður báðir í fylgd með Þorgilsi skarða 1255 (Sturl. [2]II. 197) en eru taldir »Hrafnsmenn«, og vildu því ekki fara að Rafni með Þorgilsi. Þriðji bróðirinn, Ingimundur, bjó í Fagurey »mikill maður og styrklegur«. Segir Sturlunga (Sturl. [2]II. 211) að hann hafi verið frændi og fóstbróðir Rafns. Hafa þeir bræður líklega verið af Seldælaætt, en hvernig þeim skyldleika er háttað verður nú ekki sagt með vissu. Þeir bræður allir hafa verið mjög handgengnir Rafni og líklegt, að Ólafur hafi farið með völd nokkur fyrir hans hönd.

**Brandur Guðmundsson.** Hann tók Stað á Snæfellsnesi af séra Tjörfa 1284 ásamt Ólafi Arnórssyni en 1289 tók hann lausn og skriptir í Reykholti af Runólfi ábóta, er í umboði biskups tók eiða af leikmönnum, er þeir gáfu upp staðina (Bisks. I. 779). Hann er kallaður »Staðar-Brandur«, eflaust dregið af Stað á Snæfellsnesi. Ætterni hans er ókunnugt. Hvort hann er sami maður og sá Brandur Guðmundsson, sem var að vígi Sæmundar og Guðmundar Ormssona 1252 (Sturl. [2]II. 95—98) er óvíst, en ósennilegt er það ekki.

**Þorgils Hauksson,** son Hauks prests Þorgilssonar í Haga á Barðaströnd († 1245) sbr. bls. 416, var einn í Staðamálum og tók hann Setberg 1284 (Bisks. I. 734). Hefur hann eflaust búið þar. En ekki finnst þess getið, að hann hafi gengið til hlýðni við biskup. Getur og verið, að hann hafi dáið fyrir 1289, er leikmenn seldu af höndum staðina. Um afkomendur Þorgils vita menn ekki. En af ætt hans gæti verið:

**Gunnar Hauksson,** sem búið hefur á Ingjaldshóli um og eptir 1300, og lét gera kirkjuna þar (sbr. máldaga Árna biskups Helgasonar 13. okt. [1317] Ísl. Fornbréfas. II. 410). Son hans var Haukur, er eptir hann bjó á Ingjaldshóli, en seldi hann Órækju Sturlusyni 10. marz 1356 (Ísl. Fornbr.s. III. 111—112), en Haukur fékk aptur hálfa jörðina Kálfárvelli. Hann er dáinn fyrir 1369 (Ísl. Fornbr.s. III. 255). Dóttur Hauks átti Torfi Koðránsson og má rekja þaðan ættir (sbr. II. 548—550).

**Marteinn Narfason.** Allsennilegt er, að hann sé son Narfa prests Snorrasonar á Kolbeinsstöðum († 1284), og bróðir þeirra

lögmannanna Þorláks, Þórðar og Snorra. En ekki verður það sannað með neinum heimildum. Hann gefur Helgafellsklaustri Höskuldsey 1281 (Í. F. VI. 6 sbr. II. 331—332) og virðist hafa búið í Bjarnarhöfn, því að í gömlu landamerkjabréfi þeirrar jarðar er sagt, að hún eigi búð og skipstöðu í Höskuldsey (Í. F. II. 82, og hefur því verið álitið, að landamerkjaskjal þetta sé ritað, áður en Marteinn gaf klaustrinu eyna, og því árfært í Fornbréfasafni II. 82 um 1270, en ekki eru þessi ákvæði bréfsins óræk sönnun fyrir því, að Marteinn hafi búið í Bjarnarhöfn og gefið eyna síðar, en landamerki þessi voru gerð, því að Bjarnarhöfn gat síðar fengið hjá klaustrinu þessi hlunnindi. En hvað sem því líður, þá hefur Marteinn búið þar vestra í Snæfellsnessýslu fyrir og um 1300, en hann virðist dáinn, er vitnisburður fer fram á Þórsnessþingi um gjöf hans 19. júní 1302 (Í. F. VI. 6 sbr. II. 331—2). Sonur hans hefur verið Pétur prestur Marteinsson, er síðast hélt Gilsbakka og dó 1379 (Annálar). Hefur hann þá verið maður gamall. Hann tekur vitnisburði tveggja manna á Helgafelli 23. ágúst 1346 um veiði í Straumfjarðará, og virðist þá hafa verið prestur á Helgafelli. Marteinn Pétursson er nefndur í Vilkinsmáldaga 1397, og hafi haldið Árnes í Trékyllisvík 14 ár (Í. F. IV. 132), en ekki er hann nefndur »séra«. Er ef til vill sami maður og sá Marteinn Pétursson, sem nefndur er í bréfi gerðu í Vatnsfirði 10. sept. 1399 (Í. F. III. 648). Hvort hann er son séra Péturs Marteinssonar á Gilsbakka skal látið ósagt, en tímans vegna gæti það verið (sbr. II. B. bls. 261).

Snorri Marteinsson bróðir (ɔ: munkur), er andaðist 1382 (Gottskálksannál!), er líklega son Marteins Narfasonar og bróðir séra Péturs. Hann var munkur á Helgafelli (Í. F. VI. 25—26,. En hafi Marteinn dáið fyrir 1300 verður þetta nokkuð tæpt. Son Snorra gæti verið Narfi Snorrason munkur á Helgafelli um 1370 (Í. F. VI. 25) fremur en Snorra lögmanns Narfasonar.

## Ketill Þorláksson

hirðstjóri son Þorláks lögmanns Narfasonar á Kolbeinsstöðum, hefur haft sýslu á Vestfjörðum næst eptir Erlend sterka, og mun hafa haldið þeim völdum til dauðadags (1342) sbr. II. bls. 255. Hann átti Unu Guttormsdóttur, systur Jóns lögmanns skráveifu (sbr. II. 443), en dóttur þeirra hefur átt Vigfús á Kolbeinsstöðum son Flosa prófasts Jónssonar, þeirra son Narfi á Kolbeinsstöðum faðir Ketils prests og Erlendar föður Erlendar sýslumanns í Rangárþingi. Það er enginn vafi á því, að Ketill Þorláksson hefur meðal annars haft völd í Snæfellsnessýslu. Son hans mun vera sá herra Snorri Ketilsson, er fór utan 1347 og andaðist í suðurgöngu (Rómferð).

**Grímur Þorsteinsson**

lögmaður í Stafholti († 1350). 1343 var honum skipað lén um Vestfjörðu og um Sunnlendingafjórðung og allt til Helkunduheiðar og hirðstjórn. Hefur hann tekið við eptir herra Ketil látinn, en 1345 fer Grímur utan og sleppir þá léninu, en kemur út árið eptir með lögmannsdæmi. Sjá frekar um hann II. B. bls. 435—437.

**Guðmundur Snorrason** (sjá hér síðar).

**Ívar Vigfússon Hólmur**

hinn eldri hafði sýslu um Vestfirðingafjórðung 1352—1358 og mun þá einnig hafa haft konungsumboð yfir Snæfellsnessýslu næst eptir Guðmund sýslumann Snorrason (sjá II. B. bls. 256, 439).

**Jón Guttormsson skráveifa**

lögmaður hafði völd um Vestfirðingafjórðung (og þar á meðal þá jafnframt Snæfellsnessýslu) næst eptir Ívar og hefur það verið árin 1358—1360. Hann var drepinn í Grundarbardaga 8. júlí 1362. (Sjá um hann Lögmannatal: Safn til s. Ísl. II. 64—65 og Sýslum.æf. II. 258, 440.

**Ólafur Pétursson.**

Hann kom út 1364 með hirðstjórn og sýslu um hálft land, norðan og vestan, og 23. júní s. á. hefur það verið, er hann var kaupvottur í Görðum í Staðarsveit, þá er Gyrðir bóndi Þorvarðsson seldi með samþykki Ingu konu sinnar Ásgrími ábóta og staðnum á Helgafelli jörðina í Vatnsholti í Staðarsveit fyrir Svarthól í Miklholtshrepp (Í. F. VI. 17—18 sbr. III. 99). Er Ólafur í bréfi þessu nefndur »hirðstjóri«, og hefur þá verið vestur í Snæfellsnessýslu, en hann fór utan 1365 og hefur þá sleppt hirðstjórn og sýsluvöldum. Hann dó 1410 og hefur þá verið maður gamall. Sjá frekar um hann II. B. bls. 258—59.

**Teitur Pálsson, Skúli Þórðarson** og **Andrés Sveinsson** hafa haft einhver sýsluvöld á Vesturlandi á árunum 1365—1388, og þá einnig í Snæfellsnessýslu. (Sjá frekar um þá II. B. bls. 259—260).

Af merkisbændum á Snæfellsnesi um og eptir miðja 14 öld, er kynnu að hafa haft þar einhver völd eða sýslu-umboð, eru þessir einna líklegastir:

**Ari Þorláksson** er nefndur í máldaga Gyrðs biskups fyrir Maríukirkju á Saxahvoli um 1355 (Í. F. III. 109). Hann er eflaust sá sami Ari Þorláksson, er seldi Ormi lögmanni Snorrasyni Kolbeinsstaði, en hvenær það hefur verið verður ekki með vissu séð, en fyrir eða um 1350 hefur það verið, að því er ráða má af vitnis-

burði Orms um þessi kaup, er hann vottar á Helgafelli 17. apríl 1395 (Í. F. III. 595). Það er enginn efi á, að Ari sá, sem hér er nefndur, hefur verið son Þorláks lögmanns Narfasonar á Kolbeinsstöðum og bróðir herra Ketils († 1342) og Narfa († 1367). Hefur hann og ef til vill haft einhver völd í Snæfellsnessýslu. Ormur seldi Kolbeinsstaði aptur Einari Þorlákssyni, og gerir sá Einar testamenti sitt 14. janúar 1362 og kýs sér leg að Helgafelli (Í. F. VI. 14—15 III. 182 sbr. VI. 13—14 og III. 312—313). Hvort hann hefur búið á Kolbeinsstöðum er óvíst. Narfi Vigfússon dótturson Ketils hirðstjóra bjó þar um 1390, en Vigfús Flosason faðir hans hefur ekki búið þar, heldur í Krossholti. Er alllíklegt, að þeir bræður Ketill og Ari hafi báðir búið á Kolbeinsstöðum, en eptir lát Ketils hafi Ari fengið umráð yfir allri jörðinni, keypt t. d. arfahluta Vigfúsar, en svo selt jörðina bræðrungi sínum Ormi Snorrasyni litlu fyrir 1350, og hann aptur Einari Þorlákssyni, er sjalfsagt hefur verið í ætt við Kolbeinsstaðamenn, en að hann hafi verið bróðir Ketils hirðstjóra tel eg mjög vafasamt, þótt dr. Jón Þorkelsson telji það vafalítið (sbr. Í. F. VI. 13—14). Einar nefnir í testamenti sínu Sigurð bróður sinn, er þá hefur verið á lífi. Að Einar hafi búið í Krossholti, þótt hann gefi Krossholtskirkju 1 hundr. í testamenti sínu, er og óvíst, þótt svo sé talið í registri við 6. bindi Fornbréfasafnsins. Í testamentinu eru Kolbeinsstaðir ekki nefndir, og hefur Einar líklega verið búinn að selja þá eða afhenda, áður en hann lést (1362). Að Ari Þorláksson hafi búið á Saxahvoli, þótt hann gæfi kirkjunni þar hundrað í viðum, getur naumast staðizt, því að um 1380 er til vitnisburður Ólafs Ormssonar um búendur á Saxahvoli (Í. F. III. 348), og eru taldir 7, er hann man, en meðal þeirra er Ari Þorláksson ekki. Síðastur er talinn Snorri Bjarnarson, og er hann líklega faðir Hrafns Snorrasonar, er 1377 selur Saxahvol klaustrinu á Helgafelli (Í. F. III. 322—324), því að ekkert bendir á, að hann sé son Snorra Andréssonar (sjá hér á eptir), þótt svo sé talið í registri við III. bindi Fornbréfasafnsins. Í tveimur bréfum 1364 og 1365 (Í. F. VI. 18) er hann t. d. talinn næstur á undan Snorra Andréssyni og mundi það trauðla gert, ef hann hefði verið sonur hans, heldur hefði hann þá verið talinn á eptir föður sínum.

**Órækja Sturluson** á Ingjaldshóli. Hann hefur verið son Sturlu Snorrasonar Sturlusonar lögmanns Þórðarsonar. Hvort Sturla Snorrason hafi haft nokkur völd í Snæfellsnessýslu verður ekkert sagt með vissu, en ólíklegt er það ekki. Hann drukknaði 1332 ásamt Þorsteini bróður sínum (Gottskálksannáll). Af annálum verður ekki séð, að þeir bræður hafi verið á Glóðinni, er rænd var í

Suðureyjum og komst til Noregs (sbr. II. B. bls. 427), því að drukknun þeirra bræðra er ekki sett í nokkurt samband við þá frásögn, svo að heimild sé til að tengja þá atburði saman. Það verður heldur ekki séð, hvar þeir bræður hafi drukknað, en líklegra, að það hafi verið hér við land, heldur en utanlands. Athugasemdin um þetta í II. B. bls. 427 getur því naumast verið rétt. — Órækja Sturluson hefur eflaust verið virðingamaður. Hann keypti Ingjaldshól af Hauki Gunnarssyni 10. marz 1356 (Í. F. III. 111—112) fyrir hálfa Kálfárvelli í Staðarsveit og 20 hundr. í jörðu eða fríðu lausafé, en 1365 geldur hann Hauki alla Kálfárvelli (Í. F. VI. 20). Mun Órækja hafa flutt að Ingjaldshóli um 1356. Gerir hann gerning um landamerki Ingjaldshóls við Ásgrím ábóta á Helgafelli um 1358 (Í. F. VI. 9—10), en nokkru síðar seldi hann Ingjaldshól og Kjalveg Ásgrími ábóta með leyfi Solveigar konu sinnar fyrir 70 hundruð, en óvíst er, hvenær þau kaup hafa farið fram, þó líklega fremur fyrir en eptir 1370 (Í. F. VI. 21—22 sbr. III. 315). Ekki er ósennilegt, að Órækja hafi haft einhver völd á Snæfellsnesi, þótt ekkert verði um það sagt með vissu. Um ætt frá honum er ekki kunnugt. — Bróðir hans er að líkindum sá Ólafur prestur Sturluson, er andaðist 1370 (Gottskálksannáll) og ef til vill sá Björn prestur (eða Bjarni) Sturluson, sem nefndur er í Í. F. VI. 10, 22. Valgarður Sturluson, er búið hefur á Saxahvoli á fyrri hluta 14. aldar (Í. F. III. 348) getur tímans vegna naumast verið bróðir Órækju.

**Snorri Andrésson** bjó í Bjarnarhöfn, kemur fyrst við bréf um 1350, er hann gerir samning við Hauk Gunnarsson á Ingjaldshóli um reka Keflavíkur undir Jökli (Í. F. II. 849—850). 12. maí 1365 keypti hann af Ásgrími ábóta á Helgafelli lönd að Seljum og gaf í móti Akurey alla með þeim skerjum og hólmum, sem í fjarar, en Snorri seldi ábóta Fáskrúð fyrir 3 kúgildi (Í. F. VI. 19—20, sbr. III. 144). Um 1367 hefur Snorri gerzt prófentumaður á Helgafelli, og seldi þá Ásgrími ábóta jörðina Hamar (líkl. Stakkhamar) sér til æfinlegs uppeldis á klaustrinu (Í. F. VI. 22) Kemur við fleiri bréf um þær mundir; síðast 15. október 1377 er hann vottur að því, er Hrafn Snorrason selur staðnum að Helgafelli jörðina Saxahvol (Í. F. VI. 28—29 sbr. III. 323). — Snorri Andrésson deyr 1382 (Gottskálksannáll) og er þá kallaður »bóndi«, er var hefðarnafn í þann tíð, enda er svo að sjá, sem Snorri hafi verið merkismaður. Getur vel verið, að hann hafi verið af ætt Oddaverja, því að Andrésarnafnið er á þeim tímum allfátítt annarsstaðar en í þeirri ætt.

**Marteinn Þorleifsson** hefur búið í Máfahlíð. Hann kemur við bréf í Bjarnarhöfn 12. maí 1365 um kaup millum Ásgríms ábóta

á Helgafelli og Snorra Andréssonar, er fyr var getið. 9. nóv. 1398 vottar Ormur Snorrason á Skarði, að Marteinn hafi selt honum Hrísa í Helgafellssveit með nátthaga, en hann hafi selt aptur Oddi Ketilssyni (Í. F. III. 637—38). Hefur Marteinn þá verið látinn. Hann er eflaust sá Marteinn bóndi, sem getið er í Máfahlíðarmáldaga Gyrðs biskups um 1355 (Í. F. III. 111). Synir hans hafa verið:

1. Þorleifur Marteinsson kemur við bréf vestra 1387 (Í. F. VI. 30), 1389 (Í. F. III. 431), 1391 (Í. F. VI. 31) og 1399 (Í. F. VI. 37), en 1415 á Ósi í Miðfirði (Í. F. III. 758). Hefur hann þá búið í Víðidalstungu og átti í arfadeilum við Þorleif Árnason út af þeirri jörð, er hann sagði, að Jón Hákonarson Gissurarsonar galla hefði gefið alla Helga syni sínum, en hann var kvæntur Margréti dóttur Þorleifs, og dó hún bl. (sbr. úrskurð Rafns lögmanns Guðmundssonar 19. jan. 1416 Í. F. IV. 245—247). Í fardögum 1418 handleggur Þorleifur Nikulási Broddasyni alla jörðina Máfahlíð, Holt og Tungu, og er gerður vitnisburður um það á Knerri 2. maí 1425 (Í. F. IV. 320—321). Þorleifur er dáinn 1427, því að 14. júlí það ár úrskurðar Rafn lögmaður um arf eptir hann (Í. F. IV. 346—347). Margrét dóttir hans átti Helga Jónsson Hákonarsonar, sem fyr var getið, dó bl.

   Son Þorleifs Marteinssonar (óskilgetinn) gæti verið sá Sveinn Þorleifsson, sem kemur við bréf á Stakkhamri í Miklholtshreppi 1438 (Í. F. IV. 581), og son hans Snorri faðir séra Einars Ölduhryggjarskálds. Væri þá Marteins nafnið á þennan hátt komið inn í ættina, og tímans vegna getur þetta vel staðizt, en að öðru leyti er ekkert á þessu að byggja. En sennilegt þykir mér, að Sveinn Þorleifsson sé föðurfaðir séra Einars Snorrasonar, enda þótt hann hafi ekki verið son Þorleifs Marteinssonar.

2. Ólafur Marteinsson, kallaður »staði« kemur við bréf vestra 1387 og 1391 (Í. F. VI. 30—31), en 20. nóv. 1402 er hann vottur að kaupmálabréfi Jóns Gunnlaugssonar og Þóru Ketilsdóttur Skeggjasonar, er gert var á Mel í Miðfirði (Í. F. III. 678—679). Hafa þeir bræður flutzt norður um 1400. Ólafur er dáinn fyrir 1427. Hann var tvíkvæntur, átti fyr Hallberu Kolbeinsdóttur, þ. d. Solveig, en síðar Ingibjörgu Árnadóttur, þ. d.: Þuríður.

   a. Solveig Ólafsdóttir átti Guðmund Þorláksson.

   b. Þuríður Ólafsdóttir átti Svein Bjarnason.

   Rafn lögmaður Guðmundsson úrskurðaði 14. júlí 1427, að

þær systur tækju allan arf eptir Þorleif Marteinsson föðurbróður sinn (Í. F. IV. 346—347).

3. Sveinn Marteinsson. Hann er dáinn fyrir 1418 (Í. F. IV. 320). Dóttur hans átti Broddi Jónsson Þorgilssonar, þeirra son Nikulás í Máfahlíð. Að Sveinn Marteinsson sé sami maður og sá Sveinn bóndi, sem nefndur er í Vilkinsmáldaga Önd-verðareyrarkirkju 1397 (Í. F. IV. 174) hygg eg vafasamt, þótt svo sé hiklaust talið í registri við 4. bindi Fornbréfasafnsins.

4. Krákur Marteinsson, dáinn fyrir 1487 (Í. F. VI. 593, 619), líklega son Marteins Þorleifssonar.

## Guðmundur Snorrason[1])

hefur haldið Snæfellsnessýslu 1390[2]), því það ar hefur Flosi prestur Jónsson og Guðmundur sýslumaður Snorrason með 12 manna dómi tildæmt Þorsteini abóta á Helgafelli Snorrasyni VI hndr. af Árna Grímssyni[3]) á Fáskrúðarbakka fyrir það hann í óheimild og forboði hafði veitt í Straumfjarðará, hvar Helgafellsstaður atti alla veiði millum fjalls og fjöru. Um þennan Guðmund finn eg eigi annað markvert. Í annálum stendur svoleiðis: 1345 útkoma Guðmundar og Orms Snorrasona og hafði Guðmundur sýslu. 1348 kom Guðmundur Snorrason út. 1353 kom hann enn út. 1354 fór Guðmundur utan, var Ólafur Bjarnason þá í Noregi og ætluðu báðir að fara til Kompostella sjóveg en drukknuðu á leiðinni báðir.

## Ormur Snorrason

máske bróðir áðurnefnds Guðmundar Snorrasonar[4]) hefur 1395 útgefið þann vitnisburð, að hann hafi keypt af Ara (al. Ein-

---

1) Guðmundur var son Snorra lögmanns Narfasonar á Skarði. (Sjá meira um hann II. B. bls. 256—257). Hann kom út með sýsluvöld 1345 ásamt Ormi bróður sínum og hefur líklega þá þegar tekið Snæfellsnessýslu. Og þar er hann talinn sýslumaður í dómi a Helgafelli 1351 (Í. F. III. 53—54), en Bogi heimfærir þennan dóm ranglega til 1390. Guðmundur Snorrason hefur dáið 1354.

2) Á að vera: 1351.

3) Réttara: Ari Grímsson (Í. F. III. 53—4).

4) Það er engum vafa undirorpið, að þeir Ormur og Guðmundur voru bræður.

ari)[1] Þorlákssyni jörðina Kolbeinsstaði með þeim skilmálum, að jörðin Hrófsholt[2]) ætti ítak í skógi fyrir sunnan Haffjarðará, í Kolbeinsstaðarjörðu í Einbúa milli gatna tveggja (NB. óvíst er hvort hann hefur verið valdamaður í Snæfellsnessýslu). Eptir það Ormur sleppti hirðstjórn 1370 getur hann hafa haldið allt Þórnessþing, en sjálfsagt meðan hann var hirðstjóri. (Sjá um ætt Orms og völd við Dalasýslu) 3).

## Ormur Loptsson.

*Faðir:* Loptur ríki Guttormsson (sjá Vaðlaþing).
*Móðir:* Kristín Oddsdóttir, frilla Lopts.
*Kona:* Solveig dóttir Þorleifs sýslumanns Árnasonar og Vatnsfjarðar-Kristínar, þau Ormur og Solveig giptust á Reykhólum 1434. Solveig dó 1479.
*Börn:* A. Loptur, sjá síðar.
B. Einar, máske um hríð sýslumaður í Þverárþingi. Hann hélt Reykholt og deyði sjálfur 1463[4]), afhenti þá Loptur bróðir hans staðinn.

---

1) Réttara Ara Þorlákssyni. Vottorð Orms er útgefið á Helgafelli 17. apríl (1395) Í. F. III. 595, og er hér áður getið (bls. 6).

2) Réttara: Hrossholt.

3) Þar er Orms ítarlega getið (II. B. bls. 440—442).

4) Þetta er skakkt. Einar hefur dáið á Hvoli í Hvolhrepp (Stórólfshvoli) 1470, því að 4. júní það ár gerir hann þar testamenti sitt »heill að samvizku en krankur nokkuð í líkama« (Í. F. V. 568—571). Hefur hann þá verið á fertugsaldri. Hann átti Sesselju Þorsteinsdóttur Hallssonar Ólafssonar Þorsteinssonar lögmanns Eyjólfssonar, og kom það síðar upp, að fjórmenningsmeinbugir hefðu verið á hjónabandi þeirra, sbr. úrskurð Sveins biskups Péturssonar í Skálholti 8. maí 1471 (Í. F. V. 608—609). Af testamenti Einars sést, að börn hans og Sesselju hafa verið:

1. Ormur. Mun vera sá Ormur Einarsson, er kemur við bréf nyrðra 1475 (Í. F. V. 786, 801) og 1489 (Í. F. VI. 686).
2. Þorsteinn. Honum gaf faðir hans Torfustaði í Miðfirði og Bergsstaði í sömu sveit. Þess vegna mun hann vera talinn búandi á Torfustöðum í registri við 5. b. Fornbréfasafnsins eptir J. J. (V. 1088), en til þess er engin heimild, og sízt að hann sé farinn að búa þar sama árið, sem faðir hans deyr (1470), því að Þorsteinn hefur þá verið barn að aldri.

Sonur Einars hét:
a. Einar; hans synir:
aa. Jón og
bb. Benedikt. Voru laungetnir og náðu ei til arfs.

Ormur giptist sem áður er sagt Solveigu[1]) og hafði auð fjár. Hann mun þá hafa haldið Snæfellsnessýslu, því 1437 tók hann eið af manni millum Höfða og Ennis[2]), en hvað lengi hann hefur þá sýslu haldið er óljóst. 1456 bjóst Ormur til utanferðar, Solveig kona hans bannaði honum það, og bað hann það ei gera; hann mætti ábyrgjast, hvað út af því kæmi. Ormur for ekki að síður; þa brá Solveig á það ráð, að halda við Sigmund prest Steindórsson og átti með honum börn. Þá Ormur kom aptur, vildu þau Solveig ekki sættast og bjuggu síðan sér í lagi hvort[3]).

3. Guðrún.
4. Kristín.
5. Ragnhildur.
6. Helga.
7. Ingibjörg.
8. Margrét.

Fra einhverjum þessum börnum má að líkindum rekja ættir. Einar afhenti Reykholtsstað 1463 séra Hrafni Gilssyni (Í. F. V. 399) en Lopts bróður hans er ekki getið við þá afhendingu. Eptir það hefur Einar flutzt austur í Rangárvallasýslu, því að hann hefur átt þar miklar eignir,

1) Þau giptust 1434 (Í. F. IV. 548—549).

2) Þetta bréf er nú ókunnugt.

3) Hvaðan Bogi hefur þessa sögu er mér ekki ljóst, en vel getur verið, að eitthvað sé hæft í henni. En utanfararár Orms 1456 getur ekki verið rétt, og væri sennilegra 1446. Hafði Ormur þá búið 10 ár í Víðidalstungu, og hefur ekki verið þar eptir það, en nægar sannanir eru samt ekki fyrir því, að hann hafi andazt það ár (sbr. II. B. bls. 488 og registur við 5. b. Fornbréfasafnsins bls. 1014), því að af Víðidalstungumáldaga (Í. F. V. 349), sem þetta er byggt á, verður ekki annað séð, en að Solveig Þorleifsdóttir kona Orms hafi 1472 búið þar 21 ár, Einar Ormsson haldið staðinn 5 vetur og Ormur (faðir hans) búið þar í 10 ár, er verið hefur árin 1436—1446. En þau Ormur og Solveig hafa sjálfsagt

Ormur hélt og Hítardalsstað og afhenti hann 1463 séra Sigurði beigalda Jónssyni eptir skipun Jóns biskups Krabba[1]) og nokkru þar eptir mun Ormur hafa dáið. Hannes biskup segir, að séra Sigurður hafi tekið Hítardal 1463; hann var lengi prestur í Hítardal, og átti yfir 20 hundruð fjár, sem er að minnum gert.

Jón Sigmundsson er fæddur 1460[2]), það var þá Solveig hélt við séra Sigmund; hefur Ormur verið dáinn fyr, eða þau Solveig skilin.

Ekki er ólíklegt að Ormur hafi haft sýslu í Þverárþingi og máske víðar, en það verður ei af mér sannað, ekki heldur hvenær hann tók við eða slepti Snæfellsnessýslu. Eptir utanferð Orms flutti Solveig að Auðkúlu og hélt þá við séra Sigmund Steindórsson, og voru þeirra börn: Jón, Bergljót, Ástríður, Guðrún, (Ásgrímur, Björg)[3]). Seinast flutti Solveig að Staðarhóli 1479, og þar deyði hún sama ár, eptir að hún hafði selt Jóni syni sínum þá jörð, hvað þó gekk til baka.

---

ekki verið samvistum eptir 1446, og þá hefur hún farið að eiga börn með séra Sigmundi. Mun Jón sonur hennar og Sigmundar fæddur um 1450 eða litlu síðar, en ekki 1460, eins og talið hefur verið, því að Solveig er nokkuð gömul til þess að hafa átt barn 1460, enda þótt hún hefði verið um tvítugt, er hún giptist Ormi 1434. Jón Sigurðsson (Safn til s. Ísl. II. 110) hyggur Jón fæddan fyrir 1460.

1) Það var Loptur son Orms, er hélt Hítardalsstað og afhenti hann séra Sigurði 1463 (Í. F. V. 406—408), og mun Bogi hafa tekið þessa villu eptir Espólín (Árb. II. 63). Um Orm Loptsson sjá ennfremur II. B. bls. 487—88. Hann kemur síðast við bréf á Helgafelli 1442 (Í. F. IV. 623), og mun þá ekki hafa verið hirðstjóri, en það var hann 1436, líklega þó skamma stund, því að 1439 er Ólafur Nikulásson »hirðstjóri upp á Íslandi« (Í. F. IV. 586). Fullyrðing J. J. um hirðstjórnarvöld Orms 1436—1446 (sbr. II. 488) er því skökk. En vel getur það verið rétt hjá Boga, að hann hafi haft sýsluvöld í Snæfellsnessýslu um 1437.

2) Réttara mun um eða eptir 1450 (sjá aths. hér á undan).

3) Börn Sigmundar prests og Solveigar voru að eins Jón og Bergljót, svo að þetta hlýtur að vera skakkt hjá Boga. Ásgrímur Sigmundsson var samfeðra við Jón og Bergljótu, en ekki albróðir þeirra.

Ormur og Solveig höfðu verið mjög auðug að löndum og lausafé. En langvinn þræta varð seinna um Staðarhól[1].

## Loptur Ormsson.

*Faðir*: Ormur Loptsson, nýnefndur.
*Móðir*: Solveig Þorleifsdóttir, nýnefnd.
*Frilla*: Steinunn, dóttir Gunnars bónda í Ásgarði Jónssonar.
*Börn*: A. Stefán, dó barnlaus.
B. Pétur (sjá um hann við Strandasýslu).
*Kona Lopts*: Frú Gunnhildur Pétursdóttir í Noregi. Þau giptust (eptir gömlu bréfi) sunnudaginn næstan eptir kyndilmessu 1470 á Hálogalandi.

Loptur er líklegt að hafi fyrst haldið Snæfellsnessýslu um tíma og Þverárþing, þó hef eg enga fullvissu fyrir því[2]. Tímabil á hverju hann hefur haft sýsluvöld, er að líkindum frá 1455—1466; þá er þess getið, að hann hélt við áðurnefnda Steinunni Gunnarsdóttur og fæddi hún honum son nálægt 1468, sem nefndist Stefán. Um það leyti var Loptur í utanferðum sínum til Noregs, og giptist þar frú Gunnhildi 1470. Sagt er hann hafi heitið henni í morgungafu 20 mörkum gulls, og skyldi hver mörk leysast með 8 gangandi kúm.

---

1) **Daði Arason**
son Ara Daðasonar í Snóksdal (II. B. bls. 454) var »sýslumaður milli Hítarár og Skraumu« (þ. e. í Snæfellsnes- og Hnappadalssýslu) 1459. því að 26. júní það ár dæmir hann á Helgafelli með 12 mönnum um víglýsing Guðna Jónssonar, er vegið hafði Guðmund Magnússon (Í. F. V. 181—182). Hve lengi Daði hafi haft sýsluna verður ekki sagt með vissu, en líklega hefur það ekki verið lengi. Þó hefur hann orðið gamall maður og lifað fram yfir 1500. Hann virðist vera látinn fyrir 27. júní 1502. Kemur hann við bréf á árunum 1442—1461, þar á meðal í tveimur bréfum nyrðra 1456 (Í. F. V. 146—147) og hefur þá að líkindum verið hjá Torfa hirðstjóra bróður sínum. Um ætterni Daða er ítarlega getið II. B. bls. 454—460 og vísast því til þess hér. Hann átti Þorbjörgu dóttur Bessa Einarssonar sýslumanns í Húnavatnsþingi. Sigurður sýslumaður í Húnaþingi (I. B. 459—461) sbr. II. 554, 557 er talinn launson Daða. Svo telur séra Jón Ólafsson á Lambavatni.

2) Í bréfum finnast engar heimildir fyrir sýsluvöldum Lopts í Snæfellsnessýslu.

það er 8 hundr., til samans 160 hundr., þar eptir kom Loptur út 1474, þá arfleiddi hann Stefán launson sinn (1474) að 4 hdr. hundraða, voru þar í tilgreindar þessar jarðir: Bjarnarhöfn 60 hundr., Eyrardalur, Svarthamar, Hattardalur í Álptafirði allar 60 hundr. Heydalur, Kelda og Reykjarfjörður fyrir 60 hundr. Hamar 16 hundr. og 78 hundr. í lausafé. Sýnist sem Loptur hafi þá verið hér um veturinn, því 1475 samdi hann á Helgafelli við Guðna sýslumann Jónsson að hafa umboð sitt, skyldi Guðni hafa á ári 10 hundr. í umboðslaun. Áður hafði Loptur átt son, sem hét Guðlaugur (sjá um hann við Strandasýslu). Loptur meinast að hafa farið utan 1475 og dáið í Noregi 1476 Þa Loptur fór utan, var Steinunn Gunnarsdóttir enn með barni, hét sá sveinn Pétur, uxu þeir bræður upp með föður móður sinnar. Það sýnist sem Solveig hafi ei gert sig viðskila jarðir sínar, meðan hún lifði, að öðru en því, sem hún gaf óekta börnum sínum, og að vísu hélt hún Staðarhóli; er líkast að Lopts börn hafi ei fengið við hans dauða annað en uppeldi, og það faðir hans gaf Stefáni. Loptur hafði heitið að gefa Staðarhól fyrir beneficium, ef hann ætti ei skilgetin eða arfleidd börn, en Solveig tók Staðarhól, þá Loptur sonur hennar deyði og flutti þangað. 1479 seldi Solveig Jóni syni sínum Staðarhól, sem sína eign. Það kaup gekk seinna til baka, því biskupar kölluðu eptir Staðarhóli, þá Solveig deyði 1479, en Þorleifur hirðstjóri Björnsson lét dóm ganga á Staðarhóli um Solveigar arf, og dæmdist hann börnum Lopts. Magnús biskup náði samt Staðarhóli og urðu um hann seinna langar deilur. Nú kom og Sigurður sýslumaður Daðason með kröfu Gunnhildar, 1 hdr. hdr. og 40 hdr. Lét Rafn lögmaður þar í dóm ganga 1480, hvers ályktun var: Þó gjöfin væri meiri en eptir íslenzkum lögum, þá af því hún væri gefin í Noregi, ætti hún að haldast; var það því tekið af fé Lopts og gekk þar upp í hálf Saurbæjarfjara fyrir 20 hundr., Munaðarnes, sem var selt Halldóri ábóta á Helgafelli og fleiri jarðir; aðrir fjármunir Lopts urðu hans barnafé.

1465 gaf Solveig Guðmundsdóttir Arasonar Lopti Ormssyni það tikall, sem hún þóttist hafa til Reykhóla. 1470 á alþingi yfirlét Loptur Þorleifi Björnssyni allt sitt tilkall til Reykhóla fyrir hugmóð og í peningareikninga, er Loptur var Þorleifi skyldugur. Hefur því Loptur komið út það vor, far-

ið utan um haustið, komið út aptur 1474, farið utan 1475 og dáið 1476 eða 77[1]).

1481 í Leiðarhólmi í Dölum afhenti Gunnar bóndi Jónsson umboðsmaður sinna dóttursona Munaðarnes og Fell í Trékyllisvík fyrir 28 hdr., hálft Þverfell í Saurbæ 11 hdr. og hálfa Saurbæjarfjöru fyrir 20 hdr. skyldi húsfrú Gunnhildur, sem þá var gipt Andrési Ámundasyni hafa þá peninga. Sama ár seldi Sigurður Daðason Munaðarnes Halldóri ábóta Tyrfingssyni fyrir 20 hundr. í landaurum, kvikum og dauðum. Helgi Ísleifsson var annar, sem seldi Munaðarnes ásamt Sigurði.

## Narfi Þorvaldsson.

*Faðir:* Þorvaldur Þorkelsson Guðbjartssonar prests í Laufási[2]). Móðir Þorvalds var Þórdís dóttir Sigurðar lögmanns á Svalbarði, Guðmundssonar lögmanns. (Þorvaldur tjáist albróðir Magnúsar sýslumanns í Skriðu).

*Móðir:* Halldóra dóttir Narfa á Kolbeinsstöðum Ketilssonar[3]) samastaðar Ketilssonar hirðstjóra Þorlákssonar.

*Kona:* Þuríður laundóttir Björns ríka á Skarði, hirðstjóra og riddara Þorleifssonar.

*Börn:* A. Ólafur. B. Sigurður. C. Helga. D. Valgerður. E. Anna. F. Soffía. G. Ingibjörg. H. Árni[4]).

---

1) Um Lopt Ormsson sjá II. B. bls. 276—277.

2) Þessi ættfærsla er ramskökk. Þorvaldur faðir Narfa var son Þorkels prests Ólafssonar officialis, bróður Árna biskups milda. (Sjá um þessa framætt II. B. 453, 467). Hann bjó á Geirrauðareyri og var enn á lífi 1467.

3) Narfi á Kolbeinsstöðum var Vigfússon Flosasonar prests Jónssonar Erlendssonar sterka Ólafssonar og dótturson Ketils hirðstjóra.

4) Börn Narfa eru hér hjá Boga talin alveg á sama hátt og eins rakið niður frá þeim, eins og hann hefur gert í Dalasýslu (II. B. bls. 499—504) að slepptum Bjarna, Ívari og Þorleifi, sem ekki voru heldur börn þessa Narfa. Þótti því óþarfi, að taka

Narfi Þorvaldsson átti og bjó á Geirrauðareyri, og nefndist hún síðar eptir honum Narfeyri. Narfi var auðugur og maktarmaður. Er líklegt hann hafi haft völd í Snæfellsnesssýslu eptir 1460 eða nálægt þeim tíma, þó hef eg enga fullvissu þar fyrir. En líklegt er, að Björn ríki hafi styrkt hann til valda. Góð giptumál dætra hans gefa og til kynna að hann hefur ekki verið lítilmenni[1]).

## Halldór Þorgeirsson

hefur konungs sýslu millum Hítarár og Skraumu (ɔ: Hnappadals- og Snæfellsnessýslu). Hann tók svarinn vitnisburð 1478 um að verið hefðu 25 vetur frá því að Ari bóndi Guðmundsson (faðir Guðmundar ríka Arasonar á Reykhólum) drukknaði; til þess þeir Þorleifssynir Einar og Björn ríki tóku að sér Reykhóla (sjá Langfeðgatal Finns biskups Kap. CLXII pag. 149). Eg meina Halldór þennan son Þorgeirs í Ögri Ólafssonar, er var launson Lopts ríka (sjá Vöðluþing). Halldór mun og hafa verið launson Þorgeirs[2]) og ei átt afkvæmi.

---

þennan sama kafla hér. Ýms þeirra barna, er Bogi telur hér börn Narfa Þorvaldssonar eru börn Narfa ábóta Ívarssonar á Helgafelli t. d. Ólafur (sjá ætt frá honum II. B. 569—573), Soffía og Ingibjörg sbr. II. B. 500—501. En sonur Narfa Þorvaldssonar, sem hér er ekki talinn né annarsstaðar í ættatölum var:

Þorvaldur Narfason, er kemur við bréf á Helgafelli 19. apríl 1490 (Í. F. VI. 694—695), og er þá Narfi faðir hans látinn. Hefur Þorvaldur líklega búið á Eyri eptir hann. Sonur Narfa gæti og verið Magnús Narfason, sem er nefndur einn meðal kaupvotta í þessu sama bréfi.

1) Narfi kemur við fjölda bréfa á árunum 1459—1482 (sjá V. og VI. B. Fornbr.s.), en ekki verður séð, að hann hafi haft nein sýsluvöld í Snæfellsnessýslu eða annarsstaðar. Á síðustu árum átti hann í erjum nokkrum við Halldór ábóta Ormsson á Helgafelli út af skógarhöggi á jörð klaustursins Setbergi á Skógarströnd o. fl. (sbr. Í. F. VI. 426—427), og hafa þeir ekki verið sáttir, er Narfi dó, því að vorið 1490 verður Þuríður ekkja hans og Þorvaldur sonur hennar að selja ábóta jörðina Kársstaði fyrir lítið verð, og gaf hann þau þá kvitt um »sektir allar og dómrof«, er Narfi hefði orðið »sektugur« ábóta og klaustrinu (Í. F. VI. 694—95).

2) Þetta er rangt. Faðir Halldórs hefur verið sá Þorgeir

Hans er og getið við Mýrasýslu. Hann hefur tekið sýslurnar 1474, því í Mýrasýslu hefur hann látið dæma sér skatt af lögréttumanni 1478 óborgaðan um þau 4 ár, sem hann hafði sýsluna haldið[1]).

---

Halldórsson, er kemur við bréf á Kolbeinsstöðum 2. okt. 1440, þá er Ketill prestur Narfason ættleiðir börn sín (Í. F. IV. 614), en að hann hafi verið sonarson Snorra Torfasonar á Ökrum, eins og J. J. telur (II. B. bls. 549 n. m.) mun nokkuð hæpið.

1) Halldór Þorgeirsson hefur að líkindum búið í Hítardal um tíma. Er hans fyrst getið, er hann kaupir tvo hluti í jörðinni Snorrastöðum af Helgu Gilsdóttur 1473, og er bréf um það gert í Hítardal 27. maí (Í. F. V. 698—699). 1. febr. 1476 selur hann Snorrastaði alla húsfrú Ólöfu Loptsdóttur á Skarði (Í. F. V. 809—810), en 21. sept. s. á. fær hann 40 álnir hins ellefta hundraðs í þessari sömu jörð hjá bróður sínum (sammæðra) séra Helga Magnússyni í Miklholti (Í. F. VI. 88). Í vitnisburðarbréfi á Ingjaldshóli 31. júlí 1478, er Bogi getur, er hann fyrst nefndur kongsumboðsmaður millum Hítarár og Skraumu (Í. F. VI. 146—147). 1480 er hann á alþingi einn vottur að bænarskrá Íslendinga til kongs um útlenzka vetursetumenn (Í. F. VI. 282). 30. apríl 1481 er hann vottur við tvö bréf, gerð í Leiðarhólmi í Dölum (Í. F. VI. 350, 352). 1487 er hann einn dómsmanna í alþingisdómi um ættleiðing Péturs Loptssonar (Í. F. VI. 600). Hann hefur þá búið á Melum á Skarðströnd, og er getið í maldaga bænhússins þar 1492 (Í. F. VII. 132). 28. maí 1493 er hann einn virðingarmanna í dánarbúi Þórðar Helgasonar á Staðarfelli (Í. F. VII. 183). Er að sjá, sem hann hafi verið kominn vestur þá fyrir nokkru, því að vafalaust er hér um einn og sama mann að ræða. Enn er hans getið í alþingisdómi 1501 og í bréfi gerðu í Hjarðarholti í Stafholtstungum 29. jan. 1505, og hefur þá ef til vill verið fluttur þangað suður. Hve lengi hann hafi haft Snæfellsness- og Hrappadalssýslu verður ekki sagt með vissu. Um sýsluvöld hans í Mýrasýslu 1474—78, er Bogi talar um, finnst ekki getið annarsstaðar. En rétt hermt getur það verið, að bréfið frá 1478 um skatt af lögréttumanni, er Bogi byggir á, sé glatað. Halldór hefur þá tekið Snæfellsnessýslu, er hann sleppti Mýrasýslu 1478.

Helgi Magnússon prestur í Miklaholti bróðir Halldórs sýslumanns Þorgeirssonar sammæðra dæmir á Helgafelli 18. marz 1482 um kæru Halldórs ábóta á Helgafelli til Narfa Þorvaldssonar út af aðtekt hans á ýmsum jörðum klaustursins (Í. F. VI. 426—427). Er séra Helgi nefndur í dómi þessum »prófastur og almenni-

## Björn Þorleifsson

hélt Þórnessþing eptir hann gerðist hirðstjóri og hafði þar skipautveg.

## Þorleifur Björnsson

(sjá um hann við Dalasýslu). Hann mun hafa haldið Þórnessþing 1468—1474 og aptur 1479 og þá mun hann hafa haft Þorgeir[1]) fyrir umboðsmann. Hann hélt og Þverárþing um hríð (sjá þar). Einnig Þorskafjarðarþing (sjá þar)[2]).

---

legur dómari milli Hítarar og Skraumu« (þ. e. í Snæfellsness- og Hnappadalssýslu). En veraldlegt dómsvald eða sýsluvöld í þessari sýslu hefur séra Helgi ekki haft, því að það var venja, að prófastar á þeirri tíð kölluðu sig »almennilega dómara« í prófastsdæmum sínum, er venjulega hafði sömu takmörk og lögsagnarumdæmin eða sýslurnar. — Séra Helgi er látinn fyrir 19. apríl 1490 (sbr. Í. F. VI. 694) Engin sönnun er fyrir því, að sá Þórður prestur Magnússon, er seldi Magnúsi biskupi Oddastaði í Hnappadal 1478 (Í. F. VI 163—164) hafi verið bróðir séra Helga (sbr. II. B. 496).

1) Mun eiga að vera Halldór Þorgeirsson. Að Þorleifur hafi haft sýsluvöld í Þórnesþingi er vafasamt. Sjá um hann II. B. bls. 530—545.

2) **Ormur Jónsson**

sonur Jóns bónda Ásgeirssonar í Ögri og Kristínar Guðnadóttur Oddssonar lepps (II. 478—480) kemur fyrst við bréf 1476 (Í. F. VI 88). Magnús biskup Eyjólfsson vildi ekki samþykkja hjúskap hans og Ingibjargar Eiríksdóttur og varð Ormur að fá bréf frá umboðsmanni pafa, er skipaði biskupi að samþykkja hjónaband þeirra um 1481 (Í. F. VI. 418—420). Eptir það kemur Ormur við nokkur bréf, og 1492 átti hann í skærum við Stefán biskup (Í. F. VII 106—108) og er svo að sjá, sem hann hafi þá haft sýsluvöld, en 1497 er hann beinlínis nefndur sýslumaður milli Hítarár og Skraumu (þ. e. í Snæfellsness- og Hnappadalssýslu) og kvittar þá 10 sept. Pál Aronsson (prests á Ökrum Helgasonar) fyrir það, að hann hefði verið í atför að Páli bróður hans, er hann var ófyrirsynju í hel sleginn, gegn því, að Ingveldur Helgadóttir borgaði Ormi eða Guðna bróður hans 20 hundr. (A. M. Fornbréfasafn) 1. juní 1501 útnefnir Ormur dóm á Kaldaðarbakka um barsmíð Jóns Hallssonar og s. a. kvittar Guðni Pál Aronsson fyrir sig og Orm bróður sinn um atför við Pál. 10. maí 1502 á Berufirði í Króksfirði fær Jón Björnsson (Dan) Ormi jörð-

## Sturla Þórðarson.

*Faðir*: Þórður á Staðarfelli, son Helga bónda Þórðarsonar[1]) samastaðar. Þórður dó 1493, þá fóru fram skipti eptir hann á Staðarfelli, að forlagi Sturlu sonar hans, og Jóns mágs hans, en það er efandi, því Jón tjaist dáinn 1478, þá var og virtur mali Guðfinnu ekkju Þórðar heitins. 1499 gaf Guð-

---

ina Bólstað í Steingrímsfirði. 1504 votta Bergur Ingimundsson og Einar Jónsson, að þeir hafi séð og heyrt kvittunarbréf Orms (frá 1497) til Pals Aronssonar. Mun Ormur þá hafa verið andaður, því að ekki verður reitt sig á ártal bréfs nokkurs, sem getur Orms á lífi eptir þann tíma (um 1505) og mun það vera eldra, (ef til vill frá 1495). Börn hans (og Ingibjargar) voru:

1. Sigurður var sveinn Ögmundar biskups, er gaf honum Bæ á Rauðasandi, en 1541 afhenti Sigurður þá jörð Erlingi Gíslasyni magi sínum fyrir Bíldudal og Eyri.

   Sigurður var ráðsmaður Eggerts Hannessonar og meðgekk fyrir hann börn þau, er hann átti með Herdísi Þorleifsdóttur (prests á Reykhólum), er Eggert hafði alið upp. Svo segir beinlínis í Ísl. sagnaþáttum I. (sérprentun úr Þjóðólfi) bls. 51, og er því tilgáta mín um þetta í II. B. bls. 596 rétt, en þá mundi eg ekki eptir þessari heimild. Eitt barna þessara var Sesselja, (heitin eptir Sesselju móðursystur Herdísar), er átti Bjarna Björnsson á Læk. Talið er (í Ísl. sagnaþáttum bls. 52), að Sigurður þessi Ormsson hafi átt systurdóttur Ögmundar biskups (dóttur Ásdísar á Hjalla fremur en Elínar), en nafns hennar ekki getið. Í ættatölum er ekki nafngreind nema ein dóttir Eyjólfs á Hjalla og Ásdísar, er hét Ólöf og giptist austur, en séra Jón Egilsson (Biskupaannálar: Safn I. 74) segir, að þau Eyjólfur hafi átt aðra dóttur, en kveðst ekki muna nafn hennar. Er líklegt, að hún hafi verið kona Sigurðar. Ekki er þess getið í ættatölum, að Elín systir Ögmundar biskups ætti nokkra dóttur, en Jón Þórðarson á Hvoli var sonur hennar.
2. Kristín átti Erling á Brjánslæk Gíslason frá Haga Filippussonar, bróður Eyjólfs mókolls yngra, þeirra synir: Ormur (Sölmundur) og Jón faðir Ólafs prests á Söndum í Dýrafirði (sbr. II. B. bls. 21—22 og Safn til s. Ísl. I. 122—123).
3. Solveig.

1) Helgi faðir Þórðar a Staðarfelli var Guttormsson Örnólfssonar og átti Úlfrúnu Þorsteinsdóttur (sbr. II. B. 473, 553).

finna Sturlu 80 hundr. í arfahluta við systur sínar, var þar í Kirkjuból í Skutulsfirði 30 hundr.

*Móðir*: Guðfinna dóttir Jóns sýslumanns Ásgeirssonar á Ísafirði, en systir Guðna sýslumanns, Páls og Orms.

*Kona*: Guðlaug dóttír Finnboga lögmanns Jónssonar, og gaf Stefán biskup þeim giptingarleyfi 1499, þar þau voru nokkuð skyld. Ritað er, að Guðlaugu hafi átt áður Oddur lögmaður Ásmundsson, en það getur eigi komizt heim við tímann, meiri líkindi eru, að sú Guðlaug, sem Oddur lögmaður Ásmundsson átti, hafi verið dóttir Finnboga gamla í Ási.

*Börn*: A. Ormur lögmaður, átti Þorbjörgu Þorleifsdóttur (sjá hér síðar).

B. Steinunn, átti Sigurð Oddsson í Búðardal[1]); þeirra börn:

a. Jón Rebbi, fyr sveinn og njósnarmaður Daða sýslumanns í Snóksdal. Jón átti Margréti dóttur Eiríks í Ásgarði Guðmundssonar (sjá Dalasýslu), börn:

aa. Steinunn (sjá Dalasýslu).

bb. Ólafur klausturhaldari (sjá Þingeyjarþing).

C. Ljótunn, átti Guðmund á Glitsstöðum Sæmundsson; þeirra dóttir:

a. Sesselja, átti Hall sýslumann son séra Ólafs Kolbeinssonar (sjá Mýrasýslu); börn:

aa. Guðmundur.

bb. Jón.

cc. Ögmundur.

dd. Bergþór, laungetinn Hallsson[2]).

D. Þórunn, varð fyrsta kona Erlendar lögmanns Þorvarðssonar 1575; þeirra dóttir:

---

1) Sigurður var son Odds á Hvoli í Saurbæ Sigurðssonar Geirmundssonar Herjólfssonar.

2) Bergljót var dóttir Halls og Sesselju. Hún átti Einar Eiríksson á Hvanneyri.

a. Guðbjörg átti fyr 1555 Grím Þorleifsson Palssonar, síðan 1561 Jón sýslumann Marteinsson (sjá Vaðlaþing).

Launbörn Sturlu voru þar að auki:

E. Ásmundur, faðir Odds föður Rafns í Skörðum. Hann hefur verið fyrsta barn Sturlu, því 1512 var hann fulltíða og dómsmaður með Grími Pálssyni[1]).

Einnig voru systur Sturlu sem getið er:

1. Valgerður, átti Sigurð son Narfa ábóta Ívarssonar[2]), þeirra son Ormur faðir Páls og Þórðar.
2. Þuríður Þórðardóttir giptist norður.

Sturla mannaðist vel og tók Dalasýslu um 1490, því þar finn eg hans dóma 1491[3]), 1494, 1509, 1517, en í Snæfellsnessýslu 1509, í Strandasýslu 1511; líkast er hann lengst hafi haldið Þórnessþingi, en óvíst hvað lengi hverja sýslu fyrir sig. Sagt er hann hafi haldið fleiri sýslur, en ekki hef eg fundið rök þar fyrir.

Ritfært er, að 1493 hafi fram farið skipti á Staðarfelli eptir Þórð bónda Helgason að forlagi Sturlu sonar hans, en 1499 þá Sturla giptist, gaf Guðfinna syni sínum Sturlu til kvonarmundar 80 hundr. í arfahlut við systur hans, þar á meðal var Kirkjuból í Skutulsfirði, reiknað 30 hundr. Þó Sturla tjáist að hafa haldið Ísafjarðarsýslu, getur það ei verið fyr en

1) Það mun ekki rétt, þótt svo sé talið í sumum ættartölum, að Ásmundur Sturluson, afi Rafns í Skörðum, hafi verið launson Sturlu Þórðarsonar á Staðarfelli. Líkara þykir mér, að hann hafi verið son Sturlu Magnússonar lögréttumanns nyrðra (í Eyjafirði), er kemur þar við ýms bréf á síðasta hluta 15. aldar. Oddur son Ásmundar er fæddur um 1500, því að hann segist vera nær 80 ára 1579, er hann vottar um reka Grundar í Eyjafirði fyrir Hallbjarnarstöðum og er það bréf gert á Grenjaðarstað.

2) Sigurður þessi, maður Valgerðar, var son Narfa Þorvaldssonar á Geirrauðareyri og svo hefur Bogi sjálfur talið á öðrum stað (II. B. 500) enda gæti það ekki staðizt tímans vegna, að sonur Narfa ábóta hefði átt systur Sturlu.

3) Þessi dómur Sturlu frá 1491, er Bogi getur um, þekkist nú ekki. Dómur hans frá 1494 er prentaður í Ísl. Fbr. VII. 208—210.

um 1520 (ef ei er vilt) eða eptir dauða Björns Guðnasonar, Sturla var á Leiðarhólmssamþykkt 1517, hann var og við giptingu Jóns Þórðarsonar á Hvoli 1524, var hann þá enn sýslumaður, en hvenær hann hefur sleppt sýslunni eða dáið er mér dulið. Það er að ráða af dómum hans, að hann hafi lengst haldið Dalasýslu, en þó ekki í sífellu. Sturla bjó á Staðarfelli og kallast í dómum velborinn maður (sjá Langfeðgatal biskups Finns § XXX etc.)[1])

---

1) **Þorleifur Einarsson,**

sonur Einars Þórólfssonar á Hofstöðum og Katrínar Halldórsdóttur ábóta á Helgafelli Ormssonar, var sýslumaður í Þórsnesþingi 1536, því að 10. maí það ár útnefndi hann dóm í Miðgörðum í Staðarsveit um umboð barna Odds heitins Bjarnasonar (sbr. Ártíðaskrár dr. Jóns Þorkelssonar bls. 250—251 og II. B. Sýslum.-æfa bls. 647). Er sagt í dómnum, að Þorleifur hafi þá »míns herra kongsins umboð og sýslu í Þórnesþingi« (þ. e. í Snæfellsness- og Hnappadalssýslu að minnsta kosti, og ef til vill í Dalasýslu). Hve lengi Þorleifur hafi haft sýslu verður ekki séð með vissu, en líklega hefur það ekki verið lengur en 6 ár (1535—1541) sjá hér síðar. 7. maí 1565 er hann einn dómsmanna í dómi Hinriks Krags í Miðgörðum (sjá hér síðar). Hann var enn á lífi 1575, en er dáinn 1578, og hefur orðið maður gamall, því hann mun fæddur fyrir 1500. Hann bjó á Hofstöðum í Miklholtshreppi eptir föður sinn. Kona hans var Kristín dóttir Torfa sýslumanns Jónssonar í Klofa og var son þeirra:

1. Ormur, bjó fyrst á Knerri, en síðar á Hofstöðum og andaðist þar, mikilsháttar maður og auðugur. Hann átti Ólöfu Eiríksdóttur frá Ásgarði Guðmundssonar, þau bl. En launson Orms hét Illhugi, og son hans Ormur og eru þaðan taldar ættir. En það er algerlega rangt hjá Snókdalín, er hann telur konu Illhuga Ormssonar Elínu Daðadóttur sýslumanns Arasonar, því að það getur alls ekki staðizt tímans vegna. En maður hennar hét Ormur Illhugason (sbr. II. B. 459) og mun hann vera sá Ormur Illhugason, er kemur við bref 1481 (Í. F. VI. 368). En verið getur, að sá Ormur hafi eitthvað verið skyldur Einari Þórólfssyni. Bróðir Einars virðist hafa verið Ormur Þórólfsson (Í. F. VI. 164—165). Framætt Einars á Hofstöðum er ekki kunn, og það verður ekki séð, að hann hafi haft sýsluvöld, en hirðstjóra-umboðsmaður var hann um hríð, og hefur eflaust verið merkur maður.

Laundóttir Þorleifs Einarssonar á Hofstöðum var:

## Þorleifur Pàlsson

(sjá um hann við Dalasýslu). Eg meina, að hann hafi tekið Þórnessþing 1520, og haldið því til hér um bil 1535, tekið það allt aptur um 1541[1], sleppt Snæfellsnessýslu að vísu 1548, en Dalasýslu hefur hann haldið 1552, og eg meina 1555 seinast. Hann dó 1560.

## Daði Guðmundsson.

*Faðir*: Guðmundur son Finns á Ökrum Péturssonar.

*Móðir*: Þórunn dóttir Daða Arasonar, Daðasonar, Dalaskalla (sjá Dalasýslu).

*Kona*: Guðrún (fædd 1489) dóttir séra Einars á Staðarstað, er kallaðist Ölduhryggjarskáld. Hennar bróðir var Marteinn biskup. Guðrún hafði áður átt þann mann, er Halldór hét, þeirra son var Jón á Fróðá. Daði giptist 1525 eða fyr.

*Börn*: A. Einar deyði 1555 ógiptur, barnlaus[2]).

B. Þórunn giptist 1545 Birni syni Hannesar hirðstjóra Eggertssonar og bróður Egg-

---

2. Ragnhildur átti Jón Kolbeinsson á Syðra-Rauðamel; þ. b.:
   a. Jón í Skógarnesi.
   b. Guðmundur. Þeir voru kallaðir Rauðamelsbræður og erfðu Orm móðurbróður sinn.

   Ingibjörg dóttir Jóns í Skógarnesi átti Jón Ásmundsson prests í Miklaholti Nikulássonar og eru þaðan ættir.

Bræður Þorleifs Einarssonar voru: Ormur í Saurbæ á Kjalarnesi, er Erlendur Þorvarðsson vó, Þórður prestur í Hítardal móðurfaðir Þórðar lögmanns og Jón prestur í Odda, er áður var kirkjuprestur í Skálholti hjá Ögmundi biskupi og einna fyrstur manna hneigðist að siðbótinni hér á landi.

1) Þessi árin (1535—1541) hefur Þorleifur Einarsson haft sýslu í Þórnesþingi (sjá hér áður), en Daði Guðmundsson í Snóksdal hefur eflaust ekki haft Snæfellsnessýslu þau árin, þótt Bogi hyggi svo (sjá hér síðar um sýsluvöld Daða).

2) Einar ætlaði að kvongast Sigríði dóttur Þorleifs lögmanns Palssonar á Skarði, er síðar átti Bjarna Oddsson, en hann tók banasótt sína degi áður en hann átti að ríða til brúðkaupsins, og andaðist þann dag, er brúðkaupið átti að standa.

erts lögmanns. Björn og kona hans drukknuðu 1554. Séra Björn Halldórsson í æfi vicelögmanns Eggerts Ólafssonar setur 1557 sem eg tel vilt. Börn Björns og Þórunnar:

a. Hannes fæddur 1547, ólst hann fyrst upp hjá foreldrum sínum í Bæ á Rauðasandi, en 1555 fór hann í fóstur til Daða í Snóksdal, því fyrra ár ætlaði Björn með Þórunni konu sinni, að flytja sjóveg frá Bæ á Rauðasandi að Nesi við Seltjörn, en það skip með allri áhöfn týndist í veðri; ólst Hannes í 8 ár upp með Daða í Snóksdal, til þess hann deyði 1563, var Hannes þá 16 vetra, og tók Eggert lögmaður föðurbróðir hans umboðið, og eptir dómi Orms lögmanns betalaði fyrir fríun á fé Daða 500 Speciæ Rdle. Þar fyrir fékk Hannes seinna Eggert lögmanni Sæból á Ingjaldssandi að sínum hluta. Af fé Daða hlaut Hannes Snóksdal og mikið annað jarðagóss. Eggert var þá giptur Steinunni dóttur Jóns á Svalbarði, sem fyrst fylgdi að lagi Birni prófasti á Melstað, syni Jóns biskups en giptist síðan Ólafi á Geitaskarði, þeirra dóttir var Guðrún fædd 1553. En eptir ráðstöfun Eggerts lögmanns, giptist Guðrún 1567 Hannesi téðum Björnssyni, voru henni talin í fyrstu 3 hundr. hundr. en Hannesi 6 hundr. hundr. Guðrún var þá með barnaglingri og gerði sér stóra brúði, klæddi hana í kvennskart, en á helgum þá messa átti, setti hún téða brúði sína fyrir utan bæjardyr. Hannes leitaðist við að koma frá henni þessum glingurshætti, fann upp að segja Guðrúnu, að brúðan hefði talað og sagt: „Nú ríður fólk til tíða", og fékk heimafólk sitt til að staðfesta þetta. Hér af varð Guðrún svo hrædd, að hún bað brenna brúðuna. Hannes kvaðst fyrst vilja

taka af henni búninginn. Guðrún kvaðst eiga nógan kvennbúnað og skart. Fyrst áttu þau Hannes ei börn, en síðar áttu þau 6 börn eða fleiri. Þá Guðrún Ólafsdóttir var 59 ára sór hún 1612 fyrir Jóni sýslumanni Magnússyni á Sauðafellsþingi, að Hannes bóndi sinn væri svo sannur faðir að öllum lifandi og dauðum börnum sínum, sem hún væri móðir. Það var af rógburði, að hún héldi fram hjá manni sínum Hannesi etc.

Margar jarðir gengu af Hannesi, sem hann hafði ekki sterk skjöl fyrir. Seinna þá Steinunn móðir Guðrúnar samdi ei við Eggert ektamann sinn, fór hún í Snóksdal til dóttur sinnar og Hannesar og deyði þar. Hannes þótti ágætur maður, og var í hjónabandi 50 ár. Hann var lögréttumaður og í viðlögum lögsagnari.

Árið 1617 (Espólín setur drukknun Hannesar 1615)[1]) fór hann landveg út í Kumbaravogskaupstað, og reið þaðan með sveini sínum yfir vík, sem innskerst í landið, suðaustan til við Berserkjahraun. Flæði var sjóar og fór hestur hans á sund, en hann kippti óvarlega í taumana, svo hestinn dró niður, hraut þá Hannes aptur úr söðlinum og drukknaði, því sveinninn, sem var unglingur gat ei bjargað. Fannst líkið ekki í mánuð, var þó heitið 1 hundr. í fundarlaun. Varð það mál manna, að smalastúlka frá Bakka hefði fundið líkið, og sagt húsbónda sínum, en hann keypt af henni að leyna, og kvaðst sjálfur fundið hafa, þar að vann hann eið, fékk hann svo klæði Hannesar. Síðan var lík Hannesar flutt til Snóksdals og þar greftrað virðulega. Hann var 70 ára, þá hann lézt. Það er mælt, að Guðrún Ólafsdóttir ekkja hans

1) 1615 er réttara.

yrði þar eptir svo líkhrædd, að hún léti loka bænum í Snóksdal hvert sinn þar eptir, þá lík var flutt þar til kirkju. Mælt er að Guðrún hafi verið lítil framkvæmdarkona og aðsjál. Hún fann að því við Halldóru Hákonardóttur sonarkonu sína, að hún bæri ofmikið upp á vinnukonur sínar, því öðruvísi var það (sagði Guðrún) hjá móður minni (Steinunni Jónsdóttur) þar gengu vinnukonur í hvítum pilsum, með hvítum upphlutum, en ráðskonan í hvítu pilsi með bláum upphlut. (Þar af má sjá, hvað búningur almúgafólks hefur verið kostnaðarlítill á þeim dögum). Guðrún var á elliárum sínum hjá syni sínum Eggert í Snóksdal og deyði þar 1648, 95 ára (al. 96 ára) gömul.

Hannesar Björnssonar barnaarfur eptir föður og móður var í allt: bróðurlóð hvert nalægt 2 hundr hundr. í föstu og 1 hundr. hundr. í lausu. En systurlóð nalægt 1 hundr. hundr. í lausafé.

Börn þeirra Hannesar og Guðrúnar, sem til aldurs komust, voru þessi:

aa. Eggert í Snóksdal giptist 1609 Halldóru dóttur Hákonar sýslumanns í Nesi við Seltjörn. Kaupmálabréf þeirra er daterað í Nesi við Seltjörn sunnudaginn næstan eptir krossmessu um haustið 1610, voru honum talin 3 hundr. hundr., en henni 1 hundr. hundr. Halldóra andaðist fyr en Eggert, var hann þar eptir hjá börnum sínum til skiptis. Þeirra börn[1]):

aaa. Jón eldri átti Sandgerði og seldi þá jörð Guðmundi sýslumanni Hákonarsyni á Þingeyrum. Jón gipt-

1) Sjá um börn Eggerts og Halldóru II. 318—319.

ist ei, var fáskiptinn, gaf próventu sína Pálma Henrikssyni systurmanni sínum.

bbb. Jón yngri átti Hofsstaði í Miklholtshrepp, Breiðabólsstað í Sökkólfsdal, Ormsbæ við Hellna. Jón varð seinast holdsveikur og dó 1648, átti Margréti (dó 1644, 30 ára) dóttur Steindórs Finnssonar, og börn.

ccc. Hannes í Snóksdal lögréttumaður átti Jórunni dóttur Jóns Magnússonar Dalasýslumanns (hún dó 1666) börn:

1. Þórður.
2. séra Jón.
3. Ástríður.

ddd. Ragnheiður átti fyr séra Sigurð Ólafsson, sem dó 1643, svo Pálma Henriksson á Breiðabólsstað og áttu börn.

eee. Þórunn átti fyr Finn Steindórsson frá Ökrum og börn, svo Þorvarð Runólfsson og börn.

bb. Steinunn Hannesdóttir átti Árna Gíslason á Innra.Hólmi (sjá Borgarfjarðarsýslu) þ. b.:

aaa. Hannes lögréttumaður í Norðtungu dó 1671, átti Guðrúnu (dó 1724) Árnadóttur bartskera og börn.

bbb. Sæmundur á Hólmi, dó 1699, átti Þorbjörgu Sigurðardóttur, barnlaus.

ccc. Ragnheiður átti séra Álf í Kaldaðarnesi og börn.

ddd. Ragnhildur átti séra Jón Diðriksson í Selvogi, þau voru barnlaus.

eee. Guðríður átti séra Jón í Görðum á Akranesi, dó 1684, Grímsson, barnlaus.

fff. Þorvaldur barnlaus.
ggg. Sigríður dó 1705.
hhh. Gísli bl.
ííí. Jón bl.
kkk. Þórður listamaður bl.

cc. Þórunn Hannesdóttir, dó 1646, giptist 18 vetra Gísla Björnssyni (sjá Borgarfjarðarsýslu) þeirra börn:
aaa. Torfi átti Þórdísi Skaptadóttur og börn,
bbb. Daði á Hrafnabjörgum átti Ingunni Sveinsdóttur og börn.
ccc. Árni á Staðarfelli átti Gyðríði Björnsdóttur og börn.
ddd. Björn lögréttumaður á Vatnsenda (dó 1656, 52 ára) átti Ingibjörgu Ormsdóttur og börn (sjá Borgarfjarðarsýslu).
eee. Jón á Hóli í Hörðudal átti Sigríði Jónsdóttur þ. d.:
1. Guðbjörg átti fyr séra Jón Hannesson, svo Árna Geirsson.
fff. Guðrún átti Bjarna Tyrfingsson og börn.
ggg. Málmfríður átti Þorlák Arason frá Ögri.
hhh. Ragnheiður átti Vigfús Ormsson og börn.
ííí. Ragnheiður yngri átti Þorgils á Völlum Jónsson og börn. (Aðrar ættir nefna þær Ragnhildar).
kkk. Þorbjörg átti 1642 Þórarinn á Hvítárvöllum Illhugason og börn.

dd Ragnheiður Hannesdóttir (dó 1632, 38 ára) fyrri kona Jóns sýslumanns Sigurðsson í Einarsnesi; þ. b.:
aaa. Sigurður lögmaður.
bbb. Séra Þorleifur í Odda, dó 1690, átti Sigríði Björnsdóttur og börn.

ccc. Guðmundur sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu, dó ógiptur.

ee. Ólafur Hannesson á Sauðafelli átti fyr Halldóru dóttur Gísla lögmanns og börn þessi[1]:

aaa. Gísli í Bæ átti fyr Kristínu Sigurðardóttur og börn, svo Sigríði Sigurðardóttur, þeirra son Sigurður skáld. Síðast Halldóru Halldórsdóttur og börn.

bbb. Þórður Ólafsson á Lambeyri átti Dýrfinnu Bjarnadóttur; börn:

1. Sigríður.
2. Jón.
3. Ólafur.
4. Þorlákur.

ccc. Jón Ólafsson á Víðilæk átti Valgerði Þorvaldsdóttir; þ. b.:

1. Oddný.
2. Guðný.
3. Kristín.
4. Halldóra.
5. Òlafur.
6. Valgerður.
7. Helga.

ddd. Hannes Ólafsson átti Margrétu Hafliðadóttur, börn:

1. Jón.
2. Halldóra.
3. Guðmundur.

eee. Guðríður Ólafsdóttir átti Ögmund Sigurðsson, börn:

1. Bjarni.
2. Helgi, áttu börn.

fff. Guðrún Ólafsdóttir átti sèra Ögmund Torfason, börn:

1. Steinvör.

---

1) Um börn Ólafs Hannessonar er getið II. 317—318.

2. Gróa.

3. Magnús, giptust og áttu börn.

ggg. Þórunn Ólafsdóttir átti fyrst Ívar Jónsson Ívarssonar, börn:

1. Jón.
2. Ívar.

Annar maður Þórunnar var Jón Þórðarson frá Hænuvík; þeirra börn:

3. Guðríður.
4. Guðríður önnur.
5. Sigríður.
6. Ólafur.
7. Jón.

Þriðji maður Þórunnar var Jón Björnsson Jónssonar murta, þeirra dóttir:

8. Ástríður.

Seinni kona Ólafs Hannessonar var Steinunn Björnsdóttir Magnússonar á Laxamýri, þeirra börn:

hhh. Magnús.
ííí. Andrés.
kkk. Anna.
lll. Jón eldri.
mmm. Jón yngri.
nnn. Guðríður.
ooo. Halldóra.

Alls átti Ólafur 31 barn, hvar af mörg dóu ung. Ólafur Hannesson atti í fyrstu Sauðafell og Bar og meir en 20 jarðir með jörðum konu sinnar; var vel hagur maður og tamur við byssu, en lítt upp á búsýslu, seldi hann því jarðir sínar ýmsum mönnum.

b. Hallbjörg Björnsdóttir Hannessonar átti

Þorleif á Múla á Skalmarnesi Jónsson; þ. b.[1]):

aa. Einar undir Múla á Skalmarnesi átti Guðrúnu Þorláksdóttur frá Núpi.

bb. Einar yngri í Skáleyjum átti Ragnhildi Eiríksdóttur.

cc. Björn átti Helgu Guðmundsdóttur.

dd. Jón á Kirkjubóli á Bæjarnesi átti Helgu dóttur Bjarna Bjarnasonar Magnússonar[2]).

ee. Magnús Þorleifsson átti Halldóru Árnadóttur[3]).

ff. Þórunn Þorleifsdóttir átti séra Árna Jónsson í Tröllatungu og Flatey, prestur í 50 ár, dó 1655.

gg. Sigríður Þorleifsdóttir átti Eirík Finnbogason[4]), barnlaus.

hh. Kristín Þorleifsdóttir átti Pétur Árnason Loptssonar; börn:

aaa. Sigríður átti Þórð Björnsson[5]); þ. b.:

---

1) Með því að börn Þorleifs og Hallbjargar eru áður talin allítarlega hjá Boga II. B. bls. 64—68 er hér að eins getið þess, sem er fyllra en þar, en öðru sleppt. Þess skal getið, að einn son séra Árna í Látrum og Þórunnar Þorleifsdóttur var Sveinbjörn forfaðir Svefneyjamanna, en í II. 67 er hann nefndur Snæbjörn, og er ekki leiðrétt þar, svo að Snæbirnirnir verða tveir.

2) Son Jóns Þorleifssonar og Helgu var Þorleifur faðir Þorláks föður Þorleifs prests í Kirkjubólsþingum († 1779).

3) Hvorki séra Jón á Lambavatni né séra Jón Halldórsson telja Magnús meðal barna Þorleifs og Hallbjargar, en Snókdalín o. fl. telja svo. Mun allhæpið, að það sé rétt, en af Múlaætt hefur Magnús verið og svo segir séra J. H. Börn hans og Halldóru eru talin: Jón í Hundadal, Rannveig kona Þorsteins Sigurðssonar í Hlíð í Hörðudal og Þórdís (eða Herdís), er átti Lopt Hallsson lögréttumann.

4) Eiríkur maður Sigríðar var son Finns Steindórssonar frá Ökrum og var Sigríður f. k. hans (sbr. II. 355). Í II. 68 nefnir Bogi hann réttilega Eirík Finnsson.

5) Þórður bjó á Laugum í Hvammssveit og var settur sýslu-

1. Magnús sýslumaður á Barðaströnd.
2. Ragnhildur.
3. Kristín.

bbb. Halldóra fyrri kona Bjarna Árnasonar á Staðarfelli[1]); börn:

1. Gísli.
2. Guðrún.
3. Guðrún yngri.
4. Kristín.
5. Steinunn.
6. Pétur.
7. Magnús.
8. Guðrún.
9. Gyríður
10. Jón.
11. Þóra.

íí. Guðrún Þorleifsdóttir[2]) átti Pál Jónsson[3]), börn:

aaa. Sigríður eldri átti Magnús sýslumann Þórðarson supra, bl.

bbb. Sigríður yngri átti Guðmund Guðmundsson[4]); börn:

---

maður í Barðastrandarsýslu 1682—1684. (Sjá um börn hans og Sigríðar II. B. bls. 95—96).

1) Bjarni var son Árna á Staðarfelli Björnssonar lögréttumanns á Vatnsenda Gíslasonar. Frá börnum Bjarna og Halldóru eru fjölmennar ættir komnar, mest bændaættir vestra.

2) Tvær Guðrúnar Þorleifsdætur, systur þessarar, giptust ekki.

3) Ættatölum ber ekki saman um framætt Páls þessa. Séra J. H. telur hann son Jóns og Ragnhildar frá Borg í Borgarfirði, en Snókdalín telur foreldra hans Jón Oddsson (sbr. II 385) og Ingibjörgu Oddsdóttur, systur Bjarna á Skarði. En hæpið mun, að það sé rétt.

4) Faðir hans var Guðmundur son Odds prests Þorsteinssonar í Tröllatungu. Guðmundur yngri varð úti á Hvammsfjarðarísum í einmánaðarfjúkum, að því er séra J. H. telur.

1. Páll[1]).
2. Jón[2]).
3. Steinvör[3]).

Seinni maður Sigríðar Árni Jónsson á Fæti hvalveiðari[4]); þeirra son:

---

1) Páll átti Margréti Guðmundsdóttur Þorsteinssonar prests á Stað í Aðalvík Jónssonar, þ. b.:

a. Guðrún átti Jón Guðmundsson á Fæti, þeirra börn:

aa. Páll á Uppsölum faðir Hannesar föður Páls á Seljalandi í Álptafirði og Kára á Seljalandi.

bb. Steinn á Fæti átti Margréti Sigfúsdóttur, þ. b.:

aaa. Halldór faðir Steins á Svarfhóli, Höskuldar í Hattardal og þeirra fleiri systkina.

cc. Auðbjörg átti Eldjárn Þorvarðsson Sigurðssonar Jónssonar Einarssonar í Stóru-Hvestu Gíslasonar, þeirra son:

aaa. Jón á Garðsstöðum í Ögursveit átti Guðbjörgu Þorláksdóttur, þ. b.:

aaaa. Þorlákur prestur á Stað á Snæfjallaströnd faðir Hjalta prests sama staðar.

bbbb. Guðrún, var s. k. Sigurðar Guðlaugssonar sýslumanns. Son þeirra áður en þau giptust var Jón prestur á Söndum í Dýrafirði.

b. Sigríður átti Jón Árnason hvalaveiðara, þ. d.:

aa. Guðrún átti Jón Bjarnason í Hattardalshúsum.

c. Sigríður yngri átti Guðmund Jónsson og börn.

2) Jón á Laugalandi átti Steinvöru Ólafsdóttur prests á Stað í Súgandafirði Jónssonar, þeirra son Jón á Laugalandi síðari maður Bryngerðar Guðmundsdóttur að austan, þeirra dóttir Ingibjörg f. k. séra Þorleifs Þorlákssonar á Kirkjubóli.

3) Steinvör var s. k. Bjarna Jónssonar Bjarnasonar Einarssonar, en kona Bjarna eldra var Guðrún yngri Þorláksdóttir frá Núpi Einarssonar.

4) Séra J. H. segir, að Árni s. m. Sigríðar hafi verið son Jóns »búra« eða »blótmanns« á Barðaströnd og sama segir og séra Jón á Lambavatni, en Snókdalín telur Árna á Fæti mann Sigríðar bróðurson séra Arngríms lærða á Melstað, og mun sú ættfærsla hæpin. Þess skal getið, að þeir nafnarnir (séra J. Ól. og séra J. H.) segja, að Guðmundur f. m. Sigríðar hafi engin börn átt, en í yngri ættatölum eru börn þeirra talin hiklaust þessi, sem hér eru talin: Páll, Jón og Steinvör.

4. Þorkell[1]).

ccc. Markús á Völlum[2]) átti Sigríði Erlendsdóttur; börn:

1. Páll á Broddanesi[3]).
2. Þorlákur á Sjávarborg[4]).

---

1) Þorkell átti Steinunni Tómasdóttur og börn.

2) Markús bjó á Völlum í Miðfirði. Sigríður kona hans var dóttir séra Erlendar Ólafssonar á Melstað.

3) Páll á Broddanesi átti Halldóru Pálsdóttur prests á Melstað Jónssonar, þ. b.:

a. Markús prestur á Auðkúlu f. m. Elínar Brynjólfsdóttur frá Fagradal, er síðar átti Magnús sýslumann Ketilsson, bl.
b. Páll á Ytrivöllum faðir Eggerts á Heggsstöðum.
c. Ingiríður átti Þórarinn Bergsson frá Kirkjuhvammi og mörg börn.
d. Guðrún átti fyr Grím Guðmundsson, ættaðan norðan frá Mývatni, þ. d.:
aa. Guðrún 1. k. séra Árna Illhugasonar á Hofi á Skagaströnd. S. m. Guðrúnar Arngrímur Jónsson lögsagnari, þeirra son Páll skólakennari í Slagelse o. fl.

4) Þorlákur var fræðimaður og hefur ritað annál allmerkan, sem nú er í Landsbókasafninu. Hann átti Hólmfríði Aradóttur frá Sökku Jónssonar prófasts í Vatnsfirði Arasonar, þ. b.:

a. Ólafur á Skútustöðum átti Jórunni Þorleifsdóttur prófasts Skaptasonar, þeirra son Ari á Skútustöðum faðir Kristjönu móður Jóns Sigurðssonar alþm. á Gautlöndum.
b. Sveinn á Sjáfarborg f. m. Elínar Grímólfsdóttur prests í Glaumbæ Illhugasonar.
c. Elín átti Ólaf á Má́rsstöðum Eggertsson prests á Undirfelli Sæmundssonar, þeirra son Haraldur á Bjarnastöðum í Vatnsdal o. fl. börn.
d. Ragnheiður 2. k. Sæmundar á Víðimýri Magnússonar Skaptasonar.
e. Ingiríður f. k. séra Þorvaldar Jónssonar í Hvammi í Laxárdal.
f. Markús á Skriðulandi átti Maríu Guðmundsdóttur, þeirra son Markús.
g. Jón á Seilu átti Sigríði Grímólfsdóttur prests Illhugasonar.
h. Hólmfríður átti séra Svein Jónsson á Knappsstöðum, þ. b.:
aa. Torfi á Klúkum í Eyjafirði, ættfróður vel, og haldinn kunnáttusamur.
bb. Ari í Leyningi í Siglufirði.

3. Margrét átti Sumarliða Klemenzson[1]).

c. Anna Björnsdóttir Hannessonar (dó 1642, 90 ára) átti fyr Árna son séra Björns á á Melstað Jónssonar biskups; börn:

aa. Daði þénari Odds biskups, drukknaði 1609 í Hvítá, bl.

bb. Þóra átti Sigurð Þorbergsson[2]).

cc. Kristín átti Þorleif á Fellsenda Bjarnason; börn:

aaa. Steinunn átti Ólaf í Sölvatungu Guðmundsson og börn[3]).

---

cc. Hólmfríður s. k. Jóhannesar Arasonar á Nautabúi bróður Ara læknis á Flugumýri, þ. d.:

aaa. Guðrún átti Pétur kaupmann son Jóns kaupmanns Kolbeinssonar í Stykkishólmi.

1) Sumarliði var sýslumaður í Strandasýslu (sbr. II. 385).

2) Sigurður Þorbergsson lögsagnari í Hegranesþingi átti Þóru dóttur Ara lögmanns Jónssonar, en ekki Þóru Árnadóttur, þótt svo sé sumstaðar talið (sbr. I. B. bls. 323). Líkast þykir mér, að Árni á Sauðafelli og Anna hafi ekki átt neina dóttur, er Þóra hét, enda er hennar hvorki getið í ættatölum séra Jóns á Lambavatni eða séra Jóns Halldórssonar.

3) Son Ólafs og Steinunnar var:

a. Þorleifur prestur í Blöndudalshólum († 1688) bjó í Sölvatungu, átti Þórunni Kortsdóttur, systur Þorleifs lögmanns, þ. b.:

aa. Jón veik úr Hólaskóla fyrir galdragrun, bjó á Hrauni í Yxnadal og var lögréttumaður og síðar ráðsmaður á Hólum.

bb. Guðrún átti Guðmund Andrésson á Bálkastöðum í Miðfirði.

cc. Sigríður. dd. Þórunn.

ee. Björn á Guðlaugsstöðum, lögsagnari í Húnavatnsþingi, átti Ólöfu Sigurðardóttur sbr. I. B. bls. 599—600 og eru þar talin börn þeirra, en ættin röng frá Halli syni hans (»Barna-Halli«), því að Pétur á Hrappsstöðum var son Jóns Hallssonar, en ekki Jónsson Bjarnasonar Hallssonar [á að vera Jónsson »Barna«-Hallssonar]. Son Péturs á Hrappsstöðum var Magnús í Holti í Svínadal faðir Guðmundar læknaskólakennara í Rvík.

bbb. Efemía fyrri kona Péturs Þórðarsonar, bl.

dd. Guðrún Árnadóttir átti Árna Skúlason[1]); börn:

aaa. Árni átti Guðrúnu dóttir Jóns Þorvaldssonar og börn.

bbb. Sveinn átti Sigríði Fúsadóttur Gunnlaugssonar; bl.

ccc. Ingiríður átti Þormóð Tumason[2]) og börn.

ddd. Halldóra átti Þorgeir í Bár Snorrason og börn.

eee. Katrín átti fyr Hall Grímsson, svo Þorstein Bárðarson og börn.

fff. Kristín fyrri kona Tómasar Narfasonar, bl.

ee. Þuríður Árnadóttir átti Einar í Stóru-Hvestu Ormsson; börn:

aaa. Ormur á Klúku.

bbb. Björn, hans börn Ari og Jón.

ff. Ingiríður Árnadóttir[3]) átti fyr Narfa Jónsson, þeirra börn dóu. Svo Ívar, þeirra börn mörg, þar á meðal:

aaa. Narfi á Eyri í Ísafirði átti Þóru Sveinbjörnsdóttur og börn[4]).

---

1) Skúli faðir Árna var son Jóns Hálfdanarsonar bróðursonar Daða í Snóksdal.

2) Þormóður var son Tuma Magnússonar og Guðrúnar Guðnadóttur Þormóðssonar Arasonar, er var bróðir Björns Guðnasonar í Ögri.

3) Réttara mun: Ingveldur.

4) Börn Narfa og Þóru:

a. Guðmundur átti Sesselju dóttur Þorgeirs Helgasonar frá Eyri í Mjóafirði, þ. b.: Daði og Jóhanna.

b. Ingibjörg átti gamlan mann, Guðna að nafni, sunnlenzkan.

c. Steinunn átti Jón Ólafsson, þ. b.:

aa. Sveinbjörn faðir a) Bjarna föður Sigmundar í Bolungarvík og Jóns lodda skipasmiðs og b) Eyjólfs föður Magnúsar á Skjaldfönn föður Páls s. st.

bbb. Árni Ívarsson.
ccc. Guðmundur Ívarsson.
ddd. Vigdís átti fyrst barn með Jóni á Kinnarstöðum Guðmundssyni, giptist þar eptir.
gg. Steinunn Árnadóttir átti Jón á Þverá Jónsson[1]).

---

bb. Ívar átti Helgu Bjarnadóttur, þ. b.:
aaa. Bjarni, hans son Ivar.
bbb. Guðmundur.
ccc. Narfi átti Margréti Sigfúsdóttur, þ. b.: a) Guðmundur, bl., b) Geirlaug, er átti Árna Jónsson Ketilssonar frá Eyrardal, þ. b.: Magnús í Hattardalshúsum, Narfi og Ketill.
cc. Jón í Látrum í Vatnsfjarðarsveit tvíkvæntur. Börn hans:
aaa. Jón í Skálavík tvíkvæntur. Börn hans: Ólafur á Rana, Margrét átti Ara Eiríksson, Jóhann í Skálavík og Jón á Keldu.
bbb. Helga átti Þórarinn Jónsson á Látrum, þeirra dóttir: Friðgerður átti Halldór Eiríksson á Látrum, þ. d.: Ragnheiður átti séra Eirík Vigfússon á Stað á Snæfjallaströnd.
dd. Jón yngri, var tvíkvæntur. Son hans með f. k. Höllu Erlendsdóttur: Járngeir.
ee. Þorgerður átti Guðmund Erlendsson bróður Höllu.
ff. Ingiríður átti Kár (eða Kára) Þorgeirsson Helgasonar, bróður Sesselju konu Guðmundar Narfasonar, móðurbróður Ingiríðar, þ. b.:
aaa. Ragnheiður átti Jón Höskuldsson, bl.
bbb. Sigurhildur átti Gísla Magnússon, þ. b.: Kári, Sæmundur og Magnús í Heydal.
gg. Helga átti Guðmund Jónsson og börn.
hh. Ólafur drukknaði með föður sínum.
Enn eru talin börn Jóns Ólafssonar og Steinunnar Narfadóttur: Herdís, Guðmundur, Halldór, Rafn, Anna og Halldóra.

1) Steinunn kona Jóns var ekki dóttir Árna Björnssonar frá Melstað og Önnu, heldur dóttir Árna Björnssonar frá Saurbæ (sbr. aths. II. 321 n.m.).

Seinni maður Önnu Björnsdóttur var séra Jón Fúsason[1]); þ. b.

hh. Vigfús átti Ragnhildi Gottskálksdóttur frá Hundadal[2]).

íí. Árni dó barnlaus.

Um ungdómsár Daða [Guðmundssonar í Snóksdal] er mér óljóst, til þess hann fór til Ögmundar biskups, og gerðist sveinn hans, og þar eptir fékk biskup honum umboð sitt á Vestfjörðum, þá Daði fór að búa í Snóksdal um 1523 og giptist Guðrúnu um 1525. Ekki veit eg víst, hverja sýslu hann fyrst tók, þó eptir gátu mætti það hafa verið Barðastrandarsýsla (hafi hann haldið henni nokkurn tíma) nálægt 1530, en ei hefur það verið lengi, og það ár var hann meðdómsmaður á alþingi. 1534 meina eg, að Ögmundur biskup sem hirðstjóraumboðsmaður hafi fengið honum Snæfellsnessýslu og Dalasýslu. 1535 í áreiðardómi millum Arnarbælis og Dagverðarness, nefnir Daði sig umboðsmann Ögmundar biskups. En 1537 þá biskup staðfestir téðan dóm, nefnir hann Daða, sem hafi verið þá 1535 kongs umboðsmaður í Dalasýslu. Daði hafði og fengið litlu fyr Mýrasýslu hverja hann sýnist að hafa lengi haldið. 1543 hafði Otti Stígsson höfuðsmaður veitt honum Helgafellsklaustur, að tilhlutan Péturs Einarssonar, og er sagt hann hafi þá ei goldið meira eptir en 2 eða 3 tunnur smjörs og þriggja manna útgerð til sjavar. 1541 þá Þorleifur Pálsson var neyddur til að taka að

---

1) Sbr. II. 574. Þar er ekki rétt hermt, að séra Jón hafi kvænzt Önnu 20. ágúst 1610, því að það hefur verið miklu fyr, ekki síðar en um 1590, að því er ráða má af aldri Önnu, sem er fædd um 1552. En 20. ágúst 1610 gerði Hannes Björnsson bróðir hennar kaupbréf við hana og mann hennar um Höfn í Melasveit, og lofa þau að selja honum allar ólofaðar fasteignir þeirra. Séra J. H. segir, að Anna sé í kaupbréfi þessu ávallt nefnd Ónyka (ɔ: Anika) og getur vel verið, að það hafi verið hið eiginlega nafn hennar, en verið almennt kölluð Anna.

2) Synir Vigfúsar og Ragnhildar voru tveir Jónar eða þrír. Einn þeirra lenti á hrepp sínum í Reykholtsdal stippilsinnaður þess í millum, dó nær níræður hér um 1728, átti þá engin börn á lífi. Bræður hans voru í Saurbæ og á Skarðströnd. (Ættat. séra J. H.).

sér lögmannsembætti var Daði settur honum til styrktar. Hann gerðist og snemma mesti vinur Ögmundar biskups, og þáði af honum gjafir og lén Ögmundur biskup veitti honum Hvamm 1536, sem hann tók til sín eptir Teit Þorleifsson og Gizur biskup staðfesti þá veitingu.

Eptir 1540 mun hann og hafa haldið Strandasýslu, en þá sleppt Snæfellsnessýslu, hverja Þorleifur lögmaður mun þá hafa tekið. En Mýrasýslu mun þó Daði þá og hafa haldið, og Helgafellsklaustri, samt Hvammi, prófastsdæmi og fleiri lénum. Hafði hann mikinn skipaútveg kringum Jökul og auðgaðist mjög, þar hann var mesti framkvæmdarmaður og fjárgæzlumaður mikill Fyrir 1550 mun hann hafa sleppt Strandasýslu. 1547, þa róstusamt tók að gerast af yfirgangi Jóns biskups Arasonar og sona hans, á samkomu í Ásgarði vildi Þorleifur lögmaður, að Daði tæki við lögsögu af sér, hvað Daða var ekki á móti í fyrstu, en þá hann athugaði betur kringumstæður, þótti honum það ísjarvert og vandasamt, og þa að þingtima kom, þótti honum sér þungt, og reið ei til þings, en skrifaði höfuðsmanni Laurusi Mule, bar fyrir krankdæmi sitt, og taldist undan lögmannsembætti, en kvartaði yfir rógi Orms Sturlusonar, og ritaði um fleiri sakir, varð því Þorleifur við lögsögu það ár, en þó sagði hann af sér að þinglokum. Séra Björn á Melstað, bróðir hans Ari og faðir þeirra Jón biskup á Hólum, settu mikinn úfa við Daða.

Kvennamaður mikill var Daði og hélt frillur utan hjá konu sinni; þeirra nafnkenndastar voru Efemía Pétursdóttir, er hann hélt heima í Snóksdal, ei atti hann börn við henni, en hafði a henni mikið dalæti, gipti hana loks Bjarna Sumarliðasyni, og gaf henni Bæ í Hrútafirði 60 hundr. með þeim skilmala, ef hún ætti ekki lífserfingja, skyldi Bær hverfa í sína ætt að henni látinni, og svo varð. Önnur frilla hans var Ingveldur Árnadóttir, hana setti hann fyrir bú sitt á Sauðafelli, og átti með henni 5 eða 6 börn fyrir hverjar barneignir hann tók viðkomandi kvitteringar. Daði hafði keypt Sauðafell af Ormi Sturlusyni, en Ari lögmaður þóttist eiga veð í því. Daði hafði útibú á Sauðafelli, í Síðumúla, Knararhöfn og 4 ár í Hvammi, hann setti frillur sínar aðrar en Efemíu á útibúin. Þá Jón biskup hafði undirkúgað flesta eða stökkt

þeim úr landi, lét hann séra Þorlák með 16 menn fara vestur að Skarði, og átti hann að fanga Þorleif lögmann hvað þeim mislukkaðist. Biskup Jón og synir hans vildu nú ryðja Daða úr vegi, og ná fé hans. Reið því biskup vestur í Dali með fjölmenni 1548 um haustið og heim á þrjá garða Daða: Snóksdal, Hvamm og Sauðafell, brutu upp hús og hirzlur og höfðu þaðan slíkt er þeir vildu eða náðu, en spilltu því, er þeir máttu ei með sér hafa. Ekki fundu þeir Daða, en buðu honum að svara til þeirra saka, er þeir báru á hann. Hræddu þeir konu Daða og heimafólk. Stefndi svo Jón biskup honum fyrir sig í Hvamm í Hvammssveit, mánudaginn eptir Mikaelsmessu fyrir 7 stórmæli. 1° að hann hefði sett sig í officialis og prófastsstarf. 2° að Daði vísvitandi hefði gert hjónaband með Guðrúnu Einarsdóttur í opinberum mægðaspellum í þriðja og fjórða lið, og haft sambúð við hana meir en 12 ár. 3° að Daði væri opinber að mörgum barneignum með Ingveldi Árnadóttur hálfsystrungu sinni etc. 4° að Daði hefði verið flokksforingi í Skálholti, og hindrað embættisverk biskupsins. 5° hefði Daði í Hvammskirkjugarði þrifið bréf úr höndum Ólafs prests og sundur rifið etc. 6° að hann hefði undir sig dregið eignir og jarðir Skalholtskirkju etc. 7° að hann hefði haldið jörð sinni Skarðsstöðum, meir en 9 ár. Biskup lét í Hvammi 12 presta dæma um þetta og dæmdu þeir (í einu að segja) allt fé af Daða og hann sjálfan undir þá prísund, sem biskup legði á hann. Ekki mætti Daði þar og enginn af hans hendi. Þennan atburð og dóma ritaði Daði Kristjáni skrifara, er var umboðsmaður Laurusar Múla, sem þá var utan farinn, bað Daði Kristjan fulltingis og að koma til sín, en Kristján kvað ekki þörf á sinni komu, sagði Orm til þess settan lögmann, að skipa málum manna í sínu lögdæmi. Þá beiddist Daði dóms og laga af Ormi lögmanni sér til varnar, var því sama haust útnefndur dómur í Hvammi af Ormi lögmanni, framlagði þá Daði fyrir rétt: 1° Kvittering Ólafs prófasts Guðmundssonar fyrir fyrstu barneignarbrots sekt sína dat. 1530. 2° Einars prófasts Snorrasonar fyrir sama í annað sinn með Ingveldi útgefin 1532, 3° Ögmundar biskups fyrir þriðja brot dat. 1536, 4° Gizurar biskups fyrir fjórða brot með Ingveldi dat. 1542, 5° enn aðra Gizurar biskups fyrir fimmta brot útgefna 1544 og þar með fylgdi

staðfesting allra þeirra fyrri. 6º Gizurar biskups fyrir sjötta brot útgefin 1545, 7º byggingarbréf Ögmundar biskups fyrir Hvammi, 8º verndarbréf hirðstjórans Kristjáns Hvítfeld 1541, 9º verndarbréf konungs Kristjáns 3. útgefið á jóladaginn 1542.

Eptir þessu dæmdu dómendur: Sigurður Oddsson í Búðardal, Bjarni Sumarliðason á Fellsenda og fjórir aðrir, Daða mega réttilega halda öllum sínum peningum með friði og frelsi fyrir hverjum manni, hans menn friðhelga, er verja, en hina ógilda er eptir sækja og þar með seka að lögum. Staðfesti Ormur þann dóm og aptur í Snóksdal. Sama haust ítrekaði Ormur téða staðfestingu, og bannaði öllum að áreita Daða til næsta alþingis, en skyldaði alla kongseið svara að styrkja hann.

Jón biskup Arason frétti þetta norður að Hólum, greip hann þá andlegu vopnin, forboðaði Daða og bannfærði hann síðan um veturinn á áttunda dag jóla 1549, sendi svo menn víða út og eins vestur í Dali að lesa þá bannfæring. Það bar við þá Daði var bannfærður á Hólum, að Árni prestur í Hítardal var staddur í Snóksdal hjá Daða, sátu þeir saman og töluðust við, setti þá hixta mikinn að Daða, svo hann undraðist og mælti: »Nú er eg þar í orði, sem eg er ekki á borði«. Árni prestur var haldinn margvís og mælti: „Þér eruð á orði norður á Hólum og er Jón biskup að bannsyngja yður". Daði mælti: „Þér skuluð eiga hjá mér 5 hundr., ef þér sjáið svo til, að bannsöngur sá hríni ekki á mér". „Það vinn eg ei fyrir nokkra peninga, að setja mig svo í veð", mælti prestur, en sakir frændsemi og vináttu kvaðst hann vilja gera það hann mætti, þó gruni sig, að nokkur bagi muni á eptir koma. Gengu þeir síðan báðir til kirkju og læsti Árni prestur Daða þar inni, en var sjálfur lengi úti, þar til hann lauk upp kirkjunni, kallaði á Daða og mælti: „Þar megið þér sjá, hvað yður var ætlað". Daði sá veturgamalt tryppi, er hann átti, það hljóp upp og fram með læk, sem ært væri og stakk ser loks ofan í pytt og drapst. Þakkaði Daði Árna presti og launaði, en biskupi Jóni gramdist við Árna prest. (Af hjatrúarfullum séra Jóni Egilssyni er þetta ritað, líkast eptir sögn frænda eða niðja Jóns biskups. Margur hefur fengið átumein og ei verið bannfærður. Pyntingar og fjárupptektir,

sem optast fylgdu bannfæringu, þá því varð viðkomið, var það sem mest var að óttast fyrir). Daði hefur þá ei heldur verið laus við páfatrúna og þeirra meiningar.

Daði spurði, að Jón biskup ætlaði eptir páska 1549 að sækja hann heim með fjölmenni, hélt hann því 60 og stundum 80 menn týgjaða á sinn kost í Snóksdal fram yfir fardaga. Jón biskup fór sem hann hafði ætlað vestur, en er hann spurði, að Daði hefði mikinn viðbúnað, vildi hann ei hætta til heimsóknar við hann, og sneri til Borgarfjarðar, reið heim á Signýjarstaði, er Daði átti og lét þar marka sér 9 kúgildi og lýsti eign sinni á öllum peningum, er þar saman stóðu hvort Daði eða aðrir ættu, reið svo norður að Hólum.

Jón biskup sendi um sumarið sonu sína með mikinn flokk manna að fanga Martein biskup, séra Árna og Daða, þeir komu óvörum að þeim Marteini og séra Árna og föngaðu þá báða. Daði hafði Helgafellsklaustur, sem áður er sagt, og var vestur í Rifi. Það njósnuðu biskupssynir og hugðu að taka hann þar, fóru þangað sem skjótast. Daði fékk nokkurn pata af ferð þeirra, og var nauðulega staddur. Daði átti brúnan hest, allra hesta beztan, honum reið Daði, var hesturinn svo skjótur, að þeir höfðu ekki af Daða, reið hann þá heim í Snóksdal og safnaði að sér mönnum, en sendi Jón Rebba á njósn að Staðarstað, sem komst að ráðagerðum biskupssona, er þá voru á Staðarstað; þá biskupssynir komu með lið sitt að Snóksdal hafði Daði þar fyrir tvenna 80 manna, alla týgjaða, stóðu þeir þar kringum staðinn búnir til varnar. Biskupssonum þótti óarennilegt að sækja að þeim, og tjölduðu í nokkurri fjarlægð, sendu orð Daða, að hann skyldi nú sækja vini sína Martein biskup og Árna prest. Daði gaf sig ekki að því, og réð ei á biskups menn, en lét lið sitt halda sömu stöðu, meðan biskupsmenn dvöldu þar. Skildu þeir að því sinni óhappalaust.

Önnur misseri, þá biskup hafði riðið í Skálholt og víða um Skálholtsstipti, hafði hann fengið njósn, að konungur hafði ritað Daða og Pétri Einarssyni, að styrkja hirðstjórann Laurus Mule til að fanga Jón biskup; kom nokkur stans á hann, svo hann í það sinn gerði hvorki heimsókn Daða, eða tók Sauðafell. En til Orms lögmanns hafði hann þungan hug fyrir Hvammsdóm Orms, heimti hann því heim til sín að Helga-

felli 1550, og vildi hann rengdi fyrra dóm sjálfs síns, taldi honum trú um, að undir hann sem kongsumboðsmann bæri hálft fé Daða, þá annar helmingur þess væri upptækur undir biskupsstólinn; vildi Jón biskup svo neyta sér hjóllyndi Orms og fégirni. Ormur setti því á ný til þessa máls þingdag að Sauðafelli, en biskup með flokk sinn reið að svo búnu norður að Hólum. Er ætlandi, að hann hafi þá þótzt fáliðaður að veita Daða heimsókn. Þá að stefnudegi kom, um haustið 1550, reið biskup og synir hans með 90 vopnaðra manna vestur í Dali að Sauðafelli; þar var þá Ormur lögmaður. Snemma morguns ritaði Daði þeim biskupi, að þeir skyldu láta sitt fé í friði, eða að öðrum kosti mundi hann með sínum mönnum verja staðinn og fé sitt. Biskup og synir hans gáfu þar að engan gaum. Daði hafði safnað að sér hraustustu mönnum um Dali, og útbjó lið sitt til bardaga, sem tjaist hafa verið 80 manns, átti hann sjálfur tygi fyrir 30 menn. Hann hét hverjum sem særðist lækning og skaðabót, en annast ekkjur og börn þeirra, sem féllu. Þá þeir voru af stað komnir frá Snóksdal, bauð Daði hverjum þeim, er ei voru með öruggum hug, að snúa aptur. — Einn bóndi, frá Hörðubóli, tveggja maki, sneri aptur, hinir héldu áfram, og tvímenntu flestir, höfðu einnig gráar hempur yzt fata, en þoka var; það var til þess gert, að liðið skyldi sýnast minna. Þá þeir komu að Sauðafelli, bauð Daði þeim biskupi að fara í friði burtu, ei var því sinnt. Ormur lögmaður vildi þá setja þing, það aftók Daði (sumir segja Daði hafi þá boðið biskupi eitt hundr. hundr., og síðan tvö hundr. hundr.) varð með þeim nokkuð orðakast, en ei varð af samningi. Biskup þóttist þá fáliðaður, þó hann hefði að norðan 90 manns og Borgfirðingar væru til hans komnir með 30 manns, lét því Orm lögmann setja þar grið og lýsa sig og sína menn undir kongsins grið, því sinnti Daði ekki, þar hann vissi, að konungur hafði gert Jón biskup friðlausan. Flestir meina, að biskupsmenn hafi fyr með skotum ráðizt að Daða og hans mönnum, sem stóðu í fylkingu, meðan Daði lét hlaða vegg nokkurn undir byssur sínar, bak við þá, og settu þar 30 menn með byssurnar, er lakast voru útbúnir. Biskupsmenn höfðu skipað sér í kirkjugarðinn, en þa bardaginn hófst varð Sunnlendingum bilt við, og hrukku frá; voru biskupsmenn sumir fyrst á

húsunum með byssur og sigtuðu á Daða, en hrukku síðan í kirkjugarðinn. Varð þá aðsókn hörð af Daða mönnum, svo biskupsmenn hrukku loks frá og í kirkjuna, var þá vægðarlaust skotið á frambilið, gekk kúla þar í gegn, og svo í gegnum handlegg séra Björns, sem þá lagðist fyrir. Breiddu biskupsmenn þófa fyrir þilið, en létu byssur og hvað annað fyrir hurðina. Loks gafst upp sókn og vörn. Þar eptir lét Daði sla frá fjalir úr kórgafli (al. framkirkjugafli og svo úr kórgafli) til að ná út syni Jóns sýslumanns í Bæ. Þar var þá og útdreginn Jón biskup heldur óþyrmilega af Dala-Markúsi, en er biskup streittist sló Markús hann, svo úr hrutu tvær tennur; þá kallaði Jón biskup til Daða og sagði: „Gefðu grið, Daði". Hann gekk að, rétti hendina að biskupi og mælti: „Kysstu þá á hanzka minn". Daði gekk að Markúsi, sló hann og vítti mjög fyrir meðferð á biskupi. Síðan þa Jón biskup og synir hans Björn og Ari voru fangaðir, lét hann flytja þá í Snóksdal og hafa þá þar í haldi. Margir Norðlendingar, sem ei höfðu í kirkju komizt, voru mjög særðir, en enginn féll. Lét Daði græða alla sára menn og fóru Norðlendingar eptir vild sinni heim norður, eins hinir særðu, þá þeir voru færir. Varð þessi atburður nálægt Mikaelsmessu 1550. Daði sendi strax til Kristjáns skrifara, sem var umboðsmaður höfuðsmannsins Laurusar Múla, og lét hann vita, hvar komið var. Brá hann þá við og reið í Skálholt ásamt biskupi Marteini og öðrum vitrustu mönnum. Lét þá Ormur lögmaður þings kveðja, að tilhlutan Daða, um það hvað gera skyldi af þeim feðgum m. m. „Fimmtudaginn næstan fyrir Símonsmessu, fram fór svo kallaður Snóksdalsdómur, dæmdust þeir feðgar réttilega fangaðir, en Daði og hans fylgdarmenn sýkn saka, og við þá skilinn, en Kristján skrifari skyldugur þá að varðveita til næsta Öxarárþings, með tilstyrk beggja lögmanna Erlendar og Orms, einnig Marteins biskups". (Les hér um fremur í Jóns biskups æfi og Árb. 3. þætti). En hvern dag í Snóksdal þá þessir höfðingjar voru þar saman komnir og gildi var, lofaði Daði þeim feðgum að vera í samsæti með öðrum mönnum, náði þá Ari korða, og seildist yfir herðar Marteins biskups og lagði til Daða. Tilræðið varð hindrað og þeir feðgar geymdir fastlegar en áður. Voru þeir í Snóksdal rúmar 3 vikur, þaðan voru þeir færðir úr allri ábyrgð

Daða í Skálholt, hvar þeir voru hálshöggnir; var Daði þar þá nærstaddur.

Á næsta sumri komu út herskip konungs, og fé þeirra feðga gert upptækt konungi fyrir landráð. Daði fékk þa kongsbréf og fleiri landshöfðingjar. Um þessar mundir, sem frá sagt er, hafði Ormur lögmaður haldið Snæfellsnessýslu, en nú komst Daði í gott vinfengi við höfuðsmanninn Pal Hvítfeld, en Ormur komst heldur í óþokka; tók nú Daði aptur við Snæfellsnessýslu 1551, en Mýrasýslu mun hann hafa áður haldið. 1551 lét Daði dóm ganga að Krossholti í Eyjahrepp um hreppstjóraskipan, hefur því Daði þá haft Þórsnessþing. 1554 fékk Daði og kongsveiting fyrir Helgafellsklaustri, átti hann þá að gjalda þar eptir 3 lestir af hörðum fiski og launa prestinum. Honum voru þá og veittar eptirgjaldslaust meðan lifði 9 góðar kongsjarðir. Óvíst er og, hvort Daði hefur haldið Dalasýslu fyr en máske 1556 eða 1557, Mýrasýslu mun hann hafa sleppt 1557, Snæfellsnessýslu og Hnappadalssýslu og Helgafellsklaustri, samt Dalasýslu 1558. En hvort hann hefur þá um hríð tekið Strandasýslu, er mér óljóst. Hann hafði samt prófastsdæmi af Marteini biskupi og fjölda umboðsjarða í léni, hafði hann mjög auðgazt af veizlum sínum, en nú tóku að minnka vinsældir hans við danska valdið, voru margir sem rógbaru hann, og sjalfur þótti hann fjárgæzlumaður og stundum agengur um of. Hinn mesti framkvæmdarmaður var hann og útvegasamur. Ei gatu óvildarmenn hans fundið honum annað til, en fédrægni og kvennafar. 1560 tók Daði að veikjast af átumeini í andliti, þar kom, að hann lagðist í rekkju, kom þá enginn til hans, utan Guðrún kona hans og Gísli biskup í vízitatíuferð sinni; þá gerði hann sitt testamenti, og gaf mörgum stórgjafir. Úr þessu meini deyði Daði 1563, 74 ára gamall og var grafinn í Snóksdal. Hann var um þá daga haldinn með mestu mönnum.

Þessa dóma hefi eg fundið eptir Daða:

1551 og 1552 lét hann í Þórsnessþingi ganga dóm um hreppstjóraskipun. 1555 í Miðgörðum 12 manna dóm um lausamenn, það ár telst hann sýslumaður milli Hítarár og Skraumu (það er Snæfellsness- og Hnappadalssýslur). 1554—1556 í Snæfellsness- og Hnappadalssýslum. 1553 kallast

hann sýslumaður í Mýrasýslu (Halldórsbók) 1543 hélt hann Helgafellsklaustur fyrir lítið afgjald, rak hann þaðan þá að nokkru leyti munkana, en sagt þeir hafi berfættir og berhöfðaðir og grátandi óskað ills þeim sem við tæki; mætti ske. að það hefði Daða fremur að gjaldi komið, en föngun Jóns biskups og bannfæring. 1550 hélt hann Staðarhól með hans eignum af Marteini biskupi. Sagt er, að hann hafi flutt flestallt fémætt og nýtilegt frá Helgafelli að Snóksdal. En Pétur Einarsson, sem þá var fógeti og vinur Daða hafi þar fyrir ei krafið reikning. 1556—1557 nefnist hann sýslumaður milli Hvítár og Gilstjarðar. Hefur hann þá haldið allt Þórsnessþing. 1537 lénaði Ögmundur biskup Daða Hvamm í Hvammssveit, honum sleppti hann til dótturmanns síns Björns Hannessonar 1550. 1550 í Snóksdalsdómi um Jón biskup Arason nefnist Daði í sumum afskriptum umboðsmaður í Þórsnessþingi, máske þar með sé meint Stapaumboð

*Bréf Daða til hirðstjórans L. Múla.*

Vinsamleg og kærleg heilsan í Kristo Jesu tilsendist yður heiðarlegi mann og míns herra kongsins fóveti yfir Ísland, Lassi Mul. Yður þakka eg kærlega fyrir hæversklegt skrifelsi, sem þér senduð með Pétri bónda Einarssyni í sumar eptir alþing, svo og fyrir það dagsbréf, sem þér mér útgáfuð vegna Þórðar Oddssonar. Hér með vil eg yður kunnugt gera Lassi Mul, að eg sendi nú mín bréf fyrir vorn náðugasta herra konginn, með Pétri bónda Einarssyni, og er það mín kærleg bón til yðar, að þér framfylgið, og með góð og ærlegheit tilleggið svo, að eg fai fullkomlegt svar og kvittanir upp á mín bréf af mínum herra kónginum, því eg trúi, að þér munuð hafa allt fornumið og undirstaðið af nokkrum mönnum á Íslandi, að það stóra órigtuga ámæli, sem mér er sagt að þeir hafi til mín haft nú í sumar á alþingi, sem er um míns herra kongsins sakeyri og peninga, að eg hafi ekki svo löglega með þá farið sem vera skyldi, hvað eg vildi með sannindum kynnu þeir aldrei með æru til mín að bevísa. Svo og vil eg yður kunnugt gera, að eg sendi útskript af þeim dóm, sem dæmdur var a alþingi um lögmannskjör, þá Kristófer Hvítfeld var hirðstjóri yfir Íslandi, og eg trúi, að þann heiðursmann muni vel minnast, og nú með þeim dóm, þa sendi

eg annað bréf, þar sem Þorleifur Pálsson lögmann norðan og vestan á Íslandi hefur mér útgefið, með ráði og samþykki þeirra góðra manna, sem í þann tíð voru nærstaddir þeim heiðursmanni. Hvað kæri Lassi Mul að eg vil yður vel undirvísa, að eg kunni ei til alþingis að koma þetta ár, sakir míns stirðleika, svo og var eg ekki maður til svo vandrar stéttar, sakir míns framaleysis og fákunnandi. En eg veit sannarlega, að hver eptir guðs vilja og míns herra kongsins forsjá, skal nú lögmaður á Íslandi blífa, þá þarf sá að vera bæði mektugur, vís og hygginn sakir þess óhófs og óréttar, sem nú fram fer, og farið hefur í nokkur forliðin ár í Íslandi, hvað eg bið almáttugan guð, að hann láti þann verða, sem landinu og almúganum er nytsamastur, og mínum herra kongimum hollur og trúr, eptir sinni skyldu. Þykir mér vel trúlegt, að yður muni nokkuð kunnugt vera, um það stóra orikti, sem Ormur bóndi Sturluson skal hafa um lögmann Þorleif bónda Pálsson, Pétur bónda Einarsson og mig hvað eg hópumst [varð ei öðruvísi lesið, máske afbakað af „Haab, danice"] til, með guðs tilsja, að ekki muni með sannindum það reynast, sem hann skal hafa svo stórt og freklega þar um talað, sem Pétur bóndi kann nú með sannlegheit vel að afsaka, ef hann og vér náum vorum sannindum, sem þykir vel trúlegt. Kærlega bið eg yður að minnast upp á það kvittunarbréf, sem eg hef yður áður beðið, vegna Þórðar Oddssonar, og hvað þér viljið minn vin góði Lassi Mul! mer hér úti til styrks eða vilja vera, upp á mín bréf og erindi, skal eg og vil eg yður það með guðs hjálp með fé og vinskap vel bítala, sem Pétur bóndi Einarsson kann yður vel að undir vísa. Hef eg nú svo góða trú til yðar kæri Lassi, að þér munuð mínum bréfum og erindum gott til leggja, eptir því sem yðart bréf innihélt, sem þér mér skrifuðuð. Eptir þessi skrifuð orð, er eg yður almáttugum guði bífalandi. Skrifað í Snóksdal, þriðjudaginn næstan fyrir Bartholomeus messu um sumarið árum eptir guðs burð 1547.

*Daði Guðmundsson.*

*Testament Daða Guðmundssonar í Snóksdal [1563]*[1].

iehshus.

Jn Nomine Domini Amen.

Saker þess ad mansins lifdagar erv med stoddvm endimorkvm og ekkert er visara enn Daudinn. Svo og kemr hann þa sidz varer. Þvi j gudz nafne Amen Giore eg Dade gudmundzon heil ad vite enn nokut krankr j likama suo fellda skipann og testamentum firer mier. J nafne faudr og sonar og anda heilags Amen.

1. J fyrstu gef eg mig og mina synduga sal allzmegtugum gude j valld og hans velsignudu modr bidiandi audmiukliga af aullu hiarta allzmegtugan gud ad hann veite mier aumum og syndugum sína nad og myskunnseme firir mín otelianlig afbrot og misgiorder ok syndsamligt framferdi sem ek æ hefe allt hier til mínum liufa lausnara og skapara faudr og syne og heilaugvm anda j mote brotid. Amen.

2. Hier med kys eg mínum moldligum likama legstad j kirkiune eda ad kirkiune j Snogsdal hver ad helgud er einum godum gudz astvin sancte stefanum ad hann huile þar suo leinge og þar til ad allzmegtuðr gud med sinne margfalldre nad og myskunnseme lifgar hann j almennelegre vpprisu.

3. Skipa ek kirkivne j snogzdal x kyr og xxx asaudar j sína jnstædu. medtok eg hennar vegna xv$^{c}$ j kvikum peningum og daudum auke. hennar ordnamentvm sem hun atte jnnan sig. Nu skipa ek henne ij$^{c}$. j gelldum saudum og aunnr ij$^{c}$ j nautum. Hest firer eitt. c. Vil eg þetta gjalldizt reidugliga heim j snogzdal ad næstum fardogum epter mig af geingin. eru þetta v$^{c}$ j gelldum peningum med einum heste oc xv. malnytu quijllde. Sitt ordnamentum vil ek hun

---

1) Testamenti þetta, sem er mjög fágætt, er prentað hér eptir J. Sig. 372. 4$^{to}$ í Lbs. á pappír, og er það annaðhvort óundirskrifað frumrit og það er líklegast eða samtíða afskript. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. III, 232—243 með latínskri þýðingu. Greinatalan stendur í handritinu. Handritið er auðsjáanlega frumrit. Það sýna klausur þær, sem inn í það eru hér ritaðar með hendi Eggerts Hannessonar um afgreiðslu gjafanna. — Hér er fylgt afskript dr. Jóns Þorkelssonar landskjalavarðar af testamentisbréfi þessu, og hefur hann góðfúslega léð mér hana til afnota.

hafe sem eg hefe med tekid og þad framar sem ec hefe vid bætt sem synazt ma j hennar registrum. Enn þad litid sem eg hefi latid giora ad kirkiune ad hun er betre enn hun kom mier j hendr þad gef ec gude oc hinum heilaga stefanvm og alltt hvad eg hefi til hennar lagtt j bokum messuklædum og kaleik og alltt anad þad henne ma til pryde heidrs og sæmdar vera. Enn husabot a stadnum gef ec og skil under minn riettan erfingia huern hellzt ad gud vill vera lata.

4. A kirkian half lond iij, halfan hordabol. Gilsbakka oc Snogs Dal ok þar til a hun halfar eyar v^c^ ad dyrleika. Gaf biarne heitinn eigllason[1]) henne. huers sal gud gledie. nokra peninga sem er half jordin vifilsdalr enn fremre. hefi ec bref biskups augmundar heitins palssonar. huers herramanz sal ad allzmegtugr gud hafe til sinna nada þigid. firir henne. þui vil eg miner erfingiar eignizt hana.

5. Kirkivne a saudaferle skipa ek iiij. malnytu quijllde og xx j sína jnstædu þui ec medkenunzt ad ec hefi uppborid af orme bonda sturlasyne xij quijllde kirkivnar vegna enn eg hefi lofad ad suara audrum xij quijlldum firir jordina erfdstadi sem bref þar vm giort vt visar og jnne heldr. Hefr hann afuent mier. iij. jarder er suo heita hlidartun. kross og hamrar og aungua peninga adra hefe eg med henne tekid þvi þar er miog litid ordnamentum jnan kirkiu.

6. Kirkian a eyre j bitrv a hier x quijllde. Þar heima a hun litid ordnamentum.

7. Vegna kirkivnar j sidumula hefi ec medtekid x quijllde og einn hundradz hest enn aungua Dauda peninga vtan þad litid ordnamentum sem henne til kemr og þar mun vel synazt. Villda ec giarnan ad allar fyr skrifadar kirkivr feinge sína peninga vel og reidugliga epter minn Dag.

8. Gudrunu minne einarsdottr hef eg gefid fiordungagiof vr hundrad hundrada suo framt sem hun lifer mig ok j hana vil eg hun fae iiij^c^ jord og xx þa sem henne vel likar og þar med vj quijllde.

9. Hier med bid ec audmiukliga mína erfingia oc þeirra umbodzmenn ad þeir giallde reidugliga allar mínar skulder og

---

1) Þannig; Eyjólfsson, Hist. Eccl.

vitafie efter þui sem andligt laugmal og veralldligt giorer rad firir.

10. Hier med bifala eg gudrunu minne einarsdottr til frialzligrar medferdar jordina snogsdal ef hun lifer mig j næstu iij ar med aullum þeim peningum kuikum og daudum sem þar til heyra og eg giore ecki rad firir. sem er smior og hey. kyr og ær. uxa og gelldinga oc xx kapla og þar til vil eg hun fae alla kirkiunar jnstædu og hier med[1]) skal hun hafa med snogsdal þessar jarder sem suo heita: fyrst: Hamarendar. Skord. Halfr vifilsdalr. Ok x$^{c}$ j hole. Hamar og bugdustader ok hordukot. Og þau quijllde aull sem med fyrskrifudum jordum standa og jardar portvm. Hier med gef ec henne allan abata a fyrskrifudum peningum.

11 Hier med gef eg henne til fullrar eignar halft anad skip vid hella og alla hlute a þeim sem mier til koma. Og þar til skal hun hafa alla hlute af attahringnum j drituik þa sem mier til koma vtan einn ok skal eya jons dotter eignazt hann.

12. Somuleidis skal fyrnefnd gudrun mín eignazt skip a aundurdarnese þad sem gamle er fyrer og alla hlute af þui þa mier til koma. Enn attahringurinn forne sem gengr j Drittvik og teinahringurin store skulu fylgia snogsdal. hefe ec fengit henni adr kross ok linda ok nokkr spensl[2]) edur huad anad þad ec hefe henne fengid og hun vænizt minne heimilld ad skal hun frialsliga eignazt fram yfer peninga sem ek hefe lied og gefid j þessare minne testamentum giord.

13. Hier med a eg x$^{c}$ j saurbæar fiorv og þar gef ek avnnr .v$^{c}$. snogs Dals kirkiu. enn aunnr saudafellz kirkiu.

14. Biarna brodr mínum gudmundzsyni gef eg jordina hrodnyarstade j laxaradal og þau quijllde sem þar med erv. Suo og gef ec honum jordina Dunkrbakka j snogs Dals kirkiusokn med somu skilordi og þau quijllde sem þar med erv oc hier til gef ec honum vj vætter smiors og iij vætter skreidar j snogsDal og ij naut gaumul. Somuleidis gef ek honum alla hlute af skipe þui sem sigurdr jonsson er firir þa sem mier til koma.

---

1) mier, hdr.

2) spenls, hdr.

15. Hier med skipa eg ad gefizt fatækum heim í snogs-Dal iij vætter smiors og .iij. vætter fiska. vxahud og kyr. ij voder vadmals og þar til vj kapla. og þar skipa ec gamaliel einarssyni af einn og hann kuittr vmm þad sem ec atte ad honum meira. [Þetta er greitt[1]).

16. Hier med skipa eg ad gefizt fatækum eitt .c. a saudaferle. Og anad j hofnn. þridia j sidumvla. fiorda a eyre. [Þetta er greitt[1]).

17. Petr sveinbiarnarson skal vera kuittr vmm þad sem ec a hia honum oc þar til skal hann eignazt þann kapal sem ec hefe lied honum. [Þetta greiddi hann sialfr[1]).

18. Olafi[2]) sem verid hefr a mioabole skal eignazt kapal og modr hans þann sem hun hefr farid med. [Þetta greiddi hann sialfr[1]).

19. Gudrunu HaldanarDottr kuinnu Jacobs. þau skulu eignazt þa ku og as(a)udar quijllde sem hia þeim er. [Þetta greiddi hann sialfr[1]).

20. jon j hlidartune skal vera kuittr vm landskylldina enn suara vj quijlldum gilldum mínum erfingium[3]).

21. Jon a hordubole skal hafa kuitta sína landskylld.

22. Nikulas a bakka skal vera kuittr vm þann kapal sem hann miste firer mier.

23. Vermundr jonsson skal vera kuittr vm þær xij ær sem hann miste firer mier.

24. Jon Oddzson og gudrun arnaDotter. þeim gef eg ku og kapal.

25. Odde minum bauduarssyni gef eg kapal.

26. Olafr j selarDal vera kuittr vmm sína landskylld.

27. Þorde a hamri gef ek kuitta sína landskylld.

28. Jon Palsson a mioabole skal vera kuittr vm sína landskylld [stendr landskylld[1]).

29. Þorsteine grimssyne a skarde gef eg kuitta sína landskylld [stendr landskylld[1]).

30. Petre a gilialande gef ec vpp sína landskylld oc þar til eitt quijllde sem hann hefr til leigu.

---

1) [bætt við með annari, en samtíða hendi. Það er með hendi Eggerts Hannessonar.

2) Svo í hdr.

3) Þessi grein er yfirstrikuð í hdr.

31. Olafe arasyne gef eg vpp sína landskylld og eitt quijllde af þeim sem hann hefr til leigu.

32. Arnnbirne frænda narfasyne gef ec þær iiij ær sem hia honum erv oc þar til kapal.

33. Gudrunu kristeforus Dottr a hole gef ec hundradz hest og þar til qu nema hun vilie helldr asaudar quijllde.

34. Hallgerde a harrastodum gef ec quijllde sem hia hennar manne er[1]).

35. Sveine jonssyni heim j snogsdal gef ec hundradz hest oc konu hans Þuride gef ec ku.

36. Item xx alner hverre vinnukonu heim j snogsdal.

37. Gudmunde jonssyni sem geymer fie mitt j snogsdal gef ec kuigu þa sem hia honum er.

38. Sveine magnussyne gef ec tuæuetran kapal og anan tuæuetran jone laugusyni.

39. Olafe einarssyni vetrgamlan.

40. Pal Þorgeirsson gef ek kuittann vm sína landskylld.

41. Gudlaugu bauduars Dottr gef ec þreuetra kuigu.

42. Hier med gef ek stulku arna a melum j hrutafirde er her nafnn þorunar minnar heitinnar .ij. q(uijlldi) hia arna bonda gislasyni og .ij q(uijlldi) a balkastodum og iij ær feck ek henne j vor ed var þar til skipa ek henni iij ær svo hun eigi v~~c~~.

43. Annare stulku er heiter þorunn Dotter gudrunar gudmundar Dottr gef ec .v~~c~~. hia gudrunu minne einarsdottr.

44. Pilte sveins a kyrunnarstodum er heitinn er epter einare minum gef ek ij quijllde af þeim viij sem hann hefr til leigu oc þar til ij gelldfiar hundrud. anad j saudum anad j nautum og hest. erv þad v~~c~~.

45. Stulku brandz bonda einarssonar er heiter þorunn gef ec iiij quijllde er ek a j byggingu hia Þorualldi bonda einarssyni og hid fymta a oddastodum hia asgrime.

46. Pillte arna bonda oddzsonar er heiter einar gef ec v~~c~~ og skal hann taka j þau .iij. malnytu q(uijlldi). er ec a hia steindore bonda finsyni og hid fiorda a þvera hia orme og et fymta j seluelle hia þorolfe.

47. Biarna bonda sumarlidasyni gef ek smiortunnu j sidu-

---

1) Dregið yfir þessa grein í hdr.

mula og kvittan vm þad qnijllde sem ec atti hia honum oc þar til skipa ec honum hest.

48. Sveine jonssyne[1]) a birnastodum[1]) gef ek kvittan vm sína landskylld.

49. Sera freisteine grimssyne gef ek adra smiortunnu j sidumula.

50. Orme bonda sturlasyni gef ec smiortunnu j hofnn ok kvinnu hans þorbjorgu gamallt naut og þad vil ec gjalldizt j hofnn.

51. Aunnu minne bjarnardottr gef ek jordina hofnn j huamssveit og jordina birnastade iiijc og xx. Teig xc holIt xvjc iiij quijllde oc xx þar til med fyr skrifudum jordum. Og þar til viijc j hestum og fridum peningum ok aunr viijc j daudum peningum þarfligum. reiknazt þetta hundrad hundrada. Skal hun þessa peninga eignazt til frials forrædis.

52. Halbiorgu mine biarnardottr systr hennar gef ec anad hundrad hundrada. atta tige .c. j jordum og iiij q(uijllde) og .xx. viijc j hestum og fridum peningum og aunr viijc j daudum peningum þarfligum. Skal hun eignazt j fyr skrifad hundrad hundrada jordina harrastadi á fellsstrond iiijc og xx j stadarfells kirkiu soknn og jordina breidabolstad j somu kirkiu soknn og jordina hellu xvjc og hafstadi xvjc j somu kirkivsoknn oc reiknazt þetta atta tige. c. j jordum.

53. Einare minum einarssyne sem j haufnn skipa ec j sín þionustulaun iij malnytu quijllde og hundrad j fridum peningum og friduirtum. einn hest hefr hann vt tek(it).

54. Gudrunu minne Palsdottr skipa ek j sín þionustulaun iiij malnytu quijllde med þeim viij am edur x sem hun atte þa hun kom til min vr selardal oc þar til skipa ec henne gelldfiar hundrad.

55. Grime og þorbiorgu j sidumula skipa ec j sín þionustulaun iij malnytu quijllde. gelldfiar hundrad ok hundrad j Daudum peningum þarfligum. Svo og skal þad ecki til reikningsskapar koma vid þau sem eg hefe haft firir þeirra bornum.

56. Þuride einarsdottr gelld ek og skipa j sín þionustu-

---

1) Svo í hdr.

laun iiij malnytu quijllde og eitt. c. j godum peningum þarfligum þeim sem henne likar vel.

57. Haullu jonsdottr a saudaferle vil ec vt greidiz þau ij asaudar quijllde og ij kyr sem hun a hia mier og hestr sa sem vngr er og vel er reitt.

58. Skula syni hennar gef ec v[c] j godum peningum med þvi sem hann erfde epter sinn faudr. nu gef ec honum þar til aunnr v[c] skulu þau vera j malnytu. iij gelldfiar hundrud og hestr svo hann eigi x[c].

59. Stulku a saudaferle sigride þorlaksdotter vil ec vt gialldizt þau v[c] sem hun a hia mier.

60. Þordi halldorssyni brodrsyne minum gef eg halfa tungu j hördudal. xij[c] ad dyrleika og þar med viij q(uijllde) og jordina vik j trekyllisvik .xij[c] ad dyrleika og þar med iij q(uijllde) ok þar til gef ec honum ij[c] j busgagne sæng fyrir eitt .c. gelltt naut fyrir .j[c] og kapal.

61. Gudmundi halldorssyni brodr hans gef ek jordina nordtungu j þverarhlid v[c] og xx. þar med gef ec sigride halldorsdottr[1]) hafafell oc þar med vj q(uijllde).

62. Ingibjorgu [halldors[2]) dottr systr hennar gef eg jordina kallbak nordr a bolum3) xij[c] ad dyrleika og þar med .v. q(uijllde).

63. Finne frænda halldanarsyne gef ec eyre j bitru oc þann forna attahring sem þar er. A kirkian þar XXX asauda og þar med .v. kyr. Enn alltt anad sem þar er afgangs af fridum peningum og ofridum þad vil ek ad allt færizt heim j snogzdal.

64. Jone frænda olafssyne gef ec jordina solheima j laxardal og þar med vj quijllde.

65. Modr hans ingegerde systr minne gef ec hornnstade og þar med vj quijllde.

finis.

---

1) Jónsdóttur (!), Hist. Eccl.

2) [gat á frumritinu; Jóns (!) Hist Eccl.

3) Hist. Eccl.; hdr.: bo . . . (máð af).

*Frásögn Daða um yfirgang Jóns biskups við sig og hans Sauðafellsför.* [Hist. eccl. II. 745—754].

Svofelldan framburð og lýsing hef eg, Daði Guðmundsson, að framsegja um áreiðir og fjárupptektir, sem þeir biskup Jón og hans synir gerðu mér í haust, þá þeir riðu heim á Hvamm í Hvammssveit á laugardaginn næstan fyrir Mikaelsmessu Anno 1548. Í fyrstu riðu þeir heim á mína þrjá garða: Sauðafell, Snóksdal og Hvamm, með sitt fólk tilreitt með vopnum og týgjum, spyrjandi að hvar Daði væri með mörgum spés-(al. blóts)-orðum og brúkaraskap segjandi: Honum væri nú nær að vera heima, og forsvara þær hans sakir, sem Jón biskup mætti honum tiltala, og hefur mér sagt verið, að hann hafi latið lesa stefnu upp á sínar sakargiptir. Í annan máta klaga eg það til biskups Jóns og hans fólks, að um sumarið áður hann veitti mér heimsóknina, lét hann taka sex hesta fyrir mér, og það góz sem á þeim var, á fimmtudaginn næstan fyrir Pétursmessu og Páls. Hér með lét hann slá mína menn og handdraga af þeim verjur, og aðra þá peninga er eg hugði mér til þingskostar. Svo og lét hann grípa fyrir mér sex voðir vaðmáls úr kirkjunni á Þingvöllum í engri minni heimild, hvor vaðmál eg hef enn nú eigi aptur fengið. En þá biskup reið heim á mína þrjá áðurnefndu garða, var eg í engum þeim stað staddur, þá biskup Jón og hans menn þar komu; óttuðu þeir mína konu og mitt fólk. Hér með höfðu hans menn í burtu úr áðurskrifuðum Hvammi tvær bækur þar úr kirkjunni frá prestinum séra Magnúsi Jónssyni, messubók og Davíðssaltara. Item brutu þeir upp byrðu í kirkjunni, og köstuðu henni fram í forkirkjuna, brutu hana sundur í mola; var mér sagt að það gert hefði Ari Jónsson. Item voru mér aðrar fjárupptektir gerðar á öðrum peningum í sömu reisu, að upp voru brotin þrjú hús í staðnum, höfð í burt ein tunna skyrs (al. og annar meiri matur), en spilltur hálfu meiri matur, og öllu rótað og úr lagi fært, það kyrt átti að vera. Item hafði mitt fólk hyrdt nokkra peninga í hrískestinum, svo þeir höfðu sjálfir virt það tólf (al. sjö) hundruð, og það höfðu þeir mest með sér, það sem þeim þótti peningavert vera. Höfðu þeir með sér tólf fjórðunga smjörs, skóleður og klippinga það sem til var, fjögur færi og eitt skinnfæri fimmtugt, mælis-ketil og fjórðungsketil, sextán öngla,

járn undan 10 hestum (al. undir sextán hesta) eða fleiri, svo mínir menn sáu. Hér með lét biskup Jón leggja eld í hrísköstinn þar, svo þeir sögðu hann mundi að kolum brennt hafa, hefðu góðir menn ei sín ærleg orð til lagt. Item eptir þessar heimreiðir og fjárupptektir hefur mér sagt verið, að þráttnefndur biskup Jón hafi sent sína presta og marga menn aðra hingað í sveit, að lesa yfir mér og mínum mönnum bannbréf og forboð, svo og sækja mig á mitt lögheimili, og færa mig norður til Hóla undir lausn og skriptir, hvað eg veit ekki betur fyrir guði og mönnum, en hann hafi engin andleg né veraldleg ráð yfir mér hér í Skálholtsstipti. Hef eg orðið (upp á peninga og annan kostnað) að halda styrk á móti hans umsátri.

Á öðru sumri komandi, þá datum var 1549, vildi biskup Jón ríða á mitt heimili um vorið eptir páska, hélt eg þa fram yfir fardaga sextíu menn, stundum áttatíu eða fleiri; en þá hann vissi það, sneri hann af, og suður í Borgarfjörð; reið hann þá heim á mína jörð, Signýjarstaði, og markaði þar fyrir mér níu málnytju kúgildi, og lýsti undir sinn lás og eign alla þá peninga, sem þar stóðu saman, svo þá sem öðrum mönnum tilheyrðu. Eptir það um haustið sendi hann sonu sína Björn og Ara vestur fyrir jökul, og sóttu þangað herra Martein biskup í Skalholti, með hundrað hermenn eður fleiri; höfðu þeir og Árna prófast í Hítardal heim í Snóksdal til mín, og settu þar tjöld nærri túninu, skrifuðu mér til heim með hugmóð og hoffferðugheit, „að eg skyldi nú sækja þá upp yfir túnið, og þeim lægi nú meira á, en þá eg hefði verið fyrir hermannaflokki í Skálholti, og varið sínum föður biskup Jóni dómkirkjuna þar, svo hann hefði ei matt hreinsa hana af vonskulegri (al. þeirri nauðsynlegri) saurgan og svívirðingu, sem henni í langan tíma ókristilega gerð hefði verið; svo og hefði hann ei tilkomizt að gera þar aðra biskuplega skyldu, sem væri kennimannlegar vígslur og kristinna barna fermingar og annað þvílíkt biskupslegt embætti að veita".

Á þriðja ari þá datum var 1550, reið biskup Jón og hans synir heim á minn garð Sauðafell í Breiðafjarðardölum, með níutíu menn, og settist þar á staðinn; gerði þa rað fyrir að taka alla mína peninga, kvika og dauða, fasta og lausa, og voru þar þá með honum Björn og Ari; hafði Ari þa lýst

Sauðafell sína eign. En þá eg spurði þeir væru komnir, reið eg úr Snóksdal og upp til Sauðafells, og nokkrir mínir menn með mér, þeir sem eg þenkti mér mundi með trúfesti til styrks vera, á fimmtudaginn næstan fyrir Michaelsmessu. Og þá eg kom svo nærri staðnum, gengu þeir bræður Björn og Ari með sína menn og biskupsins á móti oss; og þar þeir sáu vær mundum heim ríða, gengu þeir heim aptur og stóðu þar við staðinn fyrir syðri dyrum staðarins, en Ari og nokkrir aðrir menn með honum voru uppi á staðnum, og settu byssur á mig og mitt fólk. Riðum vær heim á túnið og tókum oss stöðu á einum hól móts við þá. Var séra Björn þar hjá þeirra fólki og sagði: „Þér er bezt að fara heim aptur og binda inn nautin". Þá sagði eg til séra Björns: „Þér er bezt Björn og biskup Jón að hafa ykkur héðan, því eg vil fullkomlega hafa minn stað, hús og heimili, hér á Sauðafelli, frjálslega fyrir mig og mitt fólk, hvað það vill kosta um það úti er dagurinn. Þá svaraði séra Björn mér svo: „Svei þér og farðu heim aptur, Daði, því ekki áttu í Sauðafelli, og aldrei skaltu eigandi að því verða". Þá talaði eg til Orms Sturlusonar svo: „Ef þú ert einn dugandismann, svo sem þér ber að vera, þá segðu nú upp á þín sannindi, hvort þu hefur nokkrum manni selt eður veðsett Sauðafell öðrum fyr en mér, eður hvort þú hefur selt það nokkrum þessum mönnum?" Þá sagði hann þar þvert nei fyrir, að hann hefði selt þeim það, en sagðist það kennast, sem okkar kaup og gerningar inniheldu (um heldi). Þá svaraði séra Björn til í annað sinn, segjandi og sveiandi mér heim aptur í þrjár reisur, og sagði að eg skyldi aldrei Sauðafells aðnjótandi verða, fjandans strákurinn, og spurði mig, hvort eg vissi ekki hvernig eg væri getinn. Þá talaði Ari heitinn (al. bóndi) Jónsson til mín: „Þér er bezt að fara heim aptur, Daði, því hér verða æfintýri í dag, ef þú fer ei heim aptur". „Yður er bezt, Ari bóndi", sagði eg, „að hafa yður á burt af staðnum, og þér skuluð mega fara frjalsir og óhindraðir fyrir mér og mínum mönnum hvert þér viljið, og þeir dándismenn og dugandi sveinar, sem hér eru með biskupi Jóni og ykkur bræðrum, Birni og Ara, því fullkomlega ætla eg staðinn að hafa, aður en úti er dagurinn. Svo og skal hverki biskup Jón og séra Björn héðan fara óhindraðir, utan þeir vilji ganga að þeim boðum (al. þess-

um kostum) sem eg býð þeim, að þeir fari burt af staðnum fríviljuglega, og gefi mér og mínum mönnum dag, og svo hverjir öðrum til alþingis að sumri komanda, og eigumst vér þá rétt lög við um það, sem hverjir mega þá til annars tala". Þetta bauð eg þeim í þrjár reisur eður optar, þá heyrða eg svar séra Björns, en ei biskups Jóns né Ara. Sagði séra Björn þá: „Svei þér Daði, óþokkastrákurinn, ei ertu þess verðugur, að þér sé nokkur dagur gefinn". Þá setti séra Gísli Finnbogason á mig byssu og mína menn, og fleiri menn aðrir; þá voru og nokkrir þeir, sem með mér fóru, að hlaða garð undir þær byssur, sem mér til komu. Kallaði eg þá að þeim, að þeir skyldu flýta sér og snart búnir vera. Þá töluðu við mig nokkrir þeir dandismenn, sem voru í selskap með biskupi Jóni; stóð eg þá til baka með mitt fólk á meðan. En þá eg kom heim aptur á hólinn, var mér sagt að biskup Jón og hans synir væru komnir upp til kirkju; voru byssur þær, sem biskupi tilkomu og hans mönnum, komnar upp á kirkjugarðinn og á litla tópt, sem þar er hjá; var þá séra Gísli Finnbogason og nokkrir menn aðrir þar hjá byssunum, og settu byssurnar upp á mig og mína menn. Þá talaði eg til eins þeirra og spurði hann að heiti, sá sagðist Gísli heita. „Ertu þann sami Gísli Finnbogason (sagði eg) sem setur á mig byssurnar?" „Já", sagði hann, „það geri eg að skipan míns húsbónda biskups Jóns Arasonar, og ekki munuð þér straffa mig þar fyrir. „Það er vel", sagði eg, „fyrst það er hans skipan". Stóðu þá biskupsmenn og þeirra bræður með lagvopn (al. langvopn) og uppdregin sverð og hanzka og nokkrar byssur í kirkjugarðinum fyrir framan kirkjudyrnar. Þá talaði eg til minna manna: „Þér skuluð bíða hér eptir hjá byssunum þrjátíu eða fjörutíu, þeir sem ótígjaðir eru, en vær skulum ganga heim að kirkjugarðinum, og þeir sem mér vilja trúlega fylgja". Þá gekk eg heim fyrir sunnan kirkjuna og nokkrir mínir menn með mér, en sumir mínir menn gengu heim fyrir norðan kirkjuna, og þá eg kom heim fyrir kirkjuvegginn, setti Ari Jónsson á mig byssu, en einn minn maður sló neðan undir með lagvopni, þa lossaði hún fyrir ofan höfuðið á mér; þá skaut og annar þýzkur alla götu hja kinninni á mér. Þá sagði eg að mínir menn skyldu ganga að í fjandans nafni. Þá sá eg séra Björn Jónsson í kirkjudyrunum

með nakinn korðahníf og bað fjandann að eiga mig og sagði: „Við skulum fundnir en ekki skildir, og vær skulum hitta þig í annað sinn". Var þá Ara bónda hrundið inn í kirkjuna. Nokkrir menn aðrir tróðust þá inn í hana, og létu hana aptur, báru fyrir hana kistur, og annað það sem í henni var. Fengu þá nokkrir menn norðlenzkir ákomur í kirkjugarðinum. Minnist eg þá ógerla, hvernig fram fór um vor viðskipti upp fra því, utan það minnist eg að Jón Jónsson í Bæ kom að mér, og sagði að sonur sinn Sturla væri í kirkjunni, og bað mig að hann skyldi ná honum í burtu þaðan. Gekk hann þá að kirkjudyrunum og var þar langan tíma, biðjandi að hann mætti ná syni sínum í burtu þaðan. Var enginn gaumur (al. rómur) gefinn að hans orðum. Kom hann þá enn til mín aptur, bað mig fyrir guðs skuld að sjá nokkur ráð til, svo hann næði sínum syni óhindruðum í burtu. Var ein fjölin framan úr bjórnum (al. kórnum) á kirkjunni, þá skipaði eg að slá í burtu aðra fjölina, svo þessi dandismann fengi sína bæn, þá fór hans sonur þar út og nokkrir menn aðrir, þeir eg vissi ekki af í kirkjunni voru. Eptir það lét eg hafa hönd (al. höndlan) á biskupi Jóni og hans sonum Birni og Ara og nokkrum mönnum með, lærðum og leikum; hélt eg þeim í varðhaldi til föstudags; lét eg þeirra menn lausa, en optnefndan biskup Jón og hans sonu Björn og Ara hafði eg í haldi í þrjár vikur og tvo daga betur, og það þykist eg gert hafa upp á trú og hollustu við minn náðuga herra konung, eptir þeim bréfum, sem hans náð og herradómur hefur innsent í landið næstu þrjú sumur forliðin. Lét eg þar með þessa þrja menn lausa með tólf manna dómi, tillagi og samþykkt Orms Sturlusonar, sem segir sig lögmann vera Sagði eg þá ur minni ábyrgð með vottum. Eptir það tók Christian skrifari, kongsins umboðsmann, þá í sína vakt, eptir þeim dómi, sem þar um var gerður, og aldrei komu þeir í mína varðveizlu né minna manna, upp frá því þeir riðu af hlaðinu í Snóksdal, sem mörgum dandismönnum er vel kunnugt, og eg trúi mer muni vitni að verða, ef þörf gerist. —

Svolatandi bréfsorð sendi eg, Daði Guðmundsson, þeim feðgum, áður en eg reið upp til Sauðafells:

Guð gefi yður góða og kristilega staðfestu í öllum nauðsynjum ærlegir dándismenn, lærðir og leikir, sem nú til sam-

ans komnir eru á Sauðafelli í Breiðafjarðardölum og heimilisfastir eru hér í Skálholtsstipti. Yður vil eg kunnugt sé, að eg berst fyrir að ríða á mína eign Sauðafell í dag að forfallalausu með guðs tilsjá. Því er það mín bón og ráð, að þér sláið yður ekki inn til nokkurs fylgis eða liðsinnis með biskup Jóni Arasyni og hans fylgjurum, því fullkomlega skal eg þangað minna húsa og heimilis leita með öllum þeim styrk og manndómi, sem minn skapari vill mér þar til veita. Þurfið þér ekki hér í að efast. Og fyrir það yður megi mín skrásett orð trúleg virðast, þá þrykki eg mitt signet á þetta pappírsblað. Skrifað í Snóksdal nú í morgun. Hér með yður undir guðs náð befalandi.

---

Konungur hafði skrifað Daða, (sem áður er sagt), að fanga Jón biskup og gert hann friðlausan, og hafði því Daði allan rétt til þessa fyrirtækis. Þó sýnist hann mest þar til knúð hafa, að hann varð að verja fé sitt, og pintingar, sem hann sá sér búnar, ef fangaður yrði.

Svo lítur út, sem Daði hafi verið ágengur við sér minni menn í fjárheimtum, hvar til átyllu gefur bréf Kristjáns kongs 1555 til Daða, í hverju kongur skipar Daða að halda ekki jörðinni Brautarholti fyrir Nikulási Björnssyni; hafi téður Nikulás rétt borið málið undir kong. En mest mun hafa verið orsök, að Danir síðar vildu koma fé Daða undir kong, einasta fégirnd að ná hans mikla auð, og fundu til hans legorðssakir, fyrir hverjar hann þá hafði tekið kvitteringar og þar að auki konungs verndarbréf.

1563 þriðjudaginn fyrir Símonsmessu og Judæ um veturinn voru í dóm nefndir af velburðugum Eggert Hannessyni lögmanni norðan og vestan að Snóksdal Pétur Einarsson, Brandur Einarsson, Steindór Finnsson, herra kongsins kennimenn og eiðsvarar: Oddur Tómasson, Tyrfingur Halldórsson, svarnir lögréttumenn: Bjarni Oddsson, Jón Ólafsson, Bjarni Sumarliðason, Arnór Helgason, Jón Steindórsson, Ólafur Þorleifsson. Þorleifur Bjarnason að skoða og fullnaðardómsatkvæði á að leggja eptir lögum, hver vera skyldi löglegur umboðsmaður og svarandi fyrir öllum þeim gózum, görðum og lausafé, fasteign, gripum og gangandi fé, sem átti hafði Daði heitinn Guðmundsson, hverja peninga að greindur Eggert Hannesson taldi sínum bróðursyni Hannesi Björnssyni, sem þá var

í ómagavist, til fullrar eignar og erfðar fallið hafa eptir sinn móðurföður Daða Guðmundsson etc. og hvort nokkur annar þættist réttilega til þessa arfs kominn. Svöruðu Daða skilgetnir bræður og aðrir þar til „nei" etc. Skoðuðum vér hans ætthring á báðar síður. Kom fyrir oss, að tvær hans systur, skilgetnar og samfeðra voru til arfs næstar eptir hann og voru báðar í ómagavist etc. Kunnum þeim því ei umboðið að dæma. Í annan máta var föðurmóðir skilgetin Guðrún húsfreyja Björnsdóttir hin eldri, hverja vér vissum mjög aldraða kvinnu og nú lítt færa etc. Kunnum því ei henni umboðið að dæma. Í þriðja lagi var móðurmóðir skilgetin Guðrún húsfreyja Einarsdóttir á aldur við hina. Kunnum henni því ei umboðið að dæma. (Fundu þeir engan nærstaddan þar til jafn hæfan sem Eggert lögmann og dæmdu honum umboðið). En þá ákæru, sem fógeti Páll Stígsson hefur til gózanna og sendi sinn umboðsmann, Andrés Hoffmann, að uppskrifa gózin vitum vér ei, að Daði heitinn hafi það ódáðaverk unnið, að þess þurfi, og dæmum vér að svo standi til næsta alþingis. En Eggert lögmaður með tilstyrk Jóns bónda Halldórssonar annist öll fé Daða etc. etc.

## Þorleifur Pálsson.

(Sjá um hann við Dalasýslu). Eg meina, að Þorleifur hafi tekið Snæfellsnessýslu 1542 eða 43, þá hann gerðist lögmaður. Hann lét 12 manna dóm ganga á Fáskrúðarbakka 1542 um ýmsar jarðariptingar, er Solveig móðir hans hafði átt, með fleiru þar að lútandi. Ei hefur Þorleifur lengur haldið þeirri sýslu en til 1548, þá Ormur tók hana. Klaustrið að Helgafelli með öllu umboðinu hélt Daði í sífellu frá 1543 til 1558. Góðir vinir voru þeir Daði og Þorleifur.

## Ormur Sturluson.

*Faðir*: Sturla sýslumaður á Staðarfelli Þórðarson bónda samastaðar (sjá áður).

*Móðir*: Guðlaug dóttir Finnboga lögmanns Jónssonar.

*Kona*: Þorbjörg dóttir Þorleifs sýslumanns á Möðruvöllum Grímssonar sýslumanns samastaðar Pálssonar. Þau giptust 1535, voru þá bæði 19 vetra.

*Börn:* A. Gunnlaugur í Leyningi átti Halldóru laundóttur Þorleifs sýslumanns Grímssonar[1]), þ. b.:

a. Halldóra átti Pétur son Gunnars á Víðivöllum í Skagafirði Gíslasonar[2]).

B. Guðlaug Ormsdóttir, ágæt kona, giptist að sögn í Borgarfirði.

C. Sturla fór utan, mannaðist ekki, kom út, var aulatetur, giptist ei né átti börn.

D. Helga Ormsdóttir, deyði í bólu ógipt og bl.

E. Ólafur. Hann telja sumir föður Markúsar í Héraðsdal (sjá Hegranesþing), þó er það óvíst.

Ormur fæddur 1516 eða 1517[3]) mannaðist vel og fór utan ungur. Hélt sér þar til frama og lifði ríkmannlega. Hann var skrautmenni og kvennamaður. Hann hefur farið utan (máske í 2. sinn) 1546 eða þar um, og þá gefið prinzinum lúðurinn. Kongur Friðrik II. fæddist 1534 dag 2. júní, sýnist þa sem Ormur hafi gefið honum hér um 12 vetra gömlum lúðurinn nálægt 1546. Í þeirri utanferð Orms mun L. Mule hafa fengið skipun að fá Ormi embætti etc. Svo bar við, þá Ormur var staddur a verthúsi nokkru, hafði hann fallegan silfurlúður og hengdi hann þar á nagla. Prinzinn með sínum hofmeistara kom þar inn, tók lúður Orms, sá á og spurði: „hver ætti svo fallegan lúður", Ormur svaraði: „Hann er yðar herra, ef yður þóknast". Prinzinn leit til síns hofmeistara í þeirri von, að hann betalaði lúðurinn, en þá hofmeistarinn gerði það ekki, fór prinzinn þeim orðum um, að Ormur skyldi finna sig náðugan herra, ef sér auðnaðist að fá meiri ráð.

Nú kom Ormur út og giptist Þorbjörgu, sem áður er sagt 1535; er mælt þau hafi þá bæði verið 19 vetra. Meina eg hann byggi embættislaus á Staðarfelli um hríð. Þó mun hann hafa farið utan um 1540 og í þeirri ferð fengið það fríheita bréf, sem hann útkominn skírskotar til 1542 í jarða-

---

1) Halldóra kona Gunnlaugs hefur sjálfsagt ekki verið dóttir Þorleifs Grímssonar (sbr. aths. við I. 106). S. k. Gunnlaugs mun hafa heitið Guðrún Magnúsdóttir, eða svo er hún nefnd í skjölum.

2) Um afkomendur Péturs og Halldóru, sjá I. B. 354—356.

3) 1516 mun réttara (sbr. aldur hans, er hann kvæntist).

þrætumáli við Þorleif lögmann Pálsson (sjá Dalasýslu) um jarðirnar Orrahól, Kjallaksstaði, Emburhöfða og Ormsstaði og missti Ormur þeirra eptir dómi. Óvild mikil kom millum Orms og Daða og einkum Þorleifs lögmanns. Er að sjá, sem Ormur hafi utan farið nálægt 1546 og afflutt mjög fyrir Þorleifi lögmanni og Daða, sem ráða má af bréfi Daða til hirðstjórans L. Mule, (sem hér er á undan). Einnig er mælt, að Ormur hafi afflutt Pétur Einarsson.

Nálægt 1547 sýnist sem Ormur hafi farið utan og fengið lögmannsdæmi, einnig Snæfellsnessýslu 1548 ásamt lögmannsdæminu, því 1549 í dómi í Snóksdal nefnist hann lénsmaður í Þórnessþingi. Ei er víst, hvort þar með er meint utan Snæfellsnessýsla. Ekki er eg viss um, að Ormur hafi fengið lénið fyr en 1548, að konungur veitti honum Munkaþverárklaustur, hverju hann þó ekki náði fyrir valdi Jóns biskups, fyr en að honum latnum. 1548 tók hann Snæfellsnessýslu, og þá Þorleifur Pálsson frásagði sér lögmannsembættið og Daði vildi ekki við því taka, gerðist Ormur lögmaður. Þá lét hann og dóm ganga um mál þeirra biskups Jóns og Daða (sjá hér á undan). Aptur á Sauðafelli 1550 ætlaði hann þing að setja, en Daði, sem þekkti óvild hans og Jóns biskups, trúði honum illa og afsagði þar nokkurt þinghald. Ormur hafði í bréfi sínu lofað herra Birni á Melstað að vera honum hjálplegur að koma lögum yfir Daða og aðra í sínu lögdæmi og vera hans trúfastur vinur, ef séra Björn héldi sitt bréf og boðskap við sig, dat. Staðarfelli fimmtudaginn fyrir pálmasunnudag 1550. Þetta hafði Daði njósnað, því vildi hann ei þing Orms á Sauðafelli.

Ormur frambar síðan, að eptir beiðni biskups Jóns hefði hann ætlað að setja þing á Sauðafelli, þar Jón biskup kvaðst ei geta komið lögum yfir Daða, hefði sér ei liðist að halda þingið, því Daði hefði bardaga byrjað, slitið þingfrið sinn og kirkjufrið, er hann sem lögmaður kvaðst hafa þar sett. Er af þessu auðsætt, að Ormur hefur lítið gefið sig að því, þó kongur væri búinn að gera Jón biskup friðlausan og boðið Daða að fanga biskup, en til lítilla heilla mundi Daða hafa orðið þinghöld og dómur Orms í það sinn. En þá biskup var fangaður samþykkti Ormur þann dóm, er þá gekk.

Ormur hafði mikið yfirlæti og reið með 18 sveina, því

hann var í fyrstu mjög auðugur. Voru honum talin til giptingar VI hundr. hundr., en Þorbjörgu konu hans III hundr. hundr. (Sumir segja helmingi meir hverju þeirra, og enn aðrir, að Ormur hafi talið sér til giptingar 3 hundr. hundr., í föstu og 1 hundr. hundr. og 40 hundr. í lausafé, en Þorbjörgu voru talin í föstu 2 hundr. hundr. og 80 hundr. í lausafé).

Var nú uppgangur Orms sem mestur. Hann var mikill eyðslumaður. Sumt jarðagóz var af honum brigðað, sumt seldi hann ýmsum, svo sem Daða Sauðafell, en Árna Gíslasyni Staðarfell. Hann lét og hvern fá það, sem hann beiddi; var það hans orðtak: „Það skalt þú hafa". Var ekkert hóf á örlæti hans.

Ormur svallaði með ýmsum konum giptum og ógiptum. Þrisvar var hann í haldi á Bessastöðum og keypti kona hans hann út þaðan með ærnu fé. 1551 eða 1552 sleppti Ormur Snæfellsnessýslu, þá Daði tók hana, en það sama ár 1552 tók hann Húnavatnssýslu í lögmannslaun.

1551 lét Þorleifur Grímsson dóm ganga í Spjaldhaga um Munkaþverárklaustur, sem kongur fyr hafði veitt Ormi, og dæmdist Ormi klaustrið eptir kongsbréfinu. Nú risu upp óvildarmenn Orms, átöldu dóma hans, þar hann hefði dæmt hvern dóm móti öðrum. Hann galt ekkert eptir klaustrið, því tók hirðstjórinn það af honum 1553 og sama ár missti hann og lögmannsembættið, sem Oddur Gottskálksson þá tók. En Munkaþverárklaustur tók þá Grímur á Möðruvöllum Þorleifsson. 1553 ritar kongur Kristján 3., þó Hvítfeld hafi haft orsök að taka klaustrið og lögdæmið af Ormi, þá skuli Ormur hér eptir vera lögmaður norðan og vestan og Húnavatnssýslu í lögmannslaun utan 5 marka sektir og þar yfir, kongi skuli hann gjalda skuld sína, áður en hann fái téð embætti. Það gat Ormur ekki, náði því ekki embættinu.

Þá Ormur hafði svoleiðis misst lögmannsembættið og allar aðrar sínar veitingar (klaustrið og Húnavatnsþing) fór hann utan nalægt 1557, veitti konungur honum ennþá lögmannsembættið og Húnavatnssýslu, þó mátti hann ekki lög segja fyr en hann hefði borgað skuldir sínar eptir klaustrið. Þegar Ormur kom út hafði Eggert Hannesson tekið lögsögu norðan og vestan í skiptum við Pál lögmann Vigfússon. Ormur

heimti að sér væri afhent lögmannsembættið, en Eggert vildi ekki láta laust, brá honum og brigzlum. Misbrestur varð og á skuldalúkningum, gat hann því ekki öðlast honum lofuð léni. Hélt þá Ormur sér uppi hér í landi um hríð til þess Þorleifur sýslumaður á Möðruvöllum Grímsson deyði 1560. Tóku þeir Ormur og Staðarhóls-Pall sig þá saman, þóttust eiga vegna kvenna sinna allan arf eptir Þorleif og settust á Möðruvelli, en ráku á braut Solveigu Hallsdóttur seinni konu Þorleifs og Guðbjörgu Erlendsdóttur konu Gríms Þorleifssonar. Sátu þeir Páll og Ormur á Möðruvöllum um tvenn misseri, eyddu og spenntu þar öllu því lausafé, er þeir gátu hendur á fest. Jón sýslumaður Marteinsson setti sig þá í móti þeim (sjá þar um við Vaðlaþing).

Þá þeir Ormur og Páll fóru frá Möðruvöllum, var Ormur um hríð hjá frændum sínum og vinum, var hann þá félaus og gerðist lestreki Nikulásar klausturhaldara á Munkaþverá Þorsteinssonar. Þaðan fór hann til Bjarna sýslumanns á Ketilsstöðum Erlendssonar, er átti Guðríði frændkonu hans, tóku þau Orm af hrakningi og var hann hjá þeim um hríð.

Eggert lögmaður Hannesson hafði lagt bann fyrir, að Ormur væri af landi fluttur, því Eggert óttaðist, að Ormur mundi rógbera sig. Guðríður Þorsteinsdóttir, kvinna Bjarna sýslumanns, sinnti því ei, gat hún svo um talað fyrir þýzkum á Vopnafirði, að þeir tóku við Ormi móti því, að þeir mættu láta hann þar á land í Danakongs ríkjum, sem þeim væri auðveldast og hún gæfi þeim gamalt naut fyrir flutning hans. Fór Ormur þá með þeim utan um 1566, létu þeir hann á land í Noregi norðarlega (líklegast í Björgvin). Fór hann þá á fátæki, þar til loks hann komst á fund Friðriks konungs af hendingu einni, gekk í veg fyrir hann í grárri vaðmálshempu, féll á kné og bað um náð. Kongur spurði, hvað hann skaðaði eða hver hann væri. Ormur sagði til sín og eymdarhags síns. Kongur kannaðist við hann og spurði, hvort hann væri sá, er sér hefði fyr gefið lúðurinn. Ormur játaði því. Þá bauð kongur að gefa honum klæði góð og peninga til að lifa af, skipaði honum aptur lögmannsdæmið og Barðastrandarsýsluafgjald, að undanteknum 30 marka sökum í lögmannslaun. Það skrifa og sumir, að hann hafi og gefið honum afgjald af Möðruvallaklaustri og þar að auki verndarbréf.

Ormur kom út 1568, lét hann þá við Vallalaug tvo menn sverja fjórmenningsmægðir með Þorleifi heitnum Grímssyni og Solveigu Hallsdóttur og lét dæma sér af Möðruvallaarfi Silfrastaði, er Brandur Ormsson þar þá bóndi hafði hlotið með Hallóttu konu sinni, dóttur Þorleifs heitins Grímssonar. En Eggert lögmaður hafði áður látið dóm ganga, að þeir meinbugir stæðu ei fyrir réttri arfatöku, því kongur hafði með bréfi sínu innsendu í landið aftekið, að fjórmenningsskyldleikar skyldu metast meinbugir í arfatekjum. En Ormur tjáði það kongsbréf hér ekki hafa verið birt, þá Þorleifur og Solveig hefðu gipzt; stóð svo um hríð.

Þetta sumar (1568) dæmdi Ormur ½ Svignaskarð og ½ Munaðarnes Þórdísi dóttur Henriks Gerkens. Ormur setti og alþing eptir skipun höfuðsmannsins Henriks Krag, kom Ormur þó ei fram sinni lögsögu á alþingi, því Eggert lögmaður mótstóð honum og brá brígzlum og því síður fékk Ormur Barðastrandarsýslu undan Eggert, en höfuðsmaðurinn deyði. Þá stefndi Ormur Eggert lögmanni fyrir kong, en Jón Marteinsson stefndi Ormi fyrir það hann hefði fallið inn í sitt embætti í Vaðlaþingi, og fóru þeir síðan utan 1568 Ormur og Staðarhóls-Páll, Jón sýslumaður Marteinsson og með honum sveinn hans Jón frá Vindheimum, sem síðar varð lögmaður. Þann vetur var af konungi og hans ríkisráði samið um Möðruvallaarf, svo að fyrri konu börn Þorleifs skyldu taka hálfan og seinni konu börn hinn hálfan, en Staðarhóls-Páll skyldi hafa auk skipta Möðruvelli eptir framvísuðu gjafabréfi; hlaut þá Ormur enn mikið fé. Kristofer hirðstjóri Valkendorph kom út um vorið, samt Ormur lögmaður og aðrir, er utan höfðu farið hið fyrra árið. Var Möðruvallaarfi skipt á Bessastöðum þann 4. júlí 1569 af hirðstjóra Valkendorph, Gísla biskupi Jónssyni, Eggert lögmanni Hannessyni, Erasmus Villadssyni, Nikulási Ólafssyni skrifara, Magnúsi Jónssyni sýslumanni (frá Ögri), Gísla sýslumanni Sveinssyni á Miðfelli og Jóni Jónssyni (bróður Magnúsar). Að frá reiknuðum Möðruvöllum kom í hvern helming fimm hundruð hundraða sextíu og eitt hundrað; hefur Ormur þá fengið tvö hundruð hundraða níutíu og hálft hundrað. Nú lét höfuðsmaðurinn Orm dæma á alþingi öll mál úr norður- og vestur lögdæminu; þá lét hann dóm ganga um fé Daða og tildæmdi kongi þar af 500 rd. specie. 1569 lét Ormur

lögmaður ganga dóma um Vallholt í Skagafirði og Eyvindarstaði í Blöndudal. Höfuðsmaðurinn bar þá sáttmála millum Orms og Eggerts lögmanns og aðrir beztu menn, sættust þeir að kalla; óvíst er og, hvort Eggert sleppti þá Barðastrandarsýslu við Orm. En þetta ár ítrekaði höfuðsmaðurinn veiting Eggerts fyrir Ísafjarðarsýslu og skipaði honum prófasts dæmi. Ormur hélt nú lögsögninni um hríð. Hann dæmdi 1571 á Spjaldhaga um Tungufell, en 1572 um Reykhóla og tjölda annara dóma lét hann ganga, þótti hann hlutsamur og dæma eptir eigin þótta, en ei altíð eptir landslögum; urðu því dómar hans óvinsælir. Báglega hélzt Ormi enn á fé, var hann optast á ferðalagi um lögdæmi sín. Þar kom loks, að Ormur missti lögsögu með dómi 1573 og voru sakargiptir þær hvar fyrir hann missti lögmannsdæmið þessar, eptir skrifi séra Jóns Halldórssonar:

1º. Klagaði Jón Jónsson Snæfellsnessýslumaður 1572 fyrir Jóhanni Bucholt Orm að hann hefði sett sig í hans sýslu, þingað þar og úrskurðað um mál, sem Jóni tilheyrði.

2º. Jón Marteinsson sýslumaður í Vaðlaþingi klagaði, að Ormur hefði látið ríða heim á eina jörð Jóns og reka þaðan 5 málnytjukúgildi, án vilja landsdrottins og leiguliða. Item að Ormur lögmaður hafi riðið heim á einn bónda, Jón Björnsson, hafi slegið og dregið hann og binda látið og kúgað til að marka með öðru marki sjálfs síns eign, því hann þóttist eiga af bóndanum landskuld af Fornhaga, sem ekki var satt.

3º. Að Ormur hefði í Vaðlasýslu kvittar gefið þær sakir, sem honum komu ei við (Allar þessar aðgerðir Orms voru dæmdar ógildar etc.).

4º. Hann hafði skriflega klagað fyrir cancelleranum, að hann fengi ekki lög og rétt yfir Jóni Marteinssyni, en hefði sjálfviljugur sættst við Jón fyrir þinglok. (Þetta dæmdist rógur).

Ormur vildi enn nú reyna lukku sína og komast á konungsfund, fór því utan 1574; var hann þá orðinn mjög hniginn að aldri og var í húsi Jóhanns Schowgaards, hvar Íslendingar höfðu þá kynni. Þar deyði Ormur 1575[1]) og þykir hann hafa verið hinn mesti æfintýramaður, tjáist hann þá enn hafa verið orðinn snauður. Margt var vel um Orm, hann

1) Hann hefur þá verið tæplega sextugur.

varð með aldrinum háttaprúður og ólatur til dómaraverka. Góður maður að náttúru, en þótti óheill, metorðagjarn, fésinkur stundum, en annað kastið fram úr hófi örlátur og jákvæðinn, eyðslumaður hinn mesti, bæði með fé sitt og konu sinnar Þorbjargar.

Þá Ormur var í fátækt sinni var Þorbjörg kona hans um hríð á Öngulsstöðum hjá Helgu Aradóttur, systurdóttur sinni, í svo litlu yfirlæti, að hún bar út ösku og inn vatn.

Ei vita menn, hvort Ormur komst á kongsfund í sinni síðustu utanferð. Ekki er heldur fullvíst, hvort hann hélt Snæfellsnessýslu árin 1548—1550, þó það sé flestra meining. En sýslumaður kallast hann þar 1550. Er ekki ólíklegt, að hann hafi henni sleppt 1551, er hann tók Munkaþverárklaustur og Húnavatnssýslu, að minnsta kosti að afgjaldi, en Daði þá tekið hana (ɔ: Snæfellsnessýslu).

Þá Jón Finnbogason sleppti Möðruvallaklaustri 1547 veitti Jón biskup Arason það Birni officialis Gíslasyni eptirgjaldslaust um sína tíð. 1550 náði Ormur því klaustri, en missti það 1551, og 1551, þá Jón biskup var fráfallinn, tók Björn veiting höfuðsmannsins Otta Stígssonar fyrir því klaustri fyrir 12 specie rdl. afgjald. 1552 veitti Páll Hvítfeld honum það fyrir 20 rdl. afgjald og 1553 fyrir 30 rdl. afgjald, en úr því fyrir 60 rdl. afgjald til þess hann sleppti því 1566, (séra Björn lifði fram yfir 1590), þá séra Halldóri var það veitt fyrir 100 rdl. afgjald; hélt hann því 4 ár. Kristján kongur III. hefur 1569 dag 29. apríl útgefið Ormi Sturlusyni veitingarbréf fyrir Möðruvallaklaustri. Valkendorph fylgdi fast að því, að Ormur næði klaustrinu 1569. 1570 kom höfuðsmaðurinn Jóhann Bucholt út og tók Möðruvallaklaustur af Ormi, þar afgjaldið brast. Varð Ormur eptir höfuðsmanns Jóhanns Bucholts skipun að afhenda klaustrið Benedikt ríka Halldórssyni 1570 dag 13. júlí.

## Eggert lögmaður Hannesson.

(Sjá um hann við Gullbringusýslu og Ísafjarðarsýslu). En þessa sýslu og Helgafellsklaustur eða Stapaumboð fékk Eggert sér veitt, þá Daði sleppti hvorutveggja 1558, sem sjá má af veitingarbréfi höfuðsmannsins Knúts Steinssonar[1]). En eg

---

1) Það bréf er dagsett 4. júlí 1558.

hygg hann hafi hvorutveggja sleppt fyrir 1560 (víst er um sýsluna). Umboðsmaður hans hygg eg hafi verið Moldar-Brandur, heldur en hann hafi haft veiting fyrir sýslunni 1559—1560. Eggert fékk kongsveiting fyrir Helgafellsklaustri 1559 dag 5. marz, átti að gjalda eptir það 10 lestir fiska. Það frásagði hann sér um 1561.

## Moldar-Brandur Einarsson.

*Faðir*: Séra Einar Ölduhryggjarskald Snorrason.

*Móðir*: Ingiríður Jónsdóttir systir Stefáns biskups.

*Fyrsta kona*: Halla dóttir séra Ólafs Kolbeinssonar í Saurbæ.

*Börn*[1]: A. Séra Þórður í Hjarðarholti átti Þóru Guðmundsdóttur, börn:

a. Pétur á Fellsenda, skynsemdarmaður og skáld, átti fyr Efemíu dóttur Þorleifs Bjarnasonar, þeirra dóttir:

aa. Kristín átti Símon Gíslason og börn. Önnur kona Péturs Sigríður Böðvarsdóttir, þeirra börn:

bb. Guðmundur átti Önnu Pálsdóttur og barn.

cc. Bjarni á Fellsenda f. m. Steinunnar Daðadóttur og börn.

dd. Efemía átti Steindór Jónsson og börn.

ee. Jón.

ff. Ingunn.

gg. Sigríður.

b. Guðmundur Þórðarson átti Helgu Magnúsdóttur, börn:

aa. Bjarni átti Hlíf dóttur Odds Magnússonar og börn.

bb. Magnús á Skiphyl átti Þjóðhildi Hallsdóttur og börn.

cc. Guðmundur á Arnbjargarlæk átti Guðrúnu Þórðardóttur og börn.

dd. Þórður átti Sesselju Kolbeinsdóttur og börn.

---

1) Um flest börn Moldar-Brands og næstu afkomendur þeirra er áður talað í athugasemdum við II. B. bls. 281—285 og vísast til þess hér.

ee. Elín átti Rögnvald Olafsson Péturssonar og börn.
ff. Guðrún átti Jón Ólafsson og börn.
gg. Oddný átti Ketil Hildibrandsson og barn.
hh. Oddhildur seinni kona Sigurðar Þórhallssonar og börn.
c. Brandur Þórðarson átti Helgu dóttur séra Jóns á Prestbakka, bl.
d. Björn Þórðarson átti fyr Önnu Arnórsdóttur (sjá Strandasýslu). Seinna átti Björn Oddnýju Sigurðardóttur, þeirra börn.
aa. Sigurður átti Þorkötlu Þórðardóttur og börn.
bb. Þórður í Garpsdal lögsagnari (sjá Barðastrandarsýslu).
cc. Gyríður átti fyr Guðmund Ólafsson síðar Pétur Guðmundsson og börn.
dd. Anna átti Magnús á Kambsnesi Pálsson og börn.
e. Sigríður átti séra Brynjólf Bjarnason í Hjarðarholti, bl.
f. Ingibjörg Þórðardóttir átti Svein Ólafsson, börn:
aa. Séra Þórður í Ögursþingum dó 1667.
bb. Ólafur átti Ragnhildi Runólfsdóttur og börn.
cc. Sigríður átti Jón Þórðarson og börn.
dd. Þóra átti Jón Þorsteinsson yngra.
B. Séra Ólafur Brandsson á Kvennabrekku átti fyrst Ingibjörgu Guðmundsdóttur, þeirra börn:
a. Guðmundur átti fyr Oddfríði dóttur séra Nikulásar í Hítarnesi, börn:
aa. Séra Nikulás í Flatey átti Ingibjörgu Þórólfsdóttur og börn.
bb. Ólafur lögréttumaður í Ytra-Skógarnesi átti Þóru Ólafsdóttur og börn.
b. Jón Ólafsson síðasti maður Valgerðar Ólafsdóttur, barnlaus.
c. Sigríður átti Bergþór Bjarnason, börn:

aa. Þorgils átti Guðrúnu Jónsdóttur og börn.
bb. Bjarni átti Ingibjörgu Jónsdóttur, bl.
cc. Ingibjörg átti Jón Jónsson og börn.
dd. Vermundur.
ee. Hallur.
ff. Gísli.

d. Halla Ólafsdóttir átti Eirík Þorvarðsson, bl.

Önnur kona séra Ólafs Þuríður úr Skálholti, barnlaus.

Þriðja kona séra Ólafs Valgerður dóttir séra Stefáns á Undirfelli, börn:

e. Séra Sigurður í Miðdalaþingum fyrri maður Ragnheiðar Eggertsdóttur bl.

f. Kjartan á Hamraendum í Stafholtstungum átti fyr Björgu, þeirra börn:
aa. Ólafur átti Kristínu Magnúsdóttur, bl.
bb. Þorkatla átti Starra Árnason í Sólheimatungu og börn.
cc. Stefán lögréttumaður á Hvanneyri átti Guðrúnu.
dd. Eirný átti Jón Arnbjörnsson í Stafholtstungum og börn.
ee. Guðrún átti Jón Jónsson í Þingnesi og börn.

g. Árni Ólafsson á Kolbeinsstöðum átti Sigríði (dó 1698, 88 ára) Jónsdóttur, barn:
aa. Ólafur átti Ingibjörgu Þórðardóttur frá Smiðjuhóli og börn.

h. Þorvaldur Ólafsson faðir Þorvalds og Valgerðar.

C. Þorvarður Brandsson átti Gróu Guðmundsdóttur, börn:

a. Björn átti Guðrúnu Ólafsdóttur, þeirra börn:
aa. Ingibjörg átti Kolbein Jónsson frá Öndverðarnesi og börn.
bb. Þorsteinn átti norðlenzka konu og börn.
cc. Jón átti Sigríði Jónsdóttur og börn.
dd. Bjarni átti Guðrúnu Bjarnadóttur og börn.

ee. Guðrún átti Jón Pétursson, þeirra börn dóu.

ff. Sigríður giptist í Eyjafjörð, var bl.

gg. Gróa átti Ingimund á Saxhóli, barnlaus.

b. Sigríður Þorvarðsdóttir átti séra Ólaf Erlendsson, börn:

aa. Séra Erlendur á Melstað átti Þórunni Þorvaldsdóttur og börn.

bb. Séra Þorvarður á Breiðabólsstað norður átti Valgerði og börn.

cc. Gísli á Ánastöðum átti Gyríði Ólafsdóttur og börn.

dd. Björg átti séra Svein á Barði og börn.

c. Halla Þorvarðsdóttir átti Ólaf son Þórðar Gunnlaugssonar, börn:

aa. Ingiríður átti Sighvat Jónsson í Sellóni og börn.

bb. Guðrún átti Guðmund úr Vestureyjum.

cc. Karítas átti Jón Hrómundsson og börn.

dd. Gróa átti fyr Sigurð í Vík, barnlaus, svo Egil Ólafsson.

d. Karítas Þorvarðsdóttir átti séra Sumarliða í Blöndudalshólum og Bergsstöðum norður.

D. Bjarni Brandsson lögréttumaður (dó af munnbita) átti Guðrúnu Guðmundsdóttur, þ. b.:

a. Páll átti Guðrúnu Guðmundsdóttur, þ. s.:

aa. Bjarni deyði í Hollandi, barnlaus.

b. Guðmundur drukknaði fulltíða í Lóni, bl.

c. Sigríður Bjarnadóttir átti Þórð, meinast barnlaus.

d. Þórunn. Óljóst er mér um hennar afkomendur.

E. Guðrún Brandsdóttir átti Bjarna smið Egilsson, börn:

a. Páll í Skógarnesi átti Þorlaugu Sigurðardóttur, börn:

aa. Tómas samastaðar átti Sigríði Helgadóttur og börn.

bb. [Guðrún] átti Helga Jónsson í Hrútsholti og börn.

b. Tómas í Borgarholti átti Kristínu Ásmundsdóttur, börn :

aa. Ólafur í Ytra-Skógarnesi atti Þuríði Magnúsdóttur og börn.

bb. Helgi átti Margrétu Jónsdóttur og börn.

cc. Hrómundur á Elliða, átti Málmfríði Finnsdóttur og börn.

dd. Grímur átti Karítas Erlendsdóttur og börn.

ee. Ástríður fyrri kona séra Jóns Ormssonar, þeirra dóttir.

aaa. Ingibjörg, barnlaus.

ff. Salbjörg átti Halldór Jónsson í Borgarhreppi og börn.

gg. Elín átti Bjarna Erlendsson á Kaðalsstöðum og börn.

hh. Helga átti Þorkel Erlendsson á Rauðanesi (bróður Bjarna) og börn.

*Önnur kona* Brands Einarssonar var Sigríður dóttir Finns a Ökrum Arnórssonar, Finnssonar; þeirra börn.

F. Elín átti Þorleif son Bjarna Þorleifssonar í Stóraskógi, Guðmundssonar, Andréssonar; börn.

a. Þórður átti Ingibjörgu dóttur Gísla eldra Jónssonar; börn.

aa. Þorleifur búðarmaður á Sandi átti Guðrúnu Bjarnadóttur.

bb. Gísli átti Helgu Andrésdóttur úr Eyrarsveit og börn.

cc. Jón átti Þorgerði Guðmundsdóttur og börn.

dd. Jón yngri átti Vigdísi Jónsdóttur frá Dalsmynni og börn.

ee. Gróa átti Sigurð Gunnlaugsson (al. Gíslason) Hallssonar.

ff. Elín átti Ögmund launson Björns Össurssonar.

b. Jón Þorleifsson átti Dýrfinnu Þorleifsdóttur, Gíslasonar; þeirra son:

aa. Tómas átti Oddnýju Svarthöfðadóttur og börn.

c. Þorvarður Þorleifsson átti fyr Margrétu; þeirra börn:

aa. Guðrún átti Jón Snorrason Ólafssonar.

bb. Elín.

Með seinni konu sinni átti Þorvarður þrjá sonu, þeir áttu og afkvæmi.

d. Sigríður eldri átti Jón Ketilsson, þeirra börn:

aa. Gísli á Hrafnkelsstöðum átti Ingibjörgu og börn.

bb. Sesselja.

cc. Ketill átti Ástríði og börn mörg.

e. Sigríður yngri Þorleifsdóttir átti Gísla Guðmundsson; börn:

aa. Sigríður átti Þórð í Neshrepp og 3 pilta.

bb. Sesselja átti Jón Guðmundsson á Hróðnýjarstöðum og börn.

f. Gróa átti Torfa í Fíflholtum Ólafsson; þeirra börn.

aa. Vigdís átti Martein á Grímsstöðum Arason og börn.

bb. Guðrún Torfadóttir átti Jón Snorrason.

g. Guðný Þorleifsdóttir átti Snorra Jónsson á Hnausum; börn:

aa. Elín átti Gísla Jónsson Kolbeinssonar.

bb. Þorleifur.

cc. Þórdís.

h. Guðrún Þorleifsdóttir.

G. Valgerður Brandsdóttir átti Orm Erlingsson[1]), börn:

a. Þorsteinn á Stökkum átti Guðnýju dóttur séra Magnúsar Eyjólfssonar: þeirra börn.

---

1) Ormur var son Erlings á Brjánslæk Gíslasonar frá Haga Filippussonar og Kristínar Ormsdóttur, bróðurdóttur Guðna Jónssonar í Ögri.

aa. Jón í Dalshúsum átti Ingibjörgu Jörundsdóttur, barnlaus.
bb. Ingibjörg átti Björn Bjarnason.
cc. Sigríður í Keflavík móðir Ólafs og Helga.
b. Jón átti Kristínu Ólafsdóttur.
c. Þóra kona Þórðar Jónssonar, barnlaus.
d. Einar í Stóru-Hvestu átti Þuríði Árnadóttur[1]).
H. Þórunn Brandsdóttir átti Gísla á Ánastöðum, Einarson, barnlaus.

Uppvöxtur og menning Brands Einarssonar er mér óljós, og eigi hefi eg fundið markvert um hann að rita, fyrr en 1549 þá hann bjó á Snorrastöðum giptur, og Jón biskup Arason á yfirreiðum sínum gerði honum þar heimsókn með liðsfjölda. Brandur var hóglátur og skipti sér lítið af deilum biskupanna, átti hann mörg börn og hýsti vel jörð sína, var hann að húsastarfi, er biskup Jón með flokk sinn reið vestur um Mýrar, og lét flytja hnaus úr flagi; ferð biskups og hans manna bar skjótar að, en Brand varði, sá hann ser því ei færi undan að komast, en vænti lítils góðs af biskupsmönnum, sakir frændsemi og mægða við Martein biskup og Daða í Snóksdal. Veggjasmiðurinn réði Brandi að hafa verka- og klæðaskipti við þann, sem flutti úr flaginu og svo gerði hann. Í því komu biskupsmenn, voru þeir gemsmiklir og spurðu mjög að Brandi, sögðu hann maklegan til hrakninga nokkurra eða kúgunar, var þeim sagt hann væri ekki heima, en þeir tortrygðu og vildu gera þar óspektir. Kona Brands gat náð fundi biskups og bað hann fagurlega grátandi að vægja manni sínum og barnahóp. Biskup spurði hana að Brandi, en hún kvað hann eigi heima, og létzt ei vita, hvar hann var. Í annan stað kallaði veggjasmiðurinn mjög að þeim, er torfið flutti, svo biskup og hans menn heyrðu á, og bað hann hraða sér, og láta eigi skorta hleðsluhnausinn. Brandur fór ei að síður seint og letilega að verkinu, þar til hinn hljóp að honum reiðuglega og sagði, að sá letingi svikizt helzt um verkið, er húsbóndi hans væri fjarri staddur, sem hann væri vanur, og laust hann með saurugum moldarvöttum gildan snoppung á báðar kinnar, með fleirum at-

1) Þuríður kona Einars Ormssonar var dóttir Árna Björnssonar á Sauðafelli og Önnu Björnsdóttur Hannessonar (sjá hér áður).

vikum sama háttar. Brandur þagði og þoldi þá umvöndun, en biskupsmenn hlógu að og grunaði ekki. Biskup bað þá ríða og mælti: »*Látið hann vera hann moldar-Brand*«. Var hann svo kallaður síðan Moldar-Brandur. Reið biskup sína leið og skildi þar með þeim.

Brandur gerðist lögréttumaður, og var hann orðinn það 1565, þá hann var í dómi Henriks Krag í Miðgörðum. Hann bjó síðar í Hítarnesi; er líkast að Marteinn biskup hafi veitt honum það og máske fleiri léni. 1560 nefnist Brandur kongsumboðsmaður í Snæfellsnessýslu, er hann var í arfaskiptum milli þeirra bræðra Halldórs, Jóns og Geirmundar Guðlaugssona, en Pétur bróðir hans er þar næst undir það bréf skrifaður og nefnast þá ei völd hans. Líklegast er að Brandur hafi ei veiting haft, heldur verið umboðsmaður Eggerts lögmanns frá 1558—1560, þó er það ekki fullvíst, því máske sýslan hafi þá verið skilin frá umboðinu. Brandur var í Stóradómi 1564 og lifði lengi þar eptir[1]).

## Pétur Einarsson.

(Sjá um hann við Gullbringusýslu og Kjósarsýslu, ásamt Dalasýslu). Þá hann bjó á Arnarstapa mun hann hafa tekið Snæfellsnessýslu 1561 líka máske Arnarstapaumboð, þá Eggert lögmaður slepti því. En allar sínar veitingar misti hann 1563, þá hann var af valdsmönnum kongs á Bessastöðum ásakaður fyrir margt, einkum kaup á Arnarstapa, hvern þeir tóku af honum. En til viðurlags fyrir byggingar þar fengu þeir honum Elliðaey 1565 (M. Ketilsson: Forordninger og aabne Breve II., 55—58) fyrir góðra manna bæn og tilhlutun. En þá hann misti sín léni og til þess honum væri óhættara við harðræði af Dönum, vígðist hann til Hjarðarholts í Dölum 1564, dó eptir 1580.

## Hinrik Krag

danskur, var fyrst umboðsmaður hirðstjórans Páls Stígssonar yfir Vestfirðingafjórðungi, en tók Snæfellssýslu og Stapaumboð 1564[2]) líkast eptir Pétur Einarsson. 1565 útnefndi hann

---

1) Hann dó 1598 í Hjarðarholti hjá séra Þórði syni sínum, og segir séra J. H. (í ættat. sínum) að legsteinn hans sé þar fyrir framan kirkjudyr yfir gröf séra Páls Péturssonar frá Álptamýri († 1731).

2) 1561 8. júní er getið um dóm hans í Miðgörðum (Hdr. J. S. 64 fol. landsbókasafninu). Þeir bræður Pétur og Brandur Ein-

í Miðgörðum 12 manna dóm um fátæka menn þann 7. maí, voru þar fyrstir dómsmenn Þorleifur Einarsson, Brandur Einarsson, Árni Oddsson (og 9 aðrir). 1566 þann 1. maí í Staðarsveit útnefndi Hinrik Krag í dóm Þorleif Einarsson, Brand Einarsson, Steindór Finnsson, Jón Halldórsson, Árna Oddsson og 7 aðra að dæma um gjaftolla og tíundir. En sama haust fór Hinrik utan, þá Páll Stígsson dó, og fékk hirðstjóraembættið eptir hann, en deyði sjálfur 1598. Henrik Krag tjáist að hafa verið ágætismaður og stjórnsamur. Hann fór utan 1593 og tók áður sinn vitnisburð, kom út 1594 og spurði þá lögmenn um verð á 64 kúgildum, er erfingjar Nikulásar Þorsteinssonar vildu ekki borga, þá út var svarað Munkaþverárklaustri eptir hann andaðan[1]).

## Marteinn Erasmusson,

danskur maður, gerðist umboðsmaður Henriks Krag sýslumanns, þá hann fór utan og hélt bæði Stapasýslu og umboðið og upp á reikning að vísu fyrst. Umboðshaldari nefnist hann 1570 og Stapasýslumaður er hann 1580. Hefur hann haldið bæði umboðinu og sýslunni fram yfir 1580, en ei veit eg víst, nær hann sleppti þeim lénum eða deyði. Ef það er rétt, sem séra Jón Halldórsson skrifar, að Jón lögmaður Jónsson hafi haft Snæfellsnessýslu 1572 hefur Marteinn þá að vísu haft Stapaumboð og kannske hálfa sýsluna móti Jóni eða Marteinn verið Jóns umboðsmaður í sýslunni. Óvíst er og, hvort Jón lögmaður hef-

---

arssynir hafa líklega verið umboðsmenn Eggerts Hannessonar á árunum 1558—1561.

1) Við þetta gerir Bogi svolátandi athugasemd: »Hér verður missögn með hirðstjóra; nokkrir segja, að sá Hinrik Krag, sem hélt Snæfellsnessýslu hafi dáið 1568, en það hafi verið annar Henrik Krag, sem seinna varð hirðstjóri og dó 1598«.

Líklegt er, að þessi Hinrik Krag, sýslumaður í Snæfellsnessýslu og Hinrik Krag, er síðar varð hirðstjóri um 1590, sé einn og sami maður, og það hyggur séra Jón Halldórsson í hirðstjóraannál sínum (Safn til sögu Íslands II 720—724). En annar Hinrik Krag hefur það verið, er höfuðsmaður varð næst eptir Pál Stígsson (bróður sinn?) og hann er talinn dáinn 1568. Þó er nokkuð óvíst um þetta, hvor þessara Hinrika, hinn eldri eða yngri, hafi verið sýslumaður í Snæfellsnessýslu.

ur þar eptir sífellt haldið Snæfellsnessýslu, en líkara hann hafi sleppt henni fram yfir 1590 og máske ekki tekið hana með umboðinu fyr en 1598 algerlega[1]).

## Páll Einarsson.

*Faðir*: Séra Einar á Staðastað Marteinsson biskups.

*Móðir*: Þórunn dóttir séra Ólafs í Hjarðarholti Guðmundssonar, er seinna varð Strandasýslumaður (sjá þar).

*Bræður* Páls: Einar og Ólafur dóu báðir utanlands barnlausir. Hinn þriðji bróðir, Þórður, dó og utanlands, en hafði áður átt laundóttur með Ólöfu Bjarnadóttur frá Yxnakeldu[2]), hét Guðlaug, hana átti Steindór sýslumaður Finnsson.

*Systir* Páls var Guðrún, sem átti fyr Jón lögmann Jónsson, en síðar Steindór sýslumann Gíslason.

Páll lærði og fór ungur utan til frömunar og fékk sér veitta Snæfellsnessýslu og Stapaumboð, eg meina það hafi verið 1588 eða máske 1598[3]) sama ár og Jón lögmaður giptist Guðrúnu systur hans, og hafi Páll verið umboðsmaður Jóns lögmanns til þess hann dó, (þó aðrir setji það 1628, minn grundvöllur meðal annars er það, að faðir hans, sem dó 1604 var fyrir hans sýslu það eptir var ársins, þá hann dó).

---

1) Marteinn Erasmusson kvæntist haustið 1580 Þórunni dóttur Steindórs Finnssonar á Ökrum (sjá Strandasýslu II. B. 365) og áttu þau 2 dætur: Guðrúnu konu Sigvalda á Kjalveg og Ingveldi (Ættat. séra Jóns Halldórss.) Í Miðgarðadómi 25. okt. 1570 kallar Marteinn sig »konglig Maistate fovite yfer Snæfellznes syslu oc almenniligan profast þess sama takmarks« (Artíðaskrár J. Þork. bls. 251—252). Hve lengi Marteinn hafi haldið umboðsmennskunni eða hvenær hann hafi dáið er óvíst, en lifað hefur hann nokkuð fram yfir 1600, því að 18. maí 1606 er hann einn dómsmanna í dómi á Kaldárbakka útnefndum af Jóni lögmanni Jónssyni (Lbs. 69 4^to^.) Lítur út fyrir, að hann hafi þá verið valdalaus og ekki einu sinni umboðsmaður. Hann mun hafa búið á Ingjaldshóli að minnsta kosti um hríð.

2) Þórður var málari. Ólöf barnsmóðir hans giptist síðar Jóni Bárðarsyni, er lengi bjó á Yxnakeldu, en síðar í Keflavík undir Jökli og dó þar gamall.

3) Það er rangt, því að Páll drukknaði 1590 (sjá hér síðar).

Páll drakk hja þýzkum við Fremribúðir, en þá hann ferðaðist þaðan drukknaði hann í þeirri sömu ferð í Búðaós[1]) og var ei fullt ár valdsmaður þar í sýslu. En faðir hans sá um hans embætti það sem eptir var ársins (sjá presta-annál). Páll tjáist að hafa verið geðmenni mikið, góður silfursmiður. Ógiptur og barnlaus. Eg meina hann tæki Snæfellsnessýslu næst eptir Martein Erasmusson, þó veit eg það ekki víst. Er allt eins víst, að Marteinn hafi verið umboðsmaður Jóns lögmanns Jónssonar fyrir sýslunni, en haft sjálfur umboðið til þess Páll fékk það. En í sýslunni hygg eg að Páll hafi haft umboð Jóns lögmanns.

Af veitingarbréfi Herluff Daae til Gísla lögmanns Þórðarsonar 23. júní 1607, er að ráða, að Jón lögmaður hafi haft þrjá þingstaði í Snæfellsnessýslu, held eg það Hnappadalssýslu, sem lengi var sameinuð Snæfellsnessýslu. Mögulegt er, að Jón hafi fyrir þeim 3 þingstöðum fengið veiting Bucholts 1570 og teljist því Snæfellsnessýslumaður (af séra Jóni Halldórssyni) 1573. En Marteinn var þá og þar eptir Snæfellsnessýslumaður og umboðshaldari, eg held fram um 1590. Jón lögmaður hefur þessum þremur þingstöðum haldið til síns dauða og líklega haft þar umboðsmenn.

## Jón lögmaður Jónsson.

*Faðir*: Jón á Svalbarði Magnússon (sjá Vaðlaþing).

*Móðir*: Ragnheiður „á rauðum sokkum" Pétursdóttir Loptssonar Ormssonar Loptssonar ríka.

*Fyrri kona* Jóns lögmanns var Helga Gísladóttir, systir Árna sýslumanns á Hlíðarenda Gíslasonar. Þau giptust 1574, hún dó barnlaus 1597.

*Seinni kona*: Guðrún dóttir séra Einars á Staðarstað Marteinssonar biskups. Þau giptust 1598, áttu saman 2 eða 3 börn, er dóu fyr en faðirinn[2]).

---

1) Hann sagði áður fyrir dauða sinn, sagði að hann mundi í Búðaós drukkna, eptir því sem hann hafði dreymt fyrir sér um veturinn (Ættat. J. H. og Bisks II 621). Talið er, hann hafi drukknað 1590.

2) Börn þeirra voru ekki nema tvö. Hét annað Einar og lifði föður sinn og erfði hann, en dó svo, og erfði þá móðirin allt.

Jón Jónsson er borinn 1536 á Svalbarði á Eyjafjarðarströnd. Ólst hann þar upp í barnæsku og mannaðist vel. Jón fór svo í þénustu til séra Björns Gíslasonar, sem þá hélt Möðruvallaklaustur. Hefur Jón biskup Arason veitt honum það 1547, en 1551 fékk hann Otta Stígssonar veiting, til þess 1566, að hann sleppti því,

Jón reisti síðan bú á Vindheimum á Þelamörk og bjó þar um hríð. Þá Möðruvallaarfaþrætur yfir stóðu og Jón sýslumaður Marteinsson fór utan 1568 gerðist Jón, (er þá var kallaður Vindheima-Jón), sveinn nafna síns og fór utan með honum. Hjá Jóni sýslumanni Marteinssyni fékk Jón í kaup 20 hundr. jörð.

Sögn er hann hafi þá afflutt mág sinn Gunnar Gíslason, er þá hélt Reynistaðarklaustur, því hann fékk fyrir sjálfan sig konungsveiting 2. apríl 1569 fyrir því. Hann kom út ásamt öðrum, sem utan fóru fyrra árið og var við skipti á Möðruvallaarfi á Bessastöðum 1569. Flutti svo á Reynistaðarklaustur, en Gunnar flutti þá að Víðivöllum (sjá Hegranesþing). Það ár er og flestra meining, að Jón hafi tekið Hegranesþing. 1592 þá Jón fór utan fékk hann ítrekað kongsbréf upp á Vatnsdalsjarðir ds. 3. maí 1593 og annað af sama dato upp á Miðfjarðarjarðir. 1574 giptist Jón sinni fyrri konu Helgu, en 1573 gerðist hann lögmaður N. og V. 1577 náði hann Þingeyraklaustri frá Henrik Gerken (kongsveitingarbréfið er dat. 19. maí 1579) og flutti þangað, en fékk þá Sigurði bróður sínum Reynistaðarklaustur, sem umboðsmanni sínum, en sleppti því klaustri algerlega til hans 1584. Þá Jón varð lögmaður (1573) sýnist hann og hafa sett Sigurð bróður sinn fyrir sinn umboðsmann í Hegranesþingi, en líkast er hann hafi því algerlega sleppt 1578, þá hann tók Húnavatnsþing. Um það leyti tók Jón og Stranda- og Vatnsdalsjarðir og fleiri léni. (Kongsstaðfesting þar upp á dat. 9. maí 1591. Skyldi hann betala kongi árlega 2/3 inntektarinnar eptir klaustrið og sýsluna, þá ný veiting var af kongi honum gefin 11. maí 1591).

---

Guðrún hafði verið treg að giptast Jóni lögmanni, þótti hann »heldur gamlaður« segir séra J. H., enda var hann 62 ára, er hann kvæntist henni.

1577, 21. ágúst seldi hann Nikulási klausturhaldara Þorsteinssyni Vindheima með hjáleigunni Bryta 60 hndr og Syðra-Krossanes 30 hndr. fyrir Víðimýri í Skagafirði 80 hndr. og hálfa Brekku 10 hndr.; voru kaupvottar: Guðmundur Jónsson, Jón Jónsson, Þorsteinn Eiríksson og Jón Jónsson prestar, Benedikt Halldórsson sýslumaður í Vöðluþingi, Jón Illugason, Benedikt Gvöndsson, Jón Jónsson og Guðmundur Ólafsson. Stapaumboð meina eg að Jón hafi tekið um 1589 (eptir Pál) en hvort hann hefir þá tekið Snæfellsnessýslu, eða ekki fyr en 1598 veit eg ekki, þó dómur hans yfir Axlar-Birni á Laugarbrekku 1598[1]) gefi átyllu að hann hafi og sýsluna fyrr tekið. 1572 nefnir séra Jón Halldórsson, að Jón Jónsson Snæfellsnessýslumaður (seinna lögmaður) hafi klagað Orm lögmann Sturluson fyrir að hafa hlaupið inn í sitt sýsluembætti. Af veitingarbréfi Herluff Daae 23. júní 1607 fyrir Stapaumboði og þrem þingstöðum sem sál. Jón lögmaður hafði, er átylla, að Jón lögmaður hafi ei haft utan 3 þingstaði í þeirri sýslu, líklegast Hnappadalssýslu og hafi fengið hana um 1571. Stapaumboð mun Jón ei hafa tekið fyrr en eptir 1590. Mælt er hann hafi í einu haft úti 50 skip undir Jökli, kvaðst þó eigi mundi viðhaldast, ef Þingeyrarklaustur bætti eigi upp.

---

1) Sá dómur mun hafa verið 1596, og Björn það ár hafa verið tekinn af, (sbr. Árb. Esp. V. 84—85) því að 1596 kom fyrir lögréttuna Kastian Bock (eða Back) og beiddist dóms og ráða á því, hvað gera ætti við konu Axlar-Bjarnar, Þórdísi Ólafsdóttur, og er þess getið þar, að Björn sé þá tekinn af. Var sá dómur allrar lögréttunnar, að Kastian útnefndi hið fyrsta hann kæmi heim í sveit 12 menn skynsama og ráðvanda, helming konur og helming karla, til að sverja, hvort þeim þætti líklegra, að hún væri sek eða saklaus. Hefur Kastian þessi líklega verið kaupmaður á Stapa og honum verið fengin Þórdís til gæzlu, því að af þessu verður ekki ráðið, að hann hafi haft nein sýsluvöld í Snæfellsnessýslu um það skeið, enda hefur Jón lögmaður þá haft sýsluna. Þessi lögréttudómur frá 1596 er meðal annars í Lbs. 63[4to], tekinn þar eptir þingbók Jóns lögmanns, svo að um ártalið getur ekki verið vafi.

Síðasti dómur Jóns lögmanns, sem nú er til úr Snæfellsnessýslu er dómur á Kaldárbakka 18. maí 1606 (rúmum mánuði fyrir andlát lögmanns) um kæru hans til Einars Kolbeinssonar (Lbs. 69[4to]).

Jón lögmaður var hinn mesti framkvæmdarmaður og hafði jafnast umboðsmenn sína í öllum lénum. Hann var í vinskap við hirðstjórana, og gat því fengið hjá þeim léni þau, er hann um sókti. Höfuðsmanns veitingu hafði hann fyrst fyrir Þingeyrarkaustri, en þar það þótti ábatasamt, með svo litlu afgjaldi sem Jón borgaði, og margir sóktu eptir því, tók hann kongsveiting 1591 fyrir téðu klaustri upp á lífstíð, en átti þó að svara fyrir það reikningi. Margt hafði Jón lögmaður og Guðbrandur biskup saman að sælda, og féll þeim allvel í fyrstu, en þá fram liðu stundir, tók að grynnast vinskapur þeirra. Þess er getið eitt sinn, að biskup bauð Jóni heim að Hólum til jólaveizlu, kom hann seint um kveld, svo menn voru háttaðir, utan þeir sem áttu að taka á móti lögmanni. Var Jóni veittur góður beini þá kom, og með degi lagt í kakalofn þar Jón var inni, kom biskup til hans og heilsuðust þeir, töluðu um eitt og annað; loks kom þeim ei ásamt, en lögmaður var að taka handlaugar, hristi vætu af höndum sér, svo dropar hrutu á kakalofninn, hvar af hann sprakk. Biskup hafði þar um orð, að lögmaður hefði átt að láta sig gjalda, en ei kakalofninn, þó honum þætti við sig. Eptir þetta bar þeim margt á milli, var og ei annars að vænta við stórmennsku beggja þeirra og ráðríki, kallaði lögmaður biskup svo þrætugjarnan, að hann byrjaði einn óróann, þá annar væri sefaður; mun þar til hafa verið hæfa, því biskup var þá í sínum jarðabrigðamálum og forsvari Jóns Sigmundssonar, var annars kappsamur og ráðríkur, þá honum var ei gert að skapi. Loks kom þeirra á millum fullur fjandskapur, svo hvor klagaði annan. Með beztu manna milligöngu varð þó á alþingi griðum á komið, en sætt sú varð ótrú. Biskup klagaði 1571 og 1572 upp á Barð, er Jón lögmaður eignaði sér, slepti loks lögmaður Barði fyrir tilmæli hirðstjóra, en þóttist verða undir í þeim málum, og greri þar eptir ekki um heilt með þeim. Jón var og þrályndur og vildi ei láta hlut sinn fyrir biskupi. Orsök til óvildar klerkavaldsins við Jón lögmann var ein, að þeir Jón og Þórður dæmdu á alþingi 1574, að hver 3 hndr. í lausafjár dauðum aurum skyldu metast eitt hundrað til tíundar, hvar við klerkum þótti sér ger mikill skaði.

Það sýnist sem ýmsir hafi leitað á aðra, og ýmsir haft rétt eða rangt, þó var optast einhver lagaátylla fyrir því. —

1591 sýnist sem Jón lögmaður hafi utan farið, því það ár fær hann kongsbréf fyrir Þingeyrarklaustri uppá reikning, annað fyrir lögmannslaunum, að skyldu vera fimmtán hundruð a landsvísu. (Aðrir meina hann hafi ei utan farið fyr en 1592). Hann kom til leiðar, að mörg kongsbréf voru þá útgefin, sum þörf. — Hann sýnist hafa ráðið mestu hér a landi af leikmönnum á sínum seinni árum, næst hirðstjórum. Var Jón bæði vitur og lögspakur, framkvæmdarsamur og fjárgæzlumaður, skilgóður fyrir lénum sínum, en kappsamur í malum, þótti þá og lítilmennska að láta hlut sinn. Jón sat optast á Þingeyrum og þar missti hann konu sína Helgu 1597. Þar eptir beiddi hann Guðrúnar á Staðarstað, vildi hún í fyrstu ekki eiga hann, þótti maðurinn gamall, er þá ritað, að faðir hennar séra Einar hafi reiðst við hana og svipt af henni faldinum (svo sem hún hafnaði höfuðprýði sinni). Kaupin gengu þó saman, og giptust þau 1598; eptir það var Jón lögmaður annaðhvort á Stapa eða Þingeyrum og tókust góðar ástir með honum og Guðrúnu konu hans. Að upptelja þá dóma, er Jón lögmaður gekk, er ei minn ásetningur, heldur að geta léna hans. 1569 tók hann Reynistaðarklaustur og Hegranesþing og 1578 Húnavatnsþing, og um það leyti Vatnsdals- Miðfjarðar- og Stranda kongsjarðir.

Nálægt 1589 mun hann hafa tekið Stapaumboð, eða máske 1598 þa hann og hafði Snæfellsnessýslu og þessum lénum hélt hann til síns dánardægurs. Hann var bezti vinur höfuðsmannanna Jóhanns Bucholts og Enevolds Kruse, og hafði Kruse skipað Jón lögmann fyrir sinn umboðsmann, þá hann fór utan 1605; sat Jón lögmaður þá á Arnarstapa. 1606 urðu hirðstjóraskipti, Enevold Kruse sleppti en Herluff Daae viðtók. Hann kom út um sumarið fyrir sunnan, sendi þá strax mann vestur á Stapa og beiddi Jón lögmann að koma á sinn fund. Jón brá við, fór með þénara sína að Bessastöðum, var þar við honum tekið ágæta vel. Jón var þá orðinn fótstirður og þungfær. Var það kveldið fyrir Jónsmessu, sem hann hitti Herluff Daae, sló hirðstjóri þá upp veizlu, og var drukkið fast um kvöldið, féll allt vel á með hirðstjóra og lögmanni. Um nóttina fór Jón til tjalds síns, er stóð við kirkjugarðinn a Bessastöðum, var hann þá ölvaður mjög; er mælt hann hafi þa sagt við smásvein sinn: „Nú skal Gutti

setja ofan;" og óskað sjálfum sér að verða orðinn tvíelleftur. Þar eptir lagðist Jón í sæng sína, voru þeir farmóðir og nokkuð ölvaðir sveinar hans og sofnuðu allir fast. Um morguninn gekk dönsk kona, sem send var eptir lögmanni að tjaldi hans, lá hann þá í sænginni örendur og menn hans sofandi umhverfis hann. Er flestra meining hann hafi kafnað í hægindum dauðadrukkinn. Konan sagði til. Var þá virðuglega búið um lík hans og niðursett hjá kistu Páls Stígssonar höfuðsmanns. Hafði Jón lögmaður þá lifað 70 ár, verið lögmaður tvo vetur hins fjórða tugar, en sýslu og klaustur hafði hann fimm vetrum lengur; hann var vel að sér ger um alla atgerfi, sýslunarmaður mesti, hafði og haft hin mestu léni.

Ekkja hans Guðrún átti þá með honum eitt stúlkubarn lifandi,[1]) erfði það föður sinn, en andaðist nokkru síðar, erfði þá Guðrún barn sitt, hvað þeim bræðrabörnum Jóns lögmanns eirði illa.

Ari sýslumaður Magnússon gaf sig þá fyrir umsjónarmann ekkjunnar, og að svara út lénum hans; er þess getið að helzt yrði um Þingeyrarkirkju útsvar nokkur ágreiningur, sem þó samdist.

Ari tók umboðslaun eins árs Silfrastaði hundrað hundraða.

Jarðagóss Jóns lögmanns var ekki svo mikið sem líklegt mundi vera; þessar eru taldar jarðir í hans dánarbúi:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Silfrastaðir . . | 120 | hndr. | Flutt | 390 | hndr. |
| Víðimýri . . . | 80 | — | Kirkjufell með hjáleigum | 40 | — |
| Brekkukot . . | 20 | — | Háls . . . . . . | 16 | — |
| Stóraborg í Vesturh. | 80 | — | Spjör . . . . . . | 8 | — |
| Vatnsendi . . | 16 | — | Í Bár . . . . . . | 10 | — |
| Ormbaugsstaðir | 16 | — | Yxnakeldur | | |
| Í Fossárdal . . | 10 | — | báðar . . . . . . | 8 | — |
| - Torfustöðum . | 20 | — | Dagverðará . . . . | 16 | — |
| Í landi og reka | | | | | |
| á Skaga . | 20 | — | Tunga í Hörðudal . | 18 | — |
| Mýrar . . . . | 8 | — | Í Rauðamel . . . . | 10 | — |
| Flyt | 390 | hndr. | Samtals | 516 | hndr. |

1) Það var piltbarn og hét Einar, segir séra J. H. (sbr. aths. hér áður bls. 79.

Þar frá gekk Silfrastaðir 120 hndr.
Tilgjöf Guðrúnar voru: Dagverðará,
Tunga og Rauðimelur . . . . . . . 44 — 164 hndr.
Var þá barnsins arfur í jörðum . . . . . . 352 hndr.
Brustu 8 hndr. að arfurinn væri 3 hndr. hndr., en lausafé og silfur var sagt mikið. Guðrún flutti eptir dauða Jóns lögmanns að Stóruborg í Vesturhópi. Guðmundur Stefánsson, sem verið hafði sveinn, skrifari og ráðsmaður Jóns lögmanns, var hjá henni ráðsmaður, þá hún var ekkja, vildi hann feginn eiga hana, og var þeim vel til vina, svo hún var orðuð við hann. Þá hún varð þess vör, sór hún fyrir hann og alla menn, utan Jón lögmann bónda sinn. En jörð gaf hún seinna Guðmundi í þjónustulaun sín. Nokkru þar eptir giptist Guðrún Steindóri Gíslasyni sýslumanni (sjá hér síðar) (Sjá meira um Jón lögmann við Húnavatnsþing).

Það er sögn séra Jóns Halldórssonar, að Jón lögmaður hafi á Bessastöðum um kvöldið, þá hann drakk með Herluff Daae fengið hirðstjóraráð yfir landinu (sem eg meina að sé ei annað en fullmakt hirðstjórans), og hafi þá óskað sér að vera orðinn ungur í annað sinn. Hann hafi þá og ásamt Herluff Daae veitt Sigurði Hrólfssyni hálft Þingeyjarþing. Þá er og sagt, að Jón hafi sagt: „Nú skal Gutti setja ofan«. Það er og sögn, að 1606 hafi Guðbrandur biskup verið snemma á ferli, gengið út og séð ríðandi mann koma, um þingtímann, spurt hann frétta, og hafi hann sagt honum lat Jóns lögmanns, en biskup þá gefið honum 4 rdl. sp. (Hér af ma sjá, að ei hefur verið kalalaust þerrra á milli, þó þeir væru sáttir að kalla).

## Árni Oddsson.

(Sjá um hann við Dalasýslu)[1]. Hann var orðinn sýslumaður

1) II. B. 647—652, og er þar getið framættar Árna að nokkru. Að afi hans hafi verið sá Árni Oddsson, er 1450 keypti 8 hndr. í Brokey af Bessa Einarssyni, getur naumast staðizt. Þessi bréf um Brokeyjarkaup, er Bogi minnist á (II 652) og mér voru ekki þá kunn, eru nú prentuð í Ísl. Fornbréfasafni VI. bls. 50—52. Af þeim sézt, að dóttir þess Árna Oddssonar hefur ekki heitið Þórhalla, eins og Bogi segir, heldur Þóralba (þ. e. Þórálfa eða Þórelfa). Snorri Hallgrímsson maður hennar er ef til vill sá Snorri Hallgrímsson, er kemur við bréf í Eyjafirði 1476. (Ísl. Fornbr. safn.

í Dalasýslu árið 1566, og meina eg hann hafi þá sýslu haldið til hér um 1590, þá Jón eldri tók Dalasýslu, en um það leyti mun hann hafa orðið sýslumaður í Snæfellsnessýslu, þó mun hann varla hafa haft veiting hennar, heldur verið umboðsmaður Jóns lögmanns eða máske Kristjáns Reeb, hafi hann haft sýsluveiting, en frá sýslunni hefur hann verið árið 1596, enda þá orðinn hniginn að aldri. Með Oddi biskupi var Árni í dómi árið 1594 og með Henrik Krag í Miðgörðum 1565, þá lögréttumaður.

## Kristján Reeb,

danskur maður, líkast tilsettur af Bessastaðavaldinu. Hann mun hafa tekið sýsluna nálægt 1596, heldur en verið umboðsmaður Jóns lögmanns. Frá honum slapp fangi 1596[1]) og var hann þar fyrir sakaður, en fékk konungs meðhald í því máli 1599; eg meina hann hafi slept sýslunni nálægt 1598. Hans dóma hefi eg eigi séð. En víst var, að Jón lögmaður hafði Snæfellsnessýslu og Stapaumboð árið 1600.

Hvaða manna hann [þ. e. Kristján Reeb] var er mér ókunnugt, eða hvað lengi hann hélt þar sýslu, en danskur maður hefur hann verið að ætt, og eg ætla hann hafi haft veiting fyrir umboðinu, en verið umboðsmaður Jóns lögmanns fyrir sýslunni.

## Gísli lögmaður Þórðarson.

(Sjá um hann við Árnessþing og Borgarfjarðarsýslu).

Nálægt 1583 sýnist Gísli að hafa haldið Gullbringusýslu og máske Kjósarsýslu, en fyrir 1590 hafði hann tekið hálfa Árnessýslu, en sleppti henni nálægt 1600, tók þar eptir Gullbringusýslu og hélt hana 1603 og Kjósarsýslu 1605. Hann

---

VI. 91—92). Árni Oddsson tengdafaðir hans gæti t. d. verið sonur Odds lögmanns lepps, þó er það ágizkun ein. Samkvæmt þessum nýju skilríkjum er tilgátan í síðari neðanmálsgrein við II. 682 ekki rétt, að því leyti, að Árni Oddsson í Miðgörðum hefur ekki verið tengdafaðir Snorra Hallgrímssonar, heldur þessi eldri Árni Oddsson, sem að líkindum á ekkert skylt við Árna sýslumann í Miðgörðum, eptir því sem áreiðanlegt má telja eptir öðrum heimildum.

1) Sbr. Hirðstjóraannál Jóns Halldórssonar: Safn II., 717.

tók og Borgarfjarðarsýslu um 1606 eða 1605, var þar þó áður lögsagnari föður síns 1597. Snæfellsnessýslu og Stapaumboð tók hann 1607[1]) en sleppti því 1613. Lögmaður varð hann 1606, frásagði sér lögmannsdæmið 1614 Heynessumboð hafði hann til síns dauða. Í lénum sínum hélt hann ýmsa umboðsmenn, meðal hverra í Snæfellsnessýslu dótturmann sinn Jón Magnússon eldra. Gísli deyði 1619.

1608 útnefndi Gísli lögmaður 6 dómsmenn á Ingjaldshóli um sekt þeirra, er selja fisk af sinna húsbænda hlut. Gísli átti árlega að betala eptir sýslunnar 3 þingstaði og umboðið 824 rdl. specie (eptir umboðið 800 rdl. sp. og eptir þá þrjá þingstaði, sem Jón lögmaður hafði 24 rdl. Af sakafalli átti hann að hafa 1/3 part, áskildi kongur sér hvítabjarnarfeldi, hvaltennur, rossmertennur, hvalraf. Gísli skyldi og hafa 5 Stapaumboðsjarðir fyrir vanalega afgipt. Þetta er eptir bréfi Herluff Daae 23. júní 1607 og kongsveiting 14. apríl 1607 (sjá M. Ket. Forordn. safn II. Del. pag. 233 etc.).

## Jón eldri Magnússon.

(Sjá um. hann við Dalasýslu). Hann gerðist umboðsmaður tengdaföður síns Gísla lögmanns Þórðarsonar í Snæfellsnessýslu, og lét þar dóma ganga einkum í málum Jóns Oddssonar. Hélt hann þar um þing á Staðarbakka 1609, annað þing í sama duls- og meinamáli hélt hann á Ballará sama ár þann 6. október. Þriðja þing í sama máli hélt hann í Hvammi í Hvammssveit sama ár, þann 11 desember, öll með 12 mönnum. Hann bjó á Ingjaldshóli meðan hann hafði tengdaföður síns umboð, en mun hafa flutt þaðan að Haga á Barðaströnd, þá hann sleppti því 1613. Jón deyði 1641 í Haga. Hann hélt Dalasýslu nær 50 ár,

## Bjarni Brandsson

nefndi 6 menn í dóm á Kaldárbakka í Kolbeinsstaðahreppi í löglegu umboði Gísla lögmanns Þórðarsonar, kongs umboðs-

---

1) Hann hefur tekið sýsluna þegar við fráfall Jóns lögmanns, því að 14. júlí 1606 dæmir hann á Ingjaldshóli um mála Guðrúnar Einarsdóttur ekkju Jóns lögmanns.

manns í Snæfellsnessýslu, þann 8. janúar 1611[1]) um mann, sem kól.

## Jón lögmaður Sigurðsson.

á Reynistað.

(Sjá um hann við Hegranessþing og við Húnavatnsþing) Hann tók Snæfellsnessýslu og Stapaumboð næst eptir Gísla lögmann Þórðarson 1613 með sömu skilmálum og Gísli lögmaður það hélt, en þóttist ekki geta þar við staðið, sökum afgjalds upphæðar, sleppti því þessvegna 1615. Hann fékk fyrir sinn umboðsmann Steindór Gíslason[2]) (sjá um hann hér síðar).

## Sæmundur Árnason.

*Faðir*: Árni Gíslason sýslumaður, bjó síðast á Hlíðarenda (Sjá Skaptárþing).

*Móðir*: Guðrún Sæmundsdóttir (sjá þar).

*Kona*: Elín (dó 1638) dóttir Magnúsar sýslumanns Jónssonar í Ögri (sjá Barðastrandarsýslu).

*Börn*: A. Árni (sjá síðar) átti Guðrúnu Nikulásdóttur.

B. Magnús[3]) seinast á Hóli í Bolungarvík, átti Sigríði Þorleifsdóttur frá Búðardal (Magnús deyði 1635, kallast af sumum sýslumaður). Þeirra barn:

a. Árni Magnússon átti Þórunni Þorleifsdóttur, þau barnlaus.

---

1) Hafi Bjarni þessi verið sonur Moldar-Brands, sem sennilegt er, þá er ártalið á þessum dómi hans ekki rétt, því að Bjarni andaðist í alþingisreið af munnbita sínum 8. júlí 1610 sbr. II B. 284. Ættat. J. H., Árb. Esp. V. 123 o. fl.).

2) Engir dómar Jóns lögmanns í Snæfellsnessýslu eru nú kunnir svo eg viti, og mun hann aldrei hafa farið þangað vestur. Það er víst, að 1613 hefur Gísli lögmaður sýsluna og 1614 Steindór Gíslason, því að 16. sept það ár útnefnir Steindór Finnsson dóm á Fáskrúðarbakka um ómagaframfæri í umboði Steindórs Gíslasonar (sjá síðar). Hefur þá Steindór í raun réttri tekið við beinlínis af föður sínum, en það getur samt verið rétt, að hann hafi aðeins verið umboðsmaður Jóns lögmanns í fyrstu.

3) Um Magnús Sæmundsson og börn hans sjá II. 87—88.

Launbörn Árna með Guðrúnu Gissursdóttur:
aa. Guðrún eldri.
bb. Guðrún yngri.

(Hin börn Magnúsar Sæmundssonar, sjá við Barðastrandarsýslu og Dalasýslu).

Um börn Magnúsar kvað eitt níðskáld og hrakmenni, sem var þeim illviljaður:

Árni felur og útvelur
inntekt peninga sinna.
Sæmundur borgar, Simbi stelur,
sitt hefur hver að vinna.

Þeir, sem aðrir auðmenn, voru mikið öfundaðir af mörgum.

C. Eggert á Sæbóli, drukknaði 1636, átti Ragnheiði Steindórsdóttur í Múla Ormssonar í Gufudal Jónssonar, (hún var einbirni); börn:
a. Sæmundur (dó 1666) átti 1652 Þuríði Árnadóttur[1]) börn:
aa. Eggert á Sæbóli dó 1719, átti Þorkötlu dóttur Jóns í Flatey, barnlaus.
bb. Þuríður[2]) } barnlausar.
cc. Sesselja[3]) }
b. Helga, dó 1658, átti Snæbjörn Torfason, börn:
aa. Eggert á Kirkjubóli.
bb. Þóra.

---

1) Teitssonar Björnssonar prests á Melstað Jónssonar biskups Arasonar.

2) Þuríður átti fyr Eggert Jónsson frá Flatey Torfasonar, bróður Þorkötlu, er Eggert bróðir hennar átti, áttu 1 barn, dó ungt, en síðar átti hún 1697 séra Halldór Torfason í Gaulverjabæ, reyndust síðar þremenningsmægðir með þeim, og frestaðist hjónaband þeirra um 2 ár vegna þess. Þeirra einbirni Eggert, dó í bólunni 1707. Séra Halldór dó snögglega á Eyrarbakka sumarið 1705, en Þuríður erfði báða menn sína og arfleiddi Orm sýslumann Daðason að öllu fé sínu (sbr. II. 708).

3) Sesselja átti Þorgrím í Svínanesi son Halldórs prests Teitssonar í Gufudal, þeirra börn:

cc. Elín[1]).

c. Sigríður átti Þorleif Magnússon í Haga, dóttir:

aa. Ástríður átti Ara sýslumann Þorkelsson (sjá Barðastrandarsýslu)[2]).

d. Margrét átti séra Teit í Gufudal Halldórsson, barnlaus.

e. Þóra, barnlaus.

D. Guðrún Sæmundsdóttir átti Odd Þorleifsson á Borg[3]) (hann dó 1683, 88 ára, en hún 1661), þeirra börn:

a. Séra Sæmundur í Hítárdal í 16 ár, dó 1687, átti Salvöru Vigfúsdóttur sýslumanns Gíslasonar, þau giptust 1667. Salvör dó 1711, barn:

aa. Margrét giptist 1700 séra Þórði Jónssyni biskups Vigfússonar (sjá Borgarfjarðarsýslu).

---

a. Hallbjörg miðkona Finns Nikulássonar í Skálmarnessmúla (II. 282); þ. b.

aa. Nikulás lögréttumaður í Múla átti Helgu Bjarnadóttur; bl.

bb. Ólafur átti Helgu Þorleifsdóttur prests á Laugabóli Þorlákssonar bl.

cc. Ingibjörg.

dd. Helga.

ee. Sesselja átti Einar lögréttumann Einarsson í Svínanesi (II. 99).

b. Guðrún

c. Þóra.

Það er því ekki rétt hjá Boga hér, að þær Þuríður og Sesselja Sæmundsdætur væru barnlausar, en í II. 73 hefur hann þó farið rétt með þetta.

Systir þeirra er ennfremur talin Ástríður Sæmundsdóttir (svo segir séra J. H.). sbr. einnig II. 73, þar sem Ástríðar er getið, en merkið við hana er þar skakkt, á að vera d.

1) Sjá ítarlegar um þessi börn Snæbjarnar og Helgu II 73—74.

2) II. 120—122.

3) Oddur var son Þorleifs Bjarnasonar í Búðardal og bróðir Benedikts á Háeyri, er átti Halldóru systur Guðrúnar konu Odds (sbr. II. 628).

b. Sigríður gipt 1650 Sigurði sýslumanni á Skútustöðum (sjá Þingeyjarþing).

c. Bjarni deyði barnlaus,

E. Halldóra Sæmundsdóttir átti Benedikt á Hafeyri Skálholtsráðsmann í 13 ár son Þorleifs í Búðardal, er dó 1627, Bjarnasonar, Oddssonar. Halldóra og Benedikt giptust 1629 þann 23. september á Hóli í Bolungarvík, taldi Benedikt til kvonarmundar 1 hndr. hndr. í fasteign (þar í tiltekinn Búðardalur XL hndr. 1/2 Hvalgrafir XV hndr. VIII. hndr. í Sviðnum) og I hndr. hndr. í lausafé; og gefur konuefni sínu XXX hndr. í Akureyjum í tilgjöf og XXX hndr. í lausafé. Sæmundur sýslumaður og Elín Magnúsdóttir töldu Halldóru dóttur sinni 1 hndr. hndr. í föstu og lausu (ɔ: LX hndr. í jörðum: Ós XXIV hndr., Gil XII hndr., Hanhóll XII hndr., Miðdalur XII hndr.) en tilskildu sér allan arð þar af um sína daga og öll umráð; lausafé hálfu XXX hndr. svöruðu þau þá strax; þ. b.:

a. Bergur lögréttumaður á Hjalla dó 1705, átti Ingveldi Jónsdóttur, þeirra börn:

aa. Magnús.

bb. Þorlákur.

cc. Margrét.

dd. Halldóra.

ee. Sigurður Skálholtsráðsmaður[1]). En hórgetinn son Bergs með Guðrúnu Markúsdóttur var:

ff. Markús sýslumaður í Ögri (sjá Ísafjarðarsýslu)[2])

---

1) Sjá um þessi börn Bergs II. 628—629.

2) Bjarni son Markúsar sýslumanns (sbr. II. 236) hefur aldrei verið aðstoðarprestur á Álptamýri, en hann lærði í Skálholtsskóla og er útskrifaður 30. apríl 1749, en skrifaður í stúdentatölu við háskólann 23. des. 1750, komst svo í herþjónustu og var í lífverði konungs, en 4. júní 1751 var hann leystur úr henni (Lovs. for Isl. III. 95—96). Hvað um hann hefur orðið síðan vita menn

b. Elín átti séra Sigurð Torfason, barnlaus.
c. Helga seinni kona séra Þorláks Bjarnasonar, barnlaus.
d. Málmfríður átti Sigurð sýslumann Hákonarson (sjá Skaptárþing) barnlaus.
e. Sigríður átti laundóttur með Magnúsi í Þorlákshöfn Jónssyni, hét:
aa. Guðrún átti Guðmund lögréttumann í Rangárþingi son Einars sýslumanns Þorsteinssonar (sjá Skaptárþing).

Laundóttir Sæmundar:

F. Helga fyrri kona séra Halldórs Teitssonar, bl.

Þá Árni sýslumaður á Hlíðarenda lét biðla til Elínar dóttur Magnúsar sýslumanns, ansaði Magnús:

Fæst ei skjól hjá faldasól,
fyrðar honum það segi
nema fái hann Hól fyrir höfuðból
hana fær hann eigi.

Sæmundur hlaut og í arf: Hól í Bolungarvík 60 hndr., Meirihlíð 24 hndr., Minnihlíð 8 hndr., Tungu 12 hndr., Mýrardal 12 hndr., Ós 24 hndr., Meiribakka 12 hndr., Hanhól 12 hndr., Meirahraun 8 hndr., Grundarhól 8 hndr., Keldu 5 hndr., Minnahraun 3 hndr., Gil 12 hndr. fyrir utan lausafé eptir föður sinn (sjá þar um Skaptárþing).

---

ekki, en talið er, að hann hafi dáið í Kaupmannahöfn. Þessa er hér getið, af því að Espólín (Árb. IX. 148) o. m. fl. (t. d. Bogi) telja hann prest orðið hafa, sem er öldungis rangt. Um leið þykir rétt að leiðrétta þá villu hjá Boga (II. B. bls. 236), að Markús sýslumaður hafi verið fæddur 1659, því að hann mun fæddur um 1679. Herdís laundóttir hans er fædd um 1706, því að 1729 er hún talin 23 ára. Hún átti Jón Guðmundsson á Yztaskála undir Eyjafjöllum. Son þeirra var Guðmundur, er lengi bjó á Fit, en dó í Kampholti í Flóa 29. marz 1804 78 ára, átti Önnu Guðmundsdóttur (†1800) þ. b.: a) Eyjólfur í Kampholti, hans dóttir Þorbjörg átti Þórð Oddsson, þeirra son Guðmundur faðir Eyjólfs hreppstjóra í Hvammi á Landi. b) Herdís var s. k. Snorra í Austurhlíð í Eystrihrepp Oddssonar í Ásum Eiríkssonar í Stóru-Mástungum Beinteinssonar Ólafssonar, þ. b.: Guðmundur og Aldís. Þessi ættleggur frá Markúsi sýslumanni Bergssyni hefur ekki áður verið kunnur.

Þá Jón Sigurðsson frá Reynistað slepti Snæfellsnessýslu og Stapaumboði 1615, tók Sæmundur Árnason það og sýsl una, skipti þar eptir umboðum millum sona sinna, hygg eg Árni hafi haft mest straumbrot fyrir því, en Magnús og Eggert minna sig þar við gefið. Ekki er ólíklegt, að Magnús sonur hans hafi fyrst verið hans lögsagnari og því verið kallaður af sumum sýslumaður. 1618 nefndi Sæmundur Árnason í dóm Steindór Gíslason, Nikulás Oddsson, Guðmund Stefánsson, Pál Erlendsson og Ólaf Þórðarson um ákæru Runólfs Jónssonar, að Brynjólfur Jónsson hefði stefnt Þórði fyrir að ei vildi bera vitni, nefnist þá Sæmundur sýslumaður yfir Snæfellsnessýslu[1]).

1621 að settu héraðsþingi á Ingjaldshóli voru í dóm nefndir af sýslumanninum Sæmundi Árnasyni, kongsumboðsmanni yfir Snæfellsnessýslu: Hallur Ögmundsson, Guðmundur Ásbjarnarson, Gísli Magnússon, Guðmundur Þorsteinsson, Jón Guðmundsson og Brynjólfur Steingrímsson um það er Sigurður Jónsson klagaði til Þorsteins Ásgrímssonar, að hann hefði brotið hjall sinn og útborið þaðan sína eign. Þá var þó Steindór Gíslason orðinn Sæmundar lögsagnari, og ei er þá getið sona Sæmundar; þó hefur Árni þá búið á Stapa.

Það er og víst að Sæmundur sjálfur hefur staðið fyrir Stapaumboði; þó hann hafi ætlazt til, að synir sínir hefðu það, þá hafa þeir ekki haft veiting fyrir því, sem sézt af 6 manna dómi Jóns sýslumanns í Einarsnesi Sigurðssonar, er hann útnefndi að Miðgörðum í Staðarsveit 10. ágúst 1626 í umboði umboðsmannsins Níelsar Hanssonar á Bessastöðum um þá stefnu, sem Steindór Gíslason hafði stefnt Sæmundi Árnasyni um þann húsavirðingarmismun á Stapa, sem hann var tilskyldaður með velbyrðugs umboðsmannsbréfi. Item hverra svara og sekta Sæmundur verður Steindóri skyldugur um hrörnun og niðurníðslu sömu húsa, og eptir beggja partanna fram lögðum reikningum húsanna, vitnisburðum og bevísingum af 12 mönnum hverjir það bera þá Steindór viðskildi hvað Stapabygging áhrærir, þá er hún að húsum og búðum öllu betur standandi, en þá Steindór viðtók (datum þeirra

---

1) 1620 dæmdi Sæmundur á Laugarbrekku um ákæru Eggerts Hannessonar í Snóksdal til Þorsteins Jónssonar og 16. okt. s. á. einn dóm í Miðgörðum, en 1621 á Laugarbrekku um vitni.

vitnisburða 24. apríl 1618). Síðan svari Stapahaldarinn allri hrörnun og virðingamismun á Stapans húsum, síðan Steindór slepti áður og til þess hann tók við Stapa 1624 og hann lét sér í hendur virða, en forlíkist sín á millum eptir tiltölu, því framkom, að engir þeir hefðu sér í hendur virða látið áður.

Eg meina að Sæmuudur hafi afstaðið hálfri sýslunni til Steindórs 1620, en sleppt henni og umboðinu allshendis 1625 eða 1624, þá Árni son hans deyði, því Sæmundur átti örðugt með sýslu og umboðið, þar hann bjó á Hóli í Bolungarvík[1]), En Magnús og Eggert synir hans voru þá vestra og deyðu 1636 eða 35.

Sæmundur var mikill höfðingi og auðmaður, sem hann átti kyn til, voru hans afkomendur lengi í stórbændaröð, en þó ei þvílíkir valdsmenn, sem fyrri frændur þeirra.

*Skipti á góssum eptir Sæmund Árnason sýslumann á Hóli í Bolungarvík.*

1. Árni Sæmundsson eignaðist í sinn hlut Hraun í Keldudal LX. hndr , í Haukadal XLII hndr. í Skálará VIII hndr. í Hólum X hndr. til samans I hndr. hndr.
2. Magnús Sæmundsson fékk Hól í Bolungarvík LXXX hndr. Meirihlíð XXIV hndr., Minnihlíð VIII hndr. Tungu XII hndr. Er I hndr. hndr. (Hann var um hríð umboðsmaður Björns sýslumanns Magnússonar í Barðastrandarsýslu um 1625).
3. Eggert Sæmundsson fékk Sæból LX hndr. Álfadal XVI hndr. og í Hrauni XX hndr. og þar hjá XII hndr. Tungu XII hndr. Er I hndr. hndr.
4. Guðrún Sæmundsdóttir erfði Hnífsdal neðri með kúgildum XL hndr., Fremri-Hnífsdal XII hndr., Bakka VIII hndr. Er LX hndr.
5. Halldóra Sæmundsdóttir erfði Ós XXIV hndr., Gil XII hndr., Hanhól XII hndr., Miðdal XII hndr. til samans LX hndr.

Eptirskrifaðar jarðir voru umfram áðartaldar, IV hndr.hndr. Hof í Dýrafirði VI hndr.. Meira-Hraun í Skálavík VIII hndr.

---

1) Sæmundur hefur dáið 1634, því að Árni sonarson hans segir, að Magnús faðir sinn hafi erft Nes í Grunnavík eptir Sæmund sál. Árnason 1634. [Eptir afskr. dr. J. Þorkelssonar af skiptabréfi eptir Sæmund í safni M. Steph. 58 4to í Khöfn.].

Minnahraun III hndr. Við þessum jörðum tók Arni heitinn Sæmundsson fyrir það, að hann fékk ekki Hól, sem hann stóð til. Snældubeinsstaði XXX hndr. fékk Eggert þar að auki mót siglingarkostnaði bræðra sinna.

Upp í löggjöf gekk Gljúfrá XIV hndr., Hreimsstaðir í Borgarfirði, en óvíst hver þá fékk, þeir teljast XVI hndr., Hálfan Vatnadal VIII hndr. fékk Guðrún Sæmundsdóttir. Aflagóss Sæmundar í föstu voru II hndr. hndr. og XLII hndr. Elínar erfðagóss var LL hndr. í jörðum, en Sæmundar tilgjöf til Elínar var XXX hndr. í jörðum. Erfðagóss Sæmundar var II hndr. hndr. og XII hndr. betur (í jörðum). Beggja þeirra fasteignir á giptingardegi voru II hndr. hndr. XII hndr. og XL í jörðum. Sæmundur gaf fyrir Neðri-Hnífsdal XXIV hndr. að dýrleika, Látur í Aðalvík XXIV hndr. og Dvergastein XVIII hndr. Ari Magnússon seldi honum XIV hndr. í Eyri í Önundarfirði fyrir XIV hndr. í Gljúfrá, en Ari fékk þau eptir Þórð heitinn Jónsson, er var í Meðaldal.

## Árni Sæmundsson.

*Faðir*: Sæmundur Árnason nýnefndur.

*Móðir*: Elín Magnúsdóttir áður nefnd.

*Kona*: Guðrún dóttir Nikulásar Oddssonar, er bjó um hríð á Kjallaksstöðum, svo á Görðum og Brekkubæ við Hellna.

*Börn*: A. Hákon í Miðgörðum átti Guðríði dóttur séra Guðmundar á Staðastað, og Elínar dóttur Sigurðar sýslumanns Jónssonar á Reynistað. (Guðríður hafði áður att barn með Þorláki Guðmundssyni vinnumanni á staðnum; er mælt hún hafi seinna gefið honum 20 hndr. jörð). Þeirra börn:
a. Árni deyði ungur.
b. Valgerður dó vaxin.
c. Sigríður átti séra Jón Bjarnason á Staðarbakka.
d. Halldís átti Þorberg Þorsteinsson, bl.
e. Elín gipt Nikulási Þórðarsyni, barn:
aa. Elín, hennar laundóttir Oddhildur.

f. Guðný átti Bjarna lögsagnara í Arnarbæli Bjarnason (sjá Dalasýslu).
g. Hákon dó ungur[1]).

B. Guðrún Árnadóttir dó ógipt barnlaus.

(NB. Hákon Árnason átti launson við fóstru sinni 16 vetra, hét Pétur, hann fór utan til Englands, og þaðan til Kaupmannahafnar, og varð þar ölbruggari.

Hákon átti annað barn framhjá konu sinni, með Guðrúnu Jónsdóttur frá Elliða, hét Elizabet[2]), átti Narfa snikkara, þeirra son: Árni á Stapa, sem átti Ursulu, þeirra son: Þorleifur).

Àrni giptist, og bjó um hríð í Syðri-Görðum. Meining er hann hafi fengið Hnappadalssýslu aðskilda frá Snæfellsnessýslu og hafi máske haldið hana áður, en faðir hans fékk Snæfellsnessýslu og Stapaumboð. En þá Sæmundur faðir hans tók Snæfellsnessýslu og Stapaumboð og Árni gerðist hans umboðsmaður, samt hélt sjálfur þriðjung umboðsins, flutti hann að Arnarstapa 1618, og deyði þar 1624 eða seint á árinu 1623. Ekkja hans flutti þá að Görðum og giptist litlu þar eptir Páli sýslumanni (sjá Hnappadalssýslu). En Steindór Gíslason tók þá Stapa, og tvo þriðjunga Stapaumboðs, en Gísli Bjarnason einn þriðjunginn (sjá hér síðar).

## Steindór Gíslason.

*Faðir*: Gísli lögmaður Þórðarson lögmanns (sjá Árnessþing).

*Móðir*: Ingibjörg dóttir Árna sýslumanns á Hlíðarenda Gíslasonar.

*Kona*: Guðrún dóttir séra Einars á Staðarstað Marteinssonar biskups (Hún var þá ekkja Jóns lögmanns).

*Sonur*: A. Jón á Knör fæddur 1609 varð lögréttumaður, deyði á Leirá af munnbita 1672 63 ára. Jón erfði eptir foreldra sína: Knör, Laugarbrekku,

---

1) Sjá um Hákon í Miðgörðum og börn hans II. 670—671. Þar er Hákon ekki talinn meðal barna hans, en svo mun þó hafa heitið sonur hans, er dó ungur.

2) Sbr. II. 671 n. m. Nafnið mun hér rétt hjá Boga.

Öxnakeldu og Kirkjufell, má þar af sjá að ekki hefur Steindór öllu góssinu burt brjálað eða eytt. Jón seldi Sigurði sýslumanni Jónssyni Laugarbrekku nálægt 1645. Jón var lögréttumaður og í heldri bænda röð[1]). Hans kona var Solveig dóttir séra Guðmundar Einarssonar á Staðastað, börn:

a. Halldóra átti séra Jón Guðmundsson á Staðarhrauni, börn:
  aa. Séra Helgi á Staðarhrauni og Þæfusteini faðir séra Jóns á Hvanneyri[2]).
  bb. Séra Guðmundur á Helgafelli (dó 1716, 49 ára)[3]), tvígiptur, átti börn.

---

1) Hann hafði opt bágan búskap, segir séra J. H.

2) Séra Jón Helgason var síðast prestur til Hofs og Miklabæjar, og dó í Mýrakoti á Höfðaströnd úr ófeiti (= hor) í móðuharðindunum í júní 1784 84 ára gamall. Hann var fróður maður í mörgu, einkum í tungumálum og ættfræði. Í prestaæfum (Presbyterologia) meistara Hálfdans Einarssonar er margt eptir honum tekið um ættir o. fl. Hann átti Halldóru († 1741) Runólfsdóttur Halldórssonar prentara Ásmundssonar og var son þeirra:

a. Helgi, útskrifaður úr Hólaskóla 1746, varð djákn á Reynistað, en dó í apríl 1751, nokkru áður en hann átti að vígjast til prests að Tjörn á Vatnsnesi. Hann átti Sesselju Sveinsdóttur þ. b.
  aa. Helgi dó í Hólaskóla úr bólu 2. nóv. 1762.
  bb. Oddný átti Jón Jónsson í Hornbrekku, er kallaður var Siglinga-Jón og 2 börn, Magnús og Sesselju konu Péturs Eyjólfssonar á Rein í Hegranesi, en síðar átti Oddný Jón Hallgrímsson málara og var miðkona hans, þau bl.

3) Séra Guðmundur drukknaði í heimreið frá Bjarnarhafnarkirkju 8. marz 1716 í sjávarvogum millum Staðarbakka og Arnarstaða, var einn á ferð. Dætur hans með f. k. Þorkötlu Þórðardóttur sýslumanns Steindórssonar voru a) Karítas kona Sigurðar sýslumanns Vigfússonar í Stóra-Skógi (II. 713—716). b) Ragnhildur kona séra Sigurðar Einarssonar á Barði í Fljótum og móðir Guðmundar prests á Barði og Sigfúsar prests í Felli í Sléttuhlíð, c) Halldóra kona séra Þorsteins Jónssonar í Saurbæ í Eyjafirði og d) Kristín, er átti Sæmund Þórðarson prests á Staðarstað Jónssonar biskups Vigfússonar.

cc. Elín (dó 1737, 72 ára), átti séra Torfa í Saurbæ Hannesson[1]) og börn.

---

1) Séra Torfi drukknaði í Leirá 8. febr. 1728 á heimleið frá embættisgerð á Melum, 58 ára gamall. Dætur hans og Elínar voru:

a. Þorlaug († 1746) átti Sigurð Sigurðsson í Miðfelli á Hvalfjarðarströnd Magnússonar, þ. b.:

aa. Helgi konrektor á Móeiðarhvoli († 1819) átti Ragnheiði dóttur Jóns sýslumanns Jónssonar á Móeiðarhvoli (sjá Rangárvallasýslu) sjá um börn þeirra þar.

bb. Guðmundur í Miðfelli átti Ingibjörgu Magnúsdóttur, systur Þorsteins á Þyrli, þ. b.:

aaa. Hildur átti Runólf Pétursson í Þverholtum og börn: Guðmund, Runólf og Sæunni.

bbb. Elín átti fyr Jón Jónsson á Vestra-Miðfelli, þ. s. Árni, en síðar Ketil í Fellsöxl Vigfússon Jónssonar Þórhallasonar prests í Borgarþingum Magnússonar, þ. b. Guðmundur og Elín.

ccc. Þorlaug átti Guðmund Björnsson, bl.

ddd. Sigurður.

eee. Oddný, bl. Fleiri voru börn Guðmundar og Ingibjargar.

cc. Guðríður átti Svein Jónsson á Eyri í Flókadal, þ. b.:

aaa. Gísli á Miðsandi átti Sigríði Árnadóttur í Miðfelli Þorsteinssonar og Ellisifar Hansdóttur Klingenbergs, þ. b.: a) Jón á Þyrli átti Guðrúnu Eyjólfsdóttur frá Steinsholti í Leirársveit Magnússonar, b) Árni, c) Steinunn átti Helga í Stóra-Botni Erlingsson frá Jörfa á Kjalarnesi Árnasonar Gestssonar prests Árnasonar, þ. b.:

× Ellisif átti Jóhannes Jónsson í Miðfelli.

× Margrét átti Guðbrand Brynjólfsson Teitssonar, bróður Magnúsar dbrm. á Dysjum og Bjarna á Kjaransstöðum föður Brynjólfs í Engey, og börn: Steinunn, Margrét, Helgi, Guðrún, Brynjólfur.

× Bjarni í Stóra-Botni átti Jórunni Magnúsdóttur frá Þyrli Þorvaldssonar á Bjarteyjarsandi Guðmundssonar, þ. b.: Sveinbjörn, Elísa og Bjarni organleikari á Geitabergi, kvæntur Sigríði Einarsdóttur Ólafssonar, þau systkinabörn.

× Sigríður átti Einar í Litla-Botni Ólafsson frá Svartagili Jónssonar (á Búrfelli Vernharðssonar) og Ragnhildar Beinteinsdóttur lögréttumanns Ingimundsson-

dd. Valgerður (fædd 1663) átti Stein biskup Jónsson og börn[1].

---

ar, þ. b.: Beinteinn bóndi í Litla-Botni, Helgi bóndi á Hlíðarfæti í Svínadal, Kristinn og Sigríður kona Bjarna Bjarnasonar á Geitabergi.

bbb. Torfi á Klafastöðum í Skilmannahrepp átti Margréti Guðbrandsdóttur, þ. b.: a) Guðbrandur, b) Lárus, c) Sigríður átti Ólaf Bergþórsson úr Norðurárdal Ólafssonar.

dd. Anna átti Brynjólf Jónsson á Þórisstöðum í Svínadal og börn.

ee. Magnús var á Akranesi.

ff. Torfi.

gg. Hildur.

b. Helga átti fyr Guðmund í Bæ í Bæjarsveit Stefánsson lögréttumanns á Hvanneyri Kjartanssonar a Hamraendum í Stafholtstungum Ólafssonar prests á Kvennabrekku Moldar-Brandssonar, þ. b.:

aa. Torfi í Bæ átti Ólöfu Ketilsdóttur prests á Lundi Einarssonar, þeirra son:

aaa. Guðmundur í Bæ átti Sigríði Ásbjörnsdóttur, bl., en launson hans með Guðrúnu Gísladóttur frá Langholti í Bæjarsveit Jónssonar á Ásbjarnarstöðum Gíslasonar Óleigssonar austan af Skeiðum var Sveinbjörn prestur í Holti undir Eyjafjöllum.

Síðari maður Helgu Torfadóttur var Gísli Ólafsson, þau bl.

1) Börn Steins biskups og frú Valgerðar voru:

a. Jón var mjög vel gáfaður maður, var nokkur ár í Kaupm.höfn, lagðist í óreglu, kom hingað aptur og dó snögglega á Hólum um veturinn eptir jól 1718. Laundóttir hans Sigríður átti séra Illhuga Halldórsson á Berg, bróður Bjarna sýslumanns á Þingeyrum, þeirra son Árni prestur á Hofi á Skagaströnd faðir Jóns landsbókasafnsvarðar og þjóðsagnaritara.

b. Guðmundur skólameistari á Hólum, drukknaði á Skagafirði 9. maí 1723, nýkvæntur Margréti Einarsdóttur, ekkju Benedikts sýslumanns Bechs, bl.

c. Sigfús var í skóla, drukknaði með Guðmundi bróður sínum og séra Þorkeli Þorsteinssyni í Fagranesi.

d. Jórunn átti fyr Hannes Lárusson Scheving sýslumann og börn (sjá I. B. bls. 258—263), en síðar Stefán prófast Einarsson í Laufási og börn (I. 265).

b. Guðný átti séra Hallkel á Hvalsnesi Stefánsson[1]), börn:
aa. Snjálaug átti séra[2]) Jón Jónsson í Höfnum.
bb. Séra Stefán í Grindavík átti Hólmfríði Þórðardóttur og börn[3]).

---

e. Helga átti Jón eldra Pálsson Vídalín, er úti varð á Hjaltadalsheiði 1726 (I. 265—266), þeirra son séra Jón Vídalín í Laufási faðir Geirs biskups. Síðan átti Helga barn við Jóni stúdent Marteinssyni, það dó, en Jón flæmdist til Hafnar, því að Steinn biskup varð honum harla gramur. Þar fékkst Jón við ritstörf, en var jafnan ódæll og illa þokkaður, dó loks 1771 úr »kulda og skorti« (»af Kuld(e) og Trang«). Svo segir í prestsþjónustubók Þrenningarkirkju í Höfn, er eg ritaði þetta upp úr 1896. Jón er þar sagður 63 ára gamall, er hann lézt og mun fæddur um 1708, en ekki 1711, þótt hann virðist telja svo sjálfur. Að hann sé fæddur 1708 styðst ekki að eins við skýrslu prestsþjónustubókarinnar, heldur við tvö önnur heimildarrit. Hann er í Skálholtsskóla veturinn 1728—29 neðstur í neðri bekk og er þá talinn 20 ára (Lbs. 207 4to.), og þegar hann er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 22. des. 1732 er hann talinn á 25. ári, og ber þar allt að sama brunni, að 1708 sé hið rétta fæðingarár hans. Foreldrar Jóns hafa verið Marteinn Jónsson og Ingibjörg Þorvarðsdóttir, er bjuggu í Krosshjáleigu í Landeyjum 1729, var Marteinn þá 54 ára, en Ingibjörg 49. Börn þeirra eru þá hjá þeim: Hallvarður 13 ára og Ingveldur 12 ára, [eptir Manntali í Rangárþingi frá 1729 í minni eigu]. 1733 býr Marteinn Jónsson í Hildisey, og hefur hann flutt þangað frá Krosshjáleigu, því að eflaust er þetta einn og sami maður. Um foreldra Jóns hefur ekki áður verið kunnugt. Sjá meira um hann og rit hans í Landfræðissögu Þorv. Thoroddsens II. 326—331 og víðar þar.

Síðar giptist Helga Steinsdóttir Einari Jónssyni Hólaráðsmanni í Viðvík, bl.

1) Séra Hallkell var bróðir séra Björns á Snæfoksstöðum (eða Snæúlfsstöðum) móðurföður Finns biskups.

2) Jón maður Snjálaugar var alls ekki prestur.

3) Hólmfríður kona séra Stefáns var dóttir séra Þórðar Þorlákssonar á Undirfelli og Þóru Palsdóttur landsþingsskrifara Gíslasonar, þ. b.:

cc. Þorbjörg átti Sigvalda á Suðurnesjum[1]).
c. Guðrún Jónsdóttir átti Guðna Sigurðsson á Kirkjufelli (sjá Húnavatnsþing)[2]), börn:
aa. Teitur á Kirkjufelli átti Guðrúnu Bárðardóttur og mörg börn[3]).
bb. Halldóra átti Jón Jónsson Björnssonar[4]) og börn.

---

a. Ingibjörg átti Jón Vigfússon eldra lögréttumann á Háafelli og mörg börn: Eyjólf Johnsonius, séra Vigfús í Miklaholti, séra Arngrím á Melum o. fl. (II. 361).
b. Guðný átti fyr Guðmund Gunnsteinsson á Kjalarnesi, svo Hall Þorsteinsson.
c. Guðný önnur átti Jón Gíslason prests á Útskálum Jónssonar, þ. b. Tómas og Anna.
d. Þorlákur.
e. Snorri komust í fátækt.
f. Mikael.
g. Gunnhildur átti Árna Jónsson, ágætan skrifara.

1) Enn voru börn séra Hallkels og Guðnýjar, er séra J. H. telur:
dd. Tómas.
ee. Eyjólfur.
ff. Gunnhildur. Voru bl.

2) II. B. bls. 502. Guðni var vel fjáður lausamaður á Knerri, tók þessa Guðrúnu á barnsaldri til uppfósturs og kvæntist henni síðan, er hún var vaxin.

3) Börn Teits og Guðrúnar voru a) Guðrún á Kirkjufelli († 1792), b) Gísli, c) Sigurður, d) Bárður, e) Ástríður, f) Elín, g) Guðný, h) Halldóra átti Bjarna Jónsson, i) Solveig átti Jón í Akurtröðum Bjarnason í Neðri-Lá Bárðarsonar s. st. Jónssonar, þau systkinabörn, eitt barna þeirra Árni á Höfða í Eyrarsveit faðir Bárðar á Skerðingsstöðum.

4) Þorvarðssonar Moldar-Brandssonar. Börn Jóns og Halldóru:
a. Böðvar átti Guðrúnu Árnadóttur frá Bár Jónssonar og Sœunnar Snorradóttur, þ. b.:
aa. Guðrún átti Ívar Ívarsson í Spjör og börn.
bb. Halldóra átti Guðmund Jónsson á Hellu, þeirra synir: Böðvar á Saxhóli og Jón í Hallsbæ faðir Jónasar hreppstjóra í Hallsbæ.
cc. Sigríður átti Jón Jónsson smið í Bár og svo á Innra-Hólmi, þ. b.: a) Halldóra móðir Þórðar háyfirdómara Sveinbjörns-

cc. Halldóra önnur átti Bjarna Ólafsson í Höfða og börn[1]).

dd. Margrét átti Jón í Höfða Þórðarson og börn[2]).

---

sonar (sjá Árnessýslu) og b) Guðrún kona Sigurðar Björnssonar, þ. son: Björn faðir Guðfinnu s. k. Jóns Sigurðssonar í Mýrarhúsum.

b. Guðni átti Valgerði Árnadóttur frá Valbjarnarvöllum Jónssonar, þeirra börn:

aa. Sigurður á Litlu-Brekku. Börn hans:

aaa. Sigurður á Rauðabjarnarstöðum.

bbb. Böðvar smiður á Skáney faðir a) Sigurðar á Fiskilæk og Melkoti föður Jóns í Kalastaðakoti, Böðvars í Vogatungu og Sigurðar, sem var á Rauðamel, b) Bjarna og c) Gísla á Grímastöðum í Andakíl.

ccc. Guðni á Leirulæk, kvæntur.

ddd. Guðrún s. k. Odds Magnússonar á Hvítsstöðum, áttu börn.

eee. Valgerður átti Jón Jónsson á Háhóli.

bb. Árni, kvæntist ekki, átti eina laundóttur.

c. Jón. Hans son:

aa. Sigurður kvæntist í Helgafellssveit.

1) Börn Bjarna og Halldóru:

a. Bjarni á Höfða átti Sigríði Sveinsdóttur. Afkomendur þeirra allmargir í Eyrarsveit.

b. Ingveldur átti fyr Þórð Ólafsson, síðar Sigurð Sigmundsson þ. d.:

aa. Ingibjörg átti Pétur Ólafsson í Akurtröðum.

bb. Þuríður átti Pál á Mýrum í Eyrarsveit Ásbjörnsson Guttormssonar Benediktssonar, þ. son: Jóhannes á Kirkjufelli faðir Páls, er nokkra hríð var verzlunarstjóri í Borgarnesi og alllengi við skriptir í Rvík, fór til Ameríku.

2) Börn Jóns og Margrétar:

a. Guðni, bl.

b. Bjarni á Þórdísarstöðum, tvíkvæntur. Börn hans: Brynjólfur, Kári í Neðri-Lá og Guðrún kona Þorsteins Árnasonar í Höfðakoti.

c. Þórður smiður í Krossnesi átti Guðrúnu laundóttur Steindórs Finnssonar þ. b.:

aa. Sigurður á Hrafnabjörgum.

bb. Margrét átti Odd Þorgilsson í Gröf í Eyrarsveit, bróður séra Jóns við Hellna, þ. b.: Guðrúnar tvær og Jósep á Arnarstapa. Synir hans. Hannes, Oddur og Jósep.

d. Sigurður Jónsson á Knör lögréttumaður giptist 1659 Ingibjörgu Björnsdóttur Gíslasonar (sjá Borgarfjarðarsýslu), börn:
aa. Guðmundur, fæddur 1660, átti Halldóru Jónsdóttur og mörg börn.
bb. Björn átti Ingveldi Ketilsdóttur og börn.
cc. Guðlaug átti Brynjólf Ámundason og börn.
dd. Þórður átti laundóttur Hallfríði, þaðan bændafólk.
ee. Elín átti séra Jón á Söndum og fjögur börn[1].
ff. Sæunn átti Torfa Þorvarðsson og börn[2].
gg. Guðný átti Jón Guðmundsson smið í Hólum í Flóa[3].

---

Enn var son Guðna Sigurðssonar á Kirkjufelli og Guðrúnar Jónsdóttur frá Knerri:

ee. Sigurður dó ókvæntur, bl. (J. H. ættat.).

1) Börn séra Jóns Tómassonar á Söndum († 1707) og Elínar voru:
a. Helga átti séra Magnús Snæbjörnsson prófast á Söndum, þ. d. Þorkatla móðurmóðir Jóns Sigurðssonar (frá Rafnseyri).
b. Guðmundur, kvæntur átti börn.
c. Ástríður átti Guðbrand á Gerðhömrum Sigurðsson prófasts í Holti Jónssonar prófasts Arasonar og börn.
d. Solveig átti Guðmund son Jóns prests Gíslasonar á Torfastöðum.

2) Torfi var son Þorvarðs Erlendssonar á Hvítanesi. Börn hans og Sæunnar:
a. Einar kvæntist nyrðra.
b. Guðný átti Snorra Markússon frá Læk í Leirársveit Jónssonar.

3) Guðný var s. k. Jóns í Hólum. Hún býr ekkja í Hólum 1729 (Manntal í Árnesþingi) og er þá talin 55 ára (f. um 1674). Dóttir hennar og Jóns:
a. Ólöf átti Filippus í Hólum Gunnlaugsson frá Efri-Gegnishólum Filippussonar (II. 310—311) og Ingibjargar Snorradóttur, þ. b.:
aa. Jóreiður.
bb. Ingibjörg († 1798) átti Jón á Brunnastöðum á Vatnsleysuströnd Torfason Þorsteinssonar í Þorlákshöfn Jónssonar á Gullberastöðum og síðar á Hjalla Jónssonar Teitssonar

hh. Auðunn[1]) féll í dulsmál með Katrínu.
ii. Ólöf[1]) átti Bjarna Guðmundsson og börn.
kk. Pétur í Lóni[2]) átti Sigríði Loptsdóttur, barnlaus.

Steindór Gíslason mannaðist vel og var á hendi tiginna manna utanlands[3]). Þá Jón lögmaður Jónsson deyði 1606 ritaði Gísli faðir hans honum, að ekkja hans væri það bezta giptumál, og réði honum að biðja Guðrúnar. Kom Steindór því út 1613 (réttara 1612) og fékk hennar. Bjuggu þau á Stóruborg í Vesturhópi litla hríð. 1613 átti Steindór í máli við Guðbrand biskup um Krakavelli og dæmdust þeir biskupi eða önnur jafngóð jörð eptir kaupaskilmála. Þá Jón lögmaður Sigurðsson tók Snæfellsnessýslu og Stapaumboð 1613 fékk hann Steindór fyrir sinn fullmektugan í Snæfellsnessýslu, flutti þá Steindór sig að Arnarstapa 1614. Þá Sæmundur Árnason tók Snæfellsnessýslu og umboðið, tók hann Steindór fyrir sinn umboðsmann í dómaraverkum í Snæfellsnessýslu.

---

prests í Lundi Péturssonar. Bróðir Þorsteins í Þorlákshöfn var Ásgeir Jónsson skrifari Árna Magnússonar og síðar (10. marz 1705) sorenskrifari í Hege og Fröland í Aggershússtipti í Noregi (M. Ketilss. Forordn. III. 417). Ætt hans hefur ekki verið áður kunn, en þetta er áreiðanlega rétt.

Son Jóns Guðmundssonar í Hólum af fyrra hjónabandi fremur en son hans og Guðnýjar var:

b. Snorri í Hólum átti Steinunni Brynjólfsdóttur frá Baugsstöðum Hannessonar og börn.

1) Auðunn og Ólöf voru ekki börn Sigurðar á Knerri, heldur börn Sigurðar Magnússonar af Suður-Reykjaætt, en sá Sigurður átti Ingibjörgu yngri Björnsdóttur, systur Ingibjargar eldri, er Sigurður á Knerri átti og því hefur þetta ruglazt saman hjá Boga og eins hjá Snókdalín. En séra J. H. má hér betur vita.

2) Pétur var hórgetinn son Sigurðar, að því er séra J. H. telur og mun það alveg rétt.

3) Séra J. H. segir, að hann hafi verið í þjónustu hins mikla herramanns Stens Brahe, bróður stjörnuspekingsins Tycho Brahe. Brúðkaup þeirra Steindórs og Guðrúnar var á Laugarbrekku. Var honum talið með Knerri 2 hndr. hndr., en kvennsilfur Guðrúnar eitt vóg 8 fjórðunga (sumir segja 12).

1616 þann 10. desember lét Steindór dóm ganga að Miðgörðum með 6 mönnum um barneign þess enska Jóns Gjæ.

1619 þann 20. október útnefndi Steindór Gíslason í löglegu umboði Sæmundar Árnasonar sýslumanns í Snæfellsnessýslu dómsmenn að Miðgörðum í Staðarsveit Eirík Finnsson, Steindór Rögnvaldsson, Guðmund Jónsson, Jón Snorrason, Jón Skúlason og Bjarna Jónsson um ómagalögboðning

1620 þann 5. júlí að Fáskrúðarbakka á lögsettu leiðarþingi voru þessir menn í dóm nefndir af Steindóri Gíslasyni: Björn Þorvarðsson, Jón Ólafsson, Gísli Ketilsson, Ólafur Rögnvaldsson, Brynjólfur Ásgrímsson og Ásgrímur Jónsson um rangfærðan ómaga.

1618 átti Guðbrandur biskup í máli við Steindór um hald á Brennistöðum, og Jón lögmaður Sigurðsson stefndi þa Steindóri Gíslasyni fyrir commissarios; var það af þeim metið ógilt og vísað til héraðsdóms.

1618 varð Steindór að flytja frá Stapa, þá Árni Sæmundsson flutti þangað, en þá Árni deyði 1623 flutti þangað aptur Steindór sýslumaður, en á Laugarbrekku bjó hann frá 1618 til 1624.

1620 meina eg að Sæmundur sýslumaður afstæði við hann halfri sýslunni, og þá sór hann sinn eið á alþingi. Er þess við getið hann hafi þá verið orðinn drykkjumaður, og hafi verið mjög ölvaður, þá hann aflagði eiðinn[1]).

1624 hefur Steindór sýslumaður tekið alla Snæfellsnessýslu, þa Sæmundur sleppti og tvo þriðjunga af Stapaumboði, en einn þriðjung þess tók þá Gísli Bjarnason (sjá hér síðar). Þá Gísli sleppti þeim þriðjung um 1626 tók Steindór hann, og svo hélt Steindór þá bæði sýsluna og allt umboðið til 1630 (að eg meina). Eyddist honum þá mjög fé vegna óstillingar sinnar og drykkjuskapar, og komst í miklar skuldir. Var hann þa sviptur bæði sýslunni og umboðinu og flutti þá enn að Laugarbrekku fyrst og seinna að Knör. Er mælt, að kona hans Guðrún hafi dáið á Laugarbrekku nær því í ófeiti, En sé það satt, getur ei sú sögn verið sönn, að Guðrún eptir

---

1) Hann útnefndi dóm á Kaldárbakka 4. sept. 1622 um kæru Guðmundar Einarssonar til séra Einars Kolbeinssonar og 29. maí 1623 annan dóm í Hrossholti.

sinn fyrra mann, Jón lögmann, hafi átt silfurhálsfesti með stóru nisti, sem brotnað hafi, þar í hafi verið bréf með hverju Jón lögmaður hafi gefið henni jörð á Austfjörðum af hverri hún ei fyr vissi, og þar á hafi hún framfærzt um hríð. Sagt er, að Steindór sýslumaður Gíslason hafi verið svoddan yfirlætismaður, þá hann bjó á Stapa, að hann hafi látið leiða hest sinn í forbirgi þar til byggt, þá hann vildi ferðast og farið þar á bak, og að hann þá hafi haldið mjög marga sveina, látið allt ganga á sax og spæni meðan til var.

Eptir það Steindór hafði misst umboðið og sýsluna sýnist sem hann í viðlögum hafi gert smáleg sýslumannsverk; til dæmis hefur hann undirskrifað bréf það, sem Jens Söffrensen útgaf þann 16. október 1645. Hann hefur og skriflega vitnað um afskript bréfs á Knör þann 17. febr. 1646 að það sé rétt afskrifað.

Það er að orði gert, að um 1666 hafi Steindór verið staddur við kaupmannsborð í Ólafsvík með syni sínum Jóni, hans syni Sigurði og Guðmundi syni Sigurðar, þótti það fátítt, að fjórir feðgar skyldu sitja við eitt borð. Steindór var lengi hjá syni sínum á Knör og öðrum frændum sínum, en eirði hvergi í sama stað til lengdar, heldur var á sífelldu flakki millum frænda sinna.

Hann var vistum í Hítardal 1668 og þá mjög hniginn að aldri. Það ár í brúðkaupi Jóns sýslumanns yngra Vigfússonar varð Steindór bráðkvaddur í rúmi sínu og er grafinn í Hítardal fyrir sunnan kirkjuna þar[1]), en Guðrún Einarsdóttir kona Steindórs er grafin á Laugarbrekku.

---

1) Séra J. H. lýsir honum svo í ættatölum sínum: »Hann var skynsamur maður, en ofurgaf sig í svall og galenskap, hélt sig stórmannlega með miklu sveinahaldi og veraldarvolsi, eyddi og svallaði öllum þeirra eignum með óhóflegu drykkjurússi og ringli, urðu síðan lán að taka og fengu naumlega eður ekki, þar ei varð borgað, missti Steindór þá öll völd og léni, lenti í armóð, fór í milli frændfólks síns og tolldi þó hvergi við til lengdar, hvernig sem náungar hans vildu veita honum kost og veru, dó hjá systursyni sínum séra Þórði í Hítardal, seint á sumri 1668. Guðrún kona hans hékk við á Laugarbrekku í hinni mestu örbirgð, gat varla hulið sig, lifði jafnvel við það sjómenn gáfu í fjöru þá fiskaðist, eður tínt var upp í fjöru, er aðrir vildu ei eða komust ei

## Gísli Bjarnason.

*Faðir*: Bjarni (dó 1653, 86 ára) Sigurðsson á Stokkseyri Bjarnasonar, Torfasonar.

*Móðir*: Salvör dóttir séra Guðmundar í Gaulverjarbæ.

*Kona*: Oddný dóttir Gríms í Teigi, Einarssonar Grímssonar á Möðruvöllum[1]).

---

til að upptaka, andaðist þar (ɔ: á Laugarbrekku) og er þar grafin«. (Ættat. séra Jóns lærða Halldórssonar). Þessi sögn um hina miklu fátækt Guðrúnar er eflaust sögulega rétt, því að séra Jóni Halldórssyni mátti um þetta vel kunnugt vera, þá er Guðrún hefur líklega lifað fram á hans daga. Hefur hún eflaust orðið mjög gömul, því að naumast er hún fædd síðar en um 1580 (giptist 1598). En ekki verður það beinlínis ráðið af orðum séra Jóns, að hún hafi lifað Steindór mann sinn. Hafi svo verið, hefur hún verið um eða yfir nírætt, er hún lézt.

1) Þetta er röng ættfærsla. Oddný kona Gísla var ekki dóttir Gríms Einarssonar frá Teigi, þótt svo sé talið í sumum ættatölum, heldur dóttir Gríms Bergssonar frá Kirkjubóli á Suðurnesjum. Svo telur Sigurður lögmaður Björnsson, að Oddný væri dóttir Gríms Bergssonar og mátti honum vera það kunnugt (Bisks. II. 381). Sumstaðar er hún talin dóttir séra Gríms Bergsveinssonar í Görðum (t. d. hjá Espólín Árb. VIII. 103), en þar er villst á nafnalíkingum. Grímur Bergsson bjó síðast í Keflavík og dó þar skyndilega 1649. Hann var styrktarmaður séra Hallgríms Péturssonar (sbr. æfisögu hans í Gest Vestfirðing 5. árg. bls. 47). Önnur dóttir Gríms, systir Oddnýjar, var Guðrún, hennar dóttir Matthildur átti Jón nokkurn, þeirra synir Helgi og Erlendur, voru bjargþrota ómagar á Skeiðum árið 1700, og er þar dæmdur ómagadómur um þá og Bjarni Gíslason í Ási talinn næstur til framfærslu. Bjarni býr í Ási og í Vetleifsholti (öðru búi) 1708.

Ó. Snókdalín telur konu Gríms Bergssonar Rósu Ásgeirsdóttur frá Fitjum Arasonar Ólafssonar prests í Saurbæ Kolbeinssonar, en í gamalli ættatölu, er eg á (eptir séra Jón Guðmundsson á Staðarhrauni († 1694)), er kona hans sögð Matthildur Árnadóttir og hennar móðir Halldóra Einarsdóttir prests á Útskálum Hallgrímssonar. Að vísu getur Grímur hafa verið tvíkvæntur, en Oddný á Skarði mun fremur dóttir hans og Matthildar, enda hét systurdóttir Oddnýjar því nafni, eins og áður er sagt. Oddný hefur því verið 2. og 3. við séra Grím Bergsveinsson [séra Bergsveinn Einarsson — séra Grímur, hinumeginn: Halldóra Einarsd. — Matthildur — Oddný[, svo að því fremur var eðlilegt, að menn rugluðu þessu saman.

*Börn:* A. Bjarni lögréttumaður í Ási, átti Guðrúnu dóttur Markúsar í Ási sýslumanns í Vestmannaeyjum, Snæbjarnarsonar; börn:
a. Guðni átti Halldóru Bergsdóttur á Hjalla Benediktssonar (sjá hér áður), bl.[1]).
b. Kristín átti Einar á Hofi Ísleifsson, börn:
aa. Ingibjörg átti Brynjólf sýslumann Sigurðsson (sjá Árnessýslu) og börn.
bb. Kristín átti Einar Jónsson rektor (sjá Vestmanneyjasýslu) og börn.
c. Ragnheiður átti Pál í Vetleifsholti Hákonarson[2]).
d. Gísli dó á hingaðsiglingu (úr klæðum hans kom stórabóla)[3]).

---

Jón Pétursson segir í ættatöluágripi, er hann hefur skrifað, að kona Gísla Bjarnasonar á Skarði hafi verið Guðný Sveinsdóttir, og hafi hún dáið 1659, sé þetta eptir legsteini (líklega í Skarðskirkjugarði), og hljóti það því að vera rangt, að kona Gísla hafi verið Oddný Grímsdóttir, en svo mun þó ekki, því að hinn fyrnefndi ómagadómur tekur af öll tvímæli um það, að móðir Bjarna í Ási hefur verið Oddný Grímsdóttir. Sé nafnið Guðný Sveinsdóttir rétt lesið á legsteininum hefur hún verið síðari kona Gísla og þau líklega barnlaus.

1) Halldóra hafði, áður en hún giptist Guðna, átt barn með dönskum verzlunarmanni á Eyrarbakka. Voru þau Guðni nýgipt, er bólan kom og dóu bæði úr henni.

2) Páll var son Hákonar sýslumanns Hannessonar (sjá Rangárvallasýslu).

3) Gísli er útskrifaður úr Skálholtsskóla 1706, og sigldi þá samsumars til háskólans, skrifaður í studentatölu 22. sept. s. á. og og er þá talinn 24 ára gamall, en aldur hans mun þar ofhatt reiknaður, því að í gömlum skólaröðum frá Skálholti (Lbs. 207 4 to.) er hann talinn 20 ára 1706. Séra J. H. segir, að hann hafi verið 2 ár við lærdóm í Kaupm.höfn, og dáið úr bólu í hingað-siglingu við Noreg 1707, en hitt er réttara, er Espólín (Árb. VIII. 103) o. fl. segja, að hann hafi siglt frá Eyrarbakka sumarið áður (1706) og daið um veturinn eptir í bólu. Frásögn séra J. H. (í ættatölum hans) er að öðru leyti dálítið frábrugðin frásögn Espólíns, því að Espólín segir, að kista Gísla, (þó ekki lík hans, heldur fatakista),

B. Helga Gísladóttir átti Bjarna í Heynesi[1]) Sigurðsson, Árnasonar lögmanns:

a. Séra Gísli á Melum í Melasveit dó 1771[2]) ógiptur, bl.

b. Séra Jón á Holtastöðum í Langadal atti Þuríði, dó barnlaus[3]).

Seinni maður Helgu 1681[4]) Jón Guðmundsson, barnlaus.

---

hafi verið flutt heim í Ás, og þá er kistunni hafi þar verið lokið upp, þá hafi bólan hafizt. En frásögn séra J. H. er orðrétt á þessa leið:

»Hans föt (ɔ: Gísla) niðurpökkuð í stóran sekk, komu út á Eyrarbakkaskipi, og strax sem þau þar á höfninni úr skipinu upptekin voru, sló upp úr pokanum viðlíka gufu eða dökkum reyk og þá fyrst kviknar eldur í kolagröf af hráu eður votu kurli. Af þeirri gufu sló strax bólunni á landsfólkið með miklu mannfalli um Flóa og Eyrarbakka, og jafnsnart sem þessi klæði komu heim í Ás voru Guðni og Halldóra nýgipt og dóu barnlaus með þeim fyrstu. Af Eyrarbakka kvíslaðist bólan fyrst til alþingis og þaðan sem annað dynjandi flóð út um allt landið«. Líklega er frásögn séra Jóns hér réttari en Espólíns að því leyti, að bólan hafi byrjað fyrst á Eyrarbakka og í Flóanum, undireins og skipið var komið, hvað sem bláu gufunni úr bólufötunum líður.

1) Bjarni var síðari maður Helgu, en Jón (son Guðmundar Torfasonar á Keldum) hinn fyrri og drukknaði hann 1681.

2) Séra Gísli dó 21. maí 1771, nær hálfníræður (f. 19. júní 1686).

3) Þuríður kona séra Jóns var dóttir Einars Sigurðssonar á Hraunum í Fljótum og systir séra Sigurðar á Barði. Hún hafði fyr átt Ólaf heyrara í Skálholti son Árna prófasts Þorvarðssonar á Þingvöllum. Hann fékk veitingu fyrir Bergsstaðaprestakalli 18. júní 1725, en prestvígðist ekki og mun hafa dáið litlu síðar, áttu þau Þuríður saman eitt barn og dó það á eptir föður sínum, og bar þá arfinn undir móður þess. Séra Jón og Þuríður áttu tvær dætur Helgu og Elínu, og voru þær hinar efnilegustu, en svo brá við, er séra Jón faðir þeirra hné dauður niður í bæjardyrunum á Holtastöðum 1746, að þær veiktust báðar með kynlegum hætti og urðu frávita upp frá því, lifðu þó lengi, Elín að minnsta kosti fram yfir 1790, en Helga mun hafa dáið um 1789. Þuríður móðir þeirra var lengi ekkja og dó á Holtastöðum 1784 86 ára gömul.

4) Þetta er rangt (sbr. aths. hér á undan).

Gísli bjó á Skarði á Landi og tók þriðjung af Stapa-umboði 1624, en sleppti þeim parti seinna vegna skulda. 1629 reið Gísli og Markús bróðir hans frá Fitjum í Skorradal, austur yfir fjall í feikna frosti, þeir hleyptu ofan í Þingvallavatn[1]), vöknuðu á höndum og fótum, fengu svo þungfært, drukku brennivín og dösuðust, svo þeir tóku hvíld og sofnuðu, en þá þeir vöknuðu voru hestarnir sloppnir frá þeim, en þeir svo freðnir, að ei gátu á fætur komizt. Veltu þeir sér eptir megni, þar til þeir með harmkvælum komust að Brúsastöðum nálægt Þingvöllum. Þar lágu þeir lengi, leysti af þeim marga fingur og fæturna, gengu þeir þar eptir á tréfótum alla æfi.

Það er nú ljóst, að af óþekktri aðferð við frosna fengu þeir þennan mikla skaða sem fleiri.

Þeir bræður Markús og Gísli hafa orðið mjög gamlir, því þeirra getur 1676[2]),

## Laurus Hansson

danskur maður, líklega settur af Bessastaðavaldinu, meina eg tæki sýsluna og umboðið nálægt 1630, en 1631 var Laurus orðinn þar sýslumaður, sem sjá má á eptirfylgjandi dómi:

Anno 1631 þann 3. febr. að Laugarbrekku á Hellisvöllum vorum vér eptirskrifaðir menn: Páll Erlendsson, Nikulás Oddsson, Jón Ólafsson, Brynjólfur Jónsson, Jón Snorrason og Jón Sigurðsson til dómsálita nefndir af ærusömum Hans Hamm-

---

1) Þetta er skakkt hjá Boga. Það var Grímsvatn, sem þeir hleyptu ofan í, [Espólín segir: Eiríksvatn: Árb. VI. 44], en ekki ber sögnum saman um, hvar þeir hafi fyrst komizt til bæja. Nefna sumir Svartagil, aðrir Brandskot (það bæjarnafn þekkist nú ekki í Þingvallasveit). En vel getur það staðizt, að þeir hafi komið fyrst að Brúsastöðum. Séra Engilbert Nikulásson á Þingvöllum, ágætur læknir á þeim tímum, græddi þá.

2) Gísli mun hafa dáið í Skarði 1676, 74 ára, eptir því sem sést kvað hafa á legsteini þar (sögn J. Péturss.). Hefur hann þá verið fæddur um 1602 og verið að eins 27 ára, er hann lenti í hrakningnum með bróður sínum. Að Bjarni son hans hafi verið stúdent er ekki ólíklegt, og gæti hann vel verið sá »Bernhardus Gislavius« (Bjarni Gíslason), sem skrifaður er í stúdentatölu við háskólann 16. desember 1671.

er Jörenssyni, hver eð þá þingaði í umboði velaktaðs Laurusar Hanssonar sýslumanns í Snæfellsnessýslu um það mál, er Steindór Gíslason dóms á beiddist og leiðréttingar, einkum hvort formenn þeir, sem góðir menn keyptu til að vera fyrir sínum skipum og forsjón fyrir þeim að hafa utan vertíðar og innan, skyldu vera skyldugir þau að annast og ábyrgjast fyrir veðrum og sjáfargangi eður ei. Leist oss hér víst stór þörf umsjón að hafa og skorður við að reisa þeirra vandræði, sem daglega því miður hjá mörgum lítt vönduðum í venju er dregið, og margur frómur maður hefur optlega á sínum skipum stóran skaða fengið. Aðgættum vér þessvegna vor landslög. Í þriðja capit. farmannalögum stendur svo: Stýrimenn eru skyldugir að gera hróf, ef þeir vilja og skjóta hlunni og festar til að fá. Item: þar maður tekur fúlgu með fé, þá skipa lög honum það við handarmun að ábyrgjast, virðast þó lög engu síður hér að hníga, þar formönnum eru þvílík kaup goldin, sem nú tíðkast. Item þar lögmálið talar um skiplán eða hrosslán ákveður svo: bæti skaða þann allan, er þeim verður að sem léði. Hvað oss sýnist að þessum formönnum hníga verða, þar þeir að eins hafa sinn hlut óskertan frá borði og brigðalausan. Item kaupabalkur 22. cap.: Sá skal lán ábyrgjast, er léð er og koma heilu heim. Því í Jesús nafni að h. anda náð með oss tilkallaðri á svo prófuðu máli, dæmdum vér fyrnefndir dómsmenn með fullu dómsatkvæði: Að sérhver formaður, sem til skips er trúað og þar tekur formannskaup á meira eður minna, annist og ábyrgist sama skip við öllum handvömmum sínum, en þær metist eptir því, sem lög gera ráð fyrir Landsl. bálks 2. 18., að grannar hans meti til handvamma, og þeir sömu löglega tilnefndir vilji með eiði sanna, að ómögulegt sé við að gera. En skipverjana og hásetana dæmum vér skylduga með formanninum að skipinu að gæta, þá sérlegt veður eða sjáfargangur er fyrir hendi, ella sektist eptir farmannalögum cap. 25., að þeim hluta skips, er hann átti. Samþykkti með oss þennan dóm ærusamur Hans Hammer etc.

Þessi Hans hefur þá verið umboðsmaður Laurusar sýslumanns og er mér dulið fleira um hann[1]).

---

1) Hinn 7. okt. 1631 dæmir Lárus Hansson sjálfur dóm á Laugarbrekku.

1634 dag 5. maí lét Laurus dóm ganga um hest í Snæfellsnessýslu. Af alþingisdómi 1637 sést, að ei hefur Laurus enn verið skilinn við Snæfellsnessýslu. Sýnist sem hann hafi tekið sér fyrir lögsagnara Jón Ólafsson 1635, en sjálfur haldið umboðinu, því 1637 er Laurus ásakaður um það, að frá honum slapp fangi, og 1639 fékk hann af konungi fríun fyrir þá sök. Sýnist því sem Jón Ólafsson hafi verið lögsagnari Laurusar téð ár og til 1641, en Laurus hafi sleppt bæði sýslu og umboði það ár. Þó er ekki fullvíst, hvort Laurus hefur sýsluna haft að veitingu téð ár eða Jón Ólafsson. En um það leyti var umboðið skilið frá sýslunni, og tók Bjarni Pétursson á Staðarhóli einn þriðjung þess, en Jón sýslumaður annan þriðjung og Steindór Finnsson þriðja þriðjung.

1637 þann 1. ágúst á Bessastöðum er Laurus Hansson dómsmaður í máli Jóns Guðmundssonar lærða á alþingi.

## Jón Ólafsson.

*Faðir*: Ólafur bóndi í Nesi Þórðarson frá Kirkjufelli Þórðarsonar Ásmundssonar betra.

*Móðir*: Guðrún dóttir Brynjólfs Jónssonar í Máfahlíð.

*Kona*: Hallbjörg dóttir Jóns á Kirkjubóli á Bæjarnesi sonar Þorleifs í Múla á Skálmarnesi Jónssonar Þorleifssonar. (Hallbjörg hafði fyr átt Steindór son Eiríks á Langárfossi Steindórssonar af Akraætt, þeirra börn: Eiríkur giptist Guðrúnu Einarsdóttur og Helga átti Pétur Guðmundsson[1]), þ. b.:
1. Magnús[2]).
2. Þórður[3]).

1) Pétur var son Guðmundar Þórarinssonar á Melum á Skarðsströnd og Þorbjargar Þórðardóttur frá Brekku í Gilsfirði Péturssonar, en móðir Guðmundar var Ingibjörg Jónsdóttir systir Þórðar prests í Garpsdal.

2) Magnús á Harastöðum á Fellsströnd átti Ingveldi Helgadóttur, þ. b.: Einar á Skarfsstöðum faðir Eyjólfs á Kársstöðum og Helga átti Þórð Bjarnason úr Hvammsveit.

3) Þórður átti Soffíu Eyjólfsdóttur Þorbjarnarsonar, þ. b.:
a. Guðríður átti Þorkel Bjarnason í Ármúla, bróður séra Jóns á Rafnseyri.

3. Helga[1]).

*Börn* Jóns Ólafssonar og Hallbjargar teljast:

A. Steindór á Selhóli átti Guðrúnu Björnsdóttur, börn:

a. Eiríkur varð lögréttumaður 1714—1732, giptist Soffíu dóttur Jakobs sýslumanns Benediktssonar (sjá síðar).

b. Björn Steindórsson við Búðir átti Sigríði Þórðardóttur Kolbeinssonar, börn:

aa. Jón við Búðir átti Ingibjörgu[2]) og börn.

bb. Jón í Böðvarsholti átti Solveigu og börn.

cc. Guðrún átti Gísla Jónsson, barnlaus.

dd. Þuríður átti Magnús Þorsteinsson og börn.

ee. Steindór í Vatnsholti átti Málmfríði og börn.

ff. Solveig átti Jón Erasmusson og börn.

c. Ingibjörg Steindórsdóttir átti Erlend, þ. d.

aa. Sigríður átti Árna fyr og 3 börn. Svo Jón Brandsson í Bjarnarfosskoti og börn.

d. Eirný Steindórsdóttir átti Helga, barn:

aa. Gottskálk við Búðir átti Guðrúnu Magnúsdóttur og börn[3]).

---

b. Einar í Hvarfsdal. Hans dóttir Guðbjörg móðir Árna Sigurðssonar í Glerárskógum.

1) Helga átti Búa í Elliðaey Jónsson Ívarssonar í Rifgirðingum Magnússonar, þ. d.:

a. Helga átti Þorvarð Palsson Narfasonar frá Fagurey, þ. b. meðal annara:

aa. Búi. Dóttir hans Helga átti Jón í Gröfum Gíslason í Grunnasundsnesi Magnússonar Þorsteinssonar Magnússonar á Kálfárvöllum Jónssonar Jónssonar Magnússonar, þ. b.:

a) Búi prófastur á Prestbakka († 26. des. 1848).

b) Guðmundur á Hnúki á Skarðsströnd.

c) Jón á Skarfsstöðum. d) Árni á Lundum o. fl.

2) Ingibjörg var Rögnvaldsdóttir. Einn son hennar og Jóns var Jón í Böðvarsholti, er átti Jórunni Oddsdóttur Hjaltalíns (sjá Gullbringusýslu). Flestir afkomendur Björns Steindórssonar urðu lítt að manni.

3) Son Gottskálks og Guðrúnar var:

a. Jón í Stóra-Langadal, svo á Hellnafelli, átti Ingibjörgu Helga-

B. Ólafur Jónsson í Króksfirði átti Höllu Helgadóttur[1]) Einarssonar, þ. b.:
a. Hallbjörg átti Bjarna Olafsson bróður Eiríks í Gíslabæ.
b. Steinunn átti Jón yngra Ólafsson á Völlum[2]), börn.
aa. Jón átti Málmfríði Jónsdóttur[3]) og börn.
bb. Steindór átti Sigríði Helgadóttur og Guðrúnar frá Sleggjulæk[4]).
C. Jón átti Þuríði Ólafsdóttur Bjarnasonar Guðmundssonar á Dunk.
D. Guðrún Jónsdóttir.

Jón var ei skólalærður, en bjó á Borg í Miklaholtshreppi[5])

---

dóttur systur Þórarins hafnsögumanns á Besserkjahrauni og Hálfdans á Haukabrekku, þ. b.: Gottskálk, Salóme, Ingibjörg.
Jón Gottskálksson átti nokkur launbörn með Kristínu Nefilsdóttur, dóttur Kristjáns Nevels við Búðir.

1) Halla var systir Sigurðar prests við Hellna og Egils prests í Skarðsþingum (II. B. bls. 281, 643).

2) Þ. e. Brimilsvöllum.

3) Jón faðir Málfríðar var son Hrómundar Tómassonar á Elliða. Börn Jóns og Málfríðar:
a. Marteinn átti Margréti laundóttur Bjarna djöflabana á Knerri (Latínu-Bjarna) Jónssonar Guðmundssonar prests í Skarðsþingum Einarssonar, þ. b.:
aa. Jón átti Margréti Árnadóttur frá Dalli Árnasonar og Ástríðar Svarthöfðadóttur Sturlusonar.
bb. Steinunn.
cc. Kristín átti Jón Árnason Hjálmssonar Árnasonar á Karlsbrekku í Þverárhlíð Sigurðssonar, þau systkinabörn, þ. d. Kristín.
b. Steinunn átti Bjarna digra Jónsson í Breiðuvík, þ. d. Guðrún.
c. Halla átti Árna Hjálmsson, þeirra synir: Hjálmur og Jón, er átti Kristínu Marteinsdóttur (sjá áður).

4) Faðir Guðrúnar var Sveinn Nikulásson.

5) Jón Magnússon bróðir Árna segir í ættatölum sínum, að Jón hafi búið á Borg í Króksfirði og er það líklega réttara. Síðar mun hann hafa verið í Grunnasundsnesi.

og var gildur bóndi. Hann var sýslumaður í Snæfellsnessýslu 1636 (eptir bréfi Eggerts Björnssonar á Skarði til Ara Magnússonar í Ögri, og í öðru bréfi getur Eggert, að þessi Jón Ólafsson vilji fá Barðastrandarsýslu). Mun Jón hafa verið umboðsmaður Laurusar, einkum fyrst. 1635 yfirlýsti Jón Ólafsson á alþingi útlegð Eiríks Sigurðssonar. 1635 í lögréttu spyr Jón Ólafsson Færey, hvort ærlegur maður eigi með lagaeiði að fría sig fyrir áburði óærlegs manns. Svar: ei fremur en hann sjálfur vill. 1635 þann 4. október lætur Jón á Ingjaldshóli ganga dóm millum Árna Jónssonar og Roberts. 1636 lét Jón ganga dóm á Staðarbakka, og sama ár kom undir lögmann á alþingi dómur Jóns Ólafssonar genginn á Ingjaldshóli þann 4. október 1635 um stefnu sundurrif. 1636 dag 25. maí lét sýslumaður Jón Ólafsson ganga dóm með Páli Erlendssyni, Jóni Steindórssyni etc. um, að stelpa lýsti legorði á mann. 1637 er Jón sýslumaður dómsmaður á alþingi. 1641 kom fyrir lögþingisrétt dómur Jóns Ólafssonar um kvennmann af hverjum drengur varð úti á Kambsskarði, fríaðist hún frá að vinna eið, að ei hefði getað drengnum bjargað. Item annar dómur um barn, sem úti varð. Item þriðji dómur um jarðarsölu.

Jón mun hafa frásagt sér Snæfellsnessýslu 1640, en þá tók hann þriðjung af Stapaumboði, hverjum hann sleppti 1644. Lifði hann lengi þar eptir valdalaus. En bæði áður og eptir var hann opt meðdómsmaður í héraði og þótti skírleiksmaður, en ei hef eg heyrt getið hann hafi sýsluvöld haft eptir 1640. Um það leyti munu honum hafa verið léntar kongsjarðir í Ísafjarðarsýslu, hverjum hann hélt um hríð (sjá sögu Jóns Indíafara 3. p. cap. 8.) Hann kallast þar að viðurnefni Jón Færeyski[1]).

---

1) Það er enginn efi á, að þessi Jón Ólafsson, er hafði Álptafjarðarjarðir um tíma, var færeyskur að ætterni. Og Jón Indíafari segir, að hann hafi áður haft Stapasýslu (þ. e. Snæfellsnessýslu) sbr. II. B. bls. 84. Getur hann þess í 20. kap. ferðasögu sinnar, að Jón hafi farið 14 ára gamall frá móður sinni, ekkju í Færeyjum, til Hafnar með Jörgen Daa admírál 1616, er hann kom úr leiðangri úr Hvítahafinu og var Jón Indíafari þá á admírálsskipinu. Síðan hafi Jón þessi verið í þjónustu göfugra manna í Höfn og loks fengið 5 jarðir í Álptafirði að léni (sbr. dönsku útgáfuna af

## Runólfur Sigurðsson.

(Sjá um hann við Hnappadalssýslu). Þá Jón Ólafsson sleppti var Runólfur hér settur sýslumaður árið 1641, en ekki hafði hann af Stapaumboði og ei sýsluna utan það eina ár.

## Steindór Finnsson.

*Faðir*: Finnur Steindórsson sýslumanns Finnssonar prests á Ökrum Arnórssonar Finnssonar. (Finnur son Steindórs sýslumanns bjó í Vogi til þess faðir hans deyði, þá flutti hann að Ökrum).

*Móðir*: Steinunn dóttir Jóns rebba í Búðardal Sigurðssonar (sjá Dalasýslu).

*Kona*: Guðlaug Þórðardóttir Einarssonar prófasts á Staðastað (sjá fyr).

*Börn*: A. Bjarni.

B. Halldór, dóu báðir holdsveikir og barnlausir.

C. Böðvar útlærður, drukknaði í Ölfusá með Jóni ráðsmanni í Skálholti[1]).

D. Finnur átti Þórunni dóttur Eggerts Hannessonar frá Snóksdal, þau bjuggu á Hofsstöðum 1648. Hann átti hálfan Vog og krenktist í elli sinni, barn:

a. Margrét, hún deyði barnlaus.

(Síðar giptist Þórunn Þorvarði Runólfssyni,

---

sögu Jóns Indíafara Kbhvn 1905 bls. 145). Það er því ekki neinn vafi á, að þessi Jón Ólafsson færeyski er sá, er sýslu hafði á Snæfellsnesi fyrir og um 1640. En ei að síður getur það verið rétt, að Jón Ólafsson á Borg maður Hallbjargar hafi haft þar sýslu um tíma eða lögsögn að minnsta kosti, þótt engar sannanir séu fyrir því, og það er enda eins sennilegt, að hér sé að eins um Jón hinn færeyska að ræða, þar sem nefndur er Jón Ólafsson sýslumaður í Snæfellsnessýslu á þessum árum, enda víða kallaður »Færey« (sbr. bls. 115).

1) Böðvar var útskrifaður úr Skálholtsskóla. Hann reið með frænda sínum Jóni Halldórssyni ráðsmanni frá Þorlákshöfn í þoku og snjómuggu föstudaginn eptir kyndilmessu (7. febr.) 1645, og villtust á Hvítárísum fyrir neðan Arnarbæli, drukknuðu þar báðir (í Ölfusá), fannst lík Jóns, en Böðvars ekki. Nafn Böðvars Steindórssonar bar Böðvar Pálsson á Slitvindastöðum faðir Árna skálds á Ökrum (Ættat. séra Jóns Halldórssonar).

börn: 1. Runólfur, 2. Finnur, 3. Herdís, 4. Halldóra, 5. Sigríður)[1].

E. Guðmundur var 2 ár sýslumaður í Húnavatnsþingi og 1 ár umboðsmaður á Bessastöðum, fór utan til Hollands, varð höndlari hollenzkra í Bjarneyjum, giptist svo Ingibjörgu norðlenzkri Guðmundsdóttur Sanda-Oddssonar[2]), börn:

a. Árni átti Þórnýju Ketilsdóttur bjó við Hellna, börn:

aa. Guðmundur.

bb. Helga.

cc. Ingibjörg.

dd. Sigríður.

b. Halldór átti Guðrúnu Þorsteinsdóttur, bl.

F. Þórður Steindórsson sýslumaður í Snæfellsnessýslu (sjá síðar).

G. Þórunn Steindórsdóttir átti Guðmund Jónsson á Fróðá (sjá hér síðar).

H. Margrét Steindórsdóttir átti Jón Eggertsson frá Snóksdal, þ. b.:

a. Guðmundur átti Guðlaugu Egilsdóttur, bl.

b. Hákon lögréttumaður í Húnavatnsþingi, giptist þar.

c. Þórunn átti Þorstein Jónsson smið, bl.

d. Steinunn, dó barnlaus.

e. Halldóra.

f. Jón[3]).

I. Guðrún Steindórsdóttir átti Halldór Guðmundsson í Máfahlíð (sjá síðar), börn:

---

1) Sjá um þessi börn II. B. bls. 319. Við það má bæta, að synir Finns Þorvarðssonar á Leikskálum voru Andrés á Krossi í Haukadal og Finnur á Leikskálum faðir Finns á Finnsmörk í Húnavatnssýslu.

2) Sja um Guðmund sýslumann Steindórsson og afkomendur hans I. B. bls. 579—581.

3) Halldóra og Jón eru ekki talin meðal barna Jóns Eggertssonar (yngra) og Margrétar í ættatölum séra J. H. og heldur ekki hjá Snókdalín. Mun því hér skakkt talið hjá Boga (sbr. II. B. bls. 318).

a. Séra Sigurður í Nesþingum átti Karítas Vigfúsdóttur, bl.
b. Einar í Ólafsvík átti Ingunni Snorradóttur, börn:
aa. Pétur á Rauðamel[1]) faðir Péturs í Görðum
bb. Sesselja átti launson Svein föður Péturs á Bjarnastöðum (sjá síðar)[2]).
c. Guðmundur á Þórdísarstöðum átti Ingveldi Jónsdóttur, börn:
aa. Guðrún átti Bjarna samastaðar[3]), þ. s.:
aaa. Brynjólfur.
d. Guðrún átti Einar Þóroddsson á Hofsstöðum í Hálsasveit, börn:
aa. Séra Halldór á Stað í Steingrímsfirði, átti börn[4]).

---

1) Pétur Einarsson var prestur í Miklaholti († 1778).

2) Þetta er ekki rétt. Sesselja átti launbarn við Pétri Ásgrímssyni norðlenzkum manni, en nafns þess er ekki getið. Sesselja dó í bólunni (líklega 1762). Pétur Sveinsson á Bjarnastöðum (í Kolbeinsdal) átti ekkert skylt við þessa ætt. Sveinn stúdent faðir hans var son Péturs Jónssonar frá Skjöldólfsstöðum eystra.

3) Bjarni á Þórdísarstöðum var son Jóns Þórðarsonar í Höfða og Margrétar Guðnadóttur frá Kirkjufelli Sigurðssonar (sjá hér áður bls. 102). Son hans og Guðrúnar Brynjólfur átti Ingveldi Torfadóttur, en börn hans og s. k. hans Þorkötlu Bjarnadóttur voru Kári og Guðrún.

4) Börn séra Halldórs og Sigríðar Jónsdóttur prests eldra á Gilsbakka Eyjólfssonar voru:
a. Björn prestur í Sauðlauksdal, síðar á Setbergi átti Rannveigu Ólafsdóttur frá Svefneyjum Gunnlaugssonar systur Eggerts varalögmanns, bl.
b. Guðrún átti séra Halldór Brynjólfsson í Hraungerði.
c. Rannveig f. k. séra Guðbrands Sigurðssonar á Brjánslæk, bl.
d. Guðrún yngri s. k. séra Guðmundar Jónssonar á Krossi, þeirra son Jón sýslumaður í Vík í Mýrdal.
e. Guðrún yngsta átti séra Stefan Högnason á Breiðabólsstað í Fljótshlíð, þ. b.:
aa. Rannveig f. k. séra Þorvaldar prófasts Böðvarssonar í Holti,

Annar maður Guðrúnar Þórður Daðason[1]), bl.

K. Guðrún yngri Steindórsdóttir átti séra Eirík Vigfússon (sjá Strandasýslu)[2]) börn.

a. Séra Vigfús í Miðdalaþingum, dó 1707, ógiptur, barnlaus.

b. Guðlaug dó 1703 fyrri kona séra Hannesar Halldórssonar, barnlaus.

L. Sigurður Steindórsson varð holdsveikur, dó hjá Finni bróður sínum[3]). barnlaus.

Steindór mnnaðist vel, fór utan og lærði bartskeralist, kom svo út, giptist, bjó í Miðgörðum 1623, en fyr í Öxney og Ormsbæ, en lengst á Ingjaldshóli. 1614 þann 16. september á Fáskrúðarbakka þingaði Steindór Finnsson í löglegu umboði Steindórs Gíslasonar, (þá umboðsmanns Jóns lögmanns Sigurðssonar á Reynistað) og nefndi 6 menn í dóm um unglingaframfæri[4]).

---

áttu 3 börn, er öll dóu ung. Hún dó í bólunni 29. des. 1785.

bb. Sigríður átti séra Pál Þorláksson á Þingvöllum bróður séra Jóns skálds á Bægisá (sjá afkomendur þeirra í Árnessýslu).

cc. Högni prestur í Hrepphólum († 24. sept. 1837) átti frændkonu sína Sigríði Böðvarsdóttur prests í Guttormshaga Högnasonar, þeirra synir: Böðvar aðstoðarprestur á Hallormsstað († 15. apr. 1835) og Jón prestur í Hrepphólum († 23. júní 1879).

f. Einar prestur í Hraungerði, dó í Sauðlauksdal hjá séra Birni bróður sínum 21. okt. 1772.

g. Jón átti Björgu Gísladóttur, bl.

Aths. Sumir telja, að Guðrún yngsta Halldórsdóttir hafi verið kona séra Guðmundar á Krossi, en sú í miðið hafi verið kona séra Stefáns Högnasonar. En Snókdalín telur eins og hér er gert og mun það sönnu næst, enda þótt þetta skipti ekki miklu.

1) Þórður var son Daða á Stóruvöllum Jónssonar prests í Steinsholti Gunnlaugssonar prests í Hruna Jónssonar (II. B. bls. 334).

2) II. B. bls. 359.

3) Sigurður er ekki talinn meðal barna Steindórs Finnssonar í ættatölum séra J. Halldórss. né annarsstaðar og mun þetta því málum blandað hjá Boga við Sigurð og Finn Sigurðssyni (II. 350).

4) Um dóm þennan er áður getið bls. 88.

1633 kom Steindór til alþingis með suplicatíu Jöklamanna að afbiðja danska sýslumenn. Steindór var haldinn mikill forstandsmaður. Hann tók í samning til þriðjunga við Bjarna sýslumann Pétursson og Jón sýslumann Ólafsson Stapaumboð 1640 og Snæfellsnessýslu 1642 sem umboðsmaður Sigurðar Jónssonar, en hafði ei hennar veiting.

Þeir Bjarni og Jón sýslumaður slepptu sínum umboðspörtum 1644 og tók Steindór þá parta, vildi þó sleppa umboðinu 1645, en mátti sitja uppi með það til 1647, og í þess afgjald og seinasta útsvar sóaðist Vogur, hálft Fíflholt, hálf Bessatunga, Belgsholt og Syðri-Rauðimelur. Steindór þóttist verða ofhart úti með afgjald umboðsins, vildi hann frá því losast. Áður var eptir sýslu og umboðið goldinn í samningum 800 rd. specíe. Þá Steindór fékkst ekki til að vera við umboðið, var það 1647 uppboðið fyrir 740 rd. spec. árlegt eptirgjald og vildi enginn taka það. Setti þá Jens Söffrensen Gregers Bang fyrir umboðið. Skyldi hann gera árlegan reikning fyrir þess inntektum um hverja Jónsmessu, en hafa laun á parti. Steindór flutti þar eptir að Ingjaldshóli og bjó þar til þess sonur hans Þórður tók þar við búi 1671. Þó nokkrir segi, að Steindór hafi verið fyrir Snæfellsnessýslu 1646 hygg eg það villt. Steindór mun hafa haldið sýsluna í umboði Sigurðar Jónssonar 1642—1645. Hann var góður læknir og margt vel gefið[1]).

## Sigurður Jónsson.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Þá Jens Söffrensen umboðsmaður tók sýsluna af Runólfi sýslumanni Sigurðssyni 1641 lénti Jens hana Sigurði Jónssyni frá Einarsnesi, sem átti að halda hana upp á reikning. Fékk Sigurður veiting fyrir henni 1641, en brúkaði Steindór Finnsson fyrir sinn umboðsmann opt. Fjórir hans dómar komu til alþingis úr Snæfellsnessýslu 1642. 1644 kom til alþingis dómur Sigurðar Jónssonar í Snæfellsnessýslu um fingursbit. 1643 lét Sigurður dóm ganga um skipaútgerð lausamanna. Fógeti Laurus klagar 1644 höndlan Snæfellinga við framandi þjóðir, og skipar Sigurði

1) Séra Jón Halldórsson segir, að Steindór hafi verið lögvitur maður, en þó málstamur.

Snæfellinga sýslumanni það að dæma. Sigurður forsvarar sig og innbúa þar fyrir. Sigurður giptist 1641 Kristínu dóttur séra Jóns í Hítardal, keypti þá Laugarbrekku og setti þar bú saman. 1647 þá Jens Söffrensen setti stjúpson sinn Gregers Bang fyrir umboðið var Sigurður sýslumaður settur honum til styrktar fyrst, meðan Bang var óvanur og ókunnugur, því Einarsnesfeðgar voru þekktir að ráðvendni, og Sigurður gerðist vinur Jens Söffrensens. Við dauða föður síns 1648 fékk Sigurður sér veitta Mýrasýslu, en var þó við Snæfellsnessýslu aðstoðarmaður til 1650. Sigurður keypti af Jóni Steindórssyni Laugarbrekku og bjó þar meðan hann hélt Snæfellsnessýslu til þess hann flutti að Einarsnesi.

## Gregers Knutsson Bang

danskur maður, bróðir Jakobs Bangs, er um hríð var ásamt Torfa Erlendssyni sýslumaður í Árnessýslu, tók Stapaumboð að ráðum stjúpföður síns Jens umboðsmanns á Bessastöðum Söffrensens. Skyldi hann gera reikning fyrir öllum inntektum, en hafa laun á parti. Fyrstu árin 1647—8—9 var Sigurður Jónsson settur honum til aðstoðar, en þá Sigurður hafði tekið Mýrasýslu 1648 og var fluttur að Einarsnesi, tók Bang og svo Snæfellsnessýslu upp á reikning 1650; gerðist þá Guðmundur Jónsson á Fróðá hans aðstoðarmaður. Bang hélt Snæfellsnessýslu og Stapaumboði til þess Matthías Guðmundsson tók hvortveggja 1656. Hvað um Bang varð síðar, er mer dulið, þó er líklegt hann hafi þá farið að Bessastöðum og sé sá sami Greger, sem vaktaði þar kongsgarðinn 1657 þá Matthías var utan farinn, en Hákon Ormsson dáinn; nefnist Greger þá Mikkelsson og sveinn fógeta.

## Guðmundur Jónsson.

*Faðir*: Séra Jón á Breiðabólsstað a Skógarströnd 1607, svo á Helgafelli 1622, var son Þormóðar Ásmundssonar í Bræðratungu, Lýtingssonar, Einarssonar gullsmiðs.

*Móðir*: Ingveldur dóttir Vigfúsar sýslumanns á Kalastöðum, Jónssonar Palssonar (bróður Alexíusar ábóta í Viðey) (sjá Kjósarsýslu).

*Kona:* Þórunn dóttir Steindórs Finnssonar frá Ökrum (sjá hér áður).

*Börn:* A. Margrét átti Styr á Haugabrekku, og Laugarbrekku, son Eyjólfs látúnssmiðs Jónssonar Jónssonar í Tungu í Staðarsveit Pálssonar. Móðir Styrs var Oddný Styrsdóttir; börn Styrs og Margrétar:

a. Sæmundur átti Ingibjörgu Bjarnadóttur Pálssonar, Bjarnasonar, dóttir:

aa. Margrét átti Illhuga á Gufuskálum að norðan.

b. Eyjólfur á Haugabrekku átti Þuríði Hrómundardóttur; barn:

aa. Hrómundur seinni maður Ingibjargar Björnsdóttur átti börn[1]).

c. Halla átti með Birni Þórðarsyni launson[2]) er hét:

---

1) Synir Hrómundar og Ingibjargar.

a. Eyjólfur á Saurum í Laxárdal átti fyr Sigríði Sigurðardóttur föðursystur Magnúsar Oddssonar á Mjóabóli; þ. b.

aa. Þorvarður átti Þuríði Sigurðardóttur Sigurðssonar, syskinabörn, þ. b.: Sigríður, Eyjólfur, Halldóra, Sigurður.

S. k. Eyjólfs Hrómundssonar Guðný Kolbeinsdóttir Kolbeinssonar og Þorgerðar Jónsdóttur (II, 349) bl.

b. Sigurður á Bugðustöðum átti Guðrúnu Þórðardóttur yngra frá Holti við Hellna Guðmundssonar á Arnarstapa Hálfdanarsonar, þeirra börn komust ekki upp.

2) Þetta er skakkt hjá Boga. Hildur Styrsdóttur kenndi barn Gísla stúdent syni Jóns prófasts Guðmundssonar í Hítardal, en hann sór fyrir og gekk síðan flest öfugt. Þetta barn hét Halla, og hún átti launbarn með séra Birni Þórðarsyni á Signýjarstöðum, er hét:

a. Bjarni átti Solveigu Magnúsdóttur; þ. b.:

aa. Halla átti Jón Jónsson; þeirra synir: Ólafur á Skiphyl og Bjarni í Laxholti.

bb. Hildur átti 1732 Steinólf í Hægindakoti í

aa. Bjarni faðir Höllu og Hildar (þaðan ættir).
d. Katrín átti Bjarna Magnússon í Lækjarbug, barn:
aa. Magnús á Kongsbakka (frá honum eru ættir[1]).
B. Ingveldur Guðmundsdóttir átti Eyjólf á Fornu-Fróðá Jónsson Guðmundssonar[2]) b.:
a. Þórður faðir
aa. Helga, sem giptist og
bb. Jóns í Galtarholti, sem giptist. Báðir áttu börn (þaðan ættir)[3]).

---

Reykholtsdal Árnason í Hægindakoti Jónssonar s. st. († 17. ágúst 1689), Mattheussonar á Kleppjárnsreykjum († 8. ágúst 1674) Lassasonar Mattheussonar, Lassasonar bartskera á Skáney (II. B. 492—93).

1) Magnús á Kongsbakka var fæddur 1699, dó 1764, að því er Snókdalín segir, s. k. hans var Helga Arnadóttir Guðmundssonar sýslumanns Steindórssonar, þau 3. og 4. að frændsemi, þ. b. a) Árni á Saurum, b) Steindór á Saurum, c) Þórný og d) Katrín móðir séra Ólafs Guðmundssonar á Höskuldsstöðum.

2) Faðir Eyjólfs var Jón Þórðarson á Glitsstöðum. Var Eyjólfur bróðir (sammæðra) Styrs Eyjólfssonar (sjá hér á undan).

3) Börn Jóns Þórðarsonar í Galtarholti:
a. Þórður tvíkvæntur, bl.
b. Benedikt átti Valgerði Jónsdóttur, þ. b.:
aa. Þórður á Ánastöðum átti Guðrúnu Jónsdóttur Egilssonar, systur Snorra á Kálfalæk, þeirra son:
aaa. Benedikt á Ánastöðum átti Steinvöru Guðmundsdóttur stúdents Péturssonar og Jarþrúðar Ólafsdóttur prests á Álptamýri Einarssonar, þ. b.:
× Þórður á Ánastöðum átti Ingigerði Þorbergsdóttur Snókdalíns í Leirulækjarseli Ólafssonar Snókdalíns ættfræðings, þ. b.: Pétur í Hjörsey, Benedikt í Skíðsholtum, Ólöf kona Ásmundar Guðmundssonar frá Ánanaustum, Jón og Þorbergur, drukknuðu báðir ókv.
× Guðmundur eldri á Ánastöðum á Guðlaugu Andrésdóttur frá Seljum Jónssonar og börn.

C. Steinunn Guðmundsdóttir átti Pétur á Völl-

---

× Guðmundur yngri á Saurum í Hraunhrepp, tvíkv.
× Guðrún átti Ármann Eyjólfsson á Hamraendum, þ. b.: Oddur, Benedikt, Dalmann í Fíflholtum, Þorbjörg kona Odds Jónssonar á Kálfalæk, Guðrún og Steinvör.
× Jarþrúður á Gísla Andrésson í Skíðsholtum bróður Guðlaugar konu Guðm. eldra Benediktss., þ. b.: Benedikt á Hrafnkelsstöðum, Þorkell í Syðri-Skógum, Steinvör kona Þorkels Gilssonar á Vogalæk, Sigríður kona Sigurðar Eiríkssonar á Álptá og Ingveldur.
Launbörn Benedikts Þórðarsonar á Ánastöðum með Guðrúnu Hannesdóttur voru:
× Guðrún átti Ingimund Sigurðsson á Bakka við Reykjavík.
× Guðríður átti Jón Jónsson í Skjálg, þ. b.: Jón bóndi á Skiphyl og Guðrún kona Hallbjörns Hallbjörnssonar á Brúarhrauni.

c. Sigríður átti Ara Magnússon í Stafholtsey, þ. b.:
aa. Bjarni hreppstjóri í Öskjuholti.
bb. Ari smiður á Narfastöðum í Melasveit.
cc. Jón í Arnarholti faðir Árna Borgfirðings, Egils í Vogatungu og Jóns á Víðilæk.
dd. Ásmundur.
ee. Þórður í Stafholtsey. Son hans með f. k.:
aaa. Einar í Hjarðarholti átti Solveigu Bjarnadóttur prests á Mælifelli Jónssonar, er síðar átti séra Búa Jónsson, þ. b.:
× Skarphéðinn á Hvoli í Vesturhópi.
× Bjarni á Dýrastöðum í Norðurárdal.
× Guðmundur á Kollsá í Hrútafirði faðir Sigríðar s. k. Péturs Friðrikssonar Eggerz (II. B. bls. 727) og Solveigar móður Búa Ásgeirssonar frá Stað í Hrútafirði.
Börn Þórðar Arasonar og s. k. hans voru:
bbb. Jón í Norðtungu († 2. okt. 1891) og
ccc. Guðrún kona Símonar Sigurðssonar á Kvígsstöðum í Andakíl.
ff. Sesselja (f. 1745, † 1833) átti fyr Jón Björnsson, svo Sigurð á Álptanesi Bjarnason frá Langárfossi Eiríkssonar, bróður Guðmundar borgara í Rvík (II. 354, 356), þ. b.:

um, sem 1714 hrapaði fyrir Knararkletta[1]), þeirra dóttir:

a. Ingibjörg átti Jón Bjarnason bróður Ingibjargar konu Sæmundar Styrssonar (sjá hér að ofan). Jón deyði 1714; þeirra börn:

aa. Steinunn átti Gunnar Jónsson Gunnarssonar (frá þeim eru ættir).

bb. Ingveldur átti fyr Jón Guðmundsson, börn:

aaa. Helga.

bbb. Ingveldur.

Síðar átti hún Ólaf Jónsson á Sandi, þeirra dóttir:

ccc. Guðrún.

(Afkomendur Guðmundar eru bændafólk, þar af helztur lifandi 1834 er Jón Sigurðsson hreppstjóri á Álptanesi).

Guðmundur bjó á Fróðá, var góður bóndi, lögkænn og ritari góður. Hann ritaði lögbók Íslendinga fyrir Matthías Guðmundsson (sjá hér síðar). Guðmundur var lögréttumaður og líklegra hann hafi heldur verið sá, sem Matthías Guðmundsson Snæfellsnessýslumaður brúkaði fyrir sinn lögsagnara en Guðmundur Jónsson frá Einarsnesi. Þó er það ekki fullvíst. Ekki er og ólíklegt, að Jakob sýslumaður hafi brúkað stundum Guðmund á Fróðá fyrir lögsagnara, þá hann við þurfti, einkum á vetrardag í ófærðum norðan jökuls[2]).

---

aaa. Jón hreppstjóri á Álptanesi, auðugur maður, átti Ólöfu Jónsdóttur, systur Þórðar dbrm. í Skildinganesi og mörg börn.

1) Pétur var haldinn fjölkunnugur. Hann bjó í Hlíðarkoti. Var drukkinn, er hann hrapaði niður af hömrunum fyrir ofan Knör. Hestur hans stóð á bjarginu eptir (Ættat. J. H.).

2) Guðmundur Jónsson var dómari í Snæfellsnessýslu 1652—1656 (sjá Borgarfjarðarsýslu). 1652 lét hann dóm ganga um ábúð á Lóni. Líklegra að það hafi verið Guðmundur frá Einarsnesi heldur en nafni hans á Fróðá. Hefur þá Guðmundur haft sýsluna næst á undan Matthíasi.

## Matthías Guðmundsson.

Hans ætt þekki eg ekki. Hann var fyr handskrifari umboðsmannsins á Bessastöðum og stundum hans umboðsmaður. Umboðsmaðurinn Tómas Matthíasson veitti honum Snæfellsnessýslu og Stapaumboð 1656 fyrir víst árlegt afgjald. Þá umboðsmaðurinn og fógeti Tómas Nikulásson fóru utan og höfðu sett Hakon sýslumann Ormsson fyrir sinn umboðsmann 1657, en deyði á Bessastöðum sama ár, fékk Árni lögmaður Oddsson Matthías Guðmundsson til að vera í stað umboðsmannsins; var því Matthías á Bessastöðum veturinn 1657—58 til þess umboðsmaðurinn kom út, en setti á meðan Halldór Guðmundsson í Ólafsvík fyrir sinn umboðsmann í Snæfellsnessýslu og Stapaumboði, en Matthías tók við sýslu sinni og umboðinu sumarið eptir. Meining er, að Matthías hafi stundum haft Guðmund Jónsson á Fróðá fyrir sinn umboðsmann, og Jónsbók hefur Guðmundur fyrir hann skrifað og nefnir hann a titilblaði: „Ærlegan, velvísan og vel aktaðan Matthías Guðmundsson", og á bak við lögbókina hefur hann skrifað: „Góða dómenda og valdsmannabæn".

1662 þann 1. júlí kom sýslumaður Matthías Guðmundsson í lögréttu með dóm genginn að Ingjaldshóli um ábýli Háris Vilhjalmssonar enska á Hraunskarði, hvort þeim sýndist ei full foröktun, að nefndur Háris hefði ei í næstu tvö ár sitt ábýli hálft Hraunskarð heima tekið. Háris segist ei hafa vitað af alþingissamþykkt 1660, að þó jarðirnar séu fastar skuli þær heima takast árlega af leiguliða. Svara dómsmenn: að nefnd samþykkt hlýði upp á þá, er með þrjósku og óhlýðni að jörðum sitja í trássi við sína húsbændur. Háris beiddi forláts á orðum og athöfnum sínum við Matthías, og að beiðni lögréttunnar sættust þeir, svo Háris hélt hálfu Hraunskarði.

Meðan Matthías hélt Snæfellsnessýslu fram fóru þar margir dómar, sumir útnefndir af sjálfum honum, sumir af hans umboðsmönnum, en engir sérlega markverðir.

1657 á Ingjaldshóli lét Matthías dóm ganga um búðafólk, lausamenn etc. 1668 dómur um barneign Þuríðar Þorsteinsdóttur, sem ei gat feðrað.

Matthías komst í skuldir; var þá Guðmundur Jónsson frá Einarsnesi, (er seinna hélt Þverárþing), sendur um veturinn

1663 frá Tómasi Nikulássyni að stefna Matthíasi. En Matthías gaf Guðmundi kostuglega treyju og blíðyrði, féll svo niður stefnan. Vorið eptir reið Tómas Nikulásson og með honum Þorleifur lögmaður Kortsson og Sæmundur Oddsson með fjölmenni vestur á Stapa, hvar Matthías bjó til að útheimta skuldir kongsins og Jóhanns Trelunds vegna upp á nærri 400 vættir.

Matthías hafði viðbúizt og riðið um alla Snæfellsnessýslu, og samið út af mörgum manni tvö, þrjú, fjögur til átta hundraða bæði í skatta og tíundarhald (sjá þar um skrif Sigurðar Gíslasonar til séra Jóns í Holti 12. marz 1663). Borgaði því Matthías mikið af skuldum sínum og var við embættið. 1660 á alþingi óskaði Matthías sýslumaður vitnisburðar og fékk hann góðan.

1664 21. apríl útgaf höfuðsmaðurinn Henrik Bjelke dönskum manni, er hét *Christopher Roher*[1]) veitingarbréf fyrir Stapaumboði og Snæfellsnessýslu, það upplesið á alþingi 1665, því fógeti hafði klagað yfir skuld Matthíasar. Reið Roher vestur um haustið 1664 með nokkra menn og kallaði sér umboðið með haustleigum. Matthías kvaðst engu sleppa mundi fyr en yrði að komandi vori. Samdist svo með þeim, að þeir urðu sáttir að kalla, og var Roher vestra um veturinn. Meining er, að Matthías hafi þó látið Roher fá part af lénum sínum, því á alþingi var hann með sýslumönnum talinn 1667 og 1668.

Um vorið 1665 tók umboðsmaðurinn Tómas Nikulásson danska ferju og ætlaði að fara sjóveg vestur að Einarsnesi, taka þar hesta til Stapa og afhenda Roher umboðið. Sást til þeirra siglingar af Kjalar- og Akranesi, en sem þeir komu gagnvart Melum í Melasveit urðu menn varir, að skip þeirra rak flatt. Hrundu menn þá fram báti, er næstur var, reru til ferjunnar og fundu einn mann á síðunni, var sá ómála og ódauður að eins. Týndist þar Tómas og skipverjar hans. Litlu síðar rak upp lík Tómasar á Akranesi. Eignuðu hjátrúarfullir þetta galdri Matthíasar, því hann hafði sagt: „Nú er gott veður fyrir Tómas Nikulásson“. En hinir vitrari

---

1) Í lögþingisbók 1665 nr. 17 og víðar er hann nefndur Roehr og mun það réttara, en nafn hans hefur verið framborið Roher.

meintu, að blindsker mundi ollað hafa, sem heitir Kotatangar. Tómas varð ei harmdauður, þótti hann harðdrægur, fégjarn og óheill í ráðum og athöfnum. Kona Tómasar hét að gefa Garðakirkju 20 rd., ef lík hans fyndist og það enti hún. Þá þetta fréttist lét Matthías ei laust umboðið og sýsluna, en Christopher Roher fór utan 1670 og dó í Kaupmannahöfn 1671.

1669 var útnefndur dómur af Ögmundi Sigurðssyni[1]) í umboði Matthíasar Guðmundssonar sýslumanns um Þuríði, sem ei vildi segja, hver hennar barnsfaðir var, upplesinn á alþingi til lögmanns úrskurðar, hvað við hana skyldi gera. Þorleifi Þorsteinssyni burtstroknum úr Snæfellsnessýslu var þá lýst á alþingi.

1671 lá Matthías lengi veikur um veturinn, en er honum tók að batna ætlaði hann í embættisstörf sín um sýsluna, a þeirri ferð féll hann fram af klettunum fyrir innan Ólafsvík til bana.

Matthías bjó á Stapa, sem áður er sagt. Var illa þokkaður af sýslubúum og skuldum vafinn, þá hann deyði.

Fyrri kona Matthíasar var Abela Andrésdóttir[2]), sem var

---

1) Ögmundur Sigurðsson í Bjarnarhöfn, föðurfaðir Steindórs sýslumanns Helgasonar (sjá Hnappadalssýslu), mun stundum hafa verið umboðsmaður Matthíasar í Snæfellsnessyslu t. d. 1662 og 1669.

2) Í vitnisburðarbréfi á latínu, er Brynjólfur biskup gefur Guðmundi stúdent Herjólfssyni til háskólans 1663 (Bréfabók Brynjólfs biskups A. M. 274 fol. nr. 149) er kona Matthíasar nefnd Abígael Jóhannsdóttir (eða Jónsdóttir) og er það eflaust réttara en hér segir. — Af því að áður er svo lítið kunnugt um þennan Guðmund Herjólfsson skal þess getið, að hann er fæddur um 1642, missti foreldra sína, er hann var barn að aldri, og var þá tekinn til fósturs af Matthíasi og fyrri konu hans, er settu hann til mennta í Skálholtsskóla 1654 12 ára gamlan og var hann þar 7 ár (útskrifaður 1661). Hælir biskup fósturforeldrum hans fyrir þá umönnun, er þau hafi sýnt honum og veitir honum hin beztu meðmæli í fyrnefndu vitnisburðarbréfi, segir að hann hafi liprar og skarpar gáfur. Guðmundur er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 26. okt. 1663, og vita menn síðan ekki meira um hann. Mun hann hafa andazt við nám í Kaupmannahöfn. Í innritunarskrá háskólans er hann talinn af Suðurlandi (»Islandia australi«) og mun það rétt.

dáin 1660 með góðum vitnisburði, sem Matthías tók fyrir sig og hana á alþingi 1660.

Seinni kona hans var Marín Eiríksdóttir[1]) jyllensk og mikil vexti. Ei hef eg heyrt getið barna þeirra. Hún var um hríð á Stapa eptir dauða manns síns ekkja.

Hvort Sören landþingisskrifari var sonur Abelu veit eg ekki víst, þó mér þyki það líklegast. Sören landþingisskrifari son Matthíasar Guðmundssonar þjónaði lengi á Bessastöðum, varð landþingisskrifari 1691, tók við embætti 1695, gerðist sýslumaður í suðurparti Barðastrandarsýslu 1700, dó þar þangað fluttur sama ár. Hans sterfbúi var fátæktar vegna gefið af kongsgjafafé 32 rdl. specie (sjá Gullbringusýslu og Barðastrandarsýslu)[2]).

---

Herjólfsnafnið er afar fágætt, en kemur þó fyrir á Álptanesi á 16. öld. 1601 er Herjólfur Gissurarson í Selsgarði (Selskarði) og er þá á áttræðisaldri. Vottar hann þá um landamerki Vífilsstaða (Fornbréfas. A. M.). Þykir mér ekki ósennilegt, að Guðmundur stúdent Herjólfsson hafi á einhvern hátt verið af Herjólfi þessum kominn, gæti eptir tímanum einmitt verið sonarsonarson hans, eða í kvennlegg af honum kominn. Það er og sennilegast, að ættfólk Guðmundar hafi einmitt verið á Álptanesi eða í grennd við Bessastaði, því að það er víst, að þau hjón, Matthías og Abígael, hafa tekið hann til fósturs og komið honum í skóla meðan þau voru syðra og áður en þau fluttu vestur á Stapa.

Abígael kona Matthíasar dó á Stapa 12. febrúar 1660 og er grafin á Laugarbrekku. Sést þar enn legsteinn hennar með þessum dánardegi, en nafns hennar er þar ekki getið (sbr. Árbók Fornleifafélagsins 1901 bls. 35).

Séra Jón Halldórsson getur þess í ættatölum sínum, að Randalín dóttir Halldórs prests Jónssonar á Staðarhrauni hafi »í æsku sinni þént« Matthíasi á Stapa. Hún giptist síðan þremenning sínum Högna Halldórssyni, og keypti hann leyfisbréf til þess fyrir 30 rd. og bætir séra J. H. við þeirri athugasemd: »fullkeypt þótti þá gullið«. Er af því að ráða, að Randalín þessi hafi fengið orð af Matthíasi, er hún »þénti« honum. Son Högna og hennar var Sigurður sýslumaður í Mýrasýslu (sjá um hann þar).

1) Í prestaæfum séra Jóns Halldórssonar er hún sögð Jensdóttir og sama segir Snókdalín, en alstaðar annarsstaðar hef eg séð hana kallaða Eiríksdóttur.

2) Sbr. II. 98.

danskur að ætt, hverja eg ekki þekki[1]).

*Kona*: Marín Eiríksdóttir ekkja Matthíasar sýslumanns Guðmundssonar.

*Börn*: A. Séra Benedikt fékk Fljótshlíðarþing 1717, dó 1744[2]), átti fyr Borghildi Jónsdóttur, þeirra son: a. Jónas prófastur á Höskuldsstöðum[3]) norður

---

1) Í æfisöguágripi presta á Melum, sem er í minni eigu með hendi séra Jakobs Finnbogasonar, er Benedikt faðir Jakobs sýslumanns talinn son Jakobs fógeta á Vendilskaga (Vendsyssel) á Jótlandi Jakobssonar prests í Nordby á Jótlandi Jóhannssonar, er verið hafi á lífi 1530 og þar eptir. Espólín (í ættatölum sínum) sleppir úr Jakobi fógeta og telur Benedikt son Jakobs prests Jóhannssonar, en hitt mun réttara, enda að sjálfsögðu samkvæmt ættfærslu séra Benedikts Jónassonar á Melum, er var sonarsonarson Jakobs sýslumanns Benediktssonar.

2) Réttara mun, að séra Benedikt hafi orðið prestur í Fljótshlíðarþingum 1716 og dáið 1745, þótt 1744 sé víða talið andlátsár hans. Hann dó á þann hátt, að hann datt af hestbaki, lenti á stein og rotaðist þegar. Hann bjó í Butru (Butrhildarstöðum) og er talinn sextugur, er hann lézt, en hlýtur að hafa verið eldri, ef dánarár föður hans (1680) er rétt. Í skólaröðum frá Skálholti (Lbs. 207 4 to.) er hann talinn 17 ára 1699 og hafi þá verið 6 ár í skóla, en ártalið 1699 er þar skakkt og á að vera 1701. Skólaröð sú, sem hér er um að ræða er nfl. frá vetrinum 1700—1701, en ekki frá 1698—99 eða 1699—1700. Séra Benedikt er enn í skóla 1702—1703 og hefur líklega útskrifast 1704 eptir 9 ára skólaveru. Sé aldur hans réttur í skólaröðinni, ætti hann að vera fæddur um 1684, en það getur ekki staðist og hlýtur hann að vera eldri, fæddur ekki síðar en 1681, og væri þó eptir lát föður hans, ef dánarár hans er rétt 1680, en fyrir því eru reyndar ekki öldungis áreiðanlegar heimildir og gæti því verið, að Jakob hafi ekki andazt fyr en 1685 eða síðar, og kæmi þa allt heim. En líklegra er samt, að aldur Benedikts sé rangt talinn og að hann hafi komið c. 15 ára í skóla 1695. Það er sagt, að hann hafi alizt upp á Hlíðarenda (hjá Brynjólfi sýslumanni Thorlacius). Svo segir í æfisögum presta í Fljótshlíðarþingum framan við prestsþjónustubækur þaðan (Landskjalasafnið).

3) Séra Jónas dó 15. október 1819 81 árs að aldri.

átti fyr Guðrúnu Ólafsdóttur, bl., svo Sigríði Sigurðardóttur[1], barn:

aa. Séra Benedikt á Melum átti Ingibjörgu Björnsdóttur[2].

---

1) Sigríður hafði fyr átt séra Gunnlaug Jónsson aðstoðarprest á Reynistaðarklaustri († 1767), en þau áttu ekki börn.

2) Hún var ein dætra séra Björns Jónssonar í Bólstaðarhlíð og hafði fyr átt Sigurð sýslumann Snorrason (I. B. bls. 626—627). Börn séra Benedikts og hennar:

a. Jónas í Belgsholti átti Þuríði Þorvaldsdóttur prófasts Böðvarssonar, (er síðar átti séra Jakob Finnbogason), þ. b.:

aa. Kristín f. k. Jakobs verzlunarstj. á Vopnafirði Helgasonar prentara Helgasonar (II. 705); hún dó 18 ára, þ. b.:

aaa. Þuríður kona Sigurður Hjörleifssonar ritstjóra á Akureyri.

bb. Benedikt.

cc. Sigríður kona séra Þorvaldar Björnssonar á Melstað, eiga mörg börn.

Launbarn Jónasar með Helgu Sveinsdóttur á Leirá var:

dd. Kristín.

b. Sigurður söðlasmiður á Botnastöðum í Svartárdal átti Margréti Valgerði Klemensdóttur frá Bólstaðarhlíð Klemenssonar, þ. b.: Jakob, er dó í lærða skólanum 1879, Benedikt söðlasmiður á Fjalli í Sæmundarhlíð, Klemens, Ingibjörg og Sigríður.

c. Jakob síðast prestur í Glaumbæ, nú uppgjafaprestur á Hallfreðarstöðum, kvæntur Sigríði dóttur Jóns prófasts Halldórssonar á Breiðabólsstað í Fljótshlíð, sja um þeirra börn II. 703.

d. Benedikt á Hofi í Vatnsdal átti Guðrúnu Magnúsdóttur frá Birtingaholti Snorrasonar.

e. Ingibjörg 3. kona Jóns Jóhannessonar bókbindara í Leirárgörðum.

f. Hólmfríður Þórunn giptist dönskum beyki í Kaupm.höfn.

g. Sigríður.

h. Þorsteinn dó fárra nátta. i. Þórunn dó ung 1833.

Enn voru börn séra Jónasar Benediktssonar og Sigríðar:

bb. Borghildur dó ung.

cc. Sigurlaug († 1830) átti Jón Jónsson á Ytrahóli og síðar Syðrahóli a Skagaströnd, þ. b.:

aaa. Helga s. k. N. S. Ringsted verzlunar-

Þriðja kona séra Jónasar var Guðrún dóttir séra Björns í Bólstaðarhlíð.

Seinni kona séra Benedikts var Vigdís dóttir Sigvalda og Margrétar Bjarnadóttur almúgamanna[1]), barnlaus.

B. Soffía átti Eirík lögréttumann 1714—1732 við

manns í Vestmanneyjum, þeirra dætur: Helga, Sigurlaug og Rebekka Beate.

bbb. Sigríður f. k. Jóns hreppstjóra Sveinssonar í Sauðanesi á Ásum, þ. b.: a) Jónas í Finnstungu, b) Sigurlaug og c) Guðrún átti Jóhann Frímann Sigvaldason hreppstjóra í Mjóadal († 3. nóv. 1903), þ. b.: Sigurjón í Finnstungu, Halldór realstúdent í Ameríku, Anna kona Þorsteins Péturssonar í Mánaskál og Björg kona Jóns Espólíns í Hólabæ Jakobssonar Hákonarsonar prests Espólíns Jónssonar.

ccc. Sigurður á Blálandi í Hallárdal, kvæntur, átti börn.

ddd. Benedikt í Hamrakoti á Ásum. Synir hans: Jónas, Sigurður, Jón, Guðmundur, Benedikt, Jakob.

Það mun réttara, að Vigdís hafi verið 1. kona séra Benedikts, en Borghildur miðkona hans. Hún dó um 1740, þá er Jónas son þeirra var 2 ára.

1) Margrét móðir Vigdísar var systir Guðrúnar móður meistara Bjarna Jónssonar prests í Gaulverjabæ (sbr. II. 340).

Síðasta kona séra Benedikts Jakobssonar var Þórdís Ásmundsdóttir frá Ásgarði í Grímsnesi Sigurðssonar Guðnasonar í Tungufelli Jónssonar prests í Kálfholti Stefánssonar prests í Odda Gíslasonar biskups. Hún átti síðar séra Pál Högnason á Torfastöðum og var f. k. hans.

Dóttir séra Benedikts og Þórdísar hét Borghildur, ólst upp á Hlíðarenda, dó úr holdsveiki á Barkarstöðum eptir 10 ára sjúkleik 26. júní 1791 47 ára gömul, ógipt, bl. Talið er og, að séra Benedikt hafi átt aðra dóttur, Vigdísi, með síðustu konu sinni, en hún mun réttar talin dóttir Borghildar miðkonu hans, alsystir séra Jónasar, og heitin eptir 1. konu séra Benedikts.

Búðir, fyrirsvars bónda, son Steindórs á Selhóli Jónssonar sýslumanns Ólafssonar (sjá hér að framan), börn:

a. Jakob fyrirsvars bóndi við Búðir, góður læknir, skólagenginn, mikilmenni, auðugur, fæddur 1708, giptist 1732, dó 1767, átti Guðrúnu (d. 1784) dóttur séra Jóns á Staðastað (d. 1730) og Kristínar (d. 1733, 77 ára) Ólafsdóttur, börn:

aa. Halldór sýslumaður (sjá Strandasýslu)

bb. Jón sýslumaður (sjá Vaðlaþing)[1].

cc. Kristín kona Árna prófasts á Breiðabólsstað og Holti[2]).

---

1) I. 280—286.

2) Séra Árni var son Sigurðar prófasts í Holti Jónssonar Steingrímssonar af Steingrímsætt í Skagafirði. Séra Sigurður var föðurbróðir Jóns prófasts Steingrímssonar († 1791) og Steingríms afa Bjarna Þorsteinssonar amtmanns. Börn séra Árna og Kristínar voru:

a. Jakob prófastur í Gaulverjabæ († 1855) átti Elínu Eiríksdóttur frá Bolholti Jónssonar, bl.

b. Ólafur aðstoðarprestur í Sólheimaþingum († 1812) bjó á Rauðhálsi í Mýrdal, átti Valgerði Þórðardóttur prests í Kálfholti Sveinssonar, þ. b.:

aa. Þórður í Steinsholti í Eystrihrepp faðir Ólafs í Nesi við Seltjörn, Magnúsar í Skollagróf, Stefáns í Núpstúni o. fl.

bb. Kristín átti fyr séra Stefán Stefánsson á Heiði í Mýrdal († 5. des. 1845 [ekki 1846, eins og stendur í Prestat. Sv. N.]) og var þeirra son Ólafur í Fjalli á Skeiðum, en síðar átti hún Ófeig bónda ríka í Fjalli Vigfússon s.st. Ófeigssonar s.st. Sigmundssonar á Ófeigsstöðum hjá Steinsholti Helgasonar, og var s. k. hans, þau bl.

c. Páll rektor í Fredericiu á Jótlandi (Poul Arnesen), dó í Kaupm.-höfn 12. apríl 1851, kunnur fyrir orðabækur sínar í grísku og latínu, var tvíkvæntur; fyrri kona hans Bodild Cathrine Thorup dóttir N. H. Thorup prests í Guldager í Rípastipti, en hin síðari var Dorothea Elizabet de Wauwert Wexels, dóttir kammerráðs H. Wexels í Kristjaníu, þ. b.:

aa.) Hans Wexels Arnesen dó ungbarn.

bb.) Hans Leganger Wexels Arnesen yfirréttarmálsfærslumaður m. m. í Vestindíum til 1865, líklega dáinn í Kairo. cc.)

Launson Jakobs með Ólöfu dóttur séra Gissurar Bjarnasonar:

---

Hedevig Elizabeth. dd.) Sigurd Christian dó ungbarn. ee.) Benedicte Martinette (ɔ: Benedicte Arnesen-Kall) skáldkona. ff.) Peter Krog Meyer, borgmeistari í Middelfart og héraðsfógeti í Öster-Flakkebjærg. gg.) Wilhelm Frederik cand. phil. († 1839). hh.) Dorothea Paulina. ii.) Marie Sophie Benedicte Hedevig. kk.) Börge Thorlacius dó 1830 2 ára gamall.

d. Magnús stúdent, útskrifaður úr Reykjavíkurskóla hinum fyrri 1802, dó 1805, ókv., bl.

e. Jón prestur í Gufudal († 1834) átti Ingibjörgu Magnúsdóttur prests í Bjarnanesi Ólafssonar, ekkju séra Hálfdanar Oddssonar á Mosfelli, bl.

f. Soffía átti Bjarna á Reyni son Þórðar prests Sveinssonar í Kálfholti og mörg börn, þar á meðal voru:

aa. Guðfinna átti Björn á Rofunum í Mýrdal Árnason Ásbjörnssonar, þ. b.: a) Bjarni á Fossi í Mýrdal, b) Björn á Loptsölum, c) Árni, d) Magnús í Fagradal, e) Kristín kona Páls Björnssonar frá Jórvíkurhryggjum, f) Sesselja, g) Soffía, h) Guðfinna.

bb. Ingiríður átti Þorstein í Moshól Jónsson frá Langholti í Flóa Eyvindssonar Þórðarsonar í Höfða í Biskupstungum Sæmundssonar í Hreiðurborg Ólafssonar, þ. b.: Bjarni í Hellukoti, Ingvi á Snæfoksstöðum o. fl.

g. Guðrún átti fyr séra Ingimund Gunnarsson á Ólafsvöllum, þ. b.:

aa. Páll prestur í Gaulverjabæ átti Sigríði Eiríksdóttur sýslumanns Sverrissonar, þeirra son Jakob stúdent, er dó í Ameríku 26. jan. 1874 og 2 dætur (sjá Rangárvallasýslu).

bb. Gunnar á Hæringsstöðum átti Þuríði Guðmundsdóttur frá Króktúni Magnússonar, þeirra börn: Magnús á Brú í Flóa, Guðmundur á Hæringsstöðum, Ingimundur í Oddagörðum, Sigurður í Lölukoti, Þuríður kona Páls Þórðarsonar í Brattsholti og Guðrún.

cc. Árni.

dd. Þóra átti Gunnar hreppstjóra Bjarnason á Sandhólaferju og börn.

Síðari maður Guðrúnar var Sigurður Erlendsson í Ytri-Gegnishólum, bl.

h. Hólmfríður átti Magnús í Þorlákshöfn Beinteinsson lögréttumanns á Breiðabólsstað í Ölfusi Ingimundssonar í Hólum í Flóa Bergssonar í Brattsholti Sturlaugssonar í Kotleysu Ólafs-

dd. Páll lengi heyrari við suðurskólann. Hann

---

sonar Gíslasonar prests í Arnarbæli Teitssonar sterka í Auðsholti Gíslasonar, en móðir Magnúsar Beinteinssonar var Vilborg Halldórsdóttir biskups Brynjólfssonar. Börn Magnúsar og Hólmfríðar:

aa. Árni hreppstjóri á Stóra-Ámóti átti Helgu dóttur Jóns Jónssonar administrators á Ámóti og voru þeirra börn: Jón dbrm. í Þorlákshöfn, Magnús hreppstjóri í Vatnsdal í Fljótshlíð, Hólmfríður kona Jóns Eiríkssonar á Ámóti, Sigríður kona Ísleifs Magnússonar á Kanastöðum og Halla kona Jóns Magnússonar í Bráðræði, þau systkinabörn.

bb. Gísli skólakennari í Reykjavík († 1878) var kvæntur danskri konu, Vilhelmine Zeuthen, þau bl. Son hans með Ingibjörgu Óladóttur Sandholts, ekkju Sigfúsar sýslumanns Skúlasonar var Árni Beinteinn stúdent, dó í Kaupm.höfn 1897.

cc. Sigurður hreppstjóri dbrm. á Skúmsstöðum, enn á lífi (1905) nær hálftíræður (f. 22. okt. 1810), hefur búið yfir 70 ár á sömu jörð (Skúmsstöðum), tvíkvæntur, átti fyr Þórunni Þórðardóttur Þorlákssonar klausturhaldara Thorlacius Þórðarsonar í Teigi Brynjólfssonar sýslumanns, þ. d.: Jórunn kona Jóns dbrm. Árnasonar í Þorlákshöfn, en s. k. Sigurðar er Ragnhildur Magnúsdóttir prests í Eyvindarhólum Torfasonar.

dd. Magnús á Hrauni og Litlalandi í Ölfusi átti Herdísi Þorgeirsdóttur Þorlákssonar á Hjalla Guðmundssonar, þ. b.: a) Jórunn átti Jón Þorvarðsson í Urriðakoti við Hafnarfjörð, b) Hólmfríður átti Símon Einarsson í Hraunshjáleigu, c) Guðrún átti Jón Halldórsson á Hrauni, d) Magnús á Litlalandi átti Aldísi Helgadóttur frá Læk Runólfssonar, e) Halldór í Bakkarholti, f) Þorgeir, g) Herdís átti Benjamín Þorsteinsson Sverrissonar bróðurson Eiríks sýslumanns.

Launsynir Magnúsar á Hrauni: Grímur í Lónakoti og Jónas.

ee. Jórunn átti Odd á Þúfu í Ölfusi Björnsson Oddssonar Þorsteinssonar á Núpum Jónssonar Eysteinssonar, þ. b.: a) Björn á Litlahálsi í Grafningi átti Ingveldi Einarsdóttur og mörg börn, b) Ingimundur á Þúfu. Hans son Steindór í Hreiðurborg, c) Magnús var í Reykjavík, f) Einar fór til Ameríku, g) Guðbjörg átti Björn Jóhannsson á Þúfu, h) Hólmfríður átti Jóhannes Jóhannsson í Grænhól bróður Björns, i) Kristín átti Snorra á Þórustöðum Gíslason frá Kröggólfsstöðum Eyjólfsosnar.

ff. Guðrún 1. k. séra Arngríms Halldórssonar á Bægisá, varð

var vel lærður á latneska, en miður á gríska tungu, var lengi conrektor í Skálholti og bjó þá á Miðfelli, en síðar í Laugarási í Árnessýslu, en eptir það skólinn var fluttur til Reykjavíkur bjó hann á Esjubergi. Hann átti Þórunni dóttur Brynjólfs sýslumanns Sigurðssonar (sjá Árnesþing), barnlaus.

b. Brandur á Hólahólum átti Guðrúnu dóttur Steindórs sýslumanns Helgasonar (sjá Hnappadalssýslu), barn:
aa. Guðrún átti Gísla Gíslason (sjá síðar).
c. Jón Eiríksson átti Sigríði Jónsdóttur frá Bár þá ekkju Guðmundar Guðmundssonar, barn:
aa. Séra Steindór í Hvammi í Norðurárdal átti fyrst Hólmfríði dóttur séra Þorláks í Selárdal, börn:
aaa. Guðríður[1]).
bbb. Ingibjörg[2]).

---

rænuskert; þeirra son Bjarni faðir Frímanns Anderson (II. 703).

gg. Halldór í Þorlákshöfn átti Vilborgu Þórðardóttur frá Eyvindarmúla Jónssonar Ísleikssonar og Ólafar Beinteinsdóttur, systkinabörn, bl.

h. Valgerður átti Gunnlaug Guðbrandsson Briem sýslumann (sjá um þeirra börn I. B. bls. 287—288).

1) Guðríður átti Jón Halldórsson frá Litlafjalli Þorsteinssonar, þ. b.:
a. Jóhanna María átti Bergþór Gunnlaugsson í Árdal.
b. Jón. Laundóttir hans með Antonellu Gunnlaugsdóttur úr Reykjavík Sveinssonar var
aa. Kristbjörg átti Jón Þórðarson Pálssonar.
c. Guðmundur lengi vinnumaður við Búðir.
d. Ólafur.
e. Steindór, dó ókv. bl.
f. Þorsteinn í Garðakoti.

2) Ingibjörg var s. k. Eyjólfs í Skíðsholtum Erlendssonar prests í Nesþingum Vigfússonar, áttu 3 dætur.

ccc. Rannveig[1]).

Svo Oddnýju Brandsdóttur[2]).

Launson Jóns með Þuríði Jónsdóttur:

bb. Guðmundur[3]).

d. Guðrún Eiríksdóttir átti Halldór Eiríksson prentara á Hólum. Halldór var son séra Eiríks Sölvasonar, barn:

aa. Benedikt prentari í Kaupmannahöfn[4]).

---

1) Rannveig átti Gest Sæmundsson frá Sveinatungu Þórðarsonar á Hafþórsstöðum Nikulássonar, (en faðir Sæmundar haldinn Þórður Hákonarson í Norðtungu), þ. b.:

a. Benedikt á Orrahóli átti Guðfinnu Jónsdóttur og börn.

b. Þorlákur átti Ragnhildi Þorbjörnsdóttur frá Kvíum Ólafssonar.

c. Gestur átti Guðfinnu Guðmundsdóttur Helgasonar á Jaðri á Akranesi Gunnarssonar, bl.

2) Oddný s. k. séra Steindórs var dóttir Brands smiðs Brandssonar á Jörfa og Solveigar Egilsdóttur frá Vatni í Haukadal Sturlaugssonar. Oddný átti síðar Bjarna stúdent Jónsson í Norðtungu (✝ 1814) bróðurson Jóns prests Jónssonar á Gilsbakka (✝ 1796), en síðast átti hún Þórólf Árnason í Norðtungu bl.

3) Guðmundur átti Þórdísi Loptsdóttur Magnússonar, þ. b.:

a. Þórður í Bakkafit við Búðir dó snögglega 1799.

b. Ingibjörg átti Bjarna nokkurn.

Annar launson Jóns Eiríkssonar með Þuríði var

cc. Jón á Moldbrekku, kallaður Jón »moldi«, átti Guðnýju Sigmundsdóttur Sigurðssonar, þ.b.

aa. Jón á Hellnafelli.

4) Hann dó bl. í Kaupm.höfn 1777.

Börn Halldórs prentara og Guðrúnar voru ennfremur:

bb. Jarþrúður átti Vigfús nokkurn, þ. b.: Benedikt og Freygerður. Launddóttir Jarþrúðar með Jóni Ólafssyni var:

a. Jarþrúður 1. kona séra Ólafs Þorleifssonar á Kvíabekk og síðar í Höfða, þ. b.: Þorleifur og Ólöf.

cc. Helga átti Guðmund Jónsson á Selnesi á Skaga, þ. b.: Benedikt, Eiríkur og Halldór.

dd. Soffía átti fyr Símon stúdent í Bæ á Höfðaströnd, er drukknaði 1784 Guðmundsson Eiríkssonar á Óslandi Guðvarðssonar, þ. b.

e. Marín Eiríksdóttir átti Gísla smið Þorláksson[1], barn:

aa. Gísli átti Guðrúnu Brandsdóttur (sjá hér að framan).

f. Jóhanna Eiríksdóttir átti Ólaf Gíslason í Múlakoti í Ölfusi[2], þeirra börn:

aa. Sigríður samastaðar átti Gunnlaug Sigurðsson og mörg börn[3].

bb. Guðrún[4].

Launson Eiríks og Guðrúnar Þorkelsdóttur[5].

---

a. Símon á Stafshóli átti Þuríði Styrbjarnardóttur, þeirra synir Ólafur og Símon.

b. Ólafur átti launbarn með Halldóru Sigfúsdóttur prests í Felli Sigurðssonar, það dó.

S. m. Soffíu var séra Þórarinn Sigfússon á Tjörn í Svarfaðardal og var hún f. k. hans, þ. b.

c. Jón í Sigluvík.

1) Gísli bjó á Kálfárvöllum, börn hans og Marínu auk Gísla voru Þorlákur og Vigdís, bæði bl.

2) Á að vera: Múlakoti í Fljótshlíð. Í Ölfusi er enginn bær með því nafni. Jóhanna hét fullu nafni Jóhanna María.

3) Meðal þeirra var:

a. Magnús fálkafangari í Árbæ í Holtum og víðar átti Guðrúnu Árnadóttur prests í Steinsholti Högnasonar. Son þeirra var Halldór í Krísuvík og víðar, faðir Odds, er lengi var í Félagsgarði við Rvík og fór til Ameríku.

4) Guðrún var, að því er Espólín segir, laundóttir Jóhönnu með Lopti Árnasyni í Hundadal. Hún dó bl.

Enn var son Eiríks Steindórssonar og Soffíu:

h. Steindór, dó um tvítugt, útlærður, að því er Espólín segir í ættatölum sínum. Af skólaröðum frá Skálholti (Lbs. 207 4^to.) sést að Steindór (»Stendorus Erici«) hefur fyrst verið í skóla veturinn 1719—1720, og hefur þá líklega útskrifazt 1724, en í skólaröðina vanta árin 1721—24 incl.

5) Þetta er rangt. Barnsmóðir Eiríks (móðir Halldórs) hét Þorgerður Pétursdóttir.

g. Halldór[1]) átti Aniku Bjarnadóttur, börn:
aa. Guðrún[2]).
bb. Guðmundur[3]).
Launson Halldórs:
cc. Guðmundur[4]).

Sumar ættatölur segja, að Jakob sýslumaður hafi átt bæði Benedikt og Soffíu með Sigrúnu Snorradóttur, aðrir að séra Benedikt hafi verið son Sigrúnar, en Soffía dóttir Marínar. Óljóst hvað réttara er[5]). Sigrún þessi, sem var dóttir Snorra Guðmundssonar og Helgu dóttur Jóns á Langárfossi, ferðaðist að Bessastöðum og komst þar í kærleika við Jakob, var þar um gert háðkvæði, einkum um stærilæti hennar og gjafir á hesti og hundi til kirkna[6]).

Jakob var jyllenskur að ætt, og fyrst 1666 á Bessastöðum umboðsmaður umboðsmannsins og skrifari. 1666 var Jóhann Klein umboðsmaður höfuðsmannsins. Voru þeir það ár báðir erlendis, en Jóhann Klein sendi þá Jakob Benediktsson út að gegna höfuðsmannsembætti í sinn stað. (Umboðsbréfið dat. 13. marz 1666). 1669 tók Jakob á alþingi sinn vitnisburð og fékk hann góðan, en tók Snæfellsnessýslu og Stapa-

1) Halldór bjó á Hóli í Hörðudal. Aníka kona hans var laundóttir Bjarna Ásvaldssonar og Margrétar Jónsdóttur systur Vermundar á Hvoli og Úlfhildar móður Arngríms Magnússonar á Fellsenda.

2) Guðrún var 1. kona Hannesar Þorsteinssonar á Kringlu í Náhlíð (II. 1699), þ. b. Ragnheiður og Þorsteinn dóu bl. Guðrún átti launson, er Einar hét, með Halli Guðlaugssyni.

3) Réttara Eiríkur. Hann drukknaði ungur.

4) Guðmundur var launson Halldórs með Ástríði Guðmundsdóttur. Hann átti Hallfríði Magnúsdóttur frá Skjaldfönn Eyjólfssonar Sveinbjarnarsonar. Annar launson Halldórs með Rósu Halldórsdóttur prests á Staðarhrauni Sigurðssonar var Sigfús, sigldi 1788. Rósa hafði áður átt launson með Jóni stúdent Jakobssyni frá Búðum bróðursyni Halldórs (sbr. I. B. bls. 282).

5) Það er rétt, sem hér hefur verið talið, að Benedikt og Soffía voru börn Jakobs og Marínar, en launbarn hans og Sigrúnar dó ungt.

6) Sbr. II. 358.

umboð eptir Matthías 1671, var þá Jóhann Klein umboðsmaður á Bessastöðum. Jakob settist að á Stapa og giptist Marínu ekkju Matthíasar[1]). Jakob þótti harðdrægur og gerðist óvinsæll við sýslubúa, stóð sig þó allvel í sínu embætti.

1674 dag 1. maí á Ingjaldshóli lét Jakob og hans umboðsmaður Guðmundur Steindórsson dóm ganga um Böðvar Þorsteinsson. 1671 var Jakob dómsmaður á alþingi. 1680 var Jakob á alþingi, en nokkru eptir það hann kom heim fór hann um sýslu sína og út að Rifsveiðistöðum. Hann reið lífuðum hesti, og um háljósan dag af gáleysi og gapaskap reið fram af virkisklettum og fékk byltu þá, er hann beið bana af. Þar um var kveðið:

Jakob gerði að fara flatt
foringinn Jöklamanna,
eins og þegar hann Dagon datt
drottinn Philisteanna etc.

Marín ekkja fyr talinna tveggja sýslumanna hélt um hríð til á Stapa með (stjúp)börnum sínum, en fór þar eptir til Bents bónda við Búðir og giptist honum (sjá síðar).

## Halldór Guðmundsson.

*Faðir*: Guðmundur í Norðtungu Guðmundsson Hallssonar.
*Móðir*: Sigríður dóttir séra Jóns í Stafholti Egilssonar á Ingjaldshóli.
*Kona*: Steinunn dóttir Steindórs sýslumanns Finnssonar (sjá hér að framan).
*Börn*: A. Séra Sigurður í Nesþingum, barnlaus.
B. Einar í Ólafsvík átti Ingunni Snorradóttur, börn:
a. Séra Pétur á Rauðamel átti Kristínu dóttur Sigurðar í Skógarnesi lögsagnara í Dalasýslu 1689, börn:
aa. Pétur sýslumaður í Görðum (sjá Hnappadalssýslu).

---

1) Það er einkennilegt að Espólín, bæði í ættatölum sínum og Árbókunum (VII 67) segir, að Bent Lárusson hafi verið miðmaður Marínar, en Jakob hinn síðasti. En þetta er alveg skakkt, því að Jakob dó löngu á undan Bent (sjá hér síðar), og hann var miðmaður Marínar, en Bent hinni síðasti.

bb. Þorlaug átti séra Ólaf á Snæfjöllum Einarsson, barnlaus.
cc. Kristín átti Guðbrand Þorleifsson og börn
dd. Sigurður og
ee. Jón, dóu báðir barnlausir.
b. Sesselja átti launbarn með Pétri Ásgrímssyni norðlenzkum.
C. Guðmundur á Þórdísarstöðum átti Ingveldi Jónsdóttur, börn:
a. Guðrún átti Bjarna son Jóns á Höfða, börn:
aa. Kár í Lá[1]).
bb. Brynjólfur.
cc. Guðrún.
D. Guðrún átti Einar Þóroddsson á Hofsstöðum í Hálsasveit, son:
a. Séra Halldór á Stað í Steingrímsfirði átti Sigríði Jónsdóttur, börn:
aa. Séra Björn í Sauðlauksdal.
bb. Guðrún.
cc. Guðrún yngri.
dd. Rannveig.
ee. Jón.
ff. Guðrún yngsta.
gg. Séra Einar[2])
hh. Arndís.
ii. Guðríður, hvorugar þeirra giptust.
Annar maður Guðrúnar Þórður Daðason, þau barnlaus.

Halldór var gildur bóndi og lögréttumaður. Hann bjó í Ólafsvík og Máfahlíð. Matthías Guðmundsson tók hann fyrir sinn lögsagnara meðan Matthías var á Bessastöðum árin 1657—8, og aptur var Halldór lögsagnari eða umboðs-

1) Líklega réttara Kári. Hann og Guðrún systir hans voru börn Bjarna og s. k. hans Þorkötlu Bjarnadóttur, en Brynjólfur son hans og Guðrúnar (sbr. hér áður bls. 118).

2) Allra þessara barna séra Halldórs á Stað (aa—gg) er áður getið nokkru ítarlegar (bls. 118—19). Arndís og Guðríður eru óvíða nefndar meðal barna hans, en vel má þetta rétt vera hjá Boga.

maður Matthíasar. Hefur Halldór löngu fyr verið lögsagnari í Snæfellsnessýslu, því árið 1654 þann 17. maí hefur hann samþykkt dóm að Grund í Eyrarsveit að settu manntalsþingi um landamerki milli Setbergskirkjujarðar, Kvernár og bóndaeignarinnar Grafar í Eyrarsveit. Í seinna skjali af Anno 1739 er og vitnað til hins fyrra dóms, er Halldór lögsagnari Guðmundsson hafi látið ganga á Grund 1654; hefur þá Gregers Bang verið sýslumaður í Snæfellsnessýslu og Halldór gerst hans umboðsmaður, máske til skiptis við Guðmund Jónsson. Halldór var meðdómsmaður Matthíasar sýslumanns 1661 og 1656 þann 2. apríl á Ingjaldshóli þá dæmdist, að búðarsetu og lausamannabörn skuli hreppstjóri setja í vist hjá bændum, en þurrabúðamenn þurfi ekki með vinnufólks.

## Bent Lárusson

ættaður frá Skáney, kom til Íslands með Dönum og var fyrst verkamaður á Arnarstapa við höndlan hjá Pétri Hanssyni Bladt, er sendi hann til alþingis með mál 1670 mót Böðvari Jónssyni; var málinu heimvísað. Bent auðgaðist þar á Stapa, tók Hraunhöfn og setti þar bú saman, þar eptir tók hann Búðapláss og byggði þar bæ reisulegan, sem síðan var við hann kenndur. Hann betraði mjög Búðapláss, bæði að byggingum og útrækt, og fékk af Jóni biskupi Vídalín að mega byggja þar kirkju í staðinn þess fátæka og affallna bænahúss í Hraunhöfn og að þar væri grafarakirkja. Byggði hann þessa kirkju að miklu leyti á eigin kostnað með tilstyrk kaupmanna og skipherra til messuklæða, silfurkaleiks og annars er þurfti, gerðist annexía frá Staðastað nálægt 1700, en var eptir undirlagi séra Guðmundar Jónssonar aftekin eptir 1820.

Bent kom út giptur sinni fyrri konu Marínu Davíðsdóttur, sem deyði barnlaus. Góðir vinir voru þeir Matthías Guðmundsson og Bent, gerði hann og nokkur sýslumannsverk fyrir Matthías, einkum í hans sjúkdómi 1670—71. Þar Marín var orðin ekkja og einstæðingur og Bent ekkjumaður tók hann Marínu Eiríksdóttur til sín, giptist henni og upp ól börn hennar, gaf þeim alla fjármuni sína. En deyði sjálfur 1709, átti engin börn, var nýtur bóndi og auðugur.

Þá Jakob sýslumaður deyði afsögðu Snæfellingar alla

danska sýslumenn, var því settur sýslumaður í Snæfellsnessýslu Þórður Steindórsson.

## Þórður Steindórsson.

*Faðir*: Steindór sýslumaður Finnsson (áður nefndur).

*Móðir*: Guðlaug dóttir Þórðar sonar séra Einars Marteinssonar biskups.

*Kona fyrri*: Ragnhildur dóttir Þórólfs Einarssonar. Hún hafði áður átt séra Erlend í Hjarðarholti Einarsson, bl.

*Börn*: A. Séra Páll á Eyri í Skutulsfirði (dó 1707) seinni maður Sigríðar dóttur séra Jóns Torfasonar á Stað í Súgandafirði[1]), son:

a. Séra Ísleifur í Garpsdal og Neshrepp átti Rósu Snorradóttur prests á Helgafelli Jónssonar (sjá Dalasýslu)[2]).

B. Þórður ráðsmaður í Skálholti[3]) átti Kristínu Tómasdóttur[4]), börn:

a. Páll bryti í Skálholti átti Dagrúnu Jónsdóttur[5]), þeirra son dó.

---

1) Fyrri maður Sigríðar var séra Ísleifur Þorleifsson á Eyri í Skutulsfirði († 1700) og voru synir þeirra Guðmundur prestur í Nesþingum og Torfi prestur á Stað í Súgandafirði.

2) II 692—693.

3) Þórður var lengi skrifari hjá Árna Magnússyni, að minnsta kosti öll þau ár, sem hann var við jarðabókarstörf hér á landi, og er fjöldi afskrifta með hans hendi, allar mjög vandaðar. Síðar var hann tvisvar Skálholtsráðsmaður og bjó í Háfi í Holtum. Hann dó 1747. (J. H. ættat., viðbót séra Vigfúsar).

4) Kristín var dóttir Tómasar Jónssonar í Glerárskógum og Bergljótar laundóttur Arnórs í Ljáskógum Ásgeirssonar Arnórssonar Loptssonar (sbr. II, 49).

5) Páll drukknaði í Hvítá, átti 2 launbörn, annað með Valgerði Teitsdóttur (Roða-Teits) Loptssonar, systur séra Eyjólfs á Hofi í Álptafirði, það dó ungt. Dagrún kona Páls var systir meistara Bjarna rektors Jónssonar síðar prests í Gaulverjabæ. Faðir þeirra var Jón lögréttumaður á Sandlæk Þorleifsson Ólafssonar. Eptir að Dagrún var orðin ekkja, lenti hún í máli við séra Árna Sigurðsson kirkjuprest í Skálholti (síðar prófast í Holti) út af því,

b. Tómas átti Þórunni Bárðardóttur prests[1]), bl.
c. Eyjólfur átti Helgu Barðardóttur prests og börn[2]).
d. Hafliði átti Ólöfu Ólafsdóttur og börn[3]).

---

að hann hefði heitið henni eiginorði, en svikið hana. Úr því varð lítið. Dagrún drukknaði í Hvítá 22. nóv. 1779. Son Páls bryta og hennar hét Gísli, og drukknaði hann í Brúará 1766, var þá langt kominn við nám í Skálholtsskóla.

1) Bárður Jónsson faðir Þórunnar og Helgu konu Eyjólfs var prestur í Holtaþingum († 1755).

2) Eyjólfur var fæddur 13. des. 1725. Börn hans og Helgu:
a. Þorvaldur.
b. Þorkatla, dóu bæði bl.

3) Hafliði bjó á Syðsta-Bakka í Þykkvabæ (f. 20. okt. 1721, † 17. nóv. 1791). Börn hans og Ólafar:
a. Sigurður í Borgartúni, átti fyr Hallgerði Sigurðardótiur, þ. b.:
aa. Ólafur í Vetleifsholtshelli átti Sigríði Þorleifsdóttur frá Vatnshól í Þykkvabæ Þorgeirssonar, þ. b.:
aaa. Sigurður í Oddagörðum í Flóa átti Ingveldi Þorsteinsdóttur systur Filippusar í Bjólu, þeirra son Sigurður í Langholti í Flóa († 1905) faðir Sigurðar búfræðings ráðanauts Landbúnaðarfélagsins.
S. k. Sigurðar Hafliðasonar var Sigríður Ólafsdóttir frá Snotru í Landeyjum Magnússonar á Kirkjulandi Ólafssonar s. st. Ólafssonar, þ. b.:
bb. Sigríður.
b. Þórður í Hala átti Guðrúnu Þorgeirsdóttur frá Háfi Hannessonar í Marteinstungu Jónssonar og börn: Hafliða í Hala, Jón og Þórð.
c. Ísleifur á Ásmundarstöðum átti fyr Halldóru Einarsdóttur, þ. b.:
aa. Ingveldur átti Ólaf á Seli í Holtum Jónsson á Ægissíðu Þorsteinssonar á Víkingslæk Arnþórssonar, þ. b.: a) Jón í Snotru í Þykkvabæ, b) Ísleifur drukknaði í Selvogi, c) Einar í Búðarkoti, d) Ragnhildur kona Jóns í Rimakoti, e) Halldóra, f) Guðrún, g) Ólöf átti Gunnar Pálsson í Vorsabæ í Ölfusi, h) Ingveldur, i) Valgerður atti Ögmund Guðmundsson í Þykkvabæ. S. k. Ísleifs Hafliðasonar Katrín Hólmfastsdóttir frá Tobbakoti í Þykkvabæ Péturssonar, þ. b.:
bb. Sigurður á Ásmundarstöðum átti Guðrúnu Tómasdóttur.

e. Sigurður átti Guðrúnu Jónsdóttur[1]) og börn.

---

cc. Jósep á Ásmundarstöðum († 1904) átti Katrínu Sigurðardóttur. Synir hans Sigurður á Berustöðum († 1904) og Sigurður á Sandhólaferju.

dd. Vigdís átti Bjarna Benediktsson á Framnesi í Holtum og mörg börn.

ee. Sólrún átti Gunnar Guðmundsson frá Rifshalakoti og börn.

ff. Ingibjörg atti Hróbjart Guðmundsson í Nikulásarhúsum og börn.

gg. Sigríður f. k. Jóns Þorgeirssonar í Háfshjáleigu, bl.

hh. Ísleifur var launson Ísleifs Hafliðasonar.

d. Ólöf dó 1816, var f. k. Kolbeins í Brattsholtshjáleigu Jónssonar Kolbeinssonar og Sigríðar Þorleifsdóttur prófasts í Múla Skaptasonar. Meðal barna Kolbeins og Ólafar var:

aa. Þorleifur auðgi dbrm. á Stóru-Háeyri, dó 1882, átti fyr Sigríði Jónsdóttur rennismiðs á Brú í Flóa Jónssonar sýslumanns Arnórssonar (sjá hér síðar) bl., en síðar Elínu Þorsteinsdóttur frá Simbakoti Þórðarsonar, þ. b.:

aaa. Sigríður á Guðmund Ísleifsson óðalsbónda á Háeyri

bbb. Malfríður átti fyr Andrés verzlunarmann á Eyrarbakka Ásgrímsson Eyjólfssonar Ásgrímssonar prests í Stóradal Pálssonar, þ. d. Ingveldur kona Helga á Herríðarhóli í Holtum Skúlasonar prófasts á Breiðabólsstað Gíslasonar, en s. m. Málfríðar er Jón hreppstjóri á Bíldsfelli Sveinbjarnarson frá Kaldbak Jónssonar í Tungufelli Sveinbjarnarsonar Jónssonar á Kaldbak Jónssonar s. st. Jónssonar.

ccc. Þorleifur drukknaði utanlands.

ddd. Kolbeinn var um hríð í lærða skólanum, bjó svo í Hróarsholti stutta stund, kvæntur Sigríði Jónsdóttur frá Loptsstöðum, veiktist og dó.

eee. Elín f. k. Jóhanns prófasts Þorsteinssonar í Stafholti, dó snögglega 1890, þeirra son

× Leifur.

1) Guðrún kona hans var dóttir Jóns prests Oddssonar í Eyvindarhólum, þ. b.:

a. Sigurður á Berustöðum og Háfshól átti Vilborgu Þorgeirsdóttur frá Háfi Hannessonar, þ. b: aa.) Einar í Sauðholti átti Guðrúnu Gunnarsdóttur frá Hvammi á Landi. bb.) Sólvör átti Jón Ólafsson í Vetleifsholtsparti. cc.) Steinunn átti Þórð Jónsson í Sigluvík.

f. Vilborg átti séra Filippus Gunnarsson og börn[1]).

---

b. Jón í Sigluvík átti Margréti Ormsdóttur frá Skúmsstöðum Guðmundssonar í Álfhólum Gíslasonar og börn.
c. Þórður verzlunarmaður í Hafnarfirði. Laundóttir hans með Margréti Þorvaldsdóttur frá Ossabæ á Skeiðum Þorsteinssonar á Birnustöðam Gissurarsonar var:
aa. Elín átti Arnór kaupmann í Keflavík Gunnarsson Þorsteinssonar frá Bjarnastöðum í Selvogi Jónssonar í Eymu Hróbjartssonar í Þorkelsgerði Pálssonar, þ. b. meðal annars:
aaa. Bjarni Gunnarsen stúdent á Akureyri. Hans dóttir Elín átti Valdimar verzlunarstjóra á Vopnafirði Davíðsson af Akureyri Sigurðssonar, þ. d. Jörgína.
bbb. Gunnar bóndi í Ytri-Njarðvík.
ccc. Rannveig átti Niels Valdimar Lassen sýslumann í Borgarfirði (sjá þar).

1) Séra Filippus í Kálfholti († 1779) var son Gunnars lögréttumanns í Bolholti Filippussonar Ormssonar og Ingibjargar Ingimundardóttur frá Strönd í Selvogi Grímssonar, systur Gríms prests í Selvogi. Vilborg var s. k. séra Filippusar og dó 1774, þ. b.:
a. Gunnar smiður á Sandhólaferju († 25. júní 1805) átti Þórunni Ingimundsdóttur prests í Gaulverjabæ Gunnarssonar, bræðrabörn, þ. b.: a) Ingimundur prestur á Ólafsvöllum (sjá hér áður bls. 134), b) Bjarni á Sandhólaferju faðir Gunnars hreppstjóra s.st., c) Jón á Sandhólaferju faðir Gunnars í Borgartúni föður Gunnars snikkara í Rvík, d) Guðmundur í Rifshalakoti faðir Gunnars, Jóns á Ásmundarstöðum og Filippusar í Rifshalakoti, e) Filippus verzlunarmaður í Rvík, f) Vigfús verzlunarmaður á Eyrarbakka, dó utanlands.
b. Jón á Brekkum átti Ingveldi Þorsteinsdóttur frá Árbæ Kortssonar, þ. b.: a) Þorsteinn, b) Elín átti fyr Jakob Bjarnason í Litlutungu og síðar Jón Runólfsson í Árbæ, c) Styrgerður átti Þorstein í Bjólu Vigfússon Nikulássonar, þ. b.: Filippus í Bjólu o. fl., d) Vilborg átti Guðmund Gunnarsson í Rifshalakoti, e) Guðrún átti séra Pál Jónsson skálda í Vestmanneyjum. Ein dóttir þeirra, Solveig yfirsetukona, átti Matthías í Holti við Rvík Markússon prests á Álptamýri Þórðarsonar frá Vigur.
c. Stefán átti Helgu Gísladóttur frá Hjallanesi Tómassonar Gissurarsonar, þ. b.: a) Gísli í Árbæjarhjáleigu faðir Stefáns í Skinnum, b) Þórður í Heysholti faðir Steindórs í Árbæ, Þórðar skóara í Rvík, Guðlaugs á Hellum o. fl., c) Vilborg tvígipt, átti fyr Jón

g. Guðrún átti Erlend Árnason[1]) og börn.

---

Jónsson í Vindási, svo Þorstein Pálsson í Vindási, d) Sigríður átti Einar Sveinbjörnsson, e) Kristín giptist í Vestmanneyjum, f) Helga.

d. Rannveig (f. 26. febr. 1744, † 24. ágúst 1825) átti fyr Jón lögréttumann í Nesi í Selvogi Halldórsson frá Þorkelsgerði, er drukknaði 1740 Jónssonar austan úr Holtum og Vigdísar Jónsdóttur frá Vindási í Selvogi Jónssonar á Hópi í Grindavík. Jón lögréttumaður drukknaði í flóðunum fyrir ofan Eyrarbakkabúðir 1781. Börn hans og Rannveigar:

aa. Vigdís.

bb. Steindór stúdent, skipherra og verzlunarmaður í Hafnarfirði kallaði sig Waage, dó 22. des. 1825, átti Önnu Katrínu Velding, þ. b.:

aaa. Guðrún átti Matthías kaupmann í Hafnarfirði Jónsson prests í Arnarbæli Matthíassonar, þ. b.: a) Jón í Gröf í Mosfellssveit, b) Steindór, drukknaði í Hamborgarelfu, c) Bjarni hringjari í Reykjavík, d) Rannveig átti Sæby beyki, e) Júlíana, sigldi til Hafnar, er þar ógipt.

bbb. Vigdís. Launbörn hennar með Þorsteini Kúld Jónssyni kaupm. í Reykjavík a) Anna átti fyr séra Þorvald Ásgeirsson síðast í Steinnesi, síðar Sigfús Eymundsson bóksala, b) Kristján átti Guðrúnu Vigfúsdóttur sýslumanns Thorarensens Sigurðssonar (II. 401).

ccc. Agnes átti Árna J. Matthiesen verzlunarmann í Hafnarfirði bróður Matthíasar kaupmanns, (er átti Guðrúnu systur Agnesar), þ. b.: a) Anna Katrín átti Þorvald Ólafsson í Ási við Hafnarfjörð, b) Jón verzlunarmaður í Hafnarfirði, c) Theodór kaupm. í Rvík, d) Jensína Ólína kona Einars Jóhannessonar í Hafnarfirði, e) Matthías skósmiður í Rvík.

ddd. Anna f. k. Ludvigs Knudsens verzlunarmanns í Reykjavík, þ. b.: a) Margrét Andrea f. k. séra Gunnlaugs Halldórssonar á Breiðabólsstað í Vesturhópi, þ. b.: Halldór cand. med., b) Friðrikka átti Hafliða Guðmundsson í Reykjavík og mörg börn, c) Jóhanna átti fyr séra Björn Stefánsson á Sandfelli í Öræfum, þ. b.: Stefán smiður, en síðar Þorgrím lækni í Keflavík Þórðarson frá Vigfúsarkoti Torfasonar stúdents á Mófellsstöðum Árnasonar, og eiga þau mörg börn.

---

1) Guðrún er fædd 1731, † 27. júlí 1802. Erlendur var son

h. Vilborg[1]).

---

Síðari maður Rannveigar Filippusdóttur 1782 Bjarni kaupmaður í Hafnarfirði r. af dbr. († 1833) Sigurðsson frá Nesi í Selvogi Péturssonar í Nesi Sigurðssonar Loptssonar og var hún f. k. hans, þ. b.:

cc. Sigurður Sivertsen kaupmaður í Reykjavík átti Guðrúnu Guðmundsdóttur systur Helga biskups, þ. b.:

aaa. Bjarni stúdent, las málfræði við háskólann, dó 1844.

bbb. Guðmundur Theodor, fór úr Bessastaðaskóla til Frakklands með Páli Gaimard og nam þar læknisfræði, haldið að hann hafi dáið í Algier.

ccc. Pétur Fjeldsted Hoppe í Höfn í Melasveit átti fyr Sigríði Þorsteinsdóttur prests í Reykholti Helgasonar, þ. b.: a) Sigríður kona Magnúsar prófasts Andréssonar á Gilsbakka, b) Sigríður önnur, sigldi til Danmerkur og giptist þar. S. k. Péturs í Höfn Steinunn dóttir séra Þorgríms G. Thorgrimsens í Saurbæ, þ. b.: c) Torfi í Höfn kvæntur Þórunni Rikhardsdóttur, d) Sigurður prestur á Hofi í Vopnafirði átti Þórdísi Helgadóttur lektors Hálfdanarsonar.

ddd. Hans Anton kaupmaður í Reykjavík átti Karólínu Linnet kaupmanns í Hafnarfirði, þ. b.: a) Guðmundur fór til Ameríku, b) Regína f. k. séra Benedikts Kristjánssonar á Grenjaðarstað, c) Rannveig átti fyr Georg Thordahl, síðar Þorstein Sv. Egilsson kaupmann í Hafnarfirði (s. k. hans).

eee. Rannveig Júlíana Margrét f. k. séra Stefáns Sigurðssonar Thorarensens á Kálfatjörn.

fff. Steinunn Járngerður s. k. séra Stefáns, bl.

ggg. Páll Gaimard, heitinn í höfuðið á P. Gaimard hinum frakkneska, dó ungur.

---

Árna skálds í Haga í Holtum Sigurðssonar úr Mýrdal Helgasonar. Erlendur bjó á Sandhólaferju. Börn hans og Guðrúnar:

a. Guðrún átti Jón Gíslason í Sauðholti, þ. b.:

aa. Erlendur á Háeyri átti Guðrúnu Guðmundsdóttur prests í Kálfholti Bergssonar og börn.

---

1) Réttara: Vigdís (f. 12. des. 1722) átti Sigurð Árnason bróður Erlendar á Sandhólaferju, er átti Guðrúnu, systur Vigdísar, þ. b.:

a. Solveig átti Gunnlaug Pálsson, bl.

b. Þórður.

i. Sigríður[1]).

---

dd. Járngerður átti Hans Wöllner Koefod sýslumann í Gullbringusýslu (sjá um hann þar). Hún dó í Kongsbergi í Noregi 21. febr. 1824.

e. Steindór Filippusson komst nokkuð til aldurs.

f. Gunnar annar f. 14. jan. 1736, dó ungur.

g. Bjarni f. 1738, dó ungur.

h. Bjarni annar f. 1739, drukknaði, i. Þórelfur, j. Sigríður, k. Sigríður önnur, l. Styrgerður, m. Guðrún, n. Jón annar, dóu öll á barnsaldri.

---

bb. Gísli í Litlutungu og síðar Hofi í Eystrihrepp átti Ástríði Gunnarsdóttur frá Hvammi á Landi Einarssonar og börn.

cc. Valdís átti Bjarna á Sandhólaferju Gunnarsson Filippussonar prests Gunnarssonar (sjá hér áður) og börn mörg.

dd. Guðrún átti Lopt á Kaldbak Loptsson Bjarnasonar á Víkingslæk Halldórssonar og börn.

ee. Árni á Stóra-Hofi átti Ingigerði Narfadóttur frá Háamúla Jónssonar og börn.

ff. Sesselja átti Jón Gunnarsson í Hamrahól og börn.

gg. Tómas í Sauðholti átti Guðrúnu Gunnarsdóttur frá Hvammi Einarssonar og mörg börn.

hh. Kristín átti Sigurð Jónsson á Hömrum í Holtum og börn.

ii. Þórður í Sumarliðabæ atti Helgu Gunnarsdóttur frá Hvammi.

kk. Guðbjörg f. k. Filippusar Þorsteinssonar á Bjólu, þ. b.: Styrgerður, Guðrún, Jóhanna.

ll. Sigurður í Sumarliðabæ átti Kristínu Gunnarsdóttur frá Hvammi og börn.

Ættleggur þessi frá Jóni Gíslasyni í Sauðholti og Guðrúnu er afarfjölmennur orðinn í Rangárþingi.

b. Bjarni á Sandhólaferju átti Agnesi Hannesdóttur, þ. b.:

aa. Hannes í Unhól í Þykkvabæ var þríkvæntur, síðasta kona hans Vilborg Brynjólfsdóttir prests í Kálfholti Guðmundssonar.

bb. Erlendur í Búð í Þykkvabæ átti Salbjörgu Gísladóttur.

cc. Guðrún átti fyr Ólaf Jónsson í Hellnatúni, síðar Guðmund Ingimundsson í Nýjabæ í Þykkvabæ.

dd. Jón var suður í Höfnum, átti Guðlaugu Sigurðardóttur.

c. Þórður á Efri-Hömrum átti Sigríði Guðmundsdóttur frá Breiða-

---

1) Sigríður (f. 1729) átti Halldór í Sogni í Ölfusi Gunnlaugsson frá Þúfu Andréssonar á Kröggólfsstöðum Finnbogasonar, þ. b.:

C. Þorkatla dó (1707) átti séra Guðmund Jónsson á Helgafelli, börn[1]):

---

bólsstað á Síðu, systur Þorleifs á Böðmóðsstöðum í Laugardal, þ. b.:

aa. Erlendur í Kálfholtshjáleigu átti fyr Guðrúnu Eiríksdóttur prests á Útskálum Guðmundssonar, síðar Solveigu Brynjólfsdóttur prests í Kálfholti, þær bræðradætur, bl. með báðum.

bb. Jón átti Ingveldi Ólafsdóttur frá Egilsstöðum í Flóa Lénharðssonar, áttu einn son Ólaf.

cc. Ingibjörg átti Einar Einarsson í Hafursholti og börn.

dd. Guðmundur á Efri-Hömrum átti Helgu Ólafsdóttur Lénharðssonar, þ. b.: Þórður »stóri« suður í Höfnum, Sigríður, Húnbjörg og Guðlaug átti Einar Ingimundsson í Nýjabæ á Eyrarbakka.

ee. Þórunn ógipt, bl., mjög lengi ráðskona í Hellnatúni.

ff. Vilborg.

gg. Sigurður. Launson hans með Málfríði Þorkelsdóttur frá Hárlaugsstöðum Arnórssonar systur Gísla á Seli í Holtum: Sigurður í For í Oddahverfi.

hh. Sigríður giptist ekki, en launson hennar með Guðmundi Einarssyni í Kvíarholti er Þórður hreppstjóri í Hala fyr alþm., tvíkvæntur, fyrst Valdísi, svo Kristínu, dætrum Gunnars Bjarnasonar á Sandhólaferju og börn með báðum.

d. Kristín átti fyr Gísla Jónsson á Heiði í Holtum, þ. b.:

aa. Bjarni í Ráðagerði í Holtum, kvæntur, átti mörg börn.

bb. Kristín átti Sigurð Gunnlaugsson.

cc. Ingibjörg.

dd. Salbjörg átti Erlend Bjarnason í Búð í Þykkvabæ, þau systkinabörn (sjá hér áður).

ee. Helgi í Hrút átti Helgu Pétursdóttur og börn.

S. m. Kristínar Pétur Jónsson á Heiði, þ. b.:

ff. Gísli á Efrahvoli.

gg. Álfheiður átti Jón Jónsson á Heiði og börn.

e. Helga.

---

a. Jón var frækinn maður, drukknaði með 18 mönnum á Eyrarbakka 1781, ókv., bl.

Enn voru börn Þórðar ráðsmanns í Háfi og Kristínar:

k. Þórður f. 4. des. 1718.

l. Elín f. 11. ágúst 1724.

---

1) Börn séra Guðmundar og Þorkötlu eru hér áður talin (bls. 97). Var Þorkatla f. k. hans.

a. Ragnhildur átti séra Sigurð Einarsson á Barði, b.:
aa. Séra Guðmundur samastaðar[1]).
bb. Séra Sigfús á Felli, skáld[2]).

---

m. Guðrún eldri f. 10. febr. 1727.
n. Sesselja f. 1728.
o. Stefán f. 1732. Þessi munu öll hafa dáið ung. Enn var son Þórðar:
p. Árni í Hábæ í Þykkvabæ, strauk til Hollands fyrir illan orðróm, átti Ólöfu Jónsdóttur, þ. b.:
aa. Hafliði, er Steingrímur biskup telur hiklaust föður Gróu, er átti Brand Guðmundsson í Kirkjuvogi og var móðir Guðmundar alþm. í Landakoti og þeirra systkina, og er sú ættfærsla að líkindum rétt. [Hafliði Árnason faðir Gróu var í Kotvogi í Höfnum, og kvæntist 1764 Guðrúnu Sveinsdóttur († 1803). Tímans vegna getur það vel staðizt, að hann sé sonarson Þórðar ráðsmanns, því að Árni hefur verið næstelztur barna hans og líklega fæddur á árunum 1712—1716].
bb. Ragnhildur átti fyr Magnús Þorleifsson í Hábæ og 3 börn, en síðar Ívar Jónsson í Nýjabæ og eina dóttur.

1) Séra Guðmundur á Barði († 1800) átti Ólöfu Sturludóttur, þ. b.:
a. Þorsteinn stúdent á Heiði í Sléttuhlíð, dó 1832, átti Kristbjörgu dóttur séra Björns Lárussonar Schevings a Eyjadalsá, þ. b.: a) Þorsteinn í Málmey, b) Ingibjörg átti Björn Ólafsson frá Lónkoti, þ. b.: Björn faðir Sveins í Málmey, Bjarni í Snorragerði og Guðrún kona Baldvins Jónssonar í Lónkoti.
b. Árni á Steinavöllum átti Ingunni Jónsdóttur, þ. b.: Guðmnndur á Steinavöllum o. fl. Son Árna var og Finnbogi faðir Lúðvíks verzlunarmanns á Vopnafirði og Kristjönu s. k. Björns Jónssonar ritstj. Norðanfara.
c. Hákon kvæntist, átti börn.
d. Ragnhildur.
e. Halldóra.
f. Þórunn átti Ólaf Jónsson, þ. b.: Þórey.

2) Séra Sigfús dó á Þorkelshóli í Víðidal 1816, átti Ólöfu Þór-

cc. Þórunn átti Þorleif Claus[1]).
dd. Þorkatla átti séra Ara Þorleifsson[2]).
b. Karítas átti Sigurð sýslumann Vigfússon (sjá Dalasýslu) [3]).
c. Halldóra átti séra Þorstein í Saurbæ Jónsson, bl.
d. Kristín átti Sæmund son séra Þórðar á Staðastað, þ. b.:

---

arinsdóttur prests í Nesi Jónssonar, föðursystur Benedikts Gröndals eldra, þ. b.:
a. Þórarinn prestur á Tjörn, tvíkvæntur.
b. Sigfús Bergmann á Þorkelshóli átti Guðrúnu Aradóttur frá Mói í Fljótum, þ. b.: a) Ólöf f. k. Níelsar Havsteens kaupmanns í Hofsós, b) Soffía s. k. Jónasar Jónssonar á Auðunnarstöðum (sbr. I. 622), c) Steinn á Þorkelshóli, tvíkvæntur átti mörg börn, d) Ragnhildur átti Jón Bjarnason frá Syðrivöllum, e) Ari á Þorkelshóli, f) Jónas í Garðsvík föðurfaðir séra Friðriks Jónssonar Bergmanns, g) Guðrún átti Guðmund smið á Síðu Guðmundsson á Húki Björnssonar á Skarfshóli Guðmundssonar, þ. b. meðal annara Björn Leví á Marðarnúpi faðir Guðmundar héraðslæknis í Reykjavík.
c. Ragnhildur átti Árna Sigurðsson í Klömbrum, þ. d.:
aa. Þorbjörg átti Snorra í Klömbrum Jónsson Snorrasonar prests á Hjaltastöðum Björnssonar, þ. b.: Árni, Jóhann á Hurðarbaki, Guðmundur á Harastöðum, Rannveig kona Björns Guðmundssonar á Refsteinsstöðum, Ragnhildur kona Sigurðar Sigurðssonar í Klömbrum, Þorbjörg kona Bergs Einarssonar og Sigríður kona séra Jóns Jónssonar fyr á Stað á Reykjanesi.
d. Valgerður átti Jónas Jónsson í Garðsvík.
e. Helga f. k. Bjarna Sigurðssonar á Syðri-Brekkum bróður Erlendar cand. jur.
f. Halldóra átti barn með Ólafi syni Símonar stúdents Guðmundssonar í Bæ á Höfðaströnd og Soffíu Halldórsdóttur (sjá hér áður bls. 138). Halldóra dó ógipt á Siglunesi.

1) Þorleifur Kláus var bróðir Halldórs biskups Brynjólfssonar á Hólum, var Þórunn s. k. hans.

2) Sjá um börn séra Ara og Þorkötlu I. 394.

3) Um afkomendur þeirra sbr. II. 713—716.

aa. Guðrún á Hálsi[1]).
bb. Guðmundur farfari[2]).

1) Hún átti Vigfús á Hálsi á Skógarströnd Arason s.st. Magnússonar Gíslasonar sbr. II. 648, þar sem barna Vigfúsar er getið.

2) Guðmundur hafði lært klæðalitun, bjó í Leirvogstungu og síðar í Þormóðsdal († 24. júlí 1785), átti Guðrúnu Þorkelsdóttur lögréttumanns í Skildinganesi og Þerney († 1785) Þórðarsonar á Ormsstöðum Þorkelssonar s.st. Þórðarsonar og Margrétar Bjarnadóttur í Skildinganesi († 1761) Bergsteinssonar lögréttumanns Bjarnasonar (II. 626). Guðrún átti síðar Jón í Efstadal og Öndverðarnesi í Grímsnesi Jónsson frá Látalæti á Landi Jónssonar, systurson Ólafs biskups Gíslasonar. Börn Guðmundar og Guðrúnar:

a. Ragnheiður (f. 1766) átti fyr Pál Jónsson klausturhaldara á Elliðavatni og var s. k. hans, þeirra son Páll prófastur í Hörgsdal, en síðar átti hún Jón Jónsson á Elliðavatni.
b. Ólafur á Blikastöðum átti Helgu Loptsdóttur í Þerney Þorkelssonar, þau systkinabörn, þ. b. mörg, þar á meðal Guðmundur í Eyvindartungu, Eyjólfur í Lykkju á Kjalarnesi og Halldóra kona Runólfs Þórðarsonar í Saurbæ á Kjalarnesi. Er fjölmenn ætt frá Ólafi komin.
c. Margrét átti séra Jón Einarsson á Stöð og víðar († 1845) bróður Stefáns prests á Sauðanesi.
d. Kristín átti 1793 Jakob smið á Húsafelli Snorrason prests Björnssonar, þ. b.: a) Guðmundur í Lambhúsum á Álptanesi. Son hans Helgi faðir Helga verzlunarmanns í Reykjavík og Magnúsar Thorbergs stjórnarráðsskrifara, b) Snorri dó ungur, c) Snorri á Klett átti 3 dætur, d) Björn gullsmiður á Fitjum. Son hans Jakob prestur í Saurbæ í Eyjafirði, e) Páll. Hans son Jón á Breiðabólsstað í Reykholtsdal, f) Þorleifur dó ungur, g) Hildur átti Jón Þorleifsson á Kjalvararstöðum, h) Elín átti Björn Gíslason, i) Gísli á Augastöðum tvíkvæntur, k) Karítas dó ung, l) Halldóra s. k. Hjálmars Þorsteinssonar á Kolsstöðum, þeirra son Þorsteinn á Hvammstanga við Miðfjörð, m) Eiríkur smiður í Reykjavík. Dóttir hans Margrét er gipt Sigurði Jónssyni á Lækjamóti, n) Þorsteinn á Húsafelli yngstur barnanna. Börn hans: Jón á Ási í Melasveit, Björn í Bæ, Snorri á Laxfossi, Kristleifur á Stóra-Kroppi, Jakob á Hreðavatni og Ástríður kona Þorsteins Magnússonar á Húsafelli.
e. Karítas dó bl. 1801 í Görðum á Álptanesi.
f. Halldóra dó 1780 5 ára gömul.

*Önnur kona* Þórðar Steindórssonar: Guðrún Friðriksdóttir[1], börn:

D. Guðlaug átti Tómas Pálsson[2].
E. Erlendur[3].
Laungetin börn Þórðar:
F. Þórður fór vestur[4].
G. Þorbjörg (dó 1707), telst sumstaðar sem ektabarn, átti Jón lögréttumann Illugason[5], barn:
a. Séra Jón í Tröllatungu og Saurbæjarsveit átti Margrétu dóttur Jóns á Kambi Erlendssonar, börn:

---

Enn voru börn Sæmundar Þórðarsonar og Kristínar Guðmundsdóttur:

cc. Jón sigldi og dó utanlands.
dd. Þorvaldur.
ee. Vigfús dó 15 ára.
ff. Margrét.
Launson Sæmundar var Einar, er átti Steinunni Aradóttur (sbr. II. 648). Sæmundur dó 1749. Hann bjó á Kjallaksstöðum.

Son Þórðar sýslumanns Steindórssonar og Ragnhildar f. k. hans var ennfremur:

Sigurður, skólagenginn, dó ókv. bl. (J. H. ættat.).

1) Hún var áður vinnukona hans og var hann gamall, er hann kvæntist henni. Bræður hennar voru Tómas og Pétur.

2) Tómas var son Páls Þorgilssonar á Kirkjubóli og Ástríðar Tómasdóttur prests á Stað á Snæfjallaströnd Þórðarsonar.

3) Erlendur hefur verið son Þórðar sýslumanns og f. k. hans Ragnhildar. Svo segir séra Jón á Lambavatni (sbr. Bisks. II. 616). En séra J. H. getur hans ekki meðal barna Þórðar.

4) Sé það rétt, að Þórður sýslumaður hafi átt launson með þessu nafni, hefur hann líklega átt hann, áður en hann kvæntist, með Guðrúnu dóttur Jóns Ketilssonar á Heinabergi, því að sagt er, að hann hafi átt 2 launbörn með henni (sbr. Bisks. II. 620).

5) Þorbjörg var laundóttir Þórðar sýslumanns og Helgu Kristjánsdóttur sunnlenzkrar. Jón Illhugason bjó á Munaðarhóli og dó í stórubólu 1707, en hvort Þorbjörg hefur einnig dáið þá er óvíst, þótt Bogi telji svo. Foreldrar Jóns voru Illhugi Illhugason á Hjallasandi og Valgerður Jónsdóttir prests í Hítarnesi Nikulássonar.

aa. Séra Einar á Skúmstöðum[1]).
bb. Jón á Gróustöðum[2]).
cc. Sigurður á Múla[3]).

---

1) Séra Einar var síðast prestur í Landþingum og dó í Fellsmúla 28. sept. 1785. Hann átti fyr Ragnhildi dóttur Sigurðar Þormóðssonar bryta í Skálholti, systur Helgu konu meistara Bjarna Jónssonar prests í Gaulverjabæ, þ. b.:

a. Margrét dó ógipt bl.

S. k. séra Einars var Anna Jónsdóttir frá Þorlákshöfn Þorsteinssonar þar Jónssonar á Hjalla Jónssonar, þ. b.:

b. Ingibjörg átti Sigurð í Gegnishólum Guðmundsson prests í Kálfholti Bergssonar, þ. b.:
   aa. Einar í Eyfakoti á Eyrarbakka.
   bb. Þóra s. k. Einars Gíslasonar á Álfsstöðum.
   cc. Solveig átti Jón á Skúmsstöðum Þorsteinsson Grímssonar, þeirra dóttir:
      aaa. Elín átti Björn á Tjörn í Nesjum nyrðra, son Sigurðar Árnasonar í Höfnum, þeirra son Árni prestur á Sauðárkróki.
c. Jón dó í bólunni 1786 og var þá til kennslu í Skálholti.
d. Jón annar, drukknaði suður í Höfnum 1787, ókv., bl.
e. Brynjólfur var ónytjungur og drykkjumaður og flæktist víða.
f. Elín átti Pál í Haukshúsum á Álptanesi Bjarnason frá Sviðholti Halldórssonar í Skildinganesi, þ. b.:
   aa. Bjarni.
   bb. Einar í Kasthúsum átti Ingibjörgu Sigurðardóttur frá Kasthúsum Einarssonar í Stýflisdal Jónssonar á Núpum Klemenssonar, þ. d.: Margrét átti Brynjólf Pétursson Wandels Níelssonar Wandels, en kona Níelsar var Þorgerður Illhugadóttir prests á Kirkjubóli í Langadal Jónssonar.
   cc. Valgerður.

2) Sbr. II. 394—395.

3) Sigurður bjó í Múla í Gilsfirði og var kallaður Sigurður »réttláti« átti Björgu Bjarnadóttur og Þrúðar Ólafsdóttur prests í Tröllatungu Eiríkssonar, þ. b.:

a. Hallgrímur í Múla, tvíkvæntur átti mörg börn (sbr. II. 389).
b. Gróa s. k. séra Magnúsar Einarssonar á Kvennabrekku (II. 390).
c. Elín átti laundóttur með Þorleifi Þórðarsyni.
d. Magnús átti Guðrúnu Hákonardóttur.
e. Sigríður átti Gísla Björnsson í Fjarðarhorni.
f. Jón átti Þórunni Bjarnadóttur frá Kirkjubóli í Tungusveit Þor-

dd. Björn[1],
ee. Þorbjörg[2].
ff. Helga átti Brynjólf[3].
b. Helga átti Steindór sýslumann Helgason (sjá Hnappadalssýslu).
c. Kristín Jónsdóttir átti Hákon lögréttumann í Mýrartungu Einarsson[4].

---

steinssonar.

Sigurður réttláti átti 2 launbörn, annað með Elizabetu, laundóttur séra Jóhanns Þórólfssonar í Garpsdal, hét Guðrún, átti Pétur Arngrímsson, en hitt með Sesselju Kolbeinsdóttur, hét Egill, kvæntist.

1) Björn átti Ragnheiði Arnfinnsdóttur frá Hallsteinsnesi Jónssonar, þ. b.:
a. Sigríður átti Sigurð Sveinsson frá Kleifum Sturlaugssonar föðurbróður séra Sveins Níelssonar, áttu 4 dætur, ein þeirra Gróa átti Jósep á Kambi í Breiðuvík Jónsson á Kambi Svartssonar.
b. Þórunn átti Jón Hákonarson í Mýrartungu og börn.

2) Þorbjörg átti Ólaf son Jóns prests Bjarnasonar á Rafnseyri.

3) Brynjólfur bjó í Skipagerði í Landeyjum og var Guðmundsson frá Strönd Stefánssonar í Skipagerði Jónssonar Þorleifssonar Ásmundssonar á Hvoli Þorleifssonar lögmanns Pálssonar. Son Brynjólfs og Helgu f. k. hans:
a. Þórður prestur í Reynisþingum († 1. jan. 1840), þríkvæntur, fyrst Jórunni Jónsdóttur prófasts Steingrímssonar, þau bl., svo Margréti Sigurðardóttur prests í Stafholti Jónssonar, ekkju séra Jóns, og síðast Solveigu Sveinsdóttur frá Sólheimum Alexanderssonar og börn með báðum. Dætur hans með miðkonunni voru meðal annars: Margrét kona Magnúsar Stephensens sýslumanns í Rangárþingi og móðir Magnúsar landshöfðingja og Jórunn, er átti Jón Jónsson prentara í Reykjavík.

Enn eru taldir synir séra Jóns í Saurbæjarþingum og bræður séra Einars í Fellsmúla og Jóns á Gróustöðum.
gg. Jón yngri sigldi.
hh. Hallgrímur sigldi.

4) Séra Jón Halldórsson segir í ættatölum sínum, að Kristín hafi dáið ógipt og bl. og mun það rétt. En Ó. Snókdalín o. fl. telja Hákon mann hennar og þeirra son Jón í Mýrartungu, er átti Þórunni Björnsdóttur Jónssonar (sjá hér á undan).

Þórður sigldi ungur til Hollands[1]) og var maður vel að sér um flest atgerfi, kom út, giptist og bjó á Ingjaldshóli 1671, byggði þar prýðilegan bæ, og hélt sig mjög ríkmannlega. Hann gerðist lögréttumaður. 1661 var Þórður í dómi Matthíasar Guðmundssonar, og var það áður en Þórður fór utan.

Þórður hélt sig til frama, hafði og margt til þess að vera yfirmaður. Þórður var settur fyrir Snæfellsnessýslu og Stapaumboð þá Jakob dó 1680, skyldi hann gera árlegan reikning fyrir gjöldum af hvorutveggju, en hafa sjálfur viss laun. Magnús lögmaður Jónsson var þó settur til að sjá eptir að rétt gengi um lögsögn og inntektir Ísafjarðar- og Snæfellsnessýslu, samt Stapaumboðs. Meinast hann hafa laun tekið á parti, en óljóst hversu mikil. 1684 var dómur Þórðar um vinnufólk borinn í lögréttu (sjá lögþingisbókina það ár).

1687 þann 2. júní að Staðarbakka nefndi Þórður menn í dóm um tíund af kongsjörðum.

1684 fékk Andrés Andrésson veiting fyrir Snæfellsnessýslu, en sú veiting var apturkölluð fyrir tilhlutan Magnúsar lögmanns. Þórður sýslumaður tók að gerast mjög mikillátur, hèlt á ári hverju tvær stórveizlur, aðra á Ingjaldshóli, hina á Helgafelli[2]), tók þá að ganga fé af höndum honum, og gat hann nauðuglega gert skil fyrir inntektum sýslu og umboðs. Tók því Magnús lögmaður sjálfur sýsluna og umboðið 1688, og flutti að Ingjaldshóli 1689 með samningi við Þórð, sem þá flutti að Ormsbæ, og var lénalaus um hríð.

---

Enn voru börn Jóns Illhugasonar á Munaðarhóli og Þorbjargar.

d. Sigurður ólst upp hjá Ólafi Söfrinssyni kaupmanni í Ólafsvík, lærði að gera »parruk«, dó í Kaupm.höfn, ókv., bl. (J. H. ættat.).
e. Elín dó ógipt, bl.
f. Valgerður.

1) Hann var líka í Danmörku og Englandi.

2) Séra J. Halldórss. segir, að hann hafi og haft »stóra kauphöndlan og fábreytilegar húsabyggingar« og hafi hann með öllu þessu komizt í miklar skuldir og efnaskort. Eptir að hann fór frá Ingjaldshóli bjó hann í Ormsbæ, en síðast fór hann vestur að Eyri í Skutulsfirði til séra Páls sonar síns og dó þar (1703). Svo segir séra J. H. í ættatölum sínum.

En síðar, þá Magnús lögmaður dó, var hann um tíma millibilssýslumaður, og aptur þá Magnús Björnsson hafði tekið sýsluna og Stapaumboð, gerðist Þórður hans lögsagnari árin 1700—1701[1]) og optar. Hann deyði 1703 og þótti mikilmenni að mörgu.

## Þorgils Jònsson.

*Faðir:* Jón á Brimilsvöllum lögréttumaður Þorgilsson Jónssonar bænda[2]).
*Mòðir:* Helga dóttir Skapta prests á Setbergi[3]).
*Kona:* Ragnhildur Gísladóttir Björnssonar[4]).
*Börn:* A. Guðrún átti Magnús lögmann Jónsson (sjá hér síðar).

1) Síðustu dómaraverk Þórðar í umboði Magnúsar munu vera þau, er hann árið 1700 dæmdi Tómas Konráðsson til aleigumissis og Brimarhólmsþrælkunar fyrir það, að hann hafði selt kaupmanni við Búðir ofurlítið af fiski, sem hann átti að selja Stapakaupmönnum, af því að hann átti heima í þeirra verzlunarumdæmi. Lýsir sá dómur allvel hinni óþolandi verzlunareinokun, er hér var í þann tíð. En ekki þótti lögmönnum dómurinn allskostar góður, en samþykktu hann þó á alþingi 1701, þóttust ekki geta annað samkvæmt lögum, en skutu til konungsnáðar um landsvist Tómasar og fékkst hún (Árb. Esp. VIII. 74).

2) Ó. Snókdalín telur konu Þorgils og móður Jóns á Brimilsvöllum Guðrúnu Eiríksdóttur frá Álptanesi Halldórssonar ábóta á Helgafelli Ormssonar, en tímans vegna getur það alls ekki verið rétt, enda telur séra Jón Ólafsson Guðrúnu ekki meðal barna Eiríks. Sennilegra þykir mér, að Guðrún hafi verið dóttir Eiríks á Hvanneyri Jónssonar Þórðarsonar, en móðir Eiríks var Ragnhildur dóttir Einars Þórólfssonar á Hofsstöðum og Katrínar Halldórsdóttur ábóta, og það kemur einmitt heim við tímann, að Guðrún sé á þennan hátt af ætt Halldórs ábóta. Espólín hyggur, að kona Þorgils hafi verið Soffía Ólafsdóttir (sbr. II. 606), en það mun skakkt, og sá Þorgils ekki afi Þorgils á Brimilsvöllum.

3) Séra Skapti Loptsson á Setbergi, sonarson Þorkels vellings, dó 1621.

4) Gísli faðir Ragnhildar var son Björns prófasts Gíslasonar í Saurbæ í Eyjafirði. Hann bjó á Hrafnabjörgum í Hörðudal.

B. Sigríður átti fyr séra Björn Skúlasom á Miklabæ[1]), þ. b.:

a. Helga (dó 1746, 68 ára) átti séra Eirík prófast Þorsteinsson[2]), börn:

aa. Séra Þorsteinn í Vesturhópshólum faðir Ragnheiðar[3]).

bb. Séra Gunnlaugur á Munkaþverá átti Guðrúnu og börn[4]).

---

1) Séra Björn var son Skúla prests Magnússonar í Goðdölum og afabróðir Skúla landfógeta. Hann kvæntist Sigríði 1676, en dó 1689 37 ára gamall.

2) Séra Eiríkur var síðast prestur í Saurbæ í Eyjafirði († 8. nóv. 1738). Hann var son Þorsteins prests Gunnlaugssonar prests í Saurbæ Sigurðssonar, og bróðir Hjalta prófasts í Vatnsfirði.

3) Ragnheiður Þorsteinsdóttir átti Odd smið í Geldingaholti Oddsson frá Geitagerði Jónssonar Oddssonar Oddssonar, þ. b.:

a. Gunnlaugur dómkirkjuprestur í Reykjavík, átti Þórunni Björnsdóttur prests í Bólstaðarhlíð, þ. b.: a) Gunnþórunn Ingibjörg Ragnheiður f. k. Halldórs prófasts Jónssonar á Hofi í Vopnafirði, átti mörg börn, b) Gunnlaugur Eyjólfur bjó austur í Múlasýslu, d) Erlendur Vilhjálmur Björn á Hrappsstöðum í Vopnafirði, e) Ólafur Þorsteinn dó ungur í skóla, f) Ingibjörg Elizabet átti Þorstein Jónsson kansellíráð sýslumann í Árnessýslu (sjá þar).

b. Þorsteinn stúdent, útskrifaður úr Hólaskóla 1800, var djákni á Möðruvöllum og skrifari hjá Stefáni amtm. Þórarinssyni, dó þar 22. marz 1809, rúml. þrítugur, ókv., átti 3 launbörn.

c. Jón í Kárdalstungu í Vatnsdal.

d. Ragnheiður átti Jón Gunnlaugsson og börn.

e. Guðrún átti Gísla Jónsson í Marbæli, þ. son Oddur. Hans dóttir Ragnheiður átti Jónas Jónsson í Hring.

f. María átti Þórð í Hamrakoti og Grjótgarði á Þelamörk, þ. b: aa. Oddur á Langavatni átti Guðrúnu Snorradóttur, þ. b. Snorri á Geitafelli, Gunnlaugur smiður, Þorsteinn (fóru báðir til Ameríku) og María.

g. Hjalti.

h. Benedikt.

i. Valgerður.

k. Ragnheiður önnur.

4) Séra Gunnlaugur á Laugalandi († 1796) átti Guðrúnu Sigurðardóttur frá Sandhólum Hallssonar Arnbjörnssonar, þ. b.:

cc. Sigríður gipt Þorsteini bónda á Sléttu áttu börn[1]).

dd. Dómhildur fyrst seinni kona séra Þorsteins Ketilssonar, áttu börn[2]), svo átti

---

a. Þorlákur dó utanlands í siglingum.
b. Eiríkur á Sámsstöðum átti Guðrúnu Einarsdóttnr frá Sigtúnum Sveinssonar.
c. Þorgils kallaður »skarði« af því að hann hafði skarð í vör, var vinnumaður á Munkaþverá, ókv. bl. Við hann sagði faðir hans. »Þegi þú Þorgils, þú veizt allt«. Espólín segir (í ættat. sínum) að Þorgils hafi séð sýn í jörðu skömmu eptir eldharðindin 1785 og heyrt kveðna vísuna: »Brauðið er vætt í blóði« o. s. frv.
d. Gunnlaugur. Önnur börn séra Gunnlaugs dóu ung.

1) Þorsteinn var son Eiríks ríka á Ásmundarstöðum Eiríkssonar í Skógum Einarssonar prests galdrameistara á Skinnastöðum Nikulássonar, en f. k. Þorsteins var Sigríður Jóhannsdóttir Jochumssonar og þeirra son Ágústínus í Kumlavík, en börn Þorsteins og Sigríðar voru:
a. Eiríkur var lengi á hrakningi.
b. Eiríkur yngri í Kollavík átti frændkonu sína Þórnýju dóttur galdra-Ara Jónssonar prests greipaglennis Einarssonar prests Nikulássonar og börn, eitt þeirra fórst í litunarpotti. Einn son þeirra var Eiríkur í Ormalóni.
d. Erlendur dó úr vesöld í brunaharðindunum 1785.
e. Guðrún f. k. Illhuga skálds Helgasonar, bróður Egils Sandholts í Reykjavík, áttu börn.
f. Helga átti fyr Guðmund Þorvaldsson frá Blikalóni Jónssonar prests yngra í Presthólum Þorvaldssonar og eina dóttur: Þórdísi, en síðar Guðmund Jónsson á Hóli á Sléttu; hún komst síðast í vesöld og varð niðursetningur í Núpasveit.
g. Sigríður, h. Þorbergur, i. Arnþrúður eru enn talin börn Þorsteins og Sigríðar.

2) Dætur séra Þorsteins á Hrafnagili og Dómhildar:
a. Ingibjörg f. k. séra Sæmundar Þorsteinssonar í Garpsdal, áttu börn.
b. Helga átti Gísla Hallgrímsson í Kristnesi, þ. b.: Hallgrímur í Kristnesi, Sigríður og Þorsteinn á Stokkahlöðum, merkur maður, var tvíkvæntur og átti fjölda barna, eitt þeirra Dómhildur kona Ólafs Gunnlaugssonar Briem timburmeistara á Grund og móðir séra Valdimars á Stóranúpi og þeirra systkina.

hún séra Jón Sigurðsson á Kvíabekk[1]).
ee. Skúli bóndi á Laugalandi, giptist og átti börn[2]).
ff. Elín átti séra Eirík á Hofi nyrðra[3]), þ. s.:
aaa. Eiríkur Laxdal.

---

c. Kristrún átti fyr Símon Bech Sigurðsson prests á Kvíabekk Bjarnasonar og var s. k. hans, en síðar Erlend Hjálmarsson klausturhaldara († 1835) og var s. k. hans, þ. b.: Þorsteinn Hjálmarsen prófastur í Hítardal, Hjálmar og Kristrún.

1) Þorkell Fjeldsted stiptamtmaður í Þrándheimi var son séra Jóns af fyrra hjónabandi, en dóttir hans og Dómhildar var:
a. Þorbjörg s. k. Árna Jónssonar á Vöglum, tengdaföður Þorsteins á Stokkahlöðum, þau bl.

2) Skúli var kallaður »stutti Skúli« bjó á Laugalandi á Reykjanesi átti fyr Þorfinnu Bjarnadóttur, þ. b.:
a. Eiríkur á Laugalandi átti Guðríði Þorgilsdóttur, þ. b.:
aa. Bjarni í Flatey átti Solveigu Magnúsdóttur.
bb. Þorgils. cc. Þorfinna. dd. Jón. ee. Elín.
ff. Ari átti Ingibjörgu Björnsdóttur Loptssonar, móðursystur séra Sveins Skúlasonar, þ. b.: Sigurður í Gesthúsum á Álptanesi, Eiríkur í Tungu á Vatnsnesi, Árni á Neðri-Þverá, Guðmundur, Kristín átti Björn Jónsson prests á Barði Jónssonar, Ragnhildur átti Jónas Sigurðsson frá Lækjamóti og Ingibjörg, dó bl.
S. k. Skúla Eiríkssonar Margrét Loptsdóttir, bl.

3) Séra Eiríkur Jónsson á Hofi á Skagaströnd dó 8. maí 1779. Hann var tágmjúkur glímumaður. Börn hans og Elínar:
a. Eiríkur Laxdal stúdent, útskrifaður úr Hólaskóla 1765, varð djákn á Reynistað s. á. og á Munkaþverá 1766, sigldi til háskólans, og skrifaður þar í stúdentatölu 19. des. 1769, kom inn aptur 1777, kvæntist Ólöfu Guðmundsdóttur, er kölluð var »mjöll« og var við búhokur í Kelduvík og Neðranesi á Skaga, en var síðar á flakki. Andaðist á Stokkahlöðum í Eyjafirði 24. júlí 1816 73 ára gamall; var gáfumaður, en sérvitur mjög og undarlegur, enda auðnulítill, átti ekki afkvæmi, er lifði. Þá er hann var djákn á Reynistað átti hann barn með Elínu dóttur Halldórs biskups Brynjólfssonar, það dó ungt. Um þetta var vísan ort: Gæfan Eiríks gerðist sljó o. s. frv.
b. Björn hnakkasmiður í Hvammkoti á Skagaströnd, átti Guðrúnu Ásmundsdóttur frá Gilsstöðum, þ. b.: Gunnlaugur, Eirík-

b. Sigríður Björnsdóttir Skúlasonar.

Seinni maður Sigríðar Þorgilsdóttur var séra Jón Bjarnason á Staðarbakka[1]).

Þorgils fæddur litlu eptir 1600, mannaðist að þroska í bezta máta, svo hann varð orðlagður hreystimaður og búþegn bezti. Vallnapláss erfði Þorgils eptir foreldra sína, setti þar bú reisugt og gerðist lögréttumaður. Eptir það Guðrún dóttir hans var gipt Magnúsi sýslumanni Jónssyni, og þá hann var orðinn lögmaður og hafði umsjón Snæfellsnessýslu og umboðs, setti hann Þórð frá þeirri sýslu 1684, en tengdaföður sinn Þorgils aptur fyrir sýsluna það ár, en sama ár kom Andrés Andrésson með kongs veiting fyrir umboði og sýslunni. Líka deyði Þorgils bóndi það ár, 1684, mjög gamall. Mér er óljóst, hvort hann gerði nokkur sýslumannsverk, áður hann lézt.

## Magnús Jónsson.

*Faðir*: Jón sýslumaður á Reykhólum og síðar á Miðhúsum son Magnúsar sýslumanns á Reykhólum Arasonar sýslumanns í Ögri Magnússonar sýslumanns (sjá um Jón sýslumann við Strandasýslu).

*Móðir*: Jórunn (fædd 1622, gipt 1641, dó 1679)[2]) dóttir Magnúsar lögmanns á Munkaþverá Björnssonar (sjá Vöðlusýslu).

Séð hef eg skrifað: „Jón sonur Magnúsar Arasonar fékk tvítugur Jórunnar, var hún þá 19 vetra, þau lifðu saman í hjónabandi 60 ár, og dó hann fyrri áttræður, en hún ári síðar og svo áttræð. Jórunn hafði verið mesta smákvendi og þó höfðinglega lynd. Hún hafði leynt sakakonu heilan vetur, svo enginn af vissi. Jón var einþykkur og

---

ur, Bjarni, Magnús, Elín og Ásmundur í Grjóta í Reykjavík faðir Jóns í Arabæ, Péturs prentara og Eiríks í Grjóta föður Árna verzlunarmanns og leikara í Reykjavík.

c. Elín átti Ara Árnason á Blöndubakka.

d. Sigríður. e. Helga, dóu báðar ógiptar.

1) Séra Jón dó 1705, og var Sigríður s. k. hans, þau bl.

2) Um dánarár Jórunnar sbr. II, 374.

sérlundaður. Sagt er, að þeim hjónum hafi eitthvað mislíkað þá Jórunn fæddi Pál, sem síðar varð prestur á Melstað, og Jón þar fyrir lítið skipt sér af honum, en hún kom honum til manns, en hann Magnúsi syni þeirra, er síðar varð lögmaður. Séra Páll erfði það stóra skip „Svan" og gaf það frænda sínum Oddi Sigurðssyni".

*Kona*: Guðrún (gipt 1668, dó 1705) dóttir Þorgils lögréttumanns á Brimilsvöllum Jónssonar (sjá hér að framan).

*Barn*: A. Margrét, fædd 1680, giptist 1701 Gísla syni Jóns biskups Vigfússonar. Gísli var skólalærður[1]) og eitt ár heyrari í Skálholti. Hann bjó fyrst á Reykhólum til 1706, svo í Máfahlíð. Það er sagt hann hafi kveðið vísu þessa fyr en hann átti Margréti:

Held eg bezta hlutskipti,
hverjum það til félli,
að mega eignast Margréti,
Máfahlíð og Velli.

Það var móðurarfur hennar með fleiru. Margrét deyði 1707, aðrir segja 1710, sem mun réttara. Gísli giptist aptur dóttur Björns sýslumanns á Staðarfelli Jónssonar Katrínu, er fædd var 1685, giptist 1714 (1715 segir Markúsar annáll), missti mann sinn Gísla í Tunguós 1716[2]), bjó hún þar eptir um hríð í Máfahlíð, flutti svo að Staðarfelli og bjó þar til elli ógipt. Hún átti ei barn, dó 1761. Hún upp ól frú Guðríði, er frá henni giptist séra Finni, er seinna varð biskup í Skálholti, og mörg önnur börn.

Börn Margrétar og Gísla voru:

a. Magnús amtmaður (dó 1766) átti Þórunni dóttur Guðmundar á Álptanesi lögréttu-

---

1) Gísli er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 4. apríl 1690. Hann var útskrifaður úr heimaskóla.

2) Gísli drukknaði 1715 (Árb. Esp. IX, 24).

manns og um tíma lögsagnara í Kjósarsýslu[1]), þ. b.:
aa. Sigríður frú Ólafs stiptamtmanns[2]).
b. Ragnheiður (dó 1748) átti séra Jón í Stafholti Jónsson, þ. b.:
aa. Jón sýslumaður í Rangárþingi (sjá þar).
bb. Sigríður átti Boga[3]).

---

1) Guðmundur var son Sigurðar lögmanns Jónssonar í Einarsnesi.

2) Börn Ólafs stiptamtmanns og Sigríðar eru talin I. B. bls. 242. Um afkomendur Magnúsar Stephensens í Viðey I. B. 417—418, og Björns sekretera á Esjubergi bróður hans I, 281, 415—416, 601.

3) Sigríður var síðasta kona Boga Benediktssonar í Hrappsey, þ. b.:
a. Ragnheiður átti séra Gísla Einarsson í Selárdal, bróður Ísleifs háyfirdómara á Brekku og mörg börn, eitt þeirra Einar prestur í Selárdal. Er ætt frá séra Gísla mjög fjölmenn, einkum í vesturhluta Barðastrandarsýslu.
b. Guðrún átti séra Eggert Guðmundsson í Reykholti, þ. b.: a) Benedikt Gudmundsen prestur í Vatnsfirði faðir séra Þorsteins í Bjarnanesi og Eggerts bónda í Laugardælum. b) Guðrún kona Magnúsar Jónssonar Waage í Stóruvogum, móðir Eggerts Waage stúdents í Rvík. c) Halldóra átti fyr séra Guðmund Bjarnason á Hólmum, svo Rögnvald Jónsson frá Gullberastöðum. d) Ragnheiður átti fyr Björn gullsmið Jakobsson á Fitjum í Skorradal, þ. b.: séra Jakob í Saurbæ, síðar Sigurð dbrm. Helgason á Jörfa, bl.
c. Ingveldur átti fyr séra Guðmund Eiríksson á Stað í Hrútafirði. þ. b.: a) Helga kona séra Páls Guðmundssonar á Borg, b) Hildur kona séra Sigurðar Gíslasonar á Stað í Steingrímsfirði. c) Sigríður, varð geðveik. d) Eiríkur, dó ungur.
Síðari maður Ingveldar séra Stefán Benediktsson í Hjarðarholti, þ. d.: a) Ragnheiður f. k. Björns Magnússonar gullsmiðs í Gvendareyjum, síðast á Setbergi á Skógarströnd og b) Ingveldur átti séra Benedikt Þórðarson í Selárdal, þeirra synir: Lárus prestur í Selárdal, nú uppgjafaprestur í Rvík og Stefán faðir Benedikts kaupm. í Rvík.
d. Kristín átti fyr séra Þórð Ólafsson aðstoðarprest í Skarðsþingum, þ. d.: Guðrún kona Ebenezers sýslumanns Þorsteinssonar

c. Guðríður, er átti Finn biskup Jónsson, börn:
aa. Hannes biskup[1]).
bb. Halldór prófastur[2]).
cc. Séra Jón[3]).

---

(sjá Isafjarðarsýslu); síðari maður Kristínar Skúli sýslumaður Magnússon á Skarði (sjá Dalasýslu).

e. Ragnheiður yngri átti Björn Gottskálksson dbrm. í Hrappsey, bl. 3 börn Boga í Hrappsey og Sigríðar: Bogi, Halldóra og Ingveldur, dóu ung.

1) Hannes biskup var tvíkvæntur, fyr Þórunni dóttur Olafs stiptamtmanns, síðar Valgerði Jónsdóttur sýslumanns á Móeiðarhvoli (sjá um afkvæmi þeirra Rangárþing).

2) Halldór prófastur í Hítardal († 15. marz 1814) átti Guðfinnu Torfadóttur frá Stórólfshvoli Erlendssonar, þ. d.:

a. Sigríður átti fyr séra Guðmund Þorgrímsson á Lambastöðum (sjá þeirra börn við Mýrasýslu), en síðar Geir biskup Vídalín, þ. b.:

aa. Árni stúdent († 1834) átti Steinunni dóttur séra Páls Hjálmarssonar á Stað á Reykjanesi, þ. b.: Geir dó ungur og Ingibjörg átti Sigurð Jónsson söðlasmið á Haukagili í Hvítársíðu, þ. d.: Sigríður gipt Jóni Jónssyni (frá Ökrum) kaupm. í Rvík.

3) Séra Jón Finnsson í Hruna († 12. sept. 1810) átti Vilborgu Jónsdóttur prests á Gilsbakka († 1771) Jónssonar, þ. b.:

a. Torfi prestur á Breiðabólsstað í Fljótshlíð († 10. jan. 1834) átti Ragnhildi Guðmundsdóttur prests í Hrepphólum Magnússonar, þ. b.:

aa. Guðmundur prestur á Torfastöðum († 3. apríl 1879) átti Höllu Ingvarsdóttur frá Skarði á Landi Magnússonar, þeirra dóttir Ragnhildur átti Björn Árnason ættaðan af Akureyri, bjuggu lengi í Torfastaðakoti í Biskupstungum, eitt barn þeirra Halla kona Kristjáns bónda á Borðeyri Gíslasonar prests á Reynivöllum Jóhannessonar.

bb. Jón prestur á Felli í Mýrdal († 4. júlí 1848) átti Oddnýju Ingvarsdóttur systur Höllu, þ. b.: Finnur á Kjörseyri, Magnús í Kirkjuvogi, Ingvar Torfi í Laugardalshólum, Ragnhildur kona Sigurðar sýslumanns Eiríkssonar Sverrisen (sjá Strandasýslu) og Ingibjörg.

cc. Magnús prestur í Eyvindarhólum († 1. maí 1852) átti Guðrúnu Ingvarsdóttur systur Höllu og Oddnýjar áðurnefndra, þ. b.: Jóhann á Brunnum í Suðursveit, nú á Ólafsvöllum,

dd. Steindór sýslumaður[1]).

Guðni á Forsæti í Landeyjum drukknaði, Ingvar í Gaularási, Brynjólfur dó utanlands, Torfi faðir Magnúsar sýslumanns á Ísafirði og Richards uppgjafaprests í Rvík og Ragnhildur s. k. Sigurðar dbrm. Magnússonar á Skúmsstöðum.

dd. Steindór á Seli í Grímsnesi átti Gróu Hjörleifsdóttur aðstoðarprests Oddssonar prests á Stóranúpi Sverrissonar, þeirra son Hjörleifur á Seli, flutti suður á Vatnsleysuströnd.

ee. Markús átti Arndísi Jónsdóttur prests í Klausturhólum Jónssonar, þau bræðrabörn, þ. d.: Kristín á Lýð Þórðarson á Eiríksbakka og Ragnhildur.

ff. Guðni dó bl.

gg. Guðríður átti séra Þorstein á Kálfafellsstað Einarsson stúdents í Skógum Högnasonar í Skógum Benediktssonar í Skógum Högnasonar prests í Eyvindarhólum Ámundasonar, þ. d.: Torfhildur Holm skáldkona í Rvík og Ragnhildur átti séra Eggert Ólafsson Briem á Höskuldsstöðum.

hh. Vilborg átti Filippus í Hvammi á Landi Jónsson frá Vindási Jónssonar og var f. k. hans, þ. d.: Kristín.

ii. Helga dó ógipt, bl.

kk. Kristín dó bl.

ll. Ingibjörg dó bl.

b. Jón prestur í Klausturhólum († 8. des. 1832) átti fyrst Ragnhildi Jónsdóttur, systur Steingríms biskups, þ. d.:

aa. Vilborg átti Sigurð járnsmið Gíslason í Arnarbæli í Grimsnesi, þau hjón dóu bæði í ágúst 1855, þ. b.: Sveinn á Smærnavelli í Garði, Jón í Arnarbæli í Grímsnesi, Ragnhildur og Margrét kona Vigfúsar í Framnesi Ófeigssonar frá Fjalli Vigfússonar Ófeigssonar Sigmundssonar.

Önnur kona séra Jóns í Klausturhólum Margrét Kolbeinsdóttir prests í Miðdal Þorsteinssonar, ekkja séra Hilaríusar Illhugasonar á Mosfelli, þ. b.:

bb. Ragnhildur átti fyr Björn á Búrfelli Jónsson Vernharðssonar stúdents á Búrfelli Ófeigssonar lögréttumanns í Bræðratungu og Skipholti Magnússonar, þ. b.: Jón prestur á Stokkseyri, Jón söðlasmiður á Hömrum í Grímsnesi og Margrét kona Guðmundar í Landakoti á Vatnsleysuströnd Guðmundssonar alþingismanns Brandssonar. S. m. Ragnhildar Jón Halldórsson á Búrfelli (II, 703).

1) Sjá um hann Árnessýslu.

ee. Ragnheiður[1]).

---

cc. Arndís átti Markús Torfason (sjá hér áður).

3. kona séra Jóns Anna Jónsdóttir frá Bíldsfelli Sigurðssonar á Litlahálsi Jónssonar, þ. b.:

dd. Jón prófastur á Hofi í Vopnafirði († 31. júlí 1898) átti fyr Sigríði Magnúsdóttur sýslumanns Stephensens frá Vatnsdal, svo Þuríði Kjartansdóttur prests í Ytri-Skógum Jónssonar og börn.

ee. Jón dó í skóla 13. des. 1853 úr taugaveiki, efnispiltur.

ff. Margrét átti Guðmund Þormóðsson í Ásum í Eystrihrepp og börn.

---

1) Ragnheiður átti Magnús lögmann Ólafsson á Meðalfelli, bróður Eggerts Ólafssonar, þ. b.:

a. Finnur prófessor í Kaupm.höfn († 24. des. 1847) mikill fornfræðingur og vísindamaður, átti dóttur Frydensbergs, er hér var landfógeti, bl.

b. Guðríður átti Stefán í Oddgeirshólum Pálsson prests á Þingvöllum Þorlákssonar, þ. b.:

aa. Steindór, drukknaði á Skerjafirði, og var þá í Bessastaðaskóla.

bb. Sigríður átti Jóhann Kristján Gunnlaugsson Briem prófast í Hruna, þ. b.: Steindór prestur í Hruna († 16. nóv. 1904) og Ólöf, er átti séra Valdimar prófast Briem á Stóranúpi.

c. Ragnhildur átti séra Einar Pálsson á Reynivöllum bróður Stefáns í Oddgeirshólum, þ. b.:

aa. Finnur Magnús á Meðalfelli átti Kristínu Stefánsdóttur prests Stephensens á Reynivöllum Stefánssonar amtmanns á Hvítárvöllum. Þeirra synir: Ólafur prestur í Kálfholti, Eggert á Meðalfelli, Einar vegfræðingur í Rvík og Högni.

bb. Páll gullsmiður í Sogni í Kjós átti Guðrúnu Magnúsdóttur Waage Jónssonar í Stóruvogum Daníelssonar, þ. b.: Eggert prestur á Breiðabólsstað, Einar snikkari í Rvík o. fl.

cc. Brynjólfur í Meðalfellskoti átti Þórdísi Ólafsdóttur frá Flekkudal Bjarnasonar og börn, eitt þeirra Guðrún er gipt Jóni skipstjóra í Melshúsum á Seltjarnarnesi Jónssyni frá Mýrarhúsum Sigurðssonar.

dd. Ragnheiður átti Þorvald Stephensen verzlunarmann í Rvík Stefánsson prests Stephensens á Reynivöllum, fóru til Ameríku með börn sín. Ein dóttir þeirra Hólmfríður giptist enskum manni Sharpe í Chicago.

ff. Margrét[1]).

Laundóttir Magnúsar með Guðrúnu var:

B. Ingibjörg átti séra Árna í Hvítadal son Jóns prófasts í Saurbæjarþingum Loptssonar, börn:

a. Séra Magnús á Sauðafelli og Reynivöllum (dó 1766), bl.[2]).

b. Loptur í Hundadal átti Rósu Jónsdóttur Gissurarsonar, þ. b.:

aa. Ingibjörg[3]).

bb. Guðrún[4]).

cc. Guðlaug[5]).

---

ee. Ragnhildur, ógipt, bl.

ff. Magnús.

gg. Eggert.

hh. Ólafur, dóu allir ungir úr barnaveiki sama árið 1827.

1) Margrét var s. k. Jóns biskups Teitssonar á Hólum og er frá þeim allmikill ætthringur kominn. Barna þeirra er getið II, 230, og vísast til þess hér sbr. I, 615.

2) Séra Magnús átti launson, er Guðmundur hét, var skurðhagur maður, dó gamall, bl.

3) Ingibjörg átti fyr Sigurð á Harastöðum og Dunki Sigurðsson á Núpi í Haukadal Brandssonar, föðurbróður Þorvaldar Sivertsen í Hrappsey, þ. b.: Egill, Jón og Loptur, dóu allir bl. S. m. Ingibjargar Bjarni Benediktsson á Dunki, bl.

4) Guðrún átti Brynjólf Bjarnason á Klett, bróður Jóns í Gufudal, er átti Þrúði Halldórsdóttur biskups, þ. b.:

a. Bjarni á Klett átti Guðrúnu Gísladóttur frá Brekku í Gufudalssveit Jónssonar bróðurdóttur Arnfinns á Hallsteinsnesi.

b. Ingibjörg átti Jón Þorvarðsson í Grónesi, þ. b.: Bjarni á Skerðingsstöðum faðir Ólafs s. st., Guðrún kona Ísleifs á Hvalsá og Jóhanna kona Jóns Árnasonar á Kleppustöðum.

5) Guðlaug átti Gísla Pálsson í Hvítadal, þ. b.:

a. Magnús í Hvítadal átti Ingveldi Magnúsdóttur, þ. b.: Gísli í Höfðadal, Andrés járnsmiður á Ísafirði, Jón í Bæ á Rauðasandi, Guðbjartur á Lambeyri, Magnús í Raknadal og Monika.

b. Solveig átti Jón í Sælingsdal Jónsson litla bónda Jónssonar á Hróðnýjarstöðum Jónssonar Jónssonar á Hróðnýjarstöðum Guðmundssonar á Dunki Bjarnasonar bróður Daða í Snóksdal Guðmundssonar, þ. b.:

c. Guðrún átti Ólaf lögsagnara og lögréttumann Jónsson (sjá Barðastrandarsýslu).
d. Ólafur sýslumaður Árnason (sjá Barðastrandarsýslu).
e. Þórunn kona Magnúsar á Brennistöðum[1]).

Magnús er borinn 1642, hann mannaðist vel og var á ungdómsárum við lærdómsmenntir, og fór ungur utan til Hollands til frama og lærdómsiðkana, en kom út 1662. Jón faðir hans sleppti við hann hálfri Strandasýslu 1662, og gerði honum bú á Reykhólum, en flutti sjálfur að Miðhúsum; var þá Magnús haldinn kviklátur. 1668 er mælt, að hann hafi átt tvær Guðrúnar þungaðar, hverri annari nefnilega Guðrúnu Þorgilsdóttur hann giptist sama ár. 1675 þá Vilhjálmur sýslumaður deyði son séra Arnfinns á Stað tók Magnús og þann part Strandasýslu, svo hann hélt frá því alla sýsluna um hríð. Þá er hann hafði haldið Strandasýslu í 17 ár og Þorleifur Kortsson frásagði sér lögmannsdæmið var Magnús kosinn lögmaður 1679, og aflagði þá lögmannseið fyrir Ólafi Klow um-

---

aa. Páll prestur í Viðvík átti fyr Kristínu Þorsteinsdóttur stúdents í Laxanesi í Kjós Guðmundssonar, þ. b.: Snorri verzlunarstjóri á Siglufirði, Jón dó bl., Gísli á Grund í Svarfaðardal, Einar á Akureyri faðir Matthíasar læknis við frakkneska spítalann í Rvík, Gamalíel, Grímur og Kristín 1. k. Einars dbrm. Guðmundssonar á Hraunum og móðir Páls sýslumanns í Hafnarfirði. S. k. séra Páls Anna Sigríður Jónsdóttir Bergssonar úr Svarfaðardal af ætt séra Magnúsar Einarssonar á Tjörn, áttu börn.

c. Anna.
d. Sigríður.

Launbörn Guðlaugar Loptsdóttur með Andrési Jónssyni á Þórólfsstöðum föður Jóns smiðs:

e. Helga átti Halldór Jónsson á Hvoli og börn.
f. Andrés smiður átti Guðrúnu Þorleifsdóttur Torfasonar, þ. b.: Þorleifur, Guðlaug, Þórdís kona Finns Sveinssonar á Háafelli í Miðdölum og Gyríður, er átti Konráð Konráðsson, bróðurson Gísla Konráðssonar sagnfræðings.

1) Magnús á Brennistöðum var son Jóns sýslumanns Sigurðssonar í Einarsnesi, og var Þórunn s. k. hans (sjá um afkomendur þeirra í Mýrasýslu).

boðsmanni. 1681 dag 16. apríl kongsstaðfestingarbréf upp á hans lögmannsembætti. 1681 var Magnús settur umsjónarmaður yfir Snæfellsnessýslu og Stapaumboði fyrir hverju þá var Þórður sýslumaður Steindórsson, og skyldi gera árlegan reikning fyrir inntektum. 1684 frásetti Magnús lögmaður Þórð Steindórsson Snæfellsnessýslu, en tengdaföður sinn Þorgils aptur fyrir sýslumann, sem dó litlu þar eptir 1684 háaldraður (gert meir til nafns en rentu að meinast). 1682 átti Magnús lögmaður og að hafa umsjón yfir Ísafjarðarsýslu með sama hætti, þá Bjarni Þorleifsson var þar lögsagnari. Honum (ɔ: Magnúsi) var og boðið að hafa tilsjón um Dalasýslu, þá Bjarni sýslumaður á Staðarhóli hafði sleppt þeirri sýslu sökum elliburða; setti hann því þar lögsagnara Björn á Staðarfelli Jónsson (sjá Dalasýslu). 1684 sleppti Magnús algerlega Strandasýslu utan kongsjörðum þar, en tók þá Dalasýslu. Þá Andrési Andréssyni var veitt Snæfellsnessýsla og Stapaumboð 1684 gerði Magnús lögmaður það, að sú veiting var apturkölluð.

1688 tók Magnús lögmaður sjálfur kongsveiting (11. marz) fyrir Snæfellsnessýslu og Stapaumboði. En Strandajarðir hafði hann haldið lengi og Skógarstrandarumboði. Séra Einar Torfason, sem átti Ragnheiði systur Magnúsar lögmanns, fékk Stað á Reykjanesi 1681. Var lítt vinfengi milli þeirra mága og vildi Magnús þá ekki vera á Reykhólum, en flutti 1685 að Brimilsvöllum. Hann keypti af kongi Máfahlíð fyrir Arnarhól, báða Buga og Hal . . . vík í Breiðuvík. Frá Völlum flutti hann að Máfahlíð um 1687 og bjó þar til þess um 1690, þá hann hafði tekið umboðið og Snæfellsnessýslu. Flutti hann þá að Ingjaldshóli með samningi við Þórð Steindórsson, sem þá flutti að Ormsbæ. Þá Magnús sýslumaður Hrómundsson var afsettur tók og Magnús lögmaður til umsjónar Hnappadalssýslu. Hann hafði þá marga umboðsmenn fyrir lénum sínum. Andrés Dalasýslumaður var þá aðstoðarmaður hans við Stapaumboð. Björn eldri Jónsson um tíma við hans umboðsjarðir, eptir sumra meining. Svo er að sjá sem Andrés Andrésson hafi tekið Stapaumboð, og Magnús lögmaður sleppt því 1691 (sjá kongsbréf 28. febr. 1691)[1],

1) Um þetta kongsbréf verður síðar getið (sjá Andrés Andrés-

því lögmaður hafði þá ærið mörgu að gegna, þar hann hafði Stranda-, Álptafjarðar- og Skógarstrandarumboð og umsjón yfir ýmsum sýslum. Hann tók þá Vigfús Árnason fyrir sinn lögsagnara í Snæfellsnessýslu 1692. Þann 11. febrúar 1694 braut niður framkirkju Ingjaldshóls ofan að bitum, tóku nokkrir það fyrir furðu Magnúsar lögmanns, því að hann deyði það sama vor 1694 þann 25. apríl á 52. aldursári og var grafinn í kór á Ingjaldshóli. Er yfir hans legstað stór marmaralegsteinn og á hann (grafið) rist það riddaramerki, sem hans ættmenn brúka í sínum innsiglum enn í dag.

Hann þénti lögmannsembætti í 14 ár, en sýslumannsembætti alls 32 ár. Hann lét ganga fjölda dóma, bæði sem sýslumaður og lögmaður.

Magnús lögmaður var smár vexti, fljótskarpur, hraðmæltur, fljótur til svars, klókur maður og akaði seglum eptir veðri, var og jafnast mikill vinur sinna yfirmanna, fékk því hjá þeim flest léni, sem hann tilmæltist, líka hlýddu mörgum hans ráðum. Hann var bráðlyndur, drottnunargjarn, vinur vina sinna, aðgætinn í fjársökum og auðugur. Með betri lagamönnum á sinni tíð og ágætur maður í mörgum hlutum. Guðrún kona hans var haldin mikil bústandskona og hafði fjárgnótt mikla. Hún bjó um hríð á Ingjaldshóli, en flutti þaðan að Máfahlíð og bjó þar 1705 það ár á hverju hún deyði. Hún þótti og í mörgu mæt kona.

Þá Magnús lögmaður deyði tjáist Magnús Björnsson að hafa verið þénari hans og umboðsmaður (sjá síðar).

Magnús lögmaður deyði sem áður er sagt í sinni mestu velgengni, veg og virðingu; var höfðinglega lyndur og veitingasamur, en þótti stundum of fljótráður.

1679 kom kongsbréf um stríðshjálpartollinn; skyldi sérhver landsdrottinn gjalda 1 vætt eða 20 áln. af hverri hundraðs landsskuld eignarjarðar sinnar og af hverju eignarkúgildi 10 fiska, en leiguliðar 10 áln. af hundraðs landsskuld og 5 fiska af hverju kúgildi. Af biskupsstólum, beneficiis, þeirra jörðum, klausturs- og umboðsjörðum helmingi minna. 1680 kom

---

son). En það mun misskilningur hjá Boga, að Andrés hafi haft nokkur umráð yfir umboðinu 1691 eða verið þá umboðsmaður Magnúsar lögmanns.

þetta bréf til Íslands; var þá þingað í öllum sveitum um sumarið, og uppskrifað, hvað mikið hver ætti að gjalda. En yfirmenn landsins andlegir og veraldlegir suppliceruðu fyrir kong og báðu um vægð á þessu; var Magnús lögmaður frumkvöðull með veraldlegum að sækja þar um.

Magnús var sá seinasti lögmaður, sem hér á landi var kosinn; voru í lögmannskjörum með honum: Jón Sigurðsson í Einarsnesi og Þorsteinn Þorleifsson á Víðivöllum.

## Björn eldri Jónsson.

*Faðir*: Jón skólalærður, son séra Brynjólfs í Hjarðarholti Bjarnasonar[1]).

*Móðir*: Halldóra dóttir Björns sonar séra Þórðar í Hjarðarholti Brandssonar.

*Kona*: Valgerður dóttir Brokeyjar-Jóns Pécturssonar.

*Börn*: A. Ásgeir bóndi á Orrahóli átti Steinunni dóttur Tómasar bónda, börn:

a. Jón eldri á Breiðabólsstað átti fyrst Þóru[2]), svo Ingveldi, dóu báðar barnlausar. Seinast Halldóru dóttur Jóns í Skógum Jónssonar, börn:

aa. Ingveldur[3]).

bb. Anna[4]).

cc. Jón, giptist og átti börn[5]). (Önnur þeirra börn dóu).

---

1) Sbr. II, 347.

2) Líklega réttara: Þórunn Jónsdóttir.

3) Ingveldur átti Helga á Skarfsstöðum Runólfsson Þorvarðssonar á Brennistöðum Runólfssonar, þ. b.: Jón.

4) Anna átti Brynjólf Andrésson frá Krossi Hannessonar, þ. d.: a. Halldóra f. k. Nikulásar Nikulássonar á Hóli á Fellsströnd.

5) Jón á Breiðabólsstað á Fellsströnd eptir föður sinn, átti fyr Helgu Bjarnadóttur, þ. b.: Jónas, Bjarni í Tungu, Sigurður, Karítas og Hólmfríður, er átti Jón Gíslason bróður Bjarna í Ármúla og Einars á Sandnesi; s. k. Jóns á Breiðabólsstað Halldóra Þórðardóttir frá Blönduhlíð Þórðarsonar, þ. b.: Katrín átti Sveinbjörn á Hallsstöðum, Guðbjörg, Jón, Halldóra og Þórður, er átti Jófríði Einarsdóttur frá Hallsstöðum. Launson Jóns á Breiðabólsstað með

b. Jón yngri á Breiðabólsstað átti Valgerði Halldórsdóttur, börn:
aa. Guðrún átti Jón Einarsson, þ. d.:
aaa. Margrét[1]).
(Báðir Jónar Ásgeirssynir áttu launbörn).
c. Magnús á Ytrafelli átti Margréti[2]), börn:
aa. Einar giptur á börn.
bb. Ingveldur ógipt, bl.
d. Björn átti Þóru Bjarnadóttur[3]), börn:
aa. Sigríður.
bb. Sigurður[4]).
cc. Steinunn[5]).
dd. Guðrún[6]).

---

Iugibjörgu Ólafsdóttur frá Oddsstöðum Sigurðssonar var Ólafur beykir í Flatey.

1) Margrét átti Einar Jónsson og bjó hann á Hallsstöðum eptir Jón Einarsson tengdaföður sinn, þ. b.:
a. Þorsteinn á Staðarfelli.
b. Þorbjörg giptist í Hvammssveit.
c. Jón á Laugum og Hólum í Hvammssveit átti Björgu Steindórsdóttur, þ. b.: Kristjana, Bergsveinn á Hróðnýjarstöðum fór til Ameríku, Þorbjörg og Sæmundur í Þrándarkoti faðir Friðjóns í Hólum og þeirra systkina.

Jón Ásgeirsson yngri átti laundóttur með Guðrúnu Eiríksdóttur, hét Guðrún.

2) Margrét var dóttir Jóns Jónssonar á Orrahóli bróður Halldórs lögréttumanns á Vígholtsstöðum. Son hennar af fyrra hjónabandi var Jón Einarsson á Hallsstöðum, er átti Guðrúnu dóttur Jóns yngra Ásgeirssonar (sjá hér á undan).

3) Þóra var f. k. Björns og var þ. d. Sigríður, en s. k. Björns var Arnlaug Magnúsdóttir, þ. b. voru þau hin, sem hér eru talin bb.—ee.

4) Sigurður átti Þorkötlu Bjarnadóttur úr Steingrímsfirði, bjuggu í Tungusveit.

5) Steinunn átti Þórarinn Guðmundsson í Túngarði, þ. b. Benjamín.

6) Guðrún átti Ísleif Hinriksson á Völlum, bl.

ee. Árni[1]).
e. Guðmundur átti Ragnheiði Þórðardóttur, bl. Launson átti hann, er dó barnlaus[2]).
B. Brynjólfur í Nesi átti Guðrúnu Þorleifsdóttur[3]), barn:
a. Dagbjört átti Torfa smið Þorleifsson, börn:
aa. Steinunn gipt, átti börn[4]).
bb. Guðrún ógipt, bl.[5]).
C. Ragnhildur átti Hinrik Einarsson[6]), börn:
a. Einar á Rauðkollsstöðum átti Sigríði Bjarnadóttur, börn:
aa. Helga[7]).
bb. Hinrik[8]) og fleiri.
b. Guðmundur.
c. Björn[9]).

---

1) Árni átti Guðrúnu Guðmundsdóttur og börn.

2) Þessi launson Guðmundar Ásgeirssonar hét Guðmundur og var móðir hans Kristín Guðmundsdóttir frá Galtardalstungu Bjarnasonar í Arnarbæli (sbr. II, 685).

3) Þorleifur Pétursson faðir Guðrúnar var lengi formaður á Hjallasandi.

4) Steinunn átti Einar Bjarnason Hjörleifssonar, þ. b.:
a. Kristján átti Kristínu Guðmundsdóttur, þ. b. Guðmundur.
b. Hjörleifur var í Dölum.
c. Torfi.

5) Í ættatölum er þessi Guðrún dóttir Torfa og Dagbjartar ekki nefnd, en þetta getur samt verið rétt. Torfi var tvíkvæntur og Dagbjört s. k. hans. Börn hans með f. k.: Þorleifur á Háafelli, Þórður á Bugðustöðum, Guðmundur á Ámýrum, Finnur á Sólheimum í Laxárdal og Ingveldur.

6) Hinrik var son Einars Galdra-Brandssonar frá Stóraskógi.

7) Helga átti Finn Jónsson á Litlahrauni og eina dóttur Guðfinnu.

8) Hinrik dó bl.

9) Björn átti Margréti Jónsdóttur frá Urriðaá Jónssonar, þ. d. Elín átti Jón Jónsson í Guðrúnarkoti. Hún átti 2 launbörn.

d. Hallbera[1]).
e. Jón[2]).
D. Guðmundur Björnsson, barnlaus.
E. Halldóra Björnsdóttir[3]).

Björn var framan af æfi sinni efnamaður, skýr og gerðist um tíma umboðsmaður fyrir jörðum Magnúsar lögmanns, en eg tvíla hann væri við dómaraverk. Þá Magnús lögmaður deyði flutti Björn undir áraburð Björns á Staðarfelli bróður síns, sem þá var höfðingi í Dalasýslu. Bjó Björn þá í Vogi á Fellsströnd nokkra hríð[4]), eins eptir 1695, þá Björn á Staðarfelli nýorðinn sýslumaður deyði (sjá um hann Dalasýslu).

Björn var haldinn vel rýndur, og af honum er mælt, að Þormóður skáld Eiríksson hafi numið forneskju, og opt studdi Björn Þormóð, svo sem þá Þormóður gerði hrekki í Stykkishólmi og flúði um kveldið einn á bát til Björns; kom þá andviðri mót Þormóði og náði nauðuglega í óbyggða eyju (Deildarey), hvar hann var veðurfastur í 3 dægur. Þá kvað Þormóður:

Gæti eg flogið greitt sem örn
gista hér ei skyldi.

---

1) Réttara: Halldóra. Hún átti Þórð Brandsson frá Skáleyjum, þ. d. Marín.

2) Jón átti laundóttur með Hallóttu Pétursdóttur, er hét Guðrún, kölluð Hallóttu-Gunna, átti börn með ýmsum; þær mæðgur voru ávallt á vergangi.

3) Jón Magnússon (bróðir Árna) segir að ein dóttir Björns hafi verið:

F. Ragnfríður. Ennfremur dóttir Björns, að því er séra J. H. telur:
G. Bergljót. Hún veiktist og giptist ekki.

4) Björn var mikilhæfur maður, en lánlítill og »lenti í armóð og á vergangi« segir séra Jón Halldórsson (ættat.). Hann telur hann hiklaust lögsagnara Magnúsar lögmanns Jónssonar í Dalasýslu nokkur ár, en getur ekki um lögsögu hans í Snæfellsnessýslu. Sumir (t. d. Espólín: Árb. VIII, 48—49) halda, að það hafi verið þessi Björn, sem dæmdi af Jörfagleði, en hitt mun réttara, að það hafi verið Björn sýslumaður á Staðarfelli bróðir hans (sbr. II, 669—670). Hvenær Björn eldri dó er ókunnugt.

Upp að Vogi eldra Björn,
eg hann finna vildi.

Fyrst minnst er á Þormóð sem nafnkenndan mann er styzta æfiágrip hans þannig:

Faðir Þormóðs var Eiríkur í Langadal Sigurðsson[1]).
Móðir: Bergljót systir Björns eldra í Vogi og Björns yngra á Staðarfelli.
1. kona: Guðrún Helgadóttir, barn:
A. Sigurður í Melrakkaey átti Guðrúnu Jónsdóttur, þ. s.:
a. Jón samastaðar átti Helgu[2]) og börn.
2. kona Þormóðar Brynhildur Jónsdóttir[3]), börn:
B. Jón í Gvendareyjum átti Oddfríði Teitsdóttur, börn:
a. Jón eldri í Akureyjum tvígiptur, átti börn.
b. Jón yngri í Öxney giptist og átti börn.
c. Eiríkur í Langadal giptist og átti dóttur.
d. Gísli á Völlum giptist og átti börn.
e. Rósa á Setbergi giptist og átti börn.

---

1) Faðir Eiríks var Sigurður prestur í Miklaholti († 1681) Jónsson Þorsteinssonar Sigurðssonar, en sá Þorsteinn var bróðir séra Einars í Heydölum, föður Odds biskups. Jón Magnússon (bróðir Árna) segir í ættatölum sínum, að Eiríkur hafi búið á Leiti á Skógarströnd.

2) Faðir Helgu var Hálfdan í Sellóni son Helga prests Ólafssonar á Stað í Hrútafirði. Börn Jóns og Helgu:
a. Rafn átti Sigríði Magnúsdóttur frá Hólum í Hvammssveit Arngrímssonar.
b. Sigurður hafnsögumaður í Melrakkaey átti fyr Sigríði Bæringsdóttur, þ. d.:
aa. Bergljót átti Þorbjörn í Bervík Arngrímsson Tyrfingsonar Helgasonar, þ. d.: Þórdís átti Jón Jónsson í Görðum í Miðvík, þ. d.: Bergljót átti Kristján á Skiphyl Gíslason s. st. Gíslasonar Egilssonar, þeirra son Sigurður bóksali í Reykjavík.

3) Brynhildur var dóttir Jóns í Sellóni Guðbrandssonar s. st. Kristóferssonar í Hólahólum Björnssonar. Frá börnum Þormóðs skalds og hennar er fjöldi manna kominn, sem hér yrði oflangt að rekja ítarlega.

f. Halla í Efrihlíð giptist og átti börn.
g. Oddfríður giptist og átti börn.
h. Teitur í Öxney giptist og átti börn.
i. Ólafur, launson Jóns, giptist, barnlaus, og
k. Snjálaug giptist og átti dóttur.

C. Þóra Þormóðsdóttir átti Þorstein Guðmundsson, bl.

D. Þuríður Þormóðsdóttir átti Benedikt í Ólafsey Bassason, börn:
a. Ingibjörg átti Sighvat Teitsson og börn.
b. Þorvarður á Klungurbrekku giptist, átti börn.
c. Ingveldur átti Eirík Jónsson og barn.
d. Guðrún átti Eirík Eiríksson og börn.
e. Brynhildur átti Jón Ívarsson í Klettakoti og börn.

E. Guðrún Þormóðsdóttir átti Gunnar Gunnarsson, börn:
a. Torfi átti Halldóru Eiríksdóttur og börn.
b. Eiríkur átti Steinunni, barnlaus.
c. Guðrún átti Helga í Rauðseyjum og börn[1]).
d. Ástríður giptist ei.

F. Guðrún önnur Þormóðsdóttir í Kiðey (týndi sér sjálf) átti Jón Guðmundsson[2]), þ. d.:

---

1) Meðal barna Helga Pálssonar og Guðrúnar:
a. Salóme, er átti Brynjólf Gunnlaugsson í Bjarneyjum; þeirra son Brynjólfur í Bjarneyjum faðir Ólafs á Virki í Rifi (föður Valgarðs Breiðfjörðs kaupm. í Rvík) og Ragnhildar konu Sighvats Grímssonar Borgfirðings fræðimanns á Höfða í Dýrafirði.
b. Gunnar í Bjarneyjum faðir Gísla í Flatey, nafnkennds sjósóknara á Breiðafirði. Hann drukknaði í hákarlalegu 1867.
c. Sigríður átti Magnús Bjarnason í Bjarneyjum, þ. b.: a) Jóhannes í Bjarneyjum faðir Guðnýjar konu Bents kaupm. Jónssonar í Flatey o. fl. systkina. b) Magnús í Bjarneyjum. Hans börn Einar, Jón og Karólína.

2) Guðrún þessi, er átti Jón Guðmundsson, var dóttir Þormóðs og f. k. hans Guðrúnar, en ekki dóttir hans og Brynhildar. Svo telur bæði Snókdalín og Espólín. Það var Guðrún yngri Þormóðsdóttir, er átti Gunnar Gunnarsson prests í Stafholti Pálssonar. Í þætti Þormóðs skálds í Ísl. Þjóðsögum I, 541—554, er getið um

a. Sigrún, átti börn.

(Af þessum er kominn fjöldi fólks. Öll voru börn Þormóðs frábrugðin og annarleg í háttum hjá því sem almenningur, flest smiðir og formenn góðir, sum skýr og hrekkjótt, önnur sáraeinföld og aulaleg).

Þormóður fór á unga aldri til frænda síns Björns sýslumanns á Staðarfelli Jónssonar, sem hann kveður í æfikvæði sínu:

Á Staðarfelli var eg í vist
hjá virðuglegum bróður.
Sá á velli sýndi list
sakna í elli, hans er misst.

Þormóður giptist sinni fyrri konu á Staðarfelli. Björn sýslumaður byggði hjáleigu á svokölluðum Hjalla og gerði Þormóði þar bú, hvar hann hokraði um hríð. Þaðan flutti hann að sögn í Breiðuvík[1]). Ei nam hann þar yndi; flutti því í Helgafellssveit í Kiðey; litla hríð bjó hann þar, en fékk til ábýlis Vaðstakksey og hokraði þar 3 ár, gekk honum þar mjög andstreymt, sem hann kveður:

Vetur þrjá í Vaðstakksey
var eg gleði og yndi
sviptur þá um Sviðrismey,
síðan má hún heita grey.

Þaðan flutti hann í Gvendareyjar og hokraði þar meðan hann hélt við búskap[2]). Þaðan flutti hann til Þóru dóttur

---

skyndilegt fráfall Guðrúnar (eldri) dóttur hans, og var eignað göldrum. Sigrún dóttir hennar átti Grím í Litlalóni og var »skrapakerling« segir Snókdalín, er telur hana dáið hafa 1804. Í þætti Þormóðs hér eru ýmsar vísur, sem ekki eru í Þjóðsögunum, en samanburði á þessum tveimur frásögnum um Þormóð hef eg sleppt, því að þátturinn í Þjóðsögunum er vitanlega þjóðsaga að mestu leyti og mikilli hjátrú blandinn. En Þormóður hefur verið hinn merkasti karl og mikilhæfur, annars mundu ekki svo miklar sagnir hafa myndazt um hann. Hann hefur verið ramíslenzkt kraptaskáld á gamla vísu og mikill átrúnaður verið á kvæðakyngi hans.

1) Þormóður bjó í Þormóðsbúð við Hellna 1707 (Jarðabók Á. M.). 1697 er hans getið í Helgafellssveit (Þingbók Magnúsar sýslumanns Björnssonar í Landskjalasafninu).

2) Þormóður var um tíma hreppstjóri á Skógarströnd, en sagði

sinnar og Þorsteins manns hennar að Narfeyri og deyði þar háaldraður eptir 1741.

Þormóður var skáld, orti bólusálm og fleiri sálma, einnig Guðbrandsrímur og fjölda af stökum vísum og kvæðum. Til búsaka tjáist hann hafa verið óduglegur og ætíð sárfátækur, en skýr maður, hjátrúarfullur og miðlungi ráðvandur. Hann var og haldinn mjög fjölkunnugur, svo það er að orði gert.

Hvefsinn var hann opt í skaldskap. Eitt sinn, þá hann var í veizlu og Guðmundur sýslumaður á Ingjaldshóli, kvað Þormóður:

Mér er gaman geðs um mið
gátur hefjast snauðar.
Allir saman eruð þið
ærulausir kauðar.

Guðmundur heyrði vísuna og sagði: „Bindið þið skáldhundinn“. Þá kvað Þormóður:

Bindi mig í bragna kranz
bölvaður mammons jútur.
Svo skal eg búa' um helskó hans,
að hvergi rakni hnútur.

Var Þormóði þá skotið undan. Á þingi seinna, þá Guðmundur heimti gjöld sín af Þormóði, en lítið var fyrir annað en refjar, svo sýslumaður veitti honum ámæli, er mælt, að Þormóður hafi kveðið:

Að mér berast efnin vönd,
er eg í máta glaður.
Hafið þér séð hann glugga-Gvönd
göfugi sýslumaður?

Eptir að Þormóður kvað vísuna, þá Stykkishólmsskip lagði út:

Stykkishólmi stefnir frá
straumabjörn hinn þungi.
Um hann velti bylgjan blá
og bylti' honum veðradrungi.

En svo vildi til, að skipið fórst við Hjaltland. Trúði almenn-

---

af sér hreppstjórninni á Drangaþingi 1. júní 1739 »vegna slæmleika«. Dánarár hans er ekki með vissu kunnugt.

ingur, að Þormóður væri ákvæðaskáld og hafði því ótta fyrir honum. Því sagði Jón gamli við Þormóð:

Ekki vil eg enn um sinn
ýfa þig til ljóða.
Heill og sæll nú Móði minn
merkisskáldið góða.

Án umþenkingar er sagt, að Þormóður hafi svarað:

Kvelda tekur, komið er nón
í kofum veraldarranna.
Guð blessi þig gamli Jón
gott skáld Jöklamanna.

Þormóður tjáist að hafa verið ei seinni að yrkja, en seintalandi maður að mæla. Þá fundið var að drykkjuskap Benedikts í Hrappsey kvað Þormóður

Bensa þykir brennivín sætt,
en bragna meir um varðar,
að hann er lifandi ljós í ætt
og laukurinn Breiðafjarðar.

Um sig sjálfan kvað Þormóður:

Margur sakna mun Þormóðs,
mín sú rætist spáin,
annaðhvort til ills eða góðs,
þá er hann í burtu dáinn.

Þá einhver fékk niðurfallssótt eða aðra óvenju sjúkdóma var það kennt göldrum og jafnvel draugum, því drauga-, álfa- og galdratrú var þá mikil. Þormóður var opt sóttur að gera við marga þessa sjúkdóma, og það lukkaðist honum. Sögðu menn hann hefði sett niður draugana, en enginn gat sagt, hvernig hann fór að því, þar hann var nógu skynsamur að dylja það. Er líkara, að hann með náttúrlegum meðulum hafi læknað, en þótt gott, að almenningur hefði trú um sinn galdrakrapt til að koma sér fram, vera virtur, og aðrir skyldu hræðast sig, að sér sem þurfamanni yrði betur til að fá bón sína. Þó verður því ekki neitað, að sumir tilburðirnir voru undarlegir, ef satt er frá þeim tjáð.

## Vigfús Árnason.

(Sjá um hann við Hnappadalssýslu). Magnús lögmaður tók hann fyrir lögsagnara 1692 í Snæfellsnessýslu, og þá Ein-

ar sýslumaður Eyjólfsson deyði var Vigfús hér settur lögsagnari 1695.

## Einar Eyjólfsson.

(Sjá um þennan mikla fræðimann við Árnessþing). Honum var veitt Snæfellsnessýsla, þá Magnús lögmaður deyði 1694, en óviss er eg, hvort hann hafði hluta af Stapaumboði eða ekki eða það allt (þó eg efi það) að veiting, sem ei mun hafa til hans komið frá kongi fyr en 1695. Engin embættisverk hefur hann gert í Snæfellsnessýslu, því þá hann ætlaði vestur þangað að flytja deyði hann á Eyrarbakka 1695[1]) og kom ei til sýslunnar.

## Andrés Andrésson.

(Sjá um hann við Barðastrandar- og Dalasýslur)[2]). Hans ætt þekki eg ekki[3]); og veit eigi fyr um hann en það, að hann var orðinn sýslumaður í hálfri Barðastrandarsýslu (eg held í vesturpartinum), en fyrst meina eg hann lögsagnara Eggerts á Skarði eða settan lögsagnara eptir Eggert í vesturparti Barðastrandarsýslu 1680, því þar nefnist hann lögsagnari 1681 (sjá lögþingisbók 1681), en hvort hann hefur fengið veiting fyrir vesturpartinum eða settur er mér dulið, þó ei sé ólíklegt hann hafi fengið veiting. 1684 dag 5. apríl fékk hann kongsveiting fyrir Stapaumboði og Snæfellsnessýslu, sem þó var apturkölluð. 1688 var honum veitt Dalasýsla og 1691 Stapaumboð eða nokkur hluti þess, að minnsta kosti hafði hann mikil afskipti af því[4]). En 1695 tók Andrés hvorttveggja

---

1) Einar sýslumaður dó 15. júlí 1695.

2) II, 95, 670.

3) Andrés sýslumaður var danskur að ætt, systurson Jóhanns Péturssonar Klein fógeta á Bessastöðum (÷ 1689) og mun hafa komið með honum út hingað. Hann var »eptirliggjari« (vetrarsetu-kaupmaður) á Vatneyri 1679 og þá staddur við greptrun Björns sýslumanns Gíslasonar í Bæ, en 1681 telur séra Jón Ólafsson á Lambavatni hann sýslumann í hálfri Barðastrandarsýslu, og mun hann hafa fengið veitingu fyrir henni (Bisks. II, 362).

4) Hinn 28. febr. 1691 kom út konungsbréf til Müllers amtmanns að hjálpa Magnúsi lögmanni Jónssyni til réttar gegn And-

að veitingu og hélt því litla hríð, því á heimreið af alþingi 1696 kominn í Stafholt sýktist Andrés og deyði úr þeirri kvellingu[1]).

## Magnús Björnsson.

*Faðir*: Björn prestur til Reynistaðar etc. sonur séra Björns Jónssonar á Hvanneyri í Siglufirði[2]).

*Móðir*: Margrét dóttir Jóns Guðmundssonar á Siglunesi[3]).

*Kona*: Þórunn dóttir séra Einars á Stað á Reykjanesi Torfasonar, giptist 1701.

*Börn*: A. Einar sýslumaður í Strandasýslu (sjá þar).

B. Björn í Miðhlíð[4]) átti Guðrúnu dóttur Einars bónda á Kinnarstöðum, börn:

---

rési sýslumanni, er þá hafði Dalasýslu, en tregðaðist við að fullnægja alþingisdómi 1690 um að svara lögmanni sem Stapaumboðshaldara 22 leigukúgildum. Sést af því, að Andrés hefur ekki haft umboðið 1691, enda var hann þá sýslumaður í Dalasýslu, en skuldaskipti þessi stafa auðsjáanlega frá afhendingu Andrésar á Stapaumboðinu í hendur lögmanni 1688, eru eptirstöðvar frá þeim tíma, sem Andrés hefur ekki viljað greiða.

1) Í sýslumannaregistri í Snæfellsnessýslu (Lbs. 64 fol.) er Jón Jónsson á Hamraendum sýslumaður í Hnappadalssýslu (sjá þar) nefndur árið 1697, en ekki er mér kunnugt um, að hann hafi gert nein dómaraverk í Snæfellsnessýslu það ár, enda var Magnús Björnsson þá tekinn við sýslunni. (Sjá frekar um þetta við Hnappadalssýslu).

2) Bæði Espólín (í ættatölum sínum), séra Jón Konráðsson (í prestatali sínu) o. fl. telja Magnús sýslumann son séra Björns Jónssonar á Hvanneyri († um 1681) og s. k. hans Þóreyjar Bjarnadóttur prests á Þönglabakka Jónssonar og albróður séra Jóns Björnssonar á Setbergi († 1726 61 árs) og er það rétt, en hitt rangt, að Magnús sýslumaður hafi verið sonarson séra Björns, eins og Bogi telur (eptir Snókdalín). Er ekki ósennilegt, að Magnús sýslumaður sé fæddur um 1660 eða litlu síðar. Séra Björn Björnsson í Holtsmúla (hálfbróðir hans), sem hér er talinn faðir hans, er prestvígður 1673 og því fæddur litlu fyrir 1650.

3) Margrét kona séra Björns var dóttir Guðmundar Jónssonar frá Siglunesi og bróðurdóttir séra Sveins á Barði.

4) Björn var lögréttumaður, dó 1773 (Ó. Sn. ætt.).

a. Magnús lærði vefnað í Reykjavík átti Geirdísi[1]), börn:

aa. Ólafur á Efra-Skarði í Leirársveit[2]) átti Steinunni Nikulásdóttur og mörg börn.

bb. Jón í Reykjavík átti Herdísi Guðlaugsdóttur[3]), þ. d.:

aaa. María.

cc. Vigfús í Galtarholti í Leirársveit og síðar á Akranesi átti fyrst Mettu Katrínu[4])

---

1) Magnús vefari bjó í Skálholtskoti († 30. júlí 1792). Geirdís kona hans var dóttir Jóns smiðs á Eyrarbakka og Guðrúnar Vigfúsdóttur frá Kirkjuvogi Gunnarssonar prests í Kálfholti Einarssonar.

2) Ólafur var vefari, var síðast á Akranesi og drukknaði þar 26. apríl 1834.

Meðal barna hans og Steinunnar voru:

a. Nikulás, drukknaði í Vestmanneyjum, átti Valgerði Torfadóttur frá Háhól Jónssonar eldra á Lambastöðum á Mýrum, er var bróðir séra Jóns Högnasonar í Hítarnesi, þau bl.

b. Ólafur á Bræðraparti átti 1821 Helgu Gissursdóttur Ólafssonar systur Hannesar Ólsens snikkara í Reykjavík, þ. b.: Ólafur, Magnús, Þuríður, Jón, Sigríður.

c. Pétur Baggi átti Ingunni Jónsdóttur frá Laxfossi Þorbjörnssonar á Skarðshömrum Gíslasonar, þ. b.: Jón og Guðríður.

d. Magnús kvæntist og átti börn.

e. Matthildur, bl.

f. Ingibjörg átti Narfa í Gröf á Akranesi Gíslason frá Írafelli í Kjós Guðmundssonar á Hálsi Þórðarsonar og var f. k. hans, þ. b.: Steinunn, Geirdís, Ingibjörg.

Laundóttir Ólafs á Efraskarði var:

g. Guðrún átti Jón Jónsson frá Álptártungu Jónssonar, þ. d. Ingiríður.

3) Jón var í Sjóbúð. Herdís kona hans var dóttir Guðlaugs vefara í Hlíðarhúsum Eiríkssonar frá Litlahamri í Eyjafirði Péturssonar í Sveinshúsum og Salbjargar Þórarinsdóttur Bjarnasonar. Dætur Jóns og Herdísar: Halla, Guðrún og María.

4) Þetta er ekki rétt. Fyrsta kona Vigfúsar var Þuríður Pálsdóttir frá Ártúnum á Kjalarnesi Bjarnasonar og Mettu Katrínar Filippusdóttur smiðs á Jörfa († 1762) Húnasonar. Dóttir Vigfúsar og Þuríðar:

og börn. Síðar Guðrúnu[1]) Vigfúsdóttur og mörg börn.
dd. Þuríður átti Þorleif í Stóru-Fellsöxl Guðmundsson og börn[2]).
ee. Ingibjörg átti fyr Magnús í Reykjavík[3]) og börn, síðar Bjarna[4]).
b. Þórunn átti Ásgrím Þorkelsson í Tungumúla á Barðaströnd, börn:
aa. Þorkell átti Kristínu Jónsdóttur, þ. d.:
aaa. Þórunn.
bb. Jón.
c. Þorgerður.
d. Jarþrúður.
e. Einar.
f. Þórey.
g. Helga.
h. Jón[5]).

---

a. Metta Katrín.

2. k. Vigfúsar Guðríður Vigfúsdóttir. 3. kona Ingveldur Jónsdóttir.

1) Réttara: Guðríði.

2) Þuríður var f. k. Þorleifs, er dó á Krossi á Akranesi 16. marz 1828. Börn þeirra:
a. Sigurður á Krossi á Akranesi átti 1824 Guðrúnu Jónsdóttur frá Galtarvík Vigfússonar og börn.
b. Sigríður átti Björn Davíðsson frá Fitjum Björnssonar lögmanns Markússonar, þ. b.: Þorleifur, Magnús, Guðmundur, Elín.

3) Magnús var son Guðlaugs Magnússonar í Kópavogi og Alríðar Magnúsdóttur. Hann dó ungur 1792, en Magnús (yngri) bróðir hans bjó lengi í Kópavogi.

4) Bjarni s. m. Ingibjargar var Sigvaldason, ættaður úr Vestmanneyjum.

Enn voru dætur Magnúsar vefara og Geirdísar: Matthildar tvær, Guðrún og Valdís (tvíburar), Þuríður og Hallfríður, dóu allar ungar.

5) Jón Björnsson í Þúfu átti Sigríði Sigmundsdóttur, þ. b.:
a. Jón í Blönduhlíð átti Hallfríði Bjarnadóttur, þ. d.: Sesselja og Hallfríður.

i. Þorkell.
k. Árni laungetinn[1]).
C. Guðrún[2]).

Magnús skólagenginn[3]) varð handskrifari og þénari hjá

---

b. Guðrún átti Jón Guðmundsson í Hólahólum og Bervík, þ. b.: Gísli, Illhugi, Loptur.
c. Jón í Þúfu. d. Ingveldur.

1) Árni bjó í Dalli á Völlum, átti fyr Margréti Þorsteinsdóttur, þ. b.:
a. Árni í Dalli átti Ástríði Svarthöfðadóttur Sturlusonar, þ. b.:
aa. Margrét átti Jón Marteinsson frá Völlum Jónssonar og Margrétar laundóttur Bjarna djöflabana á Knerri (sbr. bls. 114).
bb. Páll átti Málfríði Þorsteinsdóttur, þ. b.: Árni og Þorsteinn.
b. Katrín átti Jón Sveinsson, þ. b.:
aa. Arnfríður átti Guðmund Björnsson smið í Tungu í Neshrepp, þ. b. mörg.
bb. Ragnhildur átti Brand í Hrísum Atlason í Stóraskógi Sturlaugssonar í Bæ í Miðdölum Atlasonar, þ. b.:
aaa. Jón átti Ketilríði Gísladóttur systur Víglundar í Hrísum og börn.
bbb. Brandur dó bl.
ccc. Sumarliði.
ddd. Katrín átti Guðmund Þórðarson.
eee. Guðrún. Launson hennar með Víglundi Gíslasyni hét Víglundur.
fff. Kristín átti Jón Jónsson.

S. k. Árna Björnssonar í Dalli Þóra Guðmundsdóttir Guðmundssonar í Hraunsmúla Sigmundssonar, þ. d.:
c. Guðrún.

Launson Árna með Guðrúnu Jónsdóttur:
d. Jón í Holti átti Guðrúnu Magnúsdóttur Einarssonar og Salbjargar Oddsdóttur.

2) Ó. Snókdalín segir, að laundóttir Magnúsar sýslumanns hafi verið:
1. Kristín, er átti Gísla Hákonarson, þ. b.:
a. Úlfhildur átti Ólaf Guðmundsson í Galtarvík, þeirra son:
aa. Hermann á Geldingá faðir Bjarna hreppstjóra á Vatnshorni. Er sú Hermannsætt allfjölmenn í Borgarfirði.

3) Svo er sagt, að Magnús sýslumaður hafi verið fæddur skinnlaus og verið húðlaus heilt ár, en hollenzkur skipari læknað hann;

Magnúsi lögmanni Jónssyni á Ingjaldshóli, svo gerðist hann lögsagnari Andrésar sýslumanns í Dalasýslu nálægt 1693—94. Var settur eptir Andrés fyrir Snæfellsnessýslu og Stapaumboð 1696, en fékk veiting fyrir hvorutveggju 1697 13. apríl. Magnús sýslumaður bjó á Ingjaldshóli. Hann giptist 1701. Framan af tjáist Magnús að hafa búið á Arnarstapa. Þórður Steindórsson áðurnefndur sýslumaður var Magnúsar lögsagnari 1700—1701 og máske optar. Nokkrir segja, að Magnús hafi látið reisa Ingjaldshólskirkju að öllum stórviðum, þaki og veggjum. Lögðu aðrar kirkjur til hennar byggingar að konungsboði 400 rd. specie.

1707 í stóru bólu deyði Magnús sýslumaður og kona hans Þórunn[1]).

---

kvað hann þetta stafa af ofmikilli nautn áfengra drykkja af móðurinni um meðgöngutímann.

1) Magnús sýslumaður hafði ýmsa umboðsmenn, er þinguðu fyrir hann í forföllum hans, eins og sjá má af þingbók hans, sem enn er til frá árunum 1697—1705 og geymd í Landskjalasafninu.

Jón Illhugason lögréttumaður á Munaðarhóli († 1707) tengdasonur Þórðar sýslumanns Steindórssonar (sjá bls. 154) dæmdi á Ingjaldshóli 28. nóv. 1699 í umboði Magnúsar sýslumanns í þjófnaðarmáli Narfa Jónssonar og Þorgeirs Snorrasonar.

Arnljótur Þórðarson dæmdi í umboði Magnúsar sýslumanns 30. jan. 1700 í Syðri-Görðum í Staðarsveit í þjófnaðarmáli Sigmundar Sigmundssonar. Arnljótur drukknaði á Stapa 1705, er hann var að fara í land úr kaupskipi, en Ólafur á Sveinsstöðum, bróðir hans komst af. Þeir voru synir Þórðar á Virki í Rifi Jónssonar Þórarinssonar. En kona Arnljóts var Steinunn Þorkelsdóttir Tómassonar og Guðrúnar Sighvatsdóttur í Sellóni Jónssonar. Son Arnljóts og hennar var Finnur og eru frá honum komnar ættir í Staðarsveit, en dóttir Arnljóts hefur verið Elín s. k. Jóns Ólafssonar á Yxnakeldu og móðir Arnljóts á Guðlaugsstöðum, er verið hefur af síðara hjónabandi Jóns og bróðir samfeðra Böðvars sýslumanns, en ekki albróðir, eins og eg hef áður ætlað II. B. bls. 351. En þá hafði eg ekki fundið, að Elín Arnljótsdóttir var s. k. Jóns Ólafssonar. Það sést á þingbók Guðm. sýslumanns Sigurðssonar 1735—39 (Landskjalasafn). Elín býr ekkja á Stóru-Yxnakeldu 1737.

Þórður Steindórsson (sbr. bls. 158) var og umboðsmaður Magnúsar sýslumanns.

Brynjólfur Ásmundsson lögréttumaður á Ingjaldshóli

## Oddur Sigurðsson.

*Faðir*: Sigurður prófastur á Staðastað 1680—90, son Sigurðar prófasts í Stafholti Oddssonar biskups Einarssonar.

*Móðir*: Sigríður (fædd 1658, giptist 1680, deyði 1733) dóttir Hákonar sýslumanns í Bræðratungu Gíslasonar lögmanns samastaðar Hákonarsonar sýslumanns Árnasonar sýslumanns Gíslasonar.

Oddur er borinn á Staðastað um 1682. Var snemma til mennta settur, og útskrifaður fór hann utan til meiri lærdómsframa. Kom út 1704, gerðist þá vinfengi mikið millum hans og Guðmundar ríka í Brokey, svo Oddur lofaðist elztu dóttur hans, er þá var 15 vetra. Aptur fór Oddur utan 1706 og lifði þá líkara stórherra en lærdómsmanni, eyddi hann þá mjög miklum peningum. Hann fékk vicilögmannsembætti 1707, kom þá út og ætlaði að vitja heitkonu sinnar, en þá gekk stóra bóla yfir Ísland og deyðu 4 dætur Guðmundar ríka, svo hann var barnlaus eptir. Var nú gott vinfengi þeirra Odds og Guðmundar, svo Guðmundur lánaði Oddi 1000 rd. spec. og gaf honum Narfeyri og hálft búið. Lofaði Oddur að ganga Guðmundi í sonar stað, Um þessar mundir var hann lögsagnari í Snæfellsnessýslu og Stapaumboðs, er sýslumaður Magnús Björnsson deyði 1707, sem sagt er.

1707 þann 16. maí gerðist Oddur fullmektugur stiptamtmanns Gyldenlöves actor í nokkrum sökum móti lögmanni Gottrup. 1708 dag 15. maí Gyldenlöves-fullmakt gefin vicilögmanni Oddi Sigurðssyni. 1707 um haustið fór Oddur vicilögmaður utan, en kom út 1708. Hafði hann í þeirri ferð fengið umboð þess mikla stiptamtmanns Gyldenlöves; gerðist þá Oddur umfangsmikill og tók undir sig Snæfellsnessýslu og Stapaumboð, án þess að fá kongsveiting fyrir. 1708 veitti Páll Beyer Oddi vicilögmanni Stapasýslu og umboð, en Oddur vildi ekki utan 1/2 umboð og sýslu upp á eitt ár festalaust mót Jens Jörgenssyni; seinna tók hann hvorttveggja.

Brátt komu greinar til ósamþykkis millum Odds, Jóns

---

(faðir Halldórs biskups) dæmdi í umboði Magnúsar sýslumanns 5. ágúst 1701 á Ingjaldshóli í þjófnaðarmáli Halldórs og Tómasar Jónssona.

biskups Vídalíns og Páls Vídalíns út af mörgu, einkum brauðaveitingum og dómum, því Oddur þóttist hafa svo mikið vald eptir sínu instruxi dagsettu þann 15. maí 1708, hvar í honum var í þeim 6. articula gefið vald til að afsetja og ákæra þá embættismenn, sem ei ræktu skyldu síns embættis. Oddur hafði og að nokkru leyti umboð amtmanns Müllers ásamt með Pali Beyer fógeta frá 1708 til 1717. Sem stiptamtmaður samþykkti Oddur sýsluskipti Páls logmanns Vídalíns, þá hann fékk Jóni Magnússyni Dalasýslu fyrir Strandasýslu árið 1708. Jón sýslumaður Magnússon missti Dalasýslu fyrir barneign fram hjá 1709. Var því Dalasýsla uppboðin 1710 og Oddur að henni hæstbjóðandi. Þó yfirlét Oddur eptir samningi Páli Dalasýslu til þess svar kæmi utanlands frá. 1711 væntist Oddur skipunar af admírál Sehested og tók Dalasýslu af Páli, setti þar lögsagnara sinn Jón Sigurðsson, sem þar sýnist hafa verið Odds vegna til 1717, þá Oddur afsetti hann algerlega í Skógaþjófnaðarmálinu. Dalasýsla var því eitt þrætuepli þeirra á millum. Fyrir margar klaganir yfir Vídalín setti Oddur hann frá embætti 1713, en með hæstaréttardómi fékk Vídalín aptur lögmannsdæmið 1716 og dómsmenn áttu að betala Vídalín 300 rd. specie, þar af Oddur 100 rd., Páll Beyer 100 rd. og dómsmenn 100 rd., en Páll var þó í öðrum málum dæmdur til líkra bóta. Kveðskapur Páls um Odd var og annað yrkisefnið þeirra á millum. Svo stóð á, að Oddur biðlaði til Sigríðar Þorsteinsdóttur á Gröfum nálægt 1710 og var alræmt, að hann mundi ekta hana, því Magnús kapteinn Arason sendi inn brúðkaupsvísur. (Þær sá eg ungur prentaðar með gylltum bókstöfum). Svo bar við, að hvalfangaraskip kom í Búðaós og keypti nokkru við íslenzka til nauðþurftar sér. Þar kom Oddur og heimti bætur af þeim fyrir ófría höndlun. Þeir svöruðu um illa. Þá skipaði Oddur að höggva festar skipsins, en þegar enskir sáu það fönguðu þeir Odd og fylgjara hans, en slepptu strax aptur fylgdarmönnunum. Héldu Oddi hja sér i hálfan mánuð; menn vissu ei til hvers, og ekkert varð af giptingu Odds og Sigríðar. Var það dregið saman, að Oddur mundi hafa verið geltur. Hafði Vídalín það í flæmingi í vísum sínum um Odd. Í einni þeirra kveður hann svo:

Geldingurinn orðinn er
ærður niður á þingi.

Þetta og annað þvílíkt frétti Oddur. Því sagði hann við Vídalín, þá staddan í miklum málum: „Kveddu nú Páll!“ Hinn leit til Odds og kvað:

Login held eg sagan sé
sögð af geldingunni.
Liggur þetta last og spé
ljóst í hvers manns munni.

Þrætuefni biskups Vídalíns og Odds var nokkuð út af brauðaveitingum, en þó mest þar af, að Oddur hafði gefið Beyer fullmakt til að sitja í synodo með biskupi. Biskup vildi ei álíta hann gildan þar til, en dæmdi sjálfur einn prest frá prestskap. Oddur tjáði biskupsdóminn ógildan, þar hvorki Beyer eða Oddur höfðu verið fyrir dómendur í réttinum, og sagði presti að vera sem áður við sitt embætti. Þá Vídalín biskup var staddur á vísitasíuferð sinni á Narfeyri 1713 og þeir Oddur og biskup drukku saman bar þeim á milli út af þessu og öðru. Þar kom deilum, að Oddur flaug á biskup, en séra Jón á Breiðabólsstað þar staddur hélt Oddi, en biskup flúði. Seinna kvað biskup, að Oddi hefði mislíkað, að hann hefði kallað Sigríði móður Odds „heillin góð“, og þótti það oflágt fyrir hana. Biskup stefndi til vitnaleiðslu í þessu máli og Oddi til áheyrnar, en þá bar svo til haustið 1713, að Oddur fór kaupstaðarferð til Ólafsvíkur á sínu stóra farmaskipi, er Svanur nefndist, og sigldi úr Ólafsvík í suðvestanveðri, en er þeir komu inn um Búlandshöfða rak á sunnan ákafaveður, hleyptu þeir þá fram á Breiðafjörð norður flóann í mesta stórsjó, sneri þá veðrið sér til austurs og svo til austnorðurs, er þeir nálguðust Barðaströnd, svo þeir náðu ei Skor. Stýrði lögmaður sjálfur alla nóttina. Ei náðu þeir undir Rauðasand, en loks hleyptu þeir upp í stórgljúfur undir Látrabjargi, brotnaði þar skipið í spón, en fé allt týndist; mannbjörg varð og sumt af áhöfn skipsins náðist, þó mjög skemmt. Menn allir voru mjög dasaðir, en feikna klettar upp að klifrast úr fjöru. Sá færasti þeirra og brattgengasti, Jón í Brandsbúð, gat klifrazt upp gjá nokkra með streng á hverjum hinir handstyrktu sig, svo allir komust loks upp á bjargið og þaðan til bæja mjög að þrotum komn-

ir af vosbúð, sulti og þreytu. Hresstust þó síðan og fóru á flutningum suður yfir Breiðafjörð og heim til sín; hugðu menn þá týnst hafa. En það sem af skipinu náðist var selt vestra veturinn eptir. Meðan Oddur var í þessum svaðilförum stóðu yfir vitnaleiðslurnar á Staðastað um breytni Odds við biskup Vídalín. Gat Oddur ei þar við verið eða nokkur af hans hálfu. Þá Oddur hafði um hríð verið heima stefndi hann til vitnaleiðslu á Dröngum á Skógarströnd og biskupi til áheyrnar. En þá að þingdegi kom um veturinn gat enginn af biskups hendi þangað komizt vegna ófærðar; stóð svo í þessu þrasi um hríð. 1715 fór Oddur utan eptir stefnu Páls Vídalíns í afsetningarmálinu áður aminnstu og setti á meðan Laurus Skeving fyrir stiptamtsmannsverk, en Jón Eyjólfsson fyrir lögmannsverk, (því árinu áður 1714 hafði Laurus lögmaður afstaðið við Odd lögmannsembættið með því móti, að Laurus skyldi halda hálfum launum og lögmannstollinum af Húnavatnsþingi etc.). Páll Vídalín vann þá afsetningarmálið fyrir hæstarétti og komu þeir báðir út 1716 og tóku við sínum embættum. Oddur hafði ásamt Beyer afsett Hákon sýslumann í Rangárþingi Hannesson frá embætti 1711 orsakalítið og veitt öðrum sýsluna, en kongur bauð 1712 og aptur 1714 að setja Hákon strax aptur í embætti og gera honum skil fyrir embættisgjöldum. En Oddur og Jón vicilögmaður Eyjólfsson dæmdu Hákon á ný undir konungsúrskurð, hvort hann mætti halda embættinu, þar Hákon hafði lagt hald á nokkra verðaura. En þá þeir reyndu útfall á Vídalíns-afsetningarmalinu treystu þeir ekki að halda fram í það. Kom því Oddur og Jón Eyjólfsson í lögréttu þetta ár 1716, og segjast í guðs trausti og lagaleyfi upphefja sinn dóm yfir Hákoni, (sem gekk 1714) og margt kom fleira fyrir.

Þess er fyr getið, að Guðmundur ríki hafði gefið Oddi Narfeyri og hálft búið, samt lanað honum 1000 rd. specie. Var Guðmundur þá um hríð húsmaður á Narfeyri með Helgu konu sinni. Var það brátt, að þeir Oddur og Guðmundur komu eigi skapi saman, því Oddur var mjög stórgerður, ofsafenginn, stórhuga, aðdrátta- og eyðslumaður. En Guðmundur var hægur, féfastur og hinn mesti fjárgæzlumaður. Mjög var hann auðugur af löndum og lausafé og leigði leigujarðir sínar svo dýrt, sem hann gat við komið.

Meðal annars var Brokey erfðajörð Helgu konu hans. Jón Pétursson hafði þar lengi búið og komið þar að mjög miklu æðarvarpi. Af honum við tók dótturmaður Jóns Grímur fálkafangari. Þá Eggert Björnsson á Skarði deyði 1680 hlotnaðist Helgu konu Guðmundar Brokey. Þá setti Guðmundur þann leigumála við Grím, að hann skyldi gjalda sér allan dún, sem af henni fengist; stóð svo um hríð. Svo bar til um 1709, að Guðmundur fór kaupstaðarferð til Grundarfjarðar og kallaði landseta sína til farar með sér, þar á meðal Grím í Brokey. Þá Guðmundur var staddur í Grundarfirði bar svo til, að hann kom inn í svefnhús undirkaupmannsins; lá hans minnisbók þar á borðinu, og þar undirkaupmaður var ei nærri blaðaði hann í bókinni og fann, að Grímur hafði fengið téðum kaupmanni nokkuð af æðardún. Guðmundur hitti Grím og bar þetta á hann, en hann meðgekk ekki. Undirkaupmaður varð þessa áskynja og tók blaðið úr bókinni, en bar á móti við Guðmund, að Grímur hefði sér æðardún fengið. Guðmundur gat því eigi bevísað, en byggði Grími út, sem þá flutti í Dagverðarnes. Af þessu og ósamþykki við Odd flutti Guðmundur í Brokey, lét byggja þar góða stofu og önnur nauðsynleg hús, sem hann þurfti. Brokey er heyskaparlítil, en nærri henni liggja eyjar, sem tilheyra Narfeyrarkirkju, er Ingeyjar nefnast, voru þær þá gagnauðugar að heyskap og fjárgöngu. Guðmundur tók þá téðar eyjar undir Brokey til allra nota, án þess að tala þar um við Odd, og galt enga leigu þar eptir; út af þessu varð Oddur í drykkjuskap einhverju sinni stórorður við Guðmund, sem safnaði móð, og fleira bar þeim á milli, svo þykkja vóx. Þá Páll Vídalín varð þess var, er mælt hann hafi af mætti að þeim kolum blásið, og komið Guðmundi til að rjúfa gjöf sína, og lagt honum þann feril, að hann skyldi gefa amtmanni Fuhrmann fé sitt, til að fá sigur við Odd, með öðru fleira. Einnig vildi Vídalín ná hylli Fuhrmanns fyrir þessa milligöngu. Var því Oddi stefnt af Guðmundi til Drangaþings fyrir skilmálarof við Guðmund og til fundið, að Oddur hefði ekki gengið honum í sonar stað, sem hann þó lofað hefði. Útvegaði Vídalín Jóhann Gottrup fyrir talsmann Guðmundar, en Niels Kier var settur dómari. Sögn er og, að þénari Odds hafi verið tilfenginn að stela Narfeyrargjafabréfi frá Oddi og fá

það hans mótstöðumönnum; var þingað í þessu um sumarið og stóð það yfir í nokkra daga. Oddi varð þungt uppdráttar og sá annara heimugleg ráð á móti sér. Spáði sér og litlu góðu af mótstöðumönnum sínum. Féll því seinast upp á með áeggjan annara, að bjóða Guðmundi sátt. Kom því málið ekki til dóms. Sú varð loks sættin, að Oddur skyldi sleppa Narfeyri og borga Guðmundi þá gefnu 1000 rd. specie, en skyldi halda hálfu Narfeyrarbúinu, sem metið var sextíu hundruð. Þá lét Guðmundur gera gjafabréf sitt og konu sinnar til amtmanns Fuhrmanns, sem var litlu þar eptir staðfest af konungi. Þó gaf Guðmundur þar að auk til prestseturs afgjaldslaust jarðirnar Prestbakka, tvo þriðjunga í Brjámslæk á Barðaströnd undir sinn dauða 1720. Guðmundur deyði nóttina milli þess 7. og 8. febrúar 1720 á heimili sínu Brokey, að mælt er af hungri og þorsta sem faðir hans; gat hann á engu nærst utan að bryðja klaka. Hann var jarðaður framanvert við prédikunarstól í Narfeyrarkirkju. Guðmundur var maður óvinsæll af alþýðu. Voru ýmsar vísur orktar eptir hann, þar á meðal þessar:

Sínum örfum sinnti ei par
sálugi Gvöndur ríki.
Auður í Brokey eptir var,
þá öndin skrapp úr líki.

Sagt er, að Þormóður Eiríksson hafi þá kveðið:

Gvendur lögmann firrti fé,
fór svo gjafa auður.
Náði aptur Narfeyri,
nú liggur þar dauður.

Páll lögmaður Vídalín orkti þessa vísu:

Gvendur skildist gózin við,
gekk frá leyfðu snauður.
Þar komst ekki í þriðja lið
Þorleifs lögmanns auður.

(En nú í mínu ungdæmi var sem almenningur hefði ýmigust á nafni Guðmundar. Finn eg þó engar sagnir um hans verulega illar athafnir, en eitthvað kann að vera hæft til harðdrægnis hans, og máske ofmikillrar ágengni og fjárplógs, þó orðum sé aukið, eða máske af öfund).

Nú víkur sögunni til Odds. Hann komst í málaþrætur

1718 við Þorleif Arason, varð bráðlyndur, sem venja hans var, brá korða sínum og risti Þorleif frá eyranu til munnsins. Þar fyrir bætti hann honum 100 rd. specie og 50 rd. til kongs og fatækra. Þá kom út amtmaður Niels Fuhrmann og hafði fengið stiptamtmannsumboð, en Oddur var því sviptur. Þar á bættist aðurnefnt mál og fjárlát hans til Guðmundar ríka, sem deyði 1720. Fuhrmann tók þá til sín hans fé og stefndi Oddi 1721 til Ingjaldshólsþings til borgunar þeim 1000 rd. specie, er Guðmundur sál. átti hjá honum undir dóm Nielsar Kier, en setti lögmann Pál Vídalín fyrir saksóknara. Gerðist þá sá samningur, að Oddur skyldi gjalda amtmanni þessar jarðir fyrir 1037 rd. specie: Miðfell LX hundr. með 19 kúgildum, Galtafell XXX hundr. með 6 kúgildum, Háeyri XII hundr. með 16 rd. specie landsskuld, hálfan Kollabæ í Fljótshlíð XXX hundr. með 6 kúgildum, Seljaland XXV hundr. með 4 kúgildum og Tjarnir X hundr. með 4 kúgildum; þær jarðir liggja í Árnes- og Rangárþingi. Við þessi fjárlát og valdahnekki minkaði stórum alit Odds, en hugur þvarr ei né stórmennska, þó það bættist ofan á 1722, að hann mátti betala til kongs 450 rd. spec. fyrir ranga aðtekt fésektar af Páli sýslumanni Torfasyni. Setskautamálið dæmdist á lögmann Odd Sigurðsson, til hospítals 20 rd., til Einars Hákonarsonar sektaféð, er hann leysti húð sína með 5 rd. og 2 sk., þar til 5 hundr. í landaurum, í process-kostnað 5 hundr.

Amtm. Fuhrmann klagaði Odd 1720 fyrir það hann héldi Snæfellsnessýslu og Stapaumboði, án þess að hafa þar fyrir tekið kongsveiting. Því sagði Oddur sig frá hvorutveggja 1721, en Jóhann Gottrup tók við 1722. Varð þá mikið þras út af umboðsins útsvörum. Fór Oddur þá enn utan í málum sínum, en kom út 1723. Lét hann þá stefna Jóhanni Gottrup til Ingjaldshólsþings fyrir hald á réttarskjölum, og stóð með korða sinn hálfbrugðinn, skammyrti Jóhann og lá við hann mundi vega að honum. Jóhann vitnaði. Þá samdi og Vídalín skæða klögun yfir Oddi. 1724, þa til alþingis kom, var Oddur ei kominn. Niels Kier var þa af amtmanni settur í norður-lögréttuna eptir beiðni Vídalíns, sem hafði fram það mál við Odd, að hann hefði látið hýða Bjarna Andrésson vinnumann sinn fyrir töku á hrossskinnslengju saklausan. Gat Oddur ei varið það, (því þjófurinn, er stal, hafði seinna

orðið uppvís); var Oddur þá dæmdur í stórar fésektir; þá kvað Vídalín:

Hrossskinnslengjan er nú elt,
allt fór það með snilli.
Hún hefur lengi legið melt
lögmannanna á milli.

Á því þingi var og lýst skuldum Odds. Þá sótti og Oddur lögmaður Jóhann um það, sem þeim fór á milli. Var því frávísað og Oddi dæmd fésekt fyrir ólöglega málssókn, en Jóhann kvaðst hafa stefnt Oddi upp á æru hans, embætti og fé, og heimtaði hann væri settur í hald, ef hann setti ei veð fyrir að bíða dóms hér á landi. Lýsti þá Sigurður sýslumaður í Árnesþingi haldi yfir Oddi. Setti þá amtmaður Fuhrmann bæði Odd og Jóhann frá embættum sínum til þess málin lykist. Ormur sýslumaður var settur „arbitrer"dómari ásamt Sigurði sýslumanni Sigurðssyni þetta ár millum Odds og Jóhanns í skipaðtektarmáli, er Jóhann hafði tekið fyrir Oddi án dóms og laga. Dæmdi Ormur einn í því máli, þar Sigurður kom ei, og skyldi Jóhann gjalda ígjæld og tvígjæld. Það þótti Jóhanni of nærgangandi og skaut til æðri réttar; var þá Ormi dæmd fésekt. Þar um kvað P. Vídalín:

Nú er ekki neitt um sinn
nýtilegt að bóka.
Oddur, Jóhann, Ormur minn
eiga að greiða flóka.

Niels Kier dæmdi í millum Odds og Jóhanns í illyrðamálinu. Dæmdi hann Odd í miklar fésektir til Jóhanns, en ei til æruleysis, þar Oddur vildi aptur taka orð sín; ekki líkaði Jóhanni sá dómur og skaut málinu til æðri réttar 1725 og stefndi Oddi þar til forsvars. Oddur mætti þá ekki, en hans mestu óvildarmenn dæmdu þá Odd frá verandi frá æru, embætti og fé. Voru þá flestallir landshöfðingjar Odds mótstandarar. Þá kvað Vídalín lögmaður:

Nú er sagan nógu löng,
nú eru dómar krepptir.
Broddi er kominn í glæfragöng,
Gottrup hrekur á eptir.

Nú vildi Jóhann Gottrup ei missa fé Odds. Eptir þingið 1725 fór hann með mannfjölda að Oddi, birtir honum dóm-

inn. Oddur skýtur málinu til æðri réttar. Jóhann gefur þar að engan gaum; var Oddur þá við búð, sem hann hafði látið byggja sér í Rifi, vildi verja sig og brá korða sínum. Lautenant útlendur var með Jóhanni. Hann gaf sig móti Oddi til vopnaviðskipta og sló korðann úr hendi hans. Þá hlupu aðrir að og fönguðu Odd. Jóhann tók þá upp allt fé Odds smátt og stórt, bæði það er þar var og hvar sem hann stóð það, (en Oddur átti víða fé, því hann var umsýslumaður mikill), færði hann úr klæðum og lét honum eptir hempu vonda og gerði hann sem hraklegastan, en bann var lagt fyrir, að hann væri fluttur utan. Var honum síðan fylgt til Eiríks Steindórssonar við Búðir. Hann léði honum hesta og fylgjara að Syðra-Rauðamel, þar sem Sigríður móðir hans bjó. En er Oddur kom þar tók hún honum forkunnar vel og kvaðst ei óvirða hann fyrir búninginn. Gaf hún honum góðan alklæðnað og fylgdi honum sjalf til Jóns prests Jónssonar á Staðastað, og bað koma Oddi í skip. Jón prestur var skörungur mikill og harðger, reið með Odd inn í Stykkishólm og fékk svo umtalið fyrir skiparanum, að hann flutti hann utan. Einar Illhugason var sveinn Odds, þá er hann var tekinn í Rifi, illmenni mikið; af honum tók Jóhann Gottrup 40 lóð silfurs fyrir það, að hann áður brauzt að kyrsettu fé. Fimmtán þing lét Jóhann Gottrup halda um fé Odds, er eptir var, og hrökk það ekki fyrir því, er hann átti að svara eptir Gottrups útheimtun og hans meiningu.

Árið eptir (1726) fyrir þing kom Oddur út í Stykkishólmi. Hafði hann fengið leyfi, að stefna mótpörtum sínum fyrir hæstarétt, fór því til þings og auglýsti þar stefnu til amtmanns Fuhrmanns, Benedikts visilögmanns Þorsteinssonar og Jóhanns Gottrups. Oddur vildi þá setjast í lögmannssæti, en fékk ekki, þrasaði hann þó mikið þar um við amtmann og aðra. Um haustið fór Oddur utan með Stykkishólmsskipi og Jóhann Gottrup eptir stefnunni, en Benedikt Þorsteinsson á Akureyri og amtmaður Fuhrmann á Búðaskipi.

Þá málin komu fyrir hæstarétt stóð amtmaður og Benedikt lögmaður fast á móti Oddi og með dóminum, en Jóhann sem áklagaði að sínu leyti. Útfallið varð, að dómurinn var 13. apríl 1727 staðfestur um æru-, embættis- og fémissi Odds. Skyldi Oddur gjalda amtmanni í malskostnað 100 rd.

spec., en Benedikt og Jóhanni til samans 400 rd. specie. (NB. Til Jóhanns 300 rd., til Benedikts 100 rd., til lögmanns 50 rd., til Sigurðar Sigurðssonar 30 rd., til amtmanns 100 rd. allt process-kostnað, þar að auk 40 lóð silfurs og hafa forbrotið sína búslóð og vera minni maður).

Komu þeir amtmaður og Benedikt út fyrir sunnan um vorið, en Oddur og Jóhann fyrir vestan. Gerði Jóhann Odd sem hraklegastan hann mátti í orðum og atvikum. Er mælt hann hafi sparkað í hann fæti, nokkrir segja í andlit hans, þar hann lá, er þeir skyldu fara á land, og illyrti hann ásamt. Þá Oddur varð landfastur fór hann að Rauðamel til móður sinnar. Tók hún honum þunglega og þar dvaldi þó Oddur um hríð. Nokkru þar eptir kom kongsbréf, sem leyfði Oddi að stefna mótstöðumönnum sínum fyrir hæstarétt og gaf honum sjálfum útfararleyfi. Þó fékk hann það ekki fyr en móðir hans gekk í veð fyrir Jóhanni tildæmdar bætur eptir hæstaréttardómi.

Þetta neytti Oddur sér. Stefndi Benedikt lögmanni og Jóhanni Gottrup. Fór síðan utan (1727) á Stykkishólmsskipi, var það hans 7. ferð, en lögmaður og Jóhann voru kyrrir. Ekkert gerðist að málum Odds þetta ár.

Næsta misseri (1728) kom sá mikli eldsbruni í Kaupmannahöfn. Tjáði Oddur, að skjöl sín hefðu brunnið. Skipaði kongur þá amtmanni að útvega afskriptir af öllum Odds skjölum og senda utan. Gekk í þessu enn nú um nokkur misseri.

Konungur gaf Oddi æruna aptur 1730 þann 3. maí, þá var og fyrir tekið skipsaðtektarmálið. Varð sá dómur, að Jóhann skyldi öllu aptur skila, sem hann hafði upptækt gert fyrir Oddi með öðru þar að lútandi.

Oddur kom út 1731 og stefndi Jóhanni til skuldalúkningar um sumarið eptir hæstaréttardómi fyrir rangar aðtektir fjár síns. Vannst honum þó ei á fyrir vanga sína; tjáði og ei um sættir að leita.

En nú fór Oddur utan í áttunda sinn, sótti um lögmannsdæmið og fékk ekki. Vildi hann þá fara til Svíþjóðar og gefa sig þar til fornfræðaritara, þó fórst það fyrir. Komst hann þá í mál við herbergjasvein sinn og eyddist honum þar við fé. Þá vildi Oddur til Íslands, en fékk ei far fyr en

stiptamtmaður Henrik Ocksen hlutaðist þar til við kaupmenn. Kom Oddur út fyrir alþing 1732. Ekki lyktuðu mál Odds og Jóhanns það ár, en næstu misseri var gerður reikningajöfnuður (liquidation) millum þeirra af sýslumönnunum Ormi Daðasyni og Sigurði Högnasyni, og varð Jóhann þá mikið skyldugur, einkum upp á öll þau skip, er Oddur hafði átt, þá hann sleppti Snæfellsnessýslu og Stapaumboði, hver Jóhann hafði gert upptæk í ofanálag umboðsins, þó ei reglulega. Voru þeir þá sáttir að kalla, en lítið gat Jóhann þá borgað, því honum var farið að þröngvast um fjárhag vegna hófleysu sinnar. Þetta sama ár (1733) deyði Sigríður móðir Odds hálfniræð; hafði hún lifað þrjá vetur hins fimmta tugar eptir bónda sinn og verið karlæg seinustu misserin, og erft Kristínu Guðbrandsdóttur, sem var mjög auðug, bæði að löndum og lausafé. Sigríður var haldin mesta höfðingskona, en stórgerð og stolt. Mælt er, að Jóhann hafi eitthvert sinn komið að Syðri-Rauðamel eptir það hann fangaði Odd, hafi þá Sigríður dregizt út í bæjardyr og lagt sárbeittar óbænir yfir Jóhann. Hafi hann átt að segja, að við einskis manns orð hefði sér svo brugðið sem hennar, og þar eptir fór honum hnignandi.

Oddur tók nú allan arf eptir móður sína og gerðist auðugur í annað sinn. Þá tilrætt var, hversu halloka Oddur fór fyrir Jóhanni mælti Oddur: „Bjarni á Þingeyrum mun hefna mín". (En það var seinna).

Jóhann Gottrup hafði sleppt Húnavatnsþingi fyrir 5 vetrum, þá hér var komið, en Snæfellsnessýslu og Stapaumboði hafði hann sagt af sér vegna skulda; lafði þó enn við og var kominn í ókleifar skuldir. Varð þó að svara Oddi miklu fé, en gat hvergi nærri fullnægt hans kröfum eða lokið við skuldir sínar, en Oddur krafði hann árlega, hvar sem þeir hittust. Var Jóhann því jafnan við hann hræddur og firrtist fund hans þá gat.

Þá Oddur hafði erft móður sína flutti hann 1734 að Leirá. Höfðu þeir Jón sýslumaður Hjaltalín og hann mál saman í lögréttu. Kvaðst Jón ei vilja ganga í rétt móti ærulausum manni. En þá Oddur framlagði ærubréfið urðu þau málalok, að Jón Hjaltalín bað Odd forláts í lögréttu. Aðalmálinu tapaði Oddur og var honum ger fésekt fyrir ranga

malsýfing. Í millum Jóhanns og Sumarliða Klemenssonar átti Oddur hlut 1738 og var þá enn á ný nokkur sáttmáli ger milli Odds og Jóhanns. (1738 þann 18. apríl gaf kongur Oddi að innstefna ofgömlum dómi móti Jóhanni). Lifði Oddur þessi árin með spaklæti á heimili sínu; þó hélt hann áfram að vera drykkjumaður mikill og þá opt rysjugur um of. Það er sögn, þá Jóhann hafði misst öll völd sín, orðinn snauður og klæðfár, en á ferð eitt sinn hjá Leirá, hafi Oddur sent honum yfirklæði og 100 rd., sumir bæta við reiðhesti. Oddur hafði þá vel fé, því honum vildu til arfar; var hann þá málssóknarlaus og tók að eldast, en í litlum veg hjá höfðingjum. Sveinn hans var þá Bjarni Eiríksson, haldinn strákfenginn. Sá atburður varð 1741, að Oddur fannst dauður í sæng sinni. Lagðist grunur á Bjarna þennan, að þrengt mundi hafa að hálsi honum kófdrukknum. Þessi Bjarni var seinna hengdur vestur í Haga.

Oddur hafði flest gott öðlast af guði og náttúrunni það honum var ósjálfrátt. Hann var af göfugustu ættum; hvass að námi og skilningi, með hæstu mönnum á vöxt og allfríður að ásýndum. Stóð til mestu auðæfa, framaðist utan lands og fékk æztu völd hér á landi sem umboðsmaður stiptamtmanns Gyldenlöves í 10 ár, visilögmaður í 7 ár, virkilegur lögmaður yfir 10 ár, hélt Snæfellsnessýslu og Stapaumboð 15 ár, en spillti fyrir sér með drambsemi og hofmóð við aðra, miklu áliti á sjálfum sér og stórfeldum drykkjuskap. Hann hefur haft mjög sterkar sálargáfur, því lítið gugnaði hann við valda-, æru- og auðæfamissi. Það var og hans mikla tjón, að hann gipti sig ekki strax á yngri árum ráðsettum kvennmanni, og ei var hann við konu kenndur eptir sögn. Oddi vildi og til vondir þénarar og ráðgjafar, hvar á meðal Hamraenda-Jón, Bárður brotinnefur, Einar Illhugason, Bjarni Eiríksson og fleiri misjafnir.

Það er sögn, en ei vitum vér sann á því, að systir Odds Helga hafi verið þunguð 1707 af völdum Jóns Sigurðssonar, er síðar varð sýslumaður og lögsagnari í Snæfellsnes-, Stranda- og Dalasýslum, og að Oddur með sinni stórmennsku hafi orðið um of bráður við hana, þá hann kom út 1707, svo hún hafi þar af dauða beðið, og þetta hafi verið með vilja og vitund Sigríðar móður þeirra. Þessi sé orsök til Tíma-

rímu kveðskapar. En séra Jón Halldórsson tjáir hana hafa dáið í bólunni 1707, sem er líklegt, því flestar þungaðar konur dóu í henni. Að sönnu tóku ríkismenn mjög hart á þesshátttar, hvar upp á er dæmi biskups Brynjólfs og fleiri. Líklegast er, að Oddur og móðir hans hafi misunnt þeim Jóni og Helgu ásta og þótt ei jafnræði og máske avítað hana. En mjög hélt Oddur í hönd með Jóni lengst af, og gaf sig þar fyrir í þrætur við Vídalín um Dalasýslu. Oddur var mikill útsjónar-, framkvæmda- og fjáraflamaður, en kom sér illa við flesta höfðingja vegna hroka og stórmennsku, svo þeir gerðu samtök bæði opinberlega og leynilega, að fella hann óvarsaman bæði í orðum og verkum og opt af öli ærðan. Þótti og stórmennska höfðingsskapur á þeirri og fyrri öldum, og varaði sá þanki langt fram á 18. öld hjá ýmsum yfirmönnum.

Oddur var mörgum vel og kom þeim til frama og valda, en flestir launuðu honum það illa að lokum. Svo lítur út, sem Oddur hafi annaðhvort ekki verið mikill lagamaður eða sérlega óaðgætinn og athugalaus með lagamátans réttu brúkun. Oddur er dæmi fyrir sérhvern upp á misbrúkun léntra valda og undir eins lukkunnar óstöðugleik.

Um þennan mikla æfintýramann hef eg því verið langorður, að óvíða mun finnast í einu lagi hans lífssöguágrip[1]).

---

1) Oddur Sigurðsson lögmaður (1682—1741). Æfi- og aldarlýsing. Eptir Jón Jónsson (sagnfræðing). Bessastöðum 1902. 285 bls. 8vo. Mér hefur þótt óþarft að bera saman í einstökum atriðum frásögn Boga við þessa Oddssögu Jóns, enda hefur Bogi víðast hvar hermt rétt frá atvikum og atburðum, það sem frásögn hans nær. Í þingbók Jóns sýslumanns Oddssonar Hjaltalíns í Kjósarsýslu 1738—1748 (í Landskjalasafninu) er getið síðustu málaferla Odds og af því að þess er ekki annarsstaðar getið set eg það hér.

30. maí 1738 var Oddur á Esjubergsþingi, hafði hann stefnt þangað Jóhanni Mauritzsyni í Nesi við Seltjörn og var Sigurður Kálfsson í Effersey til andsvara fyrir Jóhann. Þar gerði Sigurður kröfu til þess að málinu væri vísað frá vegna þess, að Oddur gæti ekki í rétt gengið, því að hann væri treimarksmaður (= æruskertur maður) eptir Sámsstaðadómi Sigurðar sýslumanns Sigurðssonar 24. okt. 1725, sem Oddur hefði enn ekki fengið uppreisn á. En Odd-

## Jón Sigurðsson.

*Faðir*: Sigurður (kallaður Dalaskáld)[1]) sonur Gísla Ólafssonar Hannessonar í Snóksdal.

*Móðir*: Kristín dóttir Guðmundar á Háafelli Björnssonar Guðmundssonar.

Jón var skólalærður, gáfumaður mikill og gott skáld, giptist ekki né átti börn. Hann gerðist fyrst þénari Odds lögmanns og svo hans lögsagnari í Snæfellsnessýslu 1709—12, en 1712 var honum tilslegin Strandasýsla, hverja hann gaf frá sér ári síðar. Jafnframt gerðist hann lögsagnari eða sýslumaður í Dalasýslu 1712, og er mælt hann hafi þá eða hið fyrra ár beðið Katrínar Björnsdóttur á Staðarfelli og látið þangað flytja tunnu brennivíns, farið svo að Staðarfelli og verið þar einn, sumir segja tvo mánuði, meðan hann saup

---

ur bað um frest til að sanna, að hann hefði fengið fulla uppreisn æru sinnar með kongsbréfi 3. maí 1730 einnig á þessum dómi. Jón Hjaltalín sýslumaður neitaði honum um þann frest og vísaði málinu frá. Vildi Oddur ekki koma inn í þinghúsið til að hlusta á þann úrskurð, en heimtaði síðar útskript af réttargerðinni og fékk hana. En sannleikurinn var sá, að Oddur hafði ekki þá fengið uppreisn á þessum Sámsstaðadómi, og þessi hrakför hans á Esjubergsþingi 1738 hefur einmitt orðið til þess, að hann fékk konungsleyfi til að stefna þessum dómi til alþingis og var 3 marka sektin felld þar burtu (á alþingi 1739 sbr. æfis. Odds eptir Jón sagnfræðing bls. 269). Eptir þennan alþingisdóm ætlaði Oddur að halda áfram málinu við Jóhann Mauritzson og ritaði Jóni sýslum. Hjaltalín bréf ds. í Brautarholti 18. júní 1740 og óskaði, að sýslumaður héldi aukarétt á Esjubergi 4. júlí og láta það ekki bregðast. Sýslumaður kom þangað á ákveðnum degi og setti réttinn, en Oddur kom ekki og enginn fyrir hans hönd. Sat sýslumaður þar í réttinum með þingvitnunum frá hádegi til náttmála, en ekki kom Oddur og sendi ekki neina afsökun um forföll. Dæmdi sýslumaður þá Odd til að borga fyrir Mikaelsmessu 3 rd. til Klausturhólaspítala og 2 rd. til réttarins innan næstk. veturnátta »fyrir þvílíka ótilbærilega réttinum gerða vanvirðu, hindran, ómak og mæðu« (sbr. Þingbók J. O. Hjaltalíns í Landskjalasafninu bls. 65—67). Þetta er í síðasta sinn, sem Odds mun getið við málaferli og mun hann aldrei hafa greitt sekt þessa, enda andaðist hann ári síðar (5. ágúst 1741).

1) Um Sigurð Gíslason sjá II, 667—68.

upp af tunnunni; hafi Katrín þá ei viljað hann vegna drykkjuskapar.

Katrín giptist þá Gísla í Máfahlíð (sjá hér að framan).

Jón bjó í Bæ í Dölum og gerðist (sem áður er sagt), lögsagnari í Dalasýslu 1712—1717, heldur Odds lögmanns Sigurðssonar en Páls Vídalíns, því Páll og Oddur kepptu mjög um þá sýslu. 1717 til féll Skógaþjófnaðarmálið. Hafði Jón tvisvar stefnt til þings í því, en drakk sig þá svo ófæran, að þingfall varð í hvorutveggja sinn. Þá Oddur frétti þetta fór hann frá Narfeyri og þingaði í málinu á Staðarfelli, og sagði við Jón sýslumann að honum hefði verið nær og þarflegar, að gera lög og rétt, en yrkja Tímarímu. Hygg eg Oddur hafi þá afsett Jón og síðan sleppt Dalasýslu til Páls.

Þá var Helga á Jörfa uppvaxandi og efnagóð, fædd 1701, arfleidd 1711; þótti hún góður kvennkostur. Hennar bað Jón sýslumaður og horfði það vænlega til, en áður þau giptust bar svo til, að Jón kom af mannfundi drukkinn nokkuð, reið yfir Haukadalsá of nærri vatnsósum, var djúpt við bakkann, en hesturinn fjörugur, hóf sig þar upp á, hrökk Jón þá aptur úr söðlinum og drukknaði 1720[1]). Mælt er, að Jón í þetta skipti hafi riðið frá Vatnshorni, og áður hann færi þaðan skorið með pennahnífi vísu þessa á kirkjubitann, sem skal þar enn sjást:

Lífið er í herrans hönd,
hver vill annað segja.
Að láni höfum allir önd
eitt sinn skulum deyja.

Nokkru seinna giptist Helga Magnúsi syni séra Einars Jónssonar á Hofi. Þau skildu, áttu ei börn. Hann dó 1752. Helga átti son með Agli syni Jóns hreppstjóra í Staðarsveit, hét Jón, varð merkilegur bóndi og bjó síðar á Vatnshorni í Haukadal og átti mörg börn. Helga bjó á Jörfa í Haukadal og þótti mikil kona og auðug vel. Hún deyði þar 1801

---

1) Árb. Esp. IX, 57 og víðar, en séra J. H. telur dánarár hans 1721. Um Jón Sigurðsson og kunnleika hans við Helgu systur Odds Sigurðssonar er sögn í æfisögu Odds eptir Jón sagnfræðing bls. 275—276. Hvort hún er á nokkrum sögulegum rökum byggð er allhæpið.

á 100. aldursári. Jón sonur hennar á Vatnshorni var fræðimaður mikill. Hann átti Vatnshorn, Jörfa og margar fleiri jarðir, sem skiptust millum hans mörgu barna, hverra flest hafa orðið vel efnuð af lausa- og jarðagózi. Mælt er, að Jón hafi verið mjög kvennsamur.

Opt voru eljaraglettur í kveðskap milli Páls lögmanns Vídalíns og Jóns sýslumanns Sigurðssonar. Sagt er, að Páll hafi eitthvert sinn verið staddur hjá Jóni með glettni og byrjað vísu:

Sigurður Gíslason kvað margt,
sá var skáld í Dölum.

Jón tók strax í og sagði:

Sumt var gaman, sumt var þarft,
sumt vér ei um tölum.

Þá hafi Páll sagt: „Mikill listamaður ertu Jón". Hann svaraði:

Skaparann ekki skorti neitt,
(skildu þessi orðin mín),
ætlarðu hann hafi engum veitt
utan Páli Vídalín.

Báðum þeim er eignuð þessi vísa: Páll byrjaði svo, eptir sögn, veit þó ei víst:

Hani, krummi, hundur, svín,
hestur, mús, titlingur.

Jón svaraði:

Gelur, krunkar, geltir, hrín,
gneggjar, tístir, syngur.

Margt áttu þeir saman, sem hér er oflangt upp að telja, og hlífði hvor þeirra sér við öðrum.

## Eirikur Ólafsson

var lögsagnari Odds í Snæfellsnessýslu árin 1713—1714[1]).

---

1) Þessi Eiríkur lögsagnari mun vera sá Eiríkur Ólafsson, er býr í Gíslabæ við Hellna 1720 og átti þá í illyrðamáli við séra Gissur Bjarnason Hellnaprest. Hann er opt meðal dómsmanna Odds og hefur verið honum allhandgenginn. Ætt hans er ókunn. Hann mun að eins hafa verið lögsagnari í syðri hluta sýslunnar þetta eina ár og ef til vill ekki haldið rétt nema einu sinni eða tvisvar, því að lögsagnarar Odds voru að eins aðstoðarmenn hans eða fulltrúar, þá er hann var ekki viðlátinn, en virðast ekki hafa

## Jòn Einarsson.

*Faðir*: Einar á Rekstöðum son séra Gunnlaugs á Stað á Reykjanesi Snorrasonar Ásgeirssonar.

*Móðir*: Rannveig Jónsdóttir Torfasonar Finnssonar frá Flatey.

*Kona*: Guðrún dóttir Jóns sonar séra Jóns Loptssonar[1]).

*Börn*: A. Einar á Rekstöðum átti Ástríði dóttur séra Sveins Guðlaugssonar, börn:

a. Sveinn í Hergilsey (drukknaði 1802) átti Steinunni dóttur Eggerts bónda í Hergilsey Ólafssonar, börn:

aa. Guðrún[2]).
bb. Jón.
cc. Jón annar[3]).
dd. Guðrún önnur[4]),
ee. Ástríður[5]).
ff. Ingibjörg[6]).
gg. Einar[7]).

---

haft neina fasta stöðu, nema ef til vill Steindór Helgason sem lögsagnari í nyrðri hluta sýslunnar 5 ár (1714–1719). Eiríks lögsagnara er getið í æfisögu Odds eptir Jón sagnfræðing bls. 94, 233.

1) Þetta er ekki rétt. Faðir Guðrúnar konu Jóns var Jón launson Bjarna Narfasonar og Álfeiðar Sigmundsdóttur, systur Rögnvalds sýslumanns í Fagradal.

2) Guðrún var tvíburi við Ástríði systur sína, drukknaði óg. bl. með Einari bróður sínum 1816.

3) Jónarnir báðir dóu ókv.

4) Réttara: Guðný átti Gísla Jónsson smiðs í Haga Helgasonar og börn.

5) Ástríður átti Axel Friðrik í Múla á Skálmarnesi († 1869) Þórólfsson frá Hergilsey Jónssonar Loptssonar, þeirra son:

a. Friðrik Axel í Keflavík í Súgandafirði, drukknaði 1872, átti Helgu Guðmundsdóttur, þ. b.: Guðmundur.

6) Ingibjörg átti Ólaf Einarsson á Fossi á Barðaströnd, bl.

7) Einar bjó í Sviðnum, drukknaði 1816, átti Ólöfu Þórólfsdóttur systur Axels Friðriks í Múla, þ. d.:

a. Steinunn átti Þórarinn Bjarnason í Fæti á Barðaströnd, þ. d.: Guðný átti mörg launbörn og lenti á flækingi.

hh. Kristín[1]).
ii. Sveinn.
kk. Eggert.
ll. Guðmundur[2]).

b. Jón átti Ástríði Bjarnadóttur Jónssonar úr Tálknafirði, börn:
aa. Einar.
bb. Guðbrandur.
cc. Elín.
dd. Jón.
ee. Þórður.
ff. Sigríður.

c. Ástríður átti launbarn með Finni stúdent Gíslasyni[3]). hét:
aa. Ingibjörg.

---

1) Kristín átti Einar Jónsson pósts Þórðarsonar.

2) Eggert, Sveinn og Guðmundur Sveinssynir voru barnlausir. Enn voru dætur Sveins í Hergilsey og Steinunnar:

mm. Eiðvör (Eyvör?) átti fyr Stein Sigmundsson, þ. b.:
aa. Ari í Bjarneyjum og Flatey tvíkvæntur. S. m. Eiðvarar Bjarni Eggertsson »skarfur« í Bjarneyjum, áttu 2 dætur.

nn. Sigríður átti Gísla Gíslason í Hergilsey, þ. b.:
aa. Jón í Hergilsey († 1884) átti Oddnýju Matthíasdóttur í Hergilsey Guðmundssonar.
bb. Guðrún f. k. Jóns Matthíassonar í Hergilsey bróður Oddnýjar.
cc. Einar kvæntist undir Jökli Ingileifu dóttur Gísla Einarssonar á Öndverðarnesi, er var einn af lífvörðum Jörundar hundadagakonungs.
dd. Björg átti Jafet launson Jóns snikkara Guðmundssonar frá Berserkjaeyri og Guðrúnar Oddsdóttur læknis Hjaltalíns, bl.

3) Finnur stúdent var son Gísla á Mýrum í Flóa Jónssonar prests í Villingaholti Gíslasonar og s. k. hans Ingibjargar Illhugadóttur prests í Hruna Jónssonar.

d. Einar átti Þórunni Gísladóttur Jónssonar, þ. b.:
aa. Gísli.
e. Guðrún átti launbarn með séra Andrési[1]), hét:
aa. Gísli.
f. Helgi.

B. Bjarni á Marðareyri átti Guðrúnu Sigfúsdóttur Erlingssonar á Kvíanesi, börn:
a. Ívar á Sléttu átti Marínu Jónsdóttur frá Steinólfsstöðum.
b. Sigríður átti Sigurð Bjarnason frá Lónseyri, börn:
aa. Steinunn.
bb. Guðrún.
cc. Sigurður og fleiri.
c. Kristín átti Gísla Þorvaldsson frá Steig, börn:
aa. Andrés.
bb. Gísli.
cc. Guðrún etc.[2]).
d. Álfheiður átti 1804 Sigurð Guðmundsson[3]) og börn.
e. Guðrún átti Árna Bjarnason og börn.
f. Margrét giptist Ebenezer Guðmundssyni[4]), átti börn.

---

1) Þ. e. séra Andrés Gíslason aðstoðarprestur í Flatey († 1799).

2) S. m. Kristínar Þorsteinn Stefánsson í Höfn á Ströndum, þ. b.:
a. Ólafur átti Elizabetu Hallvarðsdóttur frá Kvíum Jónssonar.

3) Sigurður var sonur séra Guðmundar Sigurðssonar á Stað í Aðalvík.

4) Ebenezer var son Guðmundar Bárðarsonar í Arnardal og bróðir Kristjáns dbrm. í Vigur, þ. b.:
a. Guðmundur.
b. Guðfinna.
c. Kristján í Reykjarfirði átti Kristínu Pálsdóttur frá Arnardal.
d. Solveig átti fyr Sigurð í Þernuvík Jónsson Einarssonar á Hvítanesi Magnússonar í Súðavík Ólafssonar (II, 710), en síðar Jón

g. Jón átti Guðfinnu Jónsdóttur og börn, bjó á Marðareyri.

C. Torfi í Æðey átti Steinunni dóttur séra Jóns á Stað í Aðalvík[1]), börn:

a. Jón fyrri maður Guðrúnar Magnúsdóttur, þ. d.:
aa. Guðrún, dó.

b. Guðný fyrri kona Einars á Hvítanesi Magnússonar, börn:
aa. Jón á Hvítanesi[2]).
bb. Guðný[3]).

c. Sigríður átti Ásgrím í Arnardal Bárðarson, börn:
aa. Torfi[4]).

---

Níelsson á Þúfum. En launson hennar með Sveini syni Sölva prests Þorkelssonar á Hjaltastöðum var:
aa. Hjalti í Súðavík átti Þorgerði Björnsdóttur, þ. b.: Halldór, Guðmundur, Solveig, en launson Hjalta hét Kristján.

1) Einarssonar prests á Stað Ólafssonar. Systir Steinunnar var Hildur kona séra Snorra Björnssonar á Húsafelli.

2) Jón átti Elínu Markúsdóttur prests á Söndum Eyjólfssonar og var f. m. hennar; þ. b. eru talin II, 710.

3) Guðný átti Halldór í Árbæ í Bolungarvík Þórðarson stúdents í Vigur Ólafssonar, þ. b.:
a. Matthías á Svarfhóli í Álptafirði átti Kristínu Þórðardóttur prests í Ögurþingum Þorsteinssonar og mörg börn.
b. Halldór.
c. Guðný.
d. Einar.
e. Valgerður.
f. Ragnhildur átti Benedikt Bjarnason á Minnibakka í Skálavík og börn: Bjarna, Benedikt og Sigmund.
g. Sigurborg.

Enn var dóttir Einars á Hvítanesi og Guðnýjar Torfadóttur:
cc. Elizabet átti Bjarna Jónsson í Lambadal í Dýrafirði og mörg börn.

4) Torfi átti Jóhönnu Guðmundsdóttur (II, 238), þ. b.:
a. Markús átti Arnfríði Ólafsdóttur, þ. b.: aa) Torfi, bb) Ólafur, cc) Friðrik, dd) Sigríður.
b. Kristín átti fyr Halldór Ólafsson, þ. b.: aa) Jón, bb) Halldór,

bb. Einar[1]).
cc. Ólafur[2]).
dd. Guðmundur[3]).
ee. Jón[4]).
d. Guðrún í Vigur[5]), giptist gömul, barnlaus.
D. Gísli í Æðey átti Guðrúnu Þorkelsdóttur, börn:
a. Guðrún átti Bjarna á Sandeyri Jónsson, börn:
aa. Ólafur.
bb. Árni[6]).
cc. Sesselja[7]).
dd. Sigríður.
ee. Jón.
b. Sigríður seinni kona Bjarna Halldórssonar, börn.
aa. Guðrún.
bb. Þorkell.
c. Ingibjörg átti Jón son Einars á Sandeyri, börn:
aa. Einar.
bb. Jón.
cc. Ólafur.
E. Rannveig átti Guðna Árnason, börn:

---

síðar Helga Guðmundsson, þ. b.: cc) Guðmundur, dd) Guðrún, ee) Jóhanna, ff) Sigríður.

1) Einar í Arnardal átti fyr Vilborgu Þórðardóttur frá Eyri í Ísafirði Arasonar á Kúlu Jónssonar í Reykjarfirði Hannessonar, síðar Sigríði Pálsdóttur og börn.

2) Ólafur átti Guðrúnu Eiríksdóttur, þ. b.: Eiríkur.

3) Guðmundur átti Elínu Jónsdóttur og börn.

4) Jón átti Sigríði Jónsdóttur frá Hjarðardal Björnssonar á Núpi í Dýrafirði Jónssonar prests á Breiðabólsstað Torfasonar, bl. Sigríður Torfadóttir var f. k. Ásgríms Bárðarsonar í Arnardal.

5) Guðrún var síðasta kona séra Jóns Sigurðssonar á Rafnseyri, þau bl.

6) Árni átti Guðrúnu Bjarnadóttur frá Marðareyri Jónssonar, bræðrabörn (sjá hér áður).

7) Sesselja átti Eirík Þórarinsson í Unaðsdal.

a. Eggert á Dirðilsmýri átti Guðrúnu Bjarnadóttur, börn:
aa. Rannveig.
bb. Indriði.
cc. Bjarni.
dd. Sigríður.
b. Jón í Unaðsdal átti Þóru Þórarinsdóttur og 2 börn.
c. Margrét átti Jón Bjarnason á Gelti[1]), börn:
aa. Bjarni.
bb. Málmfríður.
cc. Rannveig dó.

F. Halldóra átti Bjarna Brynjólfsson á Suðureyri, börn:
a. Bjarni í Nesi í Grunnavík átti fyr Guðríði Jónsdóttur, börn:
aa. Brynjólfur dó.
bb. Jón.
Svo seinni kona Sigríður Pálsdóttir, börn:
cc. Páll.
dd. Guðríður.
ee. Sigríður.
ff. Herdís.
Hans þriðja kona Guðríður Brandsdóttir, þeirra son:
gg. Rafn.
b. Jón í Súðavík átti Guðrúnu Magnúsdóttur, börn:
aa. Bjarni[2]).
bb. Guðrún[3]).

---

1) Jón á Gelti var s. m. Margrétar, en hinn fyrri Jón Bjarnason frá Sandeyri Jónssonar og Guðrúnar Gísladóttur frá Æðey, þau 2. og 3. að frændsemi (sjá hér áður).

2) Bjarni í Brúsholti í Reykholtsdal átti Vigdísi Jónsdóttur frá Deildartungu Þorvaldssonar Arngrímssonar Grímssonar.

3) Guðrún átti Ara í Eyrardal Guðmundsson frá Auðkúlu í Arnarfirði Arasonar, þ. b.: Guðmundur, Sæmundur og Guðrún kona Jóns Tómassonar á Hrauni á Ingjaldssandi.

cc. Magnús[1]).
dd. Karvel[2]).
c. Þorsteinn á Suðureyri átti Guðrúnu Þorvarðsdóttur, börn:
aa. Halldóra[3]).
bb. Þorvarður.
cc. Kristín etc.
d. Gróa átti Gunnlaug Jónsson, barnlaus.
e. Elizabet átti Guðmund Guðmundsson, börn:
aa. Jóhannes.
bb. Elizabet.
f. Þorbjörg átti Jón Jónsson úr Steingrímsfirði.
g. Guðríður átti Jóhannes Bjarnason á Faxastöðum, börn:
aa. Steinunn.
bb. Jóhannes.

Jón var um hríð þénari hjá Oddi lögmanni og síðan lögsagnari hans í Snæfellssýslu 1715—1716[4]). Þótti sumum hann

1) Magnús kallaður »eymdarskrokkur« átti fyr Elínu Jónsdóttur frá Fæti, þ. b.:
a. Guðrún átti fyr séra Arnór prófast Jónsson í Vatnsfirði og var s. k. hans, þau bl., en síðar Þórð í Hattardal Magnússon prests á Rafnseyri Þórðarsonar.
S. k. Magnúsar eymdarskrokks Ólína Þorsteinsdóttir prests í Gufudal Þórðarsonar, þ. b.:
b. Finnbogi Rútur prestur í Húsavík († 28. júní 1890 32 ára gamall) átti Jónínu Markúsdóttur kaupmanns á Vatneyri Snæbjörnssonar í Dufansdal Pálssonar í Stapadal Hákonarsonar prests á Álptamýri Mála-Snæbjarnarsonar.

2) Karvel átti Guðrúnu Þórðardóttur prests í Ögurþingum, systur séra Þorsteins í Gufudal og séra Magnúsar á Rafnseyri.

3) Halldóra átti Jósep Jósepsson á Kerlingarstöðum (II, 618), þ. d.: Guðfinna.

4) Jón þingaði í umboði Odds lögmanns í syðri hluta sýslunnar framan af árinu 1717, eins og sést af þingbók Odds úr Snæfellsnessýslu frá árunum 1714—1720 og geymd er í Landskjalasafninu, en á því ári (1717) hefur tekið lögsögn í syðri hluta sýslunnar eptir Jón

**Bárður Þórðarson,** son Þórðar lögréttumanns Finnsson-

ekki dæll og kölluðu hann Jón hrekk, en létust draga það af fæðingarstað hans Rek- eða Hrekkstöðum. Ekki vildi Oddur lögmaður hafa hann lengur, flutti hann því vestur í Æðey á Ísafirði og bjó þar til elli. Hann var efnamaður mikill, en kallaður mesti drykkjumaður, óeyrinn og svaðamenni bæði með kvennafar og annað. Hélst honum vel fé, svo lengi sem hann lifði.

## Steindór Helgason.

(Sjá um hann við Hnappadalssýslu). Lögmaður Óddur tók Steindór fyrir sinn lögsagnara í Snæfellsnessýslu 1717[1]) og tók hann síðan Hnappadalssýslu 1727, en frásagði sér hana 1755, en deyði sjálfur 1766.

## Jóhann Lárusson Gottrup.

*Faðir*: Laurus Gottrup klausturhaldari á Þingeyrum, sýslumaður Húnvetninga og lögmaður.

*Móðir*: Katrín Pétursdóttir, dönsk, (dó 1731).

Jóhann giptist ei né átti börn svo menn viti. En mælt var hann hefði haldið við Sigríði Salómonsdóttur frá Grunnasundsnesi, eiginkonu Ásmundar bónda þar. Hafði Salómon

---

ar á Ökrum. Hann var kallaður brotinnefur og þótti brellinn karl í ýmsu, dó 1773 96 ára gamall að því er Ó. Sn. telur (sbr. II, 351). Hann hafði lögsögn fyrir Odd lögmann í Snæfellsnessýslu 1717—1719, og kemur víða við á þeim árum. Fékk hann vitnisburð sýslubúa 1719 fyrir góða hegðan í lögsagnarstarfinu. Hafa menn ekki áður athugað, að hann hafi verið lögsagnari Odds, en eflaust hefur hann ekki verið nema í syðri hlutanum, en Steindór Helgason í hinum nyrðri. Bárður bjó þá á Munaðarhóli, en síðar á Hraunskarði og Stakkhamri. Meðal barna hans voru Högni skáld og Þorsteinn skáld í Vogatungu.

1) Í vitnisburði, sem bændur gefa Steindóri fyrir embættisstörf hans sem lögsagnara á Drangaþingi á Skógarströnd 15. júní 1719 er sagt, að hann hafi 5 ár haft lögsögn í nyrðri hluta sýslunnar, og hefur hann því tekið við henni 1714 (en ekki 1717). Annan vitnisburð mjög góðan fær hann á Staðarbakkaþingi í Helgafellssveit 16. júní 1719. Sést af þessum vitnisburðum, að Steindór hefur verið mjög vel þokkaður þar í sýslu og er borið á hann hól mikið. Virðist hann þá hafa búið annaðhvort í Helgafellssveit eða á Skógarströnd. — Þormóður skáld í Gvendareyjum skrifar fyrstur undir vottorðið á Drangaþingi (Þingbók Odds Sigurðssonar í Landskjalasafninu).

Jónsson faðir hennar verið hospítalshaldari á Hallbjarnareyri og efnagóður maður; var út í Rifsveiðistöð 1702 og þá sturlaður; vildi vera í einhýsi og fannst þar dauður hangandi í færum; meintu menn hann hefði það sjálfur gert og var í rigt að upptækt yrði gert fé hans. Er mælt, að séra Jón Jónsson eða Ásmundur tengdafaðir hans hafi með ráðum komið því svo fyrir, að Ásmundur bóndi í Grunnasundsnesi giptist Sigríði og héldu þau því mestu af fénu. Mælt er og, að Sigríður hafi þótzt koma lágt niður. Hún hafði verið mjög metnaðargjörn, fríð og að mörgu vel að sér. Hún yfirgaf Ásmund bónda sinn og fór með Gottrup að Þingeyrum og var hans hæsta ráð. En Ásmundur bjó sem áður í Grunnasundsnesi og var gildur bóndi, og eptir það Jóhann komst í mál sín og varð snauður tók Ásmundur bæði hann og Sigríði konu sína, og gaf Sigríði fé sitt eptir sig, þar hvorki Ásmundur né Sigríður áttu börn. Ásmundur dó í Grunnasundsnesi 1752; þar bjó þá Sigríður og lét Jóhann vera hjá sér til þess hann deyði 1755, en Sigríður dó 1756. Hún tók Ólaf son Gísla Saurbæjarprests, (er seinna varð prestur í Saurbæjarþingum og var kallaður Mála-Ólafur), kom honum að nokkru leyti til menningar og gaf honum sína eptirlátnu fjármuni. Átti hann að njóta þess, að hann var systursonur Jóhanns Gottrups,

Jóhann var ungur settur til menta og var fljótskarpur. Þar eptir mun hann hafa farið utan til enn meiri lærdómsframa[1]). Síðan gerðist hann um tíma í skólameistarastað í Skálholti undir umsjón Jóns prófasts Halldórssonar veturinn 1709—10. Þótti þó þar til ei vel fallinn sökum fljótlyndis. Þar eptir fór hann til föður síns og gerðist hans umboðsmaður. 1716 stefndi Jóhann sýslumanninum í Strandasýslu Sumarliða Klemenzsyni fyrir illyrði við sig á Torfalækjarþingi (sja Strandasýslu). Hann stefndi þa og þingvitninu Sigurði Hannessyni, sem vildi ekki undirskrifa protocollen. Á sama þingi dæmdi lögmaður Sigurð sekan mörk silfurs til konungs, hálfa mörk til sakarábera, 1 hundr. til Gottrups og skyldi Sigurður skyldugur að vitna, ef ei vildi verða útlægur.

---

1) Hann mun vera sá »Johannes Christophorus Laurentius«, sem skrifaður er í stúdentatölu við háskólann 8. okt. 1707, þá talinn 16 ára gamall.

Endir þess máls varð, að Sigurður bað Gottrup forláts í lögréttu og lofaði að halda dóminn.

Þá Oddur lögmaður frásagði sér Stapaumboð og Snæfellsnessýslu 1721 var Jóhann Gottrup settur fyrir hvorutveggja og fékk þar fyrir kongsveiting 1722[1]). Oddur átti fjölda skipa í Snæfellsnessýslu. Þau gerði Jóhann upptæk, svo sem í ofanálag umboðsins, hvert Jóhann reiknaði þá 289 vættir og 6 fiska, og þó Oddur mótmælti (prótesteraði) þeirri aðferð var því ekki gegnt. Varð Oddur þá mjög illyrtur við Jóhann á Ingjaldshólsþingi fyrir rétti. Jóhann vitnaði og stefndi síðan Oddi fyrir þau orð 1724. (Sjá hér að framan um mál Odds og Jóhanns). Hins er hér að geta, að Jóhann tók Húnavatnssýslu að veitingu 1716, og eptir lát föður síns, sem tilféll 1721, hafði hann og tilhlutan með móður sinni um Þingeyraklaustur. Jóhann hafði starfsamt í embættisverkum sínum. Var opt í miklum yfirreiðum millum Húnavatns- og Snæfellsnessýslu. Þótti honum það erfitt og frásagði sér því Húnavatnssýslu 1728. Við dauða móður sinnar Katrínar fékk hann sér veitt Þingeyraklaustur 1731, sem hún hafði haldið í 10 ár eptir dauða manns síns. Var hann þá opt á Þingeyrum. Sigríður Salómonsdóttir var og þar hjá honum, og optar ferðaðist hún með honum millum Snæfellsnes- og Húnavatnssýslu eða til samkvæma; átu og drukku þau saman jafnan; var þá ekki lítið yfirlæti Jóhanns. Í málinu móti Oddi lögmanni fór Jóhann utan sem aður er sagt. Nú tók Jóhann að komast í skuldir vegna hófleysu sinnar. Bæði þessvegna og örðugleika sagði hann af sér Snæfellsnessýslu og Stapaumboði 1732, en losaðist þó ei við sýsluna eða umboðið fyr en 1734, þá Guðmundi sýslumanni Sigurðssyni var veitt hún. Árið 1732 varð Jóhann hæstbjóðandi að Vatnsdalsjörðum og Strandajörðum, en frásagði sér þær árið eptir. Þær tók þá Erlendur Nikulásson téð ár 1733.

1734, þá Jóhann losaðist frá Snæfellsnessýslu og Stapaumboði, þótti Guðmundi sýslumanni, sem tók það og sýsluna, vanta ærið mikið ofan á umboðið, neyddist til með útpöntunar- (executions) -dómi, að sækja Johann þar um árið 1740 og útpantaði Bjarni sýslumaður Halldórsson úr búi hans ærna

1) Veitingarbréfið er dagsett 25. maí.

peninga. Eptir jöfnunarreikningi hafði Jóhann orðið Oddi fyr lögmanni mikið skyldugur 1733 og báglega þar frá komizt.

Jóhann hafði og vanþrifið Þingeyraklaustur, sem hann fékk eptir móður sína 1731. Þá amtmaður vissi það og skuldir Jóhanns ókleifar, hvar af þó konungur uppgaf honum 1000 rd. specie 1736, þorði hann ei að trúa honum fyrir téðu klaustri; lét því Odd Magnússon Hólastaðarráðsmann og Reynistaðarklausturhaldara úttaka téð klaustur 1737, og var gert álag mikið. Því næst var klaustrið uppboðið og varð Bjarni sýslumaður Halldórsson hæstbjóðandi. Kom Jóhanni þetta mjög á óvart og var hann sviptur öllum lénum sínum 1737. Vorið 1738 matti hann sleppa Þingeyraklaustri til Bjarna, sem þangað flutti og gerðist seinna auðmaður mikill. (Sja um hann við Húnavatnsþing).

Nú flutti Jóhann sig frá Þingeyrum, en Bjarni sýslumaður útpantaði úr búi hans sem áður er sagt mikið fé 1740, auk þess sem hann varð að leggja ofan á Þingeyraklaustur. Það bættist og á, að Guðmundur sýslumaður vísaði Gottrup frá rétti á Staðarbakkaþingi, þá hann ætlaði að standa fyrir máli kaupmannsins í Stykkishólmi 1743, sem Jóhanni þótti ekki lítil hneysa. Stefndi hann því Guðmundi sýslumanni fyrir lögþingisrétt 1743 og vann ekki á.

Jóhann hafði fyrir rétti orðið illyrtur við Bjarna sýslumann Halldórsson, sem stefndi Gottrup þar fyrir undir dóm Gríms á Gilja 1744. Dæmdi Grímur Gottrup til að betala Bjarna 8 rd. specie og til kongs 3 rd. specie og 30 áln. í málskostnað. Þessum dómi skaut Bjarni til lögþingisréttar, hvar vísilögmaður Sveinn Sölvason 1745 ónýtti dóm Gríms, en dæmdi Gottrup, sem hafði skuldað Bjarna sýslumann fyrir uppdiktaða lygi og fjölmæli etc., til að vera lygara og fjölmælismann, betala kongi 4 rd., en Bjarna sýslumanni 8 rd. etc.

1746 þann 20. maí gaf konungur Johanni ærubréf aptur. Mun hann hafa farið utan 1745.

Árið 1741 hafði Jóhann ásamt Bjarna sýslumanni farið utan í málum þeirra á millum, og vann Jóhann ekki á. Áttu þeir margbrotið þras og málssóknir saman, sem stóð yfir nokkur ár, og hafði Bjarni jafnan efra hlut í þeirra viðskiptum, en Jóhann fjárlát.

Nú tók Jóhann fast að eldast og var í litilli virðingu hafður, embættalaus og snauður að fé. Hafði þá Ásmundur í Grunnasundsnesi skotið skjólshúsi yfir hann, þá Sigríður Salómonsdóttir var og heimkomin til bónda síns. Fór þá að minnka hið mesta dálæti, er verið hafði millum Jóhanns og Sigríðar. Kunni Jóhann fátt að vinna. Er mælt hann hafi þá barið fisk sér til skemmtunar. Ásmundur var bezti búhöldur og hafði báta í útræði. Um vor og haust lét hann Jóhann sjá um hluti sína með sér og var vel til hans. Ásmundur deyði 1752. Eptir það lifði Jóhann 3 ár hjá Sigríði. Er þá mælt, að Jóhann hafi orðið að gera ýms skarnverk í Nesi; var honum þá gengið yfirlæti hið mikla, er hann fyr hafði.

Þessi æfintýramaður varð gulusjúkur og deyði þar af 1755 í Grunnasundsnesi. Jóhann var lítill vexti og óhöfðinglegur, en þó hinn hvatlegasti og harðfylginn, þá hann var embættismaður. Óhófsmaður mikill og ofsafenginn. Hann erfði fé mikið eptir foreldra sína; hafði inntektamikil léni, en fé hans eyddist á mjög litlum tíma. Hann véð uppi um hríð og varð öðrum, einkum sýslumanni Sumarliða og Oddi lögmanui að ógæfu. Breytti illa við Odd, en strandaði á líku skeri, hlaut þó mannúðlegri meðferð heldur hann hafði áður auðsýnt Oddi. Meðan Jóhann hafði sýsluembætti var hann hinn ötulasti í aðgerðum sínum.

## Guðmundur Sigurðsson.

*Faðir*: Sigurður lögsagnari í Barðastrandarsýslu (sjá þar).

*Móðir*: Guðrún dóttir séra Nikulásar í Flatey.

*Kona*: Þórunn[1]) dóttir séra Bjarna á Kálfafelli Þorleifssonar prófasts og prests samastaðar Árnasonar Daðasonar, (er dó í utanferð 1619), Árnasonar, er dó á Eyrarlandi og var Dalasýslumaður (sjá Dalasýslu) Oddssonar.

*Börn*: A. Ingibjörg frú Eggerts lögmanns Ólafssonar[2]), þau drukknuðu bæði á Breiðafirði 1768, bl.

---

1) Þórunn dó 1779.

2) Framætt Eggerts Ólafssonar í karllegg er talin á mjög mismunandi hátt í ýmsum ættatölubókum, svo að erfitt er að sjá, hvað

B. Helga átti Jón bónda Ólafsson í Síðumúla, bl.[1]).

réttast muni. En eptir allítarlega rannsókn á hinum ýmsu heimildarritum tel eg vafalaust, að ættin sé réttast rakin á þennan hátt: Faðir Eggerts var Ólafur bóndi í Svefneyjum (f. 1688, † á Setbergi 10. júlí 1784 96 ára) Gunnlaugsson frá Svefneyjum, (er dó 97 ára hjá séra Sigurði Þórðarsyni á Brjánslæk tengdasyni sínum) Ólafssonar á Krossi á Skarðsströnd Arnbjörnssonar í Frakkanesi á Skarðsströnd Gunnlaugssonar. Lengra verður karlleggurinn ekki rakinn með óyggjandi vissu. Þó hygg eg réttast, að Gunnlaugur faðir Arnbjarnar hafi verið Oddsson, enda er Oddur talinn eitt barna Arnbjarnar[1]). Séra Björn Halldórsson segir í æfisögu Ólafs í Svefneyjum tengdaföður síns (hndr. sem var í nr. 300 4to. í safni J. S. í Landsb.safninu, en er nú flutt í eitthvert annað nr)., að forfeður hans hafi verið valinkunnir og skilríkir bændamenn í Dala-, Barðastrandar- og Strandasýslum. En hann fer villt í því, að telja Arnbjörn í Frakkanesi Ólafsson Ólafssonar, því að það er víst, að hann var Gunnlaugsson og móðir hans Sigríður Jónsdóttir. En kona Arnbjarnar og móðir Ólafs á Krossi var Helga Ólafsdóttir og var sá Ólafur launson Þorleifs lögmanns Pálssonar á Skarði (II, 631). Þetta er alveg áreiðanlegt. Kona Ólafs Arnbjarnarsonar og móðir Gunnlaugs í Svefneyjum var Guðrún Guðmundsdóttir frá Kollafjarðarnesi (eða Broddanesi) Jónssonar og Helgu Pétursdóttur, en kona Gunnlaugs var Ragnheiður Brandsdóttir Sveinssonar í Skáleyjum Jónssonar, en móður hennar telur séra Björn Ragnheiði Jónsdóttur Snorrasonar á Varmalæk Ásgeirssonar prests á Lundi Hákonarsonar. Ekki mun það á neinu öðru byggt en ágizkun og nafnalíkingum hjá Snókdalín o. fl., að telja föður Arnbjarnar í Frakkanesi Gunnlaug Ólafsson (frá Villingadal) Gunnlaugssonar úr Skagafirði (Bisks. II, 290) og að sú ætt sé komin frá Ólafi Tómassyni á Hafgrímsstöðum, þannig að Gunnlaugur faðir Ólafs í Villingadal hafi verið Grímsson Ólafssonar á Hafgrímsstöðum. En þetta verða alltof margir liðir. Tímans vegna kæmi það þó betur heim, að Arn-

1) Aths. Tímans vegna gæti það vel staðizt, að Gunnlaugur hafi verið bróðir Bjarna Oddssonar á Skarði. Katrínu systur Bjarna átti Ari Ólafsson bróðir Helgu konu Arnbjarnar og var Ari s. m. hennar. En Ari og Helga voru bróðurbörn Sigríðar Þorleifsdóttur konu Bjarna.

1) Jón var bróðir Þorbjarnar gullsmiðs á Lundum. Helga dó 1812.

Guðmundur var albróðir Þorgríms sýslumanns, séra Sigurðar í Flatey, og fleiri voru þau systkin (sjá Barðastrandarsýslu).

Guðmundur var ungur til mennta settur[1]), Fór svo utan og var í Kaupmannahöfn 1728. Giptist síðan og bjó um hríð á Hóli í Hörðudal. Þá Magnús Gíslason varð lögmaður 1732 gerðist Guðmundur lögþingisskrifari í tvö ár. En er Jóhann Gottrup fékk lausn frá Snæfellsnessýslu og Stapaumboði 1734 tók Guðmundur hvorutveggja með áttatíu vætta minna afgjaldi en áður hafði verið. (Veitingarbréf Guðmund-

---

björn í Frakkanesi hefði verið sonur Gunnlaugs Grímssonar heldur en sonarsonarson hans. Þótt Espólín telji, að ættfróður maður hafi rakið framætt Eggerts langfeðgum til Ólafs á Hafgrímsstöðum, þá er ekki mikið á því að byggja.

Þess skal getið, af því að það hefur ekki áður verið kunnugt, enda þótt það komi ekki þessu máli beinlínis við, að son Gunnlaugs Grímssonar Ólafssonar á Hafgrímsstöðum var Tómas á Miðhúsum í Skagafirði faðir Gunnlaugs s. st. föður Jóns prests halta á Hafsteinsstöðum († 6. júní 1780) föður Jóns prests s. st. († 1. marz 1802) föður Jóns prests á Grenjaðarstað († 17. júní 1866) föður Björns ritstj. Norðanfara og systkina hans. Sá karlleggur er áreiðanlega rétt rakinn til Ólafs Tómassonar á Hafgrímsstöðum.

1) Fæðingarár Guðmundar sýslumanns er óvíst, en eptir því sem næst verður komist mun hann fæddur um eða litlu eptir 1700. [Í distinctionsprotokoll háskólans er hann sagður fæddur 1702, en á því verður ekki byggt með neinni vissu]. Hann hefur komið í Skalholtsskóla 1719 og útskrifast þaðan um 1723, en 21. nóv. 1727 var hann skrifaður í stúdentatölu við háskólann, tók próf í heimspeki með 1. einkunn og varð baccalaureus, að því er Eggert Ólafsson segir í æfisögu hans, en 24. október 1729 tók hann embættispróf (attestas) í guðfræði með 1. einkunn og var sú einkunn sjaldgæf á þeim tímum í þeirri grein. Hann var skipaður landþingsskrifari 15. febrúar 1732 og fór þá að búa á Hóli í Hörðudal. — Æfisaga Guðmundar sýslumanns, er Eggert Ólafsson samdi, er prentuð í Kaupmannahöfn 1755, en nú mjög sjaldgæf. Landsbókasafnið á einmitt það eintak af æfiminningunni, er Eggert sendi Ingibjörgu heitmey sinni 1765, merkt á spjöldunum með fangamarki hennar (J. G.) og ártalinu 1755. Espólín (Árb. X. 40) segir, að æfiminning þessi hafi »hljóðað mjög á annan hátt, en orð alþýðu lék á þar í sýslu«.

ar er dagsett þann 15. febr. 1734). Hann flutti þá að Ingjaldshóli og bjó þar síðan.

Guðmundur var haldinn bezti búmaður og hafði mjög mörg skip kring Jökul, sem gengu til fiskiveiða. Gerðist hann auðugur, en þótti harður bæði í tekjum sínum og dómum. Hann átti í miklu þrasi við Jóhann Gottrup út af umboðsins útsvari og fleiru, og opt hafði hann mál fyrir, sem hann þó optast vann. Hann lét byggja Ingjaldshólskirkju ramgerva; uppól og kom til menningar systursonum sínum og Ólafs Gunnlaugssonar í Svefneyjum, er seinna urðu ágætir menn. 1736 fékk Guðmundur sýslumaður minnkað skuldir á Stapaumboði um 80 vættir á ári.

Gísli prófastur Magnússon hélt Stað á Ölduhrygg 1753. Þangað kom Guðmundur sýslumaður til gistingar og tjáist hann hafi þar dáið yfir máltíð snögglega[1]). Munnleg sögn er, að Gísli þá prófastur hafi gengið frá borðum fram úr stofu sinni, en er hann kom inn aptur hafi sýslumaður verið búinn að stinga sig í hálsinn til bana, en ei veit eg sann þar á. Vita menn og ekki, hvað hann hefur sett fyrir sig, en tilgáta er háð og spott sýslubúa hans.

Svo bar til, að stolið var úr Grundarfjarðarhúsum og brotist þar inn um glugga, en þá sýslumaður var tilkvaddur dómara aðgerða í téðu máli, hafi hann farið inn um sama glugga að sjá vegsummerki. Af þessu kölluðu sumir sýslubúar hann Glugga-Gvend, og Þormóður Eiríksson hafi á manntalsþingi við hann sjálfan kveðið vísu þessa:

Að mér berast efnin vönd,
er eg í máta glaður.
Hafið þér séð hann Glugga-Gvönd
göfugi sýslumaður?

Það er þó satt að segja um Guðmund, að hann hefur verið í mörgu mikilmenni, en harðræði hans við sýslubúa gerði hann óvinsælan. Fóstri og systursonur Guðmundar Eggert vísilögmaður Ólafsson hefur gert hans minningu og latið prenta með lofræðu mikilli, sem maðurinn hefur í mörgum greinum att skilið, þó skeð gæti, að sumt þar í sé oflof. Til

---

1) Dánardagur hans var 28. september. Frásögn um lát hans og ágizkanir manna um það er í Árb. Esp. X, 39—40.

þeirrar sömu lofræðu vísa eg þeim, er fleira vilja vita um sýslumann Guðmund. En þess get eg hér, að Guðmundur var andvana fluttur að Ingjaldshóli og jarðaður í Ingjaldshólskirkjukór. Einnig að tilhlutan téðs fóstra hans Eggerts Ólafssonar, (er seinna varð vísilögmaður), var færður stór legsteinn frá Kaupmannahöfn yfir leiði hans. Inntak letursins á þeim legsteini:

„Undir þessum steini liggja bein
Guðmundar Sigurðssonar,

sem hélt Snæfellsnessýslu og Stapaumboð í 19 ár, en lét af hendi með hægu andlati, þegar liðin voru frá burði Krists 1753 ár.

Hafði hann fylgt aldamóti".

Neðan til voru latínsk áminningarvers til þeirra eptirlifandi um dauðann og dyggðina.

Að Guðmundur hafi fylgt aldamótum gefur til kynna, að hann hafi verið 53 ára gamall.

## Einar Jónsson.

(Sjá um hann við Vestmanneyjasýslu). Hann var fyr skólameistari í Skálholti, yfirgaf það embætti vegna augnaveikis að sagt var. Í Snæfellsnessýslu var hann settur í fyrra sinn sýslumaður 1753 eptir Guðmund sýslumann Sigurðsson til þess Jón sýslumaður Árnason við tók 1754.

## Jón Árnason.

*Faðir*: Árni ríki bóndi á Arneiðarstöðum eystra Þórðarson Árnasonar á Móbergi Þorleifssonar Jónssonar lögmanns á Reynistað Sigurðssonar.

*Móðir*: Kristín dóttir Brynjólfs Guðmundssonar. (Sá Brynjólfur var bróðir Bessa sýslumanns).

Jón lærði hér skólalærdóm[1]), fór síðan utan til meiri lærdómsframa og tók með góðri heppni lærdómspróf í róm-

1) Jón sýslumaður er fæddur 1727, var 2 ár í Skálholtsskóla og útskrifaðist þaðan 9. maí 1748 af Einari skólameistara Jónssyni. Er honum hælt í vitnisburðarbréfinu fyrir gáfur, iðni og gott siðferði. Hann sigldi s. á. til háskólans og var skrifaður í stúdentatölu 20. desember (1748).

verskum lögvísindum[1]), gerðist síðan þénari hjá Otto Manderup greifa af Rantzau, þá hann átti í konglegum erindum að sendast til Englands, hvað þó fórst fyrir. Þá útvegaði greifinn Jóni Snæfellsnessýslu og Stapaumboð 1754 15. febr.[2]) og gaf honum þar að auki hvítt silkitjald og þann borðbúnað, sem hann átti að hafa til Englandsferðar. Kom Jón út og tók við umboði og sýslu, en settist að Ingjaldshóli. Hann hagaði svo embættisverkum sínum, að hann fór um alla sýsluna haust og vor, þingaði hvern dag eptir annan til þess öllu var aflokið í hverjum stað. Hafði hann þá þrjú tjöld, eitt silkitjald fyrir sjálfan sig með sæng sinni og borði, hvar utan yfir var í illviðrum slegið annað tjald, eitt tjald fyrir þénara sína og þriðja tjald fyrir hestamenn og farangur sinn. Sjálfur var hann og mesta skrautmenni að klæðaburði, brúkaði firna góð rauð klæði silfurhneppt og reiðkápa hans var úr rauðu klæði góðu. Ekki hafði Jón sýslumaður heppni til að giptast. Er þó mælt, að mjög margar heldri stúlkur hafi viljað eiga hann, og sumar þeirra í því skyni til hans farið að Ingjaldshóli. Var hann og sjálfur haldinn kvennamaður mikill, góðmenni mikið, dugnaðarmaður, forsjáll, ljúfur og lítillátur, örlátur og veitingasamur. Það er til dæmis tekið, að í einu skaðaveðri urðu 14 ekkjur í Staðarsveit og gaf hann hverri vætt. Lagamaður var hann og haldinn góður. Hefur hann samið bók um þann íslenzka réttargang, sem á dönsku var prentuð í Kaupmannahöfn.

Hann fór utan 1765, en kom út árið eptir. Jón heitinn Steindórsson, er seinna bjó í Skoreyjum, var smiður hans bæði við skip hans og annað, sem fyrir féll. Hann hefur og

---

1) Svo segir Magnús sýslumaður Gíslason í Stúdentatali sínu, og getur það verið rétt, þótt ekki sé hann talinn í Lögfræðingatali Magnúsar Stephensen (Tímarit Bókm.fél. 3. árg.), því að þar vantar nokkra ísl. lögfræðinga, er próf tóku á 18. öld. Verður ekki um þetta sagt með vissu, nema rannsakaðar séu prófbækur háskólans á þeim árum.

2) Réttara: 19. febrúar. Með konunglegri tilsk. 16. apríl 1754 var Jón sýslumaður losaður við að svara afgjaldi af Arnarstapaumboði og með kgl. tilsk. 30. apríl 1756 var allt gjaldið af sýslunni fært niður í 750 rd. úr 900.

gert þær útskornu fjalir, sem finnast í Ingjaldshólskirkju. Því kvað Jón sýslumaður:

Steinólfs arfa verkin væn
víða munu loða.
Máluð blá, rauð, gul og græn,
glansleg til að skoða.

Jón sýslumaður var vel hagmæltur og gefinn fyrir þungan kveðskap. Eitt sinn þá hann reið undir Ólafsvíkurenni í grjótkasti kvað hann:

Þessir ilja þjassa hvels,
þussar löngum ristu.
Flassa bylji ala elds
oss er vilja í sali hels.

Hart var Ýmir haldinn þá,
hver hans titrar limur.
Jaxlar rýma góma gjá,
glíkan tíma enginn sá.

Árni Böðvarsson var skáld hans og kvað til hans flestar sínar rímur.

Svo bar til, að Steinunn dóttir Guðmundar bónda á Hrauni[1]) var þjónustustúlka hjá Jóni sýslumanni um hríð, fór

---

1) Bróðir Steinunnar var Sigurður spítalahaldari á Hallbjarnareyri föðurfaðir Ólafs prests Guðmundssonar á Höskuldsstöðum (sjá hér síðar og II, 714). Steinunn varð tvígipt, var f. m. hennar Þorsteinn Guðbrandsson á Skarði og dóttir þeirra Steinunn 3. kona séra Jóhanns Bergsveinssonar í Garpsdal, en s. m. hennar var Vigfús Sigurðsson Fjeldsted gullsmiður og var hún f. k. hans; þau bl.

Í 3. árg. Fjallk. 1885 bls. 83 er dálítill þáttur um Jón sýslumann, mest eptir sögn Þórarins bókbindara Sveinssonar, og er frásögnin um kynni hans og Steinunnar nokkuð svipuð því, sem hér er frá skýrt. Þar er getið um, að dóttir Rantzau greifa hafi fengið ást á Jóni, er hann var skrifari hjá föður hennar og þau hvort á öðru, en það hafi greifanum líkað stórilla og komið Jóni burtu með því að útvega honum Snæfellsnessýslu. En vitanlega er ekki mikið á þeirri sögu að byggja.

Ó. Snókdalín segir í ættatölum sínum, að Ragnhildur Andrésdóttir Hallsteinssonar í Rauðanesi Þórðarsonar, er síðar átti Ólaf smið Björnsson á Munaðarhóli hafi kennt Jóni sýslumanni barn eptir dauða hans; það barn hét Jóhanna og átti 1796 Gísla Run-

hún þar eptir heim til föður síns; voru þau haldin kunnug. En þá gerðist þjónustustúlka hjá Jóni sýslumanni Þórunn dóttir Einars sýslumanns Magnússonar, er seinna átti Brynjólf, sem bjó í Ljárskógum. Eitthvert sinn, er Jón sýslumaður fór í þingaferðir sínar áði hann nálægt Hrauni náttlangt. Var mælt, að Steinunn hefði þá sótt í hans tjald um nótt, og nokkru seinna kenndi hún Jóni sýslumanni barn fyrir hvert hann sór. Var þó umræða, að ei mundi eiðurinn réttur, heldur svoleiðis villt, að sýslumaður hefði látið kvennsnipt, Steinunni að nafni, sitja á hraunsteini upp á þinghúsloptinu og svarið fyrir hér nærverandi Steinunni á Hrauni. Það barn dó, en eiðurinn var til lýta laginn Jóni sýslumanni, og af óvildarmanni hans þar um orkt, er kallast „Greifaríma“[1]); er þó margt í henni sannmæli. (Þetta framanskrifaða er eptir munnlegri sögn hans sýslubúa, þá eg var ungur, en þeir mjög gamlir og skilgóðir, er mér sögðu).

Líka segir í „Greifarímu“ sem sannindi:

. . . . . . . . . .
. . . . . . . . . .
Um þau héruð alstaðar
elskaði mengið greifa.

Kitluðu nýja létta lund
lifandi hljóðin tungu,
gengu því á greifans fund
gráðugt fljóðin ungu.

Máltak skyldi mengið frí
mærðarkólf ei spara.

---

ólfsson frá Vaðstakksheiði Oddssonar, föðurbróður Árna sýslumanns Þorsteinssonar í Krossnesi (sjá síðar) þ. b. a) Ragnhildur átti Jón Guðmundsson frá Ytra-Skógarnesi Guðbrandssonar á Hofstöðum Sigmundssonar. b) Dagbjört. c) Ólafur. d) Runólfur. e) Magnús. Jóhanna er talin 20 ára, er hun giptist, og ætti því að vera fædd 1776, eða áður en Jón sýslumaður dó.

1) Greifarímu orti Þorsteinn skáld í Vogatungu son Bárðar lögsagnara Þórðarsonar og bróðir Högna skálds (sjá hér áður bls. 210).

Margar vildu meyjar því
með Ingólfi fara.

Jón sýslumaður giptist aldrei, en þá hann mætti mörgu andstreymi og varð hniginn að aldri varð hann mjög gefinn fyrir ölföng. Hann tók sér þá lögsagnara Guðmund Jónsson á Fróðá. Gerði hann um hríð ein og önnur embættisverk fyrir Jón sýslumann, en þar hann var ei haldinn svo lögfróður, sem þeirra tíða siður var um sýslumenn, fékk hann frá Kaupmannahöfn Þorlák Ísfjörð, er hafði tekið með heppni lagapróf, og kom hann út 1775 og var þá Jón sýslumaður þrotinn að heilsu, og nokkru þar eptir gat hann ei fötum fylgt; svo kom, að hann lá mjög lengi og deyði loks 1777[1]), þá hann hafði haldið Snæfellsnessýslu og Stapaumboð þrjú ár hins þriðja tugar.

Jón sýslumaður var greptraður í Ingjaldshólskirkju og var þá vart fimmtugur að aldri. Hann hafði verið maður að vexti í smærra lagi og nettmenni, vel gáfaður og skapblíður, fríður ásýndum og viðræðisgóður. Um aðra hans atgerfi og bresti er áður sagt. Menn héldu hann auðugan af lausafé, en eptir hann varð mikið stapp um hans skuldir, því svo fáar sem engar fundust hans reikningsbækur, svo ei varð ljóst, hvað hann átti til góða hjá öðrum, enda var mælt, að flest fémætt, sem í litlum stað gat legið, hefði horfið úr hans sterfbúi; og útfallið var, að ei hrökk bú hans til skuldalúkningar. Skiptaforvaltari var stiptamtmanns Thodals vegna sýslumaður M. Ketilsson, en umsjónarmaður búsins Þorlákur Ísfjörð; og lítið varð úr mörgu á Ingjaldshóli. Árni skáld Böðvarsson og Ingveldur kona hans gáfu próventu, sem staðfest var af kongi 6. júní 1776, Jóni sýslumanni. Þar um varð eptir Jóns sýslumanns dauða nokkur agreiningur, því Árni sál. og Ingveldur höfðu seinna gert testamenti, sem staðfest var af kongi 14. febr. 1777, að hvort þeirra, er lengur lifði skyldi sína lífstíð hafa alla eptirlátna fjármuni búsins; þó að Ingveldi andaðri voru ½ Akrar inndregnir til sterfbús Jóns sál. Árnasonar sýslumanns.

NB. Þá Sigríður dóttir amtmanns Magnúsar Gíslasonar

1) Hann dó 14. maí (1777) eptir því sem sagt er í æfisögu Árna skálds Böðvarssonar á Ökrum eptir Gísla Konráðsson.

á Leirá var heimasæta er mælt hún hafi verið í efa, hvort hún heldur skyldi eiga Ólaf vísilögmann Stefánsson eða Jón sýslumann Árnason. En um það leyti kenndi Steinunn barn Jóni sýslumanni. Var þá svo langt komið, að Jón sýslumaður hafði sent mann með bónorðsbréf til Leirár, en í því frétti sýslumaður, að honum var barn kennt. Sendi því annan mann á eptir hinum og náði honum á Skarðsheiði og sneri honum aptur, svo ei varð af bónorðinu. Umspillendur voru og margir, að ei skyldi Sigríður leggja hug sinn til Jóns sýslumanns meðal hverra var höfundur Greifarímu. Meðal annars kvað hann:

. . . . „Læri fljóð af þessum þátt,
að þýðast ekki suma".

Hér af átti Sigríður heldur Ólaf Stefánsson með síns föður áeggjan.

## Guðmundur Jónsson.

*Faðir*: Jón lögréttumaður á Núpi í Miðfirði og lögsagnari í Húnavatnsþingi og Dalasýslu (sjá Dalasýslu)[1]) sonur Eiríks á Núpi Jónssonar samastaðar Eiríkssonar.

*Móðir*: Mildríður Tindsdóttir Jónssonar.

*Kona*: Þorgerður Pétursdóttir bónda í Víðidal[2]).

*Börn*: A. Jón smiður í Ytri-Bug átti fyr Ingibjörgu Bjarnadóttur frá Bug, börn:

a. Mildríður átti Einar Jónsson í Núpdalstungu, börn:

aa. Benedikt[3]).

1) II, 696—697.

2) Faðir Þorgerðar var Pétur á Þverá í Víðidal Pétursson á Torfastöðum, en ekki getur það verið rétt hjá Snókdalín, að sá Pétur (á Torfastöðum) hafi verið bróðir séra Hallgríms sálmaskálds Péturssonar, því að það eru offáir liðir. Espólín getur ekki um framætt Péturs föður Péturs á Þverá, þekkir ekki föðurnafn hans, en kona hans var Guðrún Pétursdóttir Arasonar Jónssonar rauðbrota á Söndum í Miðfirði (Rauðbrotaætt). — Þorgerður Pétursdóttir dó í Ytri-Bug 18. janúar 1785 76 ára gömul, tæpu hálfu ári síðar en maður hennar.

3) Benedikt bjó í Hnausakoti, var járnsmiður og heppinn lækn-

bb. Sveinn.
cc. Jón.
dd. Árni.
Laundóttir Mildríðar með Jónasi[1]):
ee. Marsibil.
Seinni kona Jóns Þórný dóttir Björns á Völlum[2]), börn:
b. Guðmundur átti Kristínu dóttur Björns á Haugabrekku[3]).
c. Ólafur[4]).
B. Ólafur Guðmundsson dó barnlaus.
C. Málfríður átti Svart Kristjánsson í Ólafsvík, börn:
a. Guðrún átti fyr Árna Pétursson[5]), þeirra son:

---

ir, átti fyr Helgu Árnadóttur frá Harastöðum, þ. b. a) Guðrún. b) Mildríður. c) Kristín. d) Ingibjörg. e) Einar. f) Guðmundur. En s. k. Benedikts var Sólrún Sæmundsdóttir Brynjólfssonar á Gafli í Svínadal Hálfdanarsonar (II, 722), þ. b. g) Mildríður átti Ingimund Guðmundsson prests á Melstað Vigfússonar og mörg börn. h) Hjörtur Líndal í Króksfjarðarnesi.

1) Jónas var son Jóns Bjarnasonar í Bug móðurbróður Mildríðar.

2) Björn á Brimilsvöllum var son Þorsteins prests Björnssonar á Tjörn á Vatnsnesi. Bróðir Þórnýjar var Ólafur smiður á Munaðarhóli.

3) Björn á Haugabrekku var bróðir Ólafs smiðs á Munaðarhóli og voru þau hjón Guðmundur og Kristín því systkinabörn. En Guðmundur var áður kvæntur Þorgerði Erasmusdóttur fra Hrísum Nikulássonar og voru þau einnig systkinabörn. Guðmundur bjó í Gíslabæ. Börn hans og s. k. hans Kristínar:
a. Málmfríður átti Daníel í Þrengslabúð við Hellna Einarsson frá Gröf í Breiðuvík Magnússonar prests á Kvennabrekku Einarssonar, þ. b. Guðmundur, Daníel, Sigurður, Málmfríður, Steinvör, Jón o. fl.
b. Guðmundur.
c. Ragnhildur.

4) Espólín telur enn Þórnýju meðal barna Jóns Guðmundssonar í Bug og s. k. hans Þórnýjar Björnsdóttur, en Ó. Snókdalín getur hennar ekki.

5) Árni var son Péturs Jónssonar í Ólafsvík og bróðurson Ól-

aa. Eiríkur á Sveinsstöðum, fæddur 1788[1]). Síðan Gunnlaug Þorsteinsson að austan[2]), börn:
bb. Guðmundur.
cc. Jóhannes.
dd. Mildríður.
ee. Kristín.
ff. Þorlákur.
gg. Þorgerður.
hh. Jón.
b. Jón í Snoppu í Ólafsvík átti Halldóru Tumadóttur, þeirra börn dóu.
c. Kristján í Bjarnarhöfn, dó 1804, ógiptur, bl.
d. Ólafur átti Guðrúnu Guðmundsdóttur[3]), barn:
aa. Jóhannes.
D. Guðrún átti Erasmus í Hrísum Nikulásson, börn:
a. Hannes átti Guðrúnu Jónsdóttur Sveinssonar, börn:
aa. Sigurður.
bb. Kristín.
cc. Ragnhildur.
b. Nikulás í Hrísum átti Guðrúnu Ólafsdóttur frá Lækjarbug[4]), þeirra börn:

---

afs lögréttumanns á Lundum, en bróðir Jóns verzlunarstjóra á Húsavík.

1) Eiríkur var fæddur 1787.

2) Gunnlaugur var son Þorsteins í Dalbæ í Hrunamannahreppi Stefánssonar prests í Steinsholti Þorsteinssonar. Bróðir Gunnlaugs var Stefán hreppstjóri í Neðradal í Biskupstungum faðir Þorláks bónda s. st. og Páls í Múla föður Egils bónda í Múla (II, 703). Gunnlaugur og Guðrún giptust 24. júní 1791.
Síðasti maður Guðrúnar Svartsdóttur Jón Jónsson; þau bl.

3) Guðrún var dóttir Guðmundar Einarssonar á Hellu og Guðfinnu Ögmundsdóttur, bróðurdóttur Steindórs sýslumanns Helgasonar.
Enn var dóttir Svarts Kristjánssonar og Málmfríðar:
e. Mildríður.

4) Ólafur í Lækjarbug var bróðir Ingibjargar f. k. Jóns Guðmundssonar í Bug móðurbróður Nikulásar.

aa. Ólafur[1]).
bb. Guðrún[2]).
cc. Ragnhildur[3]).

c. Helga átti Pétur Pétursson Einarssonar[4]), börn:
aa. Erasmus.
bb. Sigríður.
cc. Hallný.
dd. Guðmundur.

d. Margrét átti Jón Ólafsson[5]), þeirra börn:
aa. Ólafur.
bb. Guðmundur.
cc. Ragnh[ildur?].

e. Guðrún átti Jónas[6]), þeirra börn:
aa. Jónatan.
bb. Guðrún.
cc. Karítas.

f. Kristín[7]).

g. Þorgerður[8]).

h. Guðmundur.

---

1) Ólafur átti Sæunni Bjarnadóttur frá Skerðingsstöðum Sigurðssonar.

2) Guðrún átti Þorstein Bjarnason í Götu í Neshrepp, þ. b.: Guðrún og Bjarni.

3) Ragnhildur átti Bjarna Bjarnason í Hrísum, bróður Þorsteins í Götu, þ. d. Ólöf.

4) Pétur og Helga giptust 1793. Ó. Snókdalín telur, að eitt barna þeirra hafi verið:

ee. Oddfríður.

5) Jón var son Ólafs Bjarnasonar í Lækjarbug og bróðir Guðrúnar konu Nikulásar í Hrísum bróður Margrétar.

6) Jónas átti launbarn með Mildríði Jónsdóttur systkinabarni við Guðrúnu konu hans (sjá hér áður).

7) Ó. Snókdalín nefnir ekki Kristínu meðal barna Erasmusar Nikulássonar.

8) Þorgerður var f. k. Guðmundar í Gíslabæ Jónssonar frá Bug Guðmundssonar (sjá hér áður).

i. Guðríður átti Jón í Tungukoti[1]) Jónsson, börn:
aa. Ingibjörg[2]).
bb. Herdís.
E. Þórný.

Guðmundur var lögréttumaður og vel að sér af bændamönnum. Hann var og hospítalshaldari á Hallbjarnareyri um hríð, en bjó síðan að Fróðá. Jón sýslumaður notaði hann opt sem sinn lögsagnara í ýmsum sökum til að framkvæma það, er hann gaf sér ei sjálfur tíma til, þar til Þorlakur Ísfjörð kom út 1776[3]).

## Þorlákur Magnússon Ísfjörð.

(Sjá um hann við Múlaþings suðurpart). Hann lærði í Skálholtsskóla og útskrifaðist þaðan 1770, fór utan 1771 og tók þau fyrri reynslupróf, kom út 1773 og barnaði þá Soffíu dóttur Erlends sýslumanns. Tók með heppni reynslupróf í lögvísi arið 1776 og kom út sama ar, giptist um haustið og var á Íngjaldshóli, þar hann var settur til aðstoðar Jóni sýslumanni Árnasyni 1775. Var fyrir sýsluverkum alshendis 1777—1778, til þess Jón sýslumaður Arnórsson við tók, en Ísfjörð tók þa halfa Múlasýslu og var á Eskifirði til þess hann deyði 1781.

## Jón Arnórsson.

*Faðir*: Arnór sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu son Jóns lögsagnara í Ljárskógum[4]).

---

1) Jón í Tungukoti var launson Jóns yngsta Péturssonar frá Ólafsvík og bróðurson Árna Péturssonar 1. manns Guðrúnar Svartsdóttur (sjá hér á undan).

2) Ingibjörg átti fyr Brand Skeggjason, svo Björn á Bruarhrauni son Gísla prests Guðmundssonar í Hítarnesþingum.

3) Guðmundur var t. d. settur fyrir sýsluna 1765, þá er Jón sýslumaður sigldi. Guðmundur flutti síðar að Ytri-Bug í Neshrepp og andaðist þar 11. ágúst 1784, þá talinn 63 ára. [Eptir prestsþjónustubók séra Erlendar Vigfússonar í Nesþingum í Landskj.-safninu].

4) Sjá um Jón lögsagnara Arnórsson II, 698—705.

*Móðir*: Steinunn dóttir séra Jóns í Hjarðarholti (sjá þeirra ætt við Borgarfjarðarsýslu).

*Kona*: Guðrún yngri, f. 1743, d. 1801, dóttir Skúla fógeta Magnússonar.

*Börn*: A. Jón dreyari átti Steinunni Ólafsdóttur Arngrímssonar[1]).

B. Guðrún átti Pál Jónsson[2]) fátækan bóndamann, þeirra börn:

---

1) Steinunn f. k. Jóns rennismiðs var Arngrímsdóttir (ekki Ólafsdóttir) frá Bíldudal Teitssonar ríka á Vindhæli Magnússonar. Hún átti 1785 laundóttur Önnu Jóhönnu með Jóni Þorbergssyni Thorberg († 17. júní 1806), er síðan var verzlunarstjóri á Vatneyri, en annað hafði hún átt áður með öðrum manni. Hún mun svo hafa siglt til Kaupm.hafnar og gipzt þar Jóni, er þá var að læra þar rennismíði. Hann sigldi 1792 eptir lát föður síns, en kom út aptur með konu sinni um 1799 og settist að á Arnarhóli í Reykjavík, flutti síðan austur að Árnagerði í Fljótshlíð og bjó þar nokkur ár, en síðast bjó hann á Brú í Flóa, Borg í Hraunshverfi á Eyrarbakka, Stóra-Hrauni og Arnarhóli í Bæjarhreppi og andaðist þar 4. nóvember 1842, sjötugur að aldri, en Steinunn kona hans dó á Stóra-Hrauni 11. febrúar 1831 79 ára. S. k. hans (1832) var Hildur Magnúsdóttir frá Núpakoti undir Eyjafjöllum Einarssonar á Leirum Oddssonar í Steinum Einarssonar og hafði hún áður átt Stefán Jónsson á Stóra-Hrauni († 1828) bróður Sigurðar stúdents í Varmahlíð, þ. b.:

a. Guðmundur. b. Stefán tvíburar, fæddir 17. júní 1832 og andaðist Stefán 22. s. m., en Guðmundur dó ókv. bl. Hann var ræfilmenni.

En dóttir Jóns rennismiðs og f. k. hans Steinunnar var:

c. Sigríður f. í Reykjavík 6. apríl 1800, átti 1831 Þorleif Kolbeinsson auðga á Háeyri (sbr. bls. 145) og var f. k. hans, dó 1855, þ. b. Jón, dó ungbarn. Hún var áður trúlofuð Jóni bróður hans, er komst í Kambsránsmálið (sbr. Kambsránssögu). Þá er Jón sigldi átti hann ólétta stúlku vestur í Staðarsveit, Guðrúnu Magnúsdóttur og var dóttir þeirra:

d. Hólmfríður f. á Elliða 22. apríl 1793, dó 15 ára gömul 12. júní 1808.

2) Páll og Guðrún giptust 27. sept. 1790. Páll var son Jóns á Bláfeldi í Staðarsveit Pálssonar í Böðvarsholti Jónssonar s. st. Pálssonar.

a. Margrét.

b. Grímur á Knör átti Þórunni Bjarnadóttur[1]).

C. Þórunn[2]).

D. Steinunn dó ung[3]).

Jón lærði utan og innanlands[4]). Gerðist svo lögsagnari hjá Hans Wíum í Múlasýslu mið- og suðurparti 1769. Þeim kom ekki ásamt. Útvegaði svo Skúli fógeti honum Snæfellsnessýslu og Stapaumboð eptir Jón sýslumann Árnason 1778[5]). Í óaldararunum 1782—85 galtzt ei eptir umboðið eða sýsluna og lögðust margar jarðir í eyði. Komst hann því í miklar skuldir, og var honum því tiltalað upp á embættið, en Guðmundur sýslumaður Ketilsson settur héraðsdómari í málinu. Vitnaðist, að mestar voru skuldirnar eptir umboðið og var hann því frá því dæmdur 1787[6]), og það fengið Stefáni Scheving 1789

---

1) Börn Gríms og Þórunnar:

a) Bjarni. b) Jón. c) Guðlaugur. d) Páll átti Þorkötlu Ólafsdóttur.

Enn voru börn Páls og Guðrúnar:

c. Margrét dó ung.

d. Jón f. 1802.

2) Þórunn fór vestur að Vatnsfirði með frænda sínum séra Arnóri Jónssyni, mun ekki hafa gipzt.

3) Steinunn ólst upp eystra, dó bl.

Alls áttu þau Jón sýslumaður og Guðrún Skúladóttir 8 börn, og eru auk þessara 3 nafngreind Sigríðar tvær og Þórunn og dóu þær allar ungar. Guðrún ekkja Jóns sýslumanns bjó eptir lát hans í Hólkoti í Staðarsveit og þar mun hún hafa dáið 15. janúar 1801 58 ára. Þau Jón og Guðrún giptust í Viðey 24. ágúst 1770.

4) Jón sýslumaður Arnórsson eldri var fæddur á Dunki í Hörðudal 1734, útskrifaður úr Skálholtsskóla 26. apríl 1757, skrifaður í stúdentatölu við háskólann 19. desember 1761 og tók embættispróf í lögum 23. apríl 1765 með 2. einkunn. Því næst varð hann skrifari hja Skúla landfógeta, en skipaður aðstoðarmaður Hans Wíums 16. maí 1769.

5) Hann fékk veitingu fyrir sýslunni og umboðinu 9. febrúar 1778.

6) Jóni sýslumanni var vikið frá sýslunni og umboðinu 1788, en með alþingisdómi 22. júlí 1789 var hann dæmdur til að borga »kongsins kassa« 1741 rd. 50¼ sk. af 2264 rd. skuld af umboðinu.

með þeim skilmála, að hann hefði 1/6 part af því sem gyldist og Ingjaldshól með Rifsveiðistöð og tilliggjandi hjáleigum til frí-bústaðar. En Jón sýslumaður skyldi halda Snæfellsnessýslu. Hann hafði búið á Ingjaldshóli sem formenn hans, en þá hann missti umboðið flutti hann að Bjarnarhöfn til svila síns Hallgríms Bachmanns 1790. Ekki kom þeim ásamt, og var þeirra samvera ei utan 1 ár. Flutti Jón sýslumaður því að Elliða í Staðarsveit, byggði þar sæmilega stofu og önnur hús 1791, en deyði þar 1792[1]) eptir það hann hafði haft þar sýsluvöld í 14 ár, haldið Stapaumboð í 11 ár og verið Wíums lögsagnari í 9 ár. Jón sýslumaður var smár vexti, snæfur, mannlegur, fljótlátur, greiða- og gestrisnismaður, gefinn fyrir ölföng og þá stundum óaðgætinn. Bústandsmaður í meðallagi Var margt vel um hann.

## Finnur Jónsson.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Þá Jón sýslumaður Arnórsson deyði var hann hér settur sýslumaður 1792 til þess Espólín fróði við tók sýslunni. Finnur fékk sér veitta Borgarfjarðarsýslu 1794, en skipti henni við Espólín 1796, og er bréf Finns fyrir Snæfellsnessýslu dags. 16. september 1796. Var afsettur embættinu 1805, missti alshendis sýsluna 1806, drukknaði 1807.

## Jón Espólín.

(Sjá um hann við Hegranesþing). Hann varð candidatus juris og fékk Snæfellsnessýslu 1792 dag 19. sept. Skipti henni við Finn sýslumann Jónsson fyrir Borgarfjarðarsýslu 1796. Aptur skipti hann Borgarfjarðarsýslu fyrir Hegranesþing við Jónas Scheving cansellirað 1802. Meðan Espólín hélt Snæ-

---

Fé hans var gert upptækt, metið 416 rd., en hljóp á 249 rd. Við dauða hans voru allar skuldir hans yfir 2000 rd., en allt dánarbúið var að eins 5—600 rd.

Í útistöðum Jóns sýslumanns árin 1787—1789 gegndi Pétur Pétursson lögsagnari í Görðum (sjá Hnappadalssýslu) sýslumannsverkum í Snæfellsnessýslu.

1) Hann dó 26. apríl. Hinn 19. sept. s. á. veitti konungur Guðrúnu ekkju hans og 3 börnum hennar 400 rd. styrk.

fellsnessýslu bjó hann fyrst við Hellna í Brekkubæ, þá flutti hann í Breiðuvík, þaðan að Fróðá.

## Ebenezer Þorsteinsson.

(Sjá um hann við Ísafjarðarsýslu). Eptir tveggja ára veru í Kaupm.höfn við lærdómsiðkanir í lögvísindum kom hann út og gerðist aðstoðarmaður Jóns sýslumanns Jakobssonar í Vöðluþingi 1801. Fór til amtmanns Eiríkssens a Bessastöðum sem þénari hans 1803. Var settur dómari í malum Finns sýslumanns í Snæfellsnessýslu 1804 og gerði tvisvar útpöntun (execution) í búi hans a skuldafé. En þá Finnur var frasettur embætti 1805 var Ebenezer settur aklagari a móti honum, en Sigurður Guðlaugsson dómari. Ebenezer var þar eptir embættislaus til þess hann var settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu 1810[1]).

## Sigurður Guðlaugsson.

*Faðir*: Guðlaugur prófastur Sveinsson, er fékk Snæfjöll 1756, Kirkjuból í Langadal 1766, Vatnsfjörð 1780, varð prófastur 1773 og hélt því embætti til þess hann deyði í Vatnsfirði 1807.

*Móðir*: Rannveig dóttir Sigurðar sýslumanns á Hvítárvöllum Jónssonar sýslumanns í Einarsnesi Sigurðssonar lögmanns sama staðar.

*Kona fyrri*: Elina Kristína[2]) dóttir séra Erlendar í Ingjaldshólsþingum á Þæfusteini sonar Vigfúsar í Hjörsey lögréttumanns Sigurðssonar lögréttumanns Einarssonar sýslumanns Þorsteinssonar sýslumanns í Þykkvabæ Magnússonar. Þessi Elina var þá ekkja Jóns heitins Jónssonar, er um tíma var prentari á Hólum hjá Sigurði biskupi Stefánssyni. Hún átti með sínum fyrra manni: Sigríði, Rannveigu og Margréti dætur, sem lifðu og til aldurs komust. Elina deyði 1827 á Kirkjufelli í Eyrarsveit.

---

1) Sjá um hann II, 243—245.

2) Réttara Elena Kristín. Hún andaðist 4. desember 1827 45 ára gömul. Þau Sigurður giptust 5. júlí 1816.

*Börn*: A. Þóra[1]).
B. Dagbjört[2]).
C. Rannveig dó barnlaus[3]).

*Kona síðari*: Guðrún Jónsdóttir (systir séra Þorláks um hríð á Stað í Súgandafirði prestur). Þau giptust 1829[4]), var Sigurður þá yfir sextugt, en Guðrún yfir sjötugt. Þá Sigurður var útskrifaður úr Skálholtsskóla átti hann með þessari sömu Guðrúnu, er þá var í Vatnsfirði, launson að nafni:

D. Jón. Honum kom Sigurður í Bessastaðaskóla. Varð hann svo assistent á Ísafirði og giptist Þórdísi dóttur Þórðar prests í Ögursþingum Þorsteinssonar prests á Stað í Súgandafirði. Svo fékk Jón sér veittan Otrardal í Barðastrandarsýslu, en 1832 skipti honum fyrir Mýraþing í Dýrafirði. Þau Jón og Þórdís eiga ung börn[5]).

Sigurður fæddur á Snæfjöllum 2. marz 1764, lærði í 4

---

1) Þóra (f. 1. apríl 1818) átti Jón skipstjóra Einarsson frá Kollafjarðarnesi, bróður Ásgeirs á Þingeyrum og Torfa á Kleifum, þ. b.: Adam fór til Ameríku o. fl.

2) Dagbjört (f. 15. ágúst 1819, † 1880) átti Guðmund Ásgeirsson á Arngerðareyri, bróður Ásgeirs eldra kaupmanns á Ísafirði, þ. b.:

a. Sigurður bókbindari, dó bl.
b. Ásgeir borgari á Arngerðareyri, tvíkvæntur, átti fyr Margréti Jónsdóttur, þ. b.: Guðmundur, Bjarni og Ásgeir prestur í Hvammi í Hvammssveit, síðar Aðalbjörgu Jónsdóttur og börn.
c. María átti Hafliða á Kirkjubóli í Langadal Hafliðason frá Fremri-Bakka Guðnasonar, þ. b.: Valgerður, Sigríður, Dagbjört.
d. Elías Kristján dó ungur.
e. Halla Rannveig dó ung.

3) Rannveig varð að eins rúmlega ársgömul (f. 17. marz 1817 † 5. júlí 1818).

4) Þau giptust í Otrardal 14. okt. 1828 og var Sigurður þá 64 ára, en Guðrún 76 ára. Hún var þá ekkja Einars í Hvítanesi Magnússonar frá Súðavík Ólafssonar lögsagnara á Eyri (II, 126) og var s. k. hans, en ekki áttu þau börn saman. Séra Jón gaf foreldra sína saman og þótti fátítt. Sjá um framætt Guðrúnar bls. 33.

5) Séra Jón Sigurðsson var síðast prestur á Söndum í Dýrafirði og andaðist 26. desember 1870 í Hafnarhólma á Selströnd 83

vetur í Skálholtsskóla og útskrifaðist þaðan 1785. Á skólaárum hans komst upp kvittur af einhverju litlu galdrakveri, er þeir Sigurður og Björn síðar prestur í Hítardal Benediktsson höfðu í vörzlum sínum, og urðu þeir fyrir það að víkja úr skóla um hríð. Áður hafði hann notið uppfræðingar föður síns. Þá hann átti téðan launson fór hann utan til meiri lærdómsframa 1786. Þá hann hafði afstaðið venjuleg reynslupróf (ɔ: deponerað og tekið examen philologic og philosophic) lagði hann sig eptir guðfræði um hríð, en breytti því síðan og lagði sig eptir lögvísindum, tók þó í hvorugu reynslupróf. Var hann peningalítill jafnan og fékk sér því forsorgun með að uppfræða unglinga. Dvaldi hann í Kaupmannahöfn í 8 ár og ætlaði til Íslands árið 1794 með póstskipi, fékk hrakreisu og varð apturreka til Noregs. Þar bauðst Sigurði í Arendal barnaskólakennaraembætti, hvað hann þáði og dvaldi þar á þriðja ár. En 1797 kom hann út og gerðist faktor í Reykjavík fyrir höndlun kaupmanns en síðar riddara Sivertsens eitt ár. Hann var og við höndlun í Reykjavík hjá Boga um hríð. 1798 var hann settur til aðstoðar Sigurði sýslumanni Péturssyni (þá heilsutæpum) til manntalsþingaferða í Kjósarsýslu. Hann var og hafður til ýmsra mála sem saksóknari eða talsmaður þar syðra. Þá Finnur sýslumaður í Snæfellsnessýslu komst í mal sín og var frásettur embætti 1805 var Sigurður settur sýslumaður Snæfellinga. Kom þó ei til sýslunnar fyr en í febrúar 1806[1]), og þjónaði hann í sífellu sýslumannsembætti til 1817, þa sýslumaður Effersöe fékk sér þá sýslu veitta 1817. Þá Effersöe deyði var Sigurður á ný settur sýslumaður til þess sýslumaður Bonnesen við tók 1819. Hann var settur dómari í Dalasýslu í stöku malum.

Þá Sigurður kom í Snæfellsnessýslu var hann frá því í febrúar til hvítasunnu hja Ólafi Björnssyni, er þá hélt Arnarstapaumboð og bjó á Munaðarhóli. Þar eptir var hann 2

---

ára gamall (f. 15. júní 1787). Börn hans og Þórdísar:

a. Guðbjörg átti Jörund í Hafnarhólma Gíslason frá Bæ á Selströnd Sigurðssonar, þ. b.: Gísli, Ólöf, Guðbjörg, Guðrún, Jónar tveir og Þórdís Jónína.

b. Sigurður. c. Herdís. d. Jón.

1) Hann var settur fyrir sýsluna 1. febrúar 1806.

ár í Stykkishólmi hjá kaupmanni Jóni Kolbeinssyni, síðan í sjö ár hjá Guðmundi Sigurðssyni hospítalshaldara á Hallbjarnareyri, en 1815 fór hann að búa í Gröf í Eyrarsveit og 1816 gipti hann sig Elinu Kristínu. Þaðan flutti hann að Kirkjufelli í sömu sveit og missti þar konu sína 1827. Hann brá þá búi og flutti með aðra dóttur sína unga að Otrardal 1828 til séra Jóns sonar síns, sem hafði móður sína Guðrúnu, er þá var ekkja Einars bónda í Hvítanesi og átti engin börn með honum. Sigurður féll upp á það 1829[1]), að giptast téðri Guðrúnu fyr barnsmóður sinni. Voru þau fyrst hjá séra Jóni, en 1832 flutti sjálfur Sigurður sig í Vigur til veru hjá hreppstjóra Kristjáni Guðmundssyni, efna- og dugnaðarmanns mikils. En kona hans Guðrún var hjá syni sínum séra Jóni til þess hún flutti til stjúpsonar síns Jóns bónda Einarssonar á Hvítanesi.

Sigurður sýslumaður Guðlaugsson er metinn sinnugur maður að gáfum og ekki óheppinn dómari í málum. Enginn auð- eða búmaður, átti hann jafnan þröngt í búi, en hinn mesti greiðamaður, þá hann gat látið nokkuð af hendi rakna og í mörgu ágætur maður. Hann tjáist og mjög hneigður fyrir ölföng, en þó jafnan heilsutæpur a sínum seinni arum.

Sigurður sýslumaður Guðlaugsson er í lægra lagi, meðalmaður á hæð og að því skapi þrekinn. Nokkuð lotinn í hálsi, jarpur á háralit, en hærðist snemma. Hefur heldur verið kringluleitur en langleitur í andliti og við stórleitur; nokkuð varaþykkur, réttnefjaður og allvel farinn að andlitsfalli.

1837 varð Sigurður mjög heilsulasinn, svo hann gat ekki á sumrum eptir vana sínum heimsótt kunningja sína á sumardag. Loks varð hann karlægur og sjónlaus og þjáðist af seorbuto maligno til þess hann deyði í Vigur hjá Kristjáni bónda 1840[2]), en Rannveig fyrri kona Kristjáns var systir Sigurðar, en hún dó 1832 og fekk Kristján þá þegar Önnu Ebenezersdóttur sýslumanns Þorsteinssonar og lifði Anna Kristján bónda sinn og giptist aptur Sigmundi Erlingssyni, litt

1) Réttara 1828 (sjá hér áður).

2) Sigurður sýslumaður andaðist 12. febrúar (1840) tæpra 76 ára að aldri.

menntuðum bóndamanni, en hann hafði farið utan einn vetrartíma til menningar, áður Anna giptist honum.

## Otti Guðmundsson Effersöe.

*Faðir*: Guðmundur Jónsson bóndi í Skildinganesi á Seltjarnarnesi, síðast á Lágafelli[1]).

*Móðir*: Guðríður dóttir Otta bónda í Hrólfsskála Ingjaldssonar.

Systkin Otta Effersöe voru: Pétur smiður í Engey[2]), Gísli í Brynjudal[3]), Jón Effersöe fór til Fær-

---

1) Faðir Guðmundar dbrm. á Lágafelli föður Otta var Jón bóndi á Æsustöðum í Mosfellssveit († í Effersey 24. maí 1783) Jónsson á Mógilsá Gíslasonar. Bróðir Jóns á Æsustöðum Gísli á Mógilsá faðir dr. Jóns Mógils læknis í Noregi († 1804). Kona Jóns og móðir Guðmundar var Margrét Grímsdóttir frá Þormóðsdal Þorvaldssonar Teitssonar í Reykjakoti Magnússonar.

2) Börn Péturs í Engey og Ólafar Snorradóttur í Engey Sigurðssonar voru mörg:

a. Guðmundur í Engey faðir Erlendar bónda í Skildinganesi, Otta skipasmiðs og þeirra systkina.
b. Jón skipasmiður í Engey faðir Þórðar, sem var í Gróttu og Jóns skipasmiðs í Rvík.
c. Guðrún eldri átti Guðmund Þórðarson dannebrogsmanns í Skildinganesi Jónssonar bróður Einars prentara, þau systkinabörn. Eitt þeirra barna Þórður útvegsbóndi í Rvík fyr í Görðunum og síðar eigandi að Glasgow.
d. Guðrún yngri atti Kristinn Magnússon í Engey, þeirra son Pétur í Engey (II, 715).
e. Sigríður átti Sigurð Ingjaldsson í Hrólfskála, þeirra synir Ingjaldur hreppstjóri á Lambastöðum og Pétur í Hrólfskála.
f. Halldóra átti Jón Erlendsson í Hrísakoti í Brynjudal. Eitt barna þeirra Þórunn kona Brynjólfs bónda Bjarnasonar í Engey.
g. Guðríður átti séra Þorgrím Arnórsson í Þingmúla og börn.
h. Guðfinna átti Hafliða Nikulásson í Reykjavík og börn.

3) Gísli bjó á Ingunnarstöðum, átti Guðrúnu Þóroddsdóttur s. st. Sigurðssonar, þeirra börn mörg, þar á meðal Guðmundur bóndi í Laxárnesi faðir Þórðar hreppstjóra og dbrm. á Neðra-Hálsi.

eyja[1]), stúderaði, greifi, Guðmundur bóndi[2]), Margrét, sem átti Þórð dannebrogsmann í Skildinganesi[3]) og Valgerður[4]).

Otti lærði fyrst í heimaskóla[5]), en útskrifaðist úr Reykjavíkurskóla[6]), og átti þá laundóttur með Elínu dóttur Egils Sandholts borgara í Reykjavík, hét Solveig. Þá tók Otti að leggja sig eptir lögvísindum og gerðist lögsagnari sýslumanns Koefoed í Gullbringu- og Kjósarsýslum 1812—1814[7]). Þar eptir fór hann utan og tók reynslupróf í dönskum lögvísindum[8]). Fékk sér veitta Snæfellsnessýslu 1817, kom til hennar um sumarið og tók sér aðsetur í Grundarfirði. Hann kom til sýslunnar mjög þrotinn að heilsu og deyði 12. febrúar 1818,

1) Effersöesættin í Færeyjum (frá Jóni »greifa«) er orðin allfjölmenn þar. Eina dóttur hans Sigríði Jeannette átti séra Jón Jóhann Friðrik Svendsen prestur í Færeyjum († 1879) son Friðriks Svendsens kaupm. á Flateyri. Hann varð geðveikur.

2) Guðmundur átti Guðrúnu Hákonardóttur af Vatnsleysuströnd Oddssonar systur Einars hattara. Synir þeirra: Guðmundur bóndi á Ingunnarstöðum, Guðmundur annar og Einar á Læk faðir Kristínar, er átti séra Jóhann Þorkelsson dómkirkjuprest.

3) Þórður dbrm. var son Jóns í Háteig á Akranesi Einarssonar prests á Vindási í Kjós Torfasonar prófasts á Reynivöllum, er var bróðir séra Jóns Halldórssonar lærða í Hítardal. Meðal barna þeirra voru: Guðmundur faðir Þórðar í »Glasgow« (sjá hér á undan), Markús á Þormóðsstöðum, Einar prentari, Pétur á Smiðjuhóli o. fl.

4) Valgerður átti Guðmund Guðmundsson í Árbæ í Skagafjarðardölum.

5) Otti var fæddur í Effersey 8. október 1785 og var næstelztur systkina sinna. Elztur var Jón »greifi« (f. 14. ágúst 1784). Pétur var fæddur 7. okt. 1786, Gísli 20. des. 1787 og Guðmundur 3. okt. 1795. Enn voru tveir bræðurnir: Símon, er dó tvítugur 1811 og Einar f. 29. sept. 1792, er mun hafa dáið ungur. — Otti var alinn upp hjá Pali klausturhaldara Jónssyni á Elliðavatni.

6) Hann var útskrifaður úr heimaskóla 1802.

7) Hann var settur sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu 15. ágúst 1812 og þjónaði henni til 29. apríl 1814.

8) Það var árið 1816 og fékk hann 1. einkunn í báðum prófum, en 17. maí 1817 var honum veitt Snæfellsnessýsla.

ógiptur. Hann var lítill vexti, nettvaxinn og grannur, leit út mjög veiklega. var hvítleitur í andliti og ei forráðs fríður. Hann var nettur skrifari og allvel að sér[1]).

## Isaach Jakob Bonnesen.

(Sjá um hann við Rangárvallasýslu). Hann er danskur maður og hefur stríðs cansellie secretera nafnbót. Honum var veitt Strandasýsla þann 17. maí 1817 og kom sama ár til hennar, en 1818 var honum veitt Snæfellsnessýsla og hafði síðan sitt aðsetur í Ólafsvík. 1822 fékk hann veiting fyrir Rangárþingi og tók sér bústað á Velli á Rangárvöllum, en fluttist þangað vorið 1823.

## Ólafur Guðmundsson.

*Faðir*: Guðmundur lengi hospítalshaldari á Hallbjarnareyri son Sigurðar hospítalshaldara Guðmundssonar.

*Móðir*: Katrín dóttir Magnúsar bónda á Kongsbakka Bjarnasonar og bónda af Akramannaætt[2]).

*Kona*: Þorkatla dóttir Torfa sonar Þorbjarnar á Lundum Ólafssonar smiðs samastaðar[3]).

---

1) Solveig laundóttir Otta og Elínar Sandholt átti fyr 1845 Jón prentara († 13. okt. 1846) Vigfússon prests á Reynivöllum Eyjólfssonar prests á Brjánslæk Sturlusonar, þeirra son: Jón Otti Vigfús verzlunarstjóri í Rvík, fæddur eptir lát föður síns, dó bl., en s. m. Solveigar (1848) var Jón prentari Jónsson lausamanns Jónssonar verzlunarstjóra á Húsavík Péturssonar og var hún s. k. hans, þ. b.: a) Ragnheiður gipt Emil Jensen bakara. b) Jórunn gipt Berthelsen húsmálara í Rvík. c) Páll snikkari í Rvík, kvæntist og átti börn.

2) Sbr. hér áður bls. 123.

3) Torfi bjó í Kolviðarnesi, drukknaði við selveiði 13. júní 1806. Börn séra Ólafs og Þorkötlu (sbr. II, 714) voru:

1. Guðmundur söðlasmiður f. 10. febr. 1830, bjó víða, fyrst í Nesi í Aðaldal, síðar á Ytrahóli á Skagaströnd, Kollugerði og Kúskerpi á Refasveit, átti fyr Halldóru († 2. okt. 1865) Sveinsdóttur frá Óslandi Sveinssonar og Sigríðar Skúladóttur prests í Múla Tómassonar og 8 börn, þar á meðal: a) Skúlína Rósamunda. b) Ingibjörg Marsellína. c) Soffía Hansína. d) Þorkatla Júlíana. e) Ólína Bergljót. f) Theodora Katrína. g) Þorkatla

Ólafur var útskrifaður úr Bessastaðaskóla 1818, gerðist þá þénari sýslumanns Bonnesens, og var seinna af honum settur að reka Snæfellsnessýslu vorið 1823, þá Bonnesen var kominn til Rangárþings, og hafði stjórn hennar það vor til í ágústmánuði sama sumar um 10 vikna tíma. Þá giptist Ólafur[1]) og tók við búi föður síns, sem þá var fluttur að Sveinsstöðum í Neshrepp. Síðan gerðist Ólafur 1825 capellan Jóns prests í Ingjaldshólsþingum Ásgeirssonar og bjó á Sveinsstöðum, þar til hann fékk 1841 að veiting Hjaltabakka[2]).

## Eiríkur Sverrisson.

(Sjá um hann við Mýrasýslu og Rangárvallasýslu). Snæfellsnessýsla var honum veitt 1823 og kom hann téð ár og tók á móti sýslunni í ágústmánuði af Ólafi. Hann giptist sinni seinni konu 1824, tók sér bústað í Mafahlíð, en fékk veiting fyrir Mýrasýslu 1828 og slepti þá Snæfellsnessýslu.

---

Sigríður, dó ung og fleiri af þessum börnum munu hafa dáið ung. S. k. Guðmundur Anna María Friðriksdóttir frá Kaldrana á Skagaströnd Jósepssonar, þ. b.: Halldóra, Ingibjörg, Gróa dó ung. Þau Guðmundur og Anna fóru til Vesturheims með flest börnin.

2. Katrína Guðríður f. 1. sept. 1832 átti 1867 Kristinn Ólafsson frá Stokkahlöðum bróður Jóns á Rifkelsstöðum föður Björns fyrv. ritstj. Stefnis, bjuggu fyrst á Efra-Skúfi, voru síðar í húsmennsku á Vöglum og Víðigerði í Eyjafirði, en fóru svo til Vesturheims, þ. b.: Aðalbjörg, Ólafur og Pétur.
3. Einara f. 20. marz 1840, fór einnig til Vesturheims, ógipt.

Þorkatla kona séra Ólafs dó á Sveinsstöðum 8. febr. 1841. En hann kvæntist aptur 8. okt. s. á. Bergljótu Jónasdóttur bónda í Hallsbæ Jónssonar og Guðrúnar Einarsdóttur í Rauðseyjum Ólafssonar, þau bl., en Bergljót giptist aptur séra Jakob Finnbogasyni í Steinnesi og var síðasta kona hans. Hún dó 1872.

1) Ólafur og Þorkatla giptust 7. júlí 1824, áttu 11 börn, en að eins 3 komust til aldurs.

2) Ólafur var fæddur á Hallbjarnareyri 23. nóv. 1796. Eptir að hann var útskrifaður var hann 1 ár í þjónustu Magnúsar Stephensens konferenzráðs í Viðey. Hann var prestvígður 25. sept. 1825, fekk Hjaltabakka 1841 og Höskuldsstaði 1862, lét af prestskap 1866 og andaðist á Syðrahóli á Skagaströnd 16. janúar 1867.

## Páll Benediktsson.

*Faðir:* Benedikt Sigurðsson Benediktssonar Sigurðssonar bænda nyrðra í Eyjafirði.

*Móðir:* Helga Hjaltadóttir Jónssonar[1]).

*Kona:* Karítas dóttir Magnúsar sýslumanns í Dalasýslu, í Búðardal Ketilssonar prests[2]).

*Börn:* A. Þorsteinn[3]).

B. Ingveldur (bæði um og innan 20 ára).

Páll[4]) var að náttúru námsmaður, smiður, skrifari góður, vel löglesinn. Uppólst hann í Eyjafirði, var stundum við höndlunar-skriptir og reikninga. Karítas þá ekkja Vigfúsar sál. Fjeldsteds fór til Eyjafjarðar með kammerráði G. Briem sýslumanni. Dró þá saman með Páli og Karítas, svo þau giptust þar. Eptir það fluttust þau til Dalasýslu á eignarjörð hennar og barnanna Stóru-Galtardalstungu og þaðan að Brimilsvöllum, hvar hann var útvegs- og fyrirsvarsbóndi um hríð. Þá uppbyggði hann eyðijörð Skallabúðir og bjó þar nokkur ár, þá hann sleppti Vallnaplassi. Þaðan flutti hann að Bjarnarhöfn og bjó þar eitt ár. Þaðan flutti hann sem húsmaður í Grundarfjörð 1832.

Páll var við sýsluverk í Húnavatnsþingi um það leyti, að Sigurður sýslumaður Snorrason var þar settur, og þá sýslumaður Eiríkur Sverrisson sleppti Snæfellsnessýslu var Páll þar settur til þess Kristjan sýslumaður Magnússen við tók um sumarið. Var þá Páll valdstjóri um 3 mánuði. Lítinn tíma seinna fékk sýslumaður Kr. Magnússen hann ef þyrfti að gegna sýslumannsverkum meðan hann fór til Ísafjarðarsýslu snöggva ferð. Opt var Páll settur í málaferlum annaðhvort saksóknari eða talsmaður, og er hann sagður þar til vel laginn. 1834 gerðist Páll lögsagnari Árna sýslumanns Þorsteinssonar í Ísafjarðarsýslu með amtmannsleyfi, til þess Þorkell

---

1) Hjalti faðir Helgu bjó á Gilsá. Foreldrar hans voru Jón á Æsustöðum Jónsson Ormssonar sterka af Flateyjardal (sumir nefna hann Odd), og Helga Jónsdóttir prests í Saurbæ Hjaltasonar frá Teigi Pálssonar.

2) Sbr. II, 722—724.

3) II, 724 n.m.

4) Páll var fæddur á Halldórsstöðum í Eyjafirði um 1786.

sýslumaður við tók 1835. Þar eptir hafðist Páll við í Snæfellsnessýslu og Dalasýslu og þénaði sýslumönnum opt með skriptum.

Hann varð mjög hneigður til drykkjuskapar á sínum seinni árum og lést í Stykkishólmi eptir 4 daga legu 1843 í júlímánuði[1]). Hann var sem áður er sagt listamaður til munns og handa. Í minna lagi meðalmaður á vöxt og betur menntaður, en flestir bændur nú á dögum, en lítt þótti kveða að honum að röksemd.

## Kristján Skúlason Magnusen.

(Sjá um hann við Dalasýslu)[2]). Hann fékk sér veitta Snæfellsnessýslu 24. maí 1828 og bjó fyrst í Bjarnarhöfn, en síðar á Narfeyri. Hann fékk Dalasýslu 7. október 1837 og flutti árið eptir búferlum að Skarði.

## Sigfús Skúlason.

(Sjá um hans ætt við Þingeyjarþing)[3]). Sigfús var fæddur á Höfða í Þingeyjarsýslu dag 18. október[4]) 1801, kom í skóla 1818 og útskrifaðist 1825. Þá Jóhann Árnason hafði tekið að veitingu Þingeyjarþing 1835, en var sama ár settur fyrir Rangárþing, þénaði nefndur Sigfús sýslumannsverkum í Norð-

1) Hann andaðist 14. júlí.

2) II, 741—745.

3) I, 131, 133. Sigfús sýslumaður andaðist á Húsavík 29. apríl 1862 og hafði þá sagt af sér sýslumannsembætti árið áður. Kona hans Ingibjörg Óladóttir Sandholts, systir Árna kaupm. Sandholt var fædd 11. september 1823 og giptist Sigfúsi 17 ára gömul 11. sept. 1840. Börn þeirra voru:

1. Hans Árni f. 16. ágúst 1841, dó á Húsavík 28. jan. 1861.
2. Fanny Marcelline f. 2. júní 1848, ógipt í Kaupm.höfn.
3. Óli Theodor f. 7. jan. 1852, dó í Reykjavík 1. janúar 1871, kominn í lærða skólann.

Sonur frú Ingibjargar Schulesen og Gísla skólakennara Magnússonar var Árni Beinteinn cand. phil. (f. í Rvík 24. júlí 1869, † í Khöfn 18. apríl 1897) sbr. bls. 135. Þær mæðgur frú Ingibjörg og Fanny dóttir hennar eiga heima í Kaupm.höfn.

4) Sigfús sýslumaður var fæddur 19. apríl (1801).

ursýslu til 1836, að Jóhann kom norður til sýslu sinnar. Skúlasen var þá um tíma hjá föður sínum á Grenjaðarstað, og brá sér til utanferðar sumarið 1837 og öðlaðist kongsveiting fyrir Snæfellsnessýslu 7. okt. 1837. Kom út 1838 og fór sama sumar til sýslu sinnar og fékk sér einhleypum húsnæði á Búðahöndlunarstað. 1839[1]) giptist hann Ingibjörgu dóttur Óla Sandholts faktors við Búðir. Næsta ár bjó Sigfús sýslumaður á litlum parti af Staðastað, þaðan flutti hann að Bjarnarhöfn vorið 1841. Það ár eignaðist hann með konu sinni stúlkubarn[2]). 1842 flutti hann að Múlastað, því kongur hafði veitt honum vesturpart Þingeyjarþings.

## Árni Þorsteinsson.

(Sjá um hann við Ísafjarðarsýslu)[3]). Þá Sigfús sýslumaður Skúlason fékk veitingu kongs fyrir vesturhluta Þingeyjarþings

---

1) Réttara 1840.

2) Það var sveinbarn og hét Hans Árni (f. 16. ágúst 1841), sjá hér á undan.

3) II 245—247. Þótt getið sé þar ætternis hans, konu og barna (sbr. ennfremur II, 694—695) skal þess getið hér til viðauka, að Árni sýslumaður var fæddur á Vaðstakksheiði í Snæfellsnessýslu 17. september 1801 (ekki 1802 sbr. Lögfr.tal M. St.), og útskrifaður úr heimaskóla 1825, tók próf í dönskum lögum 27. október 1828 með 1. einkunn í báðum prófum. Hann andaðist í Krossnesi 24. marz 1848. Kona hans Christense Benedikte (fædd Steenbach) var fædd 12. nóvember 1805, og giptist fyrst 14. jan. 1830 frænda sínum Óla Steenback verzlunarstjóra í Stykkishólmi; voru saman eitt ár; hann drukknaði á Breiðafirði 19. marz 1831. Son þeirra var Óli Andrés Daníel Steenbach kaupm. í Stykkishólmi (f. 19. maí 1831, † 12. marz 1858) átti Magdalenu Pálsdóttur Hjaltalíns, þ. d. Pálína Jensína, dó bl.

Árni sýslumaður Þorsteinsson og Christense giptust 26. júlí 1832. Hún lifði lengi ekkja eptir lát hans og andaðist 13. maí 1869. Börn hennar og Árna sýslumanns voru:

1. Jón f. 16. júní 1833, dó 22. s. m.
2. Andrea f. 26. jan 1835, dó 7. ágúst 1859, var f. k. Guðbrands kaupmanns í Grundarfirði og síðar ljósmyndara í Reykjavík, Guðbrandssonar á Vígholtsstöðum Narfasonar.
3. Jón (Thorsteinsson) bókbindari á Grímsstöðum við Rvík, f. 2.

fékk Árni kongsveiting fyrir Snæfellsnessýslu 1842[1]), þar með skyldi hann og upp á reikning halda Stapaumboð og hafa þar fyrir sjöttung inntektar þess. Sýslumaður Árni bjó sem fyr á eignarjörð sinni Krossnesi, hverja hann innleysir af samörfum sínum. Hann var mjög brúkaður við málastapp í

---

des. 1836, kvæntur Guðnýju Jóhannsdóttur skipasmiðs í Elliðaey Hanssonar Pálssonar kaupm. Hjaltalíns Oddssonar og Jóhönnu Jóhannsdóttur prests í Jónsnesi Bjarnasonar Bogasonar frá Hrappsey; þ. b.:

a. Árni ókv. hjá föður sínum.

b. Anna Guðrún dó 9 ára.

c. Páll Hjaltalín prestur á Svalbarði í Þistilfirði, kvæntur Ingveldi Einarsdóttur veitingamanns Jafetssonar, þ. b. Einar, Árni, Ásthildur, Ingveldur.

d. Hinrik verzlunarmaður í Rvík dó 1903 29 ára, átti Guðrúnu dóttur Daníels Thorlaciusar í Stykkishólmi Árnasonar (sjá hér síðar).

e. Andrés ókv. hjá föður sínum.

Dóttir Jóns Thorsteinssons á Grímsstöðum áður en hann kvæntist, með Þuríði Jóhannesdóttur er

f. Guðrún á Magnús Ólafsson fyrrum verzlunarstjóra á Akranesi, nú ljósmyndara í Rvík, þ. b. Ásta, Ólafur, Karl Georg, Pétur Jón Hoffmann og Karólína Þorbjörg.

4. Karolína f. 1. desember 1838, ógipt í Rvík.
5. Jakobína f. 10. júní 1841, dó 16. ágúst 1842.
6. Jakobína f. 4. febr. 1843 átti Stefán bónda í Grundarfirði son Jóns Daníelssonar borgara s.st. og Guðrúnar Jónsdóttur prests Hjaltalíns Oddssonar systur Jóns Hjaltalíns landlæknis, þ. b.:

a. Jón dr. phil, nú í Lundúnum, ókv.

b. Stefán læknir í Aars á Jótlandi, kvæntur Þórunni Baldvinsdóttur.

c. Óli Steenbach tannlæknir á Akureyri.

d. Kristensa.

e. Kristín nú (1906) báðar í Danmörku ásamt foreldrum sínum.

7. Georg (Thorsteinsson) veitingamaður á Akranesi f. 6. apríl 1845, drukknaði í mannskaðaveðrinu 6. janúar 1884, átti Hólmfríði Jónsdóttur; þ. b.:

a. Kristens Benedikt fór til Ameríku.

b. Georg læknir og frakkneskur konsúll á Fáskrúðsfirði.

c. Daníel Andrés verzlunarm. í Rvík.

---

1) 15. apríl.

Dalasýslu og sjálfsagt í Snæfellsnessýslu, þá hann tók hana að veitingu. Þótti hann aðgætinn og ekki óheppinn í dómaraverkum.

Veturinn 1848 lagðist sýslumaður Árni í sinni vana brjóstveiki, því hann var ætíð mjög plágaður af henni; þó læknisaðstoðar væri leitað dugði það ekki. Honum þyngdi æ meir og meir, þar til hann lézt af téðum sjúkdómi 1848. Hann var jarðaður að Setbergi. Árni var útskrifaður af Geir biskupi sumarið 1824[1]), en lært hafði hann að öllu í heimaskóla hjá Jóni kaupmanni í Stykkishólmi vel lærðum í skólalærdómi Kolbeinssyni prests, fór þá utan og var 2 ár við lögfræði og stóð próf í dönskum lögum með vitnisburði „bekvem". Árni var stjórnsamur, röggsamur og óvílinn sýslumaður hvarvetna.

### Þorvaldur Sigurðsson.

(Sjá um hann við Dalasýslu). Þá Árni sýslumaður deyði setti amtmanns fullmektugur Jón sýslumaður Pétursson á Stapa Þorvald Sigurðsson administrator fyrir Snæfellsnessýslu. En ei vildi hann taka á móti constitution fyrir Stapaumboði; var því í bráð fyrir það settur kaupmaður Árni Thorlacius[2]).

---

## Viðauki.

### Páll Pálsson Melsted.

Hann var settur sýslumaður í Snæfellsnessýslu 19. maí 1849, og þjónaði henni þangað til Bogi Thorarensen tók við 1854. Bjó Páll þá í Bjarnarhöfn, en síðar þjónaði hann Gullbringu- og Kjósarsýslu (sjá um hann þar).

---

1) Þetta ártal er skakkt, eins og auðséð er, því að Geir biskup andaðist 1823. Árni var útskrifaður af kennurum Bessastaðaskóla 1825.

2) Sjá um Þorvald Sivertten II, 738—741 og vísast til þess hér. Hann var settur í Snæfellsnessýslu 1. apríl 1848 og þjónaði henni þangað til Páll Melsted tók við henni árið eptir.

## Bogi Bjarnason Thorarensen.

Hann fékk veitingu fyrir Snæfellsnessýslu 30. apríl 1854 og settist þá að í Stykkishólmi, en fékk Mýrasýslu 11. maí árið eptir og Dalasýslu 8. maí 1860 (sjá um hann þar II. B. bls. 745).

## Árni Ólafsson Thorlacius.

*Faðir*: Ólafur Thorlacius kaupmaður á Bíldudal (f. 1761, † 13. janúar 1815) Þórðarson bónda í Hlíðarhúsum († 13. apríl 1811 79 ára) Sighvatssonar í Hlíðarhúsum Þórðarsonar frá Ormsstöðum í Grímsnesi Þorkelssonar á Ormsstöðum Þórðarsonar. Kona Þórðar Sighvatssonar og móðir Ólafs Thorlaciusar var Ingiríður († 4. maí 1800) dóttir Ólafs Thorlaciusar prests í Stóradal († 1752) launsonar Jóns sýslumanns Thorlaciusar Jónssonar sýslumanns Þorlákssonar á Víðivöllum í Fljótsdal. Hefur Ólafur kaupm. tekið sér ættarnafnið Thorlacius eptir móðurföður sínum eða ef til vill verið skírður Ólafur Thorlacius eptir honum, því að slíks voru þá dæmi t. d. um Halldór biskup Brynjólfsson, er lét einn son sinn heita Björn Thorlacius.

*Móðir*: Guðrún (f. í febr. 1765) Oddsdóttir lögréttumanns Hjaltalíns á Rauðará Jónssonar sýslumanns Hjaltalíns Oddssonar (sjá Gullbringusýslu).

*Kona*: Anna Magdalena († 2. apríl 1894) dóttir Daníels Steenbachs kaupmanns á Önundarfirði, er var norskur að ætt og kom hingað 1788.

*Börn*: A. Ólafur Daníel Theodor Thorlacius (f. 8. maí 1828, † í Rvík 31. ágúst 1904) kaupmaður um hríð í Stykkishólmi, átti Guðrúnu Jósepsdóttur læknis á Hnausum Skaptasonar, þ. b.:

1. Jósep dó 19. nóv. 1893 17 ára.
2. Árni búfræðingur í Rvík.
3. Guðrún átti Hinrik verzlunarmann í Reykjavík son Jóns Thorsteinssons á Grímsstöðum Árnasonar sýslumanns Þorsteinssonar (sjá hér áður bls. 242).

4. Jórunn gipt Magnúsi Þórarinssyni rakara í Rvík, eiga börn.
5. Björnólfur ljósmyndari, fór til Ameríku.
6. Arnkell lærði stýrimannafræði.
7. Ólína.

B. Anna María Guðrún (f. 15. desember 1829) átti 4. okt. 1855 Egil Sveinbjarnarson Egilsson verzlunarstjóra í „Glasgow" m. fl. († 14. jan. 1896) og var f. k. hans, þau bl.

C. Antonía Jósefína (f. 2. marz 1834, † 21. febr. 1901) átti Boga Bjarnason Thorarensen sýslumann á Staðarfelli og börn (II, 745).

D. Ólafur Kristján Þorleifur Thorlacius (f. 2. des. 1837) bóndi í Sellóni í Helgafellssveit, kvæntur Önnu Jónsdóttur frá Grundarfirði Daníelssonar og Guðrúnar Jónsdóttur prests Hjaltalíns, þau bl.

E. Ólína s. k. Egils Sv. Egilssons, dó í Rvík 3. apríl 1881, bl.

F. Jóhanna Lovísa f. 9. júlí 1839, † 12. s. m.

G. Guðrún f. 8. maí 1840, dó þegar.

H. Hans f. 22. jan. 1842, † 29. s. m.

I. Hans f. 14. jan. 1843, † 15. s. m.

K. Hans Árni Emil f. 8. nóv. 1849, † 16. s. m.

L. Árni f. 26. okt. 1850, † 28. s. m.

Árni Thorlacius var fæddur á Bíldudal 12. maí 1802[1]). Hann nam á unga aldri verzlunarfræði í Kaupmannahöfn, en setti svo á fót verzlun í Stykkishólmi, hætti þó brátt við hana aptur og lifði af eignum sínum. Hann var mjög lengi umboðsmaður Arnarstapa- og Skógarstrandarjarða, en lét af þeirri umboðsmennsku 1882, er hann var attræður. Hann var þrisvar settur sýslumaður í Snæfellsnessýslu, fyrst haustið 1855, þá er Bogi Thorarensen flutti burt til vorsins 1856, þá er Árni Thorsteinsson tók við, svo aptur sumarið 1861, þá er Árni sýslumaður flutti suður, og þangað til Böving tók við sýslunni í október 1863. Síðast var Árni Thorlacius settur sýslumaður við burtför Bövings vorið 1869, og þjónaði

1) Sbr. Sunnanfara 5. árg. 1896 nr. 9. Prestsþjónustubók Otrardals frá þeim tíma er glötuð.

hann þá Snæfellsnessýslu, unz Skúli Magnússon tók við henni sumarið 1871. Árni Thorlacius andaðist í Stykkishólmi 29. apríl 1891 vetri miður en níræður. Hann var atgervismaður mikill á margan hátt, einkum að karlmennsku og fimleik, vel að sér og fróður um margt, hélt um langt skeið (yfir 60 ár) veðurbækur merkilegar, sem nú eru í Landsbókasafninu (í 16 bindum).

Æfiágrip hans eptir dr. Jón Þorkelsson landskjalavörð er prentað í Sunnanfara 5. árg. 1896 nr. 9 og fylgir því mynd af Árna á gamalsaldri.

## Árni Bjarnason Thorsteinsson.

*Faðir*: Bjarni Thorsteinsson amtmaður í Vesturamtinu (f. 31. marz 1781 † 3. nóv. 1876) Þorsteinsson bónda í Mýrdal Steingrímssonar frá Þverá í Skagafirði Jónssonar lögréttumanns Steingrímssonar Guðmundssonar í Lóni í Viðvíkursveit.

*Móðir*: Þórunn (f. 30 júlí 1794, † 28. marz 1886) Hannesdóttir biskups í Skálholti Finnssonar biskups.

*Kona*: Soffía Kristjana (f. 14. jan. 1839) Hannesdóttir kaupmanns Johnsen í Reykjavík Steingrímssonar biskups Jónssonar. Þau hjón eru systkinabörn, því að Þórunn kona Bjarna amtmanns og Hannes Johnsen voru systkin sammæðra og móðir þeirra Valgerður Jónsdóttir sýslumanns á Móeiðarhvoli Jónssonar. Þau Árni landfógeti og Soffía giptust 8. september 1861.

*Börn*:

A. Hannes (f. 2. okt. 1863) cand. jur., ritari við Íslandsbanka í Reykjavík, ókv.

B. Þórunn (f. 10. apríl 1866) átti 8. september 1887 Franz Siemsen sýslumann í Gullbringu- og Kjósarsýslu eiga 4 börn (sjá þar).

C. Árni (f. 15. okt. 1870) stúdent, ljósmyndari í Reykjavík, átti 15. september 1900 Helgu (f. 22. okt. 1875) Einarsdóttur dbrm. á Hraunum og síðar Haganesi í Fljótum Guðmundssonar Einarssonar eldra á Hraunum Guðmundssonar á Bakka í Svarfaðardal Jónssonar Þorsteinssonar í Sigluvík Eiríkssonar á Skugga-

björgum í Dalsmynni Árnasonar frá Lundi í Fnjóskadal, þ. b.:
1. Soffía f. 7. ágúst 1901.
2. Jóhanna f. 23. ágúst 1903.
D. Sigíður (f. 11. júní 1872, † 29. jan. 1905) átti 11. ágúst 1894 Pál Einarsson sýslumann í Burðastrandarsýslu og síðar i Gullbringusýslu og 2 börn (sjá Gullbringusýslu).
E. Bjarni (f. 14. júní 1875).

Árni Thorsteinsson er fæddur á Arnarstapa 5. apríl 1828, kom í Bessastaðaskóla haustið 1844 og var þar 2 síðustu veturna, er skólinn var þar haldinn, en 1 vetur í Reykjavíkurskóla og útskrifaðist þaðan í júlí 1847, sigldi samsumsumars til háskolans og tók aðgöngupróf (examen artium) s. á. með 2. einkunn, en 2. lærdómspróf 2. maí og 2. nóv. 1848 einnig með 2. einkunn og embættispróf í lögum 19. júní 1854 með 2. einkunn í báðum prófum. Hann kom út hingað 1855 og fékk veitingu fyrir Snæfellsnessýslu 31. marz 1856. Meðan hann hélt sýsluna dvaldi hann í Stykkishólmi. Hinn 18. febrúar 1861 var hann skipaður landfógeti og bæjarfógeti í Reykjavík, og þjónaði hann þeim embættum báðum þangað til þau voru aðskilin með konungsbréfi 31. janúar 1874 frá 1. júlí s. á., en eptir það þjónaði hann landfógetaembættinu eingöngu unz hann fékk lausn frá því 9. september 1904 fra 1. október s. á. Hann var sæmdur kanselliraðsnafnbót 26. maí 1867 og riddarakrossi dannebrogsorðunnar 2. ágúst 1874, heiðursmerki dannebrogsmanna 24. júní 1895, og kommandörkrossi 2 stigs dannebrogsorðunnar 9. september 1904 um leið og hann fékk lausn frá embætti. Frá 1. júlí 1877 til 30. apríl 1878 var hann jafnframt embætti sínu settur 2. meðdómandi og dómsmálaritari í yfirdóminum og hefur opt verið skipaður þar meðdómandi í einstökum málum í forföllum yfirréttardómaranna, eða þá er einhver þeirra hefur vikið sæti. 1877 varð hann konungkjörinn þingmaður og sat a öllum þingum þaðan frá til 1903. Hann var forseti sameinaðs þings 1885, en forseti efri deildar 1886, 1887 og 1893—1903 eða alls á 10 þingum.

Æfiágrip hans með mynd af honum er prentað í Sunnanfara VI. árg. 1896 nr. 2.

## Præben Theodor Emanuel Böving.

Hann var danskur að ætt og tók próf í lögum 1862, en 25. júlí 1863 var honum veitt Snæfellsnessýsla og tók við henni í október s. á., en Borgarfjarðarsýslu fékk hann 12. september 1868 og síðar Norður-Múlasýslu 1871 (sjá um hann þar). Meðan hann var sýslumaður í Snæfellsnessýslu átti hann heima í Stykkishólmi. Hann flutti til Borgarfjarðar vorið 1869.

## Skúli Magnússon Nordahl.

Hann fékk veitingu fyrir Snæfellsness- og Hnappadalssýslu 22. maí 1871, en með konungsbréfi 4. marz s. á. hafði Hnappadalssýsla verið sameinuð Snæfellsnessýslu og hefur svo haldizt síðan, en áður var Hnappadalssýsla lengi í sambandi við Mýrasýslu. Skúli sýslumaður settist að í Stykkishólmi, en 5. nóvember 1877 var honum veitt Dalasýsla og tók við henni vorið 1878 (sjá frekar um hann II, 750).

## Sigurður Jónsson.

*Faðir*: Jón bóndi í Steinanesi við Arnarfjörð († 11. nóv. 1856) Jónsson bónda á Suðureyri Jónssonar og höfðu langfeðgar hans búið þar á Suðureyrl hver eptir annan um langan aldur.

*Móðir*: Margrét († 5. desember 1888) Sigurðardóttir prófasts á Rafnseyri († 31. okt. 1855) Jónssonar prests s. st († 21. sept. 1821) Sigurðssonar bónda í Ásgarði í Grímsnesi Ásmundssonar s.st. Sigurðssonar s.st. Guðnasonar lögréttumanns í Tungufelli í Ytrihrepp Jónssonar prests í Kálfholti Stefanssonar prests í Odda († 28. febr. 1615) Gíslasonar biskups í Skálholti Jónssonar[1]). Margrét var systir þeirra Jóns Sigurðssonar og Jens rektors.

*Kona*: Guðlaug († 7. janúar 1904) Jensdóttir rektors Sigurðssonar, þau systkinabörn, voru barnlaus.

---

1) Þannig er ætt þessi rétt rakin fram, en skakkt í Tímariti Jóns Péturssonar III, B. bls. 31—32, þótt þar sé reyndar þess getið, að ættin sé sumstaðar svona rakin. Jón Sigurðsson sjálfur virðist hafa talið ætt sína eins og J. P. í beinan karllegg frá Lopti ríka og Torfa í Klofa.

Sigurður var fæddur á Steinanesi við Arnarfjörð 13. október 1851, en var tekinn ungur til fósturs af Jóni Sigurðssyni móðurbróður sínum og ólst upp hjá honum í Kaupmannahöfn, útskrifaður úr Borgaradyggðarskólanum þar 1869[1]) með 2. einkunn, tók próf í heimspeki 21. júní 1870, en embættispróf í lögfræði 3. júní 1875 með 2. einkunn. Var svo í lögregluliði Kaupmannahafnar og í íslenzku stjórnardeildinni, en fékk veitingu fyrir Snæfellsness- og Hnappadalssýslu 12. apríl 1878, kvæntist svo og settist að í Stykkishólmi. Var þingmaður Snæfellinga á aukaþinginu 1886. Hann andaðist í Stykkishólmi 15. nóvember 1893. Hann hafði mikinn áhuga á þjóðmálum og ritaði ýmsar pólitiskar greinar á Hafnarárum sínum. Var drenglyndur maður og vinfastur, manna gervilegastur á velli og álitlegastur, hraustmenni til burða og af sumum kallaður Sigurður Víkingur.

## Sigurður Eggertsson Briem.

*Faðir*: Eggert Gunnlaugsson Briem, síðast sýslumaður í Skagafjarðarsýslu († 11. marz 1894). Sjá um hann I, 293—294, 432 og II, 249.

*Móðir*: Ingibjörg († 15. sept. 1890) Eiríksdóttir sýslumanns Sverrissonar (sjá Rangárþing).

*Kona*: Guðrún (f. 25. maí 1876) Ísleifsdóttir prests í Arnarbæli († 21. okt. 1892) Gíslasonar Einars prests í Kálfholti († 10. júlí 1851) Ísleifssonar háyfirdómara á Brekku á Álptanesi Einarssonar. Þau giptust 22. júní 1899.

*Börn*:
A. Kara f. 1. apríl 1900.
B. Gunnlaugur f. 30. marz 1901.
C. Ása f. 14 júní 1902.
D. Páll. E. Ísleifur, tvíburar, fæddir 24. desember 1904, en Páll dó 23. janúar 1906.

Sigurður Briem er fæddur á Espihóli í Eyjafirði 12. september 1860, kom í skóla 1877 og útskrifaðist 1883 með 1. einkunn, sigldi þá samsumars til háskólans og tók próf í heimspeki 23. júní 1884 með ágætiseinkunn, en embættispróf

---

1) Ekki 1870 eins og segir í Lögfr.tali M. St. (Tímar. Bókm.-fél. III, 250).

í stjórnfræði (Statsvidenskab) 29. janúar 1889 með 2. einkunn, kom þá út hingað um vorið og hafði á hendi ýms störf, málsfærslu, skuldainnheimtu o. fl. í Reykjavík næsta vetur, en 9. október 1890 var hann settur til að þjóna sýslumannsembættinu í Árnessýslu frá 1. nóv. s. á., þá er Stefán sýslumaður Björnsson fékk lausn, og þjónaði hann henni þangað til Sigurður sýslumaður Ólafsson tók við vorið eptir. Var hann þann vetur (1890—91) til heimilis á Eyrarbakka, en 26. apríl 1891 var hann settur sýslumaður í Vestmanneyjum frá 1. maí s. á., og þjónaði henni 3 mánuði (maí, júní og júlí) þangað til Jón sýslumaður Magnússon tók við. Eptir það dvaldi Sigurður í Reykjavík, þangað til hann var settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu 26. júlí 1893 frá 1. ágúst s. á., en þjónaði þar ekki nema 2 mánuði ágúst og september, þangað til Páll sýslumaður Einarsson tók við. Dvaldi Sigurður þá mánuði á Patreksfirði. Hinn 25. nóvember s. á. (1893) var hann settur sýslumaður í Snæfellsness- og Hnappadalssýslu eptir lát Sigurðar sýslumanns Jónssonar frá 1. desember. Gegndi Sigurður Briem sýslumannsverkum þar 8 mánuði, þangað til Lárus sýslumaður Bjarnason tók við 1. ágúst 1894, en þá jafnharðan tók Sigurður við sýslumannsembættinu í Ísafjarðarsýslu og bæjarfógetaembættinu á Ísafirði, er hann hafði verið settur til að gegna 7. júlí, og þessum embættum þjónaði hann, þangað til Hannes Hafstein tók við þeim vorið 1896. Þá um haustið sigldi Sigurður Briem til útlanda og dvaldi í Englandi og í Danmörku veturinn 1896—97, en 7. júlí 1897 var hann skipaður póstmeistari í Reykjavík eptir fráfall Óla Finsens og tók við því embætti þá þegar. Hann er einn af þremur þingkjörnum fulltrúum í stjórnarráði Íslands banka síðan 1902.

## Lárus Hákonarson Bjarnason.

*Faðir*: Hakon kaupmaður á Bíldudal, er úti varð á Mýrdalssandi 2. apríl 1877 Bjarnason prests á Söndum í Dýrafirði Gíslasonar prests á Hafsteinsstöðum Oddssonar prests á Miklabæ, er hvarf 1. okt. 1786, Gíslasonar biskups á Hólum Magnússonar.

*Móðir*: Jóhanna Kristín († 11. jan. 1896) Þorleifsdóttir

prófasts í Hvammi í Hvammssveit († 5. maí 1883) Jónssonar prófasts Gíslasonar (sbr. II, 387—388).

*Kona*: Elín (f. 2. febr. 1869, † 26. ágúst 1900) dóttir Jörgens Péturs Havsteens amtmanns og systir Hannesar Hafstein ráðherra (II, 752). Þau Lárus sýslumaður og Elín giptust 3. ágúst 1895.

*Börn*: A. Jóhanna Kristín f. 22. maí 1896.
B. Pétur Hafsteinn f. 15. nóvember 1897.

Lárus sýslumaður, er heitir fullu nafni Lárus Kristján Ingvaldur, er fæddur í Flatey á Breiðafirði 27. marz 1866, útskrifaður úr skóla sem utanskólasveinn 1885 með 2. einkunn, sigldi þá til háskólans og tók próf í heimspeki 26. júní 1886 með ágætiseinkunn, en embættispróf í lögfræði 1. júní 1891 með 1 einkunn, kom það sumar út hingað og var settur málfærslumaður við landsyfirréttinn 1. júlí (1891) frá 1. ágúst s. á., en 26. ágúst 1892 var hann settur til að gegna sýslumannsembættinu í Ísafjarðarsýslu og bæjarfógetaembættinu á Ísafirði frá 1. sept. s á., þá er Skúla sýslumanni Thoroddsen var vikið frá embætti. Þjónaði Lárus þeim embættum til 1. ágúst 1894, að hann tók við Snæfellsness- og Hnappadalssýslu, er honum hafði verið veitt 30. maí s. á. Hefur hann síðan búið í Stykkishólmi. Hann hefur setið á alþingi 1901, 1902, 1903 og 1905 sem þingmaður Snæfellinga (og Hnappdæla) og var varaforseti sameinaðs þings 1905. Hann er einn af þremur þingkjörnum fulltrúum í stjórnarráði Íslands banka síðan 1902, var skipaður ásamt fjórum öðrum í milliþinganefnd í kirkjumálum 22. apríl 1904 og formaður þeirrar nefndar 28. september 1905, en forseti í amtsráði Vesturamtsins var hann skipaður 23. september 1904. Hann var sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar 8. nóvember 1904.

# VI. Hnappadalssýsla.

Þeir gömlu þingstaðir í Hnappadalssýslu:

1. Kaldárbakki í Kolbeinsstaðahreppi.
2. Hrossholt í Eyjahreppi.
3. Fáskrúðarbakki í Miklaholtshreppi.

Þórnessþing kallaðist fyr það af Vestfirðingafjórðungi, sem liggur milli Hítarár (sem aðskilur Mýrasýslu) og Gilsfjarðarbotns (er fráskilur Barðastrandarsýslu). Nafnið mun vera dregið af Þórnesi, hverju Þórólfur Mostrarskegg, fyrsti landnámsmaður innan téðra takmarka, gaf það nafn, af því að öndvegissúlur hans báru þar á land. Í heiðindómi var þar fyrst eitt goðorð, sem Þórólfur hafði, en brátt urðu fleiri, eptir því sem höfðingjar fjölguðu og landið varð þéttbyggðara; voru og goðorð ekki bundin alltíð við víst takmark. Í téðum fornöldum voru þessir goðar merkilegastir innan téðra takmarka: Þórólfur Mostrarskegg, Þorsteinn son hans, Þorgrímur Kjallaksson, Þórður gellir, Þorgrímur Þorsteinsson, Snorri hans son, Hofgarða-Refur. Þessir voru allir hofgoðar. Upptókust þá og önnur smærri goðorð af ýmsum, svo sem: Styr á Hrauni og Vermundur í Bjarnarhöfn bróðir hans, Arnkell á Bólstað, Þórður gellir, Ólafur pá, Steindór á Eyri, Þorgils Hölluson og fleiri.

Snorri goði varð þó drjúgastur þeirra með völd, og hafði mestan hluta goðorða í Þórnessþingi eptir 1008 til þess hann deyði 1031. Mána-Ljótur son hans tók þar næst goðorð hans, fækkuðu þá þingmenn og eins meðan Þórður Gilsson hafði það. Hvamm-Sturla Þórðarson hélt því vel við, þó Þorgils Oddason væri ríkari og fjölmennari goði. Oddi Þorgilsson var og goði eptir föður sinn; en þá synir Hvamm-Sturlu mönnuðust, hrifu þeir til sín goðorð í Þórnessþingi og víðar annarstaðar. Eptir þeirra dauða minnkaði hér á landi vald stórmennis, þó Staðar-Böðvar, Sturla Þórðarson, Skarðsmenn (ɔ: synir Snorra) og Guðmundur Böðvarsson hefðu nokkur völd um hríð, varaði það ei lengi, því Hákon Noregskonungur tók þá öll yfirráð landsins og skipaði sýslumenn, er seinna kölluðust hirðstjórar eða höfuðsmenn eða lénsmenn og seinast stiptamtmenn yfir landið eða nokkura hluta þess.

Sá fyrsti af þeim var Snorri Sturluson lögmaður gerður

jarl af Skúla hertoga, hafði þó ei meira vald þá út kom, en sitt eigið umdæmi, og var veginn af dótturmanni sínum Gissuri að ráðum Hákonar konungs. Annar Þórður kakali settur af Hákoni konungi um litla hríð, og eru þessir ei teljandi. Þriðji var Gissur jarl; í hans tíð komst landið undir kong. Fjórði var Rafn Oddsson, er duglega vörn gerði bændum móti biskupsvaldinu, enda entist ekki til að lifa svo lengi, að konungsdómur féll í Staðamálum. Þar eptir var mikill fjöldi hirðstjóra settir af kongi (sjá hirðstjóraannál séra Jóns Halldórssonar). Maktarmenn í ýmsum héruðum voru umboðsmenn hirðstjóra (hverra getið er í öðrum stað). Sagnafátt er að geta þá upptalið, einkum í eldri tíðum, til þess konungur sjálfur setti reglulega sýslumenn, og skipt var að fullnustu landinu í sýslur.

Eg vil láta í ljósi mína meiningu, án þess eg hafi nokkra fullvissu um merkismenn, hvort þeir hafi haft sýsluvald í þeim hluta Þórnessþings, er nú kallast Hnappadalssýsla.

Þá fleiri fóru að troða sér inn í sýslumannsembætti, var skipt sýslum í sundur og gerðust þær smærri, þar á meðal var Þórnessþingi skipt í tvo parta fyrst, kallaðist syðri parturinn Snæfellsness- og Hnappadalssýslur, en hin nyrðri Dalasýsla, stóð svo um hríð. Eptir 1600 var aptur syðri partinum skipt í tvö sýslumannsumdæmi, var syðsti hlutinn af Þórnessþingi kallaður Hnappadalssýsla, en miðhlutinn Snæfellsnessýsla, og hafði hver sýslumaður út af fyrir sig téðar sýslur.

Þau héruð sem liggja millum Hítarár og Straumfjarðarar kallast *Hnappadalssýsla*, og er hún sú minnsta á landinu auðveld yfirferðar og ekki utan 3 þingstaðir. Hún lagðist 1787 til Mýrasýslu og er síðan einn sýslumaður yfir baðum þeim sýslum[1]).

---

## [**Viðauki.**

Með því að Hnappadalssýsla var sameinuð Snæfellsnessýslu og því sömu valdsmenn í báðum sýslunum fram yfir 1600 eða fram

1) Hnappadalssýsla var sameinuð Mýrasýslu 84 ár (1787—1871), en síðan 1871 er hún sameinuð Snæfellsnessýslu.

á daga Sæmundar sýslumanns Árnasonar (bls. 88) þá vísast til þess, sem sagt er hér áður (bls. 1—88) um valdamenn og sýslumenn í Snæfellsnessýslu, er jafnframt hafa verið valdamenn eða sýslumenn í Hnappadalssýslu.

Hér virðist þó ástæða til að geta sérstaklega eins manns, er átti heimili í Hnappadalssýslu, enda þótt óvíst sé um nokkur sýsluvöld hans, en það er

## Einar Þórólfsson.

Hann bjó á Hofsstöðum í Miklholtshreppi og mun fæddur um 1440—1450. Kemur fyrst við bréf 1478 (Ísl. Fornbr.s. VI, 165), en síðar mjög opt næstu 20—30 ár, og hefur lifað fram yfir 1510, en látinn er hann 1511. Hann var síðast prófentumaður á Helgafelli, og er sá prófentugerningur gerður 8. jan. 1493 (F.br.s. VII, 156—157). Einar var um tíma fyrir og um 1490 umboðsmaður hirðstjórans Diðriks Pinings og auðsjáanlega allmikill »maktarmaður« og auðugur, en ekki verður beinlínis séð af bréfum, að hann hafi haft sýsluvöld í Snæfellsness- og Hnappadalssýslu, þótt alllíklegt sé, að svo hafi verið.

Framætt Einars Þórólfssonar er gersamlega ókunn að öðru leyti en því, að móðir hans hét Ástríður Sæmundsdóttir, og hefur átt hluta úr jörðinni Brimilsvöllum, er Einar keypti alla 1485 (F.br.s. VI, 544). Bræður Einars hafa verið:

1. Þorleifur Þórólfsson. Hann fær Einari bróður sínum þann part í Brimilsvöllum, er hann hafði erft eptir móður sína. Þetta var gert á Öxarárþingi 2. júlí 1480, en vitnisburðarbréfið um þetta er ritað á Helgafelli 23. jan. 1481 (F.br.s. VI, 278—279). Hann mun vera sá Þorleifur Þórólfsson, er Jón Helgason »sló í hel« ófyrirsynju. Fékk Jón lausn af Stefáni biskupi fyrir það misferli 1501 (F.br.s. VII, 577).
2. Ásgrímur Þórólfsson nefndur í bréfinu um Brimilsvelli 1480.
3. Ormur Þórólfsson, er Magnús biskup Eyjólfsson gefur jörðina Oddastaði í Hnappadal 3. okt. 1478 (F.br.s. VI, 164—165) mun vera bróðir Einars.

Einar Þórólfsson hefur átt eignir í Skagafirði, því að 10. ágúst 1501 selur hann Halli Sigurðssyni alla jörðina Minni-Dal (Sesseljudal) í Blönduhlíð fyrir Einholt í Biskupstungum (F.br.s. VII, 580—581). Þykir mér ekki ósennilegt, að Einar hafi einmitt verið kominn af ætt Bergþórs Einarssonar auðmanns úr Skagafirði, því að nöfnin Þorleifur og Þórólfur koma þar allopt fyrir. Ætt sú hefur að vísu ekki verið rakin áður, en það má með nokkurnveg-

inn óyggjandi vissu rekja hana frá Bergþóri niður á 15. öld seint og eflaust lengra niður.

Bergþór Einarsson auðmanns og Ingibjargar Bergþórsdóttur Jónssonar Brandssonar (F.br.s. II, 621, 864) er nefndur í rekaskrá Skálholtsstaðar 1327 (F.br.s. II, 621—22), en hefur þá verið látinn fyrir nokkru. Bræður hans voru Brandur og Þorgrímur á Stað í Steingrímsfirði (II, 253—254). Af ætt Bergþórs, (ef til vill son Bergþórs Brandssonar Einarssonar), hefur eflaust verið:

Þorleifur Bergþórsson prestur, ráðsmaður á Reynistað, nefndur fyrst í bréfi gerðu á Grenjaðarstöðum 28. ágúst 1350 (F.br.s. II, 858) og opt síðar, en síðast 1381 (F.br.s. III, 358—359) og er þá vottur að kaupgerningi í Laufási. Synir hans hafa verið:

1. Bergþór Þorleifsson kemur við bréf á Hólum í Blöndudal 1380 (F.br.s. III, 351).
2. Brandur Þorleifsson kemur við bréfið í Laufási 1381 ásamt föður sínum (F.br.s. III, 358—359). Brandur hefur líklega átt dóttur Eilífs Eiríkssonar (F.br.s. III, 359) og systur Þórálfs (Þórólfs) Eilífssonar (F.br.s. III, 661, 681—682). Synir Brands hafa verið:
   a. Ormur Brandsson (þó óvíst). Hann er kaupvottur að bréfi gerðu í Vallholti í Skagafirði 1. júní 1415 (F.br.s. III, 759).
   b. Þorfinnur Brandsson kemur við bréf í Geldingaholti 29. febr. 1388 (F.br.s. III, 424) og í Vík í Sæmundarhlíð 2. maí 1395 (F.br.s. IV, 26). Þó vil eg ekki fullyrða, að hann sé sonur Brands Þorleifssonar, en hinsvegar má telja víst, að synir Brands hafi verið:
   c. Þórólfur Brandsson, átti Guðrúnu Bjarnadóttur. Þau selja í Glaumbæ 30. jan. 1428 jörðina Flatatungu í Skagafirði (F.br.s. IV, 352—353). Synir hans hafa verið:
      aa. Brandur Þórólfsson kemur við bréf vestra (á Skarði á Skarðsströnd) síðast 1467 (F.br.s. V, 447, 483; VI, 55).
      bb. Þorfinnur Þórólfsson prestur á Kvíabekk er á lífi 1479, en kemur fyrst við bréf 1434 (sbr. F.br.s. IV, 370, 546—547; V, 44, 257, 366, 513; VI, 60, 205).
   d. Þorleifur Brandsson. Hann kaupir hálfa jörðina Hleiðargarð af Sigurði Jónssyni 21. okt. 1412. (F.br.s. III, 748—749). Hann er og kaapvottur að bréfi gerðu á Hálsi í Fnjóskadal 6. ágúst 1432 (F.br.s. IV, 507) og 1. okt. s. á. vottar hann á Möðruvöllum um fjórðungsgjöf og löggjafir Lopts Guttormssonar (F.br.s. IV, 516). Einar Þórólfsson á Hofstöðum gæti vel verið sonarson Þorleifs Brandssonar.

Að vísu kemar Þórólfur Þorleifsson hvergi fyrir í bréfum á þessum tíma, en það er ekki að marka. Vitanlega gæti Einar Þórólfsson ættarnafnanna vegna eins verið sonarson Orms Brandssonar (bróður Þorleifs?) sjá hér á undan. En það er eins með það. Þórólfur Ormsson kemur hvergi fyrir og yfir höfuð ekki neinn Þórólfur á Vesturlandi um miðbik 15. aldar, er geti verið faðir Einars og þeirra bræðra. Þó er ólíklegt, að þeir hafi verið mjög lítilla manna, og því hygg eg áreiðanlegt, að ætt þeirra sé úr Skagafirði (og Eyjafirði) frá Brandi Þorleifssyni Bergþórssonar. Brandur Þórólfsson (Brandssonar) hefur flutt að norðan vestur, líklega með Ólöfu Loptsdóttur, enda kemur hann einmitt fyrir í bréfum á Skarði. Er þá ekki ólíklegt, að Þórólfur frændi hans (Þorleifsson eða Ormsson) faðir Einars og þeirra bræðra hafi flutt vestur um sama leyti og kvænzt þar Ástríði Sæmundardóttur. Annars verður lítið um þetta sagt með fullri vissu að svo stöddu. Getur verið, að síðar komi í ljós bréf, er gefi einhverja skýringu í þessu efni, þótt ólíklegt sé reyndar, með því að öll bréf fram yfir 1500 eru komin á prent.

Einar Þórólfsson var kvæntur Katrínu Halldórsdóttur ábóta á Helgafelli Ormssonar, og voru börn þeirra:

1. Þórður prestur í Hítardal. Fylgikona hans var Þuríður stóra (eða stórráða) Einarsdóttir frá Haukadal í Biskupstungum Guðmundssonar, þ. d: a) Jórunn kona Þórðar lögmanns Guðmundssonar; þaðan mikil ætt. b) Þórunn átti séra Finnboga Gíslason á Hofi í Vopnafirði, þ. b. Sturla prestur á (Hofi og) Skeggjastöðum, Herníet, Gróa, Una, Solveig, Margrét.
2. Ormur í Saurbæ á Kjalarnesi, er veginn var í Viðey 1519 af Erlendi Þorvarðssyni mági sínum. Son Orms Halldór í Saurbæ faðir Eyjólfs sýslumanns í Rangárþingi (sjá þar). Frá honum mjög fjölmenn ætt.
3. Þorleifur sýslumaður á Hofsstöðum (sbr. hér á undan bls. 22—23. n. m.).
4. Jón prestur í Odda á Rangárvöllum, sá er fyrstur aðhylltist siðabótina hér á landi.
5. Ingunn átti Gísla Jónsson á Ánastöðum nyrðra, þ. b.:
   a. Jón »gamli Adam« prestur á Melstað. Frá honum ættir.
   b. Jón annar norður á Tjörnesi. Þaðan ættir.
   c. Einar átti Sigríði Þórarinsdóttur og börn.

   Ingunn átti síðar 2 syni með Einari Bessasyni, Jón og Árna. Svo segir Jón Magnússon bróðir Árna assessors.

6. Ragnhildur átti Jón Þórðarson á Hvanneyri í Andakíl bróður Vigfúsar (ríka Fúsa) á Borg, þ. b.:
   a. Eiríkur prestur í Reykholti faðir Einars bónda á Hvanneyri, Sesselju konu Steindórs sýslumanns Finnssonar (II, 350) og Ástu móður séra Jóns Þorsteinssonar píslarvotts í Vestmannaeyjum.
   b. Magnús. Börn hans: Jón prestur á Hesti († 1603), Jón annar og Katrín.
   c. Sigríður átti Bjarna Þorleifsson frá Þykkvaskógi.
7. Þórunn átti fyr Jón Torfason, bl., svo Björn Jónsson á Eyvindará austur, þ. b.:
   a. Þórður faðir Ragnhildar konu Björns sýslumanns Gunnarssonar (sjá Múlaþing).

Einar Þórólfsson á Hofsstöðum hefur orðið afar kynsæll maður, og er fjöldi manna frá honum kominn].

---

## Árni Sæmundsson.

(Sjá um hann við Snæfellsnessýslu)[1]. Hann mun fyrstur hafa tekið þessa sýslu út af fyrir sig, þá faðir hans tók Snæfellsnessýslu 1615; bjó hann þá fyrst í Miðgörðum þar til hann flutti að Arnarstapa 1618 og deyði þar 1623. Hann hafði Stapaumboðs forræði fyrir föður sinn og bræður og að nokkrum hluta fyrir sjálfan sig. Hnappadalssýslu hélt hann meðan hann lifði í 9 ár frá því hann tók hana. En hafði lögsögn í Snæfellsnessýslu fyrir föður sinn.

## Steindór Gíslason.

(Sjá Snæfellsnessýslu). Í veikindum Árna Sæmundssonar og eptir hans dauða var Steindór settur til að gegna sýslumannsverkum í Hnappadal, og lét ganga dóm að Hróksholti um fúlgufé.

## Páll Erlendsson.

*Faðir*: Erlendur prestur á Breiðabólsstað í Vesturhópi sonur Páls sýslumanns á Holtastöðum Grímssonar sýslumanns í Vöðluþingi Pálssonar Brandssonar lögmanns.

*Móðir*: Björg Kráksdóttir Hallvarðssonar á Auðunnarstöðum (sjá Húnavatnsþing).

*Kona*: Guðrún dóttir Nikulásar á Kjallaksstöðum og svo

---

1) Bls. 95—96 hér að framan.

að Brekkubæ við Hellna Oddssonar prests Þorsteinssonar. Var hún þá ekkja Árna heitins Sæmundssonar, en átti engin börn með Páli.

Páll tók Hnappadalssýslu 1624, ektaði þá ekkju formanns síns og bjó í Syðri-Görðum. Hann lét dóm ganga að Fáskrúðarbakka þann 20. maí 1625 og optar þar eptir. Það bar til 1637, að hann ferðaðist á Vestfjörðu. Er mælt hann hafi þá fengið undarlegan veikleik, (var kennt fjölkyngi), og deyði úr þeim sama kvilla 1637. Guðrún lifði lengi þar eptir og bjó í Görðum til þess Hákon sonur hennar tók þar við búi. 1637 þann 3. júní var á alþingi dæmt milli Páls Erlendssonar og séra Einars Kolbeinssonar um það, að Páll ásakaði prest um hald á tíund og skatti í 8 ár frá því að prestskapur hafði verið dæmdur af séra Einari. Var dæmt, að prestur ætti að svara tíund og skatti sem aðrir leikmenn og sekt fyrir hald á hvorutveggja.

## Runólfur Sigurðsson.

*Faðir*: Sigurður lögréttumaður í Einarsnesi Jónsson sama staðar (al. Guðmundssonar) Magnússonar sama staðar og Þorlaugar dóttur séra Ólafs Kolbeinssonar að Saurbæ.

*Móðir*: Ragnhildur dóttir séra Ásgeirs á Lundi Hákonarsonar sýslumanns Björgólfssonar Þorkelssonar vellings.

*Kona fyrsta*: Elín dóttir Guðmundar í Ólafsvík, sem dó 1647 Ásbjörnssonar. (NB. Guðmundur var auðmaður).

*Börn*: A. Jón sýslumaður í Hnappadal (sjá síðar).
B. Solveig átti séra Þorleif á Kvennabrekku Jónsson[1]), barnlaus.
C. Þórður.

*Kona önnur*: Ragnheiður dóttir séra Jóns Gottskalkssonar, er fyrst hélt Hvamm í Laxárdal, bjó seinast í Krossnesi í Eyrarsveit og deyði þar, þeirra börn:
D. Þorvarður átti Þórunni dóttur Eggerts Hann-

1) Solveig var f. k. séra Þorleifs. Dóttir þeirra talin Kristín (Bisks. II, 372).

essonar og Halldóru Hákonardóttur[1]). Þorvarður var uppvöðslumaður mikill og reið drukkinn út í Haukadalsvatnsós, er hann ætlaði að finna vinkonu sína og drukknaði 1673[2]. Börn hans og Þórunnar:

a. Runólfur átti Bergljótu Þorgilsdóttur, börn:
   aa. Þorvarður[3]).

---

1) Um börn Þorvarðs og Þórunnar er getið II, 319 (sbr. I, 350 og bls. 117 hér að framan).

2) Þá er Þórunn giptist Þorvarði var þetta kveðið:

Eggertsdóttir Þórunn þekk
þakin mörgum dyggðum
fékk hún leiðan flærðarrekk
fant úr Dalabyggðum.

(Esp.ætt. bls. 1207).

Þorvarður lét Þórunni illa, því að hann var mesti hrotti og drykkjumaður, segir Espólín.

3) Þorvarður átti Halldóru Egilsdóttur Sturlaugssonar Þorgrímssonar, þ. b.:

a. Ásgeir átti Guðrúnu Jónsdóttur á Vatnshorni Egilssonar og börn.
b. Þórdís átti Guðmund Steindórsson á Sauðafelli, þ. son: Guðmundur á Oddsstöðum o. fl.
c. Runólfur, Hans synir:
   aa. Snæbjörn († 1800) átti Abel Einarsdóttur, þ. b.: Jófríður, Snæbjörn, Ólafur.
   bb. Helgi á Skarfsstöðum. Hans son Jón.
d. Bergþór á Leikskálum átti Bergljótu Kolbeinsdóttur, þ. b.:
   aa. Þorvarður á Leikskálum átti Þjóðhildi Jósepsdóttur Árnasonar, þ. b.:
      × Bergþór á Leikskálum átti Kristínu Hallsdóttur, þ. b.: Kristbjörg og Þorvarður.
   bb. Guðmundur var tvíkvæntur.
   cc. Ingibjörg átti Einar Jósepsson, bróður Þjóðhildar konu Þorvarðar.
   dd. Þorgerður átti Sæmund Þorleifsson í Þúfu í Miklholtshreppi og börn.
e. Kristín átti Bjarna á Hellissandi Steindórsson Ólafssonar í Virki Þorsteinssonar, þ. d.:
   aa. Steinunn átti Sölmund Guðmundsson Þorgilssonar, bl.
f. Eggert á Skiphyl átti Vilborgu Snorradóttur, þ. b.:

bb. Ragnhildur[1]).

---

aa. Guðmundur í Mýrdal í Kolbeinsstaðahreppi átti Guðbjörgu Ólafsdóttur, þeirra son: Eggert í Haukatungu faðir Tómasar á Ingjaldshóli og þeirra systkina.

g. Guðný átti Svein Jóhannesson á Mel.

h. Bergljót giptist norður.

1) Ragnhildur átti Egil á Vatni í Haukadal Egilsson Sturlaugsson, bróður Halldóru konu Þorvarðar (sbr. aths. næst á undan), þeirra börn:

a. Egill í Gröf í Eyrarsveit átti Þorbjörgu Jónsdóttur, þ. b.:

aa. Egill á Hálsi í Eyrarsveit, hans dóttir Ingveldur átti Guðbrand frá Hálsi Brandsson frá Sólheimatungu Sigmundssonar Einarssonar Sigmundssonar Einarssonar söngs í Hvassafelli í Norðurárdal Marteinssonar. Börn Guðbrands og Ingveldar: Vigdís, Brandur og Egill.

bb. Guðný átti Sigurð Bjarnason í Vindási og mörg börn. Eitt þeirra var Sigríður, er Jón kammerráð Jónsson á Melum átti launson með (Jón bónda á Melum, sbr. II, 398).

cc. Ingveldur átti Jón Bjarnason á Bjarghól í Miðfirði og börn. Launson Ingveldar með Tómasi stúdent Tómassyni á Ásgeirsá:

aaa. Jósep. Launbörn hans:

× Benóní á Beinakeldu átti Ingiríði Árnadóttur frá Tindum, systur Jóns á Víðimýri.

× Hólmfríður átti Jónas Guðmundsson á Selási.

dd. Halldóra átti Jón Jónsson á Hömrum í Eyrarsveit, bróður Málfríðar, móður Halldórs bónda Jónssonar á Hrauntúni í Þingvallasveit.

b. Marteinn á Vatni í Haukadal átti Arndísi Kolbeinsdóttur. Eitt barna þeirra Marteinn á Vatni faðir Jóns á Smyrlhóli og Halldóru konu Magnúsar Arngrímssonar á Núpi.

c. Elín átti Jón Egilsson frá Bolavöllum föður Hnausa-Bjarna, þ. b.:

aa. Guðríður átti Pál í Litlabæ Þórðarson á Högnastöðum Pálssonar á Skeljabrekku Þorsteinssonar prests í Miðdalaþingum Þórarinssonar, þ. b.: Þorsteinn á Krossi í Lundareykjadal, Gísli á Hellissandi, Jón í Haukatungu, Sigurður í Rifi og Þórður.

bb. Margrét. Laundóttir hennar með Steini Þormóðssyni:

aaa. Margrét átti Jóhannes Jónsson á Kjalveg, bl.

d. Þórður smiður á Kambsnesi átti Guðrúnu Ögmundsdóttur og börn.

cc. Halldóra.
dd. Guðrún[1]).
b. Finnur á Leikskálum átti fyr Þórunni Andrésdóttur, börn:
aa. Guðrún[2]).
bb. Kristín[3]).

---

e. Þórunn átti Sigurð Brandsson á Núpi í Haukadal, þ. b.:
aa. Sigurður eldri á Harastöðum og Dunki, drukknaði 1800, átti Ingibjörgu Loptsdóttur og börn.
bb. Sigurður yngri á Núpi og síðast í Fjarðarhorni í Hrútafirði faðir séra Ólafs Sivertsens í Flatey og Þorvaldar Sivertsens í Hrappsey (sbr. II, 738—739).
f. Solveig átti Brand Brandsson smið á Jörfa, bróður Sigurðar á Núpi (sbr. e.), þ. b.:
aa. Sigurður í Máfahlíð og víðar átti Steinunni Sigurðardóttur prests í Stafholti Jónssonar, þ. b.:
aaa. Brandur átti Katrínu Kristínu Hreggviðsdóttur frá Kambi í Breiðuvík Jónssonar Ásgeirssonar, þ. b.: Sigurður hreppstjóri í Tröð.
bbb. Jón á Hellissandi.
ccc. Gísli.
ddd. Sigurður átti Steinunni Jónsdóttur frá Arnarstapa Jónssonar.
Laundóttir Sigurðar Brandssonar í Máfahlíð var:
eee. Ragnheiður átti Kristján Jespersson frá Fossárdal.
bb. Oddný átti fyrst séra Steindór Jónsson í Hvammi og var seinni kona hans, síðar var hún tvígipt (sbr. bls. 137), en þar á Solveig móðir hennar að teljast sonardóttir, en ekki dóttir Egils Sturlaugssonar.

1) Guðrún átti fyr Snæbjörn Jónsson Nikulássonar Jónssonar prests í Hítarnesi Nikulássonar, svo Þorstein Jónsson smið í Tungu í Hörðudal, bl.

2) Guðrún var þriðja kona Finns Nikulássonar í Múla á Skálmarnesi (II, 282).

3) Kristín átti Ólaf í Hvítadal Björnsson Guðlaugssonar á Svarfhóli Magnússonar, þ. b.:
a. Guðrún átti Bjarna Sigurðsson.
b. Ingveldur átti Jón Jónsson á Brunná, þ. b.:
aa. Ólafur á Saurhóli, bl.
bb. Guðrún f. k. Magnúsar í Stórholti í Saurbæ Jónssonar í

cc. Finnur á Leikskálum dó 1799[1]).

Hvalgröfum Jónssonar á Heinabergi Gunnarssonar Hannessonar í Hraundal Ásmundssonar í Hraundal Árnasonar, þeirra dætur:

aaa. Sigríður átti séra Gísla Ólafsson í Sauðlauksdal († 31. marz 1861), þ. b.:

× Magnús prestur í Sauðlauksdal († 23. apríl 1904) átti Steinvöru Eggertsdóttur prests í Stafholti Bjarnasonar landlæknis, bl.

× Sigurður bókbindari í Vestur-Botni í Patreksfirði átti Ingibjörgu Sigurðardóttur Breiðvíkings frá Vaðli á Barðaströnd.

× Benedikt bókbindari í Rudköbing í Danmörku, kvæntur.

× Ólafur bókbindari og bóksali lengi í Düren nálægt Köln á Þýzkalandi átti hollenzka konu Henriette Delhaes, bl. Ólafur var á lífi fyrir skömmu í Bonn (f. 1822).

× Magnfríður átti Gísla Magnússon í Höfðadal, þau systrabörn (sjá hér síðar).

× Sæunn átti Hinrik Guðlaugsson frá Kvígindisdal.

× Solveig átti Jóhannes Þórðarson frá Hjarðarfelli og börn.

× Frúgit átti Friðrik Jónsson í Rifgirðingum.

× Valgerður f. k. Össurs hreppstjóra í Látrum Össurssonar Sigurðssonar, þ. b.: Guðmundur, Gróa, Gestur og Ingveldur.

× Guðfinna átti Friðbert Gunnarsson í Súgandafirði.

× Þuríður átti Svein Gíslason Jónssonar smiðs í Haga á Barðaströnd Helgasonar.

× Jóhanna.

× Gróa.

bbb. Ingveldur átti Magnús Gíslason í Hvítadal móðurbróður séra Páls Jónssonar í Viðvík, þ. b.:

× Gísli í Höfðadal átti Magnfríði Gísladóttur prests Ólafssonar (systrabörn sjá áður), þ. b. mörg: Guðlaug, Sigurður, Ingimundur, Magnús bókbindari, Jón, Guðrún, Guðmundur.

× Monika átti Jón á Lambavatni Jónsson ríka á

1) Finnur var sonur Finns Þorvarðssonar og síðari konu hans Sigríðar Jónsdóttur Guðlaugssonar úr Eyjahrepp, en ekki fyrri konu

c. Herdís átti Sigurð á Jörfa[1]) Þorgilsson Bergþórssonar Bjarnasonar, börn:

---

Kvígindisfelli Þórðarsonar, bl.

× Jón í Bæ á Rauðasandi átti Þorgerði Gunnarsdóttur frá Heinabergi.

× Andrés járnsmiður á Ísafirði.

× Guðbjartur á Lambeyri, ókv. bl.

× Magnús í Raknadal átti fyr Sigríði Ólafsdóttur, bróðurdóttur séra Gísla í Sauðlauksdal og einn son Ólaf, er dó ungur, síðar Helgu Einarsdóttur frá Svínanesi og mörg börn.

---

hans. Finnur átti Helgu Bjarnadóttur »sálarlausa« og Guðrúnar Kolbeinsdóttur frá Glerárskógum Kolbeinssonar, þ. b.:

a. Andrés á Krossi í Haukadal tvíkvæntur, synir hans með seinni konunni: Erlendur, Andrés og Þórður.

b. Finnur bjó á Finnsmörk í Húnavatnssýslu.

c. Ragnhildur átti Sigmund Jónsson á Kringlu.

d. Helga átti Bjarna á Smirlhóli Pétursson Guðlaugssonar Péturssonar Guðbrandssonar Sveinssonar á Saurum í Laxárdal Ólafssonar, þ. b.:

aa. Guðlaugur átti Guðrúnu Bjarnadóttur frá Saurstöðum Bjarnasonar og börn.

bb. Bjarni átti Guðrúnu Þorsteinsdóttur smiðs Svarthöfðasonar, þ. synir Guðbrandur og Jón, er átti Hólmfríði Vigfúsdóttur halta í Fagradal, systur dr. Guðbrands Vigfússonar.

cc. Guðmundur, kvæntur og átti börn.

dd. Jón á Geirmundarstöðum átti fyr Halldóru Halldórsdóttur frá Sviðnum Ólafssonar á Brekku í Saurbæ Sturlaugssonar Péturssonar Sturlusonar, þ. b.:

aaa. Finnur átti Ragnheiði Guðmundsdóttur frá Steinadal.

bbb. Guðmundur.

ccc. Halldór átti Vigdísi Björnsdóttur Guðmundssonar frá Steinadal.

ddd. Guðlaugur var á Níp á Skarðsströnd, varð bráðkvaddur undir Jökli 1867. Synir hans með Björgu Tómasdóttur frá Galtardal Jónssonar:

× Guðjón alþingismaður á Kleifum á Selströnd (f. 13. des. 1857) á Ingibjörgu Magnúsdóttur frá Miðgili í Langadal Eiríkssonar.

---

1) Sigurður var bróðir Bergljótar konu Runólfs Þorvarðssonar bróður Herdísar.

aa. Sigurður[1]).
bb. Þorvarður í Krossholti[2]).

---

× Bjarni átti Ingibjörgu Torfadóttur prests í Kirkjubólsþingum Magnússonar, þ. s. Guðlaugur.
S. k. Jóns Bjarnasonar á Geirmundarstöðum Kristín Jónatansdóttir, bl.

---

1) Sigurður átti Guðrúnu Þórðardóttur Jónssonar í Virki í Neshreppi, dóu bæði í stóru bólu 1707, áttu eina dóttur Margréti, er fór austur með Þorsteini sýslumanni föðurbróður sínum, átti þar barn með vinnumanni hans og dó síðan.

2) Þorvarður lögréttumaður í Krossholti átti Margréti eldri Björnsdóttur lögréttumanns á Syðri-Rauðamel Jónssonar og Ingibjargar Finnsdóttur Sigurðssonar prests í Miklaholti (sbr. II, 352).

Þorvarður býr í Krossholti 1729 og er þá talinn 54 ára (f. c. 1673), en Margrét kona hans 50 ára (f. c. 1679). Börn þeirra eru þá hjá þeim: Margrét 19 ára, Sigurður 17, Guðmundur eldri 15, Guðmundur yngri 13 og Ingibjörg 9 ára, en Þórunn 20 ára og Björn 10 ára eru á Kolbeinsstöðum hjá séra Jóni Högnasyni. Ragnhildur hefur þá líklega verið gipt. Björn Jónsson tengdafaðir Þorvarðar lögréttumanns er þá ekkjumaður í Syðra-Skógarnesi 76 ára gamall (f. c. 1653). [Eptir manntali í Hnappadalssýslu í minni eign sömdu í september 1729 af Steindóri sýslumanni Helgasyni].

Börn Þorvarðar og Margrétar:

a. Margrét átti Árna Högnason Þorbjörnssonar af ætt Marteins biskups, þ. b.:
aa. Arnfríður átti séra Jón aðstoðarprest í Hítarnesi Sigurðsson prests í Stafholti Jónssonar. Meðal barna þeirra var:
aaa. Ingibjörg kona Helga alþm. Helgasonar í Vogi, bróður Sigurðar dbrm. á Jörfa, þ. b.:
× Helgi í Vogi átti Soffíu Vernharðsdóttur prests í Reykholti Þorkelssonar, þ. b.: Bogi Thorarensen á Brúarfossi, Ingibjörg, Sigríður, Rannveig kona Árna Bjarnasonar í Vogi og Ragnheiður kona Ásgeirs í Knararnesi Bjarnasonar s. st. Benediktssonar prests í Hvammi Björnssonar.
× Elín átti Jón á Ökrum Eyjólfsson dbrm. í Svefneyjum Einarssonar (sbr. II, 710—711), þ. synir: Eiríkur bóndi á Ökrum og Helgi bankaassistent í Reykjavík († 1905) tvíkvæntur, fyr Kristínu Eggertsdóttur Waage, síðar Sigríði Eggertsdóttur sýslumanns Briems.

cc. Þorsteinn sýslumaður í Múlaþingi[1]).

× Ingibjörg átti Þórarinn prófast í Vatnsfirði Kristjánsson prests á Völlum Þorsteinssonar, þ. b. Kristján Eldjárn prestur á Tjörn kvæntur Petrínu Hjörleifsdóttur prests Guttormssonar, Helgi Jónas, er bjó í Rauðanesi, Guðrún Þorbjörg, Ingibjörg Sigríður.

× Sigurður dó úr holdsveiki, bl.

× Sigríður dó bl.

bb. Þorbjörn timburmaður í Keflavík átti Solveigu Jóhannsdóttur og börn.

cc. Þorvarður á Flesjustöðum átti Margréti Þorsteinsdóttur, systur Þorbjarnar á Arnbjargarlæk og Þorvalds í Alviðru í Ölfusi, þ. b.:

aaa. Eleasar í Þingnesi átti Ragnhildi Runólfsdóttur frá Geitabergi og mörg börn, þar á meðal var Oddný, er átti síðar Guðmund Magnússon í Langholti (II, 692), en fyrri maður hennar var Ólafur Sigurðsson í Bakkakoti, þeirra dóttir Ragnhildur á Lundum (II, 715).

bbb. Þorsteinn.

ccc. Jón.

ddd. Árni.

dd. Halldór í Einholtum, hans dóttir:

aaa. Oddfríður átti Torfa Jónsson í Krossholti.

ee. Jón í Keflavík tvíkvæntur, fyr Ólöfu Pálsdóttur sýslumanns Axelssonar (sjá síðar).

ff. Herdís átti Jón í Krossholti Torfason frá Svarfhóli í Hraunhreppi Þorkelssonar, þ. b.:

aaa. Hrómundur á Brúarfossi.

bbb. Torfi í Krossholti átti Oddfríði Halldórsdóttur (sjá áður).

ccc. Kristín.

gg. Margrét seinni kona Helga Jónssonar á Steinum, þ. b.:

aaa. Árni gullsmiður á Brekku í Norðurárdal.

bbb. Sæmundur á Steinum. Synir hans: Jakob á Sigmundarstöðum, Helgi á Ferjubakka o. fl.

ccc. Guðrún átti Jón smið Jónsson í Neðranesi, þ. son Helgi í Neðranesi, mikill glímumaður, o. fl.

ddd. Agata f. k. Gísla Guðmundssonar Hjálmssonar.

eee. Guðmundur.

fff. Hróðný s. k. Guðmundar Guðmundssonar í Neðranesi.

1) Sjá um afkomendur hans þar.

Enn var dóttir Sigurðar Þorgilssonar og Herdísar:

d. Halldóra Þorvarðsdóttir átti Pál Bjarnason[1], börn:

---

b. Sigurður í Einholtum átti Sigríði Sigurðardóttur sýslumanns Högnasonar (sjá Mýrasýslu).
c. Ragnhildur átti fyr Þorstein á Arnbjargarlæk Þorvaldsson s. st. Finnssonar í Lág í Eyrarsveit, er Ólafur Snókdalín telur son Finns Sigurðssonar á Ökrum (II, 350), þ. b.:
aa. Þorbjörn á Arnbjargarlæk átti fyr Guðrúnu Hjálmsdóttur á Háafelli Guðmundssonar, ekkju Bjarna Einarssonar á Arnbjargarlæk, þ. b.:
aaa. Þorsteinn stúdent í Arnþórsholti átti Guðrúnu Þorsteinsdóttur prests á Hesti Sveinbjörnssonar í Njarðvík Egilssonar í Miðhúsum í Sandvíkurhreppi Sveinbjörnssonar s. st. Egilssonar, þ. b.:
× Þorsteinn í Vogatungu átti Halldóru Magnúsdóttur Hálfdanarsonar og mörg börn.
× Guðrún átti Halldór í Bakkakoti Þórðarson prests á Lundi Jónssonar, þ. son Þorsteinn í Bakkakoti.
× Valgerður átti Gísla Einarsson Amundasonar.
× Ísleifur dó fulltíða, bl.
bbb. Hjálmur í Jafnaskarði átti Þorlaugu Guðmundsdóttur.
ccc. Bjarni í Lækjarkoti í Borgarhrepp átti Guðrúnu Böðvarsdóttur, þeirra synir Þorbjörn og Bjarni faðir Daða á Guðnabakka.
ddd. Sigríður. Laundóttir hennar með Guðmundi Jónssyni:
× Guðrún átti Einar Sigurðsson smið á Hrafnabjörgum á Hvalfjarðarströnd.
S. k. Þorbjarnar á Arnbjargarlæk var Þorbjörg Egilsdóttir, bl.

---

dd. Margrét 1. kona séra Hjörleifs Þórðarsonar á Valþjófsstað og þeirra dætur Sigríðu kona Guðbrands Árnasonar og Herdís kona séra Jóns Bergssonar yngra í Bjarnanesi, er varð úti 2. des. 1784. Börn þeirra: Bergur prestur í Einholti, Rannveig s. k. séra Magnúsar Ólafssonar í Bjarnanesi og Guðrún f. k. séra Jóns Oddssonar Hjaltalíns (sjá Gullbringusýslu).

1) Páll bjó á Hrafnabjörgum í Hörðudal. Bjarni faðir hans var son Páls Bjarnasonar í Syðra-Skógarnesi († 1648) og Þorlaugar Sigurðardóttur prests Finnssonar (sbr. II, 352).

aa. Þorlaug[1]) móðir séra Björns í Hítarnesi[2]).

---

bb. Þorvaldur í Alviðru í Ölfusi þríkvæntur. Börn hans og síðustu konunnar Guðrúnar Guðmundsdóttur lögréttumanns á Hrauni í Ölfusi Hafliðasonar frá Skipum Jónssonar:

aaa. Guðmundur í Hlíð í Grafningi og síðar á Skógtjörn á Álptanesi átti Guðrúnu Vigfúsdóttur prests á Snæfoksstöðum Jónssonar og börn: Vigfús, Þorvald, Vilborgu og Guðrúnu.

bbb. Eyjólfur í Árbæ í Ölfusi átti Guðrúnu Einarsdóttur í Árbæ Þórðarsonar á Hvalsnesi Jónssonar og Þórdísar Pálsdóttur frá Uxahrygg Arnbjörnssonar s. st. Ögmundssonar, þ. b.:

× Þórdís s. k. Skapta læknis í Reykjavík Skaptasonar læknis Sæmundssonar, þ. b.: Eyjólfur, Guðrún, Guðný.

ccc. Sigríður átti Helga í Alviðru Árnason í Þorkelsgerði Bjarnasonar í Öndverðarnesi Þorlákssonar, þ. b.:

× Árni í Alviðru átti Þuríði Sigurðardóttur frá Hagavík Jónssonar á Bíldsfelli Sigurðssonar á Litlahálsi Jónssonar, ekkju Jóns á Lágafelli Örnólfssonar á Völlum í Ölfusi Jónssonar, þ. b.: Jón í Alviðru faðir Árna, er þar býr nú.

× Þorvaldur í Nesjum, dó úr holdsveiki 18. des. 1868, átti Önnu († 1870) Gísladóttur frá Villingavatni Gíslasonar, ekkju Vigfúsar Ófeigssonar í Nesjum, þ. b.: Vigfús, Þjóðbjörg dó ung.

× Sigvaldi var suður á Vatnsleysuströnd.

ddd. Guðríður átti Klæng á Kirkjuferju Ólafsson í Ásgarði Guðmundssonar, þ. b.:

× Guðný átti Halldór Guðmundsson á Kirkjuferju.

× Guðríður átti Jón Torfason frá Árbæ.

× Þorvaldur var í Reykjavík átti Önnu Jónsdóttur frá Keldnaholti í Biskupstungum Þórarinssonar, móður Ingunnar Loptsdóttur konu séra Einars Þórðarsonar á Desjarmýri, bl.

× Guðrún á Magnús Einarsson í Melkoti í Reykjavík.

---

1) Þorlaug átti Björn son Hamraenda-Jóns sýslumanns (sjá hér síðar). Hann drukknaði í Miðá í Dölum haustið 1730.

2) Þorlaug Pálsdóttir var ekki móðir séra Björns Sigurðssonar í Hítarnesi, heldur móðurmóðir hans. Margrét Illhugadóttir móðir séra Björns var laundóttir Þorlaugar.

bb. Þórunn[1]).

---

eee. Brynjólfur.
fff. Halldóra.

cc. Þórunn átti Sigurð Guðmundsson í Höll í Þverárhlíð, systkinabörn (sjá síðar).
dd. Margrét átti Þorvarð Árnason á Flesjustöðum, systrabörn (sjá áður).
ee. Ragnhildur átti Ámunda Einarsson í Litlaskarði, systrabörn (sjá síðar).
ff. Margrét yngri átti Guðmund Jónsson á Hamraendum og börn.
gg. Guðrún átti fyr 1777 Ögmund Ólafsson á Núpum í Fljótshverfi († 1780), þ. b.:
aaa. Daníel ókv., bl.
bbb. Guðni á Arnarhóli í Landeyjum átti Kristínu Bjarnhéðinsdóttur frá Langagerði Sæmundssonar, þ. b.:
× Daníel á Arnarhóli átti Guðbjörgu Jónsdóttur frá Úlfsstöðum Þorkelssonar, þ. b.: Kristín, Þorsteinn, Margrét kona Sigurðar Brandssonar frá Fíflholti og Guðni, er átti Bjarghildi Guðmundsdóttur frá Tungu Þorvaldssonar prófasts Böðvarssonar.
× Guðný átti Einar Símonarson á Glæsistöðum, þ. b.: Símon.

---

Séra Björn Sigurðsson († 8. okt. 1821) átti Valgerði Bjarnadóttur prests á Mælifelli Jónssonar og voru börn þeirra:

a. Jóhann prestur í Keldnaþingum, dó í Vestri-Kirkjubæ 15. júní 1847 átti Kristínu Eiríksdóttur sýslumanns Sverrissonar (sjá Rangárþing), bl.
b. Margrét átti Ásmund á Laxfossi Þórðarson prests í Hvammi í Norðurárdal Þorsteinssonar, áttu mörg börn, eitt þeirra:
aa. Björn á Svarfhóli í Stafholtstungum kvæntur Þuríði Jónsdóttur Halldórssonar frá Ásbjarnarstöðum Pálssonar, þ. b: Guðmundur sýslumaður á Patreksfirði, Jóhann hreppstjóri á Akranesi, Jón verzlunarm. í Borgarnesi, Ásmundur, Jósep, Kristján, Málmfríður, Margrét, Helga.
c. Sigríður átti Odd Jónsson Hjaltalín lækni (s. k. hans), átti síðar Kára Konráðsson, bróðurson Gísla sagnfræðings Konráðssonar.

1) Þórunn átti Skapta son Jóns eldra Gíslasonar frá Bæ í Miðdölum, þ. d.:
a. Halldóra átti Lopt Sigurðsson, bl.

e. Sigurður Þorvarðsson átti börn:

---

× Felix á Reykjavöllum í Flóa átti Halldóru Bjarnadóttur frá Laugardælum Símonarsonar, þ. b.: Guðni í Þorleifskoti, Kristín, Ingibjörg, Bjarni.
× Guðríður átti Þorstein Sigurðsson á Sperli, þ. b.: Bjarnhéðinn og Guðni á Hóli (II, 401).
× Bjarnhéðinn.
× Guðni í Hallgeirseyjarhjáleigu átti Elínu Ísleifsdóttur og börn.
× Sigríður átti Guðmund Sigurðsson á Skíðbakka og börn.
× Þórður í Stóru-Hildisey átti Margréti Jónsdóttur og börn.
× Guðrún átti Ólaf Ólafsson í Vatnshól í Austur-Landeyjum og börn.

S. m. Guðrúnar Þorsteinsdóttur Páll Nikulásson í Auraseli, þ. b.:

ccc. Ögmundur á Hvoli í Ölfusi átti Guðrúnu Magnúsdóttur ekkju Ásbjarnar Snorrasonar á Hvoli, þ. b.: Benedikt. Launson hans með Arndísi Bjarnadóttur:
× Ögmundur í Auraseli átti Guðrúnu Andrésdóttur og börn, kunnugur af sögum Eiríks frá Brúnum (»kötturinn og ullarhnakið«).
× Hannes í Brók í Landeyjum átti Björgu Andrésdóttur Egilssonar prests á Útskálum Eldjárnssonar, þ. b.: Daníel í Stýflu í Landeyjum, Danival, Guðrún, Valgerður.
× Benedikt drukknaði 1815.

S. m. Ragnhildar Þorvarðardóttur Daníel Jónsson, þau bl.

d. Guðmundur eldri, þríkvæntur. Son hans og síðustu konunnar Valgerðar Björnsdóttur móður séra Björns Jónssonar í Hrepphólum var:

aa. Snæbjörn á Ölviskrossi og víðar átti Jórunni Björnsdóttur, bl. Laundóttir Snæbjarnar:

aaa. Valgerður átti Jón Jónsson í Skjálg.

Launson Guðmundar eldra Þorvarðssonar:

bb. Bjarni á Ölvaldsstöðum. Synir hans voru Eiríkur á Þursstöðum, Guðmundur á Ölvaldsstöðum, Þorvarður og Sigurður.

e. Guðmundur yngri átti fyr Guðríði Andrésdóttur Þorbjörnssonar, þ. b.:

aa. Halla.

---

aa. Sigurður í Höll átti Þórunni Þorsteinsdóttur, systkinabörn (sjá hér áður), þ. b.: Þorsteinn á Glitsstöðum, Jón í Brautartungu, Halldóra kona Markúsar Markússonar á Álptá, Kristín átti Jón Tómasson, Guðrún átti Jón Bjarnason, Guðmundur, Guðríður.

bb. Ingveldur átti Björn Björnsson og eina dóttur.

cc. Þórdís átti Ólaf Ólafsson á Spóamýri og börn.

dd. Ingibjörg, launson hennar með Önundi Torfasyni var Vigfús.

S. k. Guðmundar yngra Þorvarðssonar Filippía Þorláksdóttir frá Stóruborg Guðmundssonar, systir Steindórs föðurföður Jóns Thorsteinsens landlæknis, þ. b. (að því er Ó. Snókdalín telur):

ee. Guðmundur verzlunarstjóri við Búðir, auðugur maður, átti Steinunni Sveinsdóttur frá Sólheimatungu Jónssonar, þ. b.:

aaa. Guðmundur dó ókv., átti eina laundóttur, er dó bl.

bbb. Pétur verzlunarstjóri á Búðum og á Ísafirði, drukknaði, átti Sigríði Óladóttur Sandholts Egilssonar, systur frú Ingibjargar Schulesen, þ. b.: a) Ragnheiður átti Edvard Thomsen á Dýrafirði. b) Óli verzlunarm. utanlands. c) Ása. d) Sigríður. e) Guðrún. f) Steinunn. g) Pétur og h) Edvard, drukknuðu báðir með föður sínum.

ccc. Metta átti Árna kaupmann Ólason Sandholt á Ísafirði († 3. sept. 1869) og 2 dætur: Guðrúnu († 1906), er átti Preben Scheel greifa og Ólínu, er átti son Bardenfleths stiptamtmanns.

ddd. Anna átti séra Jón Guðmundsson á Helgafelli, þ. b.:

× Guðmundur drukknaði 1864.

× Árni nam lyfjafræði, var í Kaupm.höfn.

eee. Sveinn kaupmaður á Búðum átti Kristínu dóttur Edvards Siemsen kaupmanns í Reykjavík og Sigríðar Þorsteinsdóttur lögregluþjóns Bjarnasonar, þ. b.:

× Sigríður gipt Jakob kaupmanni á Svalbarðseyri Björnssyni prests á Höskuldsstöðum Þorlákssonar.

× Steinunn gipt Bjarna Sæmundssyni skólakennara í Reykjavík.

f. Ingibjörg átti fyrst Ámunda Guðmundsson, bl., svo Einar Bjarnason í Örnólfsdal, þ. b.:

aa. Ámundi á Litlaskarði átti Ragnhildi Þorsteinsdóttur, þau systrabörn (sjá áður), þeirra synir Einar á Glitsstöðum og Kjartan.

bb. Ormur á Goddastöðum[1]).

---

bb. Bjarni á Arnbjargarlæk f. m. Guðrúnar Hjálmsdóttur, er síðar átti Þorbjörn Þorsteinsson á Arnbjargarlæk, þ. b.:
aaa. Einar á Hreðavatni átti Valgerði Brynjólfsdóttur frá Sámsstöðum Hjálmssonar og Guðrúnar Ottadóttur frá Hrólfsskála Ingjaldssonar Hinrikssonar, þ. b. mörg, þar á meðal Bjarni á Skarðshömrum og Brynjólfur á Hreðavatni faðir Jóns kaupmanns (leðursala) í Reykjavík.
bbb. Þuríður átti Ingjald Ottason í Hrólfsskála, þ. b. mörg, þar á meðal Sigurður (sjá hér áður bls. 235), Bjarni, Otti, Ingveldur, Guðríður, Kristín, Herdís kona Eyjólfs Jónssonar í Skildinganesi og Guðrún kona Gunnars í Stórugröf á Langholti Magnússonar í Vatnshlíð Ásgrímssonar.
3. maður Ingibjargar Þorvarðsdóttur Kjartan Magnússon, þau bl.
g. Þórunn átti fyr Þórð Hallsteinsson, þ. b.:
aa. Hallsteinn í Höll átti Oddnýju Þórðardóttur, þ. b.: a) Ragnheiður f. k. Ólafs Ólafssonar í Lækjarkoti. b) Þórður í Bakkakoti. c) Þóra átti Jón Gíslason á Högnastöðum. d) Þórunn átti Vigfús Magnússon. e) Valgerður átti Bjarna Jónsson í Brautartungu, þ. b.: Guðmundur í Arnþórsholti, Hallsteinn á Akranesi, Ketill í Rvík kvæntur Hólmfríði Þorláksdóttur Blöndals, Guðrúnar tvær og Þórdís, er átti 3 launbörn, eitt þeirra er Eybjörn Eyjólfsson skósmiður í Kaupm.höfn.
bb. Guðlaug átti Sigurð Marteinsson Högnasonar.
S. m. Þórunnar Þorvarðsdóttur Einar Högnason, bl.
h. Björn í Straumfirði átti Guðrúnu Eiríksdóttur, þ. b.:
aa. Eiríkur í Miðhúsum átti Ingibjörgu Hrómundsdóttur Tómassonar, þau systkinabörn, þeirra synir Björn og Hrómundur.
bb. Sigurður á Smiðjuhóli og Lambastöðum tvíkvæntur, átti börn.
cc. Guðrún átti Runólf Jónsson, bl.
dd. Jón átti Sesselju Aradóttur Bjarnasonar og var f. m. hennar, þau bl.
ee. Sigríður átti fyrst Þórð Jónsson og börn, svo Ásmund Ara-

---

1) Þessi ættfærsla er eflaust skökk. Séra J. H. telur Sigurð ekki meðal barna Þorvarðar Runólfssonar. Snókdalín telur hann að vísu, en getur ekki neitt afkomenda hans. Hér er víst málum blandað hjá Boga um Sigurð Runólfsson frá Brennistöðum, er var faðir Höllu og Orms (sjá hér á eptir og I, 350).

E. Ragnheiður (al. Ragnhildur)[1]) Runólfsdóttir átti Ólaf Sveinsson[2]), börn:
a. Runólfur lögréttumaður í Bæjum átti Þóru Jónsdóttur[3]), börn:
aa. Séra Runólfur á Setbergi.
bb. Ragnhildur.
cc. Herdís.
dd. Ólafur.
ee. Sigríður.
F. Sigurður vel metinn lögréttumaður átti Halldóru dóttur Jóns Árnasonar á Narfeyri, börn:
a. Halla átti Jón Jónsson á Hróðnýjarstöðum, börn:
aa. Jón.
bb. Jón yngri.
cc. Arngrímur.
dd. Sigurður í Hlíð.
ee. Sigurður lögréttumaður á Hróðnýjarstöðum.

---

son og einn son og síðast Jón Snorrason í Leirulækjarseli, þ. son Jón á Vogalæk.

Laundóttir Þorvarðar Sigurðssonar í Krossholti með Ingibjörgu Hallsdóttur:

i. Karítas († 1763) átti fyr Hrómund Tómasson Hrómundssonar frá Elliða, þ. b.:
aa. Ingibjörg átti fyr Eirík Björnsson í Miðhúsum (sjá hér á undan), síðar Einar Sigurðsson í Miðhúsum, bl.
bb. Tómas í Flóðatanga átti Margréti Jónsdóttur frá Dunkárbakka Þorvarðssonar og Álfeiðar Þorleifsdóttur og var Margrét systir sammæðra Guðmundar Teitssonar í Sólheimatungu föður Guðmundar prests í Reykjadal, þ. b.: Sesselja tvígipt og Nikulás.
cc. Sigurður í Raufarnesi tvíkvæntur, bl.

S. m. Karítasar Þorvarðsdóttur Hinrik Jónsson, þau bl.

1) Réttara: Ragnhildur.

2) Ólafur var bróðir séra Þórðar Sveinssonar í Ögurþingum (II, 283—284).

3) Þóra var dóttir Jóns sýslumanns Sigurðssonar í Einarsnesi (sjá Mýrasýslu), og verður þar getið barna þeirra Runólfs. Þau giptust 1705.

ff. Olafur.
gg. Þórunn.
hh. Þuríður.
ii. Guðrún.
kk. Halla.
ll. Halldóra.

b. Halldóra átti Tómas Illhugason á Klungurbrekku, börn:
aa. Sigurður á Ósi.
bb. Illhugi.

c. Guðmundur faðir Sigurðar í Stóra-Langadal.

d. Ormur á Svínhóli átti fyr Oddnýju Símonsdóttur[1]), börn:
aa. Þorleifur[2]).
bb. Sigurður á Dunk[3]).
cc. Halldóra[4]).

---

1) Sbr. I, 351.

2) Börn Þorleifs Ormssonar voru: Sigurður Holm borgari í Kaupm.höfn auðugur, Oddný og Magnús sá, er stal úr Grundarfjarðarbúðum með Helga Vigfússyni (Árb. Esp. XI, 17—18).

3) Sigurður Ormsson átti Þorkötlu Sigurðardóttur og mörg börn, sem fjöldi manna er frá kominn, þar á meðal:

a. Ólafur eldri. Hans börn:
aa. Símon í Laugarnesi faðir Sesselju, er átti Alexíus lögregluþjón í Rvík Árnason frá Halakoti á Vatnsleysuströnd Magnússonar frá Völlum á Kjalarnesi Ívarssonar.
bb. Guðrún átti fyr Kristján Pétursson Arnsted snikkara, þ. d.: Guðrún átti Sigurð Hákonarson í Rvík, en s. m. Guðrúnar Ólafsdóttur var Sigurður hattasmiður í Rvík Þorleifsson frá Syðri-Brekkum í Skagafirði Jónssonar, þeirra son Þorleifur apótekaranemi átti Ingiríði Ólafsdóttur, þ. son Bertel Edvard Ólafur stúdent, fyrirfór sér í Kaupm.höfn 1890.

4) Halldóra átti Magnús á Svalbarði í Náhlíð Jónsson frá Vatni í Haukadal Sigurðssonar og Guðrúnar Þorsteinsdóttur Oddssonar Jónssonar í Tjaldanesi Oddssonar prests í Tröllatungu Þorsteinssonar, þ. b.:

a. Benedikt á Hörðubóli átti Helgu Sturlaugsdóttur, systur Atla í Bæ í Miðdölum, þ. b.:

Seinni kona Orms var Helga Egilsdóttir[1]), bl. Runólfur var lögréttumaður og bjó á Brennistöðum, fékk Hnappadalssýslu eptir Pál Erlendsson 1638. Hann var og settur sýslumaður í Snæfellsnessýslu 1641. Ekki hafði hann þar sýsluvöld utan það eina ár. Hann mun hafa haldið Hnappadalssýslu í 20 ár og ei sleppt henni fyr en 1658 til sonar síns Jóns.

1643 kom til alþingis dómur Runólfs um skuldabréf. 1644 dæmdi hann til alþingis fyrgenginn dóm að Hróksholti þann 27. maí 1629 um falska vitnisburði[2]). 1653 á Hellisvöllum tók hann eið af Jóni yngra Eggertssyni fyrir Haukadalsbréfin og hans eiðvættum, sem Jón tjáði að Jón Auðunsson hefði sér fengið.

Um Runólf hef eg eigi fleira markvert fundið í rit að færa.

## Jón Runólfsson.

*Faðir*: Runólfur sýslumaður (nýnefndur).

---

aa. Sturlaugur í Lambhaga í Mosfellssveit og víðar átti Valgerði Þorleifsdóttur, eitt barna þeirra:

aaa. Ragnheiður átti Ólaf í Biggarði Ingimundsson frá Völlum á Kjalarnesi Bjarnasonar Ingimundssonar í Hrunakrók Bjarnasonar. Ein dóttir þeirra Valgerður átti Tómas Klog í Ráðagerði Steingrímsson Illhugasonar frá Úlfsstöðum í Skagafirði Jónssonar, þ. d. Margrét kona Einars Zoëga veitingam. í Rvík.

b. Hákon á Svalbarði, átti laundóttur.

c. Arnbjörg átti Þorbjörn Sigmundsson í Dalsmynni, bl.

d. Guðrún átti Jón Ögmundsson á Hofsstöðum og mörg börn, eitt þeirra Guðmundur hreppstjóri á Kongsbakka. Launson hans Ólafur í Bár og síðar í Flatey átti Guðrúnu Oddsdóttur læknis Hjaltalíns og f. k. hans Dorotheu Bornemann, þ. b.: a) Dorothea mállaus og heyrnarlaus. b) Sigurborg átti Eyjólf kaupmann Jóhannsson í Flatey, þeirra son Ólafur forstjóri verzlunarskóla í Rvík.

1) Í ættatölubók séra Þórðar í Hvammi Þórðarsonar er talið, að 2 dætur Runólfs Sigurðssonar: Ólöf og Ragnhildur (önnur) hafi dáið ógiptar og bl.

2) Lögþingisbók 1644 nr. 21. Séra Einar Kolbeinsson var riðinn við það mál.

*Móðir*: Elín dóttir Guðmundar í Ólafsvík (nýnefnd).
*Kona*: Kristín Ásgeirsdóttir[1]) Björgólfssonar yngra[2]). Þau áttu ei börn, sem lifðu.

Hann var fyrst lögréttumaður og var það líka eptir hann tók við sýslunni af föður sínum 1658, og 1659[3]) var upplesið í lögréttu veitingarbréf hans fyrir Hnappadalssýslu 3 þingstöðum. Sór Jón þá sinn sýslumannseið (og Magnús sýslumaður Magnússon). Hann var og meðdómsmaður á alþingi 1661. 1666 dómsrannsak um barnsdauða. 1676 kom Jón í lögréttu með af honum útnefndan dóm um ómagaframfæri. Jón lét ganga dóm 1678 um preststíund af kirkjujörð, og í lögréttu 1679 spyr hann, hvernig skiljast eigi Lögbókar framfærslubálks 4. cap. „En ef á hæl færir flytji aptur á sömu náttstaði", og fékk það svar: Ómaga skal áfram flytja, en ekki til baka eða hver bóndi taki við af öðrum og beinleiðis sé aptur flutt til sinnar sveitar.

Jón tók vitnisburði sína á alþingi 1683 og sagði þá af sér sýslunni, en losaðist algerlega við hana 1684[4]).

## Magnús Hrómundsson.

*Faðir*: Hrómundur Bjarnason merkilegur bóndi á Meðalfellsströnd. Yfir hann er vel úthöggvinn íslenzkur legsteinn í Staðarfellskirkjugarði, tjáist hann þar á dáinn 1690, 66 ára gamall[5]).
*Móðir*: Barbara laundóttir Nikulásar lögréttumanns, er fyrst bjó á Kjallaksstöðum og síðar í Brekkubæ

1) Kristín hafði fyr átt Árna Jónsson á Gullsmiðsreykjum (II, 329).

2) Ásgeirssonar prests á Lundi Hákonarsonar sýslumanns Björgólfssonar. Björgólfur Ásgeirsson er hér kallaður yngri til aðgreiningar frá forföður sínum Björgólfi Þorkelssyni, föður Hákonar sýslumanns.

3) 29. júní.

4) Jón sýslumaður Runólfsson bjó á Hjarðarfelli og dó þar.

5) Það er þessi legsteinn Hrómundar, sem getið er um í Þjóðsögum Jóns Þorkelssonar (1899) bls. 15—16, þar sem sagt er, að færsla steinsins af leiði Hrómundar í kirkjugarðinum að kirkjudyrunum hafi valdið fjárdauða hjá Benedikt Bogasyni.

við Hellna Oddssonar prests Þorsteinssonar (seinasta manns Þórunnar Jónsdóttur biskups Arasonar).

*Kona fyrri*: Guðrún dóttir Gissurar Jónssonar Sigurðssonar (bænda) frá Álptártungu[1]).

*Börn*: A. Hrómundur átti Guðrúnu Einarsdóttur frá Jörfa (voru báðir bændur), þeirra dóttir:

a. Guðrún átti Jón Jónsson frá Stóra-Hrauni, börn:

aa. Eiríkur.

bb. Einar[2]).

cc. Hrómundur á Hömrum[3]).

Laundóttir Guðrúnar[4]):

dd. Guðríður.

B. Herdís átti Grím á Giljum Einarsson, börn:

a. Magnús átti Elínu Jónsdóttur, þeirra börn dóu.

---

1) Snókdalín segir, að móðir Gissurar hafi verið Guðrún Vilhjálmsdóttir Vigfússonar frá Kalastöðum og Ástu Böðvarsdóttur prófasts í Reykholti, en séra Jón Halldórsson, sem þessu hlaut að vera kunnugur segir, að Guðrún þessi hafi ekki átt barn með manni sínum Jóni Sigurðssyni í Álptártungu, og verður það að teljast áreiðanlegra. Móðir Gissurar hefur því ekki verið Guðrún þessi. — Guðrún f. k. Magnúsar sýslumanns dó í stóru bólu, að því er Espólín telur (í ættatölum sínum).

2) Einar á Hrafnkelsstöðum og Hömrum átti Guðrúnu Jónsdóttur og börn. Einar átti 2 launsyni: Þorgeir og Eirík.

3) Hrómundur bjó í Laxholti (Laxárholti) átti Ragnhildi Jónsdóttur, þ. b.:

a. Pétur átti Ingveldi Þorkelsdóttur Jónssonar og Rannveigar Nikulásdóttur í Görðum Ásmundssonar, þ. b.: Guðmundur, Hrómundur, Ragnhildur, Rannveig, Ingveldur.
b. Hrómundur.
c. Katrín átti Pál Einarsson frá Hróbjargarstöðum.

4) Faðir Guðríðar var Þorsteinn Sigurðsson í Knararnesi. Guðríður átti Jón Jónsson á Öndverðarnesi og Arnarstapa og mörg börn, eitt þeirra Steinunn átti Sigurð Sigurðsson frá Máfahlíð Brandssonar (sjá hér áður bls. 261).

b. Þórður á Saurum átti Hallfríði Guðmundsdóttur[1]), son:
aa. Guðmundur á Gufuskálum átti Guðrúnu (al. Vigdísi)[2]) Ásbjörnsdóttur og börn.
C. Sesselja átti Bjarna Steindórsson Halldórssonar prests á Staðarhrauni, barn:
a. Halldóra fyrri kona Torfa Jónssonar, börn:
aa. Bjarni[3]).
bb. Margrét[4]).

*Kona seinni*: Sigríður Gilsdóttir[5]), þeirra börn:
D. Guðrún átti séra Jón Högnason í Hítarnesi, barnlaus[6]).
E. Rannveig átti Helga Oddason, þeirra börn:
a. Þórður átti Sigríði Þorsteinsdóttur bjuggu í Laxárholti, börn:
aa. Sigríður[7]).

---

1) Guðmundur faðir Hallfríðar var bróðir Bjarna sýslumanns Halldórssonar á Þingeyrum.

2) Réttara: Vigdís.

3) Bjarni á Hofsstöðum átti Dýrfinnu Þórðardóttur frá Högnastöðum Pálssonar og var f. m. hennar, þ. b.:
a. Steindór á Hamraendum átti Gyríði Pétursdóttur systur Runólfs í Þverholtum, þ. b.: Kristbjörg, Pétur, Rósa.
b. Bjarni átti Þuríði Guðmundsdóttur Guðbrandssonar, þ. b.: Guðmundur og Dýrfinna.

4) Snókdalín nefnir ekki annað barn Torfa og Halldóru en Bjarna, en systur Halldóru telur hann Guðrúnu f. k. Bárðar Jónssonar í Einarsneskoti bróður Torfa og þeirra dóttur Kristínu, er átti Þorstein Guðmundsson og dóttur þeirra Guðnýju, er átti Jón yngra Sighvatsson frá Bóndhól, móðurbróður Sighvats Grímssonar Borgfirðings.

5) Snókdalín telur hana Gísladóttur, en það getur verið misritað fyrir Gilsdóttir.

6) Guðrún var s. k. séra Jóns í Hítarnesi.

7) Sigríður átti Eyjólf í Skíðsholtum Erlendsson prests í Nesþingum Vigfússonar og var f. k. hans, þ. b. meðal annars:
a. Halldóra átti Hrómund Hrómundsson frá Brúarfossi Jónssonar í Krossholti Torfasonar (sjá hér áður bls. 265), þ. b.: Arnbjörn.

bb. Halldóra[1]).
cc. Björg[2]).

---

1) Halldóra dó í bólunni 1786, var f. k. Jóns á Hindarstapa launsonar Erlendar prests Vigfússonar.

2) Björg átti Guðmund borgara í Rvík Bjarnason frá Langárfossi Eiríkssonar (sbr. II, 354, 356), þ. b.:
a. Guðmundur átti Guðrúnu Vigfúsdóttur halta Péturssonar.
b. Guðríður átti Kolbein í Ánanaustum Ólafsson í Tjarnarhúsum Sigurðssonar, bl.
c. Þórður borgari í Rvík átti Vilborgu Jónsdóttur, þ. b.:
aa. Jón í Hlíðarhúsum átti Jódísi Sigurðardóttur, þ. b.:
aaa. Þórður í Ráðagerði á Seltjarnarnesi tvíkvæntur.
bbb. Guðrún gipt Magnúsi á Miðseli Vigfússyni Gunnarssonar frá Hvammi á Landi Einarssonar og börn.
ccc. Jódís gipt Ámunda Ámundasyni í Hlíðarhúsum, þ. b.: Jónína.
ddd. Vilborg gipt Ólafi verzlunarm. Þórðarsyni frá Vigfúsarkoti Torfasonar stúdents Árnasonar.
eee. Sigurður dó uppkominn.
bb. Björg átti Jóhannes Jóhannesson Zoëga bróður Geirs Zoëga kaupm., þ. b.: Jóhannes í Rvík, Þórður og Geir, fóru til Ameríku.
cc. Guðmundur á »Hólnum« lengi bæjarfulltrúi, átti Valgerði Jóhannsdóttur prests á Hesti Tómassonar, þ. b.: a) Guðmundur dó ókv. b) Þórður verzlunarm. í Rvík, kvæntur Sigríði Biering. c) Helgi læknir á Siglufirði kvæntur. d) Jóhann kvæntist Helgu Ófeigsdóttur frá Fjalli á Skeiðum. e) Guðrún átti Árna Zakaríasson snikkara í Rvík Árnasonar. f) Jón dó ókv., bl. g) Sigþrúður átti fyr Jón Steffensen verzlunarstjóra Stefánsson frá Straumi á Skógarströnd Teitssonar, þ, b.: Valdimar Fischer stud. med., kvæntur danskri konu og Elizabet, er átti Jón cand. jur. Þorkelsson prests á Reynivöllum Bjarnasonar. S. m. Sigþrúðar er Björn kaupm. í Rvík Kristjánsson frá Hreiðurborg í Flóa Vernharðssonar smiðs Helgasonar í Garðbæ á Eyrarbakka Magnússonar, þ. b.: Jóna gipt dönskum manni Fanöe og Jón.
dd. Þorkell í Grjóta átti Þóru Gísladóttur og Þorgerðar Gunnlaugsdóttur frá Breiðholti Brynjólfssonar í Langhúsum í Fljótsdal Eyjólfssonar á Gilsá Kortssonar Halldórssonar prests í Heydölum Eiríkssonar, þ. b.: Halldór, Guðrún, Þorbjörg, Þórður.

dd. Sigríður yngri.

b. Sigurður sigldi til Hollands og dó þar[1]).

c. Helgi bóndi í Vogi dó 1814, tvígiptur, átti börn[2]).

---

ee. Pétur í Oddgeirsbæ átti Guðrúnu Gunnlaugsdóttur frá Breiðholti systur Þorgerðar, þ. b.: Gunnlaugur á Háaleyti í Rvík, Þórður í Oddgeirsbæ, Jóhannes kaupm. á Ísafirði og Vilborg, er átti Hans Gíslason í Ánanaustum.

ff. Kristín átti Jón Þorleifsson á Fellsenda og síðar í Selkoti í Þingvallasveit, var f. k. hans, dó þrítug 1866, þ. b.: Guðný, Kristín, Vilborg dó ung og Jódísar tvær dóu einnig ungar.

gg. Friðrik dó ókv. bl.

hh. Sigurður í Hlíðarhúsum, tvíkvæntur. Meðal barna hans með s. k.: Sigurgeir, Jón Valdimar, Steinunn kona Magnúsar Vigfússonar dyravarðar og Þóra, er átti Árna verzlunarm. og leikara Eiríksson frá Grjóta Ásmundssonar Björnssonar hnakkasmiðs Eiríkssonar prests á Hofi á Skagaströnd Jónssonar.

1) Sigurður kvæntist í Rotterdam og mun hafa andazt þar.

2) F. k. Helga var Guðlaug Brandsdóttir frá Kálfalæk Þorkelssonar í Álptártungu Brandssonar, systkinabarn við Jón stúdent Jónsson Therkelsen, þau bl., en s. k. Helga var Elín Egilsdóttir frá Arnarholti Jónssonar, systkinabarn við Ólaf Jónsson lögréttumann á Lundum, þ. b.:

a. Helgi dbrm. og alþm. í Vogi átti Ingibjörgu Jónsdóttur aðstoðarprests í Hítarnesi Sigurðssonar og er getið barna þeirra hér áður bls. 264—265.

b. Sigurður dbrm. á Jörfa og Fitjum í Skorradal átti fyr Guðrúnu Þorkelsdóttur Brandssonar á Kálfalæk Þorkelssonar, þ. b.:

aa. Helgi prestur á Melum († 13. ágúst 1888) átti Valgerði Pálsdóttur prófasts í Hörgsdal Pálssonar, þau skildu og giptist hún síðar Sigurði hreppstjóra Brandssyni í Tröð í Kolbeinsstaðahreppi.

S. k. Sigurðar dbrm. á Jörfa var Ragnheiður Eggertsdóttir prófasts í Reykholti Guðmundssonar, ekkja Björns gullsmiðs Jakobssonar á Fitjum og móðir séra Jakobs í Saurbæ, þau bl.

Laundóttir Magnúsar sýslumanns Hrómundssonar með Elínu Hákonardóttur frá Syðri-Görðum Árnasonar hét Óshildur (Esp. ætt.). Snókdalín nefnir Oddhildi laundóttur Elínar dóttur Nikulásar Þórðarsonar og konu hans Elínar Hákonardóttur, en getur ekki um

Magnús fékk sér veitta Hnappadalssýslu 1684 eptir Jón sýslumann Runólfsson.

Í hans tíð tilféll stokksmalið, hvert tilefni var: Bóndinn í Hausthúsum fann á fjöru rekinn lítinn bikaðan stokk. Var hann færður til alþingis og fannst í honum bréf þrílakkað til Danmerkurdrottningar. Amtmaður Müller og lögmenn brutu upp innsiglin. Var það bónarbréf um Hítardal á þýzku máli og undir nafn séra Jóns í Hítarnesi. Prestur var að spurður, hvort hann viðkenndist bréfið. Hann hvorki synjaði né játaði. Amtmaður Müller lét þá Magnús sýslumann Hrómundsson birta presti stefnu, en Magnús fékk stefnunnar afskript séra Jóni og hafði af ógáti undir afskriptina skrifað „Chrian Müller“ í staðinn fyrir Christian Müller. Prestur var skarpur, þrætinn og háðsamur, gerði hann þar af háðsinnlegg þá til réttar kom. Hér af komu langvinnar og margbrotnar málaflækjur, hvar af margir höfðu óeirðir og fjártjón. Séra Jón var frádæmdur prestsskap að endingu árið 1693. Einnig var Magnús sýslumaður ásakaður fyrir afskriptar gálausa villu og frásettur embættinu téð ár 1693[1]). Var mál það lengi í minni haft og ýmist kallað Kríu- eða stokksmál. Má þar um greinilega lesa í Árbókum Espólíns fróða.

Magnús lifði lengi þar eptir embættislaus, og sýndist flestum hann hafa orðið saklítill langtum harðara úti en verðskuldað hafði. Var breytni amtmanns Müllers í þessu sjálfum honum mest til óhróðurs.

1684 hafði Magnús Hrómundsson nokkur mál fyrir í lögréttu, sem sýnir að hann hafði þá Hnappadalssýslu[2]).

---

faðerni hennar. Jón Magnússon (bróðir Árna) segir hiklaust, að Elín Hákonardóttir frá Syðri-Görðum hafi átt barn með Magnúsi sýslumanni, en getur ekki nafns þess. Þetta er til athugunar við II, 671 n.m. athgr. 1, þar sem það getur valdið misskilningi, að Magnús sýslum. hafi átt laundóttur (Oddhildi) með dóttur Elínar Hákonardóttur.

1) Það var 5. júlí (1693), sem Magnús var dæmdur frá sýslunni.

2) Hvenær Magnús sýslumaður hafi andazt hef eg ekki fundið. Hann mun að líkindum hafa verið búsettur í Hnappadalssýslu eins eptir að hann missti sýsluna, en hvar finnst ekki getið. Í jarðabók Árna Magnússonar er hann ekki nefndur meðal búenda í sýsl-

## Jón Jònsson.

*Faðir*: Jón sonur Þorvalds í Auðbrekku Ólafssonar. (Þorvaldur var bróðir Halldórs lögmanns).

*Móðir*: Guðrún Pétursdóttir Árnasonar Loptssonar Péturssonar.

*Kona*: Ingibjörg dóttir Ögmundar, sem lengi bjó á Dönustöðum[1]) og konu hans Elínar Þorvarðsdóttur.

*Börn*: A. Elín fyrri kona Einars sýslumanns Magnússonar (sjá Strandasýslu). Elín dó 1752.

B. Björg (dó 1707) átti séra Illhuga Þorláksson[2]), börn:

a. Einar þénari Odds lögmanns, varð til í Noregi.

b. Jón átti Þuríði Guðmundsdóttur[3]).

c. Herdís átti Þórodd Þórðarson heyrara á Hólum[4]), börn:

aa. Þórður oeconomus[5]).

---

unni á árunum 1709—1714 og hefur þá líklega verið andaður eða hættur búskap.

1) Ögmundur faðir Ingibjargar bjó á Sauðhúsum í Laxárdal og var launson Björns Össurarsonar frá Bjarnarhöfn og Ingibjargar Narfadóttur (II, 291 sbr. II, 343).

2) Séra Illhugi á Auðkúlu dó einnig í stóru bólu.

3) Í ættatölum er Jóns ekki getið meðal barna séra Illhuga og Bjargar. En Espólín telur börn þeirra (auk Einars og Herdísar) Ólaf og Þórdísi, er bæði hafa dáið ung.

4) Þóroddur heyrari var son Þórðar Jónssonar hringjara í Skálholti af svokallaðri Burfells- eða Hamraætt í Grímsnesi. Hann var útskrifaður úr Skálholtsskóla 1717, tvítugur að aldri, tók embættispróf í guðfræði við háskólann 28. maí 1725 með 1. einkunn, varð kennari (heyrari) 1728, en vikið frá því embætti 1741, bjó á Mannskaðahóli á Höfðaströnd, Tjörnum í Sléttuhlíð, Skeiði í Svarfaðardal og síðast á Þóroddsstöðum í Ólafsfirði og andaðist þar 1765, en Herdís kona hans dó 1773.

5) Þórður kallaði sig Thoroddi. Hann var fæddur um 1736, útskrifaður úr Hólaskóla 1757, varð s. á. djákn á Reynistað, en ferðaðist svo til Svíþjóðar og víðar til að kynna sér búnaðarháttu o. fl., kom svo út aptur og ferðaðist hér um land nokkur ár. Hann

bb. Þóroddur beykir á Vatneyri[1]).

andaðist á Reykjum í Ólafsfirði 18. apríl 1797 ókv. og bl., og er þá talinn 66 ára (í prestþjónustubók Kvíabekkjar), en það getur naumast verið rétt.

1) Þóroddur beykir var fæddur 1742, en andaðist 26. september 1798. Hann átti Bergljótu Einarsdóttur frá Vatneyri Bjarnasonar, systur Bjarna sýslumanns föður Guðmundar Schevings í Flatey (II, 139—140). Þau áttu 14 börn og voru 4 þeirra dáin á undan föður sínum. Þessi börn voru:

a. Einar gullsmiður í Kaupm.höfn, kvæntur danskri konu. Dóttir þeirra hét Emilía.

b. Jón á Látrum við Patreksfjörð átti Guðrúnu Arnfinnsdóttur frá Hallsteinsnesi Jónssonar, þeirra synir: Árni bóndi í Látrum átti Sigríði Snæbjörnsdóttur frá Dufansdal Pálssonar og Einar, er átti Klásínu frá Purkey.

c. Gísli söðlasmiður í Hergilsey átti Guðrúnu Jónsdóttur ekkju Eggerts Ólafssonar í Hergilsey, þau bl.

d. Þórður beykir á Reykhólum dó 1846 átti Þóreyju Gunnlaugsdóttur prests á Hafsteinsstöðum Magnússonar, þ. b.:

aa. Jón Thoroddsen sýslumaður (sjá Borgarfjarðarsýslu).

bb. Hildur s. k. Þorkels sýslumanns Gunnlaugssonar móðurbróður síns (II, 248). (Þorkell sýslumaður var fæddur á Ketu í Skagafirði 15. júlí 1786, en dó 1846, sextugur).

cc. Jóhanna Petronella átti Pál á Reykhólum Guðmundsson prófasts á Staðastað Jónssonar. Dætur þeirra: Margrét átti Jósías bónda í Haga á Barðaströnd og Þórey gipt Bjarna bónda Þórðarsyni á Reykhólum nú í Rvík. Meðal barna þeirra eru: Böðvar prestur á Rafnseyri, Ragnheiður kona Þorleifs Jónssonar póstafgreiðslumanns í Rvík og Þórey kona séra Eyjólfs Kolbeins Eyjólfssonar á Staðarbakka.

e. Klement Lint var klæðskeri í Reykjavík, sigldi svo, átti Jóhönnu dóttur Sörensens timburmanns. Son þeirra:

aa. Karl Kristján Ferdinand fór til Hamborgar.

f. Magnús var beykir og umsjónarmaður við ediksgerð utanlands, kvæntur, átti eina dóttur.

g. Þóroddur sigldi, var fyrst vefari, svo múrari, dó í Kaupm.höfn 17. nóvember 1815, ókv. bl.

h. Árni í Kvígyndisdal átti Ingibjörgu Ólafsdóttur frá Látrum Erlingssonar, þ. b.:

cc. Ólafur í Tálknafirði[1]).

aa. Ólafur í Botni í Patreksfirði átti Guðrúnu Árnadóttur frá Tungu í Örlygshöfn.
bb. Bergljót dó bl.
i. Helga dó 22 ára, bl.
k. Kristín var grafin s. d. og brúðkaup hennar og Eggerts í Hergilsey átti fram að fara.
l. Klement.
m. Magnús.
n. Kristín önnur, dóu öll ung.
o. Sigríður († 1834) átti fyr 1788 Jón Thorberg verzlunarstjóra á Patreksfirði son Þorbergs prests Einarssonar á Eyri í Skutulsfirði, þ. b.:
aa. Magnús prentari í Kaupm.höfn og síðar barnakennari í Ringkjöbing.
bb. Pétur Lárus fyrst klæðskeri í Noregi og á Jótlandi, síðar lögregluþjónn í Kaupm.höfn, átti Cathrine Borup; dóttir þeirra var leikkonan frú Josephine Hortense Nancy Adelaide Eckhardt, fædd 24. nóv. 1839, dó 1906.
cc. Jóhannes var í Hergilsey.
dd. Ólafur.
ee. Þórður.
ff. Davíð drukknaði 1824 með Árna Þóroddssyni móðurbróður sínum.
gg. Þóroddur seglgerðarmaður á Ísafirði átti Sigríði Jónsdóttur frá Höfðaströnd í Grunnavík Einarssonar, bl.
hh. Ingibjörg átti Jón Sigurðsson á Sveinseyri. Launbarn hennar með Hallgrími nokkrum hét Margrét.
ii. Bergljót átti Pál Pálsson í Melanesi á Rauðasandi og 4 börn. Síðar átti hún launbarn með Guðlaugi nokkrum:
aaa. Hinrik átti Sæunni Gísladóttur prests í Sauðlauksdal Ólafssonar (sjá hér áður bls. 262). Síðar átti Bergljót Kjartan Ólafsson í Tröð í Önundarfirði.
kk. Guðrún átti Hallgrím Guðmundsson í Brekku á Ingjaldssandi og börn: Davíð, Ragnheiði, Guðmund og Guðrúnu, er átti Friðrik Busch á Brekku.
ll. Bergljót önnur.
mm. Kristín, dóu báðar ungar.

1) Ólafur bjó í Tungu í Tálknafirði, dó 21. júlí 1809, 73 ára gamall, átti Guðrúnu Gunnarsdóttur. Son þeirra Magnús faðir Ólafs hreppstjóra í Trostansfirði.

dd. Sigurður í Ólafsfirði[1]).

C. Björn á Hrafnabjörgum[2]) átti Þorlaugu Pálsdóttur, börn:

a. Sesselja átti Jón (dó 1767) í Snóksdal son Magnúsar sama staðar, er dó 1752, sonar séra Jóns í Snóksdal, dóttir[3]).

aa. Sesselja átti Svein í Snóksdal Hannesson[4]).

---

S. m. Sigríðar Þóroddsdóttur séra Daði Jónsson á Söndum (f. k. hans), þau bl.

Launson Þórodds beykis með Sigríði Illhugadóttur var: Þóroddur, dó ungur 1780.

1) Sigurður bjó á Þóroddsstöðum í Ólafsfirði og var vel efnaður, dó 4. október 1799 60 ára. Kona hans hét Ásta Jónsdóttir, þeirra dóttir:

a. Guðrún átti Daníel á Skipalóni Andrésson frá Vatnsenda í Ólafsfirði Jónssonar á Kálfsá Þorsteinssonar og var s. k. hans, þ. b.:

aa. Þorsteinn dbrm. á Skipalóni († 7. des. 1882) átti Margréti Þorláksdóttur dbrm. í Skriðu Hallgrímssonar, bl.

bb. Þórður verksmiðjustjóri í Kaupm.höfn († 25. maí 1882).

cc. Ásta átti fyr Jón Guðmundsson á Þóroddsstöðum, svo Sigfús Bjarnason, þeirra son Jón bóndi á Espihóli.

2) Björn drukknaði í Miðá í Dölum 1730 (sjá hér áður bls. 267).

3) Sbr. II, 655.

4) Börn Sesselju og Sveins voru:

a. Sesselja átti Guðmund Tómasson gullsmið í Hundadal, þ. b.:

aa. Katrín s. k. Jóns gullsmiðs í Geitareyjum Sigurðssonar stúdents Sigurðssonar, þ. b.:

aaa. Jón eldri trésmiður á Ísafirði.

bbb. Lárus smiður á Narfeyri átti Ingveldi Björnsdóttur gullsmiðs s. st. Magnússonar, þ. b.: Björn skipstjóri á Ósi á Skógarströnd, Lárus verzlunarmaður í Ólafsvík, Rögnvaldur smiður á Straumi, Jóhannes smiður í Stykkishólmi og Katrín kona Péturs Hjaltesteds úrsmiðs í Reykjavík.

ccc. Kristján smiður í Geitareyjum átti Elinborgu Stefánsdóttur frá Straumi Teitssonar, systur Jóns Steffensens verzlunarstjóra í Rvík, fóru til Ameríku með börn sín 1876.

b. Páll átti fyr Ingibjörgu Magnúsdóttur, barn:
aa. Jón í Eyrarsveit[1]) átti Guðrúnu Jónsdóttur, börn:
aaa. Halldóra.
bbb. Vigfús.
ccc. Þorlaug[2]).
ddd. Jón.
eee. Jón.
c. Margrét átti Jón Þorsteinsson í Þorgeirsstaðahlíð, börn:
aa. Sesselja[3]).

---

ddd. Árni, var hugvitssamur, nam vélafræði utanlands, andaðist í Stokkhólmi 28. nóv. 1866, rúmlega þrítugur, ókv. bl. (Æfiminning hans eptir Magnús Eiríksson er í Norðanfara 1868 aukabl. við nr. 3—4).

eee. Jón yngri hreppstjóri á Brunnastöðum á Vatnsleysuströnd, nefndi sig Breiðfjörð, átti Arndísi Sigurðardóttur og börn. Synir hans tveir Sigurður og Jón Gestur fóru í skóla, en luku ekki námi, báðir nú látnir.

Katrín Guðmundsdóttir átti laundóttur Björgu Eiríksdóttur, er átti Andrés Guðbrandsson, en síðar átti Katrín Ögmund í Geitareyjum og Öxney Guðmundsson prófasts á Staðarstað Jónssonar, þ. b.:

fff. Hjörtur átti Ragnheiði Vigfúsdóttur prests Reykdals Eiríkssonar og voru synir þeirra: Ögmundur í Vífilsdal og Vigfús.

bb. Sveinn kvæntist.

cc. Vigfús dó bl.

dd. Magnús var undir Jökli.

b. Jón hreppstjóri í Snóksdal átti Kristínu Ólafsdóttur smiðs á Munaðarhóli Björnssonar og mörg börn.

c. Þóra átti Sigurð Magnússon í Staðarsveit, þ. b.: Guðbjörg, Anna og Guðfinna, er átti Gísla Jóhannesson á Hamraendum, þ. d.: Sesselja átti Halldór Jónsson í Rvík, son þeirra Jónmundur Júlíus prestur á Barði í Fljótum.

1) Jón Pálsson bjó í Hnausum undir Kirkjufelli.

2) Launson Þorlaugar með Ólafi Jónssyni var Samúel bóndi í Ólafsdal átti Ragnheiði Sumarliðadóttur. Þorlaug átti og launsyni með Arngrími Sveinssyni á Skarði í Haukadal.

3) Sesselja átti Benedikt Helgason á Vatni, þ. d.: Guðrún átti Árna Skúlason.

bb. Anna[1]).

D. Jón á Hamraendum í Miðdölum lögréttumaður og um tíma lögsagnari í Dalasýslu 1726—1727 fyrir Pál Vídalín átti Margréti yngri dóttur Björns Jónssonar Björnssonar frá Rauðamel[2]), þeirra dóttir:

a. Kristín, dó 1749, giptist 1731 séra Jóhanni Þórólfssyni[3]), börn:

aa. Þórólfur[4]).

---

1) Anna átti fyr Þorvald Jónsson á Hrafnabjörgum, svo Illhuga Bjarnason og börn. Enn voru synir Björns á Hrafnabjörgum og Þorlaugar: Jón og Pantaleon, bjuggu nokkra hríð á Hamraendum, báðir ókv. Var Jón stúdent og býr hann á Hamraendum 1743, þá talinn 24 ára gamall, hefur útskrifazt um 1741, en Pantaleon bjó síðast í Hlíð í Hörðudal og andaðist þar 1791, hálfsjötugur að aldri.

2) Sbr. II, 352.

3) Séra Jóhann Þórólfsson var síðast prestur í Garpsdal, dó 1771. (Sjá framætt hans II, 282).

4) Þórólfur bjó víða, síðast á Óspakseyri, dó á Skriðnesenni 1833 85 ára, átti fyrst Halldóru Björnsdóttur, systur Ólafs smiðs á Munaðarhóli, þ. b.:

a. Árni á Brimilsvöllum tvíkvæntur, bl.
b. Finnur átti Salóme Jörundardóttur Magnússonar, bl.
c. Sigríður átti Guðlaug Ólafsson í Rifi, þeirra son Daníel.
d. Jón drukknaði í Staðarsveit.
e. Jón yngri drukknaði í síki hjá Hundadal.
f. Sigurður.

Önnur kona Þórólfs var Karítas Ásgeirsdóttir frá Ljárskógum Jónssonar (II, 699), þ. b. þar. Síðasta kona Þórólfs Halldóra Jónsdóttir frá Bakka á Langadalsströnd Þórðarsonar, þ. b.:

g. Jón á Kambi í Trékyllisvík, síðast í Kjós hjá Reykjarfirði, dó 1845, átti Helgu Hjálmarsdóttur, þ. b.:
   aa. Hjálmar Johnsen (f. 1822) kaupmaður á Önundarfirði, síðar lengi í Kaupm.höfn, dó þar 28. apríl 1901, ókv. bl.
   bb. Steinunn átti Johan Carl Söbek danskan beyki í Kjós, þ. b.: Kristín, Sigríður, Ferdinand o. fl.
   cc. Guðríður.
h. Jón annar.

bb. Jóhann[1]).
cc. Þórunn[2]).
dd. Ingveldur[3]).
ee. Margrét[4]).

---

i. Pantaleon. Son hans Markús, kvæntist.
k. Guðmundur dó bl.
l. Snæbjörn.
Laundóttir Þórólfs hét Þórdís.

1) Jóhann bjó síðast í Hörgshlíð átti Kristínu Skúladóttur og börn.

2) Þórunn var s. k. Jóns Jónssonar lögsagnara á Gróustöðum, bl. (sbr. II, 395).

3) Ingveldur átti Sigurð smið Jónsson frá Kaldrananesi Gunnarssonar, þ. b.:
a. Magnús á Gróustöðum átti Kristínu Aradóttur frá Reykhólum Jónssonar prests í Tröllatungu Ólafssonar, þ. b.:
aa. Jón á Tindum í Geiradal og Ingunnarstöðum átti fyr Sigríði Níelsdóttur frá Kleifum Sveinssonar, systur séra Sveins á Staðarstað, en síðar Karítas systur hennar og mörg börn: Jón, Magnús, Pétur, Sigríði og Kristínu.
bb. Björg s. k. Magnúsar Sigurðssonar á Hrófá (föður Jóns vestanpósts), þ. b.: Kristján og Ingibjörg.
b. Kristín átti Guðmund Böðvarsson á Oddastöðum, þ. b.:
aa. Böðvar á Sámsstöðum.
bb. Sigurður.

4) Laundóttir Margrétar Jóhannsdóttur með Guðbrandi Magnússyni prests í Garpsdal Halldórssonar var:
a. Þóra átti Ólaf stúdent Einarsson í Húsum hjá Selárdal († 1837) bróður Ísleifs háyfirdómara á Brekku (sjá Vestmanneyjasýslu).

Enn voru börn séra Jóhanns Þórólfssonar og Kristínar:
ff. Loptur var skáldmæltur, bjó á Kambi í Trékyllisvík, dó í Krossnesi 28. júní 1819 75 ára, átti Guðnýju Eyjólfsdóttur, þ. b: Jón á Kambi og Guðrún.
gg. Elizabet átti Guðmund Einarsson Pálssonar Helgasonar, bl., átti laundóttur með Sigurði Jónssyni réttláta á Múla í Gilsfirði, er hét Guðrún.
hh. Jón átti Sigríði Bjarnadóttur.

Seinni kona Jóns Elizabet Pálsdóttir[1]), barnlaus.
Laundóttir Jóns sýslumanns í Hnappadal[2]):
E. Ingibjörg fyrri kona Illhuga á Reynikeldu og víðar Loptssonar Magnússonar, þeirra börn:
a. Þorsteinn á Kvennahóli átti Guðrúnu Jónsdóttur, börn:
aa. Kristín átti Hálfdan í Þuranesi[3]).
bb. Þorsteinn skeggur[4]).
b. Ólafur í Fagradal átti Þjóðhildi Bárðardóttur blika, börn:
aa. Bjarni í Fagradal[5]).
bb. Jósep í Hallsbæ[6]).

---

1) Elizabet var dóttir séra Páls Sveinssonar í Goðdölum.

2) Móðir Ingibjargar var Þóra Guðbrandsdóttir Einarssonar.

3) Börn Hálfdans Bjarnasonar í Þuranesi og Kristínar:
a. Jónatan á Brunná átti Moniku Einarsdóttur, þ. b.: aa) Einar átti Sigríði Hjaltadóttur. bb) Kristín s. k. Jóns Bjarnasonar á Geirmundarstöðum. cc) Guðný átti Sigurð Arngrímsson. dd) Sigmundur. ee) Guðlaug.
b. Jón átti Kristínu Gissurardóttur. Launson hans Jóhannes.
c. Solveig átti Jón Jónsson.
d. Ólafur í Bessatungu átti Ingibjörgu Eyleifsdóttur og börn.
e. Dagbjört.
f. Guðrún átti Hall Finnsson og börn.

4) Þorsteinn var fróður karl, var tvíkvæntur, fyr Sigríði Teitsdóttur, svo Ingveldi Nikulásdóttur.

5) Bjarni í Fagradal átti Ragnhildi Oddsdóttur Péturssonar, þeirra son Bjarni skratti í Fagradal, h. d. Helga átti Jón Ormsson á Á.

6) Jósep var ekki son Ólafs og Þjóðhildar, heldur launson hennar með Ara Eyjólfssyni. Jósep átti fjölda barna.

Espólín telur enn son Ólafs og Þjóðhildar og albróður Bjarna: Ólaf í Elliðaey föður Einars föður Einars á Kvennahóli, en sú ættfærsla er vafasöm, enda telur hann rétt á eptir Einar á Kvennahóli son Einars Illhugasonar frá Reynikeldu, en það er eflaust rangt.

S. k. Ólafs Illhugasonar var Jóhanna Árnadóttir frá Fagradal Sigurðssonar og telur Snókdalín 9 börn þeirra.

Enn voru börn Illhuga á Reynikeldu og Ingibjargar, sem hér eru ekki talin:

c. Jón átti Kristínu dóttur Bjarna sálarlausa, þ. b.:

Jón biskup Vigfússon tók Hamraenda-Jón fyrir ráðsmann á Hólum í Hjaltadal. Kom sér þar misjafnt og mátti sleppa þar ráðsmennsku. Var illur kur um dauða eins skólapilts Sigurðar sonar séra Einars Skúlasonar í Garði, og var Jón grunaður þar um.

Þar eptir flutti hann til Dalasýslu að Dönustöðum, og svo að Hamraendum; var hann því ýmist kallaður Dönustaða- eða Hamraenda Jón. Þá hann með konu sinni bjó á Hamraendum kom förukarl þangað og svaf í baðstofu, en annað fólk í skála. Karl gat eigi sofið, leitaði að næturgagni undir pallinum, fann þar barnslík í byrðu, sagði frá því á Breiðabólsstað í Sökkólfsdal. Sigurður Pálmason bjó þar. Nokkru seinna ferðaðist Jón suður yfir Bröttubrekku, reið hjá Breiðabólsstað. Sigurður sá ferð hans og kallar: „Hvar er legkaupið Jón?" Jón svaraði ei. Seinna heimkominn sendi hann Sigurði góðan hest. (NB. Sigurður átti þá Sauðafell). Seinna varð fylgikona Jóns ólétt, ætlaði hún snemma vetrar inn í Hvammssveit. Jón fylgdi henni á veg. Stúlkan kom

---

aa. Þórunn átti Sighvat Jónsson í Bóndhól, þ. b. mörg, þar á meðal Guðrún átti Grím Einarsson í Galtarholti í Skilmannahrepp, þ. b. Sighvatur Borgfirðingur á Höfða í Dýrafirði.

d. Halldór í Frakkanesi. Hans son:

aa. Skeggi á Níp og Heinabergi átti Guðrúnu Sigmundsdóttur, þ. b.:

aaa. Hannes á Heinabergi átti Guðbjörgu Pálsdóttur frá Krossi Hannessonar, þ. b. mörg.

bbb. Valgerður átti launbarn með Magnúsi Moberg prentara, átti svo Daníel Þorláksson.

ccc. Rebekka átti Jón Bjarnason »stóru sál«.

ddd. Ingibjörg.

eee. Þorbjörg.

Espólín og Snókdalín telja, að launson Hamraenda-Jóns sýslumanns hafi verið:

F. Tómas bryti á Hólum, dó úr undarlegri veiki, átti launbarn með Þrúði (eða Þuríði) Magnúsdóttur frá Varðgjá.

hvergi fram, en um vorið fannst hún í Haukadalsá. Lá orð á, að það mundi af völdum Jóns. Eptir það var Jón sjaldan heima heilt ár. (Sann á þessu veit eg ekki, þó ritað sé). Hann fékk veiting fyrir Hnappadalssýslu eptir Magnús Hrómundsson 1694[1]), en bjó þó í Dölum, sem áður er sagt.

Ásgrímur Jónsson ráðdeildarlítill, en vel efnaður, hafði lofað Jóni próventu sinni, en erfingjar hans vildu það ekki samþykkja. Varð því mál þar út af 1701 og 1702; frádæmdi Páll lögmaður Vídalín Jóni próventuna á þriggja hreppa þingi á Þorkelshóli í Víðidal. Opt átti Jón í þrasi og gekk honum erfitt.

Svo vildi til á þorra veturinn 1705, að hann með öðrum manni fór að sækja fisk á hestum vestur undir Jökul. Fór hann á Fróðárheiði í ískyggilegu veðri og fékk fylgdarmenn. Brast á bylur og forráðsveður, svo allir villtust. Komust tveir menn lífs til byggða, einn varð úti og Jón sýslumaður. Hann fannst ekki og meintu menn hann hefði í villunni hrapað fyrir Knararhamra[2]).

Jón var óvinsæll, svo nokkrir sögðu, þá lát hans spurðist, að fjandinn hefði þar tekið eign sína, því hann var haldinn maður fjölkunnugur. — Jón var auðugur og ekki ólærður.

---

1) Svo er að sjá sem Jón sýslumaður hafi haft einhver umráð eða umsjón með Snæfellsnessýslu og Stapaumboði fyrir hönd Einars sýslumanns Eyjólfssonar 1694—95, því að á alþingi 6. júlí 1697 gengur 6 manna dómur í máli séra Jóns Eyjólfssonar og Jóns sýslumanns Jónssonar, að Jón sé og hafi verið »skyldugur réttan, skýran og skuggalausan reikningsskap gera og standa á hér nefndum Snæfellssýslu reikningi fyrir utan alla forsómun og undandrátt og það fyrir sál. Einars Eyjólfssonar erfingjum eður þeirra svaramanni, að Jón Jónsson sé skyldugur að betala til sál. Einars Eyjólfssonar erfingja eður þeirra svaramanna allt það skaðræði, ómak og kostnað, sem þeir hafa af hans undandrætti og forsómun hér út í hlotið«. (Lögþingisbók 1697 nr. 31).

Hinn 27. maí 1704 tekur Jón sýslumaður út Hallbjarnareyrarspítala fyrir bón Lárusar Gottrups.

2) Séra J. H. segir í ættatölum sínum beinlínis, að Jón sýslumaður hafi hrapað ofan fyrir björgin í bæjargilinu fyrir ofan Knör í feikna harðviðri og myrkviðrisfjúki í febrúar 1705.

## Vigfús Árnason.

*Faðir*: Árni bóndi á Heydalsá (haldinn kvennsamur) son séra Vigfúsar í Hellnaþingum Helgasonar á Hvítárvöllum lögréttumanns Vigfússonar Jónssonar, er veginn var í Síðumúla, Grímssonar.

*Móðir*: Málmfríður (fyrri kona Árna) dóttir Torfa Gíslasonar Björnssonar officialis í Saurbæ í Eyjafirði Gíslasonar (bróðir Árna sýslumanns á Hlíðarenda).

*Kona*: Helga dóttir Sigurðar Björnssonar Þórðarsonar prests Moldar-Brandssonar Einarssonar prests og skálds.

*Börn*: A. Sigurður Dalasýslumaður (sjá þar) [1]).

B. Mál[m]fríður seinni kona séra Guðmundar Jónssonar á Helgafelli, barnlaus[2]).

C. Guðmundur átti Sigríði Jónsdóttur frá Bár[3]), börn:

a. Þórður.

b. Ingibjörg laungetin, lánlítil.

D. Árni dó barnlaus. (Þeir feðgar Vigfús, Sigurður og Árni voru nafnkennd hraustmenni).

Vigfús bjó á Eyri[4]) (eg meina hospítalshaldari) og var hið mesta hraustmenni. Hann gerðist lögsagnari í Snæfellsnessýslu 1692 hjá Magnúsi lögmanni Jónssyni, og við hans dauða var hann settur fyrir Snæfellsnessýslu 1694—95. En þá Hamraenda-Jón deyði fékk hann sér veitta Hnappadalssýslu 1705. Hann hélt þá sýslu þar eptir til þess hann deyði, þá hann árið 1727 var á heimleið af alþingi og komst að

---

1) II, 713—717.

2) Sjá um séra Guðmund og börn hans með f. k. bls. 97.

3) Sigríður átti síðar Jón son Eiríks Steindórssonar við Búðir sbr. bls. 136, en þar er Guðmundur f. m. hennar talinn ranglega Guðmundsson hjá Boga.

4) Í ættatölum Jóns Magnússonar er Vigfús talinn á Öndverðareyri (Hallbjarnareyri), en 1702 býr hann í Bjarnarhöfn (Jarðabók A. M.). Þótt hann væri sýslumaður í Hnappadalssýslu, hefur hann ekki búið þar innan sýslu, heldur í Snæfellsnessýslu, líklega fyrst í Bjarnarhöfn og síðar á Hallbjarnareyri.

Staðarhrauni[1]) með harðfylgi. Hann var þá mjög hniginn að aldri og hafði lifað 6 vetur hins sjöunda tugar. — Vigfús tjáist að hafa verið maður einarður og stórgerður, en hægur hversdagslega.

## Steindór Helgason.

*Faðir*: Helgi bóndi í Akureyjum og víðar, sonur Ögmundar bónda í Bjarnarhöfn og Kongsbakka Sigurðssonar bónda í Akureyjum Ögmundssonar Hallssonar bænda.

*Móðir*: Guðrún dóttir Steindórs[2]) í Vatnabúðum Daðasonar Arnórssonar Helgasonar Helgasonar.

*Kona fyrsta*: Ingibjörg dóttir Helga í Hraunsfirði[3]) Vigfússonar prests Helgasonar Vigfússonar á Hvítárvöllum.

*Börn*: A. Helgi á Hellnafelli átti fyr Ragnheiði dóttur Jóns lögréttumanns Jónssonar[4]), börn:

a. Hafliði borgari í Grundarfirði[5]) átti Kristínu Sigurðardóttur, bl.

b. Jón á Hamri, drukknaði 1800 með 8 hásetum við Hellna, átti Herdísi Sigurðardóttur[6]), börn:

---

1) Hann andaðist 20. júlí, 2 dögum síðar en Páll lögmaður Vídalín.

2) Guðrún var systir séra Daða Steindórssonar í Otrardal, föður Orms sýslumanns (II, 705). Hún er á lífi hjá syni sínum Steindóri sýslumanni á Hofsstöðum 1729 67 ára gömul og er því fædd um 1662.

3) Helgi Vigfússon faðir Ingibjargar bjó í Þrengslabúð við Hellna, segir séra J. H. í ættartölum sínum, en Helgi Helgason sonarson hans, bróðir Vigfúsar spítalahaldara á Hallbjarnareyri var í Hraunsfirði, og það hefur blandazt málum hjá Boga.

4) Jannessonar.

5) Sjá um Hafliða II, 247. Kristín kona hans var dóttir Sigurðar prests Jónssonar í Stafholti. Hafliði er fæddur 1757, en Helgi faðir hans um 1716.

6) Jón bjó á Hamri í Hörðudal. Herdís kona hans var dóttir Sigurðar á Staðarbakka Pálmasonar á Svelgsá Einarssonar Brandssonar (Galdra-Brands) í Stóraskógi Einarssonar.

aa. Ólafur.
bb. Sigurður.
cc. Bjarni.
dd. Ragnheiður.
c. Helgi í Rifi átti Hildi Hallgrímsdóttur.
d. Steindór fór utan í siglingar[1]).
e. Helgi.
f. Soffía[2]).

Seinni kona Helga Valgerður Tómasdóttir, börn:
g. Ingibjörg átti Daníel í Kirkjufelli Magnússon og börn[3]).
h. Þuríður átti Bárð í Vík Árnason[4]) og börn.
i. Steinunn.

B. Guðrún Steindórsdóttir átti Brand í Hólahólum Eiríksson[5]), barn:
a. Guðrún átti Gísla Gíslason.

*Kona önnur*: Helga Jónsdóttir (sjá Snæfellsnessýslu), gipt 1727, bl.[6]).

---

1) Steindór dó utanlands ókv. bl.

2) Helgi og Soffía, sem hér eru talin börn Helga Steindórssonar, munu hafa verið börn Helga sonar hans og svo telur Espólín. Bogi hefur hér ruglazt í merkjunum.

3) Börn Daníels í Kirkjufelli og Ingibjargar:
a. Jón borgari í Grundarfirði átti Guðrúnu Jónsdóttur prests Hjaltalíns Oddssonar, þ. b. Stefán í Grundarfirði (sjá hér áður bls. 242), Anna kona Ólafs Árnasonar Thorlaciusar (bls. 245) Jón og Gróa, er dóu bæði fulltíða.
b. Magnús í Gröf í Eyrarsveit. Son hans:
aa. Daníel á Hömrum átti Kristínu Guðbrandsdóttur.
c. Jón yngri á Hömrum og Kverná í Eyrarsveit átti Kristínu Jónsdóttur prests Hjaltalíns Oddssonar, þ. b.:
aa. Jakob Karvel söðlasmiður á Kvíabryggju, kvæntur Ragnhildi Indriðadóttur Halldórssonar, eiga börn.
bb. Jónas fór til Vesturheims.
cc. Gróa giptist á Barðaströnd, en dó skömmu síðar.

4) Bárður Árnason bjó á Skerðingsstöðum (sbr. bls. 101 n. m.). Börn hans og Þuríðar: Bjarni, Þuríður og Valgerður.

5) Sbr. bls. 136. Guðrún er fædd um 1715.

6) Helga var dóttir Jóns lögréttumanns Illhugasonar á Munað-

*Kona þriðja* var Margrét[1]) dóttir séra Jóns undir Felli [í Vatnsdal], hálfsystir séra Jóns Björnssonar á Setbergi[2]), barnlaus.

Launbarn Steindórs með Sigríði Þórðardóttur[3]):

C. Jón átti Guðrúnu Steindórsdóttur í Virki[4]), börn:

a. Bjarni.

b. Jón, báðir barnlausir[5]).

Launson Jóns og Sigríðar Steindórsdóttur[6]):

---

arhóli og Þorbjargar Þórðardóttur sýslumanns Steindórssonar (sbr. bls. 156). Hún giptist Steindóri sýslumanni 1727, en andaðist ári síðar (1728). Þau voru ekki barnlaus, eins og Snókdalín og Espólín (og Bogi) telja. Áttu þau son, er E i r í k u r hét (J. H. ættat.) og dó hann ungur. Hann er fæddur 1728 og er á fóstri 1 árs gamall (1729) hjá Gísla Jónssyni og Ingibjörgu Sigurðardóttur á Borg í Miklholtshreppi (sbr. Manntal í Hnappadalssýslu í október 1729, handrit í minni eigu).

1) Séra Jón Jónsson faðir Margrétar var víða prestur, síðast í Garpsdal, dó fjörgamall 1744, kallaður ýmist séra Jón brauðlausi, Jón vífni, eða Jón brúnklukka. Hans er getið I, 250. Séra Björn í Bólstaðarhlíð var dótturdótturson hans.

2) Og Magnúsar sýslumanns Björnssonar (sjá Snæfellsnessýslu bls. 182) því að séra Jón brúnklukka var s. m. Þóreyjar, móður séra Jóns á Setbergi og Magnúsar sýslumanns. — Margrét dó haustið 1766 litlu á undan manni sínum (J. H. ættat.viðauki). — Það er skakkt hjá Snókdalín, er hann telur Steindór sýslumann fjórkvæntan og 4. konu hans Margréti Björnsdóttur, systur samfeðra Magnúsar sýslumanns Björnssonar, en hann hefur villzt á því, að Margrét 3. kona hans var systir sammæðra þeirra Magnúsar sýslumanns og séra Jóns á Setbergi.

3) Sigríður var dóttur Þórðar í Bug Jónssonar prests í Miklaholti Sigurðssonar.

4) Steindór í Virki (✝ 1746) var son Ólafs Þorsteinssonar í Virki.

5) Espólín telur eins og Bogi Jón og Bjarna syni Jóns Steindórssonar og Guðrúnar, en Snókdalín getur þeirra ekki, en telur dóttur Jóns og Guðrúnar: Guðrúnu konu Bjarna Skaptasonar í Traðabúð, bróður Steinunnar móður Sigurðar stúdents Ögmundssonar í Arnartungu í Staðarsveit (✝ 1818).

6) Sigríður var dóttir Steindórs í Ólafsvík Jónssonar Hallbjörnssonar.

c. Þórður í Háa-Rifi átti fyr Guðrúnu Teitsdóttur, bl., svo Guðrúnu Hallsdóttur Jónssonar[1]), börn:
aa. Guðríður[2]).
bb. Ólöf[3]).

Steindór var mikilmenni að karlmennsku. Hann gerðist lögsagnari Odds lögmanns Sigurðssonar í Snæfellsnessýslu 1717[4]) og þar eptir. Var svo settur sýslumaður í Hnappadalssýslu 1727, fékk sér hana veitta 1728, sagði henni af sér 1755, deyði sjálfur 1766. Hafði hann optast sýsluvöld eða málsfærslur í 38 ár. Hann var lítt lærður, en allvel viti borinn, einarður, bjargálnamaður, gefinn fyrir ölföng.

---

1) Sumir telja föður Guðrúnar Hall Þorleiksson og mun það réttara.

2) Réttara: Guðrún. Hún átti Magnús Magnússon Tómassonar og Kristínar Finnsdóttur Egilssonar á Kálfalæk Finnssonar.

3) Réttara: Ólafur.

4) Réttara mun 1714, sbr. um lögsögu Steindórs í Snæfellsnessýslu 1714—1719 og vitnisburði hans þar (bls. 210).

Steindór sýslumaður er fæddur 1683 eða um það leyti, því að hann telur sig 46 ára gamlan í október 1729 (sbr. Manntal í Hnappadalssýslu það ár). Býr hann þá ekkjumaður á Hofsstöðum í Miklaholtshreppi í sambýli við Þorgils stúdent Sigurðsson, föður Jóns Hellnaprests. Hefur hann farið að búa á Hofsstöðum, er hann tók við sýslunni 1727, og kvæntist þá miðkonu sinni, er lézt árið eptir. Síðar hefur hann búið á ýmsum jörðum. 1735 er hann í Straumfjarðartungu, en 1744 er hann kominn að Kolbeinsstöðum og er þar enn 1747, en síðar fluttist hann að Hróksholti í Eyjahrepp og vildi fá þá jörð til æfilangrar ábúðar. 1754 sækir hann um að fá Haukatungu til æfilangrar ábúðar og svo fyrir konu sína eptir sinn dag. En þá er hann hætti að þjóna sýslunni 1755 hefur hann hætt búskap í Hróksholti og flutt vestur í Rif, líklega í skjól Jóns sýslumanns Árnasonar að Ingjaldshóli. Sækir hann þá um sumarið til konungs um eptirlaun og mælir Jón sýslumaður með þeirri beiðni. Segist Steindór sýslumaður þá (1755) vera 74 ára gamall, og ætti eptir því að vera fæddur 1681, en hin fyrri sögn hans um aldur sinn 1729 mun áreiðanlegri. 1756 fékk hann 16 rd. í eptirlaun. Hann andaðist á jólaföstu 1766, en kona hans var dáin nokkru fyr um haustið.

Það er sögn faktors Hafliða Helgasonar í Grundarfirði og lögsagnara Sigurðar Guðlaugssonar, að Steindór eitt sinn um sumar í hita veðri ætlaði yfir Arnardalsskarð til Grundarfjarðar nokkuð ölvaður, en er hann kom sunnan undir skarðið sótti hann svo mikill svefn, að hann fór af baki, batt hest sinn og sofnaði fast. Þá hann vaknaði varð hann þess var, að honum var horfið vasakver sitt með áríðandi skjölum. Reið hann þá að næsta bæ Bláfeldi og spurði, hverjir um veginn hefðu farið. Var honum sagt ei aðrir, en Jóhann Gottrup með fylgjurum sínum. Reið þá Steindór hvatlega til Grundarfjarðar, hitti Jóhann og þrengdi svo að honum, að hann skilaði aptur kverinu og öllum skjölunum. Var þó Jóhann í þá daga mjög harðger viðfangs. En svo var Steindór harðger, að Jóhann treystist ei að halda til streitu í þessu við hann.

Annars telst Steindór að hafa verið óframfærinn í margmenni og kvennamaður.

## Páll Axelsson.

*Faðir*: Axel Friðrik lögsagnari í Árnesþingi 1714 etc. son Jóns eldra frá Einarsnesi sýslumanns í hálfu Húnavatnsþingi Sigurðssonar lögmanns Jónssonar (sjá Húnavatnsþing). Axel datt af kaupskipi í Hólminum ofan í bátinn, kostaðist þar af, svo hann deyði litlu síðar.

*Móðir*: Ólöf (fædd 1673) Bjarnadóttir Árnasonar Gíslasonar frá Staðarfelli.

*Kona*: Helga dóttir séra Árna í Arnarbæli Þorleifssonar.

*Börn*: A. Axel[1]) átti Guðrúnu Marteinsdóttur á Álptá Högnasonar Halldórssonar prests á Ökrum. (Axel sá illa, var haldinn aulamenni), barn:

a. Guðrún[2]).

B. Anna átti Þorstein Bjarnason í Höfn undir Hafnarfjalli, börn:

---

1) Axel Pálsson dó úr »megurð« 18. apríl 1785 (í móðuharðindunum) 46 ára gamall. Hann var þá húsmaður á Stakkhamri.

2) Guðrún dó úr holdsveiki, sveitarómagi 12. maí 1803, 26 ára gömul. Páll Axelsson bróðir hennar dó ungur.

a. Helga átti Guðmund eldra Friðriksson prests[1]), barn:
aa. Anna[2]).
b. Helga yngri[3]).
c. Þorleifur[4]).
d. Jón.
C. Ólöf fyrri kona Jóns Árnasonar í Keflavík[5]), börn:
a. Benjamín.
b. Andrés.
c. Magnús, öll barnlaus.
d. Arndís[6]).

---

1) Guðmundur var son Friðriks prests Guðmundssonar á Borg († á Ólafsvöllum 6. júlí 1812).

2) Anna var s. k. Helga Eyjólfssonar í Grjóta í Reykjavík, þ. b.:
a. Guðmundur í Grjóta átti fyr Maríu Þorláksdóttur hafnsögumanns Þorgeirssonar Þorlákssonar á Hjalla Guðmundssonar, þ. b., Þorlákur, síðar Jörgínu Þorsteinsdóttur Eyjólfssonar (sjá síðar). — Launson Önnu með Þorsteini Erlendssyni hét Jón.

3) Helga yngri († 30. marz 1812) átti fyr Eyjólf í Reykjavík Pálsson frá Ártúnum á Kjalarnesi Bjarnasonar og Mettu Katrínar Filippusdóttur smiðs á Jörfa Húnasonar, þ. b.:
a. Þorsteinn á Melnum í Rvík átti Sigríði Jónsdóttur frá Digranesi Jónssonar, þ. b.: Jörgína s. k. Guðmundar Helgasonar í Grjóta og Anna.
b. Anna dó ung 1812.
c. Metta dó ung.
S. m. Helgu Þorsteinsdóttur 1809 Jón Snorrason (f. k. hans) múrari í »Steinshöll« eða Hellulandi í Rvík, þ. b.: Metta var aumingi.

4) Þorleifur bjó um tíma á Fellsöxl átti Sigríði Sumarliðadóttur Magnússonar, þ. b.: Andrés og Guðríðar tvær.
S. m. Önnu Pálsdóttur Axelssonar var Einar Sveinbjörnsson í Innstavogi, bróðir Þórðar í Akrakoti, föðurföður Þórðar háyfirdómara Sveinbjörnssonar, og var hún miðkona hans, þau bl. Anna dó í Innstavogi 13. des. 1793 57 ára.

5) Jón var son Árna Högnasonar og Margrétar Þorvarðsdóttur lögréttumanns í Krossholti Sigurðssonar (sjá hér áður bls. 265).

6) Snókdalín nefnir aðeins Andrés og Arndísi börn Jóns og

D. Guðríður átti fyrst barn með Guðbrandi, það dó. Annað með Jóni Tómassyni í Krossnesi, hét Guðrún. Hún fór utan til Jótlands og giptist þar skraddara, bl.[1]). Svo giptist Guðríður Sigurði syni séra Friðriks á Borg, börn:

a. Jón[2]).

b. Páll átti Vigdísi Guðmundsdóttur[3]).

Páll var fæddur 1714[4]), giptist í Árnessýslu og var sett-

---

Ólafar. Ólöf átti áður en hún giptist launbarn með Ívari Jónssyni frá Ytra-Skógarnesi, það dó ungt.

1) Snókdalín segir, að Guðrún laundóttir Jóns Tómassonar og Guðríðar Pálsdóttur hafi fyr átt Jón Sigvaldason í Rifi og eina dóttur Guðrúnu, en síðar Eirík Guðmundsson frá Hjöllum og mun það rétt. En laundóttir Guðríðar með Guðbrandi Sigmundssyni í Straumfjarðartungu hét Guðrún og það mun vera hún, sem Bogi segir, að hafi giptst á Jótlandi. Guðrún Guðbrandsdóttir er í Borgarholti 1786 10 ára gömul hjá móður sinni og Sigurði Friðrikssyni manni hennar (Prestsþjónustubók Miklaholts í Landskjalasafni).

2) Jón átti Þórunni Jónsdóttur, þ. d.:

a. Guðríður.

3) Enn var dóttir Sigurðar Friðrikssonar og Guðríðar:

c. Sigríður átti Jón á Bakkafit við Búðir Halldórsson Símonarsonar, þ. b.: Halldór á Urriðaá, Þorgerður, Helga, Guðríður.

Guðrún Pálsdóttir, er andaðist í Borgarholti 9. apríl 1785 talin 46 ára, hefur verið dóttir Páls sýslumanns. Hennar er getið meðal barna hans í ættatölubók með hendi Magnúsar sýslumanns Ketilssonar í safni Jóns Sigurðssonar á landsbókasafninu 163 fol. Þar er og nefndur son Páls sýslumanns Andrés, er hafi dáið ókv. bl. og þau Guðrún bæði.

4) Um Pál sýslumann Axelsson skal þess getið, að hann var fæddur á Hömrum í Grímsnesi 1714, missti föður sinn 3 ára gamall (1717) og ólst svo upp hjá móður sinni á Hömrum, fór í Skálholtsskóla haustið 1724, og var þar 5 vetur (1724—29) alla veturna neðstur í neðri bekk, nema síðasta veturinn (1728—29) þá er Jón Marteinsson fyrir neðan hann. Veturna 1729—30 og 1730—31 er Páll ekki í skólanum, en veturinn 1731—32 er hann 5. að neðan í neðri bekk (sbr. Skólaraðir frá Skálholti Lbs. 207 4to). Hann útskrifaðist loks 1735. 1742 var hann skipaður lögréttumaður í Árnesþingi og sór þá lögréttumanns eið sinn (Lögþingisbók 1742). Þá bjó hann í Arnarbæli í Ölfusi, því að tengdafaðir hans Árni

ur sýslumaður í Hnappadal 1755, fékk veiting fyrir sýslunni 24. febr. 1756 og fékk sér bústað á Jörfa í Flysjuhverfi, en seinna flutti hann að Borgarholti í Miklaholtshreppi. Hann varð maður gamall og tók Pétur Pétursson í Görðum fyrir sinn lögsagnara 1783. Hann átti jafnan þröngvan fjárhag, og eitthvert sinn á alþingisferð missti hann lítilfjörlegan áburð af hesti í Hvítá, kom til alþingis og kvaðst hafa misst sýslueptirgjaldið. Skutu þá heldri menn á alþingi saman og borguðu afgjald sýslunnar fyrir hann.

Páll var maður náttúruskýr og allheppinn dómari; var hann og stundum settur dómari í málum í öðrum sýslum, tókst honum það vonum betur. Hann var í háttsemi búramenni. Gerðu því nýmóðins menn og jafnvel bændur háð að honum. Eitthvert sinn lét hann eptir dómi hengja þjóf, og þá menn ætluðu að taka galgann ofan tjáist Páll hafa sagt: „Látið þið snöruna hanga piltar, gefst í gerðar spyrður". Þetta meintu sumir fyrir óviturleik, en hyggnari menn meintu hann hefði svo sagt til að ógna sýslubúum, að þeir skyldu ekki stela, því ekki leitaði hann nokkurs manns óheilla. En sjálfur var hann opt þurfandi og fékk mat að láni hjá sýslubúum, sem hann borgaði þá hann gat. (Eptir sýslubúa sögn).

---

prófastur Þorleifsson hefur þá verið hættur búskap. Eptir lát séra Árna 1744 mun Páll hafa flutt frá Arnarbæli að Laugarbökkum í Ölfusi og þar býr hann 1747, 1748, 1749 og 1750, en vorið 1755 er hann talinn búandi í Súluholti í Flóa og sömuleiðis 1756 og 1757 í maí, en það ár engin tíund talin hjá honum (Manntalsbækur í Árnessýslu) sem eflaust stafar af því, að hann hefur ekki sleppt ábúð á Súluholti fyr en í fardögum 1757. En vestur fór hann sjálfur lausríðandi, undireins og hann var settur sýslumaður, í marzmánuði 1755, og tók þá þegar í aprílmánuði að þinga í þjófnaðarmáli. Með búslóð sína hefur hann ekki flutt vestur fyr en 1756, eptir að hann hafði fengið veitingu fyrir sýslunni, en hefur ekki getað losnað við ábúð á Súluholti fyr en vorið 1757.

Páll sýslumaður andaðist í Borgarholti úr taksótt (lungnabólgu) 8. maí 1785 (sbr. prestþjónustubók frá Miklaholti) en ekki 1786 eins og Bogi segir, og alstaðar hefur verið talið hingað til (sbr. Árb. Esp. XI, 51).

Páll deyði 1786[1]) mjög hniginn að aldri og að síðustu þrotinn að heilsu.

## Pétur Pètursson.

*Faðir*: Séra Pétur prestur í Miklaholti 56 ár[2]) sonur Einars bónda í Ólafsvík Halldórssonar lögréttumanns og lögsagnara í Snæfellsnessýslu Guðmundssonar í Norðtungu Guðmundssonar lögréttumanns Hallssonar Mýrasýslumanns Ólafssonar prests í Saurbæ Kolbeinssonar.

*Móðir*: Kristín dóttir Sigurðar lögréttumanns í Skógarnesi Pálssonar Bjarnasonar sama staðar. En Bjarni lögréttumaður (dó af munnbita 1610) var sonur Moldar-Brands Einarssonar prests á Staðarstað. (NB. Aðrar ættir telja Bjarna þennan Egilsson, en konu hans Guðrúnu dóttur Moldar-Brands[3]).

*Kona*: Arndís dóttir Skapta lögréttumanns í Skógarnesi Sigurðssonar lögréttumanns Pálssonar í Skógarnesi (sjá að ofan)[4]).

*Barn*: A. Pétur[5]) vígðist til kapelláns í Stafholti 1800, fékk svo Stafholt. Giptist[6]) Sigþrúði dóttur séra Bjarna á Mælifelli. Móðir séra Bjarna var Sigþrúður blinda, átti hún þennan son með bóndamanni Jóni Gíslasyni[7]), en hún var

---

1) Á að vera 1785 (sjá hér á undan). Páll hefur þá verið 71 árs að aldri.

2) Séra Pétur Einarsson í Miklaholti dó 6. maí 1778 á níræðisaldri. Sjá um föðursystkin hans og föðurætt bls. 140—141.

3) Það er réttara.

4) Arndís dó 23. maí 1792 62 ára.

5) Pétur prófastur Pétursson í Stafholti var fæddur 17. apríl 1772 en dó 9. febrúar 1837.

6) Þau giptust 20. júní 1795.

7) Faðerni séra Bjarna þótti allóvíst og var ætlun manna, að meinbugir væru á. Í safni Árna Magnússonar 995 4^to^ er frásögn um þetta eptir Jón Ólafsson Grunnvíking. Hann segir svo: »1732 bar það við vestur í Staðarsveit, að dóttir prestsins á Staðarstað, Sigþrúður að nafni, sem blind var, fór um veturinn til eins bæjar

dóttir séra Jóns á Staðastað, sonar séra Jóns í Belgsdal Loptssonar Árnasonar Loptssonar Pétussonar Loptssonar Ormssonar Loptssonar ríka á Möðruvöllum. Börn séra Péturs og Sigþrúðar:

a. Kristján við lærdóm, deyði innan tvítugs[1]).
b. Arndís giptist séra Friðrik kapelláni í Skarðsþingum syni séra Eggerts á Ballará Jónssonar prests í Holti í Önundarfirði Eggertssonar á Skarði Bjarnasonar ríka sama staðar, þ. b.:
   aa. Sigþrúður.
   bb. Pétur.
   cc. Guðrún. Mörg dóu[2]).

Pétur lærði skólalærdóm[3]), gipti sig og fór að búa. Fékk faðir hans honum efni þar til. Hann gerðist brátt bezti bú-

---

þar í sókninni. Á bænum var gipt kona ólétt. Skömmu síðar kom barn frá konunni heim að staðnum til skírnar. Kapelláninn séra Ólafur son prests, en bróðir Sigþrúðar, skírði það. Stuttum tíma þar eptir, svo sem hálfum mánuði síðar, kom annað barn frá sama bæ, sem kennt var sömu konu og hennar manni; það skírði prestur eins og lagði ekkert til. Nokkru síðar kom dóttir prests heim. Þetta þótti mönnum undarlegur barnburður. Sýslumaður Gottrup vildi rannsaka þetta, en þar varð ekkert úr«. Þannig skýrir Jón Grunnvíkingur frá þessu. En það orð lá á, að séra Ólafur bróðir Sigþrúðar ætti barnið, eða öllu heldur Ólafur blindi, annar bróðir Sigþrúðar. En séra Ólafur missti prestsskapar út af þessari barnsskírn, fékk þó uppreisn síðar og varð prestur að Stað á Snæfjallaströnd († 1755).

1) Kristján f. 29. nóvember 1800, var nærri útlærður í Bessastaðaskóla, er hann andaðist 29. apr. 1823. Annar son Péturs prófasts og Sigþrúðar Pétur að nafni dó ungbarn.

2) Um börn séra Friðriks og Arndísar sjá II, 726—727. Um leið skal þess getið, að Jón stúdent Eggertsson, bróðir séra Friðriks andaðist 1880 (en ekki 1882, eins og sagt er II, 726).

3) Pétur var fæddur í Miklaholti 31. janúar 1733, lærði í heimaskóla og útskrifaðist um 1754, sigldi svo og var utanlands 1 ár, en ekki við háskólanám.

þegn, sparsamur og hagsýnn. Keypti töluvert jarðagóz og varð maður auðugur. Bjó hann lengst í Görðum í Staðarsveit. 1783 gerðist hann lögsagnari Páls Axelssonar og var fyrir Hnappadalssýslu þá Páll deyði 1786[1]) og 1787, þá sýslan var sama ár lögð til Mýrasýslu[2]), og þjónaði þar síðan Mýrasýslumaður.

Þá Jón sýslumaður Arnórsson var vegna skulda frásettur Stapaumboði og sýslu var Pétur settur fyrir hvorutveggja til þess dómur var í málinu fallinn 1789 og Jón sýslumaður hélt sýslunni, en St. Scheving tók umboðið. Hann var og tvisvar á öðrum tíðum settur í Snæfellsnessýslu til að gegna sýslumannsverkum. Á elliárum sínum brá hann búi og flutti til Péturs prófasts sonar síns í Stafholti og deyði þar[3]).

---

1787 lagðist Hnappadalssýsla til Mýrasýslu og var þar þá sýslumaður *Guðmundur Ketilsson.* Hann frásagði sér sýslurnar 1805 og fékk lausn 1806.

1807 var *Pétur Oddsson* settur yfir báðar sýslurnar, fékk veiting 1808, sleppti þeim 1828.

1828 tók *Eiríkur Sverrisson* téðar sýslur. En fékk veiting konungs fyrir Rangárþingi 1836 og flutti þangað austur 1837.

1836 fékk danskur maður *Bertel Holm Borgen* veiting fyrir þessari og Mýrasýslu. Hann fékk veiting fyrir Eyjafjarðarsýslu 1837 og kom aldrei til þessarar sýslu.

1837 öðlaðist annar danskur maður *Marteinn Friðrik Lund* veitingu fyrir þessari og Mýrasýslu, og giptist í Reykjavík Hönnu eða Önnu dóttur kaupmanns Óla Péturs Kristjáns

---

1) Réttara 1785 (sjá áður).

2) Sýslurnar voru sameinaðar með kgl. tilskipun 9. ágúst 1786, en það var ekki fyr en árið eptir (1787) að hin reglulega sameining komst á.

3) Hann andaðist 14. apríl 1814, 81 árs að aldri. Hann var auðmaður, en þótti nokkuð harðdrægur og aðsjáll. Segir Daði fróði, að hann einhverju sinni hafi selt hrygg af öldu nauti í 18 stykkjum og hafi um það verið kveðin vísan: »Signor Pétur seldi hrygg« o. s. frv.

Möllers. Var Lund fyrst húsmaður á Hamri í Mýrasýslu, svo í Vogi á Mýrum[1]).

---

1) Eptir burtför Lunds sýslumanns þjónaði Magnús Gíslason Mýra- og Hnappadalssýslu 1 ár (1847—48) (sbr. II, 746—47), en eptir hann voru sýslumenn í Hnappadalssýslu (ásamt Mýrasýslu): Jón Pétursson (1848—50). C. Villemoes (1851—55), Bogi Thorarensen (1855—60), Jóhannes Guðmundsson (1861—69) og Eggert Th. Jónassen (1869—71). Sjá frekar um sýslumennina í Hnappadalssýslu 1787—1871 við Mýrasýslu. Eptir sameiningu Hnappadalssýslu við Snæfellsnessýslu 1871 hafa þessir verið þar sýslumenn: Skúli Magnússon Nordahl (1871—77), Sigurður Jónsson (1878—93), Sigurður Briem (1893—94) og Lárus H. Bjarnason (frá 1894). Sjá um þá hér á undan bls. 248—251.

# VII. Mýrasýsla.

*Þeir gömlu þingstaðir í Mýrasýslu*:

1. Sámsstaðir í Hvítársíðu.
2. Norðtunga í Þverárhlíð.
3. Hjarðarholt í Stafholtstungum.
4. Öskjuholt í Borgarhrepp } kallast á Mýrum.
5. Smiðjuhóll í Álptaneshrepp } kallast á Mýrum.
6. Lækjarbugur í Hraunhrepp } kallast á Mýrum.
7. Dýrastaðir í Norðurárdal.

Sá hluti Þverárþings, sem liggur millum Hvítár og Hítarár kallast á seinni tíðum Mýrasýsla eða Þverárþing vestan Hvítár. Optara hafði sami valdsmaður þetta umdæmi og Borgarfjarðarsýslu til 1500, hvar um getið er við Borgarfjarðarsýslu, hvað eg vil ekki hér framar ítreka annað en meiningu mína, að Kolbeinsstaðamenn hafi lengi hér völd haft[1]). Meina eg að optast hafi alt Þverárþing á 13 og 14. öld verið undir einum umboðsmanni, eins og stundum á seinni öldum.

## [Viðauki.

Hér verður aðeins stuttlega getið nokkurra heldri manna, er mest hefur kveðið að í Mýrasýslu frá því um 1260 og fram á 15. öld, eða þangað til vissa er fengin um ákveðin sýsluvöld einstakra manna. Hefur áður hér í Sm.æf. verið getið hirðstjóra og annara höfðingja, er haft hafi völd í Vestfirðingafjórðungi, og er enginn vafi á því, að þessir menn hafi jafnframt haft völd í Þverárþingi vestan Hvítár (Mýrasýslu) og jafnvel sunnan Hvítár líka (Borgar-

1) Í hdr. nr. 385 4^to^ á landsbókasafninu segir Bogi, er hann getur Kolbeinsstaðamanna, að Þorlákur lögmaður Narfason, faðir Ketils hirðstjóra hafi búið í Haukatungu (í Kolbeinsstaðahreppi), en heimildir fyrir því þekki eg ekki. Alstaðar talið, að Þorlákur lögmaður hafi búið á Kolbeinsstöðum eptir Narfa prest Snorrason föður sinn. Son Þorláks lögmanns hefur verið Narfi († 1367) faðir Þorláks prests í Hítardal († 1369).

fjarðarsýslu). Þeir höfðingjar, sem að líkindum hafa haft sýsluvöld í Mýrasýslu á árunum 1264—1400 og áður er getið eru t. d.:

Sturla Þórðarson lögmaður († 1284) Rafn Oddsson († 1289), Erlendur Ólafsson sterki lögmaður († 1312), Ketill Þorláksson hirðstjóri († 1342), Grímur Þorsteinsson lögmaður í Stafholti († 1350), Ívar Vigfússon Hólmur eldri (um 1352—1358), Jón Guttormsson skráveifa lögmaður († 1362) og Ólafur Pétursson hirðstjóri (um 1364—1365, † 1410) og ef til vill Ormur Snorrason lögmaður († um 1402). Sjá nánar um þessa menn II, 254—259, 420—22, 435—437, 440—442; III, 2—5 o. s. frv.

---

## Þorleifur hreimur Ketilsson

lögsögumaður, son Ketils lögsögumanns Þorlákssonar og Halldóru Þorvaldsdóttur systur Gissurar jarls, bjó í Hítardal og andaðist 1289 (Gottskálksannáll). Hann var þrisvar lögsögumaður (sbr. Safn til sögu Ísl. II, 33—39). Hann hefur búið í Hítardal samtíða þeim Katli Loptssyni og sonum hans, en ekki var hann við Staðamál riðinn, enda hefur hann þá verið orðinn gamall, því að hann mun fæddur á árunum 1210—1220. Son hans var Þorlákur, hann komst lífs úr Flugumýrarbrennu 1253 10 ára gamall (Sturl.), móðir hans var systir Gró Álfsdóttur, konu Gissurar jarls. Son þessa Þorláks hefur verið Ísleifur faðir Þorláks föður Ólafs, sem skipuð er ómagavist í Hítardal af Oddgeiri biskup 17. ágúst 1375 (Fbrs. III, 303—304). Son þessa Ólafs hét Árni. Í Fbrs. III, 304 er ættin rakin svo, að Þorlákur Ísleifsson faðir Ólafs er talinn sonarson Þorleifs hreims og getur það auðvitað staðið tímans vegna og Þorlákur þá heitið eptir Þorláki Þorleifssyni föðurbróður sínum, en hitt er líklegra, eins og dr. Jón Þorkelsson einnig telur (Ættaskrár við ártíðaskrár) að Ísleifur faðir Þorláks hafi verið son Þorláks Þorleifssonar hreims. Þessir afkomendur Þorleifs hreims munu hafa búið í Hítardal, en líklega hefur ekki mikið að þeim kveðið og ekki verða ættir frá þeim raktar.

Ketill Loptsson Pálssonar biskups í Skálholti bjó í Hítardal og var merkur höfðingi. Hann lenti í Staðamálum við Árna biskup (Bisks. I, 685, 687, 688, 690, 695). Hann andaðist 5. febrúar 1273 (Annálar). Synir hans voru Loptur og Páll, er tóku Hítardalsstað 1284 af séra Jóni Holt ásamt Snorra Ingimundarsyni. Ártíð Lopts Ketilssonar er 8. apríl, en ekki vita menn hvenær hann eða Páll bróðir hans andaðist.

Snorri Ingimundarson digri tók Hítardalsstað með

Lopti og Páli Ketilssonum 1284, en gekk síðar til hlýðni við Jörund biskup 1289, og er hann þá kallaður herra Snorri hinn digri (Bisks. I, 778—79). Hann mun hafa verið nokkuð stórgerður. Hans getur í annálum 1296, að hann rænir Tjörfa prest ásamt Erlendi sterka. Utanfarar hans er og getið 1297 og 1299, en 28. apríl 1301 andaðist hann, og er óvíst, hvort hann hefur látizt hér á landi, eða í Noregi. Ætt hans er ekki kunn, en mjög sennilegt hygg eg, að faðir hans hafi verið Ingimundur Jónsson Brandssonar, systurson Snorra Sturlusonar og í fylgd með honum jafnan. Hann andaðist 1231 (Sturl., Annálar) og hefur þá verið á bezta aldri. Hefur Snorri digri son hans borið nafn Snorra Sturlusonar, en verið mjög ungur, er faðir hans andaðist, og getur þetta vel staðizt tímans vegna. En á áttræðisaldri hefur Snorri þá verið, er hann andaðist. Ingimundur átti bú í Skáney í Reykholtsdal og um þær slóðir (í Þverárþingi) hefur herra Snorri digri verið, eins og ráða má af því að hann tekur Hítardalsstað.

Oddur Hauksson hefur búið á Álptanesi á Mýrum um 1300. Foreldrar hans voru Haukur, er bjó á Álptanesi 1252 og Gróa Oddsdóttir frá Álptanesi († 29. nóv. 1247) Sveinbjarnarsonar, komin í beinan karllegg frá Ásbirni Össurarsyni landnámsmanni bróðursyni Ingólfs Arnarsonar (Landn. 1843. bls. 74, sbr. 320). Oddur Hauksson mun hafa verið náskyldur Erlendi sterka, föður Hauks lögmanns. Hvort Haukur prestur Oddsson, er andaðist 1380 (Gottskálksannáll) hafði verið sonur Odds á Álptanesi er óvíst; staðist gæti það tímans vegna, en mjög gamall hefur þá Haukur prestur verið, er hann lézt. Oddur Hauksson mun vera sá Oddur, er nefndur er í Vilkinsmáldaga Álptanesskirkju (Fbrs. IV, 187).

Jón Erlendsson, er verið hefur son Erlends lögmanns sterka Ólafssonar og bróðir Hauks lögmanns, bjó á Ferjubakka. Hann mun vera sá Jón Erlendsson, er getur í annálum 1310. Son hans var Flosi prestur á Kolbeinsstöðum, sem enn er á lífi 1368 (Fbrs. III, 247, 248). Vafasamt er það hinsvegar nokkuð, að son Jóns Erlendssonar hafi verið sá Vigfús Jónsson, er fær hirðstjórn yfir öllu landinu 1370 og andast s. á. í Noregi (Skálholtsannáll (brot) útg. Gustav Storms bls. 229) og að hann hafi verið faðir Ívars Hólms hirðstjóra († 1371) föður Vigfúsar hirðstjóra, en óhugsandi er ekki, að sú ættfærsla geti verið rétt. En allgamall hefur þá Vigfús Jónsson verið, er hann varð hirðstjóri og ekki fæddur síðar en um eða litlu eptir 1300, því að Ívars Vigfússonar (Hólms) er fyrst getið í annálum 1352, og er honum þá skipuð sýsla frá Þjórsá austan og um alla Vestfjörðu. En miklu líklegri er þessi ættfærsla en sú, að Ívar Vigfússon Hólmur hafi verið son-

arson herra Ívars Jónssonar Hólms, eins og áður hefur verið talið, því að þessa Vigfúsar (eldra) Ívarssonar finnst hvergi getið. En líklegast er, að Ívar Hólmur yngri hafi verið dótturson Ívars Jónssonar Hólms, enda kemur það vel heim tímans vegna, að Vigfús hirðstjóri Jónsson hafi átt dóttur Ívars Hólms eldra, er síðast getur í annálum 1312. Son Flosa prests Jónssonar var

Þórður Flosason, er hefur búið á Álptanesi á Mýrum um miðja 14. öld (Fbrs. III, 87), en síðar í Görðum á Akranesi. Hann var enn á lífi um 1393, er hann seldi Birni Jórsalafara Skjaldabjarnarvík (Fbrs. III, 492—493). Son Þórðar var Oddur leppur lögmaður faðir Kristínar fylgikonu Lopts ríka Guttormssonar, og eru þaðan miklar ættir. Sjá frekar um ætt hans og sonu Þórðar Flosasonar Fbrs. III, 493—496. Bróðir Þórðar var Vigfús Flosason í Krossholti, er átt hefur (Oddnýju) dóttur herra Ketils Þorlákssonar, og eru þaðan Kolbeinsstaðamenn. Um Skúla Þórðarson bróður Odds lepps sjá Strandasýslu II, 259—260.

Brandur Hallsson hefur búið í Kalmannstungu á fyrri hluta 14. aldar. Er hann nefndur í Vilkinsmáldaga Kalmannstungukirkju (Fbrs. III, 224; IV, 124) Hann mun hafa verið son Halls Kolbeinssonar »karls« í Hvammi í Norðurárdal (um 1350) sbr. Fbrs. III, 78, 304—305; sbr. V, 818—819. Sá Hallur gæti verið son Kolbeins Auðkýlings og f. k. hans Hallberu Egilsdóttur í Reykjaholti Sölmundarsonar. Synir Brands Hallssonar hafa verið:

1. Svarthöfði Brandsson (Fbrs. III, 224; IV, 124). Synir hans:
   a. Brandur Svarthöfðason kemur við bréf gert á Þingvelli 30. júní 1385 (Fbrs. III, 386).
   b. Hallur Svarthöfðason selur Kalmannstungu 28. febr. 1398 Jóni Gilssyni (bróður séra Gunnars í Reykholti) Fbrs. III, 624—626. Hann bjó í Hvammi í Norðurárdal 1399 (Fbrs. III, 645). Kona hans hét Ingigerður. Hvort Óli Svarthöfðason prestur og officialis í Skálholtsbiskupsdæmi († 1402) og Þorsteinn Svarthöfðason prestur og officialis hafi verið synir Svarthöfða Brandssonar eða annars Svarthöfða verður ekki sagt með vissu.
2. Salómon Brandsson er einn kaupvotta við sölu Kalmannstungu 1398 (Fbrs. III, 626) og hefur þá verið roskinn að aldri. Í registri við III. bindi Fbrs. er hann talinn skakkt til ættar, son Brands Haukssonar frá Skáney Finnssonar. Haukur á Skáney mun á líkum aldri og Salómon og er ásamt honum einn kaupvottanna að sölu Kalmannstungu (1398). Son Salómons hefur eflaust verið:
   a. Auðunn á Hvanneyri í Borgarfirði (Auðunn hyrna) sbr. Fbrs.

IV, B. og ritgerð Jóns Guðmundssonar lærða í Safni til sögu Íslands III, 709—714. (Sjá um afkomendur hans við Borgarfjarðarsýslu.)

Af þessari ætt mun hafa verið Salómon Einarsson lögréttumaður í Galtarholti á síðari hluta 15. aldar, dóttursonur Sumarliða Guðmundssonar (Fbrs. V, 709—710). Stæði það vel heima, að Einar faðir hans hefði verið sonur Auðunnar Salómonssonar, en Einars Auðunnssonar finnst hvergi getið í bréfum á 15. öld. En vitanlega getur skyldleikanum verið öðruvísi háttað. Salómon mun fæddur litlu fyrir eða um 1450. Hann er enn á lífi 1522 (Safn til s. Ísl. II, 201). Börn hans voru:

a. Guðmundur bjó á Laxfossi; dáinn fyrir 1582, átti Agnesi Brandsdóttur Helgasonar (II, 298), þ. b.:
   aa. Brandur fæddur um 1533, var á lífi 1589, erfði eptir föður sinn hálfan Laxfoss og seldi hann Torfa Fúsasyni.
   bb. Salómon prestur á Húsafelli († 1598). Hans son Jón prestur á Hesti († 1622) faðir séra Auðunnar sama staðar og séra Salómons á Mosfelli í Grímsnesi, og telur Jón lærði þá bræður frændur sína af Salómonsætt. Að Auðunnar nafnið helzt í þeim ættlegg bendir og á skyldleika við Auðunn Salómonsson.
   cc. Sesselja átti séra Freystein í Stafholti son Gríms bónda í Auðsholti í Biskupstungum, þ. d.:
      aaa. Helga hálfviti, var gerð á framfæri Þormóðs Kortssonar í Skógum, því að kona hans Halla Grímsdóttir prests í Hruna Skúlasonar var 2. og 3. að frændsemi við Helgu þannig, að móðir séra Gríms var Halldóra Grímsdóttir, systir séra Freysteins og þeirra bræðra.
b. Einar bjó um tíma á Laxfossi.
c. Guðmundur annar bjó á Litlaskarði, er á lífi 76 ára 1582.

Styr Snorrason Torfasonar Koðránssonar og Guðrúnar Styrsdóttur, bjó á Ökrum í Hraunhrepp sem faðir hans og afi, en fyr bjó hann á Reykjum í Tungusveit og var djákn. Hann kemur við bréf á árunum 1416—1465. Sjá um hann II, 548—549, og er þar getið afkomenda hans, eptir því sem líkur nokkrar eru fyrir. Styr hefur verið í heldri bænda röð og er kallaður »bóndi«, en sýsluvöld hefur hann þó líklega ekki haft].

---

## Guðmundur Einarsson

nefnist sýslumaður millum Hvítár og Hítarár 1462 (eða 1472)[1]). Hvaða manna hann var, eða hversu lengi, eða hvort hann hefur verið annað en lögsagnari Þorleifs hirðstjóra Björnssonar er mér dulið.

## Halldór Þorgeirsson.

(Sjá um hann við Snæfellsnessýslu)[2]). 1478 nefnist hann sýslumaður millum Hvítár[3]) og Skraumu. Máske hann hafi

---

1) Í hdr. mínu af Sm.æfum Boga, hefur hann skrifað milli sviga aftan við ártölin: »er lítt læsilegt« þ. e. hvort það sé 1462 eða 1472. Þessi heimild, er Bogi nefnir og eflaust hefur verið eitthvert bréf, þekkist nú ekki, og er því svo varið með ýms önnur bréf, er Bogi vitnar í, að þau eru nú glötuð. Hafa líklega verið í safni Magnúsar sýslumanns Ketilssonar og farið forgörðum á Skarði í tíð Kristjáns kammerráðs eða eptir lát hans, og er að því mikill skaði. Sá Guðmundur Einarsson, er Bogi nefnir sýslumann milli Hvítár og Hítarár hefur líklega verið bróðir Salómons Einarssonar í Galtarholti (sjá hjer á undan). Er hann nefndur fyrstur votta við gerning í Galtarholti 8. júlí 1473 (bréfið gert í Hjarðarholti í Stafholtstungum 12. ágúst 1475) þá er Salómon (bróðir hans) fær húsfrú Ólöfu Loptsdóttur umboð næstu 3 ár á öllum þeim peningum, er hann átti hjá Einari Oddssyni, en Salómoni höfðu til erfða fallið eptir Sumarliða heitinn Guðmundsson móðurföður sinn (Fbrs. V, 709—710). Optar finnst Guðmundar Einarssonar ekki getið við bréfagerðir, að því er séð verður. Raunar er það ekki öldungis víst, að Guðmundur þessi hafi verið bróðir Salómons, þótt hann sé fyrstur gerningsmanna í Galtarholti og það sé talið hiklaust í registri við 5. bindi Fornbréfasafnsins, en sennilegt er, að það sé rétt. Ef til vill hefur Guðmundur þessi andazt ungur og Guðmundur son Salómons borið nafn hans.

2) Sjá hér að framan bls. 16—17.

3) Mun eiga að vera »Hítará« og þetta dómur sá, er gekk á Ingjaldshóli 31. júlí 1478, er Bogi hefur áður getið um (sbr. Snæfellsnessýslu). Eins og áður er minnst á (bls. 17), hefur Bogi ætlað, að Halldór hafi tekið báðar sýslurnar (Mýra- og Snæfellsness) 1474, en sleppt Mýrasýslu 1478 og byggir það á bréfi frá 1478 (nú glötuðu), að hann hafi þá látið dæma sér skatt af lögréttumanni óborgaðan um þau 4 ár, er hann hafði sýsluna (Mýrasýslu) haldið.

verið umboðsmaður Þorleifs Björnssonar eða í hans utanferðum og fjarlægð hans fullmektugur.

## Finnur Pétursson.

Hvaða manna þessi Pétur var, hver hans kona eða börn fleiri en Finnur veit eg eigi. Líka er mér óljóst, hver kona Finns var[1]), en þessi teljast

*Börn* Finns[2]):

A. Guðmundur faðir Daða sýslumanns í Snóksdal (sjá Snæfellsnessýslu).

B. Oddný átti Odd Sigurðsson á Hvoli í Saurbæ og var hans fyrri kona, þ. son:

a. Tómas, (sem erfði Hvol), bjó á Borg syðra og átti Guðrúnu laundóttur Vigfúsar ríka á Borg, þeirra son:

aa. Oddur í Öskjuholti átti Sesselju Ormsdóttur Einarssonar[3]), þ. b.:

aaa. Bjarni á Skarði (sjá Dalasýslu)[4]).

bbb. Ragnhildur[5]).

---

(Sjá frekar um Halldór sýslumann Þorgeirsson hér að framan bls. 16—17).

1) Um framætt Finns Péturssonar sjá II, 481—482, en nokkuð er sú ættfærsla vafasöm lengra fram (hjá J. J.) nema hvað telja má víst, að faðir Finns hafi verið Pétur Finnsson, og Oddur á Hvoli bróðir hans. Um ætterni konu Finns er getið II, 547, en allt er það mjög óvíst. Sennilegt þykir mér, að Arnór Steinþórsson og Finnur Steindórsson (Steinþórsson), er koma við bréf syðra á síðari hluta 15. aldar hafi verið skyldir Finni Péturssyni, því að nöfnin Arnór, Finnur og Steindór eru sérstök fyrir þá ætt, frekar en flestar aðrar ættir.

2) Barna Finns er getið II, 547. Ekki verða þó ættir raktar nema frá Arnóri, Guðmundi og Oddnýju, en þær eru einnig afarfjölmennar. Frá öðrum sonum Finns Ingimundi, Helga og Þorsteini verður ekki rakið, enda er þeirra ekki getið í ættatölum.

3) Kaupmáli Odds og Sesselju var gerður 1531. Ormur faðir hennar var son Einars Þórólfssonar á Hofsstöðum, og var hann veginn í Viðey 1519 af Erlendi Þorvarðssyni (sjá hjer að framan bls. 256).

4) II, 627—630.

5) Ragnhildur átti fyr Þórð frá Stað í Súgandafirði, þ. b.:

ccc. Katrín[1]).

a. Soffía átti Jón á Kjallaksstöðum Jónsson Magnússonar og Kristínar systur Benedikts sýslumanns Halldórssonar ríka á Möðruvöllum (I, 223), þ. b.:

aa. Þorkell á Kjallaksstöðum átti Karítas Þórðardóttur frá Hólum í Hvammssveit Sigurðssonar, systur séra Björns á Signýjarstöðum, þ. b.:

aaa. Þórður í Bæ í Hrútafirði síðari maður Ingibjargar Jónsdóttur frá Vatnshorni Péturssonar (sbr. II, 348), bl. Þau voru skilin með dómi 1710. Launson Þórðar var:

× Ásgeir prestur á Álptamýri, dæmdur frá prestskap um 1745 fyrir illt orðbragð og kukl, átti fyr Herdísi Pálsdóttur prófasts á Álptamýri Péturssonar, þ. b. a) Páll. b) Guðmundur c) Guðrún s. k. Magnúsar Ólafssonar í Súðavík, þ. d. Guðbjörg kona séra Þórðar Þorsteinssonar í Ögurþingum. S. k. séra Ásgeirs Helga Narfadóttir [þannig Ó. Sn. Í ættatölubók Magnúsar Ketilss. J. S. 163 fol. á landsbókasafninu er hún nefnd Sigurfljóð, en föðurnafns ekki getið] þ. b.: b) Margrét átti Gísla Arason frá Fæti Magnússonar á Ósi í Bolungarvík Ólafssonar á Kambsnesi Jónssonar Indíafara Ólafssonar þ. b.: aa) Jóhanna átti Bárð Brynjólfsson frá Grundarhóli Tómassonar. bb). Guðný átti Þórð Jónsson Þórðarsonar í Engidal Pálssonar á Lónseyri Þormóðssonar (sbr. II, 323) þ. b.: Kristján.

bbb. Helgi ráðsmaður á Staðarfelli hjá Margréti Nikulásdóttur, ekkju Björns sýslumanns Jónssonar (II, 668) kvæntist ekki, átti 4 launbörn, nefndar 2 dætur:

× Gyríður átti Ólaf Ólafsson í Elliðaey, er drukknaði 1763, þaðan ættir.

× Málfríður f. k. Svarthöfða Teitssonar járnsmiðs í Galtardalstungu, þ. b.: Helgi, Sigríður kona Brynjólfs Guðmundssonar á Vígholtsstöðum og Helga kona Tómasar Jónssonar í Seli á Skarðströnd.

ccc. Jón á Kjallaksstöðum átti Guðrúnu Halldórsdóttur,

---

1) Katrín átti fyr Guðmund, þ. b.: a) Þorsteinn. b) Björg. c) Þóra, en s. m. hennar er talinn Ari Ólafsson Þorleifssonar lögmanns Pálssonar (sbr. bls. 215), þau bl.

ddd. Jón[1]).

þeirra synir: Halldór lögréttumaður á Vígholtsstöðum og Jón faðir Jóns á Orrahóli, er dó 1800.

ddd. Hólmfríður átti Ólaf Jónsson í Langey, þ. b.

× Jón lögréttumaður á Knerri, síðan Grímsstöðum, reit annál, átti Sigríði Bjarnadóttur frá Arnarbæli Bjarnasonar og börn, sbr. II, 685—686. Ólafur í Arney, son hans, dó í Hrappsey 1800 78 ára gamall.

× Karítas átti Sigurð í Purkey Jónsson yngra Jónssonar í Brokey Péturssonar, þ. b.: a) Jón skáld í Efri-Langey. b) Ólafur á Oddsstöðum, dó 1800. c) Salbjörg átti Bæring Bjarnason í Dagverðarnesi og Emburhöfða, þ. b.: Bjarni á Krossi á Skarðsströnd, Eiríkur í Melrakkaey, Sigurður í Dagverðarnesi, Ólöf, Ingibjörg og Sigríður, er allar giptust.

eee. Guðrún átti fyr Hildibrand Jónsson í Rauðseyjum, þ. b.

× Kolbeinn. Börn hans: a) Páll gullsmiður. b) Steinvör átti Halldór Jónsson á Harastöðum. c) Arndís átti Martein Egilsson. d) Guðrún móðir Daníels Magnússonar í Kirkjufelli föður Jóns borgara í Grundarfirði. e) Guðmundur var við verzlun í Færeyjum, dó í Kaupmannahöfn. f) Sigurður dó ókv., bl. g) Kolbeinn sigldi, kom ekki aptur, dó í Grænlandi, að því er menn ætla.]

× Karítas átti Þorleif Loptsson.

× Margrét átti Sigurð Loptsson á Skerðingsstöðum bróður Þorleifs, þeirra synir Loptur, Jón og Oddur.

× Guðrún s. k. Jóns Guðmundssonar á Skerðingsstöðum í Reykhólasveit, þeirra synir Guðmundur á Bakka í Geiradal og Jón faðir Jóns á Bakka.

× Soffía átti Jón Bjarnason í Arney. [Þannig hjá séra J. H., en Ó. Snókdalín og ættatölur M. Ketilssonar (J. S. 163 fol.) telja hana Þorkelsdóttur og systur þeirra Þórðar í Bæ og Jóns á Kjallaksstöðum] þ. b. Þorkell í Purkey, Þórður á Strandseljum o. fl. S. m. Guðrúnar Þorkelsdóttur Oddur Þorsteinsson af Tröllatunguætt, þ. d.:

× Ragnheiður átti Vermund Bjarnason á Harastöðum.

---

1) Þessi Jón er ekki í ættatölum talinn meðal barna Odds og Sesselju og mun þetta því skakkt hjá Boga, en dóttir þeirra er í þess stað talin:

C. Arnór sýslumaður (sjá síðar).

Finnur bjó á Ökrum á Mýrum[1]) og var kallaður Laga-

---

S. m. Ragnhildar Oddsdóttur Ormur Jónsson prests í Gufudal Þorleifssonar, þeirra son Jón prestur á Kvennabrekku, faðir séra Magnúsar s. st., er prestskap missti, föður Árna assessors og Jóns (sbr. II, 664—667).

---

Ingibjörg, er átt hafi Jón Oddsson, þ. b.:

a. Páll. Hans dóttir:

aa. Sigríður átti fyr Jón nokkurn, en síðar Árna Jónsson hvalara, þau bl., en synir hennar og f. m. Jón og Páll hvalveiðari, er átti Steinunni Ólafsdóttur prests á Eyri við Skutulsfjörð og síðar Stað í Súgandafirði († 25. marz 1661) Jónssonar.

Þannig telur séra Jón Halldórsson, og mun það rétt, en Snókdalín virðist blanda Páli Jónssyni Oddssonar saman við annan Pál Jónsson, er átti Guðrúnu Þorleifsdóttur frá Múla á Skálmarnesi og var faðir Markúsar á Völlum sbr. bls. 32—34 hér að framan og II, 385.

1) Finnur bjó í Ljárskógum, en ekki á Ökrum, og mun fæddur um 1420—30. Kemur hann fyrst við bréf í Hjarðarholti 3. nóv. 1461 (Fbrs. V, 243), því næst við bréf á sama stað 1. ágúst 1463 (Fbrs. V, 386—387), 26. júní 1467 á Skarði (Fbrs. V, 483), 6. sept. s. á. á Þingeyrum (Fbrs. V, 487). 30. júní 1478 er hann einn dómsmanna á alþingi í dómi Brands lögmanns Jónssonar (Fbrs. VI, 138) og s. á. í Hjarðarholti (Fbrs. VI, 160). 1479 er hann í dómi Rafns lögmanns Brandssonar á alþingi (Fbrs. VI, 212). 15. apríl 1480 er hann einn vottur á Skarði við skipti eptir Ólöfu Loptsdóttur (Fbrs. VI, 254—257). S. á. er hann einn dómsmanna í dómum á Þingvelli (Fbrs. VI, 277—279, 282) og 27. júlí s. á. við bréf gert í Flatey (Fbrs. VI, 287). 1481 er hann í Randíðardómi Rafns lögmanns á alþingi (Fbrs. VI, 377) og 29. janúar 1485 er hann einn dómsmanna í Hvammi í Hvammssveit í dómi Arnórs sýslumanns sonar síns (Fbrs. VI, 531—534). 19. sept. 1504 er hann einn dómsmanna í Hvammi í Hvammssveit (Fbrs. VII, 725—727), en hefur líklega andazt skömmu síðar og verið þá mjög gamall maður. Það er vitanlega alveg röng getgáta hjá Boga, að hann hafi haldið Mýrasýslu þangað til um 1500, því að hann hefur víst aldrei haft þar nein sýsluvöld. En þessi ágizkun hjá Boga stafar af því, að hann hefur ætlað, að Finnur hafi búið á Ökrum, en það er áreiðanlegt, að þar hefur hann aldrei verið.

Finnur. Hann var orðinn lögréttumaður 1479, því það ár er hann í dómi Rafns lögmanns Brandssonar á alþingi. En eptir 1484 meina eg hann tæki Mýrasýslu og héldi henni til þess um 1500. Finnur nefnist í ættatölum sýslumaður, en ei hef eg séð dóma eptir hann. Hann var maður stórauðugur að löndum[1]).

## Arnòr Finnsson.

*Faðir* áðurnefndur Finnur sýslumaður á Ökrum.

---

Arnór son hans býr þar fyrstur sinna kynsmanna og Finnur son hans (Akra-Finnur) eptir hann. Finnur Pétursson í Ljárskógum er allvíða ranglega kallaður Akra-Finnur (sbr. II, 482 n.m.), en Laga-Finnur er hið rétta auknefni hans. Hefur Arnór son hans, er var málafylgjumaður mikill, líklega fengið lagaþekking sína hjá honum.

1) **Björn Hafliðason.**

Hann útnefnir 6 manna dóm í Öskjuholti 20. janúar 1496 um ákæru Einars Örnólfssonar til Jóns Magnússonar um umboðshald á peningum Magnúsar heitins Þórólfssonar (Fbrs. VII, 289—290). Er sagt í þessum dómi, að Björn hafi þá »herra kongsins sýslu og umboð í millum Hvítár og Hítarár«, en hann hefur andazt litlu síðar þetta sama ár, því að 23. júní er Arnór Finnsson orðinn sýslumaður í Mýrasýslu og nefnir þá dóm í Ljárskógum um ákæru Jóns Sigurðssonar til Höllu Sigurðardóttur í umboði Æsu Jónsdóttur móður sinnar um mála- og fjórðungsgjöf Æsu í garð Hafliða heitins Jónssonar (Fbrs. VII, 300—302). Björn son Hafliða var þá látinn, en hann hafði átt Höllu Sigurðardóttur, dóttur Æsu Jónsdóttur af fyrra hjónabandi hennar, en síðar hafði Æsa átt Hafliða Jónsson ekkjumann, og bjuggu þau á Oddsstöðum í Lundarreykjadal. En Björn sýslumaður var af fyrra hjónabandi Hafliða. Faðir Hafliða var Jón prestur Brandsson, eflaust sá séra Jón Brandsson, sem opt kemur við bréf í Skálholtsbiskupsdæmi á árunum 1437—1449 (Fbrs. IV. B.). Björns Hafliðasonar er fyrst getið við bréf í Skálholti 5. júlí 1479 (Fbrs. VI, 214), og hefur þá verið ungur, líklega tæplega þrítugur. 28. janúar 1493 er hann einn dómsmanna í dómi Runólfs sýslumanns Höskuldssonar, útnefndum á Heggsstöðum í Andakíl (Fbrs. VII, 160—161). Björn hefur því haft Mýrasýslu skamma stund, líklega ekki lengur en 1—2 ár eða jafnvel skemur. Um afkomendur Björns sýslumanns og Höllu er ekki kunnugt, en börn nokkur hafa þau átt, eins og sést af hinum fyrnefnda Ljárskógadómi 23. júní 1496.

*Móður* eða konu hans nöfn[1]) veit eg ekki.

*Börn*: A. Séra Finnur á Ökrum (c. 1534), honum fylgdi að lagi Jófríður, þeirra börn:

a. Steindór Strandasýslumaður[2]).

b. Kristín átti Jón Björnsson Þorleifssonar frá Reykhólum[3]), þ. b.:

aa. Finnur í Flatey.

bb. Séra Árni í Tröllatungu.

cc. Guðrún[4]).

c. Guðrún Finnsdóttir átti Lopt Guðlaugsson (sjá Strandasýslu)[5]).

d. Sigríður Finnsdóttir kona Moldar-Brands (sjá Snæfellsnessýslu)[6]).

e. Sigríður yngri Finnsdóttir átti Einar Eiríksson í Ási, þ. b.:

aa. Sesselja[7]).

B. Séra Árni Arnórsson telst laungetinn, gerðist kapellán í Hítardal hjá séra Sigmundi Eyjólfssyni, systursyni Ögmundar biskups og fór utan með honum 1537, þá séra Sigmundur var vígður til biskups og dó í Noregi af jötunuxameini. Af því fékk þá séra Árni snert, en enskur maður læknaði hann. Kom svo

---

1) Kona Arnórs hét Helena (Elín) Jónsdóttir og kvæntist hann henni 1479 (Fbrs. VI, 206—207).

2) Sjá um hann og afkomendur hans II, 350—365.

3) Sjá um börn Jóns Björnssonar og Kristínar Finnsdóttur II, 598.

4) Séra Jón Halldórsson segir, að Guðrún hafi verið dóttir Jóns og Kristínar, en sumir telja hana frilludóttur hans (sbr. II, 619). Hún átti Bjarna Jónsson á Kirkjubóli, bróður samfeðra Torfa sýslumanns Jónssonar. Um börn Bjarna og Guðrúnar sjá II, 619—622.

5) Sbr. II, 299—300. Guðrún var f. k. Lopts.

6) Um afkomendur þeirra sjá bls. 73—75.

7) Sigríður yngri Finnsdóttir var f. k. Einars á Hvanneyri, áttu eitt barn (Sesselju). Það erfði móður sína Sigríði og dó svo og erfði Einar það (J. H. ættatölur).

séra Árni út og fékk Hítardal[1]. 1548 var hann hjá Daða í Snóksdal, þá Jón biskup bannsöng hann. 1549 var hann fangaður af Jóni biskupi og sonum hans. Árni var ungur utanlands og fór í páfagarð. Alls var hann utanlands 12 vetur, en 23 ár prestur í Hítardal. Hann hafði sér við hönd Sesselju Eiríksdóttur, systur Einars á Hvanneyri og giptist henni seinna. En datt sjálfur út af brú á Stapalæk í myrkri og drukknaði 1560[2], börn:

a. Arnór átti Vigdísi dóttur séra Snorra Jónssonar í Miklaholti, börn:
    aa. Böðvar[3].
    bb. Séra Jón við Hellna.
    cc Jón annar, bl.[4].

---

1) Hann fékk Hítardal 1538, að því er talið er.

2) Réttara 1561. Séra Jón Halldórsson segir svo frá láti hans í prestaæfum sínum:

»Séra Árni drukknaði vestur á Arnarstapa þar í læknum, segja sumir hann hafi fallið af bryggjunni í lækinn, hvað ekki er trúlegt, þar lækurinn er mjög grunnur. En aðrir herma honum hafi orðið sundurorða við kaupmenn, beðið illa fyrir þeim, var drukkinn og reiður, kominn á hestbak, hopaði hestinum óvarlega aptur á bak þar til hrapaði ofan fyrir klettana í lækinn. Hann var grafinn norðan til við kórgaflinn í Hítardal«. Séra J. H. segir frá þessu á sömu leið í ættatölum sínum, segir, að hann hafi verið grafinn aptan við nyrðra kórhornið »hvar eð fyrrum þótti svipur þess í millum«. Séra Árni hefur haft orð á sér fyrir fjölkynngi, og eptir dauða hans þyrmdu veikindin yfir Daða í Snóksdal, og var það eignað því, að séra Árni var þá látinn.

3) Laundóttir Böðvars með Kristínu Árnadóttur prests í Flatey Jónssonar Björnssonar frá Reykhólum er talin:

a. Helga átti Auðunn Eiríksson frá Reykjanesi Vigfússonar Sigurðssonar Þorbjörnssonar.

Svo varð Böðvar s. m. Guðrúnar Jónsdóttur frá Kirkjufelli, bl.

4) Um þessa nafna er nokkuð óvíst. Séra J. H. segir (í ættatölum sínum) að báðir hafi verið prestar, og hafi annar drukknað bl., en hinn verið prestur við Hellna, hafi þeir átt Bakka í Geiradal. Séra Jón Arnþórsson er að vísu (í prestatali) talinn prestur í

b. Séra Pétur fyrsti beneficiarius í Hvammi í Hvammssveit átti Guðrúnu Þórólfsdóttur, missti prestsskap fyrir lauslæti við Guðrúnu dóttur Árna sýslumanns á Hlíðarenda[1]), barn:

aa. Séra Magnús í Miðdalaþingum átti Oddnýju Guðmundsdóttur[2]), þeirra börn:

aaa. Helga[3]).

bbb. Bjarni[4]).

ccc. Guðrún[5]).

c. Rögnvaldur Árnason.

Nokkrir meina, að enn hafi verið börn Arnórs:

C. Grímur og

D. Helgi, því þá Guðni sýslumaður gipti dóttur sína Helgu ríka Torfa gaf hann henni í heim-

---

Breiðavíkurþingum, en hafi hann verið sonarson séra Árna í Hítardal getur hann naumast hafa verið þar prestur á undan séra Steingrími Guðmundssyni, er þar er talinn 1560 (sbr. Prestatal Sv. N.). Ef til vill hefur hann aðeins verið aðstoðarprestur þar einhverntíma seint á 16. öld.

1) Séra Pétur var hvorki talinn loflegur að lærdómi né lifnaði (J. H. ættat.). Í alþingisdómi lögmannanna Þórðar Guðmundssonar og Jóns Jónssonar 1582 voru honum dæmd tólf vandarhögg fyrir »óguðlega breytni síns kennimannsskapar vegna og ótrúlega höndlan, sem hann hafði við Guðrúnu Árnadóttur, þar hann skyldi vera hennar sálusorgari« (J. H. ættat.).

2) Oddný var laundóttir Guðmundar Jónssonar á Hvoli og systir samfeðra séra Jóns Guðmundssonar í Hítardal (sbr. Bisks. II, 288).

3) Helga átti Guðmund son Þórðar prests Brandssonar í Hjarðarholti og mörg börn (sbr. bls. 69—70 og II, 283).

4) Bjarni var launson séra Magnúsar, átti Ingiríði Össurardóttur og Ingveldar laundóttur Jóns Ólafssonar á Svarfhóli, bl.

5) Guðrún átti fyr séra Jón Nikulásson í Hítarnesi, er drukknaði í sjóróðri þar 1640, en síðar Guðmund Ögmundsson og börn með báðum.

anmund Hjörsey, sem hann hafði keypt af Grími og Helga Arnórssonum fyrir Skiphyl etc.[1]). Arnór[2]) var á æskuárum hjá Ólöfu ríku á Skarði og

1) Þetta er algerlega rangt hjá Boga, því að bræður þessir Grímur og Helgi, er seldu Guðna Hjörsey 1478 og 1480 (Fbrs. VI, 133—135 og 258—260) voru ekki Arnórssynir, heldur Aronssynir, synir séra Arons Helgasonar, er var prestur á Staðarhrauni og Ökrum fyrir og um 1440. Synir Arons prests voru ennfremur Páll og Þórarinn og koma þeir báðir við bréf á síðari hluta 15. aldar. Séra J. H. kallar þá Grím og Helga einnig Arnórssyni, en þykir samt vafasamt að telja þá syni Arnórs Finnssonar. En sonur Arnórs, sem hér er ekki talinn og ekki heldur í öðrum ættatölum hefur verið Björn Arnórsson, sem er einn þeirra manna, er votta um hirðstjórn og lögmannsdæmi Vigfúsar Erlendssonar 14. júlí 1520 (Safn til s. Ísl., II, 199). Hann er og einn þeirra, er ritar undir lögmannskosningu Þorleifs Pálssonar á alþingi 30. júní 1530 (Safn II, 203). 1539 er hann og nefndur í bréfum. Mun hann hafa verið lögréttumaður, og ef til vill búið í Ljárskógum.

2) Um Arnór sýslumann Finnsson þangað til hann varð sýslumaður í Mýrasýslu er getið allítarlega II, 547—550, sbr. 558. 1485 er hann sýslumaður orðinn í Dalasýslu, en 1487 í Strandasýslu. 1494 átti hann í deilu við Sturlu sýslumann Þórðarson á Staðarfelli út af framfæri Þóru Tumadóttur og gerði Sturla heimreið að Arnóri í Ljárskógum og urðu þar áhlaup með þeim og áverkar á mönnum Arnórs. Um þetta dæmdi Hinrik Hinriksson Kolabekkur í Hjarðarholti 20. okt. 1494, (Fbrs. VII, 226—229) en Sturla kom ekki þangað til andsvara og enginn af hans hendi. Gengu vitni á móti Sturlu, en hvernig máli þessu lauk er annars ekki kunnugt. Vorið 1496 hefur Arnór tekið Mýrasýslu eptir lát Björns sýslumanns Hafliðasonar, því að í Ljárskógadómi 23. júní það ár (sjá hér áður bls. 314) er hann talinn að hafa »herra kóngsins sýslu millum Hvítár í Borgarfirði og Hítarár« (Fbrs. VII, 300). Hve lengi hann hafi haft sýsluna í það sinn verður ekki séð, en Runólfur Höskuldsson, sem áður hafði Borgarfjarðarsýslu, hefur líklega tekið hana um eða litlu eptir 1500. 1503 kærði Arnór Hákon Björgólfsson, að hann heldi hvorki nefnt sig til þings meðan hann (ɔ: Hákon) var sýslumaður í Dalasýslu og ekki heldur goldið sér sitt þingfararkaup og er dómur um þetta útnefndur í Snóksdal af Sigurði Daðasyni þá sýslumanni í Dalasýslu (Fbrs. VII, 634—35). 1504 hefur Arnór haft Dalasýslu, því að 21. maí það ár nefnir hann dóm í Galtardalstungu um próventugjöf Ingibjargar Þorsteinsdóttur frændkonu

giptist frá henni. Hann var 1479 nefndur í dóm á Staðarhóli af Þorleifi hirðstjóra Björnssyni um Solveigar arf. 1482 keypti hann Höskuldsstaði í Laxárdal af Arnfinni Jónssyni. 1485 útnefnir hann dóm í Hvammi í Hvammssveit og kveðst þá hafa löglegt umboð kongdómsins vegna þing að setja og dóm yfir að nefna (Jörfabók). En 1503 er Arnór kominn að

---

sinnar (móðursystur) til hans (Fbrs. VII, 690—692). Það ár á alþingi urðu skærur þeirra Arnórs og Torfa í Klofa, þar sem Torfi gekk með vopnaða menn að Arnóri, er hann sat í dómi og náði honum á einmæli, en menn Torfa stóðu svo þykkt í kringum Arnór, að hann mátti hvergi burtu komast og ekki gátu heldur aðrir að honum komist. Krafðist Arnór dóms Finnboga lögmanns um þetta, og er hann útnefndur á alþingi 2. júlí 1504 (Fbrs. VII, 705—708). Dæmdu dómsmenn stefnu þá ónýta, er Torfi hafði stefnt Arnóri þar á þinginu, og áréttar lögmaður þann dóm sinn með staðfestingu degi síðar (3. júlí: Fbrs. VII, 708—709). 19. sept. s. á. (1504) nefnir Arnór 6 manna dóm í Hvammi (Fbrs. VII, 725—727). 29. janúar 1505 dæmir hann í Hjarðarholti í umboði Finnboga lögmanns um sýslumennsku Runólfs Höskuldssonar millum Hvítár og Hítarár og dæma þeir hann frá sýslunni (Mýrasýslu) fyrir ýmsar sakir. Er bréf um það gert á Ökrum í Hraunhrepp 25. marz s. á. (Fbrs. VII, 752—753) og hefur þá Arnór verið fluttur þangað búferlum. Ef til vill hefur hann verið kominn þangað nokkru áður, þótt hann héldi Dalasýslu, því að altítt var, að sýslumenn bjuggu utansýslu. En hvenær hann hefur keypt Akra, hefi eg ekki fundið. Naumast hefur hann fengið þá að erfðum. Hann var auðugur maður að fasteign. Hefur verið mikilmenni og vitur maður og ekki á allra færi við hann að deila, enda sést, að hann ber jafnan sigur úr býtum í málum sínum við hvern sem eiga er. Líklega hefur Arnór fengið Mýrasýslu eptir Runólf 1505 og sleppt þá Dalasýslu, enda er Sturla Þórðarson á Staðarfelli sýslumaður þar 1506 og nefnir þá 22. júní dóm í Hvammi um deilu Bjarna Halldórssonar og Arnórs Finnssonar út af haldi á fjármunum Ingigerðar Þorsteinsdóttur, og féll dómurinn Arnóri í vil (Fbrs. VIII, 103—106). Ekki hef eg fundið, hvenær Arnór hefur dáið, en líklega hefur hann lifað fram undir 1520, og hefur verið gamall, er hann lézt. En sýsluvöldum hefur hann sleppt nokkru áður. Í sýslumannaregistri (Lbs. 64 fol.) er sagt, að Arnór sýslumaður Finnsson hafi 1515 verið kærður fyrir að hafa sleppt fanga lausum, og er það sami dómur og dómur Hannesar Eggertssonar í Öskjuholti (sjá hér síðar).

Ökrum og útnefnir dóm um peninga, sem öreigum eru byggðir án landsdrottins vilja. Hér af sýnist sem hann hafi þá haft Mýrasýslu og búið á Ökrum[1]). Arnór var og um þessar mundir við arfaskipti eptir Oddnýju systur sína, og svo 1506 við arfaskipti eptir Odd Sigurðsson á Hvoli[2]).

1514 samþykkti hann ásamt Hannesi Eggertssyni konungsumboðsmanni og Jóni Jónssyni dóm Jóns lögmanns Sigmundssonar í fjárheimtumáli Björns sýslumanns Guðnasonar. 1517 var Arnór sýslumaður ásamt öðrum kongsmönnum á Leiðarhólmssamþykkt.

Mér er dulið nær Arnór tók eða sleppti Mýrasýslu eða nær hann deyði. Þó er mín meining, að hann hafi fyrst verið umboðsmaður í Dalasýslu, líklega Þorleifs eða Diðriks Pinnings eða máske Páls á Skarði, en hafi tekið Mýrasýslu nálægt 1500 og haldið henni fram um 1520[3]).

Arnór var auðmaður mikill, bjó á Ökrum á Mýrum hinn seinni hluta æfi sinnar, átti þá og margar fleiri jarðir og var í tölu annara landshöfðingja[4]).

---

1) Þessi dómur Arnórs 1503, er Bogi vitnar hér í, þekkist nú ekki, að minnsta kosti ekki með því ártali. En sé hann rétt færður til árs, bendir það á, að Arnór hafi þá verið kominn að Ökrum og haft Mýrasýslu. Líklega hefur Bogi tekið þetta eptir Espólín (Árb. III, 16), en á þeirri heimild verður ekki byggt, að Arnór hafi haft sýsluna það ár. Ef til vill er dómur þessi frá 1513. Espólín kallar Arnór konungs lénsmann eða sýslumann 1514. (Árb. III, 38).

2) Þetta arfaskiptabréf (skipti eptir Odd Sigurðsson á Hvoli 1506) er nú glatað, en minnst er á það í Bisks. II, 279.

3) Þetta er ekki rétt, því að eins og getið er um hér áður, þá hefur Hannes Eggertsson haft sýsluvöld í Mýrasýslu 1515.

4) **Runólfur Höskuldsson.**
Hann var sonur Höskuldar Runólfssonar, er bjó í Núpafelli, Bakka í Öxnadal og Laugalandi á fyrri hluta 15. aldar. Kemur Höskuldur síðast við bréf á Munkaþverá 2. maí 1439 (Fbrs. IV, 585). Faðir hans hefur verið Runólfur Sturluson bóndi á Laugalandi (um 1400, á lífi 1410), eflaust sonur Sturlu Geirssonar, sem nefndur er í máldaga Hólakirkju í Eyjafirði (síðari viðbót við Auðunnarmáldaga: Fbrs. III, 451). En Sturla hefur að líkindum verið son Geirs á Seylu Þorsteinssonar í Auðbrekku Geirssonar auðga á

## Hannes Eggertsson

kongs-umboðsmaður lét í Öskjuholti í Borgarfirði 1515 mið-

---

Silfrastöðum Þorvaldssonar. Hafa þeir langfeðgar verið auðugir að fé, en nokkuð stórbrotnir sumir, einkum Runólfur Höskuldsson, er verið hefur allmikill ribbaldi og kvennamaður. Er hans fyrst getið við samning um Árskóg á Þelamörk 31. maí 1453 á Ytri-Bægisá, og er bréf um það gert í Lönguhlíð neðri í Hörgárdal 12. marz 1454 (Fbrs. V, 107—108). Hefur Runólfur þá líklega búið á Ytri-Bægisá. Hans er og getið í máldaga Bægisárkirkju 1461 (Fbrs. V, 295). Kona hans hét Ingibjörg Einarsdóttir og kærir hún mann sinn 1470 fyrir Ólafi biskupi Rögnvaldssyni og heimtar skilnað við hann. Segir hún, að hann hafi legið langan tíma í hórdómi og átt 6 börn með öðrum konum: 5 með Halldóru Þórðardóttur og hið 6. með Þórdísi Guðmundsdóttur o. s. frv. (sbr. I, 154). Votta 3 menn um þessa ákæru Ingibjargar fyrir Ólafi biskupi 7. nóvember 1470 í Miklagarði (Fbrs. V, 584—585). Sættist þá Runólfur við biskup í Viðvík 23. janúar 1471 (Fbrs. V, 600—601) og fær honum og kirkjunni á Hólum jarðirnar Skollatungu, Brattavöllu og Hornbrekku, fimmtán málnytukúgildi og tuttugu og fimm hundruð í fríðvirðum peningum að næstu fardögum allt fyrir hórdæmi hans með Halldóru og Þórdísi, og litlu síðar 22. febr. s. á. (Fbrs. V, 602—603) gefur hann dómkirkjunni á Hólum jörðina Bægisá í Öxnadal í prófentu sína, og auk þess átti hann að gefa biskupinum tuttugu hundruð í fríðu og tíu málnytukúgildi fyrir allt það »hugarmót, órétt og forþrot«, sem hann hefði biskupinum gert og prestum hans. Má af þessu ráða, að eitthvað fleira hafi þeim biskupi og Runólfi á milli borið en hórdómssakirnar. Hefur biskup verið hræddur um, að Runólfur mundi illa enda loforð sín um jarða-afhendinguna og lét því marga presta sverja bókareið um þessa skilmála alla og að biskup mætti taka að sér jarðirnar, þótt Runólfur afhenti þær ekki (Fbrs. V, 620). Samkvæmt skilmálunum í bréfinu 22. febrúar átti Runólfur þá þegar að ganga til borðs á Hólum sem prófentumaður, en hann hefur unað þessum skilmálum illa og þótzt kúgaður. Fór hann því burtu frá Hólum og fullnægði ekki loforðum sínum, en samrekkti að nýju Halldóru í kirkjunni á Bakka í Öxnadal, en þar mun Runólfur hafa búið um það leyti. Fyrir þessi sáttarof öll lét Ólafur biskup taka Runólf höndum og setja í varðhald á Hólum sumarið 1471, lét hann með tólf presta dómi á Hrafnagili dæma hann rétt fangaðan og er bréf um það gert í Miklagarði 28. sept. 1471 (Fbrs. V, 644—645). Hefur Runólfnr verið í gæzlu á Hólum fram yfir nýár 1472, en þá sættist

vikudaginn í fardögum ganga 12 manna dóm um straff þeirra,

---

hann við biskup, lofar að skipta sér aldrei framar af Halldóru Þórðardóttur, en taka konu sína aptur og »elska hana, ef hún vill«, að hann skyldi lúka Eyjólfi Einarssyni þá peninga, er hann hafði tekið fyrir honum, halda allar þær skriptir, er biskup setti honum og hafi fyrirgert sinni prófentu á Hólum, auk annars, er biskup geti af honum haft að lögum, ef hann haldi ekki öll þessi loforð sín og aðra svardaga. Sór Runólfur fullan bókareið að þessu á Hólum 18. janúar 1472 (Fbrs. V, 652—653).

Nú vita menn ekki meira um Runólf þar nyrðra, en svo kemur Runólfur Höskuldsson fram í Borgarfirði 1483, kaupir hann þá hálfa jörðina Læk í Melasveit af Jóni Þorsteinssyni (Fbrs. VI, 492—493), en 1484 í ágúst er hann vottur við tvö bréf í Flatey á Breiðafirði (Fbrs. VI, 519, 523). Virðist hann þá hafa átt heima vestra eða verið þar að minnsta kosti um tíma, og á það bendir dómur Arnórs sýslumanns Finnssonar 29. jan. 1485 í Hvammi um framfæri Guðlaugar Sveinsdóttur, er átti heima á Bjarnastöðum í Saurbæ haustið 1484, og hafði orðið þar þrotbjarga og ófær eptir barneign, en barnið hafði hún kennt Runólfi Höskuldssyni (Fbrs. VI, 531—534). — 9. des. 1488 á Leirá er Runólfur vottur að því, að Oddur Erlendsson hafi greitt Oddi Vilhjálmssyni andvirði Brauðatungu (Brautartungu) í Lundarreykjadal (Fbrs. VI, 646) og 30. apríl 1489 kvittar Jón Þorsteinsson Runólf um andvirði hálfs Lækjar í Melasveit (sbr. hér áður) (Fbrs. VI, 653—654). Er ekki ósennilegt, að Runólfur hafi búið á Læk.

1493 er Runólfur orðinn sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu, því að 28. janúar það ár útnefnir hann 6 manna dóm á Heggsstöðum í Andakíl um ákæru Sigurðar Helgasonar til Guðmundar Þórðarsonar út af jörðunni Máhlíð í Lundarreykjadal. Er beinlínis sagt í bréfi þessu, að Runólfur hafi þá »herra kongsins sýslu millum Botnsár og Hvítár« (Fbrs. VII, 160—161). Hve lengi hann hefur haft þá sýslu verður ekki séð, en síðar (nálægt 1500) hefur hann tekið Mýrasýslu, en er dæmdur frá henni 29. janúar 1505 af Arnóri Finnssyni í umboði Finnboga lögmanns (Fbrs. VII, 752—753). Er í þeim dómi talað um »stórsakir, er til Runólfs hafi sagðar verið og komið hafi fyrir Finnboga lögmann með góðra manna bívísing og játning Runólfs sjálfs«. Þessvegna vildu íbúar Mýrasýslu ekki hafa hann fyrir sýslumann. Segja dómsmenn, að vitnin hafi borið, að Runólfur hefði játað fyrir þeim, að hann hefði gripið og tekið annara manna peninga úr heilagri kirkju og hann hefði með verið að lokka menn út af Staðarkirkju á Reykjanesi til þess

er sleppa óbótamönnum. (Eg held það hafi verið Hannes

---

að láta líflata þá, (er bendir á, að hann hafi þá átt heima vestra), og virtist dómsmönnum það fullt útlegðarverk. Ennfremur segjast dómsmenn vita, að Runólfur sé ekki svo fjáður, sem lögin skipa, ef hann sé konungs umboðsmaður, og ennfremur eigi hann hvorki bú né heimili í sýslunni (Mýrasýslu). Fyrir þessar sakir dæma þeir Runólf »með öllu lausan og við skildan optskrifaða sýslu og hann hana með engu móti hafa mega með lögum og engan mann, sem heimilisfastur er í sagðri sýslu honum (míns) herra kongsins skuld gjalda mega eða nokkra aðra skuld að gera kongdómsins vegna og þráttnefndan Runólf Höskuldsson enga heimta með réttu mega«. Lauk þannig sýsluvöldum Runólfs. 19. maí 1507 er hann einn dómsmanna í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd (Fbrs. VIII, 149—150) og 1510 er hans enn getið (Fbrs. VIII, 306; Árb. Esp. III, 28). Espólín getur þess árið 1520 (Árb. III, 60), að Eyjólfur Einarsson hafi tekið upp fé fyrir Runólfi Höskuldssyni á Bakka í Öxnadal, svo að ekki var meira eptir en til 50 hundraða, en þetta ártal hlýtur að vera skakkt, enda er þess getið í eið Runólfs 1472, sem fyr er minnst á, að hann hafi tekið upp fé fyrir Eyjólfi Einarssyni (þ. e. Eyjólfi síðar lögmanni). Er því líklegt, að Eyjólfur hafi verið að reka réttar síns, er hann tók upp fé fyrir Runólfi og hefur það sennilega verið á árunum 1472—1480 (sbr. I, 153).

Nú er spurningin þessi: Er Runólfur Höskuldsson, sem á í málunum við Ólaf biskup um 1470, sami maður og sá Runólfur Höskuldsson, er hafði Borgarfjarðar- og Mýrasýslur og lifað hefur að minnsta kosti fram yfir 1510. Sé svo, hefur Runólfur orðið mjög gamall, um eða yfir áttrætt. Það er víst enginn efi á, að hér sé um tvo menn að ræða. Er þá sennilegast, að Runólfur sýslumaður Höskuldsson hafi verið son Höskuldar lögréttumanns í Núpufelli Árnasonar Höskuldssonar Runólfssonar Sturlusonar og bróðursonarson Runólfs Höskuldssonar (eldra) á Bægisá og Bakka. Þetta getur staðizt tímans vegna, sé Árni Höskuldsson, (er dó 1488), fæddur um 1410, Höskuldur son hans (kvæntur fyrir 1471) um 1435 og Runólfur son hans um 1460. Eptir því hefði Runólfur verið rúmlega tvítugur, er hans getur fyrst í Borgarfirði 1483. Þetta er auðvitað nokkuð tæpt, en getur þó vel komið heim. Sé þetta rétt athugað getur Runólfur (eldri) Höskuldsson á Bakka verið á líkum aldri, eða litlu yngri en Árni bróðir hans og hefur verið um fimmtugt eða á sextugsaldri, er hann átti í málunum við Ólaf biskup um 1470 (f. c. 1410—20). Þykir mér sennilegast, að þessu sé þannig varið, og að hér sé um tvo Run-

hirðstjóri Eggertsson, sem um það leyti hófst hér til valda, en nafnið sé misskrifað Henrich í dómabók, hvaðan þetta er tekið[1]). Það var engin óvenja á þeim tíðum, að höfuðsmenn fóru um land og létu sjálfir ganga dóma, þá þeim sýndist. Hannes hafði hér völd fram undir 1530[2]).

---

ólfa Höskuldssyni að ræða. En varla mun það rétt, að Runólfur yngri hafi verið sonarson Runólfs Höskuldssonar eldra á Bakka, eins og J. P. gizkar á (I, 153). Er ekki ólíklegt, að Runólfur Höskuldsson sýslumaður hafi alizt upp hjá afa sínum Árna Höskuldssyni, er var syðra. Son Runólfs Höskuldssonar á Bakka er vafalaust Höskuldur Runólfsson, er í deilum átti við Gottskálk biskup 1500 og 1507 (Árb. Esp. III, 7, 22; sbr. Fbrs. VIII, 163—165).

1) Það er rétt athugað, að það var Hannes Eggertsson (síðar hirðstjóri), er lét dóm ganga í Öskjuholti 1515. Fleiri dómar Hannesar finnast og um það leyti í Mýrasýslu. Sést af þessu, að Arnór hefur þá ekki haft sýsluvöld þar.

2) Vigfús Þórðarson kallaður »ríki Fúsi« bjó á Borg á Mýrum um og eptir 1500 og hefur verið í heldri bænda röð. Hann fær kirkjunni á Borg, hálfa Þjófsstaði (Þursstaði) til fullrar eignar 14. maí 1512 (Fbrs. VIII, 378—379). Vigfús var son Þórðar Sigurðssonar á Borg (sbr. Tímar. J. P. I, 49), er annaðhvort hefur verið sonarson eða bróðurson Auðunnar Salómonssonar á Hvanneyri, hið fyrra þó líklegra (sjá Borgarfjarðarsýslu), en bróðir Vigfúsar var Jón Þórðarson á Hvanneyri, er sýsluvöld hafði í Borgarfirði um tíma (sjá þar). Kona Vigfúsar var Ingibjörg Bjarnadóttir Marteinssonar, systir Erlendar sýslumanns á Ketilsstöðum (sjá Múlaþing). Einkason þeirra var:

Bjarni Vigfússon, er séra Jón Halldórsson (í ættatölum sínum) kallar »junkæra« (jungherra). Veit eg ekki til, að Bjarna þessa sé annarsstaðar getið. Hann seldi Borg 1535 systursyni sínum Oddi Tómassyni með samþykki Ingibjargar móður sinnar, og var Vigfús þá andaður (J. H. ættatölur). Segir séra J. H., að um þessi kaup sé til transskriptarbréf, en það hef eg ekki fundið. Borg var síðan lengi í ætt Odds.

Laundóttir Vigfúsar ríka hét Guðrún, er átti Tómas Oddsson frá Hvoli í Saurbæ Sigurðssonar Geirmundssonar og var þeirra son Oddur í Öskjuholti, er keypti Borg af Bjarna Vigfússyni, eins og áður er sagt. Son hans var Bjarni á Skarði faðir Daða á Skarði, (er bar nafn Daða í Snóksdal), og Þorleifs í Búðardal föður Odds

## Grímur Jónsson.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Ekki er ólíklegt hann hafi hér völd haft nálægt 1528 og þar eptir sé sú gáta rétt, sem um hann er sagt við Borgarfjarðarsýslu. Þó er þar fyrir engin fullvissa.

## Þorsteinn Torfason

í Hjörtsey mun um þessar mundir hafa haldið Mýrasýslu. Hann nefnist víða sýslumaður (sjá hans ætt við Árnesþing). Líkast frá 1515 til 1530 eða lengur umboðsmaður[1]). Þorsteinn var dáinn 1572.

## Daði Guðmundsson.

(Sjá um hann við Snæfellsnessýslu). Árið 1530 var Daði dómsmaður á alþingi. En Hist. Eccl. T. III, p. 216 etc. gefur átyllu, að Daði hafi haldið Mýrasýslu líklegast af velvild biskups Ögmundar, sem hafði hirðstjóravald 1534 etc. Hefur Daði máske haft þessa sýslu til þess hann fékk Helgafellsklaustur um 1543. Þó er það óvíst, því Jón sýslumaður í Bæ sýnist þá að hafa haldið Þverárþing, og því efasamt um Daða. En 1555—1560 er víst að Daði hélt Mýrasýslu ásamt mörgum öðrum lénum.

## Jón Jónsson.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Hvenær Jón tók

---

á Borg föður Sæmundar prófasts í Hítardal. Er mikil ætt frá Bjarna Oddssyni komin.

1) Um sýsluvöld Þorsteins Torfasonar í Mýrasýslu er mér ekkert kunnugt, og mun hér eitthvað málum blandað, en

**Eiríkur Torfason**

bróðir Þorsteins er nefndur »konungs umboðsmaður millum Hvítár og Hítarár« undir formála fyrir þingsetning og þinguppsögn á saurblaði aptan við skinnhandrit af Jónsbók í safni Árna Magnússonar 346 fol., sbr. Fbrs. I, 100. Eiríks er getið við ýmsa gerninga á árunum 1528—1544, og hefur hann líklega haft sýsluvöld í Mýrasýslu einhvern tíma á þeim árum, en ekki hef eg fundið neina dóma hans þar. Hann var son Torfa sýslumanns Jónssonar í Klofa, en kona hans hét Ingigerður Tómasdóttir (sjá um ætt frá þeim við Árnesþing).

Mýrasýslu eða hvort hann hefur hana haldið ásamt Borgarfjarðarsýslu er mér dulið. En hann var orðinn sýslumaður í Mýrasýslu 1542, því að það ár dæmdi hann um Grímsstaðasel, er Ragnhildur Einarsdóttir ekkja Jóns Þórðarsonar á Borg átti hlut að. 1549 hélt hann sýsluna og 1553 var hann þar enn sýslumaður, en hvort það hefur verið í umboði Daða eða hann hefur sjálfur haft veiting fyrir Mýrasýslu árin 1552—1553 er óvíst, eins og það er víst, að Daði var virkilegur sýslumaður í Mýrasýslu 1555—1560 eða máske fyr, þó hann hafi þar opt brúkað sína umboðsmenn, máske þennan Jón og Hall Ólafsson. Jón lét ganga dóm í Mýrasýslu 1549 og 1553 um leiguliðaábúð etc. Hann var á Sauðafelli 1550 með Jóni biskupi Arasyni, þó ei í bardaganum[1]).

## Hallur Ólafsson.

*Faðir*: Ólafur prestur í Saurbæ um 1540. Ólafur prestur var Kolbeinsson[2]).

*Móðir*: Karítas Jónsdóttir[3]).

---

1) Sbr. Árb. Esp. IV, 64. Þar er getið Sturlu sonar hans. Jón sýslumaður bjó í Bæ í Borgarfirði. Hann er ef til vill sá Jón Jónsson lögréttumaður, er ritar undir lögmannskosningu Þorleifs Pálssonar á alþingi 30. júní 1530 (Safn til sögu Ísl. II, 203). Ætt Jóns sýslumanns er mér ekki kunn.

2) Snókdalín telur föður séra Ólafs séra Kolbein Auðunnarson í Húsavík, en það er gersamlega rangt, því að hann og séra Ólafur hafa verið á líkum aldri, eða séra Kolbeinn þó heldur yngri (fæddur um 1507). Annars er faðir séra Ólafs talinn Kolbeinn Sigurðsson og gæti hann einmitt hafa verið föðurbróðir séra Kolbeins í Húsavík, son Sigurðar Sveinbjarnarsonar prests í Múla Þórðarsonar, og þeir séra Ólafur Kolbeinsson og séra Kolbeinn Auðunnarson verið bræðrasynir. En eins sennilegt þykir mér, að séra Ólafur hafi verið ættaður úr Borgarfirði, og mætti gizka á, að Kolbeinn faðir hans hafi verið son Sigurðar Auðunssonar frá Hvanneyri Salómonssonar og hafi þeim séra Ólafi og séra Kolbeini verið blandað saman í ættatölum vegna Auðunnarnafnsins í ætt þeirra beggja. En um þetta verður ekkert sagt með áreiðanlegri vissu.

3) Séra Jón Halldórsson (í prestaæfum) telur Karítas, konu eða fylgikonu séra Ólafs, Sigurðardóttur og systur Helgu móður Sig-

*Kona fyrri*: Sesselja dóttir Guðmundar á Glitsstöðum Sæmundssonar. Guðmundur átti Ljótunni dóttur Sturlu sýslumanns á Staðarfelli (sjá Snæfellsnessýslu) [1]).

*Börn*: A. Guðmundur lögréttumaður, (dó 1590), átti fyr Ástríði dóttur séra Ásgeirs á Lundi og Ingibjargar Guðmundsdóttur (systur Þórðar lögmanns) (sjá Borgarfjarðarsýslu), börn:

a. Guðmundur í Norðtungu átti Sigríði dóttur séra Jóns í Stafholti Egilssonar, þ. b.:

aa. Séra Guðmundur í Fljótshlíðarþingum, átti börn.

bb. Séra Þórður á Kálfafelli, giptist, átti börn.

cc. Guðmundur snikkari, giptist, átti börn.

dd. Sigurður á Brekku á Hvalfjarðarströnd, giptist, átti börn.

ee. Halldór lögréttumaður í Máfahlíð og Ólafsvík[2]).

ff. Jón.

gg. Helga[3]).

---

ríðar Guðbrandsdóttur, konu séra Jóns Þorleifssonar í Gufudal, en Espólín segir í ættatölum sínum, að Karítas hafi verið dóttir Jóns Hallssonar, er var að vígi Páls Jónssonar á Öndverðareyri um 1497, en hitt kemur heim við ómagadóm frá 1633 og verður því að vera rétt, að Karítas hafi verið Sigurðardóttir.

1) Sbr. bls. 20 hér að framan.

2) Sbr. bls. 140—142.

3) Helga var f. k. Eiríks heimska á Fitjum Oddssonar biskups, þ. d.:

a. Guðrún átti Snorra Sigurðsson handleggjastutt, þ. b.:

aa. Sigurður prestur á Brjánslæk átti Þórunni Árnadóttur, systur meistara Jóns biskups í Skálholti. Ein dóttir þeirra Guðrún móðir meistara Hálfdans Einarssonar skólameistara á Hólum.

bb. Ingibjörg átti Sighvat Þorleifsson og börn, þar á meðal Snorri á Skarði í Lundarreykjadal faðir Þorgeirs á Snartastöðum.

hh. Ástríður[1]).

---

1) Ástríður átti Jón í Skipagerði Þorleifsson Ásmundssonar Þorleifssonar lögmanns Pálssonar, þ. b.:

a. Stefán í Skipagerði. Hans son Guðmundur á Strönd faðir Brynjólfs í Skipagerði föður Þórðar prests í Reynisþingum.

b. Guðmundur átti Kristínu Björnsdóttur frá Teigi Pálssonar Magnússonar Hjaltasonar.

c. Valgerður átti Klæng Eiríksson prests á Krossi Þorsteinssonar, þ. b.:

aa. Eiríkur á Seljalandi átti Ingveldi Snorradóttur, þ. b.:

aaa. Einar á Flóagafli, spítalahaldari í Kaldaðarnesi, átti Þuríði Magnúsdóttur, systur Nikulásar prests í Berufirði, þ. b.:

× Sæmundur prestur á Útskálum, drukknaði 1826, átti mörg börn, eitt þeirra Einar Sæmundsen prófastur í Stafholti faðir Sigurðar kaupmanns í Reykjavík og Mettu, er átti séra Markús Gíslason á Stafafelli.

× Guðmundur á Mosastöðum í Kaldaðarneshverfi átti Önnu Þorleifsdóttur frá Selfossi Valdasonar í Fljótshólum Eiríkssonar, þ. b.: a) Ólöf átti Bjarna Jónsson frá Hörgslandi á Síðu, þeirra son: Jón halti í Keflavík átti Helgu Hannesdóttur frá Gufunesi Oddssonar á Fossi á Rangárvöllum Guðmundssonar á Steinkrossi Hallvarðssonar Teitssonar, b) Sigríður átti Einar Teitsson frá Moldartungu Halldórssonar Oddssonar prests í Keldnaþingum Þórðarsonar, þeirra dóttir: Guðrún átti Þorstein í Kothúsum Guðbrandsson Þórðarsonar Björnssonar á Ölfusvatni Sæmundssonar lögréttumanns sama staðar Gissurarsonar, þeirra dóttir: Sigríður kona séra Hallgríms Thorlaciusar í Glaumbæ, c) Grímur. Son hans Árni á Rafnkelsstöðum í Garði, d) Ingveldur.

× Helga var 3. kona Guðmundar á Valdastöðum í Flóa Jónssonar Þórðarsonar, þ. b.: Einar á Efri-Þurá, Anna kona Lopts Guðnasonar á Klasbarða, Þuríður kona Símonar Jónssonar á Bjarnastöðum í Ölfusi og Halldór á Egilsstöðum faðir Jóns hreppstjóra á Hrauni, er drukknaði 1873 og Þórunnar móður Björns Kristjánssonar kaupmanns í Reykjavík.

× Sigríður átti Snjólf í Steinmóðarbæ Þorsteinsson

ii. Ingibjörg[1]).
kk. Guðmundur[2]).
b. Ingibjörg.
c. Jón eldri[3]) átti Ingunni dóttur séra Jóns Gíslasonar, þ. b.:

---

Snjólfssonar Guðbrandssonar, þeirra son Þorsteinn drukknaði með séra Sæmundi móðurbróður sínum.
× Ingveldur átti Gísla Björnsson frá Stóru-Sandvík Björnssonar í Stakkavík í Selvogi Magnússonar og Ragnheiðar Gísladóttur prests í Hrepphólum Andréssonar, þ. b.: Ragnheiður.
× Guðrún átti Jón Þorleifsson.
× Guðrún önnur átti Brynjólf Guðmundsson á Sauðhúsnesi í Álptaveri og börn, þar á meðal Brynjólfur í Hvammi í Mýrdal, Margrét kona Einars Bárðarsonar og Guðbjörg kona Egils Sveinssonar Alexanderssonar.
× Snorri drukknaði í Grindavík.
× Vigfús dó í bólunni 1786.
× Snjáfríður átti Hannes á Flóagafli og Stóru-Sandvík Guðmundsson frá Þórunúpi Hannessonar frá Borg undir Eyjafjöllum Árnasonar og var f. k. hans, þeirra dóttir: Þuríður átti Erlend Björnsson á Litlu-Háeyri, þeirra dætur: Kristín átti Björn Vernharðsson hafnsögumann í Garðbæ, fóru til Ameríku og Vilborg átti Sigurð Gamalíelsson frá Votmúla.
(Meðal barna Hannesar Guðmundssonar og s. k. hans voru: Gísli á Kotferju, Steindór í Stóru-Sandvík og Sesselja kona Gunnars Einarssonar á Selfossi).

bb. Sigmundur á Hól í Landeyjum átti Guðrúnu Jónsdóttur, þ. b.:
aaa. Runólfur í Eystrihól, dó 1785, átti Ingveldi Þórarinsdóttur frá Ytrihól Þórarinssonar og börn.
bbb. Jón á Grímsstöðum í Landeyjum átti Guðrúnu Filippusdóttur frá Miðkrika Jónssonar, þeirra son: Sigmundur á Bergþóruhvoli.
ccc. Sveinn á Skúmsstöðum.
ddd. Guðlaug.

1) Ingibjörg átti Þórð Ormsson frá Eyjum Vigfússonar (sjá Kjósarsýslu).

2) Guðmundur yngsti dó utanlands.

3) Jón eldri var lögréttumaður, bjó á Helgavatni og Síðumúla

aa. Steindór[1]).
bb. Guðmundur[2]).
cc. Ingunn[3]).
dd. Jórunn[4]).
ee. Þórdís[5]).
ff. Ingibjörg[6]).

---

og dó 1631, að því er Snókdalín telur, er segir að hann hafi átt Kristínu Einarsdóttur, en Jón yngri bróðir hans Ingunni, og svo telur Espólín. En hvor Jónanna, sem verið hefur eldri, sá er átti Ingunni eða Kristínu, þá er víst að séra Guðmundur á Þæfusteini var son Kristínar. Séra Jón Gíslason kallaður »gamli Adam« var prestur á Melstað og dóttursonur Einars Þórólfssonar á Hofsstöðum, sbr. bls. 256.

1) Steindór bjó á Vatnshorni í Haukadal, var f. m. Efemíu Pétursdóttur. Synir þeirra: Jón og Bjarni á Fellsenda, þaðan fjölmennar ættir.

2) Guðmundur í Máfahlíð í Lundarreykjadal átti fyr Guðríði Illhugadóttur frá Kalastöðum Vigfússonar, þ. d.:
a. Guðrún átti séra Benedikt Pétursson á Hesti, þ. b.: a) séra Auðunn í Borgarþingum og b) Guðrún f. k. séra Jóns Halldórssonar á Þingvöllum. S. k. Guðmundar var Guðrún Engilbertsdóttir prests á Þingvöllum Nikulássonar, þ. d.: c) Guðríður átti Sigurð Magnússon í Miðfelli á Hvalfjarðarströnd, þ. b.: Torfi, Magnús, Jón og Sigurður í Miðfelli, faðir Helga konrektors á Móeiðarhvoli.

3) Ingunn átti Jón Þórðarson frá Arnarbæli.

4) Jórunn átti Þórð Ólafsson í Keflavík, þ. b.:
a. Þorkatla átti Sigurð Björnsson Þórðarsonar prests Brandssonar, þ. d. Helga, er átti Vigfús sýslumann Árnason (bls. 291).
b. Ólafur. Hans son:
aa. Þórður í Lág átti Ingveldi Bjarnadóttur, þ. b.: Ólafur, Bjarni »skúrra« og Halldóra.
c. Jón, d. Þóra, e. Guðrún.

5) Þórdís átti Jón Skúlason Jónssonar Hálfdanarsonar og börn þar á meðal Skúla föður Jóns í Máfahlíð.

6) Ingibjörg átti Höskuld á Dönustöðum, þ. d.:
a. Guðrún átti Jón Eyjólfsson Þorbjörnssonar, þeirra son Höskuldur faðir Jóns föður Höskuldar í Flatey.

Son Jóns Guðmundssonar og Ingunnar er ennfremur talinn:

d. Jón yngri átti Kristínu Einarsdóttur frá Sturlu-Reykjum, þ. b.:
aa. Séra Guðmundur á Þæfusteini[1]).
bb. Jóhanna[2]).
cc. Bjarni[3]).
Seinni kona Guðmundar Hallssonar var Ingveldur Einarsdóttir[4]), börn:
e. Ari átti Ingibjörgu frá Kalastöðum og börn[5]).

---

gg. Ögmundur á Borg. Hans son Jón í Haga á Barðaströnd faðir Ögmundar á Saurum í Staðarsveit, Ásmundar á Barðastöðum, Illhuga í Hólbúð o. fl.

1) Son séra Guðmundar var Jón prestur á Staðarhrauni faðir séra Helga s. st. og frú Valgerðar konu Steins biskups.

2) Jóhanna átti Hall, þ. b.:
a. Þjóðhildur átti Magnús Guðmundsson á Skiphyl, þeirra son Hallur.

3) Bjarni var kallaður »fýsikampur«, átti Önnu Eyjólfsdóttur prests í Görðum Arnþórssonar og eru allmiklar ættir frá þeim komnar.

4) Faðir Ingveldar var Einar son Gísla Jónssonar á Ánastöðum og Ingunnar Einarsdóttur frá Hofsstöðum Þórólfssonar, bróðir séra Jóns »gamla Adams« á Melstað.

5) Son Ara og Ingibjargar var:
a. Guðmundur átti Þuríði Bergþórsdóttur, þ. b.:
aa. Ari á Njálsstöðum á Skagaströnd. Hans son:
aaa. Magnús á Syðri-Ey átti Sigríði Finnsdóttur, þ. b. meðal annars: a) Finnur á Syðri-Ey átti Sigurlaugu Grímsdóttur. Dætur þeirra: aa) Sigríður átti Jón Ólafsson á Helgavatni, þ. b.: Finnur, Árni dbrm. á Þverá í Hallárdal, Ólafur á Akureyri, Sigurlaug átti Jón á Melum Jónsson sýslumanns Jónssonar, Hlíf, er átti Skúla Þorvaldsson Sivertsen frá Hrappsey, Ingibjörg átti Magnús Bergmann og Ragnheiður, er átti Friðrik Möller kaupmann á Eskifirði. bb) Sigurlaug átti Björn Þorláksson úr Skagafirði, þ. b.: Sigríður tvígipt, Svanlaug kona Árna dbrm. á Þverá og Elizabet, er átti Sigurð Finnbogason, þ. b.: Björn kaupm. í Kaupm.höfn, Bogi verzlunarstjóri í Búðardal, Margrét kona séra Jóns

f. Guðmundur átti Sigríði frá Stafholti.
g. Jón lærði átti Sigríði Þorleifsdóttur. Hans son:
aa. Séra Guðmundur á Hjaltastað[1]) (sjá Ísafjarðarsýslu).
bb. Daði, launson Jóns með Gunnu Settu systur, og enn:
cc. Jón litli lærði.
h. Agnes.
i. Ólöf.
k. Jón annar, öll barnlaus.
Launson Guðmundar Hallssonar var:
l. Svarthöfði seinni maður Margrétar Hallvarðsdóttur[2]).

B. Jón Hallsson á Hvalsnesi átti Guðnýju dóttur séra Einars á Útskálum, börn:
a. Rannveig átti Jón á Hvalsnesi Ólafsson prests Einarssonar, börn:
aa. Sigríður átti Jón Björnsson Þorvarðssonar Moldar-Brandssonar og börn mörg.

---

Pálssonar á Höskuldsstöðum, Jóhann, Árni og Haraldur tannlæknir í Kaupmannahöfn.
bbb. Guðmundur í Vatnahverfi. Hans dóttir: Guðríður s. k. Ólafs Guðmundssonar á Vindhæli.
ccc. Guðrún átti Helga Þorsteinsson í Vatnahverfi.
ddd. Guðfinna átti Vilhjálm Eiríksson á Balaskarði, þ. b.: Halldór, Stígur og Jón á Illhugastöðum, er átti frændkonu sína Guðrúnu Magnúsdóttur frá Syðri-Ey Arasonar, þeirra dóttir: Steinunn átti Þorberg Arason, þeirra son: Þorbergur á Sæunnarstöðum faðir Kristmundar á Vakursstöðum.

1) Þessi ættfærsla er gersamlega röng, því að Jón lærði faðir séra Guðmundar var ættaður úr Steingrímsfirði son Guðmundar Hákonarsonar á Ósi, og er sú ætt greinilega rakin í Safni til sögu Ísl. III, 703—728. Þessi villa er í öllum ættatölum og er líklega sprottin af því, að Jón son Guðmundar Hallssonar hefur verið kallaður »lærði« að auknefni, og hafa menn því haldið, að það væri sá nafnkunni Jón Guðmundsson lærði.

2) Launsynir Svarthöfða hétu Ásmundur og Jón.

b. Guðmundur átti Guðrúnn Ólafsdóttur, þ. d.:
aa. Guðlaug átti barn í lausaleik.
c. Þorbjörg tvígipt bændamönnum, allt almúgafólk.

C. Ögmundur á Leirá átti Arndísi dóttur Þorsteins í Hjörtsey Torfasonar sýslumanns í Klofa, börn:
a. Torfi á Leirá átti fyr Sigríði Skaptadóttur frá Setbergi, börn:
aa. Jón átti Guðrúnu dóttur Helga Eyjólfssonar og börn.
Seinni kona Torfa á Leirá, hverri hann giptist 1611 var Steinvör dóttir séra Böðvars í Reykholti börn.
bb. Vigfús á Hlíðarfæti.
cc. Séra Ögmundur í Otrardal.
dd. Oddný.
ee. Arnfríður, allt bændafólk.
b. Sigurður í Bjarnarhöfn átti Solveigu dóttur séra Skapta á Setbergi Loptssonar, börn:
aa. Ögmundur í Akureyjum átti Guðríði Ólafsdóttur Hannessonar frá Snóksdal[1]).
c. Hallur lögréttumaður í Hrísum í Snæfellsnessýslu seinni maður Halldóru dóttur Skapta á Laugarbrekku, þ. s.:
aa. Snorri.
d. Sturla, h. d.:
aa. Sigríður átti launbarn[2]).

D. Bergljót átti Einar Eiríksson á Hvanneyri, börn:

---

1) Ögmundur var föðurfaðir Steindórs sýslumanns Helgasonar (bls. 292).

2) Enn voru börn Ögmundar Hallssonar og Arndísar:
e. Oddur á Skarði í Leirársveit átti fyrst Úlfhildi Sæmundsdóttur Sighvatssonar, þ. b.: Ögmundur o. fl. Önnur kona Odds Aldís Jónsdóttir, þriðja Vigdís Þorsteinsdóttir, systir séra Eiríks á Krossi.
f. Ingibjörg átti Sigurð Jónsson á Brjánslæk, þeirra

a. Séra Ólafur á Helgafelli um 27 ár, dó 1619. Séra Ólafur átti Þuríði dóttur Jóns á Skarði á Landi[1]), börn:
aa. Jón eldri.
bb. Jón yngri.
cc. Egill.
dd. Valgerður.
ee. Steinunn.
ff. Guðrún, varð flest allt almúgafólk.
b. Jón rektor Einarsson, giptist 1594 Salvöru Stefánsdóttur, bl.[2]).

*Kona* Halls *seinni* var Guðrún dóttir Þorsteins í Hjörtsey Torfasonar sýslumanns í Klofa Jónssonar, börn:
E. Sesselja átti Björgúlf Ásgeirsson frá Lundi (sjá Borgarfjarðarsýslu).
F. Þórdís Hallsdóttir átti Tyrfing í Hjörtsey Ásgeirsson frá Lundi, börn:
a. Séra Þorsteinn í Hvammi átti Jórunni Einarsdóttur, börn:
aa. Jón[3]).
bb. Einar biskup.
cc. Árni[4]).

---

son: Snorri handleggjastuttur á Fiskilæk faðir Sigurðar prests á Brjánslæk.
g. Þorgerður átti Sigurð Jónsson.
h. Snorri í Leirárgörðum, varð úti.

1) Eiríkssonar Torfasonar í Klofa.

2) Jón var skólameistari tvisvar í Skálholti og einu sinni á Hólum. Andaðist á eignarjörð sinni Álptártungu. Kvæntist Salvöru 1594 og átti með henni eitt barn, er dó ungt.

3) Jón bjó á Nautabúi í Hjaltadal, var ráðsmaður á Hólum, tvíkvæntur. Dóttir hans með s. k. Þorbjörgu Aradóttur var:
a. Ingibjörg kona séra Þorleifs prófasts Skaptasonar í Múla, og eru frá þeim komnar allmiklar ættir. Einn son þeirra var Ari prestur á Tjörn í Svarfaðardal faðir Ara læknis á Flugumýri.

4) Árni var stúdent og sigldi, skrifaður í stúdentatölu við háskólann 6. desember 1662, og andaðist ytra úr mislingum 27. október 1664.

dd. Guðrún, og önnur tíu[1])

b. Guðrún átti séra Halldór á Staðarhrauni Jónsson[2]), börn:

aa. Steindór.

bb. Helgi.

cc. Randalín[3]).

dd. Þórdís.

ee. Sigurður[4]).

c. Sigurður drukknaði í Norðurá.

d. Bjarni átti Guðrúnu Gísladóttur Björnssonar prests, börn:

aa. Jón[5]).

bb. Árni[6]).

cc. Nikulás[7]).

dd. Bjarni[8]).

ee. Ragnheiður[9]).

e. Þorgerður Tyrfingsdóttir átti Árna Guðmundsson, börn:

---

1) Frá séra Þorsteini Tyrfingssyni er afarmikill ættbálkur kominn.

2) Sbr. II, 357—358.

3) Randalín átti 1677 Högna Halldórsson frá Straumfirði (sbr. bls. 129), þeirra son Sigurður sýslumaður (sjá hér síðar).

4) Þessa barns séra Halldórs er ekki getið í mörgum ættatölum.

5) Laundóttir hans með Margréti Sturludóttur hét Guðný, átti Svein Hannesson.

6) Árni átti Solveigu Jónsdóttur, þ. b.:

a. Jón byggði fyrstur Malarrif við Lóndranga 1694, átti Guðrúnu Teitsdóttur.

b. Magnús var tvíkvæntur.

c. Ragnhildur átti Einar Styrsson á Varmalæk.

7) Nikulás átti Helgu Einarsdóttur frá Ytri-Rauðamel Jónssonar og Önnu Magnúsdóttur prests Svartssonar.

8) Bjarni átti Þorlaugu Svartsdóttur Pálssonar.

9) Ragnheiður átti Kára Eiríksson lögréttumann

aa. Hákon í Vatnshorni[1]).
bb. Guðmundur í Deildartungu.
cc. Ásmundur í Hraundal.
dd. Vigfús.

G. Sigríður Hallsdóttir átti Ólaf Ólafsson.

H. Bergþór Hallsson meinast laungetinn, hann átti Ingibjörgu Guðnadóttur[2]), börn:
a. Þorbjörg.
b. Halldóra.
c. Helga.
d. Þorbjörn[3]).
e. Halla[4]).

(Fjölmenni mikið er komið af Halli sýslumanni).

Hallur bjó í Hjörtsey og var maður vel við efni. Var og umboðsmaður Daða í Snóksdal um hríð í Mýrasýslu, en þá Daði sleppti téðri sýslu, eg meina um 1560, tók Hallur að veiting Mýrasýslu. Ekki er fullvíst hvað lengi hann hefur hana haldið að veitingu, þar til Þórður lögmaður Guðmundsson tók sýsluna; þó er ekki ólíklegt, að það hafi verið nálægt 1570, sem Þórður tók hana, en Hallur sleppti. Í stóradómi var Hallur einn af meðdómsmönnum 1564. Í ættatölum nefnist Hallur sýslumaður.

## Þórður lögmaður Guðmundsson.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Óvíst er nær Þórður tók þennan part Þverárþings, þó er líkast að það hafi verið eptir það hann gerðist lögmaður 1570 til rífkunar lögmannsembættinu. Enga dóma hefi eg þó fundið í þessari sýslu eptir Þórð fyr en 1586, þá hann að Dýrastöðum í Norðurárdal lét ganga dóm um Jón letingja og seinna c. 1604 þann 6. maí að Dýrastöðum um letingja og flakkara. Þessari sýslu hygg eg hann hafi haldið eins lengi og hinni til 1605 eða 1606, en brúkað ýmsa umboðsmenn.

---

1) Sbr. II, 671.

2) Hún var dóttir Guðna Þormóðssonar á Sámsstöðum.

3) Þorbjörn átti Guðrúnu Tómasdóttur, þeirra dætur: Helga og Agata.

4) Líklega réttara Hallbera átti Indriða Jónsson á Ökrum, þ. d.: Ingunn.

## Þorvaldur Björnsson.

(Sjá um hann við Húnavatnssýslu)[1]. Þorvaldur bjó á Æsustöðum í Langadal og var mesti atgerfismaður. Hvort hann hefur hér haft sýsluvöld nokkur um 1567, annaðhvort að veiting eða sem umboðsmaður, er mjög óvíst, þó hann 1568 fengi Stafholt í léni og um sama mund Húnavatnsþing. Með Walkendorph fór hann utan 1569 og deyði í þeirri ferð um 1570, því Benedikt Halldórsson afhenti séra Jóni Egilssyni Stafholt í fardögum 1571 vegna Vigdísar konu eða þá ekkju Þorvalds.

## Jón Grímsson.

*Faðir*: Grímur í Síðumúla Jónsson (sjá Borgarfjarðarsýslu).

*Móðir*: Máske Guðrún laundóttir Torfa Andréssonar (sjá þar).

*Kona*: Sigríður, þá ekkja Egils Jónssonar á Ingjaldshóli föður séra Jóns í Stafholti.

*Börn*: A. Séra Grímur á Húsafelli 1615[2]) faðir Helga prests á Húsafelli 1654, er dó 1691[3]).

Með Kristínu dóttur Vigfúsar lögmanns, sem fyr hafði fylgt séra Magnúsi syni Jóns biskups Arasonar, en var eptir dauða séra Magnúsar áhangandi Jóni biskupi Arasyni, átti Jón Grímsson launson:

---

1) I, 517—519.

2) Séra Grímur á Húsafelli dó 12. ágúst 1654, 73 ára gamall. Það sést á gömlum legsteini þar á Húsafelli. Kona séra Gríms hét Engilráð Jónsdóttir frá Breiðabólsstað í Reykholtsdal Loptssonar. En séra Grímur var ekki son Jóns Grímssonar, er Jón murti vó, enda er hann fæddur um 1581, fullum tíu árum eptir víg hans, heldur son Jóns Grímssonar, er lengi hélt Húsafell að léni og Sigurborgar Þorsteinsdóttur Sighvatssonar. Séra Grímur átti fleiri börn en séra Helga, t. d. 3 aðra syni: Jón í Kalmannstungu, Ketil og Hall (laungetinn). Í I, 313 hefur Jón Pétursson talið séra Grím skakkt til ættar, eins og Bogi gerir. Sama villa er hjá Espólín (Árb. V, 11) o. m. fl. Sjá nánar um þetta við Borgarfjarðarsýslu.

3) Séra Helgi andaðist 2. ágúst (1691) 69 ára gamall. Hann fór í Þórisdal með séra Birni Stefánssyni á Snæfoksstöðum

B. Vigfús, sem átti Margréti Helgadóttur, systur Guðmundar á Eyri á Seyðisfirði, börn:

a. Helgi lögréttumaður, var auðugur, átti Þuríði dóttur séra Ásgeirs á Lundi (sjá Borgarfjarðarsýslu).

b. Margrét Vigfúsdóttir átti Sigurð Guðnason Þormóðssonar Arasonar (sjá Húnavatnsþing).

Launbörn Vigfúsar voru hér að auki þrjú:

c. Bjarni átti Guðríði Þorsteinsdóttur, börn:

aa. Bergþór[1]).
bb. Vigfús.
cc. Gunnar.
dd. Runólfur[2]).
ee. Þórdís.
ff. Ingveldur.
gg. Helga.
hh. Hallbera.
ii. Guðrún[3])

d. Sigríður átti Helga son Ólafs Sveinssonar[4]), börn:

aa. Bjarni[5]).

---

1) Bergþór átti Ingibjörgu Bjarnadóttur skálda Jónssonar smiðs á Fellsöxl, þ. b.:
a. Sæmundur.
b. Bjarni.
c. Runólfur var við Hellna.
d. Þuríður átti Guðmund Árnason.
e. Guðlaug átti Einar Bjarnason Arasonar.

2) Runólfur á Ásbjarnarstöðum átti Sesselju Þormóðsdóttur og börn.

3) Enn voru börn Bjarna Vigfússonar:
kk. Vilborg átti Skúla Þormóðsson, bróður Sesselju konu Runólfs.
ll. Agnes átti Jón Ólafsson.

4) Helgi mun hafa búið í Geitlandinu og var kallaður Jökla-Helgi. Ólafur faðir hans er ef til vill bróðir Eyleifs Sveinssonar í Kalmannstungu og þeir synir Sveins Ásmundssonar, er getur í Reykholtsdal seint á 16. öld. Þó er það vitanlega nokkuð óvíst.

5) Bjarni átti Guðrúnu Hallsdóttur Ögmundssonar.

bb. Olafur[1]).
cc. Jón.
e. Sesselja átti Hálfdan Þiðriksson Hálfdanarsonar, börn:
aa. Sigurður.
bb. Margrét.
cc. Guðrún.

Jón Grímsson var fyrst sveinn Jóns biskups Arasonar, þá hann var ungur. Átti þá áðurtéðan launson Vigfús með Kristínu; varð hann fyrir reiði biskups og flýði utan, sótti um kongsleyfi að ekta Kristínu, því fjórmenningsmægðir voru þeirra á millum. Jón fékk leyfi kongs til giptingar og kom út. Var Kristín þá dáin. Hafði henni fallið svo þungt ávirðing sín. Þar eptir giptist Jón Sigríði, sem áður er sagt og bjó í Síðumúla, Norðtungu og Kalmannstungu. Nálægt 1556 tók Jón í léni Hvamm í Norðurárdal og hélt hann um þrjú ár. Meining er, að hann hafi um tíma verið umboðsmaður í Þverárþingi, máske Þórðar lögmanns, hafi það verið sunnan Hvítár. En engan dóm hef eg séð eða heyrt getið eptir hann[2]).

Um þessar mundir ágengu margar jarðariptingar á fé Jóns Sigmundssonar og annara, sem biskupar höfðu ranglega undir sig dregið

Biskup Ögmundur hafði verið fengsæll með jarðir. Hafði Ari í Bæ heitið að gefa Saurbæ til heilagrar Skálholtskirkju fyrir beneficium. Voru þau Ari og Þórdís kona hans löngu dáin, og hafði Ögmundur biskup tekið til sín Bæ og gefið hann sveini sínum Sigurði Ormssyni, en Sigurður fékk hann frænda sínum Erlingi sýslumanni Gíslasyni til eignar. Ormur og Jón Erlingssynir eignuðust þar næst Bæ, urðu sveinar Eggerts lögmanns Hannessonar og seldu honum téðan garð.

1) Ólafur þessi er vafalaust sá Ólafur Helgason, er bjó á Bjarnastöðum í Hvítársíðu og var faðir Ásmundar á Bjarnastöðum (sbr. II, 509 n.m.) og hefur sá, er þetta ritar fyrstur veitt þeirri ættfærslu eptirtekt. Áður hafa menn ekki vitað, hver var kona Jökla-Helga og ruglast í föðurætt Ásmundar Ólafssonar. En frá Ásmundi þessum er fjöldi manna kominn um Borgarfjörð.

2) Eg tel það mjög vafasamt, að þessi Jón Grímsson hafi nokkru sinni verið umboðsmaður Þórðar lögmanns, og er það ágizkun ein hjá Boga.

Jón Grímsson þóttist hafa brigðarétt til Bæjar, og fór að hefja það mál nálægt 1570 við Eggert lögmann, sem var tregur fyrir að sleppa; gekk í því þófi um hríð.

Svo bar til árið 1570 eða 1571, að Eggert lögmaður átti ferð suður um land, og tók veizlu í Síðumúla. Var þá sent eptir Jóni Grímssyni að Norðtungu, kom hann fáklæddur frá heyskap og var boðið til drykkju. Talað var þá um Bæjar-riptinguna og vildi Jón Grímsson ei af því láta.

Jón murti son Eggerts lögmanns var með föður sínum, og hafði heyrt hann segja eitthvert sinn: Betra væri að kasta út einum manngjöldum en missa Bæ. — Þá ræðan millum þeirra Eggerts lögmanns og Jóns Grímssonar harðnaði seildist Jón murti yfir herðar öðrum manni og lagði Jón Grímsson með knífi ofan með viðbeininu. Þá vildi Jón Grímsson upp standa, en sessunautar hans héldu honum. Jón murti lagði þá til hans öðru sinni og varð það banasár. Þá mælti Jón Grímsson: »Svona, nægir«. Eptir það deyði Jón og varð ekkert af landabrigðunum síðan. Jón Grímsson var auðugur og harðfengur maður.

Jón murti Eggertsson fékk áður gott orð og þótti höfðingjaefni, en fyrir þetta verk var hann dæmdur útlægur, fór hann utan til Hamborgar, giptist þar og lifði lengi þar eptir. Er mælt hann hafi seinna orðið bráðkvaddur, þá hann var að telja fisk.

(Meir af þessum tilburði hef eg ritað þetta um Jón Grímsson, en eg hafi nokkra vissu um hans sýsluvöld).

## Hans Gerken Hannesson.

*Faðir*: Hannes Gerken, sem drukknaði í Jökulsá á Breiðár[merkur]sandi 1576[1]). Hann var son Henrichs

---

1) Þetta ártal er rangt og stafar af mislestri í handriti (í ættatölubók séra Jóns Ólafssonar). Þar stendur, að Hannes hafi drukknað 15 7bris 16, þ. e. 15. september 16 . . (ef til vill 1616). Þessu hafði eg ekki veitt eptirtekt, er eg reit aths. við II. B. bls. 294, en sá, að 1576 hlaut að vera rangt. En þar er réttilega tekið fram, að það hefur verið H a n n e s G e r k e n, bróðir Þórdísar Hinriksdóttur, er var lögsagnari Þórðar lögmanns, en ekki Hans launsonur hans, eins og Bogi telur hér, og óvíst, að sá Hans hafi verið til (sbr. II,

Gerkens, er kom til Íslands sem þýzkur bartskeri, varð svo Þingeyraklaustursháldari, seinna Strandasýslumaður (sjá þar), dó 1582.

Þessi Hans var Hannesar frilluson, fékk því ei arf eptir föður sinn, hvern Þórdís systir Hannesar tók undir sig.

Hans þessi var orðinn umboðsmaður Þórðar lögmanns 1603, því það ár lét hann 6 manna dóm ganga að Öskjuholti um burtflutning utansveitarómaga. Samþykkti hann dóminn og eins Þórður lögmaður. Þann 7. maí sama ár og stað[1]) lét Hans ganga dóm um öreiga, sem jarðir eru byggðar án hreppstjóraráðs.

Hans hefur og verið umboðsmaður Gísla lögmanns Þórðarsonar í Mýrasýslu, því 1608 þann 6. maí voru á Lækjarbugsþingi 6 menn í dóm nefndir af Hans Gerken Hannessyni um, hvort sektalaust væri að sleppa þjóf, sem maður tæki fóla af.

## Gísli lögmaður Þórðarson.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Hann hélt fyrst Gullbringu-, Árnes- og Kjósarsýslur, en tók Borgarfjarðar- og Mýrasýslur, þá faðir hans sleppti þeim 1605 eða 1606, en 1607 tók hann líka Snæfellsnessýslu og Stapaumboð, sleppti því og Snæfellsnessýslu 1613. Lögmaður gerðist hann eptir föður sinn 1606, en öllu Þverárþingi hélt hann til síns dauða 1619. Var hann þá yfir sjötugt og bjó lengi á Innrahólmi. Hann hélt ýmsa umboðsmenn, einkum á sínum seinni árum, og í þeim lénum, sem honum voru fjarlægust, svo sem Jón Dalasýslumann í Snæfellsnessýslu, Bjarna Brandsson í Hnappadals- og stundum í Mýrasýslu, hvar Hans Hannesson Gerken og fleiri voru hans umboðsmenn.

## Jón Sigurðsson eldri.

*Faðir*: Sigurður lögréttumaður í Einarsnesi, (dó 1606,

---

294). Auðvitað er nöfnunum Hans og Hannes opt blandað saman á þeim tímum, og af því stafar þessi villa.

1) Sbr. II, 294. Hannes lét og dóm ganga á Heggsstöðum 20. maí s. á.

hans faðir Jón Magnússon). (NB. Espólín segir, að Sigurður í Einarsnesi hafi verið Guðmundsson[1]) og átt Þorlaugu dóttur Ólafs prests Kolbeinssonar og þeirra son hafi verið Jón fyrri sýslumaður í Einarsnesi). En móðir Sigurðar var Þorlaug dóttir séra Ólafs Kolbeinssonar í Saurbæ.

*Móðir* Jóns en kona Sigurðar var Ragnhildur dóttir séra Ásgeirs á Lundi Hákonarsonar sýslumanns Björgólfssonar Þorkelssonar vellings.

*Kona* Jóns sú *fyrri* var Ragnheiður, (d. 1632, 38 ára), dóttir Hannesar lögréttumanns í Snóksdal Björnssonar Hannessonar hirðstjóra Eggertssonar.

*Börn*: A. Séra Þorleifur í Odda, (fæddur 1619), lærði innanlands og utan, varð baccalaureus, síðan skólameistari í Skálholti 1647 hálft fjórða ár. Vígðist til Odda strax eptir jól 1651, gerðist prófastur í Rangárþingi 1653 til síns dauða 1690 á 71. aldursári, en 43. embættisári. Séra Þorleifur var skýr maður og lærður vel, einlægur, fordildarlaus. Hann giptist Sigríði dóttur Björns sýslumanns Magnússonar í Bæ á Rauðasandi 1651 (sjá Barðastrandarsýslu), þeirra einbirni:

a. Björn biskup á Hólum átti Þrúði dóttur Þorsteins sýslumanns Þorleifssonar (sjá Hegranesþing), bl.

B. Sigurður lögmaður í Einarsnesi (sjá Borgarfjarðarsýslu, Snæfellsnessýslu og hér síðar).

C. Guðmundur sýslumaður (sjá Borgarfjarðarsýslu og hér síðar).

*Kona* Jóns Sigurðssonar *seinni*, hverri hann giptist í Hítardal 1634 var Helga, (dó 1671)[2]), dóttir séra Jóns prófasts Guðmundssonar í Hítardal, börn:

---

1) Það er réttara, að Jón faðir Sigurðar lögréttumanns hafi verið Magnússon, en ekki Guðmundsson Magnússonar, eins og sumstaðar er talið (t. d. hjá Snókdalín). Þeir feðgar Jón og Sigurður son hans bjuggu í Einarsnesi.

2) Dánardagur hennar var 10. febrúar (sbr. Ártíðaskrár J. Þ. bls. 199).

D. Jón og
E. Guðríður, dóu bæði á unga aldri, barnlaus.
Launbörn Jóns með Sigríði[1]) Bjarnadóttur voru:
F. Þuríður átti Einar Marteinsson söng á Hvassafelli, börn:
a. Sigmundur á Hvassafelli átti fyr Þóreyju Jörundsdóttur, börn:
aa. Einar[2]).
bb. Þuríður.
Seinni kona Sigmundar var Arndís barnsmóðir Sigurðar Pálmasonar, börn:
cc. Þórey[3]).
dd. Helga[4]).

---

1) Hún hét Ingibjörg Bjarnadóttir (Ættat. J. H.).

2) Einar átti Sæunni Sigurðardóttur, þ. b.:
a. Sigmundur átti Önnu Brandsdóttur, þ. b.:
aa. Brandur í Sólheimatungu, dó 1816, síðasti maður Vigdísar Ólafsdóttur frá Lundum, þ. d.: a) Ragnhildur átti Guðmund Ólafsson á Haugum.
Launson Brands í Sólheimatungu með Guðrúnu Árnadóttur var: b) Guðbrandur á Hálsi í Eyrarsveit átti Ingveldi Egilsdóttur á Hálsi Egilssonar í Gröf Egilssonar á Vatni í Haukadal Sturlaugssonar (sbr. bls. 260).
bb. Jón á Narfastöðum átti Sigríði Gissursdóttur, þ. b.: a) Guðleif s. k. Jóns Þorsteinssonar í Kalastaðakoti, b) Arnbjörg átti fyrst Guðmund Gamalíelsson, svo Þorleif Guðmundsson og síðast Kaprasíus Finnsson.
Launson Sigmundar með Ástu Guðmundsdóttur:
cc. Jón í Tannhamraseli (Tandraseli) átti Guðrúnu Gísladóttur, bl.
b. Arnþór í Kjalardal, kvæntur.

3) Líkl. réttara: Þórný. Hún átti Árna Jónsson í Norðurárdal, þ. b.: Jón.

4) Helga átti Hinrik Halldórsson, þ. b.:
a. Arndís átti fyr Einar Grímsson í Fróðhúsum, þ. b.:
aa. Þuríður átti Sigurð danska Jónsson úr Lundarreykjadal, þ. b.: Sigurður og Steinunn.
S. m. Arndísar Brynjólfur Gíslason í Eskiholti, þ. b.:
bb. Ingibjörg átti Árna Guðmundsson á Ölvaldsstöðum, þ. b.:

(Þuríður varð ei gömul og giptist Einar eptir hana tveim konum).

---

× Jón á Ölvaldsstöðum átti Sigríði Þórðardóttur.

× Sigríður átti Guðmund smið á Hítardalsvöllum Sigurðsson frá Mógilsá Sigurðssonar á Englandi Árnasonar yfirbryta í Skálholti Ketilssonar prests í Ásum Halldórssonar, þ. b.: Vigfús átti launson með Guðrúnu Vernharðsdóttur prests Þorkelssonar, er hét Jóhannes og lærði prentverk.

× Alexander kvæntist.

× Arndís átti Bjarna Sigurðsson í Munaðarnesi, þeirra synir: Jóhann í Hrólfsskála og Jóhannes í Staðarhöfða, er átti Ingiríði Nikulásdóttur Gottskálkssonar.

× Guðmundur á Esjubergi átti launbörn.

× Sigurður.

× Guðríður.

× Kristín átti Bergþór á Lambastöðum á Mýrum Þorvaldsson í Þverholtum Sigurðssonar í Knararnesi Þórðarsonar á Álptá Gíslasonar s. st. Snorrasonar Eiríkssonar Eiríkssonar Þorleifssonar prests á Melum Eiríkssonar á Álptanesi Halldórssonar ábóta Ormssonar, þ. b.:

aa) Bergþór í Straumfirði átti Guðrúnu Sigurðardóttur á Langárfossi Sigurðssonar, þ. b.:

× × Bergþór á Brennistöðum, kvæntur Halldísi Guðmundsdóttur frá Hjörtsey Sigurðssonar.

× × Sigurður drukknaði um tvítugt, átti launson með Guðrúnu Þorfinnsdóttur, Sigurð.

× × Guðrún giptist Eyjólfi Þorvaldssyni frá Kvíslhöfða Eyjólfssonar, þ. b. mörg, þar á meðal Ármann skósmiður í Reykjavík.

× × Bergþóra Guðrún. × × Halldóra Guðrún.

× × Kristín á Teit Pétursson frá Smiðjuhóli Þórðarsonar.

bb) Guðrún átti fyr Þorvald Eyjólfsson frá Kvíslhöfða Jónssonar, þ. b.: Bergþór, Albert í Reykjavík, Eyjólfur í Kvíslhöfða (sjá hér á undan), Ingibjörg, Sesselja, Oddfríður kona Jóns Guðmundssonar í Hólakoti og Þorvaldur. S. m. Guðrúnar Jón Þorkelsson á Brennistöðum, þ. b.: Þorvaldur stýrimaður í Rvík, María og Ingibjörg Bergþóra kona Jóns Finnssonar á Langárfossi.

G. Jón átti Katrínu Þórðardóttur Böðvarssonar[1]), börn:

a. Jón ráðsmaður á Hólum, hjá Birni biskupi, átti Guðrúnu Finnsdóttur Guðmundssonar, börn:

aa. Séra Jón á Munkaþverá[2]) prófastur, dó 1707, bl.[3]).

b. Halldór átti Þórdísi Grímsdóttur, þau áttu 12 syni[4]).

---

cc) Bergþóra Kristín átti fyr Þórð Guðmundsson Torfasonar, þ. b.: Jóhanna átti Pétur Pétursson, er var á Langárfossi, Valgerður, Oddfríður, Kristín. S. m. Bergþóru Sigurður Sigurðsson, fóru bæði til Ameríku.

cc. Sigurður átti Kristínu Sigurðardóttur.

b. Sigmundur í Hlíðartúni átti Margréti Ólafsdóttur, þ. b.:

aa. Sigmundur í Grafarkoti átti Oddbjörgu Einarsdóttur, þeirra son Björn.

bb. Jón á Flóðatanga átti Ingibjörgu Jónsdóttur, bl.

cc. Guðmundur í Miðengi átti Guðrúnu Sigurðardóttur, þ. b.: Sigurður, Margrét og Guðrún, er átti Jón í Tumakoti í Vogum Jónsson ríka dbrmanns í Stóruvogum Daníelssonar, þ. b.: Guðríður átti Stefán Ólafsson í Hvammkoti, bróður Guðmundar jarðyrkjumanns á Fitjum, þeirra dóttir: Stefanía f. k. séra Arnórs Árnasonar í Felli, nú á Ballará.

1) Þ. e. Böðvars prófasts Jónssonar í Reykholti.

2) Réttara: Möðruvallaklaustri. Hann dó ókvæntur í stórubólu 1707.

3) Annað barn Jóns ráðsmanns og systir séra Jóns á Möðruvöllum var:

bb. Guðrún átti Martein Arnoddsson prentara, þ. d.:

a) Steinunn átti Olaf Björnsson lögréttumann, þ. b.: Einar myndasmiður í Wien, Marteinn Holm veitingamaður í Kaupmannahöfn og Guðrún kona Brynjólfs læknis Péturssonar.

4) Þetta er ekki fyllilega rétt. Halldór átti ekki öll þessi bö... með Þórdísi. Einn son þeirra var Hinrik, er átti Helgu Sigmundsdóttur Einarssonar frá Hvassafelli (sjá hér á undan) og hafa þau

c. Guðrún átti Ólaf Jónsson, þ. d.:
aa. Katrín o. fl.

Jón Sigurðsson var skólalærður, (átti þá barn), giptist svo Ragnheiði, sem áður er sagt og bjó í Einarsnesi; mun og hafa gerzt lögréttumaður. Var efnagóður og búhöldur, en Ragnheiður átti hundrað hundraða í jörðum, þá þau giptust. Það er meining mín hann hafi tekið Mýrasýslu eptir Gísla lögmann 1619 eða 1620, því 1620 var hann dómsmaður á alþingi að yfirlíta og dæma um morðbréfabæklinga Guðbrands biskups ásamt öðrum. Ei hef eg samt fundið hans héraðsdómaraverk fyr en 1631 og 1634. 1640 lét hann dóm ganga á Smiðjuhóli um leigupening, og annan í Öskjuholti sama ár líks innihalds. Jón sýslumaður var dómsmaður á alþingi 1634, 1635, 1636, 1637 og 1638.

Sína fyrri konu missti hann 1632, giptist aptur sinni seinni konu 1634. Hún deyði 1671, þá barnlaus.

Jafnvel þó menn meini, að Jón hafi í aldurdómi sínum brúkað son sinn Sigurð fyrir lögsagnara, hefur hann þó haldið Mýrasýslu, til þess hann deyði háaldraður 1648 eptir alþing. Hann bjó mestalla sína æfi í Einarsnesi, var haldinn nokkuð kvennhollur, maður vel viti borinn og með stöðugum gáfum, auðmaður og í mörgu valmenni. Hann tjáist að hafa verið maður lærður vel og lögspakur.

Það er sumra gáta, en engin fullvissa, að *Marteinn Halldórsson* á Álptanesi hafi um tíma haldið Mýrasýslu eptir Gísla lögmann. 1620 er hann talinn með helztu dómsmönnum á alþingi, og í ættatölum sumum nefnist hann Marteinn bóndi, var bóndatitill þá valdsmanna heiðursnafn. Annað veit eg ei fyrir þeirri meiningu.

Þó Jón sýslumaður Sigurðsson nefnist í ættartölu sál. frúr Þórunnar Guðmundsdóttur (p. 17) sýslumaður yfir öllum Borgarfirði, finn eg engin rök þar fyrir.

1642 kom til alþingis dómur Jóns í brigðamáli. 1648 er vísað til hans aðgerða um eið Bjarna Tyrfingssonar.

---

hjón því verið þremenningar. Aðrir synir Halldórs og Þórdísar voru t. d.: Jón á Yztahóli, Guðmundur, Björn og Ívar, en synir Halldórs og s. k. hans Guðrúnar Jónsdóttur voru, að því er Snókdalín telur: Halldór í Hróksholti, Einar á Oddastöðum, Jón á Litlahrauni og Gísli í Laxholti, og eru ættir frá þeim flestum.

## Sigurður lögmaður Jónsson.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Hann tók Snæfellsnessýslu 1642 og giptist 1645. En Mýrasýslu eptir föður sinn 1648 eða 1649 að veiting. Var aðstoðarmaður Þorkels sýslumanns í Borgarfjarðarsýslu frá 1656, fékk og veiting fyrir þeirri sýslu 1662 (al. 1659). 1659 á alþingi sór Sigurður Jónsson sinn sýslumannseið, og sama ár auglýsir hann í lögréttu sína 2 dóma í barnsfaðernis-neitunum Guðlaugar Pálsdóttur. 1660 dæmdu lögmenn, að bæði Ögmundur Jónsson og Jón Ólafsson skyldu hafa fyrir barninu í 7 ár etc. Sigurður lét dóm ganga á Smiðjuhóli 25. október 1652 um Styr Gíslason. 1653 og 54 komu til alþingis af honum útnefndir dómar, einnig 1656. Hann lýsir og 1657 á alþingi burthlaupnum manni, Katli Eiríkssyni, sekum fyrir frillulífis- og hórdómsbrot. 1658 las Sigurður dóm sinn upp á alþingi, og annan dóm do. 1659, tvo dóma 1660 og 1661. [Sigurður] gerðist lögmaður 1663, missti allt Þverárþing 1666, tók aptur Borgarfjarðarsýslu 1672, frásagði sér hana 1676, en deyði sjálfur úr sótt í Einarsnesi 1677[1]). Hafði hann þá ekki sleppt lögmannsdæminu og þótti alltíð hinn merkilegasti höfðingi.

*Þorsteinn Torfason* var lögsagnari hans í Mýrasýslu 1664, (aðrir: Torfi Þorsteinsson, og svo stendur í þingbókinni, og lét dóm ganga að Lækjarbug 24. apríl 1664 um umferðar- og húsgangsfólk).

## Jón yngri Vigfússon.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Hann tók allt Þverárþing 1666, missti það 1672. Fór utan 1673. Kom út með kongsbréf 1674 fyrir biskupsembætti á Hólum, þá það losnaði. Varð þar algerlega biskup 1684, átti mjög opt í miklum málum, og áður sum þeirra afgerðust deyði hann á Hólum í Hjaltadal 1690.

## Guðmundur Jónsson.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Hann varð sýslu-

---

1) Hann dó 4. marz á 59. aldursári og hefur því verið fæddur um 1618 (Ártíðaskrár bls. 194). Sjá um hann Safn til sögu Ísl. II, 137—138.

maður í Mýrasýslu 1672, en sleppti henni 1676, tók Borgarfjarðarsýslu 1676, var búinn að sleppa henni 1686. Guðmundur deyði 1703, þá hann hafði 3 ár hins níunda tugar.

1673 dag 25. okt. lét Guðmundur Jónsson ganga dóma á Smiðjuhóli um mál séra Jóns Halldórssonar og Vigfúsar Jónssonar[1]), og sama ár lét hann dóm ganga að Hjarðarholti þann 9. október um eignarráð Sigurðar prófasts Oddssonar á jörðinni Jafnaskarði.

## Jòn Sigurðsson yngri.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Hann giptist og tók Mýrasýslu 1676, hafði og ásamt Borgarfjarðarsýslu 1686, en sleppti henni við Sigurð son sinn 1704. Missti konu sína Ragnheiði 1712, en deyði sjálfur 1718, sjötugur að aldri. Hélt hann Mýrasýslu í 42 ár og þótti ágætur maður.

## Árni Hákonarson

lögréttumaður lét í umboði Magnúsar lögmanns Jónssonar dóm ganga á Þverárþingi 1692, hvar sýslumanni Jóni Sigurðssyni voru dæmdir 6 aurar í skatthald og þrjár merkur í tíundarhald og þingsóknar-forsómun eptir lögum. Tel eg þó ekki Árna eiginlegan lögsagnara.

## Sigurður yngri Sigurðsson.

*Faðir*: Sigurður lögmaður Björnsson (sjá Kjósarsýslu).

*Móðir*: Ragnheiður dóttir Sigurðar lögmanns í Einarsnesi Jónssonar.

*Kona*: Ingibjörg dóttir séra Einars Einarssonar og Þóru dóttur séra Torfa í Gaulverjabæ. (Þau séra Einar og Þóra dóu bæði 1690, en giptust 1680). Ekki áttu þau Sigurður og Ingibjörg börn, sem lifðu.

Sigurður var fæddur 1692[2]), lærði hér og utanlands, fékk

---

1) Hinn 1. júní 1675 tók hann stefnuvottorð í því máli.

2) Sigurður yngri var fæddur í Saurbæ á Kjalarnesi 7. september 1692, en mun útskrifaður úr Skálholtsskóla 1713 (sbr. skólaraðir gamlar frá Skálholti Lbs. 207 4to). Óvíst er, að hann hafi sigl til háskólans, og ekki finnst hann skrifaður þar í stúdentatölu.

sér veitta Mýrasýslu eptir Jón sýslumann 1718 og hélt henni til síns dauða, sem tilféll 1730. Sigurður var albróðir Sigurðar sýslumanns í Árnessýslu, en þótti ei svo mikill skörungur eða lögvitringur sem hann, lifði og ei lengur, en til þess hann hafði 8 vetur hins fjórða tugar. Var þó í mörgu haldinn vænn maður, en ei mikill höfðingi.

## Sigurður Högnason.

*Faðir*: Högni son séra Halldórs á Ökrum Marteinssonar á Álptanesi Halldórssonar sama staðar Marteinssonar biskups.

*Móðir*: Randalín, (dó 1732), dóttir séra Halldórs á Staðarhrauni Jónssonar Eiríkssonar á Langárfossi Steindórssonar á Ökrum Finnssonar Arnórssonar sama staðar Finnssonar sama staðar Péturssonar.

*Kona fyrsta*: Guðrún dóttir séra Jóns í Hítarnesi Jónssonar prests Brandssonar Jónssonar prentara Jónssonar prests Matthíassonar svenska. Séra Jón í Hítarnesi missti prestskap í kríumálinu 1693, fékk aptur prestskap og Hítarnes 1700, dó 1738, þjónaði í Hítarnesi 60 ár.

*Börn*: A. Sigurður á Ánastöðum átti Guðrúnu dóttur Jóns prests í Hítarnesi Högnasonar. Börn:
a. Sigurður, fór utan, dimissus[1]).
b. Randalín.
c. Ingveldur, báðar barnlausar.
B. Þórarinn, dó 1775, átti Vilborgu Tómasdóttur, þ. b.:
a. Þórdís, fædd 1744, dó 1801, átti fyr Jón son Þorláks í Miðskógi Einarssonar frá Kambsnesi Brandssonar Bjarnasonar, börn:
aa. Séra Guðmundur[2]).

1) Sigurður var útskrifaður úr Skálholtsskóla 1772 og skrifaður í stúdentatölu við háskólann 28. desember 1773, varð hermaður (kallaður Sigurður »dáti«) og dó í Kaupmannahöfn í örbirgð 1798, að því er Steingrímur biskup telur í ættatölum sínum.

2) Séra Guðmundur á Svalbarði í Þistilfirði, dó 1847, átti Guðríði Helgadóttur prests í Húsavík Benediktssonar.

bb. Jón á Veggjum[1]).
cc. Jón yngri[2]).
Seinna átti Þórdís Sigurð Björnsson[3]), þ. s.:
dd. Jón, dó 1831[4]).
b. Tómas á Smiðjuhóli, dó 1822, bl.[5]).
c. Ingigerður, bl.[6]).
C. Halldór drukknaði á ís í Álptafirði 1734, átti Steinunni Helgadóttur, barn:
a. Randalín gipt[7]).
D. Ólafur átti Ólöfu dóttur Þorsteins Halldórssonar, börn:
a. Sigurður í Hjörtsey[8]) seinni maður Þórnýjar Snorradóttur, barn:
aa. Jón í Hjörtsey[9]).

---

1) Jón á Smiðjuhólsveggjum átti Helgu Sigurðardóttur frá Hofsstöðum Þorvaldssonar í Skutulsey Einarssonar í Laxholti Bjarnasonar.

2) Jón yngri átti Hallberu Þórðardóttur frá Belgsholtskoti og tvö börn: Þorlák og Halldóru:

3) Sigurður var son Björns Þorvarðssonar í Straumfirði (sbr. bls. 271) bjó á Smiðjuhóli og Lambastöðum, var Þórdís f. k. hans.

4) Jón bjó í Háhól og víðar átti Ragnhildi Jónsdóttur í Kiðey Ketilssonar prests í Húsavík Jónssonar, þ. b.:
a. Sigurður.
b. Matthías í Galtardal.
c. Tómas. Hans dóttir Björg. Son hennar með Guðlaugi Jónssyni (sbr. bls. 263):
aa. Guðjón alþingismaður á Kleifum.
Laundóttir Jóns á Háhól með Guðrúnu Bjarnadóttur Egilssonar og Þorgerðar Halldórsdóttur lögréttumanns Axelssonar hét Halla.

5) Kona Tómasar var Guðrún Guðmundsdóttir frá Hægindakoti Auðunssonar í Hraunsási Bjarnasonar í Stafholtsey Guðmundssonar prests í Ögurþingum Halldórssonar.

6) Ingigerður átti Finn Sigurðsson á Arnarstapa.

7) Maður Randalínar var Jón Sigurðsson Hinrikssonar Þorbjörnssonar Marteinssonar af Álptanesætt (Marteins biskups).

8) Sigurður dó 1825. F. k. hans hét Þórey (ekki Þórný).

9) Jón í Hjörtsey var ekki son Sigurðar Ólafssonar og Þór-

b. Ástríður átti Árna Jónsson[1], börn:
aa. Ólafur[2].
bb. Þórunn.
cc. Þorsteinn, dóu[3].
E. Sigríður átti Sigurð son Þorvarðar í Krossholti[4], börn:

---

eyjar, heldur son s. k. hans Halldóru Jónsdóttur frá Hindarstapa Erlendssonar prests í Nesþingum Vigfússonar. Jón í Hjörtsey átti fyr Guðrúnu Jónsdóttur dbrm. á Álptanesi Sigurðssonar, þ. b.:

a. Sigurður í Reykjavík á Halldóru Sigurðardóttur frá Tjaldbrekku Jónssonar, systur Margrétar s. k. séra Þorsteins Hjálmarsens í Hítardal, þ. b.: Geir skipstjóri í Rvík o. fl.
b. Jón kaupmaður í Reykjavík, áður í Borgarnesi, átti fyr Margréti Erlendínu Þorsteinsdóttur prófasts Hjálmarsens, svo Sigríði Sigurðardóttur frá Haukagili í Hvítársíðu Jónssonar og Ingibjargar Árnadóttur Geirssonar biskups Vídalíns.
c. Sesselja átti Snorra Stefánsson frá Skutulsey Hallbjörnssonar þ. b.: a) Guðrún Sigríður átti Finn fyrrum kaupm. í Rvík Finnsson frá Görðum í Kolbeinsstaðahrepp Þorkelssonar, þ. b.: Georg Thordahl. b) Stefán. c) Sesselja átti Bjarna skipstjóra í Rvík Elíasson frá Álptanestanga Erlendssonar. d) Jónína Ingibjörg. S. k. Jóns Sigurðssonar í Hjörtsey var Sigríður Hafliðadóttir Kolbeinssonar í Ranakoti í Flóa Jónssonar, bróðurdóttir Þorleifs dbrm. á Háeyri, þ. b.:
d. Guðjón í Laxárholti átti fyr Guðríði Jóhannsdóttur í Kothól Sigurðssonar og mörg börn, en síðar Steinvöru Guðmundsdóttur yngra Benediktssonar frá Ánastöðum Þórðarsonar og börn. Annar son Sigurðar Ólafssonar og s. k. hans Halldóru var:

bb. Guðmundur í Hjörtsey. Son hans var Sigurður bóndi í Hjörtsey, er drukknaði 1894.

1) Árni bjó á Hróbjargarstöðum og var Ástríður f. k. hans.

2) Ólafur átti Guðrúnu Þórarinsdóttur, bl.

3) Enn var son Ólafs Sigurðssonar og bróðir Sigurðar í Hjörtsey og Ástríðar:

c. Ólafur átti Guðrúnu Halldórsdóttur frá Miðhúsum Þorsteinssonar og var f. m. hennar, þ. b: aa) Guðrún. bb) Steinunn átti Vigfús Jónsson á Hindarstapa bróður Halldóru s. k. Sigurðar í Hjörtsey, þ. b.: Halldís og Margrét.

4) Sbr. bls. 266. Sigurður bjó í Einholtum.

a. Jón[1]).
b. Halldór[2]).
c. Tyrfingur[3]).
d. Sesselja[4]).
e. Kristín[5]).

---

1) Jón í Múlaseli átti Þuríði Gísladóttur, bl.

2) Halldór á Rauðkollsstöðum átti Þóru Tómasdóttur, þ. b.:
a. Guðný átti Markús Ólafsson Brynjólfssonar.
b. Sigríður var þrígipt.
c. Guðrún átti fyr Jón Arngrímsson frá Einarslóni Tyrfingssonar Helgasonar, þ. b.: Kristín, Halldór, Jón, síðar Sigmund á Leiðólfsstöðum.

3) Tyrfingur átti Jófríði Pálsdóttur, þ. b.:
a. Einar átti Ragnhildi Jónsdóttur frá Sólheimatungu Ólafssonar Nikulássonar, bl.
b. Úlfar átti Guðrúnu Bjarnadóttur, þ. b. Magnús.
c. Guðrún átti Hinrik Guðmundsson á Hvalfjarðarströnd, þ. b.:
aa. Sæmundur.
bb. Sigríður átti Gísla Gíslason í Grænuborg við Rvík, þeirra son Hinrik í Grænuborg.
cc. Kristín átti Ófeig suður í Keflavík.
dd. Guðrún átti Sigurð í Hala.
ee. Margrét.
ff. Helga giptist suður í Leiru.
Laundætur Tyrfings hétu Elín og Elizabet.

4) Sesselja átti Brynjólf Jónsson á Lambastöðum á Mýrum, þ. d. Kristín, dó bl.

5) Enn voru dætur Sigurðar Þorvarðssonar og Sigríðar:
f. Sigríður átti Eirík á Rauðkollsstöðum launson Árna í Krossholti Högnasonar Þorbjörnssonar (sjá bls. 264), þeirra son Sigurður faðir Jóns í Kolviðarnesi.
g. Halldóra átti Guðmund fabriku-forstöðumann í Reykjavík Jónsson frá Laugum í Flóa Eiríkssonar Hjörtssonar, þ. b.:
aa. Kristján á Brekkum í Hvolhrepp átti Kristínu Halldórsdóttur frá Sámsstöðum Pálssonar á Uxahrygg Arnbjörnssonar s. st. Og-

*Kona önnur* Sigurðar Högnasonar var Þuríður dóttir Jóns í Hjörtsey, þá ekkja Þórðar Gíslasonar[1]), bl.

---

mundssonar, þ. b.: Guðmundur, Sigurður, Halldór.

bb. Sigríður átti Sigurð Þórðarson garfara í Reykjavík, þ. b.: a) Halldóra átti Jón Jóhannesson í Rvík, b) Bjarni bjó austur í Breiðdal og jók þar kyn sitt, c) Ingibjörg.

cc. Rósa átti Jón Ásmundsson spítalahaldara á Hallbjarnareyri, bróður Tómasar á Steinsstöðum, bl.

dd. Guðrún átti launson með Jóni Vigfússyni prests í Miðdal Jónssonar.

i. Margrét átti Sigurð timburmann í Rvík Magnússon frá Skálabrekku Ólafssonar og Hallóttu Halldórsdóttur frá Mjóanesi Ólafssonar og var 1. kona hans, þ. b.:

aa. Þorbjörg átti fyr Finn Jónsson á Langárfossi, en síðar Sigurð Sigurðsson s. st. og var miðkona hans, þ. b.: a) Sigríður og b) Sigurður.

bb. Ingibjörg Kristín átti fyr Jón næturvörð í Reykjavík Guðmundsson Þorlákssonar, frænda Jóns Thorsteinsens landlæknis, þ. b.: a) Margrét átti Jóhann Jóhannesson í Hlíðarhúsum. Ein dóttir þeirra Ingibjörg átti Rasmus Hansen verzlunarstjóra í Flensborg, þeirra son Rasmus Morten Hansen forstöðumaður barnaskólans í Reykjavík, b) Jón í Hlíðarhúsum átti Sigríði Jóhannesdóttur snikkara Jónssonar, c) Sigurður tók próf í lyfjafræði 17. nóv. 1813 með 1. eink., varð lyfsali í Álaborg, kvæntist þar og varð efnaður, átti ekki börn. Ekkja hans átti Ströyberg kansellíráð. S. m. Ingibjargar Sigurðardóttur var Jón í Hlíðarhúsum Davíðsson s. st. Guðmundssonar s. st. Davíðssonar Erlendssonar prests á Tjörn Illhugasonar, þ. d.: d) Kristín átti Ólaf í Hlíðarhúsum Arnórsson Snorrasonar í Engey Sigurðssonar, þeirra son Jón útvegsbóndi í Hlíðarhúsum faðir

---

1) Réttara: Gísla Þórðarsonar í Vogi. Þuríður var dóttir Jóns

*Kona þriðja* Sigurðar var Steinunn dóttir Brands bónda í Rauðanesi Þorkelssonar Erlendssonar; börn:

F. Þorkell bjó á Hömrum, skýr bóndamaður, var kallaður Laga-Móri, af því hann var löglesinn og opt settur i málum, annaðhvort að forsvara eða ákæra, brúkaði barkalitaðan stuttkjól, var góður skrifari, en ætíð snauður og átti þröngt í búi, var lengi hreppstjóri. Um hann gerði Árni Böðvarsson ógóða vísu:

Hvað mun hreppinn styðja
húsgangsferð, sem ró bar á.
Um allt þarf alla að biðja
allri blessun horfinn frá.
Bónkjálkinn, sem biður rot á skrattann,
og svíkur út af sérhverjum,
þá sést hann um
með kjassmáls-kjapt útflattan.

Þorkell var enginn búmaður, en skrifaði sögur og annað fyrir ýmsa. Hann átti Guðrúnu dóttur séra Hafliða Bergsveinssonar, börn:

a. Hallur fór utan, varð borgari í Grundarfirði, gefinn fyrir ölföng, átti Kristínu Hákonardóttur, þeirra börn dóu.

b. Helgi í Holti í Hvammssveit átti Ástríði Jónsdóttur, b.:

---

Elínar konu Jóhannesar Hjartarsonar verzlunarmanns í Rvík.

cc. Sigríður. Hennar son Engilbert Jónsson. Launson Margrétar Sigurðardóttur með séra Erlendi Vigfússyni í Nesþingum var:

dd. Jón á Hindarstapa, dó 1811, átti fyr Halldóru Þórðardóttur frá Laxholti Helgasonar, en síðar Halldísi Egilsdóttur og voru þeirra börn: Halldóra s. k. Sigurðar Ólafssonar í Hjörtsey (sjá hér áður) og Vigfús á Hindarstapa (sjá áður).

---

Sigurðssonar í Hjörtsey, bróðursonar séra Björns Þórðarsonar á Signýjarstöðum.

aa. Helga[1]).
bb. Ingibjörg, giptust[2]) og áttu mörg börn:
c. Eiríkur á Skerðingsstöðum í Hvammssveit, (varð holdsveikur síðast), átti Guðnýju Björnsdóttur, bl.
d. Þorkell í Höfn, Skerðingsstöðum og Akri í Hvammssveit átti fyr Ingveldi dóttur séra Einars Þórðarsonar í Hvammi, bl., svo Guðrúnu dóttur Péturs bónda á Hóli í Hvammssveit, b.:
aa. Ingveldur gipt og á börn.
e. Jón í Einarsnesi átti Sigríði dóttur séra Friðriks á Borg, börn:
aa. Illhugi[3]).
bb. Guðrún[4]).
f. Bergsveinn[5]) átti Ingveldi Ólafsdóttur, börn:
aa. Jón.
bb. Þorgerður.
cc. Salborg[6]).

---

1) Helga átti Jón Jónsson Pálssonar, þ. b.:
a. Gísli á Saurum (Saura-Gísli) víða kunnur.
b. Sveinbjörn á Harastöðum.
c. Hallur í Túngarði.
d. Loptur á Hallsstöðum.
e. Jón átti Margréti Jónsdóttur Nikulássonar.
f. Pálína átti launbörn.
g. Hallbera átti Guðmund á Núpi í Haukadal.
h. Sigríður átti Jóhannes Bæringsson á Breiðabólsstað á Fellsströnd.
i. Ingveldur átti Orm Sigurðsson Ormssonar.

2) Ingibjörg átti Einar Jónsson á Skarfsstöðum.

3) Illhugi dó 1834 átti Sigríði Ásbjörnsdóttur frá Reyni og Guðfinnu Guðlaugsdóttur, þ. b.: Friðrik. S. k. Jóns Þorkelssonar í Einarsnesi Helga Þórðardóttir frá Svanga Vermundssonar, þ. d.: Guðrún.

4) Var dóttir Jóns og s. k. hans Helgu.

5) Bergsveinn bjó á Mel í Hraunhrepp og víðar.

6) Snókdalín nefnir hana Solveigu.

g. Margrét átti Einar Sveinbjarnarson[1]), þeirra dóttir:
aa. Þórdís[2]).

---

1) Einar var bróðir Þórðar Sveinbjarnarsonar í Akrakoti, föðurföður Þórðar háyfirdómara Sveinbjörnssonar.

2) Þórdís átti Halldór Pálsson á Ásbjarnarstöðum fræðimann og annálaritara († 7. júlí 1863 91 árs), þ. b.:

a. Guðmundur dó ungur.

b. Einar á Ásbjarnarstöðum átti fyr Sigríði Sigurðardóttur aðstoðarprests Þorbjörnssonar (II, 714), síðar Halldóru Jónsdóttur á Fróðastöðum Brandssonar, systur Daníels á Fróðastöðum. Börn hans og f. k.: a) Helgi á Ásbjarnarstöðum, b) Guðrún kona Einars Guðnasonar á Flóðatanga, c) Ólöf kona Þorbjarnar Davíðssonar frá Þorgautsstöðum Þorbjörnssonar gullsmiðs á Lundum, d) Þórdís átti Sigurð Þorbjörnsson á Helgavatni (II, 714).

c. Jón á Svarfhóli í Stafholtstungum átti Helgu Jónsdóttur, þ. b.: a) Jón fór til Ameríku, b) Jórunn átti Helga í Rauðanesi Þórarinsson prófasts í Vatnsfirði Kristjánssonar, c) Oddur fór til Ameríku, d) Þorgerður átti Svein Árnason í Klett og börn. Launson hennar, áður en hún giptist, með Sigurði Jónssyni á Haukagili er Jón hreppstjóri á Haukagili, e) Þuríður gipt Birni á Svarfhóli Ásmundssyni Þórðarsonar prests í Hvammi í Norðurárdal Þorsteinssonar, þ. b.: Jóhann hreppstjóri á Akranesi, Ásmundur í Ameríku, Guðmundur sýslumaður á Patreksfirði, Jón kaupfélagsstjóri í Borgarnesi, Jósep á Svarfhóli, Kristján Franklín trésmiður í Borgarnesi, Helga á Jón Björnsson frá Bæ, Málmfríður átti Einar Hjálmsson í Munaðarnesi, Sigríður dó ung, f) Valgerður er í Ameríku.

d. Guðrún átti Jón Jónsson í Tóptarhring bróður Daníels á Fróðastöðum, þ. b.: a) Jón á Hömrum, b) Guðrún átti Jóel Jónsson á Uppsölum, c) Halldór á Brúarreykjum, d) Þórdís átti Jón Sveinsson á Síðumúlaveggjum.

e. Ingibjörg átti fyr Ólaf Finnsson á Síðumúlaveggjum, þ. b.: a) Finnur, dó ókv., bl., b) Halldór á Síðumúlaveggjum, c) Ólafur á Einifelli, d) Þuríður átti Jón Jónsson á Hömrum, þau systrabörn. S. m. Ingibjargar Jóhannes Sveinsson á Síðumúlaveggjum, þ. b.: e) Egill, f) Sveinn á Haugum í Stafholtstungum, g) Þórdís, h) Ingibjörg.

f. Margrét átti Þorbjörn Sigurðsson á Helgavatni. Sjá um þeirra börn II, 714.

g. Valgerður átti Sigmund Jónsson úr Strandasýslu, bl.

h. Hallbera.
i. Ormur.
k. Oddný, (alls átti Þorkell 15 börn, urðu almúgafólk.

G. Guðrún Sigurðardóttir átti Helga son séra Guðmundar á Prestsbakka[1]), þeirra börn:
a. Steinunn átti Guðmund son Þórðar á Sámstöðum, Þórðarsonar á Kjörseyri. Guðmundur var um tíma öconomus tugthússins, svo faktor á Suðurlandi, börn:
aa. Séra Helgi prófastur í Odda[2]), og hans mörgu systkin[3]).

---

h. María átti Vigfús Jónsson í Katanesi og börn.
i. Sigríður átti Daníel Jónsson á Fróðastöðum, þ. b.: a) Halldór í Langholti, þingmaður Mýramanna um tíma, fór til Ameríku, b) Brandur bóndi á Fróðastöðum.

1) Sjá um framætt séra Guðmundar II, 704.

2) Helgi biskup Thordersen átti Ragnheiði dóttur Stefáns amtmanns Stephensens á Hvítárvöllum, þ. b.:
a. Stefán prestur í Kálfholti og Vestmanneyjum († 1889) átti Sigríði Ólafsdóttur Stephensens sekretera í Viðey, þ. b.:
aa. Ragnheiður gipt Hannesi Hafstein ráðherra (II, 752).
bb. Helgi snikkari í Reykjavík.
cc. Ólafur.
b. Ástríður átti Sigurð Pálsson Melsted forstöðumann prestaskólans, þeirra son Helgi stúdent, dó 5. janúar 1872.

3) Þessi systkin Helga biskups voru:
a. Sigríður átti norskan skipherra Norgaard, þ. b.:
aa. Anna Margrét átti Pétur Hall verzlunarmann í Rvík, þ. b.: a) Guðrún átti Ásmund Sveinsson settan sýslumann (II, 751), b) Kamilla Sigríður átti séra Steindór Jóhannsson Briem í Hruna, c) Emil, d) Lovísa átti Óla Ásmundsson verzlunarmann o. fl.
b. Ragnheiður átti Guðmund Pétursson faktor í Reykjavík, bróður Bjarna í Hákoti, þ. b.:
aa. Friðrik dó fulltíða úr holdsveiki.
bb. Elín átti Árna í Narfakoti Hallgrímsson prests í Görðum á Akranesi Jónssonar og börn.
cc. Pétur rokkasmiður í Njarðvík, varð geðveikur, átti Önnu

Síðar átti Steinun séra Brynjúlf Sigurðsson í Holti, og alls mörg börn[1]).

dóttur Þorgríms prests Thorgrímsens í Saurbæ, þau systrabörn. Ein dóttir þeirra Sigríður giptist Einari Pálssyni snikkara í Rvík, bróður séra Eggerts á Breiðabólsstað, skildi við hann og sigldi til útlanda, þau áttu börn nokkur.

dd. Ragnheiður átti Þorlák á Reykjavöllum í Flóa Magnússon Símonarsonar í Laugardælum Þorkelssonar og börn.

ee. Ástríður átti Guðmund Magnússon koparsmið bróður Þorláks.

ff. Guðrún átti Jón Waage í Stóru-Vogum Magnússon Waages Jónssonar dbrm. Daníelssonar og börn.

gg. Steinunn Theodora átti séra Jakob Guðmundsson á Sauðafelli, þ. b.: Guðmundur snikkari í Rvík, Steinunn f. k. séra Jóhannesar L. L. Jóhannssonar á Kvennabrekku, Anna dó ung, Þorbjörg. Fleiri börn séra Jakobs og hennar dóu ung.

S. m. Ragnheiðar Jón Jónsson Norðfjörð í Njarðvík, bl.

c. Ástríður f. k. Guðbrands Stefánssonar járnsmiðs í Rvík, bl.

d. Guðrún átti Sigurð Bjarnason Sivertsen kaupmann í Reykjavík. Sjá um börn þeirra bls. 148.

e. Ingibjörg átti séra Þorgrím Guðmundsson Thorgrimsen í Saurbæ, þ. b.:

aa. Þórður prestur á Brjánslæk og Otrardal átti Guðrúnu Sveinbjörnsdóttur skólameistara Egilssonar, bl.

bb. Torfi Jörgen verzlunarstjóri í Ólafsvík átti Sigríði Aradóttur verzlunarstjóra í Hafnarfirði Jónssonar á Stokkseyri Gamalíelssonar, þ. b.: Ingibjörg f. k. séra Helga Árnasonar í Ólafsvík og María s. k. séra Helga.

cc. Steinunn s. k. Péturs Fjeldsteds Sivertsens í Höfn í Melasveit (sbr. bls. 148).

dd. Anna Margrét átti Pétur Guðmundsson rokkasmið, (sjá hér á undan).

ee. Valgerður átti Sigurð, nú á Gufunesi, Oddsson úr Selvogi Egilssonar og börn.

ff. Jakobína Arnette ekkja í Reykjavík.

gg. Guðmundur Sigurður bjó í Belgsholti.

hh. Ragnheiður átti fyr Halldór Einarsson á Grund á Akranesi, þ. d. Petra kona Júlíusar Jörgensens í Rvík, en síðar Runólf Þorstein Jónsson á Grund, þ. d. Emilía.

1) Börn séra Brynjólfs og Steinunnar:

a. Helga s. k. séra Jóns Steingrímssonar í Hruna, þ. b.:

b. Árni átti Ingibjörgu dóttur Ólafs lögsagnara

---

ii. Ísak Jakob.

f. Steinunn átti Jens Schram í Vestmanneyjum, þ. b.:

aa. Ástríður var f. k. Einars Zoëga veitingamanns í Rvík, þ. b.: a) Helgi kaupm. í Rvík kvæntur Geirþrúði dóttur Holgeirs Clausens kaupmanns, b) Ragnheiður var f. k. Brynjólfs H. Bjarnason's kaupm. í Rvík, þau skildu, og hún fór til Ameríku og giptist þar íslenzkum manni. Ástríður átti launson með Jóni Gunnarssyni kaupm. í Hafnarfirði, heitir Gunnar, er kvæntur í Ameríku.

bb. Anna Kristín átti Brynjólf á Klöpp á Miðnesi Jónsson prests í Hruna Steingrímssonar.

Steinunn Guðmundsdóttir átti, áður en hún giptist, laundóttur með Ögmundi stúdent Sigurðssyni, síðar presti á Tjörn, hét:

cc. Kolfinna átti Magnús son Magnúsar Andréssonar alþm. í Syðra-Langholti og börn.

---

aa. Brynjólfur á Klöpp á Miðnesi átti Önnu Kristínu Schram (sjá hér áður), þ. b.: Sigríður, Högni, Helga og Brynjólfur Kristján.

bb. Steingrímur í Nesjum í Hvalsneshverfi átti Helgu Runólfsdóttur frá Saurbæ á Kjalarnesi Þórðarsonar, þ. b.: Jón, Helga, Runólfur.

b. Sigurður Sivertsen prestur á Útskálum átti Helgu Helgadóttur konrektors á Móeiðarhvoli Sigurðssonar, þ. b.:

aa. Helgi á Útskálum átti Steinunni Vilhjálmsdóttur frá Kirkjuvogi Hákonarsonar, ekkju séra Sigurðar bróður síns.

bb. Sigurður aðstoðarprestur föður síns, dó 1868 nývígður og nýkvæntur Steinunni Vilhjálmsdóttur.

cc. Ragnheiður Sigríður átti Pál Pétursson Eggerz frá Akureyjum Friðrikssonar prests Eggertssonar.

c. Einar Sivertsen prestur í Gufudal átti Guðrúnu Pálsdóttur prests á Borg Guðmundssonar, þeirra son:

aa. Páll Brynjólfur Sivertsen fyr prestur á Stað í Aðalvík átti Ingveldi Benediktsdóttur prests í Selárdal Þórðarsonar.

d. Halldóra átti Gunnar Halldórsson í Kirkjuvogi, þ. b.:

aa. Brynjólfur prestur á Stað í Grindavík, kvæntur Helgu Ketilsdóttur frá Kotvogi Ketilssonar.

e Þórunn átti Vilhjálm Kr. Hákonarson óðalsbónda í Kirkjuvogi, þ. b.:

aa. Steinunn átti fyr séra Sigurð Sivertsen og síðar Helga bróður hans (sjá hér áður).

Erlendssonar sýslumanns í Ísafjarðarsýslu (sjá Ísafjarðarsýslu), og nokkur börn[1]).

Sigurður [Högnason][2]) hafði lært í skóla en þótti gáfnatregur, kom snemma hjá honum hans fyrsta konu barn, bjó svo um hríð sem bóndi, var þó í áliti og varð lögréttumaður 1709. Þá Sigurður Sigurðsson Mýrasýslumaður deyði, var Sigurður lögréttumaður Högnason settur fyrir Mýrasýslu 1731. Hann fékk veiting fyrir sýslunni 1732, 10. marz. Honum gekk örðugt með embættisverk, og sagði því af sér sýslunni 1741[3]). Bjó hann fyr í Hraundal, en síðar að Ökrum á Mýrum, á hálflendu á móti Árna skáldi Böðvarssyni. Var illt í þeirra búsifjum, svo Árni kvað illa um Sigurð, var þó meir Árna en Sigurði að kenna. Sigurður var bjargálnamaður hrekklítill, en þótti um of einfaldur. Sigurður deyði 1765; hafði hann þá frá sagt sér sýsluna fyrir 24 árum og þannig búið sem bóndi. Hann bjó um hríð á Ánastöðum.

## Þorgrímur Sigurðsson.

*Faðir*: Sigurður í Firði á Skálmarnesi og Brjánslæk (lögsagnari Bjarna sýslumanns Péturssonar á Skarði, sjá Barðastrandarsýslu[4]).

---

bb. Anna átti séra Odd Vigfús Gíslason á Stað í Grindavík, fóru til Ameríku. Börn þeirra eru öll í Ameríku.

1) Árni var í Flensborg við Hafnarfjörð. Meðal barna hans og Ingibjargar voru:

a. Guðrún átti Guðbrand í Hafnarfirði Bjarnason, þ. b.:
  aa. Guðrún átti séra Jón Benediktsson í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd, þ. b.: Helgi í Stóra-Botni og Bjarni á Melum.
  bb. Björg dó ógipt bl. í Reykjavík.
b. Elín átti launbörn með Hinrik Hinrikssyni, síðar presti á Skorrastað, þá er hann var í skóla, giptist svo séra Sveinbirni Guðmundssyni í Holti undir Eyjafjöllum, þ. b.: Jón, Þorsteinn, Guðbjörg f. k. Kjartans prófasts Einarssonar í Holti.
c. Guðrún önnur átti Jakob Asmus assistent í Keflavík son Jacobæusar kaupmanns.

2) Sigurður sýslumaður var fæddur 1684 (St. J. ættatölur) og hefur því verið rúmlega áttræður, er hann andaðist.

3) Hann fékk 15 rd. í eptirlaun 8. apríl 1760

4) II, 108.

*Móðir:* Guðrún dóttir séra Nikulásar í Flatey, Guðmundssonar Ólafssonar prests á Kvennabrekku Brandssonar.

*Kona:* Ragnhildur[1]), dóttir séra Hannesar í Reykholti, Halldórssonar prófasts í Reykholti Jónssonar.

*Börn:* A. Séra Guðmundur á Lambastöðum, fæddur 1753, candidat theol. fékk Seltjarnarnesþing 1782, dó 28. nóv. 1790, fyrri maður Sigríðar dóttur séra Halldórs í Hítardal, Finnssonar biskups, Jónssonar próf. í Reykholti, b:

a. Torfi[2]).

b. Þorgrímur[3]).

c. Halldór[4]).

Þeirra afkomendur veit eg enga. Síðar átti Sigríður biskup Geir Vídalín, þeirra son Árni á Steinunni dóttur Páls fyr rektors á Hólum, síðar prests á Stað á Reykjanesi (hann dó 1834), eiga börn.

---

1) Ragnhildur dó 30. október 1787.

2) Torfi Thorgrimsen var examinatus juris, varð verzlunarstjóri í Flensborg í Hafnarfirði, dó í Reykjavík 4. júní 1822, átti danska konu Grethe Lund, þeirra einkason:

a. Guðmundur Geir Jörgen Kristján Thorgrimsen lengi verzlunarstjóri á Eyrarbakka, dó í Reykjavík 2. marz 1895, átti Sylvíu Níelsdóttur kaupmanns á Siglufirði Jónssonar, þ. b.:

aa. Jörgína á Lárus Edvard Sveinbjörnsson háyfirdómara (sjá Gullbringusýslu).

bb. Solveig Dorotea ógipt í Reykjavík.

cc. Jakobína Evgenía gipt P. Nielsen verzlunarstjóra á Eyrarbakka, þ. b.: Guðmunda, Karen.

dd. Hans Baagöe prestur í Ameríku.

ee. Sylvía gipt Ljunge stórkaupm. í Kaupmannahöfn.

ff. Ásta Júlía átti Tómas Hallgrímsson læknaskólakennara í Rvík, þ. b.: Kristrún, Sylvía dó ung, Guðmundur stúdent og Tómas.

3) Þorgrímur Thorgrimsen var síðast prestur í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd, dó 12. nóv. 1870, átti Ingibjörgu Guðmundsdóttur, systur Helga biskups, þeirra börn áður talin bls. 358.

4) Halldór Thorgrimsen var um tíma settur sýslumaður í Kjósar- og Gullbringusýslu (sjá um hann þar).

B. Séra Björn fæddur 1752, prestur til Saurbæjar 1775, prófastur 1783, til Setbergs 1786, prófastur 1789, deyði á Spjör 1832, átti Helgu dóttur Brynjólfs sýslumanns í Hjálmholti Sigurðssonar[1]), (sjá Árnesþing), börn:

a. Sigurður fæddur 1781, land- og bæjarfógeti í Reykjavík (dó 1831) átti Sigríði dóttur Jóns stýrimanns Vídalíns, bl.

b. Ragnhildur fædd 1776, gipt 1796 séra Jóni[2]) syni Hallgríms læknis Bachmanns, þ. b.

aa. Hallgrímur candidatus juris[3]), dó bl.

bb. Geir[4]).

cc. Halldóra[5]), og mörg fleiri.

---

1) Séra Björn var tvíkvæntur. Með s. k. Elínu yngri Sigurðardóttur prests í Miklaholti Magnússonar átti hann ekki börn.

2) Séra Jón Bachmann var síðast prestur í Klausturhólum, dó 11. júní 1845, var mikill drykkjumaður.

3) Hallgrímur Bachmann dó í Kaupmannahöfn 11. apríl 1834.

4) Geir Bachmann var síðast prestur í Miklaholti, dó 29. ágúst 1886, átti Guðríði Magnúsdóttur Bergmanns, þ. b.: Stefán og Sigríður.

5) Halldóra átti Jón Gíslason í Hafnarfirði og var s. k. hans, þ. b.: Gísli gullsmiður fór til Englands, Ólafur drukknaði bl. á Viðeyjarsundi og Sigríður. Enn voru börn séra Jóns Bachmanns og Ragnhildar.

dd. Sigríður átti Guðlaug Sveinbjörnsson á Bárustöðum í Andakíl, bróður samfeðra Þórðar háyfirdómara, þ. b.: Margrét, Stefán, Halldóra og Jón á Traðarbakka, er átti Margréti Magnúsdóttur frá Lambhúsum Sigurðssonar og eru meðal barna þeirra: Melkjörína Sigríður átti Björn Ólafsson í Oddsbæ, Anna Katrín átti Pétur Þorsteinsson í Geirshlíð og Helga Guðríður, er átti launson með Pétri systurmanni sínum.

ee. Benedikt í Melkoti í Leirársveit átti fyr Málfríði Pétursdóttur frá Hvítanesi Jónssonar, þ. b.: Hallgrímur á Narfastöðum, Benedikt, Sigríður, Sigurður kaupmaður á Vatneyri og

c. Þóra Björnsdóttir giptist fyrst 1812 Ólafi chirurgo Brynjólfssyni, og átti engin börn með honum; eptir hans dauða giptist hún presti á Austfjörðum, og átti með honum börn[1]).

---

Ragnhildur, en síðar Helgu Bjarnadóttur »fögru«, bl.

ff. Teitur átti Helgu Jónsdóttur frá Hvítadal Sigurðssonar, systur Sigurðar kaupmanns í Flatey og börn.

gg. Helga átti Guðmund Guðmundsson á Brekku í Biskupstungum, þ. b.: Jón og Björn faðir Björns hreppsnefndaroddvita, er nú býr á Brekku.

hh. Björg átti fyr Melkjör í Efranesi son Eggerts prests Bjarnasonar í Stafholti og börn, en síðar Einar Sigurðsson og Kristrúnar Einarsdóttur Snorrasonar prests á Húsafelli.

ii. Ingileif († 1894) var s. k. Páls Þórðarsonar Melsteðs amtmanns, þeirra einkabarn:

aaa. Hallgrímur landsbókasafnsvörður, dó í Rvík 8. sept. 1906, ókv., bl.

1) S. m. Þóru var séra Snorri Brynjólfsson í Heydölum († 23. marz 1851), þ. b.:

a. Rósa átti Jón yngra í Papey Þorvarðsson s. st. Jónssonar, þ. b.:

aa. Snorri dýralæknir.

bb. Þóra átti Jón Jónatansson frá Eiðum, fóru til Ameríku.

cc. Kristín átti Jónatan Jónatansson á Eiðum, þ. b.: Karl og 2 dætur, fóru til Ameríku.

dd. Sesselja átti Edvard Þorleifsson í Papey.

ee. Helga. ff. Elín fór til Ameríku.

b. Björn á Brekkuborg í Breiðdal átti Bergljótu Þorkelsdóttur prests á Stöð Árnasonar, þ. b.: Þóra, Ólafur, Helga, dóu ógipt bl.

c. Kristín átti Högna á Skriðu Gunnlaugsson prests á Hallormsstað Þórðarsonar, þ. b.:

aa. Gísli á Búðum við Fáskrúðsfjörð á Þorbjörgu Magnúsdóttur prests í Heydölum Bergssonar, þ. b.: Magnús stúdent.

bb. Ingibjörg á Ara Brynjólfsson á Þverhamri fyrv. alþm.

d. Brynjólfur stúdent, dó utanlands 1850.

d. Ingibjörg fædd 1783, giptist ekki eða átti börn.

e. Séra Þorlákur var fyr skrifari hjá bæjarfógeta, svo hjá stiptamtmanni, svo prestur á Auðkúlu 1829 lítinn tíma, varð skammlífur og deyði 1832 (eg meina ógiptur)[1].

C. Þorkell Þorgrímsson stúderaði hér og utanlands, var settur föður sínum til aðstoðar í sýslumannsembætti 1769, en dó sama ár[2].

D. Halldór lærði hér og utanlands, var settur Mýrasýslumaður, þá Þorkell bróðir hans deyði, 1770 til aðstoðar föður sínum, en dó sama ár og faðir hans frá sagði sér sýslunni til hans 1776, ógiptur bl.[3].

Þorgrímur var skólalærður[4], hafði og utan farið til lærdómsframa og fékk Mýrasýslu, þá Sigurður sýslumaður Högnason frá sagði sér hana 1741; ætlaði hana syni sínum Halldóri, sagði henni því af sér 1776, þá Halldór um hana sótti, og dó sama ár. Var því Þorgrímur þar eptir embættislaus til þess hann deyði 1785[5]). Hann bjó í Hjarðarholti, og þótti

---

1) Séra Þorlákur á Auðkúlu átti Jóhönnu Jakobsdóttur frá Kaupangi Þorvaldssonar, voru bl.

2) Þorkell var útskrifaður úr Helsingjaeyrarskóla, skrifaður í stúdentatölu við háskólann 29. júlí 1766, las lögfræði, en tók ekki próf, var settur aðstoðarmaður hjá föður sínum með von um sýsluna eptir hann 2. maí 1769, en andaðist í Kaupm.höfn 30. s. m. og var grafinn í Þrenningarkirkjugarði 3. júní. Var ókvæntur og bl.

3) Halldór var fæddur 1747, útskrifaður úr Skálholtsskóla 20. maí 1765, skrifaður í stúdentatölu við háskólann 28. desember 1767, settur föður sínum til aðstoðar með von um sýsluna eptir hann 6. marz 1770, en andaðist haustið 1776, ókv. og bl., sama árið og faðir hans sleppti embætti.

4) Þorgrímur er útskrifaður úr Skálholtsskóla 1730 og er þá talinn 25 ára gamall; er því fæddur um 1705. Þótt hann hafi siglt, hefur hann naumast stundað nám ytra, því að ekki finnst hann ritaður í stúdentatölu við háskólann.

5) Þorgrímur sýslumaður mun hafa andazt í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd hjá séra Birni syni sínum, er þá hélt þann stað, en

ríklundaður og harður mörgum sýslubúum, var þó annars í mörgu mikilmenni. Ekki er þess getið, að hann hafi verið sérlegur lögvitringur, þó farsældust honum allvel sín embættisverk. Þess er áður getið, að hann tók 1. *Þorkel* son sinn fyrir lögsagnara 1769, en hann deyði sama ár í Kaupmannahöfn; 2. *Halldór* son sinn tók hann 1770 (Hans vonar- og aðjunctionsbréf daterað 6. marz 1770), var hann meðhjálpari föður síns meðan lifði til 1776. Þrjá sonu sína lét Þorgrímur fara utan, til lærdómsframa, var hann sjálfur vel við efni og í mörgu duglegur maður, en af mörgum grunaður um gæzku.

## Jón Eggertsson.

(Sjá um hann við Borgarfjarðarsýslu). Þá Jón Eggertsson var dimitteraður var hann um hríð á Leirá hjá Magnúsi amtmanni, en eptir sumra sögn, var hann einn vetur utanlands, aðrir efast um hans utanferð. Hann var settur sýslumaður í Dalasýslu 1753—54, til þess Magnús sýslumaður við tók. En þá Arnór frásagði sér Borgarfjarðarsýslu, var Jón Eggertsson þar settur 1756, og fékk konungsveiting fyrir þeirri sýslu 1757. Um það leyti tók hann sér bústað í Höfn í Leirársveit, giptist sinni fyrri konu Guðrúnu Brynjólfsdóttur, með hverri hann aflaði tveggja barna, er bæði dóu þar ásamt móðurinni. Nálægt 1774 giptist hann sinni seinni konu Þuríði Ásmundsdóttur, þeirra börn voru Jón lektor fæddur 1776 og Jens, sem dó við háskólann. 1776—7—8 var Jón og svo settur sýslumaður í Mýrasýslu, til þess við henni tók Guðmundur sýslumaður Ketilsson, og nálægt þeim tíma flutti Jón að Hvítárvöllum, hvar hann deyði 1784 á 63. aldursári. Þuríður ekkja Jóns keypti þá Bæ í Borgarfirði, flutti þangað og bjó þar 2 eða 3 ár, til þess hún giptist séra Markúsi í Görðum 1787, en deyði 1817, nærri 74 ára, því hún fæddist 1743.

## Guðmundur Ketilsson.

*Faðir*: Séra Ketill í Húsavík son Jóns Ketilssonar á Brimnesi Teitssonar bænda.

---

dánardagur hans er ókunnur, með því að allar gamlar prestsþjónustubækur frá Saurbæ eru gersamlega glataðar.

*Móðir*: Guðrún dóttir séra Þórðar í Hvammi í Hvammssveit Þórðarsonar lögréttumanns á Ökrum syðra Finnssonar sama staðar Sigurðssonar prests.

*Kona*: Halldóra[1]) dóttir séra Þorsteins í Hvammi í Hvammssveit Þórðarsonar prófasts sama staðar nýnefnds.

*Börn*: A. Eggert dó 1841[2]) gullsmiður í Sólheimatungu, giptur Helgu, (dó 1844), dóttur Magnúsar sýslumanns Ketilssonar (sjá Dalasýslu), þeirra börn:

a. Guðmundur[3]).
b. Jón.
c. Pétur[4]).
d. Halldóra[5]).
e. Hólmfríður, öll uppvaxandi, ógipt 1832.

B. Guðrún gipt séra Jóni Magnússyni í Hvammi í Norðurárdal (sjá Dalasýslu)[6]), börn:

a. Ragnheiður.
b. Magnús prestur á Sandfelli 1844 átti dóttur séra Eggerts Bjarnasonar.

C. Ketill frávita fífl[7]).

---

1) Halldóra andaðist 21. nóvember 1821.

2) Eggert drukknaði í Hvítá í Borgarfirði fimmtugur að aldri (f. 8. júní 1791).

3) Guðmundur (f. 4. sept. 1814) bjó í Sólheimatungu, átti 1840 Helgu Bjarnadóttur frá Bjargi í Miðfirði Bjarnasonar prests á Mælifelli Jónssonar, bl.

4) Pétur var rennismiður, bjó á Jafnaskarði í Stafholtstungum, átti Ragnheiði Jóhannsdóttur frá Hlíðarhúsum Jóhannessonar, þ. b.: Kristófer Skogberg, Ingibjörg Kristín, Elsa Jóhanna, Eggert, Guðrún.

5) Halldóra (f. 11. marz 1816) átti Sigvalda í Straumfirði Einarsson í Kalmannstungu Þórólfssonar, þ. b.:

a. Sigríður yfirsetukona í Rvík.
b. Helga.
c. Sesselja yfirsetukona á Stefán múrara í Reykjavík Egilsson Vigfússonar á Reykjum í Mosfellssveit Halldórssonar, þeirra son Sigvaldi stud. med.

6) II, 725—726.

7) Ketill var fæddur 2. ágúst 1786, var hjá Eggert bróður sínum í Sólheimatungu.

D. Þorsteinn dó ungur, bl.[1]).

Guðmundur lærði skólalærdóm hjá hálfbróður sínum Magnúsi sýslumanni Ketilssyni; með hans tilstyrk og Skúla fógeta fór hann utan til meiri lærdómsframa, og gerðist candidatus juris. Fékk veiting fyrir Mýrasýslu 1778, var settur í Borgarfjarðarsýslu eptir Jón sýslumann Eggertsson 1784—85. 1787 fékk Guðmundur sýslumaður Hnappadalssýslu lagða til Mýrasýslu. Eptir dauða Þórarins Liljendals var Guðmundur sýslumaður settur fyrir Borgarfjarðarsýslu 1793 til þess Finnur sýslumaður við tók. — Guðmundur varð með aldrinum þrotinn að heilsu, sótti því um lausn frá sýslum.embættinu 1805 og öðlaðist hana 1806[2]) með pension; deyði sjálfur 30. nóvember 1809.

Guðmundur hafði liprar gáfur, haldinn góður lagamaður og góðmenni. Bústandsmaður var hann ekki haldinn mikill, átti því opt þröngt í búi, var og á seinni árum gefinn um of fyrir ölföng. Mjög opt færði hann mál á alþingi, þar hann var haldinn með þeim lögvitrustu og liprustu sýslumönnum. Hann var meðalmaður á vöxt, heldur grannvaxinn, ekki andlitsfríður, en sómdi sér allvel[3]).

---

1) Þorsteinn, er var fæddur um 1783, mun hafa siglt og dáið erlendis. Enn var dóttir Guðmundar sýslumanns:

E. Ragnheiður fædd 26. apríl 1785, dó ung.

2) 25. apríl.

3) Æfiatriði þessi eru að ýmsu leyti ófullkomin, og skal því hér við bætt, að Guðmundur sýslumaður var fæddur á Húsavík 14. október 1746 (1751, er sumstaðar segir, er rangt), ólst upp hjá foreldrum sínum, þangað til hann var 12 ára gamall (1758), en var þá tekinn af Magnúsi sýslumanni bróður sínum (samfeðra), er þá bjó á Melum á Skarðsströnd, lærði hann hjá honum skólalærdóm, en var gefið burtfararvottorð af Bjarna skólameistara Jónssyni í Skálholti 22. júlí 1768, fór þá að Ingjaldshóli í þjónustu Jóns sýslumanns Árnasonar, skrifaður í stúdentatölu við háskólann 24. desember 1771 og tók embættispróf í lögum 6. desember 1776 með 1. einkunn, fékk veitingu fyrir Mýrasýslu 30. marz 1778 og kom það ár út hingað, en 9. ágúst 1786 varð hann einnig sýslumaður í Hnappadalssýslu, er hún var sameinuð Mýrasýslu, en mun ekki hafa tekið við henni fyr en 1787.

Í handritasafni Jóns Sigurðssonar nr. 300 4to á landsbóka-

## Pétur Oddsson.

*Faðir*: Oddur Þingeyraklausturshaldari og notarius við

---

safninu er stutt æfisaga Guðmundar sýslumanns, ef til vill rituð (um 1845) af tengdasyni hans séra Jóni Magnússyni í Hvammi í Norðurárdal. Af því að þar er Guðmundi sýslumanni lýst allnákvæmlega, þykir réttast að birta hér síðari hluta þessarar ritgerðar, en þar segir svo:

»Þá er Guðmundur sýslumaður kom til Íslands (1778) var hann til næstu fardaga í kosti hjá ekkjunni Þórdísi Þórarinsdóttur í Hjarðarholti í Stafholtstungum. Að ári liðnu reisti Guðmundur sýslumaður bú á nokkru af Hjarðarholti, hvaðan hann flutti að ári liðnu að Svignaskarði árið 1780, hvar hann kvæntist 1781 systkinabarni við sig Halldóru Þorsteinsdóttur Þórðarsonar frá Hvammi í Dalasýslu. Átti Guðmundur sýslumaður með konu sinni 7 börn, sem skírn hlutu ei öll; eru þessi dáin: Þorsteinn, Ketill, Eggert, Ragnheiður, en Guðrún lifir, kona Jóns prests Magnússonar í Hvammi í Norðurárdal. Ár 1784—85 var Guðmundur settur sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu. Ár 1787 var honum veitt Hnappadalssýsla sem viðbót við Mýrasýslu. 1793 var Guðmundur á ný settur sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu.

Þann 27. [réttara 30.] nóvember 1809 andaðist Guðmundur sýslumaður Ketilsson 63 ára gamall á 30. embættisári. Hann var elskaður og virtur af sýslubúum sínum, hverjum hann og unni mikið, einkum ekkjum og munaðarlausum; sást hann ekki fyrir við þá bæði á þingum og á heimili sínu með gjafir. Enginn var Guðmundur Ketilsson búsýslumaður. En í þess stað var hann einhver hinn mesti lögfræðismaður, hvar af það kom, að háyfirvöldin brúkuðu hann mjög við málafærslur, stundum sem talsmann og stundum sem saksóknara og dómara, og fórst honum hvorttveggja vel úr hendi, þótt hann á stundum fengi litlar þakkir fyrir eða sem menn kalla »ynni fyrir gíg«. Guðmundur sýslumaður var bezti skrifari og letramaður, sýndi hann það opt, en einkum þegar hann var á Ingjaldshóli hjá Jóni sýslumanni, fyrir hvern hann skrifaði eptir handriti bróður síns Magnúsar sýslumanns lögbókina Grágás, sem nú er eign skólakennarans á Bessastöðum dr. H. Schevings, eptir hverri að hann svo mjög stældi, að þær (ɔ: bækurnar) þekktust varla að. Og munu þó flestir dást að leturgerð þeirrar fyrri.

Þegar Guðmundur Ketilsson var við sínar bókiðnir í Kaupmannahöfn lá hann mikið af einum vetri í sjúkdómi þeim, er læknar höfðu kallað hálfslag, hver sjúkdómur að aldrei skildi við hann, heldur jókst svo og magnaðist með árafjöldanum, að hann gat

yfirréttinn forna sonur séra Stefáns á Höskuldsstöðum, (af hans seinni börnum), Ólafssonar prests Guðmundssonar.

*Móðir*: Hólmfríður, dó 1834, dóttir Péturs sýslumanns í Múlaþingi Þorsteinssonar sýslumanns sama staðar Sigurðssonar Þorgilssonar bænda.

*Kona*: Þórunn[1]) dóttir Stefáns Stapaumboðshaldara Schevings, er var sonur Vigfúsar sýslumanns í Hegranesþingi (sjá Hegranesþing) og Önnu Stefánsdóttur.

*Börn*: A. Stefán[2]).

B. Helga giptist 1838 Kristófer bókbindara Finnbogasyni[3]).

---

ekki seinast þjónað sýslustörfum í hálft annað ár, og fékk því lausn frá þeim. Þessi sjúkdómur lagði hann að síðustu í rúmið, og skildi ekki við hann fyr en að afstöðnu 13 vikna helstríði, er loksins leiddi hann heim.

»Sælir eru þeir, sem í drottni deyja í frá þessu. Andinn segir: að þeir hvíli af sínu erfiði, en þeirra verk fylgi þeim eptir«. Opinb. 14, 13.«.

Við þetta má bæta, að Guðmundur sýslumaður mun hafa verið fremur fátækur maður. Fékk hann opt gefnar upp skuldir til jarðabókarsjóðs t. d. rúma 300 dali 1790, rúma 200 dali 1793, tæpa 400 dali árið 1800, og 1806 um leið og hann fékk lausn voru skuldir hans til jarðabókarsjóðs o. fl. 1055 dalir. Mun mikið af því hafa niður fallið.

1) Hún dó 12. júlí 1881 81 árs. Þau giptust 15. júní 1815.

2) Stefán (f. 6. marz 1823) bjó í Hlöðutúni, átti Önnu Jóhönnu Guðmundsdóttur frá Hvítárvöllum Sveinbjörnssonar, bróðurdóttur Þórðar háyfirdómara, þ. b.:

a. Þórunn kona Jónasar prófasts Jónassonar á Hrafnagili, þ. b.: Oddur o. fl.
b. Pétur Hannes skósmiður í Reykjavík, dó úr lungnatæringu, átti Ásu Indriðadóttur, þ. b.: Indriði bókbindari dó ungur o. fl. börn þeirra.
c. Guðmundur.
d. Hannes dó ungur.

3) Kristófer og Helga († 31. marz 1903) áttu mörg börn, þar á meðal voru:

C. Sigríður giptist séra Sveinbirni Hallgrímssyni prests frá Görðum á Akranesi. Sigríður deyði 1847[1]).

Pétur er borinn á Þingeyrum[2]). Lærði nokkuð í heimaskóla og síðan í Hólaskóla, hvaðan hann útskrifaðist 1799. Fór svo utan til meiri lærdómsframa, og tók examen danicojuridicum, kom út og var 1807 settur fyrir Mýrasýslu, en fékk veiting fyrir téðri sýslu 25. ágúst 1808. Gipti sig og tók sér bústað í Síðumúla, hvar hann bjó um hríð, en flutti seinna búferlum að Svignaskarði[3]). Hann slasaðist af hestbaki, og þótti um of gefinn fyrir ölföng, varð því heilsutæpur og sagði sýslunni af sér. Nokkrir sögðu meðfram hefði það verið afgjaldsvöntun eptir sýsluna. Hann öðlaðist og lausn í náð frá sýslunni 24. maí 1828 með 50 rd. pension.

Pétur hefur meðalgáfur, góður maður og stöðuglyndur. Í lægra lagi meðalmaður, en mjög þrekinn og kraptagóður. Fríður maður sýnum, mesti hagleiksmaður og sérlega nettur á allt, sem smíðum viðkemur. Gæflyndur og hægferðugur. Þá hann hafði sýsluna átti hann opt þröngt í búi, en síðan hann sleppti henni og gaf sig við búskap, er mælt hann hafi flesta hluti til hlítar, þó hann hafi mikil þyngsli af bróður sínum og móður, sem mega reiknast kararómagar. Móðir hans deyði 1834. 1838 byggði Pétur sýslumaður dótturmanni

---

a. Pétur óðalsbóndi á Stóruborg dó 1906, átti fyr Ingunni Jónsdóttur ekkju R. M. Ólsens umboðsmanns á Þingeyrum, bl., en síðar Þrúði Elizabetu Guðmundsdóttur prófasts á Melstað Vigfússonar og börn.
b. Þórunn gipt Jóni bónda Jónssyni í Galtarholti, þeirra son Jón, sem nú býr í Galtarholti.
c. Finnbogi silfursmiður á Ölvaldsstöðum, ókvæntur.
d. Oddur söðlasmiður, varð ekki gamall, drukknaði bl.
e. Björn bóndi í Miðhópi í Húnavatnssýslu, tvíkvæntur, á mörg börn.
f. Arndís giptist ekki.

1) Hún var f. k. séra Sveinbjarnar, þau bl.

2) Það er ekki rétt. Hann er fæddur á Bessastöðum 25. september 1778.

3) Hann flutti að Svignaskarði 1819, og bjó þar til 1860, að hann flutti í húsmennsku að Hlöðutúni.

sínum Kristófer að nafni hálft Svignaskarð á móti sér; hann átti Helgu dóttur hans, en Sigríði dóttur Péturs átti séra Sveinbjörn, sem var aðstoðarprestur séra Péturs á Kálfatjörn og um tíma millibilsprestur í Reykjavík. Téð Sigríður deyði 1847[1]).

## Eiríkur Sverrisson.

*Faðir*: Sverrir bóndi á Síðu Eiríksson Bjarnasonar á Geirlandi Eiríkssonar í Holti, voru allir góðir smiðir, búhöldar og stórbændur.

*Móðir*: Sigríður Salómonsdóttir Þorsteinssonar Jónssonar (Steinssonar yngra) í Steinsmýrarholti.

*Kona fyrri*: Guðlaug Eiríksdóttir bónda frá Bolholti Jónssonar Þórarinssonar í Næfurholti.

*Börn*: A. Oddný.
B. Sigríður.
C. Kristín, (öll ógipt 1832).

*Kona seinni*: Kristín Ingvarsdóttir Magnússonar Ingvarssonar á Skarði eystra.

*Börn*: D. Guðlaug.
E. Ingibjörg.
F. Áslaug.
G. Sigríður.
H. Sigurður[2]).

Eiríkur Sverrisson er borinn á Kirkjubæ á Síðu 17. júlí 1790, fór í Bessastaðaskóla 1805 og útskrifaðist þaðan 1808, giptist sinni fyrri konu 1811 og fór þá að búa sem bóndi á Hurðarbaki í Árnessýslu, þar til hann missti téða konu sína 1813. Brá hann þá búi og kom fyrir börnum sínum, en var stundum fullmektugur hjá Árnessýslumanni, og stundum revisor við Eyrarbakkahöndlun, til þess hann fór utan 1820 og gaf sig þar við lögspeki, og tók reynslupróf í danskri lögvísi með bezta vitnisburði 1821. Gerðist svo eiðsvarinn fullmektugur þáverandi fógeta, síðar amtmanns, Gríms Jónssonar. 1823

---

1) Pétur sýslumaður dó í Hlöðutúni 20. júní 1866. Er allítarleg æfisaga hans í Þjóðólfi 19. árg. nr. 9—10 (20. des. 1866) og vísast til hennar hér sbr. ennfremur Lögfræðingatal M. Stephensens í Tímariti bókmenntafélagsins III, 280—281.

2) Um afkomendur Eiríks sýslumanns verður getið í Rangárvallasýslu.

var honum veitt Snæfellsnessýsla og gerði sama ár bú í Máfahlíð. 1824 giptist hann í annað sinn Kristínu, sem áður er sagt. 1827 fékk hann bréf fyrir Borgarfjarðarsýslu til hverrar hann þó ei flutti. 24. maí 1828 var honum veitt Mýra- og Hnappadalssýsla og flutti að Einarsnesi, hvar hann bjó 1 ár, og síðan að næsta bæ, er Hamar heitir, því honum þótti sú jörð betur fallin fyrir sauðfé.

1836 þann 19. apríl fékk hann kongsveiting fyrir Rangárþingi; flutti þó ekki þangað það ár, en fékk Árnessýslumann Pál Þórðarson Melsteð að gegna þar sýslumannsverkum það ár. 1837[1]) flutti hann til Rangárþings (sjá þar).

## Bertel Holm Borgen,

danskur maður, fékk veiting fyrir þessari og Hnappadalssýslu 1836[2]), en 1837 hlaut hann kongsveiting fyrir Eyjafjarðarsýslu og kom ekki til Mýra- eða Hnappadalssýslu (sjá Vaðlaþing)[3]).

## Marteinn Frederik Lund,

danskur maður, öðlaðist veiting kongs fyrir Mýrasýslu 1837[4]), þá Bertel Holm Borgen sleppti. Flutti Lund sig fyrst að Hamri, hvar sýslumaður Sverrisen hafði búið, en þótti þar dauflegt einhleypum, var því stundum í Reykjavík og giptist þar jómfrú Hönnu dóttur kaupmanns O. P. C. Möllers; 1838 samdi hann við dannebrogsmann Helga Helgason í Vogi á Mýrum um húsnæði og fleira fyrir sig, konu sína og þénara etc., og flutti þangað til veru. Af því Lund skilur ei vel ís-

---

1) Hann þjónaði Mýrasýslu til 1. júní 1837.

2) Hann fékk veitingu fyrir sýslunni 10. september 1836 frá 6. júní 1837.

3) I, 293. Borgen sýslumaður var fæddur í Nörager í Holbækamti 26. nóvember 1803, tók danskt lagapróf 1823, en varð stúdent 1824 og tók embættispróf í lögum 25. okt. 1828. 1847 varð hann héraðsfógeti og skrifari í Fjends- og Nörlynghéruðum í Vébjargaamti og 1853 héraðsfógeti í Middelsom- og Sönderlynghéruðum, en fékk lausn frá embætti 1874 og þá um leið konferenzráðsnafnbót, en var áður kansellíráð og etazráð. Hann andaðist í Kaupm.höfn 13. janúar 1888.

4) 6. maí.

lenzku heldur hann íslenzkan stúdent fyrir þénara. Hann á og nokkur börn, og verður að halda þjónustustúlku, veitir því örðugt í sinni húsmennsku. Hann tjáist mjög bráðlyndur í skapi, en hans lagavizku vita menn ei glöggt, þó menn haldi hann hentugri fyrir Danmörk en Ísland.

1847 eptir tíu ára hérveru fékk hann utanlands embætti dag 8. marz bæjar- og ráðstofuskrifaraembætti í Nakskov á Lálandi og fór utan til þess embættis sama ár með konu sinni og mörgum börnum, sem hann með henni átti[1]). En amtmaður Thorsteinsson setti í bráð fyrir sýsluna Magnús Gíslason, er áður var þénari Lunds sýslumanns.

Hann þótti maður hreinlyndur, en að náttúru mjög bráðlyndur. Af hans embættisaðgerðum fóru litlar sögur, en lýtalaust gekk honum hér með þær af tilstyrk þénara sinna.

Örðugt gekk honum og helzt við báglega í sínum búpstandssökum, en friðsamur var hann og var optast heima. Hann lét smíða sér íverustofu, þá hann var í Vogi, hverja hann seldi með miklum skaða sínum, þá utan flutti.

## Magnús Gíslason.

*Faðir*: Séra Gísli Guðmundsson öconomi Vigfússonar. Séra Gísli var seinast prestur í Hítarnesþingum.

*Móðir*: Ragnhildur Gottskálksdóttir bónda í Hjaltadal í Skagafirði.

Magnús lærði í Bessastaðaskóla, þaðan dimissus 1837, og gaf sig til þénara hjá amtmanni conferenzráði Bjarna Þorsteinssyni á Stapa og við barnakennslu. Átti þar barn með stúlku, og veik því þaðan að Vogi í Mýrasýslu, gerðist þénari sýslumanns Lunds, því af Stapaveru sinni varð hann kunnugur sýslumanna almennri embættisskyldu. En téður amtmaður setti hann í bráð fyrir sýsluna, þá Lund sýslumaður fór utan, og hélt hann sýsluna um eitt ár.

1848, þá Jón sýslumaður Pétursson fékk Mýrasýslu, en

---

1) Morten Frederik Lund var fæddur í Næstved á Sjálandi 19. október 1807, útskrifaður frá Herlufsholmsskóla 1826 og kandidat í lögum 30. október 1834 með 2. einkunn í báðum prófum. Hann fékk lausn 1852 frá embætti sínu sem bæjar- og ráðstofuritari í Nakskov og héraðsritari í Nörreherred, og andaðist í Nakskov 5. desember s. á. (1852) hálffimmtugur að aldri.

Briem sýslumaður Eyjafjarðarsýslu, setti conferenzráð Bjarni Magnús stúdent Gíslason fyrir Ísafjarðarsýslu og flutti Magnús sig sama sumar þangað, en Briem norður. [Magnús setti bú í Alptártungu með barnsmóður sinni, sem bjó þar á eptir og hélt búinu og giptist síðan öðrum, en Magnús kvongaðist síðar Helgu Ámundadóttur á Kirkjubóli í Langadal Halldórssonar próf. á Melstað. Það var 1855[1])].

## Jón Pétursson.

(Sjá um hann við Strandasýslu og við Borgarfjarðarsýslu). Hann hélt Borgarfjarðarsýslu að veitingu 1847, en 1848 veitti kongur honum Mýrasýslu; um þá veiting fékk hann ekki vitneskju fyr en seint í júlí, þá hann með konu sinni var kominn suður að Stafholti. Hafði hann áður tekið sér vistarveru í timburstofunni í Höfn undir Hafnarfjalli, en nú fékk hann sér húsrúm í Hjarðarholti í Mýrasýslu. Jón var amtmannsfullmektugur veturinn 1847—48, meðan Bjarni amtmaður Thorsteinsson var ytra að leita sér lækninga við starblindni.

---

# **Viðauki.**

*Jón* sýslumaður *Pétursson* flutti vorið 1849 að Norðtungu og bjó þar 1 ár, en vorið 1850 flutti hann að Hamri í Þverárhlíð, en fór þaðan þá um sumarið til Reykjavíkur, því að 16. maí það ár var hann skipaður 2. assessor og dómsmálaritari í yfirdóminum, varð 1. meðdómandi 31. marz 1856 og háyfirdómari 7. nóvember 1877, en fékk lausn frá því embætti 16. apríl 1889 frá 1. maí s. á., og andaðist 16. janúar 1896 á 84. afmælisdegi sínum. Hann var sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar 2. ágúst 1874 og heiðursmerki dannebrogsmanna 16. apríl 1889. Hann sat á alþingi 1855 sem þjóðkjörinn þingmaður og frá 1859—1886 sem konungkjörinn þingmaður. Var hann manna frjálslyndastur í stjórn-

---

1) Um Magnús sýslumann Gíslason sjá nánar II, 745—747.

málum, eptir því sem þá mátti kalla og lagði jafnan gott til málanna. Hann var eins og kunnugt er fræðimaður mikill, bæði í ættum o. fl., eins og 1. bindi þessarar bókar ber vott um, og ágætur lagamaður.. Handritasafn átti hann mikið og gott og var mjög vel að sér í fornum skjölum. Hans hefur áður verið minnzt að nokkru í Sunnanfara 1. árg. 1892 nr. 7 A. og í Þjóðólfi 48. árg. 1896 nr. 4. Einnig er prentuð mjög stutt æfisaga hans, ef svo má kalla, mjög ófullkomin og lítilsháttar í Andvara 1901 eptir Halldór Kr. Friðriksson. Æfisaga þessa merkismanns má því enn heita órituð. Hann var tvíkvæntur. Fyrri konu sína Jóhönnu Soffíu Bogadóttur frá Staðarfelli Benediktssonar[1]) missti hann 21. maí 1855. Börn þeirra voru:

A. Pétur prestur á Kálfafellsstað kvæntur Helgu Skúladóttur frá Sigríðarstöðum í Ljósavatnsskarði Kristjánssonar Arngrímssonar Andréssonar, þ. b.:
   1. Jóhanna Sigþrúður.
   2. Jarþrúður.
   3. Elizabet.
   4. Jón.

B. Brynjólfur prestur á Ólafsvöllum (tvíburi við séra Pétur) átti Ingunni Eyjólfsdóttur frá Vælugerði Gestssonar í Götu á Landi Eyjólfssonar, þ. b.:
   1. Jón Jóhann býr á Ólafsvöllum, kvæntur Guðríði Jóhannsdóttur frá Brunnum í Suðursveit Magnússonar prests í Eyvindarhólum Torfasonar, þ. b.: Jarþrúður Elinborg og Ingunn Helga.
   2. Pétur ljósmyndari í Reykjavík, kvæntur danskri konu Henriette Larsen.
   3. Bogi stúdent, les lögfræði við háskólann.
   4. Helga.

---

1) Kona Boga á Staðarfelli († 25. marz 1849) var Jarþrúður († 13. marz 1858) Jónsdóttir prests í Holti í Önundarfirði Sigurðssonar prófasts í Holti undir Eyjafjöllum Jónssonar Steingrímssonar af Steingrímsætt í Skagafirði sbr. bls. 133.

5. Sigþrúður Anna.
6. Ingimar.

C. Jarþrúður gipt Hannesi ritstjóra í Reykjavík Þorsteinssyni frá Brú í Biskupstungum Narfasonar á Brú Ásbjarnarsonar (II, 342), bl.

D. Jóhanna Soffía gipt Zófóníasi prófasti í Viðvík Halldórssyni frá Brekku í Svarfaðardal Rögnvaldssonar Ásmundssonar, þ. b.:

1. Pétur gagnfræðingur, bankaritari í Reykjavík, kvæntur Guðrúnu Jónsdóttur frá Ásmundarstöðum á Sléttu Árnasonar. Laundóttir hans, áður en hann kvæntist, með Þórunni Ólafsdóttur úr Reykjavík Þorkelssonar Ketilssonar, heitir Jóhanna Soffía.
2. Páll búfræðingur.
3. Guðmundur er í lærða skólanum.

Síðari kona Jóns háyfirdómara, er hann kvæntist 1856 var Sigþrúður (f. 19. marz 1830) Friðriksdóttir prests í Akureyjum († 1894) Eggertssonar og Arndísar Pétursdóttur prófasts í Stafholti Péturssonar (sbr. bls. 301 og II, 726—727), þ. b.:

E. Arndís gipt Guðmundi héraðslækni í Stykkishólmi Guðmundssyni prests á Stóruvöllum Jónssonar smiðs í Reykjavík Illhugasonar frá Bóndhól á Mýrum Einarssonar af Kalastaðaætt, þ. b.:

1. Sturla stúdent.
2. Sigþrúður dó ung.
3. Þóra, (kjördóttir Jóns Magnússonar skrifstofustjóra).
4. Ása.

F. Þóra gipt Jóni skrifstofustjóra í Reykjavík Magnússyni prests í Laufási Jónssonar, bl.

G. Friðrik kaupmaður í Reykjavík, ókvæntur.

H. Sturla kaupmaður í Reykjavík, ókvæntur.

I. Elinborg.

K. Sigríður gipt Geir presti á Akureyri Sæmundssyni prófasts í Hraungerði Jónssonar, þ. b.:

1. Sæmundur dó ungur.
2. Heba.
3. Jón Pétursson.

## Magnús Gíslason

(sjá áður) var settur sýslumaður í Mýrasýslu 1850 eptir burtför Jóns Péturssonar og þjónaði henni þangað til haustið 1851.

## Christen Willemoes,

danskur maður. Hann var fæddur 8. maí 1812, útskrifaður úr heimaskóla 1830, kandídat í lögum 10. nóvember 1836 með 2. einkunn í báðum prófum, varð skrifari í sakamála- og lögregluréttinum 1846, en fékk Mýra- og Hnappadalssýslu 1. maí 1851 og kom út hingað um sumarið, en fór burtu frá sýslunni í ágústmanuði 1853 og sigldi til Hafnar og kom aldrei aptur, en fékk lausn frá sýslumannsembættinu 28. marz 1855, varð svo þýðari og túlkur í ensku 1858 og andaðist í Kaupmannahöfn 8. september 1865. Hann þótti fremur lítilsháttar yfirvald og stirður í embættisverkum. Var til heimilis á Lundum í Stafholtstungum þessi tæp tvö ár, er hann þjónaði sýslunni.

Helgi Sigurðsson cand. phil. á Jörfa (síðar prestur á Setbergi og Melum) hélt öll manntalsþing í Mýrasýslu fyrir Willemoes vorið 1852, því að sýslumaður var eða þóttist veikur. Annars virðist Þorlákur Blöndal (I, 632) hafa verið aðstoðarmaður hans við réttarhöld o. fl.

Willemoes sýslumaður var kvæntur danskri konu *Wilhelmine Petrine Maríu* (f. *Metzgen*). Þau giptust í Reykjavík 27. ágúst 1851.

Frá því Willemoes sýslumaður sigldi 1853 og til vorsins 1855 að Bogi Thorarensen tók við þjónaði Mýra- og Hnappadalssýslu *Páll Pálsson Melsted* settur sýslumaður í Snæfellsnessýslu (sbr. bls. 243).

## Bogi Bjarnason Thorarensen.

Hann fékk veitingu fyrir Mýra- og Hnappadalssýslu 11. maí 1855, og var fyrstu veturna í Stafholti, bjó því næst 4 ár (1856—1860) í Hjarðarholti í Stafholtstungum, en fékk Dalasýslu 8. maí 1860 (sjá um hann þar II, 745).

## Jóhannes Guðmundsson.

*Faðir*: Guðmundur á Miklahóli og Læk í Viðvíkursveit Jónsson hreppstjóra á Bjarnastöðum í Kolbeinsdal launsonar Jóns læknis Péturssonar í Viðvík.

*Móðir*: Þorbjörg Gísladóttir bónda í Hofstaðaseli Árnasonar.

*Kona*: Maren Ragnheiður Friðrika (f. 11. des. 1828) dóttir Lárusar Stefánssonar Thorarensens sýslumanns í Skagafjarðarsýslu (I, 431).

*Börn*:
A. Anna (f. 1850, † 28. júlí 1903) átti dr. Valtý Guðmundsson Einarssonar fræðimanns á Mælifelli Bjarnasonar, bl.
B. Katrín (f. 28. júlí 1855), ógipt hjá móður sinni í Reykjavík.
C. Lárus aðstoðarprestur á Sauðanesi (f. 4. nóv. 1858, † 9. sept. 1888) átti Guðrúnu Björnsdóttur stúdents á Eyjólfsstöðum Skúlasonar, þ. b.:
1. Maren Ragnheiður Friðrika.
2. Bergljót.
3. Guðrún Ingibjörg, dó ung.
4. Lára Ingibjörg.
D. Elín, (f. 1862), dó 1868.
E. Sigríður, (f. 1864), kona séra Kjartans Helgasonar í Hruna, þ. b:
1. Unnur.
2. Elín.
3. Helgi.
4. Ragnheiður, dó ung.
5. Jóhannes.
6. Guðrún.
F. Jóhannes sýslumaður og bæjarfógeti á Seyðisfirði, (f. 17. jan. 1866), kvæntur Jósefínu Lárusdóttur sýslumanns Blöndals (sjá Norður-Múlasýslu).
G. Ellert, (f. 1869), kvæntist Ástríði Torfadóttur skólastjóra í Ólafsdal Bjarnasonar. Hún dó af barnsförum 1903, en barnið dó óskírt.

Jóhannes sýslumaður var fæddur á Miklahóli í Viðvíkursveit 4. janúar 1824, lærði ekki í skóla, en varð skrifari hjá Lárusi sýslumanni Thorarensen í Enni og síðar skrifari hjá Grími amtmanni Jónssyni, fór utan 1850 og tók embættispróf í dönskum lögum 25. janúar 1853 með 1. einkunn í hinu teoretiska, en 2. einkunn í hinu praktiska prófi, en gekk upp

aptur í því 28. júní s. á. og fékk þá 1. einkunn, kom þá út hingað og var fyrst hjá tengdaföður sínum í Enni, en fékk Strandasýslu 11. maí 1855 og reisti bú á Litlu-Hvalsá í Hrútafirði, en 18. febrúar 1861 var honum veitt Mýra- og Hnappadalssýsla, og fór að búa í Hjarðarholti í Stafholtstungum. Hann varð úti í ofsaveðri og blindhríð skammt frá heimili sínu 11. marz[1]) 1869. Allítarleg skýrsla um þennan sviplega atburð er prentuð í Þjóðólfi XXI. árg. nr. 30—31 eptir Stefán prófast Þorvaldsson í Stafholti og vísast til þess hér. — Jóhannes sýslumaður var mjög vinsælt yfirvald og mesta lipurmenni og ljúfmenni í allri viðkynningu.

## Eggert Theodor Jónassen.

*Faðir*: Þórður Jónassen háyfirdómari í landsyfirréttinum (sbr. I, 290—292).

*Móðir*: Soffía Rasmusdóttir Lynge.

*Kona fyrri*: Elín Magnúsdóttir Stephensens sýslumanns í Vatnsdal, systir Magnúsar landshöfðingja, bl. Hún dó 5. apríl 1878.

*Kona síðari*: Karólína dóttir Edvards Siemsens konsúls og kaupmanns í Reykjavík, bl.

E. Th. Jónassen var fæddur í Reykjavík 9. ágúst 1838, útskrifaður úr Reykjavíkurskóla 1858, tók heimspekispróf við háskólann 27. janúar 1860, en embættispróf í lögum 15. janúar 1867 með 2. einkunn í hinu teoretiska prófi og 2. og 4. febr. s. á. í hinu praktiska prófi með sömu einkunn. Hann var síðan á skrifstofu land- og bæjarfógetans í Reykjavík, en var settur sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu eptir lát Jóns Thoroddsens 1868 og í Mýra- og Hnappadalssýslu eptir lát Jóhannesar Guðmundssonar 1869. 4. marz 1871 var Hnappadalssýsla skilin frá Mýrasýslu og lögð til Snæfellsnessýslu, og fékk Theodor Jónassen þá veitingu fyrir Mýrasýslu 22. maí s. á., en 14. október s. á. var Borgarfjarðarsýsla sameinuð Mýrasýslu og fékk hann þá s. d. veitingu fyrir þessum sameinuðu sýslum. Fór hann þá að búa í Hjarðarholti í Stafholtstungum. Hann var skipaður bæjarfógeti í Reykjavík 16. ágúst 1878, en 13. apríl 1886 var honum veitt amtmanns-

1) Í II, 403 er dánardagurinn 11. febrúar skakkur og eins í Lögfræðingatali M. Stephensens.

embættið í suður- og vesturamtinu. Hann var sæmdur riddarakrossi dannebrogsorðunnar 24. febrúar 1887, en andaðist í Reykjavík 29. september 1891.

## Guðmundur Pàlsson.

*Faðir*: Páll Guðmundsson prestur í Borgarþingum († 23. júlí 1846) sonur Guðmundar Vigfússonar hegningarhússráðsmanns (sjá Kjósarsýslu).

*Móðir*: Helga Guðmundsdóttir prests á Stað í Hrútafirði († 4. okt. 1805) Eiríkssonar prests á Stað († 3. des. 1795) Guðmundssonar.

*Kona*: Björg Pálsdóttir amtmanns Melsteðs Þórðarsonar og Önnu Sigríðar Stefánsdóttur amtmanns Þórarinssonar (sjá Árnessýslu), þau barnlaus.

Guðmundur Pálsson var fæddur á Ánabrekku í Borgarhreppi 9. ágúst 1836. Hann lærði ekki í skóla, en varð á unga aldri sýslumannsskrifari í Ísafjarðarsýslu og síðar hjá Pali amtmanni Melsteð í Stykkishólmi, fór utan 1859 og tók undirbúningspróf við háskólann, en ekki embættispróf í það sinn, kom hingað aptur og varð skrifari, fyrst hjá Pétri Havstein amtmanni og svo hjá Bergi Thorberg amtmanni, fór utan aptur 1873 og tók próf í dönskum lögum 14. júní 1875 með 1. einkunn, var settur málaflutningsmaður við yfirdóminn 13. febrúar 1876 og var þá jafnframt á skrifstofu bæjarfógetans í Reykjavík Lárusar Sveinbjörnsson, er þá var einnig sýslumaður í Gullbringusýslu. Hinn 3. júní 1878 var Guðmundur settur sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu frá 6. s. m. og þjónaði henni til 1. september s. á., að Kristján Jónsson tók við henni. Því næst var hann settur sýslumaður í Mýra- og Borgarfjarðarsýslu 27. september 1878 og fékk veitingu fyrir henni 6. nóvember s. á. Hann bjó í Arnarholti í Stafholtstungum og andaðist þar 2. júlí 1886.

## Jóhannes Davíð Ólafsson

sýslumaður í Skagafjarðarsýslu fékk veitingu fyrir Mýra- og Borgarfjarðarsýslu 5. nóvember 1886, en kom þangað aldrei og afsalaði sér sýslunni eptir beiðni Skagfirðinga og var honum þá veitt Skagafjarðarsýsla aptur 15. apríl 1887. Hann andaðist á Sauðárkróki 26. marz 1897 rúmlega fertugur (f. 26. okt. 1855).

## Sigurður Þórðarson.

*Faðir*: Þórður Guðmundsson kammerráð, sýslumaður í Árnessýslu (sjá um hann þar).

*Móðir*: Jóhanna Lárusdóttir Knudsen.

Sigurður er fæddur á Litla-Hrauni í Árnessýslu á aðfangadag jóla (24. desember) 1856, útskrifaður úr Reykjavíkurskóla 1876 með 2. einkunn, tók próf í heimspeki við háskólann 17. júní 1878 með 2. einkunn og embættispróf í lögum 15. júní 1885 einnig með 2. einkunn, var settur málaflutningsmaður við yfirdóminn af landshöfðingja 6. febrúar 1886 og síðan af ráðgjafa 16. apríl, en skipaður af amtmanni til aðstoðar Guðmundi sýslumanni Pálssyni í veikindum hans frá júníbyrjun s. á., en settur sýslumaður þar (í Mýra- og Borgarfjarðarsýslu) frá 6. júlí, og fékk veitingu fyrir sýslunni 15. apríl 1887. Hann býr í Arnarholti ókvæntur.

# VIII. Borgarfjarðarsýsla.

---

*Hinir gömlu þingstaðir í Borgarfjarðarsýslu*

1. Saurbær á Hvalfjarðarströnd.
2. Heynes á Akranesi.
3. Kjalardalur í Skilmannahrepp.
4. Leirá í Leirársveit.
5. Heggstaðir í Andakíl.
6. Indriðastaðir í Skoradal.
7[1].
8. Reykholt í Reykholtsdal.
9. Búrfell í Hálsasveit.

Héruð þau, sem liggja millum Hítarár að vestan og Botnsár að sunnan, voru öndverðlega á þrettándu öld og til vorra daga kölluð Þverárþing; þar voru í fyrstu margir goðorðsmenn, og voru þeir, er höfðu Mýramannagoðorð lengi fremstir þeirra, en á Sturlungaöld gerðist Snorri í Reykholti þar að mestu einn goði, og eptir hann varð ágreiningur mikill og ýmsar þrætur um völd í Borgarfirði; þó hafði Rafn Oddsson sem hirðstjóri þar og víðar mest völd um hríð. Þá hirðstjórar voru að staðaldri settir af konungi höfðu þeir opt sjálfir Borgarfjörð, en seinna tóku þeir sér sveina, (er þeir svo kölluðu), til að heimta tekjur og nefna menn í dóma. Þá fóru þeir og að skipta umdæmum í smærri parta, þar á meðal Þverárþingi. Þann hluta þess, er liggur frá Botnsá og til Hvítár nefndu þeir Borgarfjarðarsýslu eða Þverárþing sunnan Hvítár og liggur sá hluti í Sunnlendingafjórðungi. Hinn hluta þess, er liggur millum Hvítár og Hítarár kölluðu þeir Mýrasýslu eða Þverárþing vestan Hvítár. Stundum hafði einn maður þessar báðar sýslur, stundum var sinn í hvorri og hafði þá einhver önnur léni, gekk það mjög misjafnt til, því færri höfðu lengi völd í sífellu, eða í sömu héruðum. Hertu því sig þennan stutta tíma, að draga fé saman og auðga sjálfa sig.

Sagnafátt er, hverjir hvert ár höfðu konungsvöld á þeim dögum í hvorri sýslu, eða réttara sagt: voru sveinar hirðstjóra. Þó vil eg geta fáeinna maktarmanna, er líkindi eru til, að hafi

---

1) Eyða í handr. (fyrir þingstað í Lundarreykjadal).

haft héraðsstjórn, þó alt sé í óvissu, utan að miklu leyti um sjálfan hirðstjórann.

Nokkru eptir Sturlungadaga á ofanverðri 13. öld voru *afkomendur Þorleifs beiskalda í Hítardal*[1]) maktarmenn. Einnig *Nikulás Oddsson*[2]) í Kalmannstungu, sem átti Gyðu Sæmundsdóttur[3]) af Oddverja ætt, þeirra börn voru Valgerður, Sigmundur[4]) og Helga.

Þá voru (um 1300) og uppi þeir Narfasynir frá Kolbeinsstöðum, Guttormur[5]) *Snorri*, einnig *Þórður* og *Þorlákur* lögmaður, sem átti Helgu dóttur Nikulásar Oddssonar áður nefnds, þeirra son var *Ketill*, er fór utan og gerðist handgenginn Noregskongi, en kom út með hirðstjórn 1314 og lét lögtaka á alþingi 1315 réttarbætur konungs, þær er hann færði út. Að konungsboði fór hann utan 1319, ásamt Snorra lögmanni Narfasyni, herra *Hauki* lögmanni *Erlendssyni*, og mörgum fleirum (en lögmanna umboðsmenn voru á meðan, *Grímnr Þorsteinsson* S. og A. en *Erlendur*, sem þá bjó á Urðum í Svarfaðardal *Hauksson*[6]) N. og Vestan). 1320 kom herra Ketill, Snorri og Haukur út og tóku embætti sín. 1323 fékk kongur Eiríki riddara Sveinbjarnarsyni sýslur norðan og vestan en Ketill hélt sýslum kongs sunnan og austan. 1327 var herra Ketill við samninga biskupanna Jóns í Skálholti og Laurentíusar Hólabiskups norður á Möðruvöllum í Hörgárdal, og opt var hann viðriðinn mál höfðingja. 1332 fór herra Ketill enn utan á kongsfund og aptur 1338 líklega til

---

1) Sbr. bls. 305.

2) Nikulás í Kalmannstungu kemur mjög við Sturlungu og var mikilhæfur maður. Hann var og hirðmaður Hákonar konungs. Hann átti Gyðu Sólmundardóttur og Helgu Hvamms-Sturludóttur systur Egils prests, er andaðist 1297, þá gamall. Börn Nikulásar og Helgu voru: Valgerður, Sólmundur og Helga, er Þorlákur lögmaður Narfason átti og var þeirra son herra Ketill hirðstjóri. Nikulás var á lífi 1288.

3) Þetta er rangt. Gyða var Sólmundardóttir.

4) Réttara: Sólmundur.

5) Það mun ekki rétt, að nokkur af Narfasonum hafi heitið Guttormur (sbr. Safn til sögu Ísl. II, 54—55).

6) Um flesta þessa menn, er hér eru nefndir, hefur áður verið getið ítarlegar II, 255—256.

að borga afgift landsins og bera vandamál undir konung. Ketill hélt hirðstjórn yfir hálfu landi til síns dauða, sem aðbar 1340 eptir Espólíns fróða riti, en 1342 eptir riti Finns biskups Jónssonar. Vigfús son Ketils hirðstjóra hygg eg hafi haft völd í Borgarfirði eptir 1340[1]) og eins *Narfi* sonur Vigfúsar og máske *Erlendur Narfason* á yngri árum (þó hefi eg ekki þar um annað en gátu). Þeir feðgar hver eptir annan bjuggu á Kolbeinsstöðum, voru auðugir og höfðingjar. Þetta kæmist upp á tímann svoleiðis heim: Ketill hirðstjóri hélt að vísu Borgarfjarðarsýslu til þess hann dó 1340, Vigfús son hans, máske umboðsmaður fyrr, frá 1340—1350. Narfi son hans frá 1350 til um 1375; þó geta aðrir margir hafa verið þar fleiri í millitíð. *Gunnlaugur Magnússon* (sjá síðar) frá 1375 til 1399, Erlendur Narfason 1399 og máske fram yfir 1430, hann hafði og Rangárþing um hríð eptir Sólmund tengdaföður sinn. *Ormur* launson *Lopts*[2]) ríka nálægt 1430 og þar eptir, *Einar Þorleifsson*[3]) hirðstjóri nálægt 1436 og þar eptir, *Björn Þorleifsson* síðar hirðstjóri nálægt 1447—1454. *Einar Ormsson*[4]) Loptssonar ríka og Solveigar Þorleifsdóttur Árnasonar, hefur þar eptir haft völd í Borgarfirði (að eg held) eptir Björn eða fyrir, hann hélt og Reykholt og deyði 1463 og afhenti þá Loptur bróðir hans Reykholt, séra Rafni Gilssyni eptir skipun Jóns biskups Krabba (þetta er alt mín calculation, því ónógar hefi eg ástæður þar fyrir). Margir fleiri kunna að hafa hér völd haft, og máske ekki sumir þessir.

## Ívar Holm.[5])

*Faðir:* Vigfús, Norðmaður að uppruna.

---

1) Þessi Vigfús Ketilsson hefur aldrei uppi verið. Vigfús faðir Narfa á Kolbeinsstöðum var Flosason og hefur hann átt dóttur Ketils hirðstjóra Þorlákssonar (sbr. bls. 307). Vafasamt tel eg, að þeir feðgar Narfi Vigfússon og Erlendur son hans hafi haft nokkur völd í Þverárþingi.

2) Sjá um Orm Loptsson bls. 10.—13.

3) Um Einar Þorleifsson sjá II, 460—462.

4) Um Einar Ormsson og börn hans sjá bls. 10—11. Ekki tel eg það sennilegt, að hann hafi haft nokkur völd í Borgarfirði.

5) Sjá um Ívar Hólm Vigfússon II, 257. Bogi blandar hér saman Ívari Jónssyni eldra Hólm og Ívari yngra Vigfússyni. Það

*Kona:* Ásta dóttir Klængs Teitssonar, en Teitur var bróðir Gissurar jarls.

*Son:* A. Vigfús, er síðar varð hirðstjóri 1389 og þar eptir. Guðríður Ingimundardóttir hét húsfrú hans[1]), þeirra börn:

a. Ívar, sem gerðist 15 vetra hirðstjóri 1405 með föður sínum, var þá giptur Guðríði nokkurri og svo 15 vetra.

b. Margrét, sem komst úr Kirkjubólsbrennu, þá Ívar bróðir hennar var skotinn í hel 1433. Hún giptist síðar Þorvarði Loptssyni á Möðruvöllum, voru þeirra dætur:

aa. Guðríður átti Erlend frá Kolbeinsstöðum Erlendsson og börn.

bb. Ingibjörg átti Pál á Hofi son Brands Jónssonar, þau áttu ei börn, sem lifðu, en launson hafði Páll átt áður, Grím, er bjó á Möðruvöllum seinna.

cc. Ragnhildur átti Bjarna Marteinsson á Ketilsstöðum og börn.

(NB. Mikil óvissa er um ætt Hólms).

Ívar Holm gerðist hér hirðstjóri 1307, 1312, 1345. En hann hafði allar sýslur og stærri mál frá Þjórsá og um alla Vestfirði 1351, en 1354 var hann orðinn aptur hirðstjóri yfir allt land og deyði 1371. Má hann þá hafa verið háaldraður, ef sami er[2]). (Sjá meira um hann í Hirðstjóra-annál).

## Gunnlaugur Magnússon.

Eg meina að hans faðir hafi verið máske Magnús sýslumaður Brandsson (sjá Vaðlaþing)[3]).

---

var Ívar Jónsson, er átti Ástu Klængsdóttur og dóttursonur þeirra er sennilegt að Ívar Hólm yngri hafi verið og ef til vill son Vigfúsar hirðstjóra Jónssonar frá Ferjubakka Erlendssonar sterka, sbr. bls. 306—307.

1) Guðríður var dóttir Ingimundar Óþyrmissonar úr Noregi.

2) Hér er um tvo menn að ræða (Ívar eldra og Ívar yngra Holm), eins og fyr er sagt. Ívars eldra getur síðast í annálum 1312, en hins er fyrst getið 1352.

3) Fyrir þessari getgátu Boga eru ekki hinar minnstu líkur.

*Kona* Gunnlaugs Sigríður dóttir Brynjólfs Björnssonar hins ríka, en systir Málfríðar[1]).

*Börn* hans[2]).

Gunnlaugur hefur árið 1377 verið orðinn höfðingi og valdamaður, því þá er hann talinn með þeim helztn landshöfðingjum, er það ár sóru kongi trúnað og land[3]), en hvort hann hefur í þann tíma haldið Borgarfjörð er mér dulið. Hitt er víst, að árið 1398 og fyrri hélt hann sýslu í Borgarfirði. Hann hafði í frammi mörg harðræði téð ár og fyr, og sýndi hinn mesta ofsa og yfirgang. Var þá Jón afbragð laminn af hans mönnum í Borgarfirði, svo hann beið bana af. Hér fyrir var Gunnlaugur höggvinn í Reykholti 1399[4]) og sveinar hans tveir: Þorsteinn og Björn, en Sigfús, hinn þriðji, flýði til Bæjar, var þá Bæjarkirkju lokað fyrir honum, og hann höggvinn síðar í hinum sama mánuði, en er þó eigi getið, hver fyrir þeim aftökum hefur staðið[5]).

---

1) Þetta er rangt hjá Boga. Málmfríður (dóttir Eiríks Magnússonar frá Svalbarði) átti Björn Brynjólfsson ríka frá Ökrum. Og Sigríður kona Gunnlaugs var dóttir Björns Brynjólfssonar, en ekki systir hans. Hún átti síðar (1408) Þorstein lögmann Ólafsson (sbr. II, 483—484), (sbr. I, 10).

2) Eyða í handr.

3) Þessa er getið í Hirðstjóra-annál séra Jóns Halldórssonar (Safn til sögu Ísl. II, 625).

4) Lögmanns-annáll telur, að Gunnlaugur hafi verið höggvinn árið 1400, en Jón afbragð hafi verið veginn árið áður (1399). Er það líklega réttara en í Oddaverjaannál, er telur víg Jóns 1397, en aftöku Gunnlaugs 1398. Sennilegt er, að Gunnlaugur þessi sé sá Gunnlaugur Magnússon, sem er einn votta á Bessastöðum að kaupmála Vigfúsar hirðstjóra Ívarssonar og Guðríðar Ingimundardóttur 27. apríl 1397 (Fbrs. III, 616—617).

5) Á 15. öldinni öndverðri var uppi í Borgarfirði **Auðunn Salómonsson,** auðugur maður, bjó á Hvanneyri í Andakíl, og mun hafa verið auknefndur Auðunn hyrna. Hann mun hafa verið son Salómons Brandssonar frá Kalmanstungu (sbr. bls. 307—308). Hefur Auðunn verið allmikill höfðingi, þótt hann hafi líklega ekki haft sýsluvöld. Kemur opt við bréf, fyrst 1409 á alþingi (Fbrs. III, 723), en síðast 1431 einnig á alþingi (Fbrs. IV, 462). Auðunn gaf kirkjunni á Hvanneyri Smáhamrareka í Steingrímsfirði (sbr. vitnis-

Erlendur Narfason

á Kolbeinsstöðum meina eg hafi haldið allt Þverárþing ná-

burðarbréf 9. apríl 1507, Fbrs. VIII, 139—140). Í ritgerð Jóns Guðmundssonar lærða »um ættir og slektir« Safn til s. Ísl. III, 703—728 er Auðunnar getið og sagt, að hann hafi átt mestallar bóndaeign í Borgarfirði syðra og fleiri jarðir, einn sonur hans hafi fengið Hvanneyri, annar Borg, þriðji (Magnús) Deildartungu, og hver þeirra 16 jarðir. Annars er nokkuð óljóst um afkomendur Auðunnar nema frá Magnúsi syni hans. Jón lærði segir, að Einar Eiríksson á Hvanneyri hafi verið kominn af þeim syni Auðunnar, er fékk Hvanneyri, en Bjarni Oddsson á Skarði hafi verið kominn af þeim syni Auðunnar, er fékk Borg. Nú er það víst, að Oddur Tómasson faðir Bjarna var dótturson Vigfúsar ríka Þórðarsonar á Borg, en Vigfús er talinn bróðir Jóns Þórðarsonar á Hvanneyri föðurföður Einars Eiríkssonar. Faðir þeirra bræðra Jóns og Vigfúsar er talinn Þórður Sigurðsson á Borg, og hefur hann líklega verið sonarson Auðunnar, því að Auðunn og Magnús sonur hans greiða honum föðurarf sinn. Er þessa getið í máldaga Borgarkirkju (Fbrs. VIII, 379), en óvíst er nokkuð frá hverjum tíma sú klausa er. Bróðir Þórðar er ef til vill Kolbeinn Sigurðsson faðir séra Ólafs í Saurbæ (bls. 326). Líklega hefur Auðunn ekki lifað lengi fram yfir 1430. Lítur svo út, sem Sigurður faðir Þórðar hafi dáið ungur og arfur hans staðið inni hjá afa Þórðar og föðurbróður. Mun Þórður ekki fæddur miklu síðar en um 1430. Sigurðar Auðunnarsonar er getið í bréfi vestra 1471 (Fbrs. V, 601) og Þórður Auðunnarson kemur víða við bréf vestra um og eptir miðja öldina, en ekki verður það sagt með vissu, að þeir hafi verið synir Auðunnar Salómonssonar. Salómon Einarsson í Galtarholti (bls. 308) hefur líklega verið sonarson Auðunnar. Dóttir Salómons hefur verið Ingibjörg kona Þormóðs sýslumanns Arasonar (sbr. I, 502, 506). Önnur börn hans talin bls. 308. Sonur Auðunnar á Hvanneyri var með vissu:

Magnús Auðunnarson (í Deildartungu) faðir Salómons prests í Árnesi föður Þormóðar föður Hákonar föður Guðmundar föður Jóns lærða, og er nánar getið um þessa ættmenn í hinni fyrnefndu ritgerð Jóns (Safn III, B.). Dóttir Auðunnar var

Ragna, er átti Vermund Kolbeinsson á Hvanneyri (sjá hér næst á eptir).

## Vermundur Kolbeinsson

var son Kolbeins Þorgilssonar á Borg á Mýrum, er síðast getur við gerninga 1436 (Fbrs. IV, 555). Vermundur bjó á Hvanneyri og

lægt 1440 (sjá hans ætt við Rangárþing). Er ei ólíklegt, að þeir feðgar Vigfús, Narfi og Erlendur hafi hér haft sýsluvöld.

## Þorkell vellingur.

Um hans ætt veit eg ekkert. Hann nefnist í ættaölum sýslumaður í Borgarfirði, en tjáist hvergi það eg hafi séð hans valdaár. Þykir mér líklegast hann hafi haft hér völd eða ver-

---

átti Rögnu Auðunnardóttur Salómonssonar. Þykir mér því líklegast, að Vermundur hafi fengið Hvanneyri með henni, en ekki einhver son Auðunnar, eins og Jón lærði segir. Vermundur mun hafa andazt í Björgvin 1459, því að þess er getið í testamentisbréfi Torfa Arasonar það ár, að hann liggi þá sjúkur (Fbrs. V, 190). Ragna ekkja hans selur Birni bónda Þorleifssyni 40 hndr. í jörðinni Álptanesi á Mýrum 26. júlí 1461 (Fbrs. V, 236—237). Í máldaga Hvanneyrarkirkju, sem mun vera frá því um 1463 (Fbrs. V, 408) er getið Vermundar »heitins« Kolbeinssonar.

Í sýslumannaskrá í safni J. Sig. á landsbókasafninu 64 fol. er vitnað í skjal í safni Árna Magnússonar, er segi, að Vermundur hafi haft sýslu »um Borgarfjörð langa tíma« c. 1445—1465. En þetta síðara tímatakmark er að minnsta kosti rangt, því að Vermundur mun hafa andazt 1459. Bréf þetta, er J. S. vitnar í er nú prentað í Fornbréfasafninu VIII, 409—410. Er það vitnisburður Höskuldar prests Hallsteinssonar á Melum um Hestengi, gefinn á Meðalfelli 25. september 1512. Skýrir hann þar frá, hverjir hafi búið á Hvanneyri 70 ár eða lengur, og nefnir þar fyrst Kolbein (föður Vermundar), en svo Vermund son hans, er »hafði sýslu um Borgarfjörð langa tíma«. Hafi þeir átt Hvanneyri og búið þar, en svo Jón Ketilsson eptir þá og son hans Ketill eptir hann. Samskonar vitnisburð hefur Höskuldur prestur gefið á Melum 2. nóvember 1510 (Fbrs. VIII, 331—332), en í þeim vitnisburði er ekki getið um sýsluvöld Vermundar. Það hefur verið fyrir og um 1450, sem Vermundur hefur haft sýslu í Borgarfirði, líkl. 10—20 ár alls, úr því að talað er um »langa tíma«, en engir dómar hans þekkjast nú. Ketill Jónsson Ketilssonar hefur því búið á Hvanneyri næst á undan Jóni Þórðarsyni frá Borg (sjá hér síðar). Hið einkennilega í þessum vitnisburðum er það, að Kolbeinn Þorgilsson hafi átt Hvanneyri og búið þar, því að hann hefur verið samtíða Auðunni eða litlu yngri. Sennilegra, að Vermundur hafi eignazt Hvanneyri með Rögnu Auðunnardóttur og farið að búa þar eptir tengdaföður sinn látinn. En vel

ið lögsagnari um og eptir 1450. Hans börn: Björgólfur og séra Loptur á Húsafelli[1]).

getur verið, að Kolbeinn faðir hans hafi flutt með honum að Hvanneyri eptir lát Auðunnar og búið þar ásamt honum um hríð, en það hefur verið í barnæsku Höskuldar prests (um 1435—40), svo að það gat blandazt málum hjá honum um þá feðga, að þeir hefðu báðir átt jörðina, úr því að þeir bjuggu þar. Auðunn var á lífi 1431, en mun hafa andazt litlu síðar. Með því að afkomendur Auðunnar áttu Borg á Mýrum og bjuggu þar, en þar bjó Kolbeinn Þorgilsson áður og hefur eflaust átt þá jörð, þá mætti geta þess til, að við fráfall Auðunnar hafi Kolbeinn látið einhvern erfingja hans fá Borg til eignar og ábýlis t. d. gegn hálfri Hvanneyri eða einhverjum hluta úr henni, en að vísu virðist máldagi Borgarkirkju (Fbrs. VIII, 379—380) mæla á móti því, því að þar er svo að sjá, sem Auðunn Salómonsson hafi haft umráð yfir Borg. Kannske Sigurður Auðunnarson faðir Þórðar(?) og Kolbeins(?) (föður séra Ólafs í Saurbæ) hafi átt dóttur Kolbeins Þorgilssonar, systur Vermundar og þá yrði skiljanlegt þetta eignasamband Kolbeins og Auðunnar-ættanna.

Dætur Vermundar Kolbeinssonar og Rögnu voru:

1. Unnur átti Árna (Fbrs. V, 378) Ketilsson Dagssonar Ívarssonar.
2. Gunnhildur átti Jón Ketilsson á Hvanneyri bróður Árna. Jón hefur farið að búa á Hvanneyri eptir Vermund tengdaföður sinn, og hefur lifað fram yfir 1470. Testamentisbréf Gunnhildar ekkju hans er árfært einhvern tíma eptir 1470 (Fbrs. V, 588—589), en auðvitað getur þar skeikað nokkru, og bréfið verið frá því um 1480 eða síðar. Jósafat ættfræðingur hefur hiklaust talið Dag Ívarsson afa Jóns son Ívars hirðstjóra Holms († 1371) Vigfússonar hirðstjóra († 1371) Jónssonar frá Ferjubakka Erlendssonar (Registur við V. B. Fornbréfasafnsins bls. 948—949), en á litlu öðru en nafnalíkingum mun sú ættfærsla byggð. Börn Jóns og Gunnhildar hafa verið Ketill og Herdís, sem nefnd eru í testamentisbréfi móður þeirra. Þar er og nefndur Ketill Árnason, er mun hafa verið son Árna Ketilssonar bróður Jóns og systurson Gunnhildar. Son Jóns var og Vermundur (Fbrs. V, 378).

1) Séra Loptur á Húsafelli († 1568) hefur verið son Þorkels Björgólfssonar Þorkelssonar vellings og bróðurson Hákonar sýslumanns og svo telur Snókdalín. Tímans vegna getur það og alls ekki staðizt, að hann hafi verið föðurbróðir Hákonar sýslumanns.

Þorkell var lögréttumaður og bjó á Fitjum[1]).

## Björgólfur Þorkelsson.

Faðir hans Þorkell vellingur, en ei veit eg hver hans móðir eða kona var eða um önnur börn hans, en Hákon sýslumann á Fitjum. Björgólfur tjáist að hafa verið sýslumaður í Þverárþingi, líklegast lögsagnari eptir föður sinn á 15. öldinni máske til þess Þorleifur Björnsson tók sýsluna. Um hann get eg ekkert með vissu skrifað[2]). Björgólfur bjó á Fitjum í Skoradal og var lögréttumaður ekki ólíklegt nálægt 1500.

## Einar Ormsson.

*Faðir*: Ormur Loptsson (frilluson Lopts ríka).
*Móðir*: Solveig dóttir Þorleifs Árnasonar og Vatnsfjarðar-Kristínar.

Um konu og börn Einars veit eg ekki[3]). Einar hélt um hríð Reykholt, en afhenti það til séra Rafns Gilssonar 1463 eptir Jóns biskups Krabba skipun. Hann meina eg hafi haft um hríð völd í Borgarfjarðarsýslu næst fyrir Þorleif Björnsson.

Loptur bróðir Einars afhenti téðan stað vegna Einars bróður síns, sem þá var dáinn.

## Þorleifur Björnsson.

(Sjá um hann við Dalasýslu). Fyrst getur þess, að Andrés Grænlendingabiskup veiiti Þorleifi Hruna 1461; honum

---

Son séra Lopts var Skapti prestur á Setbergi faðir séra Lopts s. st. föður séra Jóseps á Ólafsvöllum. Hefur sú ætt verið kraptmikil og stórfengleg niður eptir í marga liðu.

1) Þorkell vellingur finnst ekki í skjölum og heldur ekki Björgólfur sonur hans. Má telja alveg áreiðanlegt, að þeir hafi engin sýsluvöld haft í Borgarfirði, enda er þetta að eins laus getgáta hjá Boga.

2) Það er engin furða, því að hann er með öllu ókunnur, og enda ágizkun ein, að hann hafi verið lögréttumaður. Líkindi um framætt þessara feðga Þorkels og Björgólfs er í II, 555—557 (eptir Jósafat Jónasson) og er sú ættfærsla ekki ósennileg.

3) Það er vel kunnugt sbr. bls. 10—11.

sleppti hann 1462. Meðan faðir hans lifði mun hann hafa haft ýmsar sýslur. Þorleifur var fanginn af enskum í Rifi, þá faðir hans féll 1467, en Ólöf móðir hans útleysti hann. Stóð hann að flestra meining fyrir hirðstjórn með móður sinni 1468—69, og sem umboðsmaður hirðstjórans Henriks Kerkens 1470—1474. Þá lét hann og dóm ganga um arfleiðslu Lopts Ormssonar til Stefáns sonar síns og fleira. Sama ár gerði hann heimsókn að Oddgeirshólum og mátti þar fyrir taka aflausn og bæta fé. 1478 eða 1479 var Þorleifur hirðstjóri, því það ár kvitteraði hann Gísla Filippusson kongdómsins vegna um víg 1480 tók Þorleifur ýmsra merkismanna vitnisburði um hollustu sína við konginn, því hann þóttist vera rægður, fór hann utan og gekk í bræðralag í klaustri nokkru í Noregi, en kom út 1481 með hirðstjórn norðan og vestan. Var Diðrik Pinning hirðstjóri sunnan og austan, hafði hann þá og Vestmanneyjar og fleiri léni. 1482 var Diðrik Pinning einn hirðstjóri, en 1483 gerðist Þorleifur Björnsson hirðstjóri yfir land allt, og lét þá dóm ganga um fé Andrésar Guðmundssonar, hvern hann hafði látið fanga fyrir rán og gripdeildir.

Af áður sögðu sést, að Þorleifur hafði sýsluvöld frá ungdómi, fyrst af föður sínum til þess hann deyði, svo sem hirðstjóri 1467--69, þá sem fullmektugur hirðstjóra 1470—74, virkilegur hirðstjóri 1478—79, og yfir hálfu landi 1481, yfir öllu landinu 1483—1484.

Flestra meining er, að hann hafi dáið 1484, þó er það ekki fullvíst. Þess á millum hafði hann ýmsar sýslur, hvar á meðal öll Borgarfjarðarsýsla, Dala- og Barðastrandarsýsla, þó ei verði allshendis vitað þar á rétt áratal. Mín meining er, að hann hafi haldið að mestu í sífellu Borgarfjarðar- og Barðastrandarsýslur frá nálægt 1460 til síns dauða, en umboðsmenn hefur hann haft þá hann var fráverandi eða á utanferðum sínum, sem þá var títt.

## Eyjólfur Hjaltason

sýslumaður milli Botnsár og Hvítár nefndi 6 menn í dóm að Reykholti 1490 um að Ingimundur Finnsson hefði ei goldið sér skatt í fjögur ár, meðan hann hafði sýslu. Var það afsökun Ingimundar, að hann hefði verið nefndarmaður til alþingis. Leizt dómsmönnum sú afsökun ógild, og dæmdu að

hann ásamt skatthaldi á hverju ári skyldi betala þriðjung innan mánaðar, annan þriðjung í fardögum og hinn þriðja um Mikaelsmessu til sýslumanns. (Meira veit eg ei um hann)[1].

---

1) Eyjólfur Hjaltason er einn dómsmanna í tylftardómi á Öxarárþingi 30. júní 1474, útnefndum af Oddi lögmanni Ásmundssyni, og var hann þá lögréttumaður (Fbrs. V, 756—757). Því næst er hans getið á alþingi 1. júlí 1480 (Fbrs. VI, 273—274) við skipti á peningum Guðmundar Arasonar og 23. október 1490 (Fbrs. VI, 723—725) dæmir hann í Reykholti um skatthald Ingimundar Finnssonar, er Bogi getur um. Er hann þá kallaður »kongs-umboðsmaður millum Botnsár og Hvítár í Borgarfirði«. En skömmu síðar hefur hann dáið eða sleppt sýslunni, því að 1493 er Runólfur Höskuldsson þar sýslumaður (sbr. Fbrs. VII, 160). Eyjólfur bjó í Deildartungu og hét kona hans Halldóra Guðmundsdóttir Hrafnssonar. Var hún áður gipt Oddi Þorleikssyni, en eptir lát Eyjólfs giptist hún í 3. sinn Jóni Sigurðssyni, (ef til vill syni Æsu Jónsdóttur s. k. Hafliða Jónssonar sbr. bls. 314 n.m.). Hún gefur 7. september 1498 guði, jungfrú María, klaustrinu í Viðey og kirkjunni til fullrar eignar jörðina Hest í Borgarfirði gegn bænahaldi fyrir sál foreldra hennar (Guðmundar Hramssonar (Hrafnssonar) og Þuríðar Jónsdóttur) og bænda, er þá voru tveir dánir, en hinn 3. lifði (Fbrs. VII, 398—399). Sést af þessu, að Eyjólfur Hjaltason hefur andazt skömmu eptir 1490, 1491 eða líklega 1492, því að 23. okt. 1490 er hans síðast getið, en 28. jan. 1493 er Runólfur orðinn sýslumaður. Framætt Eyjólfs er ekki kunn.

**Runólfur Höskuldsson**

er sýslumaður millum Botnsár og Hvítár í Borgarfirði (ɔ: Borgarfjarðarsýslu) 1493, því að 28. janúar það ár útnefnir hann dóm á Heggsstöðum í Andakíl um ákæru Sigurðar Helgasonar til Guðmundar Þórðarsonar út af jörðinni Máhlíð í Lundarreykjadal (Fbrs. VII, 160—161). Hve lengi hann hefur haft sýsluna verður ekki séð, en um 1500 hefur hann tekið Mýrasýslu. Sjá um Runólf Höskuldsson hér að framan bls. 320—324, en þar er ágizkunin um ætterni hans ekki rétt, með því að eptir að það var prentað hefur komið í leitirnar af hendingu einni, að Runólfur hefur verið son Höskulds prests á Melum Hallsteinssonar á Hesti Höskuldssonar. Þetta sést af bréfi einu eða bréfságripi í visitazíubók Brynjólfs biskups um Sunnlendingafjórðung 1642, er dr. Jón Þorkelsson rakst á nýlega, og er þetta bréf nú prentað í Fbrs. VIII, 416—417. Bréf þetta er gert á Melum 15. febrúar 1513. Selur Runólfur þar Þórði presti Guðmundssyni hálfa jörðina Leirá

## Hákon Björgólfsson.

*Faðir*: Björgólfur sýslumaður í Þverárþingi son Þorkels vellings sýslumanns.

*Kona*: Guðrún Snorradóttir.

*Son*: A. Séra Ásgeir á Lundi, (hélt Lund um 20 ár fyrir 1560, dó þar nálægt 1580), átti Ingibjörgu Guðmundsdóttur Þórðarsonar, þ. b.:
- a. Snorri lögréttumaður og lögsagnari (sjá síðar).
- b. Björgólfur í Ási í Hálsasveit, lifði 1625, átti Sesselju frá Hjörtsey dóttur Halls sýslumanns Ólafssonar, þ. b.:
  - aa. Ásgeir átti Önnu dóttur Erlendar sýslumanns Magnússonar, þ. b.:
    - aaa. Guðrún[1]).

---

í Leirársveit með öllu tilteknu ásamt tveggja eða þriggja manna íferð í sölvafjöru í Belgsholti, eptir því sem Hallsteinn heitinn gaf kirkjunni, þá hann átti báðar jarðirnar (þ. e. Leirá og Belgsholt). Það er enginn efi á, að þessi Hallsteinn er Hallsteinn Höskuldsson á Hesti (Fbrs. IV, 658—659). Í vitnisburði Höskulds prests Hallsteinssonar 25. sept. 1512 (Fbrs. VIII, 409—410) segir hann beinlínis, að hann sjálfur hafi verið 50 vetur eða lengur á Melum og í Belgsholti. Í öðrum vitnisburði 2. nóv. 1510 (Fbrs. VIII, 331—32) segist Höskuldur prestur vera fæddur á Hesti og þá (1510) nær áttræður. Hann er því fæddur um eða litlu eptir 1430. Runólfur Höskuldsson er því fæddur 1455—1460, og kemur það allt vel heim. Hann kemur og fyrst við jarðakaup í Melasveit. Á ættfærslu þessari er því enginn vafi. Höskuldur prestur var enn á lífi 1517 og er þá getið Á m u n d a sonar hans. Gæti hann ef til vill verið sami maður og Ámundi smiður í Straumfirði faðir séra Indriða í Kálfanesi móðurföður Jóns lærða (sbr. ritgerð Jóns lærða Safn til s. Ísl. III. B.). Framætt Hallsteins Höskuldssonar á Hesti er ókunn. H ö s k u l d u r H a l l s s o n frændi Halldórs prests Loptssonar er nefndur í testamenti hans 1403 (Fbrs. III, 687) og Á m u n d i H a l l s s o n er prestur í Eyvindarhólum á fyrri hluta 15. aldar (Fbrs. IV, 604, 605, 611). En hvort þetta er sama ættin og Hallsteinsættin skal ósagt látið.

1) Guðrún átti Jón á Gullberastöðum og Hjalla Jónsson Teitssonar prests á Lundi Péturssonar, þ. b.:
a. Ásgeir skrifari Árna Magnússonar (sbr. bls. 104).

bbb. Kristín[1]).
ccc. Gróa, giptust og áttu börn[2]).
bb. Salómon í Geirshlíð, dó 1679 áttræður, átti Guðrúnu Jónsdóttur, þeirra börn:
aaa. Ingibjörg etc.[3]).
cc. Herdís átti Eirík Finnsson frá Ökrum, þ. b.:
aaa. Jón.
bbb. Finnur.
ccc. Guðlaug.

---

b. Þorsteinn í Þorlákshöfn átti Guðrúnu Jónsdóttur á Reykjum í Ölfusi Ásmundssonar af Klofaætt, þ. b.:
aa. Jón í Þorlákshöfn átti Margréti Brynjólfsdóttur frá Baugsstöðum Hannessonar, þ. b.: a) Ásgeir lögréttumaður á Vötnum faðir Einars í Sviðholti, b) Anna átti séra Einar Jónsson í Fellsmúla, c) Ólöf átti Þórodd Klemensson í Landeyjum, d) Brynjólfur stúdent í Kaupmannahöfn tók guðfræðispróf 1758 og dó s. á.
bb. Torfi. Hans börn: a) Jón á Brunnastöðum (sbr. bls. 103), b) Ingibjörg átti Magnús Guðmundsson á Brunnastöðum, c) Guðrún átti Erlend Eyvindsson frá Snorrastöðum, þ. b.: Torfi.

1) Kristín átti fyr Árna Jónsson á Gullsmiðsreykjum (II, 329) og börn, en síðar Jón sýslumann Runólfsson á Hjarðarfelli (bls. 275).

2) Gróa átti Ólaf Stefánsson, þ. b.:
a. Ragnhildur átti Ólaf Markússon frá Breið í Skagafirði Ólafssonar, og var s. k. hans, þ. b.: Ásgeir.

3) Ingibjörg var f. k. Ólafs Markússonar frá Breið (sjá hér á undan), þ. b.: Salómon (f. 1680) og Jón. Annað barn Salómons í Geirshlíð og Guðrúnar:
bbb. Þorgeir átti Þóru Tómasdóttur frá Arnbjargarlæk, þ. b.:
× Salómon á Högnastöðum átti Guðlaugu Þorbjörnsdóttur, þ. b.: Þorleifur á Lambastöðum, bl., og Þorbjörn skáld á Arnarstapa og Smiðjuhólsveggjum faðir Jóns skipasmiðs í Straumfirði og Árna á Örlygsstöðum í Skagafirði.

ddd. Guðrún.
eee. Sigríður.
fff. Kár[1]).

dd. Guðlaug átti Vigfús Eiríksson frá Ökrum, þ. b.
aaa. Séra Eiríkur.
bbb. Ólafur.
ccc. Jón.
ddd. Steinríður.
eee. Halldóra[2]).

ff. Guðrún átti séra Gamalíel Hallgrímsson[3]); þ. b.:
aaa. Séra Bjarni[4]).
bbb. Séra Gissur[5]).
ccc. Þorkell[6]).

---

1) Réttara: Kári. Sbr. um börn Eiríks Finnssonar II, 355—356.

2) Sjá um börn Vigfúsar og Guðlaugar II, 359—364.

3) Séra Gamalíel var prestur á Stað í Hrútafirði og var á lífi 1590. Hann var bróðir séra Þorláks á Staðarbakka föður Guðbrands biskups.

4) Séra Bjarni á Grenjaðarstað dó 1636.

5) Séra Gissur var prestur á Staðarbakka, dó 1650, átti Emerentíönu Jónsdóttur, þ. b.: séra Jón eldri prófastur í Múla († 1662), séra Jón yngri á Staðarbakka, séra Arngrímur á Hofi á Skagaströnd († 1658) og séra Pétur í Vestmanneyjum faðir séra Gissurar sama staðar († 1713) og séra Arngríms í Vestmanneyjum († 1740).

6) Þorkell var lengi ráðsmaðnr á Hólum. Börn hans:

a. Þorlákur sigldi til háskólans og varð þar »baccalaureus« í heimspeki 11. maí 1616, fékk 30. ágúst 1617 leyfi hjá háskólaráðinu til að stofna »prívat«-undirbúningsskóla í Kaupmannahöfn, en 25. júlí 1621 varð hann prestur við Hvidovrekirkju, hinn fyrsti Íslendingur, er fékk prestsembætti í Danmörku eptir siðabótina. Hann andaðist litlu síðar í janúar 1622 (sbr. aths. við »Jon Olafsson Indiafares Memoirer« Kbhvn. 1905 bls. 28).

b. Guðrún átti séra Þorberg Ásmundsson kirkjuprest á Hólum († 27. nóv. 1659). Um þeirra börn sjá II, 288.

ddd. Ingunn[1]).
eee. Ragnhildur[2]).
fff. Scholastica[3]).
c. Tyrfingur Ásgeirsson í Hjörsey átti Þórdísi dóttur Halls sýslumanns; börn.
aa. Séra Þorsteinn í Hvammi.
bb. Guðrún.
cc. Sigurður.
dd. Þorgerður.
ee. Bjarni[4]).
d. Herdís Ásgeirsdóttir, þriðja kona Arnórs sýslumanns í Strandasýslu, Loptssonar; þeirra son:
aa. Ásgeir í Ljárskógum (sjá Strandasýslu).
e. Ástríður Ásgeirsdóttir fyrri kona Guðmundar lögréttumanns í Norðtungu, Hallssonar sýslumanns í Mýrasýslu.
f. Ragnhildur Ásgeirsdóttir átti Sigurð í Einarsnesi son Jóns Magnússonar og Þórlaugar dóttur séra Ólafs Kolbeinssonar í Saurbæ; börn:
aa. Jón sýslumaður (sjá Mýrasýslu).
bb. Þóra átti Magnús Þorvarðsson frá Suður-Reykjum Þórólfssonar á Hjalla Eyjólfssonar; þ. b. Þorvarður, Sigurður, Þuríður, Kristín, Guðrún.
cc. Ingibjörg átti séra Sigurð Finnsson frá Ökrum; þ. b:
aaa. Þórlaug.
bbb. Sigríður.

1) Ingunn átti Benedikt Teitsson á Ásgeirsá og var f. k. hans.

2) Ragnhildur átti Svein Bjarnason í Gröf í Sökkólfsdal. Meðal barna þeirra: Bjarni faðir Bergþórs föður Þorgils föður Sigurðar á Jörfa föður Þorsteins sýslumanns í Múlaþingi (sjá þar).

3) Skolastika átti Rafn Sigurðsson, þeirra son Hálfdan prestur á Undirfelli († 15. nóv. 1665), sem mikil ætt er frá komin.

4) Sjá um börn Tyrfings hér að framan bls. 334—36.

ccc. Eiríkur.
ddd. Finnur[1]).

dd. Halla átti Einar Teitsson frá Ásgarði; þ. b.:
aaa. Pétur á Ballará.
bbb. Magnús í Ásgarði.
ccc. Helgi.
ddd. Katrín.
eee. Guðríður.
fff. Sesselja.
ggg. Einar[2]).

ee. Ástríður átti Henrik son Erlendar sýslumanns Magnússonar; þ. b.:
aaa. Ingibjörg.
bbb. Guðrún.

ff. Runólfur á Brennustöðum[3]), átti fyr Elínu Guðmundsdóttur; börn:
aaa. Jón sýslumaður.
bbb. Solveig.
ccc. Þórður. Seinni kona Runólfs Ragnheiður Jónsdóttir; þ. b:
ddd. Þorvarður.
eee. Sigurður.
fff. Jón.
ggg. Ragnheiður.

gg. Bjarni Sigurðsson átti Bergljótu Grímsdóttur; þ. d.:
aaa. Kristín giptist og átti börn.

g. Þuríður Ásgeirsdóttir átti Helga Vigfússon á Hvítárvöllum; þ. b.:

aa. Snorri, seinni maður Halldóru Einarsdóttur prests Þórðarsonar; þ. b.:
aaa. Ingiríður.
bbb. Guðrún, giptust báðar og áttu börn.

---

1) Um börn séra Sigurðar er getið II, 350—352.

2) Um börn þessi sbr. II, 642—644.

3) Um Runólf á Brennistöðum og næstu afkomendur hans sjá hér að framan bls. 258—274.

bb. Margrét, átti Erling Jónsson frá Hraunskarði; þ. b.:
aaa. Guðmundur.
bbb. Jón.
ccc. Brynjólfur.
ddd. Þórlaug[1]).
eee. Katrín.

Seinna átti Margrét Jón Tómasson í Lóni, þau áttu eina dóttur, dó bl. Launson Margrétar:
fff. Jón.

cc. Kristín Helgadóttir átti Guðmund Ólafsson; þ. b.
aaa. Guðlaug gipt, átti b.

dd. Agata átti Eyjólf Ísleifsson[2]); þ. b.
aaa. Sesselja.
bbb. Erlendur[3]).
ccc. Þuríður.
ddd. Elín.
eee. Sigríður.
fff. Helgi.
ggg. Guðmundur á Melum undir Eyjafjöllum[4]).
hhh. Valgerður.

---

1) Þorlaug átti séra Jón Sigurðsson í Miklaholti († 1714), þ. b.: Pétur aðstoðarprestur í Miklaholti († 1707), Erlingur dó ókvæntur, Þórður á Bug og Margrét. Ein dóttir Þórðar Guðrún átti fyr Sigurð Jónsson, svo Gottskálk Helgason, þeirra son Jón í Bjarnarfosskoti, hans son Ögmundur ráðsmaður á Staðarstað, faðir Sigurðar stúdents í Arnartungu († 1818) föður Runólfs á Skerðingsstöðum í Reykhólasveit.

2) Eyjólfur var sonarson Eyjólfs sýslumanns Halldórssonar frá Saurbæ, og verður síðar getið ættar frá honum.

3) Á að vera: Erlingur, hann var lögréttumaður og bjó í Blönduholti í Kjós. Synir hans voru prestarnir: séra Hannes í Arnarbæli, séra Jón á Ólafsvöllum og séra Gísli sama staðar. Frá honum komin Reykjaætt á Skeiðum, er síðar verður getið nánar.

4) Réttara mun: Melum á Kjalarnesi.

ee. Séra Vigfús við Hellna, prestur 52 ár, dó 1674, átti Halldóru dóttur Nikulásar Oddssonar á Kjallaksstöðum; þ. b.:
aaa. Helgi[1]).
bbb. Árni[2]).
ccc. Guðný[3]).
ff. Halldór í Arnarholti átti Lísibet Ísleifsdóttir; þ. b.:
aaa. Séra Guðmundur í Ógurþingum.
bbb. Þórður[4]).
ccc. Guðrún[5]).
ddd. Katrín[6]).
eee. Sesselja[7]).
fff. Árni[8]).

---

1) Son Helga var Helgi faðir Vigfúsar spítalahaldara á Hallbjarnareyri föður Ásgríms Hellnaprests.

2) Árni bjó á Heydalsá. Son hans var Vigfús sýslumaður (bls. 291).

3) Guðný átti Skapta Torfason á Laugarbrekku.

4) Dóttir Þórðar Halldórssonar var Elizabet. Launson hennar með Ólafi Jónssyni lögsagnara á Eyri var Árni prestur í Gufudal (II, 133—134).

5) Guðrún átti Þorleif á Tindum í Geiradal Einarsson prests á Stað á Reykjanesi Guðmundssonar, þeirra son:
a. Ísleifur prestur á Eyri í Skutulsfirði. Synir hans: Guðmundur prestur á Þæfusteini og Torfi prestur á Stað í Súgandafirði, faðir Guðrúnar konu séra Friðriks Guðmundssonar á Borg.

6) Katrín átti séra Guðmund Einarsson í Skarðsþingum, bróður Þorleifs á Tindum, þ. b.: Jón faðir Latínu-Bjarna (Bjarna djöflabana) á Knerri.

7) Sesselja var f. k. Odds Eiríkssonar á Fitjum. Meðal þ. b. voru: a) Eiríkur prestur í Hrepphólum, b) Þorbjörg kona séra Sveins Pálssonar í Goðdölum, c) Helga kona séra Halls Ólafssonar í Grímstungum, d) Kristín kona Þórarins Jónssonar ríka á Ásgeirsá og e) Valgerður átti Árna Ketilsson.

8) Dóttir Árna Halldórssonar var:
a. Halldóra móðir séra Péturs Björnssonar á Tjörn á Vatnsnesi,

ggg. Helga.
h. Sigurður Ásgeirsson, átti Sesselju Einarsdóttur; þ. b.:
aa. Steinunn átti Eirík Jónsson á Langárfossi[1]); þ. b.:
aaa. Sigurður.
bbb. Ari.
ccc. Jón.
ddd. Ásgeir.
bb. Ástríður.
cc. Jón.
dd. Ari[2]).
ee. Steindór.
ff. Eiríkur.
i. Nikulás Ásgeirsson átti Guðlaugu Einarsdóttur frá Hvanneyri; börn:
aa. Jón, átti Guðríði Henriksdóttur laungetna.
bb. Guðrún átti Nikulás Illugason; þ. b.:
aaa. Illugi[3]).
bbb. Jón.

---

er haldinn var son Halldórs prófasts Hallssonar á Breiðabólsstað. Son séra Péturs:
aa. Pétur prófastur á Víðivöllum († 29. júlí 1842) faðir Péturs biskups, Brynjólfs stjórnardeildarforstjóra, Jóns háyfirdómara (bls. 374—76 hér að framan) og Elinborgar konu séra Sigurðar Arnþórssonar á Mælifelli.

1) Sbr. II. 350.

2) Ari bjó á Fitjum. Son hans:
a. Sigurður dó í stóru bólu. Son hans:
aa. Ari á Fitjum. Hans dóttir:
aaa. Ingibjörg átti Jón Runólfsson í Dagverðarnesi í Skoradal, þeirra son: Ari Skordal prestur á Stað í Aðalvík († 29. nóv. 1831) átti Guðrúnu Helgadóttur frá Heysholti a Landi Erlendssonar á Hæringsstöðum Helgasonar. Hún átti síðar séra Stefán Hansson í Fljótshlíðarþingum.

3) Illhugi bjó í Eystra-Miðfelli á Hvalfjarðarströnd, dó 1715.

ccc. Sesselja[1]).

k. Hákon Ásgeirsson prestur[2]) átti Ragnheiði Steindórsdóttur, aðrir segja hana Styrsdóttur[3]). Hákon var launson; börn:

aa. Séra Snorri í Tröllatungu í 16 ár, dó 1633, átti Þorkötlu; þ. b.:

aaa. Bjarni.

bbb. Rannveig.

Laundóttir séra Snorra var:

ccc. Þuríður, sem átti Odd Sigurðsson.

Seinni kona séra Hákonar á Lundi var Guðrún dóttir séra Snorra á Akranesi[4]); þau áttu börn.

l. Ingibjörg.

m. Snorri.

n. Þóra, voru og séra Ásgeirs börn; en

o. Þórður telst hans launsonur.

B. Valgerður var dóttir Hákonar sýslumanns en ei veit eg hvort sammæðra, hana átti Ari Ólafsson; börn:

a. Ásgeir faðir Rósu móður Oddnýjar sem átti Gísla Bjarnason á Skarði[5]).

b. Margrét.

---

1) Sesselja átti Ísleif Jósepsson prests á Ólafsvöllum Loptssonar, þ. b.:

a. Jón í Dagverðarnesi í Skorradal átti Gróu Ólafsdóttur frá Skarði í Lundarreykjadal, þ. b.:

aa. Ísleifur á Reykjum í Lundarreykjadal, h. b.: Jörundur og Sigurður á Þverfelli.

2) Hákon var prestur á Kjalarnesi.

3) Það mun réttara.

4) Þetta mun rangt. Guðrún dóttir séra Snorra Jónssonar í Görðum á Akranesi mun hafa verið s. k. séra Ásgeirs á Lundi föður séra Hákonar, og svo telur Snókdalín, en nefnir ekki konu séra Hákonar.

5) Sjá um þetta bls. 107 n.m. Bjarni í Ási son Gísla hefur eflaust ekki verið stúdent, eins og gizkað er á bls. 110, og sá »Bernhardus Gislavius«, sem skrifaður er í stúdentatölu við há-

c. Margrét yngri átti séra Torfa Þorsteinsson[1]).

Hákon sýslumaður bjó á Fitjum í Skorradal. Óljóst er mér, hvenær hann hefir tekið Þverárþing[2]) eða slept því, þó hygg eg hann hafi það tekið nálægt 1500 og haldið það fram yfir 1520 eða lengur. Engan hans dóm hefi eg séð, utan þann, er hann með 6 mönnum, miðvikudag næstan fyrir hvítasunnu 1507[3]) lét ganga að Saurbæ á Hvalfjarðarströnd, um nautarekstur á Skorradalsafrétt, og áður 1503 að Saurbæ við Hvalfjörð lét hann með 6 mönnum ganga dóm um peningsusla[4]). 1525 þá Erlendur lögmaður giptist á Staðarfelli Þórunni Sturludóttur var Hákon kaupvottur og máske þá enn sýslumaður. 1530 var hann dómsmaður á alþingi[5]).

---

skólann 16. des. 1671 er ekki Bjarni í Ási, heldur Bjarni son Gísla prests Brynjólfssonar á Bergsstöðum, er varð aðstoðarprestur hjá föður sínum 1674, en prestur þar skamma hríð og dó um 1680.

1) Séra Torfi á Gilsbakka dó 1622. Frá honum er allmikil ætt komin.

2) Hákon hafði sýslu í Dölum um 1500 (sbr. II, 555—557).

3) Sbr. Fbrs. VIII, 149—150.

4) Þessi dómur finnst ekki í Fornbréfasafninu, að minnsta kosti ekki með því ártali.

5) **Jón Þórðarson.**

Hann var son Þórðar Sigurðssonar á Borg og bróðir Vigfúsar ríka á Borg (sjá hér að framan bls. 324, 387). Hann mun vera fæddur um 1470, eða ef til vill nokkru fyr, en hefur líklega komizt að Hvanneyri um 1500 eða litlu síðar eptir Ketil Jónsson Ketilssonar, er átti þá jörð og bjó þar. Ef til vill hefur Jón átt eitthvað í jörðinni áður vegna skyldleika síns við Auðunn Salómonsson, sem lítill vafi er á. 1507 býr Jón á Hvanneyri og kemur þá fram með bréf Auðunnar Salómonssonar, að hann hafi lúkt kirkjunni á Hvanneyri Smáhamrareka í Steingrímsfirði. Er bréf um þetta gert í Skálholti 9. apríl 1507 (Fbrs. VIII, 139—140). Hinn 19. maí s. á. útnefnir Hákon sýslumaður Björgólfsson 6 manna dóm í Saurbæ um kæru Jóns Þórðarsonar um geldnautarekstur í jörð hans Drageyri í Skorradal (Fbrs. VIII, 149—150). Þessi Jón er eflaust Jón á Hvanneyri. Hann mun hafa haft sýsluvöld í Borgarfirði um tíma um og eptir 1520, því að það er lítill vafi á, að hann er sá Jón Þórðarson, er nefnir dóm á Leirá 1525 um ákæru Lýtings Einarssonar á þá menn, er peningum höfðu lofað til giptingar Oddi heitn-

## Guðmundur Gíslason.

*Faðir*: Séra Gísli Arnbjörnsson fyrst heimilisprestur hjá Ólöfu ríku á Skarði, svo í Gaulverjabæ; hans börn: séra Stefán í Gaulverjabæ, séra Felix í Saurbæ á Kjalarnesi, séra Jón í Hraungerði, svo Gaulverjabæ og Guðmundur. Faðir Gísla var Arnbjörn prestur Salómonsson, er tjáist að hafa verið í Gaulverjabæ. Óljóst er mér um hans barnamóður[1]).

*Börn*: A. Þórður lögmaður.
B. Brandur á Leirá[2]); þ. b.:
a. Torfi í Höfn.
b. Ólafur.

---

um Einarssyni bróður hans (Á. M. Fornbréfasafn). [Lýtingur bjó í Súlunesi og hefur verið son Einars Oddssonar, er kemur við bréf í Borgarfirði á síðari hluta 15. aldar. Son Lýtings Ásmundur faðir Þormóðs í Bræðratungu]. Hvenær Jón Þórðarson á Hvanneyri hafi dáið er mér ókunnugt, en 1542 er hann látinn. Hann átti Ragnhildi dóttur Einars Þórólfssonar á Hofstöðum (sbr. bls. 257). Son þeirra var Eiríkur prestur í Reykholti og Gilsbakka faðir Einars á Hvanneyri (sjá hér síðar). Jón og Ragnhildur áttu og tvö börn önnur Magnús og Sigríði og eru ættir frá þeim komnar (sbr. II, 285).

1) Þessi ættfærsla á föður Þórðar lögmanns er áreiðanlega röng. Það má telja víst, að hann hafi verið Þórðarson og búið í Þingnesi, en að öðru leyti er ætt hans gersamlega ókunn. Að telja Guðmund föðurbróður Gísla biskups, eins og hér er gert og víðar, er alveg rangt, en geta mætti þess til, að hann hafi verið móðurbróðir hans, því að móðir Gísla biskups hét Vilborg Þórðardóttir, og bróður sammæddan átti Gísli biskup, er Guðmundur hét (Biskupaannálar Jóns Egilssonar Safn til sögu Ísl. I, 112). Í ættatölum gat skyldleiki þessi ruglazt þannig saman. Gísli son Þórðar lögmanns hefði þá átt að heita í höfuðið á Gísla biskupi. Séra Jón Egilsson tekur það skýrt fram (Safn I, 104), að þeir hafi ekki verið nema þrír bræðurnir Gíslasynir: séra Stefán, séra Felix og séra Jón (faðir Gísla biskups), en nefnir ekki Guðmund. Guðmundur Gíslason, sem talið er að hafi búið í Deildartungu hefur verið af annari ætt. Að hann hafi haft sýsluvöld í Borgarfirði er mér ekki kunnugt um, og yfirleitt ekkert um hann.

2) Séra Jón Egilsson (Safn til sögu Ísl. I, 51) telur Brand á Leirá bróðurson Stefáns biskups Jónssonar, en í gamalli ættatölu

c. Valgerður[1]) átti fyrr Pétur Sveinsson og 4 dætur, svo Hallkel; þeirra son:

aa. Stefán prestur í Laugardælum átti börn[2]).

D. Ingibjörg[3]) átti séra Ásgeir á Lundi Hákonarson (sjá áður).

E. Illugi[4]) faðir Jódísar[5]) móður Þorsteins í Höfn.

Guðmundur bjó í Deildartungu og nefnist í ættartölum sýslumaður í Borgarfirði; er líkast hann hafi þar sýslu haldið eptir 1520 í annars umboði.

## Grìmur Jònsson.

Hálærður og ættfróðasti dr. Hannes biskup Finnsson meinar Grím þann sama, er lögmaður var og bjó á Ökrum í Skagafirði um 1520, og upp á þann grundvöll sýni eg, hvort það getur heim komizt.

*Faðir* Gríms: Jón Guðmundsson (sjá Húnavatnssýslu).

*Móðir* Gríms en kona Jóns var Sesselja laundóttir Sumarliða Loptssonar ríka. Móðir Sesselju var Karítas Grímsdóttir. Sumarliði vildi ekki viðganga faðerni Sesselju, sór því Karítas Grímsdóttir fyrir séra Jóni Kolbeinssyni, Sumarliða Loptsson svo saman föður, sem hún var móðir.

*Kona* Grims hin fyrri (eptir áður nefndri undirrót) Guðný dóttir Þorleifs hirðstjóra, Björnssonar ríka.

*Börn*: A. Jón á Ökrum í Skagafirði (sjá Dalasýslu).

---

frá miðri 17. öld (Lbs. 199 4to.), er hann talinn Magnússon. Að hann hafi verið bróðir Þórðar lögmanns er eflaust rangt.

1) Valgerður þessi var ekki systir Þórðar lögmanns heldur bróðurdóttir Stefáns biskups. Pétur f. m. hennar (Pétur »ríkismannafæla«) var son Sveins biskups spaka Péturssonar.

2) Frá Stefáni presti Hallkelssyni í Laugardælum er mikil ætt komin. Sonarsonarson hans var séra Björn Stefánsson á Snæfoksstöðum († 1717) móðurfaðir Finns biskups.

3) Ingibjörg kona séra Ásgeirs var systir Þórðar lögmanns.

4) Það er nokkuð óvíst, að Illhugi þessi hafi verið bróðir Þórðar lögmanns.

5) Maður Jódísar var Þorgeir Ingimundsson. Þorsteinn í Höfn son þeirra var föðurfaðir séra Snorra Björnssonar á Húsafelli.

B. Guðrún, sem átti Tómas á Þorleifsstöðum (sjá þar).

C. Sigríður, sem átti Magnús á Reykjum (sjá Dalasýslu)[1].

*Kona* Gríms sú seinni[2]) ætla eg verið hafi Guðrún laundóttir Torfa Andréssonar í Saurbæ á Rauðasandi Arasonar, eða einhver nákomin Ara Andréssyni (þessi Guðrún giptist seinna eptir dauða Gríms Jóni Konraðssyni.

*Börn*: D. Jón, sjá um hann við Mýrasýslu.

E. Bergþór, sem âtti Vatnshorn í Haukadal, og gaf það með sér Guðbrandi biskupi í próventu. Þá jörð seldi Guðbrandur biskup 1633 Bjarna sýslumanni á Staðarhóli Péturssyni. En Bjarni gaf Herdísi dóttur sinni Vatnshorn í heimanfylgju.

F. Agnes Grímsdóttir átti Halldór Brandsson, Helgasonar[3]); börn:

a. Vigdís átti fyrr Þorvald Björnsson á Æsustöðum; þeirra börn:

aa. Halldór.

bb. Björn í Haukadal í Dýrafirði, faðir Þorvaldar samastaðar[4]).

G. Jón Grímsson laungetinn, faðir Valgerðar, sem átti Jón Jónsson Hálfdanarsonar Guðmundssonar[5]).

Grímur mun hafa verið borinn nálægt 1490[6]), því 1506

---

1) Um börn Gríms lögmanns og Guðnýjar sjá II, 536—538.

2) Sjá um þetta hér síðar.

3) II, 534.

4) I, 517.

5) Sbr. I, 314.

6) Við kaupmála Sigurðar Þorleifssonar og Kristínar Finnbogadóttur í Ási í Kelduhverfi 24. júní 1489 (Fbrs. VI, 660—661) eru meðal vottanna Jón Guðmundsson og Grímur Jónsson. En heldur snemma er það til þess, að þetta séu feðgarnir Jón Guðmundsson og Grímur lögmaður son hans; þó gæti það verið, því að eflaust er Grímur lögmaður fæddur alllöngu fyrir 1490 (sbr. Safn til sögu

(al. 1508[1]) við samning Björns sýslumanns Guðnasonar og Gríms, hefir hann verið kominn til lögaldurs. 1517 hafa foreldrar Gríms verið dánir og Ari í Bæ á Rauðasandi hafði með ofríki eða einhverju lagayfirskyni tekið þeirra eignir, því téð ár lætur Björn sýslumaður Guðnason dóm ganga og dæmir Grími til handa arf allan eptir foreldra sína, en undan yfirráðum og aðtektum Ara Andréssonar í Bæ. Um þetta leyti hefur Grímur mátt giptast sinni fyrri konu Guðnýju Þorleifsdóttur, og flutzt norður til Skagafjarðar að Ökrum, og máske tekið þar sýslu ásamt lögmannsembætti 1520[2]), hverju hann hélt til 1523, þá Teitur Þorleifsson var kjörinn lögmaður, þó er ei víst að Grímur hafi haldið Hegranesþing; þá Grímur hefir séð uppgang Teits, en ráðríki Jóns biskups Arasonar og Rafns, er um það leyti var í uppgangi, og máske tekið Hegranesþing, og annað hafi Grímur þá mist Guðnýju konu sína, hefir það verið full orsök, að hann flutti sig frá Ökrum og að Síðumúla, einkum hafi hann þá fengið Borgarfjarðarsýslu, er eg meina verið hafi nálægt 1530, en slept henni nálægt 1540[3]).

---

Ísl. II, 110). Grími lögmanni á Ökrum er í ættatölum og víðar blandað saman við Grím Jónsson í Síðumúla, er hefur verið allt annar maður en Grímur lögmaður og að mun yngri. Finnast og engar heimildir fyrir því, að Grímur lögmaður hafi búið í Síðumúla. Grímur lögmaður hefur líklega verið einkvæntur og átt Guðnýju Þorleifsdóttur, þeirra son Jón á Ökrum o. fl., en Grímur Jónsson í Síðumúla átti Þorbjörgu nokkra (sjá hér síðar).

1) Þessi samningur hefur verið um 1508 eða síðar (Fbrs. VIII, 262—263). Í vitnisburði frá 1508 um fjárkröfur Þorvarðs lögmanns Erlendssonar til Gríms Pálssonar (Fbrs. VIII, 239—240) er Grímur Jónsson nefndur fyrstur vottanna, og er vitnisburðurinn gefinn í Samkomugerði í Eyjafirði. Þessi Grímur er eflaust Grímur á Ökrum.

2) Grímur varð lögmaður 1519.

3) Það er ágizkun ein og án efa gersamlega röng, að Grimur hafi flutt sig frá Ökrum að Síðumúla, og verður síðar getið, hvernig á því muni standa. Grímur lögmaður er enn á lífi nyrðra 1540, því að það er vafalítið, að hann sé sá Grímur Jónsson lögréttumaður, er ritar undir bréf á alþingi það ár með Jóni biskupi Arasyni, Ara lögmanni o. fl. um siðaskiptin og framferðir konungsfógetans, Kláusar von Merwitz, o. fl. (Safn til s. Ísl. II, 203—206).

Grímur hefir orðið að giptast sinni seinni konu fyrir 1530, því Jón sonur þeirrar konu var sveinn Jóns biskups Arasonar, hefir það verið fyrir 1550.

Að Gríms seinni kona hafi verið afkomari eða náskyld Ara Andréssyni í Bæ, má þar af ráða, að Jón Grímsson vildi brigða Bæ af Eggert lögmanni Hannessyni seinna, sem varð óvildarefni. Þó eg hafi ekki fullvissu fyrir öllu áður skrifuðu munu fróðir menn sjá, að ei er aldeilis ómöguleg meining biskups Hannesar, og getur máske staðizt.

Hafi Grímur í Síðumúla tekið Húsafell 1568 (sé það ártal ekki vilt) hefur hann þá mátt vera nærri áttræður[1]) og

---

1) Það var Grímur Jónsson í Síðumúla, er tók Húsafell 1568. Kona hans hét Þorbjörg segir séra Jón Halldórsson (í prestaæfum sínum) og höfðu þau verið fyrir búi Daða Guðmundssonar þar í Síðumúla, og gefur hann honum í testamenti sínu (sbr. bls. 53 hér að framan). Um 1578 hefur Grímur sá andazt, því að það ár tekur séra Eiríkur Grímsson út Húsafell af Jóni Grímssyni eptir föður hans. Sá Jón var faðir séra Gríms á Húsafelli, en faðir Gríms í Síðumúla hefur líklega verið sá Jón Grímsson, er handhjó séra Odd Halldórsson í Gaulverjabæ á Varmalækjarbökkum á dögum Ögmundar biskups, sbr. Biskupaannála Jóns Egilssonar í Safni til s. Ísl. I, 80, því að séra Jón Egilsson kallar hann afa séra Jóns Grímssonar, en raunar var Jón Grímsson faðir séra Gríms á Húsafelli ekki prestur, en hafði Húsafell að léni þrisvar sinnum (síðast 1615), og er því skiljanlegt, að séra Jón kalli hann prest.

Við rannsóknir um þetta hefur mér dottið í hug skýring á því, hversvegna Grími lögmanni Jónssyni á Ökrum í Skagafirði og Grími Jónssyni í Síðumúla er alstaðar blandað saman. Grímur í Síðumúla hefur einmitt verið ættaður frá Ökrum, en ekki Ökrum í Skagafirði, heldur Ökrum í Hraunhrepp. Og þetta hefur svo valdið ruglingnum á þessum alnöfnum. Föðurfaðir Gríms í Síðumúla hefur ef til vill verið Grímur Aronsson prests á Ökrum í Hraunhrepp Helgasonar. Grímur og Helgi bróðir hans selja Guðna Jónssyni Hjörtsey 1478 og 1480 (Fbrs. VI, 133—135, 258—260) er var föðurleifð þeirra. Ef til vill hafa þeir og átt Akra eða eitthvað í þeim og selt þá Arnóri sýslumanni Finnssyni um 1500 (sbr. bls. 319) þótt ekki séu nú til bréf fyrir því. Sum bréf, sem þeir koma við eru einmitt gerð á Ökrum. Í sambandi við þetta getur það staðið, að í sumum ættartölum eru þeir bræður taldir

hefði hann lifað til 1578, þá séra Eiríkur tók Húsafell, mátti hann vera níræður; en mér er dulið nær Grímur deyði.

Enga dóma Gríms hefi eg séð, en sé það Grímur lög-

---

synir Arnórs Finnssonar (sbr. bls. 318), en auðvitað er það sennilegt, að það stafi aðeins af nafnalíkingunni Aron og Arnór. Að Daði í Snóksdal annaðist að nokkru leyti börn Gríms í Síðumúla getur og staðið í sambandi við kaup ættmanna hans á höfuðbólinu Ökrum.

Tímans vegna kemur það mjög vel heim, að Grímur í Síðumúla hafi verið sonarson Gríms Aronssonar frá Ökrum. Ættin yrði þá þannig:

Grímur Aronsson prests Helgasonar f. c. 1440.
|
Jón Grímsson (sá er handhjó Odd Halldórsson á dögum Ögmundar biskups) f. c. 1480—85,
|
Grímur Jónsson í Síðumúla f. c. 1510, † c. 1578.
|
Jón Grímsson, er hélt Húsafell f. c. 1550 lifði 1618.
|
Grímur Jónsson prestur á Húsafelli f. c. 1581, † 1654.

Önnur börn Gríms í Síðumúla hafa líklega verið: 1) Jón í Norðtungu, er veginn var 1570, ef til vill launson Gríms og eldri en Jón faðir séra Gríms á Húsafelli, líklega fæddur um 1530—40. 2) Bergþór, sem talinn er í ættatölum sonur Gríms lögmanns. Átti hann Vatnshorn í Haukadal, og hefur eflaust verið meðal þeirra barna Gríms í Síðumúla, er Daði í Snóksdal hefur hjálpað eða alið upp (sbr. testamenti hans). 3) Agnes, sem átti Halldór Brandsson (sjá hér áður) og einnig er talin (ranglega) dóttir Gríms lögmanns. Jón Grímsson, sá er veginn var 1570, átti launson Vigfús að nafni með Kristínu dóttur Vigfúsar lögmanns Erlendssonar, að því er talið er, og gæti það bent á, að hann væri fæddur fyr en um 1530—40 t. d. 1520—25, en það er t. d. ekkert á móti því, með því að Grímur í Síðumúla getur vel verið fæddur um 1500, og Jón faðir hans c. 1475, en handhögg Odds verið um 1520—30. En ekki vil eg neitt fullyrða um, að Jón í Norðtungu hafi verið son Gríms í Síðumúla, en skilgetinn son Gríms lögmanns mun hann tæplega verið hafa. En það er víst, að Grímur í Síðumúla hefur verið afi séra Gríms á Húsafelli og líklega sonarson Gríms Aronssonar frá Ökrum. Aron Grímsson prestur, sem er einn votta við kaupmála Bjarna Andréssonar og Guðrúnar Björnsdóttur 7. nóv. 1507 (Fbrs. VIII, 165—166) hefur verið son Gríms Aronssonar. Sá Jón Grímsson, sem talinn er að hafi verið sveinn Jóns biskups Ara-

maður sem fyrr var á Ökrum, er ekkert annað líkara, en hann hafi haft sýslu þá hann flutti í Borgarfjörð. 1540, þá margir skrifuðu undir klögun þá, er Jón biskup Arason lét gera yfir Claus von Mervits, er Grímur Jónsson á Ökrum í þeirri tölu, en hafi hann farið að Síðumúla, sem fyrr er sagt, hefur hann þá eigi verið á Ökrum[1]).

1517[2]) við Leiðarhólmssamþykkt hefur hann verið giptur og fluttur að Ökrum.

(Eg held þetta hafa verið annan mann, en Grím á Ökrum. Akra-Grímur átti Guðnýju og þar talin börn, en Síðumúla Grímur Guðrúnu og seinna talin börn; það kemur illa heim við Cronologiam).

## Jòn Jònsson.

(Eg veit ei hverrar ættar). Hann bjó í Bæ í Borgarfirði og hélt Þverárþing, meina eg hann hafi það tekið nálægt 1540. Hans dóma hef eg séð þar. 1542 lét hann dóma ganga um Grímsstaðasel, hvar Ragnhildur Einarsdóttir ekkja Jóns Þórðarsonar á Borg átti hlut að (sjá biskups Finns Langfeðgatal), 1544 lét hann dóm ganga um jörð og kúgildi á Heggstöðum; 1549 getur hans enn við dóma, en það ár slepti hann Þverárþingi sunnan Hvítá, en hélt sýslu vestan Hvítá. 1550 var hann með 30 menn á Sauðafelli, að fylla flokk biskups Jóns Arasonar, var þó ekki í bardaganum sjálfur, hafði samt 30 menn. Það ár mun hann og hafa mist Mýrasýslu, en þó dæmdi hann (eg meina í umboði Daða) þar 1552 og aptur 1553 um ólöglega jarðarábúð[3]).

---

sonar mun hafa verið Jón á Ökrum son Gríms lögmanns, en ekki nafni hans í Norðtungu, eins og Bogi segir (sjá Mýrasýslu) bls. 339. Annars er ekki svo auðvelt með fullri vissu úr þessari flækju að greiða. En það verður ef til vill allt ljósara, er bréfin frá fyrri hluta 16. aldar eru prentuð.

1) Hér hefur þó Bogi séð, að hæpið væri að fullyrða, að Grímur lögmaður á Ökrum og Grímur í Síðumúla væri einn og sami maður.

2) Leiðarhólmssamþykkt var 1513.

3) Sbr. um Jón þennan hér að framan bls. 326.

## Oddur Gottskálksson.

(Sjá um hann við Hegranessþing[1]). Hann tók Reykholt að veiting og flutti þangað frá Reykjum í Ölfusi 1547. Ritað er og, að hann hafi haldið Mela, en lét presta þjóna á báðum stöðunum fyrir sig, vildi ei sjálfur prestvígslu taka. 1549 tók hann Þverárþing sunnan Hvítá, 1550 lét hann með 6 mönnum dóm ganga á Kjalardal um lausamenn, sama ár lét hann og dóm ganga að Þingnesi, er var samþykktur af Erlendi lögmanni. 1553 slepti hann Borgarfjarðarsýslu, þá hann fékk Hegranessþing og Reynistaðarklaustur. 1554 gerðist hann lögmaður norðan og vestan og hafði Húnavatnsþing í lögmannslaun. Hann hélt samt Reykholti, þó hann hefði öll hin léni. 1556 drukknaði hann í Laxá í Kjós á ferð til Bessastaða. Oddur var hinn nýtasti maður í sinni tíð, einkum í því að framfylgja siðaskiptunum.

## Þórður Guðmundsson.

*Faðir*: Guðmundur son Erlendar Jónssonar (Erlendur var bróðir Stefáns biskups, Ingibjörg kona séra Ásgeirs á Lundi var systir Þórðar). Aðrar ættir segja Guðmund son séra Arnbjarnar Salómonssonar, bróður séra Gísla föðurföður séra Gísla í Selárdal, og enn aðrir segja, að Guðmundur faðir Þórðar lögmanns hafi verið Gíslason prests í Gaulverjabæ Arnbjörnssonar, og að Guðmundur hafi búið í Deildartungu og svo í Þingnesi (sjá hér á undan[2])).

*Kona* Þórðar var Jórunn dóttir séra Þórðar Einarssonar í Hítardal[3]) og Þuríðar Einarsdóttur (kölluð „stóra"); var hún (Þuríður) fyrst fylgikona séra Þórðar. Dætur þeirra voru Jórunn og Þórunn. Síðan var hún fylgikona séra Sigmundar, þeirra dóttir Katrín. Svo fylgdi hún Oddi lögmanni Gottskálkssyni; þeirra son Pétur.

---

1) I, 335—342.

2) Þessar getgátur um föðurætt Þórðar lögmanns eru allar rangar (sbr. hér áður bls. 403). Stefán biskup átti t. d. engan bróður, er Erlendur hét.

3) Séra Þórður var son Einars Þórólfssonar á Hofsstöðum sbr. bls. 256.

*Börn*: A. Gísli lögmaður (sjá um hann hér síðar).

B. Séra Einar á Melum 1584—1616 átti Guðrúnu dóttur Marteins biskups Einarssonar; börn:

a. Halldóra átti fyrr séra Jón Finnsson; börn:

aa. Finnur eldri.

bb. Finnur yngri.

cc. Sigríður[1]).

Svo átti Halldóra Snorra Helgason, Vigfússonar[2]); börn:

dd. Ingiríður.

ee. Guðrún.

b. Jórunn Einarsdóttir, dó 1678, átti séra Þorstein Tyrfingsson; börn:

aa. Einar biskup og mörg önnur.

c. Katrín Einarsdóttír kona Erlendar á Suðurreykjum í Mosfellssveit, Þorvarðssonar, Þórólfssonar á Hjalla og Margrétar dóttur Erlends lögmanns; af þeim er fjöldi fólks.

C. Guðmundur í Deildartungu, átti Önnu dóttur Árna sýslumanns á Hlíðarenda; börn:

a. Árni átti Þorgerði Tyrfingsdóttur, Ásgeirssonar prests frá Lundi; börn:

aa. Hákon á Vatnshorni[3]).

bb. Guðmundur í Deildartungu[4]).

---

1) Sjá um börn séra Jóns Finnssonar II, 353—355.

2) Sbr. bls. 397 hér að framan.

3) II, 661, 671—672.

4) Guðmundur átti Margréti Jónsdóttur prests í Reykholti Böðvarssonar. Hann bjó seinast á Heynesi, var hinn »lögskynsamasti« maður á þeim dögum segir séra J. H., dó 1690 71 árs, þ. b.:

a. Anna átti Guðmund Sigurðsson og Kristínar Ormsdóttur frá Eyjum, bl.

b. Margrét átti Þorgeir Jónsson bróður Steins biskups. Hún dó á Hólum 1728, áttræð að aldri, bl.

c. Sesselja átti Pétur son Páls Gíslasonar landskrifara, þ. b. dóu ung nema einn son Einar, er bjó vestur í Steingrímsfirði. Hans son Pétur faðir Jóns nokkurs, er dó í Reykjavík 1812 í vesaldómi.

cc. Ásmundur í Hraundal[1]).

---

1) Ásmundur átti Ingiríði Gísladóttur Jónssonar prófasts í Hítardal Guðmundssonar, þ. b.:

a. Hannes í Hraundal átti Kristínu Jónsdóttur systur séra Jóns á Breiðabólsstað á Skógarströnd, þ. b.:

aa. Jón átti Halldóru yngri Arnórsdóttur frá Ljáskógum Ásgeirssonar móður Helgu Jónsdóttur á Vatnshorni Hákonarsonar (II, 348).

bb. Gunnar átti Margréti Þórðardóttur, þ. b.:

aaa. Jón á Heinabergi, Hans synir: Magnús, Jón á Hvoli í Saurbæ, Jón annar á Hvalgröfum faðir Magnúsar í Stóra-Holti, Gunnar á Leysingjastöðum, Ástríður móðir Magnúsar Tómassonar í Síðumúla og Guðrún, er átti Halldór Hjálmarsson konrektor á Hólum, þeirra dóttir Ingigerður átti séra Gísla í Stærra-Árskógi Jónsson biskups Teitssonar.

bbb. Helga átti Styrkár Snjólfsson, þ. b.: a) Helga, er átti Ólaf Ólafsson í Skáleyjum, þeirra son Einar í Skáleyjum faðir séra Guðmundar á Breiðabólsstað á Skógarströnd, b) Halldóra átti Magnús Sigmundsson á Kambi, þ. b.: Helga, er átti Jón Ísleifsson á Kambi.

ccc. Hákon í Tungu átti Margréti Björnsdóttur og mörg börn.

ddd. Þórunn átti Magnús Jónsson á Ósi í Skilmannahrepp og var s. k. hans, þ. b.: a) Hannes átti fyr Ingiríði Halldórsdóttur, bl., svo Steinunni Ingimundardóttur frá Elínarhöfða Ingimundssonar og börn, b) Elín átti Tómas Sveinsson á Álptanesi.

eee. Helgi á Jaðri á Skaga átti Guðrúnu Halldórsdóttur, þ. b.: Guðmundur átti Herdísi Narfadóttur, þ. d.: Guðfinna átti Gest Gestsson Sæmundssonar og Þórunn, er átti Bjarna Ólafsson í Háuhjáleigu.

fff. Hannes.

ggg. Þórður.

hhh. Engilráð.

cc. Sigríður f. k. Jóns Helgasonar frá Vífilsdal Gunnarssonar.

dd. Elín átti Guðmund Jónsson í Syðri-Hraundal, þ. b.:

aaa. Sesselja átti Jón á Klúku í Bjarnarfirði Gissursson prests á Tjörn Eiríkssonar.

bbb. Ingiríður átti Þorgeir Jónsson, bl. Launbarn hennar með Sigurði Erlendssyni var:

dd. Vigfús[1]).

C. Ragnhildur Þórðardóttir lögmanns, átti Vigfús sýslumann á Kalastöðum Jónsson (sjá Kjósarsýslu).

E. Guðlaug Þórðardóttir laungetin, átti Sæmund Sighvatsson[2]); börn:

a. Jón átti Halldóru Jónsdóttur (aðrar ættir telja svoleiðis: 1. Sæmundur, 2. Jón, 3. Halldóra, 4. Guðrún[3]); barn:

aa. Guðrún sem átti Þorleif Pétursson, (Þeirra dóttir Solveig átti Bjarna Magnússon, þ. d. Guðlaug[4]) giptist ei, hennar laundóttir Guðlaug Jónsdóttir Magnússonar[5]), var móðir Elínar Pálsdóttur).

---

× Margrét, er átti Halldór Jónsson á Urriðaá, þ. b.: Ingiríður f. k. Hannesar Magnússonar (sjá hér að ofan) og Halldór hreppstjóri á Akranesi faðir Gunnhildar, er átti Einar Þorvarðsson frá Brautarholti Oddssonar prests á Reynivöllum Þorvarðssonar, þeirra son Halldór á Grund f. m. Ragnheiðar Þorgrímsdóttur prests Thorgrimsens í Saurbæ (sbr. bls. 358).

Annað launbarn Ingiríðar með Guðmundi nokkrum var:

× Guðmundur í Melkoti í Stafholtstungum átti Ingiríði Jónsdóttur frá Svarfhóli Einarssonar og börn.

Laundóttir Elínar Hannesdóttur með Bjarna Eyjólfssyni var:

ccc. Sigríður átti Ísleif á Einifelli Högnason á Kaðalsstöðum Þorsteinssonar, þ. b. 12, þar á meðal: a) Hinrik í Hólbúð á Völlum faðir Ísleifs á Völlum, b) Sigurður »stokkmann« í Stafholtsveggjum átti Sigríði Guðmundsdóttur frá Hömrum í Þverárhlíð Eyleifssonar, þ. b.: Bjarni á Gljúfurá faðir Sigurðar í Einarsnesi, Björn vestanpóstur og Guðbjörg, er átti Snorra Illhugason í Andakíl.

1) Vigfús dó ókv. bl.

2) Sæmundur var bróðir Þorsteins Sighvatssonar, föður séra Jóns píslarvotts í Vestmanneyjum.

3) Það mun réttara.

4) Réttara: Elín sbr. II, 694.

5) Þ. e. Jóns Magnússonar bróður Árna assessors (sbr. II, 694).

b. Guðmundur Sæmundsson átti Guðrúnu yngri Hallvarðsdóttir, börn:

aa. Hallvarður og

bb. Solveig, sem átti Jón Þorvaldsson á Elliða.

c. Sighvatur Sæmundsson í Hækingsdal, átti Hallgerði Narfadóttur[1]); börn:

aa. Halldór í Hækingsdal[2]).

---

1) Hallgerður var dóttir Narfa Guðmundssonar á Hálsi í Kjós og Guðríðar Teitsdóttur prests á Reynivöllum Helgasonar, en systir Guðmundar á Hálsi og Eyjólfs á Þorláksstöðum föður Odds prófasts í Holti undir Eyjafjöllum.

2) Halldór átti Hildi Jónsdóttur prests í Skrauthólum Oddssonar, þ. b.:

a. Sighvatur átti Kristínu Erlingsdóttur lögréttumanns í Blönduholti Eyjólfssonar, þ. b.:

aa. Ásbjörn.

bb. Einar.

cc. Magnús á Fossá átti Þuríði Magnúsdóttur, þeirra son Eyjólfur á Írafelli faðir Jóns á Fremra-Hálsi föður Einars bónda þar.

dd. Margrét átti Gísla Jónsson á Írafelli ættaðan austan af Skeiðum, þeirra son:

aaa. Skæringur á Hvítanesi átti Guðnýju Jónsdóttur, þeirra son Gísli á Hvítanesi. Hans dóttir Margrét átti Þorkel í Skorhaga í Brynjudal Ólafsson frá Svartagili í Þingvallasveit Þorkelssonar í Miðdal Gissurarsonar, þeirra son Hjörtur fyr í Bakkakoti á Seltjarnarnesi nú í Rvík, faðir Erlendar skipstjóra og Jóhannesar verzlunarmanns.

b. Hallgerður átti fyr Steinólf Torfason, þ. b.:

aa. Jón á Hvanneyri átti Hallgrímu Jónsdóttur úr Þingvallasveit, þeirra son Hallgrímur á Skeljabrekku faðir Jóns í Ási í Melasveit föður Hallgríms dbrm. í Guðrúnarkoti.

S. m. Hallgerðar Halldórsdóttur Semingur Gíslason frá Írafelli Hinrikssonar Gunnarssonar á Meðalfelli Jónssonar, þ. b.:

bb. Torfi átti Helgu Þórðardóttur á Írafelli Gíslasonar, þau bræðrabörn, þeirra dóttir Svanborg átti Steinólf Jónsson í Svíra bróður Hallgríms á Skeljabrekku (sjá hér á undan), þau bræðrabörn. Þ. b. mörg, þar á meðal Grímur faðir Magnúsar prests á Mosfelli og þeirra bræðra.

bb. Guðrún Alexíusarkona[1]).

Þórður komst á æskuárum í þjónustu hjá ábótanum á Helgafelli[2]), gerðist svo ráðsmaður á klaustrinu um hríð, þaðan vék hann að Þingnesi í Borgarfirði, litlu áður en klaustrið var tekið og setti bú saman í Þingnesi og kvongaðist litlu þar eptir. (Biskup Hannes tjáir Þórð í æsku hafa verið svein Daða í Snóksdal). Var og orðinn lögréttumaður 1548. Biskup Jón Arason heimsókti hann 1549 á ferð sinni og biskupaði þá börn hans Gísla og Ragnhildi.

Þá Oddur lögmaður sleppti Borgarfjarðarsýslu 1553 tók Þórður þá sýslu að veiting. En þegar Oddur lögmaður dó 1556 tók Þórður Pétur son hans, hálfbróður konu sinnar Jórunnar, og líka Reykholt, hverju hann fékk að halda, sem Péturs umboðsmaður til 1563, þá séra Einar Marteinsson biskups tók það. 1563 tók Þórður Mela af séra Eyjólfi Grímssyni. En sú var sökin: Jón sonur Eyjólfs hafði slegið mann fyrir dómi, og því dæmdur útlægur, en séra Eyjólfur hafði lengur hýst son sinn, en að lögum hæfa þótti, meðan hann greiddi burtför hans. Þórður hafði prófastsdæmi lengi. Mela hélt Þórður til 1562 að Einar son hans tók þá

---

c. Ásbjörn.
d. Guðmundur.
e. Guðríður.
f. Jón.

1) Alexíus maður Guðrúnar var son Jóns prests Oddssonar í Skrauthólum, bróðir Hildar, er Halldór Sighvatsson bróðir Guðrúnar átti, þau bl.

Enn var son Sighvats Sæmundssonar og Hallgerðar Narfadóttur.

cc. Ásbjörn í Gröf í Grímsnesi átti Arnbjörgu Engilbertsdóttur prests á Þingvöllum Nikulássonar, þ. b.:
aaa. Nikulás bjó í Gröf 1708.
bbb. Sigríður, og að líkindum
ccc. Hallgerður gipt kona á Eyvindarstöðum á Álptanesi, dó í stóru bólu (Ártíðaskrár J. Þorkelss. bls. 19).

2) Þórður lögmaður mun fæddur um 1524 og hefur því verið hálfníræður, er hann andaðist (1609).

og prófastsdæmi um Borgarfjörð. Mýrasýslu tók Þórður og svo eptir 1563. 1564 var Þórður einn í Stóradómi.

1566 (al. 1565) að Heggstöðum lét Þórður ganga dóm um kirkjufé: 1570 voru í lögmanns kjörum Þorlákur Einarsson, Þórður og Gísli Sveinsson og varð Þórður lögmaður eptir þar um gerðu hlutfalli.

Þórður lét ganga mikinn fjölda dóma, þar á meðal 1584 á leiðarþingi í Borgarfirði, um nautarekstur í Skorradalsskóg, 1584 um konu fátæka, 1586 að Dýrastöðum um letingja, nefnist Þórður þá kongsumboðsmaður fyrir sunnan og vestan Hvítá. — 1551 (mun réttara 1571) lét Þórður lögmaður Guðmundsson með 5 mönnum ganga dóm að Lundi í Syðri-Reykjadal um að frilluborin börn forsorgist af foreldrum. 1565 á Heggstöðum um kirkjufjárinnköllun, 1567 um flökkufólk utansveitar liðist ei etc. 1594 að Öskjuholti með 12 mönnum þann 9. febr. um utanferðartoll Jóns lögmanns, og annan sama ár að Lundi um bónda og vinnumenn, 1599 um um kirkjuskuld að Sandatorfu, 1600 að Saurbæ við Hvalfjörð þann 15. ágúst ásamt Oddi biskupi um hálfkirkjur í Þverárþingi, 1603 að Heggstöðum um sveitartiltölu ómaga. Hans mörgu dóma sýnist hér óþarfi að nefna.

Millum Þórðar lögmanns og Jóhanns Bucholts kom misklíð út af því að Bucholt hafði tekið skip af bónda einum, en Þórður dæmdi bóndanum skipið 1601 (sjá um það gjör við Kjósarsýslu).

Þórður lögmaður hafði þar að auki kongsjarðaléni. Umboðsmenn hafði hann og ýmsa, einkum á sínum seinni árum, þar á meðal Einar Eiríksson 1565 og Gísla son sinn 1598 og 1605 í suðurpartinum og máske Jón nokkurn Jónsson og fleiri[1]).

Ekki er eg fullviss um, nær Þórður sleppti Þverárþingi sunnan Hvítá, þó hygg eg það hafi verið 1605 eða 1606, var hann þá orðinn mjög hniginn að aldri; lifði hann þar eptir til 1609, þá um nírætt, eptir því sem ráða er. — Það ár hálfum mánuði fyrir sumar tók hann sótt þá, er hann leiddi

---

1) Vigfús Jónsson á Kalastöðum, dótturmaður Þórðar lögmanns, mun og hafa verið um hríð umboðsmaður hans í Borgarfjarðarsýslu. Hann andaðist 1595 (sjá Kjósarsýslu).

til bana. Lögmannsembætti hafði hann sleppt 1606, þá Jón lögmaður Jónsson vinur hans deyði, hafði hann haft það í 36 ár. Þórður lögmaður dæmdi einn á alþingi 1573 þá Ormur lögmaður var afsettur.

Áður Þórður lögmaður deyði gerði hann sitt testamenti, og gaf mörgum gjafir.

Sagt er að Þórður hafi flutt sig búferlum frá Þingnesi og að Hvítárvöllum og þar dáið.

Fjárgæzlumaður mikill er mælt að Þórður hafi verið, og að hann hafi eins heimt tíundir af prestum sem leikmönnum, þá hann hélt Þverárþing og prófastsdæmi um Borgarfjörð.

Þórður varð maður auðugur, og skipti fé sínu millum barna sinna og barnabarna. Hann gaf og í sínu testamenti áttunda part síns lausafjár fátækum og kirkjum. Andaðist svo 8. apríl 1609. Framan af æfi sinni var hann maður vinsæll. Einar Eiríksson a Hvanneyri, lögvitur lögréttumaður, er sagt að hafi verið ráðgjafi Þórðar lögmanns í lagavísindum. En Jón lögmaður Jónsson hafi mestu þó ráðið, meðan þeir voru ásamt lögmenn.

Í Borgarfjarðarsýslu meina eg væru umboðsmenn eða lögsagnarar Þórðar lögmanns, meðal annara:

Jón Jónsson bóndi (sem eg ekki þekki[1]).

Einar Eiríksson (eg veit ei hverra manna hann var[2]) lét dóm ganga að Kjalardal í Skilmannahreppi, föstudag næstan fyrir Luciumessu um haustið 1565 um lausamenn (Ejolvus Jonæ)[3]).

---

1) Það er Jón Jónsson í Bæ (sjá hér áður).

2) Það er Einar Eiríksson á Hvanneyri (sjá hér síðar).

3) **Nikulás Björnsson.**

Í sýslumannaregistri í safni Jóns Sigurðssonar 64 fol. á landsbókasafninu, er Nikulás Björnsson talinn sýslumaður í Borgarfirði 1555, en ekki þekki eg neinar heimildir fyrir því eða nokkurn dóm Nikulásar frá því ári. Að sjálfsögðu hefur hann ekki verið nema umboðsmaður í forföllum Þórðar eða Jóns í Bæ, sem líklega hefur fremur haft sýsluna það ár. Nikulás þessi er eflaust sá sami og Nikulás Björnsson, er sýslu hafði í Rangárþingi á síðara hluta 16. aldar. Hann bjó á Seljalandi og andaðist 19. apríl 1600 (sjá Rangárþing).

## Ormur Jónsson.

Hann lét í Árnessýslu dóm ganga 1560[1]), en 1561 hafði hann Þverárþing, annaðhvort hálft eða allt, því 1561 útnefndi Þórður Guðmundsson í hans umboði menn í dóm að Reykholti föstudaginn næstan eptir uppstigningardag, um nauðgun og legorð, er Þorlaug Hákonardóttir bar upp á Einar Oddsson.

Sama stað og ár, miðvikudaginn í 7 vikna fardögum, dæmdi sami Þórður í umboði téðs Orms Jónssonar í hestaþjófnaðarmáli Magnúsar Teitssonar.

## Jòn Jònsson.

1583 næsta dag eptir Matthíasmessu á Heggstöðum í Borgarfirði, voru 6 menn í dóm nefndir af heiðarlegum manni Jóni bónda Jónssyni, er þá hafði kongssýslu í Borgarfirði, um ábúð jarðar etc. (Eg veit ei hvaða Jón þetta hefur verið. Þetta er uppteiknað úr dómabók, en eg hygg að ártalið sé rangt, og eigi að vera 1543 og þetta sami Jón, sem áður er nefndur).

## Einar Eiríksson.

1550 fimmtudaginn næstan eptir Jóhannis Evangelistæ að Kjalardal, nefndi Einar Eiríksson er þá hafði kongsumboð í Þverárþingi fyrir sunnan Hvítá, menn í dóm um það mál, er Oddur Gottskálksson og aðrir fleiri beiddust dóms á, um lausamenn, er ei vilja vinna í sínum sveitum etc. (Eg hygg þetta sama Einar Eiríksson og nefndur er hér á undan). En

---

Hann var bróðir Guðrúnar konu séra Gríms Skúlasonar í Hruna, og voru foreldrar þeirra séra Björn Ólafsson í Hruna († 1568) og Margrét Jónsdóttir prests Héðinssonar (sbr. Ísl. Ártíðaskrár bls. 246—249). Séra Jón Egilsson nefnir föður Guðrúnar og Nikulásar Björn prest á Stað í Grindavík á dögum Ögmundar biskups (Safn til s. Ísl. I, 82). Hefur því séra Björn í Hruna verið áður prestur á Stað, þótt þess sé ekki getið í prestatali séra Jóns Halldórssonar né annarsstaðar.

1) Sjá um Orm og ætt frá honum þar. Hann var faðir Narfa í Reykjavík.

Oddur síðar lögmaður dóms á beiddist. Eg efa hann hafi verið annað en lögsagnari[1]).

## Gísli Þórðarson.

*Faðir*: Þórður lögmaður nýnefndur Guðmundsson.
*Móðir*: Jórunn Þórðardóttir, sjá hér áður.
*Kona*: Ingibjörg (dó 1633) dóttir Árna sýslumanns á Hlíðarenda, Gíslasonar (sjá Skaptafellssýslu).
*Börn*: A. Henrik sýslumaður (sjá hér síðar).
B. Steindór sýslumaður Snæfellinga (sjá þar)[2]).
C. Árni lögréttumaður á Hólmi ytra (dó 1654) átti Ytrahólm, Norðtungu, Kross og fleiri jarðir, ágætur maður, átti Steinunni dóttur Hannesar Björnssonar í Snóksdal. (Hún átti Síðumúla og 1 hndr. hndr. að auk[3]); börn:
a. Hannes í Norðtungu lögréttumaður (dó 1671), átti Guðrúnu dóttur Árna bartskera Halldórssonar (Guðrún deyði 1724); börn:

---

1) Einar bjó á Hvanneyri og var son Eiríks prests í Reykholti Jónssonar á Hvanneyri Þórðarsonar (sjá hér áður bls. 403). Einar átti fyr Sigríði yngri Finnsdóttur Arnórssonar sýslumanns Finnssonar (sbr. bls. 315). Segir séra J. H. í ættatölum sínum, að þau hafi átt eitt barn, er erfði móður sína Sigríði og dó svo, en svo erfði Einar það. En Snókdalín telur þrjár dætur Einars og Sigríðar, er allar hafi gipzt og mun það miður rétt. Munu þær dætur Einars og s. k. hans Bergljótar Hallsdóttur frá Hjörtsey Ólafssonar (sbr. bls. 334), enda er svo talið í ættatölum M. Ketilss. (J. S. 163 fol.). Dætur Einars (og Bergljótar) voru:
1. Sesselja átti Sigurð Ásgeirsson prests á Lundi Hákonarsonar (sbr. bls. 400).
2. Guðlaug átti Nikulás Ásgeirsson bróður hans (sbr. bls. 400).
3. Steinunn, er átti Ara í Flatatungu Guðmundsson Einarssonar í Bólstaðarhlíð Þórarinssonar. (Gísli Ásmundsson í Nesi telur konu Ara Ólöfu Þorgrímsdóttur frá Lögmannshlíð Þorleifssonar). Börn Ara og Steinunnar eru talin I, 491, 512—513.

Synir Einars og Bergljótar:
4. Ólafur prestur á Helgafelli († 1618) (sbr. bls. 334).
5. Jón skólameistari á Hólum og í Skálholti (sbr. bls. 334).

2) Bls. 96—106.

3) II, 319—320.

aa. Árni lögréttumaður í Norðtungu, dó 1724, 70 ára, bl.
bb. Hákon sýslumaður í Rangárþingi (sjá þar).
cc. Dómhildur dó 1742[1]); barnlaus.
dd. Vigfús.
b. Sæmundur á Hólmi, dó 1699, átti Þorbjörgu Sigurðardóttur, Árnasonar lögmanns, þau barnlaus.
c. Ragnheiður átti séra Álf í Kaldaðarnesi Jónsson; þ. b.
aa. Séra Gísli samastaðar[2]).

---

1) 1740 segir séra J. H. í ættatölum sínum (viðbót séra Vigfúsar sonar hans). Enn var son Hannesar í Norðtungu:

Árni yngri, dó 1707, ókv. bl. Séra J. H. nefnir ekki Vigfús meðal barna Hannesar.

2) Séra Gísli Álfsson dó 31. marz 1725, hafði þá verið 49 ár prestur í Kaldaðarnesi. Hann átti Guðrúnu Þórðardóttur prests á Þingvöllum Þorleifssonar, þ. b.:
a. Þórður prestur á Skorrastað, dó 1730, átti Guðrúnu Sigfúsdóttur prests á Dvergasteini Vigfússonar, bl.
b. Álfur prestur í Kaldaðarnesi, dó 1733, átti Helgu Jónsdóttur, þ. b.:
aa. Gísli á Valdastöðum átti Ingibjörgu Magnúsdóttur spítalahaldara Guðmundssonar, systur séra Nikulásar í Berufirði, þ. b.:
aaa. Magnús á Kotferju átti Guðbjörgu Gunnarsdóttur frá Einarshöfn Gamalíelssonar á Stokkseyri Jónssonar Eyjólfssonar, þ. d.:
× Helga átti Bjarna Jónsson á Valdastöðum, þ. b.: a) Magnús í Stóru-Sandvík faðir Hannesar bónda sama staðar, b) Gunnar í Byggðarhorni faðir Gissurar bónda sama staðar, c) Herdís kona Jóns Jónssonar í Auðsholti, d) Helga yfirsetukona átti launson með Sæmundi Steindórssyni Hannessonar, e) Guðbjörg átti Jón Jónsson í Hellisholtum í Ytrihrepp.
bbb. Sesselja s. k. Jóns á Kalastöðum á Hvalfjarðarströnd Hrómundssonar á Narfastöðum Þóroddssonar, bl.
ccc. Sigríður átti Jón yngra Gamalíelsson á Stokkseyri bróður Gunnars í Einarshöfn (sjá hér á undan), þ. b.:

bb. Séra Arni[1]).

× Ari verzlunarmaður í Hafnarfirði átti Maríu Einarsdóttur snikkara Hannessonar, þ. b.: a) Daníel Johnsen kaupmaður í Hafnarfirði faðir Ara Johnsen söngvara í Hamborg, b) Sigríður átti Torfa Thorgrimsen verzlunarstjóra í Ólafsvík Þorgrímsson prests í Saurbæ Guðmundssonar (sjá hér áður bls. 358), c) Þóra átti Þórð verzlunarmann Jónsson prentara Jónssonar, þ. b.: María, Jórunn, Margrét, Einar, Ari, d) Margrét, e) Anna.

× Jón á Vestri-Loptsstöðum átti Sigríði Jónsdóttur auðga í Vestri-Móhúsum Þórðarsonar á Refstokki Pálssonar, þ. b.: a) Jón á Vestri-Loptsstöðum, b) Jón annar í Hafnarfirði, c) Gísli á Loptsstöðum, d) Jón yngsti drukknaði ókv. bl., e) Guðlaug átti Magnús Hannesson á Baugsstöðum, f) Sigríður átti Þorkel Jónsson í Óseyrarnesi, þ. b.: Jón í Móhúsum, Guðmundur hreppstjóri á Rútsstöðum, Þorkell í Gerðiskoti, Viktoría o. fl., g) Guðríður átti Halldór í Fljótshólum Steindórsson Ólafssonar s. st. Þorleifssonar í Árbæ í Ölfusi Ásbjörnssonar Loptssonar, þ. b.: Bjarni hreppstjóri í Fljótshólum, h) Sigríður yngri átti fyr Jóhann Adolfsson á Stokkseyri, en síðar Odd Ögmundsson frá Oddgeirshólum Þorkelssonar Loptssonar í Heiðarbæ Þorvaldssonar.

ddd. Álfur átti Jórunni Jónsdóttur Grímssonar, þ. b.:

× Gísli ókv. bl.

× Jón átti Gróu Loptsdóttur frá Þorleifskoti Guðmundssonar Hallssonar Jónssonar í Hjálmholti Gissurarsonar, þ. d.: Ingibjörg átti Brynjólf, er talinn var son Bjarna Símonarsonar í Laugardælum, en haldinn með réttu son séra Sigurðar G. Thorarensens í Hraungerði.

eee. Arnbjörg var ógipt vestur á Hvalfjarðarströnd.

bb. Vigfús í Valdakoti átti Ólöfu Vigfúsdóttur prests í Kaldaðarnesi Jóhannssonar, þ. b.:

aaa. Bjarni á Austastaskála undir Eyjafjöllum tvíkvæntur.

bbb. Jón á Hafurbjarnarstöðum á Miðnesi átti Þuríði Hafliðadóttur Péturssonar, þ. b.:

---

1) Séra Árni var prestur í Heydölum, dó 1737, »kunni vel söng, frækinn glímumaður, glaðsinnaður« (J. H. ættatölur), átti fyr Elínu Halldórsdóttur prests í Heydölum Eiríkssonar; þ. b.;

cc. Sigríður[1]).

× Ólöf átti Guðmund á Ægissíðu Felixson frá Vatnskoti í Þykkvabæ Guðmundssonar í Arabæ í Flóa Ásmundssonar í Sviðugörðum Ásmundssonar, þeirra son auk fleiri barna Felix bóndi á Ægissíðu faðir Ólafs ritstjóra í Álasundi í Noregi og bræðra hans.
× Andrés í Gunnarsholti, bl.
× Arnór ókv. bl.
× Sigríður átti Þorstein Hannesson frá Kirkjulandi.
× Guðný átti Jón Jónsson í Bjólu.
× Guðmundur í Vatnskoti í Þykkvabæ, kvæntur og átti mörg börn.
× Vigfús, × Hafliði, × Jón, × Sesselja, munu hafa dáið bl.

ccc. Þórey átti Kristófer í Stekkum í Sandvíkurhrepp Jónsson frá Kolgröfum í Eyrarsveit Snorrasonar; þ. b.: Vigfús bóndi í Stekkum o. fl.
ddd. Sesselja.
eee. Ragnhildur.
fff. Guðrún.

c. Ingibjörg átti séra Gísla Erlingsson á Ólafsvöllum, († 1744). Þ. b. meðal annara Vigfús á Reykjum á Skeiðum, faðir Eiríks dbrm. á Reykjum. Er mjög fjölmenn ætt frá séra Gísla Erlingssyni komin og mun hún verða rakin nokkru ger síðar (við Rangárþing).
d. Guðrún átti Einar Magnússon í Auðsholti í Ölfusi, þeirra son Jón læknir í Ármúla (sjá hér síðar), e. Rannveig f. c. 1689, f. Þóra f. c. 1700, g. Jón f. c. 1705. Öll þessi börn voru hjá Guðrúnu móður sinni í Kálfhaga 1729. Hún þá talin 67 ára (f. c. 1662) [Manntal í Árnessýslu 1729].

---

a. Gróa átti Hallgrím Jónsson Thorlacius sýslumann á Berunesi (sjá Múlaþing).
b. Ragnheiður átti séra Gísla Gíslason á Desjarmýri († 1784 92 ára). Sjá Múlaþing.

S. k. séra Árna Álfssonar Guðríður Þórðardóttir prests á Þingvöllum Þorleifssonar systir Guðrúnar konu séra Gísla bróður hans. (Báðar konur séra Árna urðu geðveikar); þ. b.:

---

1) Sigríður átti Illhuga lögréttumann á Höskuldsstöðum í Kaldaðarneshverfi Vigfússon Ormssonar í Eyjum.

dd. Steinunn[1]).

---

c. Þórður átti Hallberu Eiríksdóttur; þ. b.:
aa. Árni í Hvammi í Fáskrúðsfirði.
d. Hallgerður átti séra Sigurð Sveinsson í Heydölum († 7. apríl 1758); þ. b.:
aa. Gísli prestur í Heydölum († 22. marz 1797) átti fyr Ingibjörgu Brynjólfsdóttur prófasts í Kirkjubæ Halldórssonar, síðar Þórunni Ólafsdóttur prests Brynjólfssonar, bróðurdóttur hennar; þau bl. En börn hans og f. k.:
aaa. Brynjólfur prófastur í Heydölum († 30. apríl 1825) átti Kristínu Nikulásdóttur prests í Berufirði Magnússonar (sjá börn þeirra II, 693).
bbb. Árni prófastur á Stafafelli († 19. febr. 1840) átti Ragnhildi Rafnkelsdóttur prests á Stafafelli Bjarnasonar; þeirra börn:
× Rafnkell.
× Sigurður, dóu báðir ungir.
× Gísli í Byggðarholti átti Ingibjörgu Brynjólfsdóttur prests á Stöð Ólafssonar prests í Kirkjubæ Brynjólfssonar, þ. b.: a) Ragnhildur átti Jón hreppstjóra í Byggðarholti Jónsson prests á Kálfafellsstað Þorsteinssonar prests á Skorrastað Benediktssonar, þ. b.: Sigríður, Benedikt, Gísli, Guðmundur, Þrúður, Sigurður, Árni, Ingibjörg, b.) Ólafur í Volaseli, c) Gísli í Svínhólum, d) Sigurður í Valskógsnesi.
ccc. Árni yngri á Ósi í Breiðdal átti fyr Ingibjörgu Bjarnadóttur frá Sandvík í Norðfirði Guðmundssonar og börn, þar á meðal Bjarna á Brekkuborg í Breiðdal föður Árna s. st., en síðan Guðlaugu Einarsdóttur, bl.
ddd. Halldór á Höskuldsstöðum í Breiðdal átti fyr Vigdísi Gunnlaugsdóttur frá Þorgrímsstöðum Ögmundssonar, en síðan Sigríði Gísladóttur frá Njarðvík Halldórssonar og börn.
eee. Þórður á Kleif og Ósi í Breiðdal átti Þóru Stefánsdóttur frá Þverhamri Magnússonar prests á Hallormsstað Guðmundssonar, þ. b.:
× Stefán í Snæhvammi faðir Björgólfs á Kömbum í Stöðvarfirði.

---

1) Steinunn átti Hjalta Sigurðsson, bróður séra Gísla á Kvennabrekku, þeirra börn komust ekki upp.

ee. Þuríður[1]).

× Hallgerður átti Nikulás á Þverhamri Brynjólfsson prests á Stöð Ólafssonar.
× Magnús.
× Gísli.

fff. Margrét átti séra Jón Stefánsson í Vallanesi († 1821) launson Stefáns Magnússonar á Þverhamri (sjá hér á undan), þeirra dóttir.
× Kristín átti Þorstein Mikaelsson í Mjóanesi, enskan að faðerni, þ. b.: a) Finnur prestur á Klippstað († 25. nóv. 1888) átti Ólöfu Einarsdóttur Erlendsson í Hellisfirði Árnasonar, þeirra son Jón prestur á Hofi í Álptafirði, b) Steinunn átti Þorberg í Þingmúla Bergvinsson prests á Skeggjastöðum Þorbergssonar á Austaralandi í Axarfirði Jónssonar á Hallgilsstöðum á Langanesi Þorbergssonar í Miðfirði á Langanesströndum Þórarinssonar., c) Jóhanna átti Sigfús Oddsson á Miðhúsum og börn.

ggg. Sigurður á Skriðu í Breiðdal, dó 1813, átti Margréti Björnsdóttur frá Starmýri í Álptafirði og börn.

hhh. Elín dó bl.

iii. Hallgerður dó í bólu 1787 21 árs.

kkk. }
lll. } Halldórur tvær dóu bl.

bb. Sveinn prestur á Stöð († 2. marz 1802) átti Guðríði Vigfúsdóttur prests á Stöð Jónssonar, bl.

cc. Margrét átti séra Eirík Einarsson á Kolfreyjustað († 29. nóv. 1787).

dd. Guðríður.

ee. Sigríður.

ff. Guðlaug átti Árna á Löndum í Stöðvarfirði Torfason stúdents hins heimska á Stóra-Sandfelli Pálssonar prests á Kolfreyjustað Ámundasonar, þ. b.:

---

1) Þuríður átti Gísla yngri Gíslason prests í Holti undir Eyjafjöllum Árnasonar. Dóttir þeirra er talin:

a. Valgerður átti séra Gissur Bjarnason við Hellna, þ. d.

aa. Ólöf. Launson hennar með Jakob Eiríkssyni á Búðum: aaa. Páll konrektor. Önnur dóttur séra Gissurar:

bb. Arndís átti Gísla Jónsson frá Vatnsholti í Staðarsveit Eysteinssonar,

ff. Ólafur[1]).
d. Ragnhildur átti séra Jón Diðreksson í Selvogi, bl.
e. Guðríður átti séra Jón í Görðum á Akranesi, Grímsson prests samastaðar, Bergsveinssonar; bl.
f. Þórður smiður, læknir og listamaður, dó barnlaus.

---

aaa. Torfi stúdent á Mófellstöðum átti fyr Þórunni Magnúsdóttur frá Indriðastöðum Árnasonar lögréttumanns á Grund í Skorradal Sigurðssonar í Leirárgörðum Árnasonar lögmanns Oddssonar, bl., en síðar Ólöfu Jónsdóttur frá Hvítárvallakoti Guðlaugssonar, þ. b.:

× Þórður í Vigfúsarkoti í Reykjavík átti Ragnheiði Jónsdóttur Stephensens á Korpólfsstöðum Björnssonar sekretera og mörg börn, þar á meðal Þorgrím héraðslækni í Keflavík, sem er kvæntur Jóhönnu Lúðvíksdóttur Knudsen, ekkju séra Björns Stefánssonar á Sandfelli.

× Þórunn átti Sigurð Ólafsson á Mófellsstöðum og börn.

× Kristín dó óg. bl. á Hafþórsstöðum.

× Árni ókv. bl.

Launson Torfa stúdents Árnasonar með Solveigu Steinólfsdóttur:

× Einar á Mófellsstöðum. Launbörn hans: a) Jón fór til Ameríku, b) Margrét átti Jón Þórðarson á Mófellsstöðum og mörg börn.

bbb. Guðrún átti Jón Högnason Torfasonar, þau bræðrabörn. (Annaðhvort þessi Guðrún eða systir hennar átti Sigfús Guðmundsson í Mýrnesi og var þeirra son Jón ættfræðingur á Ketilsstöðum og síðar Eskifirði († 1866).

ccc. Sveinn í Eyjum í Breiðdal, kvæntur.

ddd. Árni.

eee. Jón.

1) Snókdalín telur Ólaf þennan föður Ásmundar á Bjarnastöðum í Hvítársíðu, en það er gersamlega rangt (sbr. hér áður bls. 339). Virðist hann blanda honum saman við Álf Gíslason lögréttumann á Reykjum í Ölfusi, er líklega hefur verið skyldur séra Álfi Jónssyni í Kaldaðarnesi og átti bróður, er Ólafur hét (í Nesi í Selvogi), er ættir má rekja frá. Það er mjög vafasamt, að séra Álfur hafi átt nokkurn son, er Ólafur hét.

g. Gísli drukknaði 1684[1]); barnlaus.
h. Jón barnlaus[2]).
i. Sigríður dó 1705[3]).

8 börn Árna dóu ung.

D. Páll á Hvanneyri, varð landþingisskrifari 1635, sleppti því embætti 1670 (al. 1669), var maður einarður, skynsamur og vel á sig kominn. 1630 brann hjá honum gjörsamlega Hvanneyrarbær með búshlutum, en menn sakaði ekki. Hann hafði fyrr átt Þóru Jónsdóttur, var hún þá dáin og börn þeirra, en Páll giptur aptur Ingibjörgu dóttur Bjarna Sigurðssonar á Stokkseyri; með þeirri sinni konu og ungbarni fór hann upp í Skorradal, og var þar um veturinn á Vatnsenda með Birni Gíslasyni; börn:

a. Sigurður Pálsson, átti Þórunni dóttur Hjalta (dó 1650) í Teigi; börn:
   aa. Hjalti á Brekku[4]).
   bb. Séra Gísli á Kvennabrekku[5]).
   cc. Bjarni[6]).

---

1) Hann drukknaði af hesti í Grunnafirði segir séra J. H.

2) Jónarnir voru tveir segir séra J. H. og dóu báðir ókv., bl. Annar þeirra var sveinn hjá Árna lögmanni Oddssyni, er hann drukknaði í Leirárlaug 10. marz 1665.

3) Séra J. H. nefnir ekki Sigríði meðal barna Árna, en hann telur í þess stað Ragnheiði yngri, er hafi lifað lengst systkina sinna, erfði bræður sína, bjó á Ytrahólmi og gerði mörgum gott, dó nærri níræð 1719, ógipt, bl.

4) Hjalti átti Steinunni Álfsdóttur prests í Kaldaðarnesi Jónssonar (sjá hér áður).

5) Séra Gísli dó 19. júlí 1734 átti Ólöfu Þórðardóttur prests á Myrká Sigfússonar, þ. b.:
a. Ingibjörg átti séra Gunnlaug Snorrason á Helgafelli (sjá um börn þeirra II, 691—692).

6) Börn Bjarna Sigurðssonar voru:
a. Hjalti átti Helgu Sigurðardóttur Bergþórssonar.
b. Halldóra átti séra Guðmund Eiríksson í Miðdalaþingum († 29. okt. 1734), þ. b.:

dd. Þuríður[1]).
b. Pétur sýslumaður í Strandasýslu (sjá þar).
c. Ingibjörg átti Erlend Eyjólfsson í Brautarholti[2]); börn:
aa. Séra Jón á Ólafsvöllum (dó 1707).
bb. Séra Hannes í Arnarbæli (dó 1707).
cc. Séra Gísli á Ólafsvöllum (dó 1743).
dd. Ingibjörg.
ee. Agatha.

---

aa. Benedikt dó bl.
bb. Eiríkur prestur á Stað í Hrútafirði átti fyr Sigríði Jónsdóttur frá Núpi Magnússonar í Bræðratungu, ekkju séra Vigfúsar Sigurðssonar í Nesi, þau bl., en síðar Helgu Eggertsdóttur prests á Undirfelli Sæmundssonar, þ. b.:
aaa. Guðmundur prestur á Stað í Hrútafirði († 4. okt. 1805) átti Ingveldi Bogadóttur frá Hrappsey Benediktssonar (sbr. bls 164).
bbb. Gísli stúdent á Syðri-Kárastöðum á Vatnsnesi, dó 14. febrúar 1793 (f. 5. febr. 1762) átti Ingibjörgu Jónsdóttur frá Kirkjuhvammi Árnasonar, (hún átti síðar Eggert í Skálholtsvík Jónsson stúdents Símonarsonar), þ. d.:
× Þórdís átti séra Gunnlaug Gunnlaugsson á Stað í Hrútafirði († 23. sept. 1846), þ. b.: a) Gunnlaugur átti Margréti Björnsdóttur frá Huppahlíð í Miðfirði, b) Ingibjörg átti Skarphéðinn Einarsson á Hvoli í Vesturhópi og börn.
ccc. Guðlaug átti Jón Jónsson bónda á Melum, þ. b.:
× Jón sýslumaður á Melum II, 397—399).
× Eggert héraðslæknir á Akureyri, kvæntur.
ddd. Halldóra átti Magnús Þórðarson á Brandagili, þ. b.: Jósep prestur í Breiðuvíkurþingum og Salóme kona Tómasar Bjarnasonar á Fallandastöðum.

1) Þuríður átti Jón Jónsson í Stóra-Ási í Hálsasveit og eru frá þeim miklar ættir komnar í Borgarfirði.

2) Maður Ingibjargar hét Erlingur Eyjólfsson og var lögréttumaður, bjó í Blönduholti í Kjós, en ekki í Brautarholti. Eyjólfur Ísleifsson faðir hans var sonarson Eyjólfs Halldórssonar frá Saurbæ sýslumanns í Rangárþingi.

ff. Kristín[1]).
d. Þóra Pálsdóttir, átti séra Þórð á Undirfelli Þorláksson; börn:
aa. Hólmfríður[2]).
bb. Oddný[3]).
cc. Þórunn[4]).
dd. Valgerður.
ee. Gísli.
ff. Guðrún[5]).
e. Jón Pálsson átti Þuríði Eyjólfsdóttur Ísleifssonar og börn:

---

1) Um ætt frá börnum Erlings verður getið við Rangárþing.

2) Hólmfríður átti séra Stefán Hallkelsson á Stað í Grindavík († 1732), þ. b. meðal annara:
a. Ingibjörg átti Jón Vigfússon eldra lögréttumann á Háafelli í Hvítársíðu (II, 361), þ. b.: Eyjólfur Johnsoníus stjörnumeistari, Arngrímur prestur á Melum, Vigfús prestur í Miklaholti, Guðríður kona Jóns prófasts Sveinssonar á Stað í Steingrímsfirði og Gunnhildur kona séra Gísla Ólafssonar á Breiðabólsstað á Skógarströnd.

3) Oddný átti séra Jón Jónsson í Görðum á Akranesi († 1718) bróður Steins biskups, og var s. k. hans, þ. b.:
a. Guðrún átti Torfa Sigurðsson frá Miðfelli Magnússonar.
b. Þóra átti Jón Gíslason prests á Útskálum Jónssonar og var s. k. hans.
c. Guðrún önnur átti Gísla Jónsson prests á Torfastöðum Gíslasonar.
d. Diljá.

4) Þórunn átti séra Gísla Oddsson í Grímsey († 1708).

5) Launson Guðrúnar með séra Lýð Magnússyni í Skarðsþingum († 23. ágúst 1746) var:
a. Guðmundur, fæddur um 1700, gekk í Skálholtsskóla og mun hafa útskrifazt þaðan 1720, átti Sigríði Loptsdóttur. Meðal barna þeirra voru: Lýður sýslumaður í Vík (sjá Skaptafellssýslu), Magnús læknir á Norðurlandi, Páll og Loptur faðir Bjarna stúdents, er dó úr holdsveiki um 1780 og Þrúðar, er átti Pétur á Bjarnastöðum í Kolbeinsdal Sveinsson stúdents og Hólaráðsmanns Péturssonar frá Skjöldólfsstöðum Jónssonar Gunnlaugssonar prests í Möðrudal Sölvasonar.

f. Salvör.

g. Henrich barnlaus.

E. Ástríður Gísladóttir átti Jón sýslumann Magnússon (sjá Dalasýslu[1]).

F. Guðríður Gísladóttir (fædd 1577, dó 1620 (43 ára) átti 1595 séra Jón Guðmundsson í Hítardal[2]). Séra Jón fæddur 1558, fór stúdent til Kaupmannahafnar og var þar lærður í 5 ár, svo 3 ár í Brimum, var 4 ár skólameistari í Skálholti, fékk Hítardal 1590, dó 1634; þ. b.:

a. Séra Þórður samastaðar, giptist 1642 Helgu (dó 1693, 68 ára) dóttur Árna lögmanns Oddssonar, en séra Þórður deyði 1670, 61 árs; þ. b.:

aa. Þorsteinn á Skarði.

bb. Guðríður kona Jóns biskups Vigfússonar.

cc. Jón.

b. Gísli í Öskjuholti, dó 1662 giptist á móti vilja föður síns Þóru dóttur séra Jóns á Staðarhrauni; börn:

aa. Guðmundur eldri.

bb. Guðmundur yngri.

cc. Guðríður.

dd. Ingiríður.

ee. Guðrún, laundóttir Gísla.

c. Kristín átti Sigurð lögmann Jónsson í Einarsnesi (sjá Mýrasýslu).

d. Helga Jónsdóttir (giptist 1632 dó 1671) seinni kona Jóns sýslumanns Sigurðssonar í Einarsnesi, þeirra börn dóu ung.

e. Þórunn Jónsdóttir giptist 1632 séra Gunnari Björnssyni; þ. d.

aa. Guðríður dó 1713 átti Mag. Gísla Vigfússon.

f. Guðrún gerðist 1636 seinni kona séra Sig-

---

1) II, 652—658.

2) Um afkomendur séra Jóns Guðmundssonar í Hítardal hina næstu sjá Bisks. II, 280—283. Bogi hefur og sjálfur talið börn hans II, 611—612.

urðar í Stafholti, Oddssonar biskups; börn:

aa. Gísli í Oddgeirshólum dó 1666, átti Þorbjörgu dóttur Vigfúsar sýslumanns Gíslasonar, dó 1698, barnl.

bb. Oddur.

cc. Séra Sigurður á Staðarstað faðir Odds lögmanns.

dd. Guðríður.

ee. Hólmfríður.

g. Guðmundur bl.

G. Halldóra Gísladóttir lögmanns fyrri kona Ólafs frá Sauðafelli, Hannessonar[1]) Björnssonar frá Snóksdal. (Ólafur var hagur og skytta, gekk örðugt og seldi hálft Sauðafell 1641), börn:

a. Gísli í Bæ í Dölum, átti fyrr Kristínu dóttur Sigurðar í Akureyjum Ögmundssonar; þ. b.:

aa. Kristín, sem átti Sigurð lögréttumann Pálsson.

1649 giptist Gísli aptur Sigríði Sigurðardóttur prests á Ökrum, var hún þá ekkja eptir Jón Pétursson á Vatnshorni; þ. s.:

bb. Sigurður Dalaskáld, faðir Jóns sýslumanns og lögsagnara í Dala-Stranda- og Snæfellsnessýslum (sjá Snæfellsnessýslu).

Þriðja kona Gísla var Halldóra dóttir séra Halldórs Jónssonar, börn:

cc. Jón eldri átti Solveigu Skaptadóttur og börn.

dd. Jón yngri í Akureyjum, lögréttumaður dó 1713, bl.

ee. Bjarni átti Helgu Skaptadóttur og börn.

ff. Þuríður átti Jón Jónsson á Hróbjargarstöðum, bl.

b. Þórður Ólafsson á Lambeyri (átti Hvassafell), hans kona Dýrfinna Bjarnadóttir Jónssonar úr Tálknafirði; þ. b.:

---

1) Börn Ólafs Hannessonar og Halldóru eru áður talin II, 317—318. Er það mikill ætthringur, sem af Ólafi er kominn.

aa. Jón faðir Jóns, er átti Málfríði frá Grís-
hóli.
bb. Sigríður átti Jón Brandsson og börn.
cc. Ólafur.
dd. Guðný.
ee. Bjarni.
ff. Guðrún.
gg. Þorleifur.
hh. Sigríður yngri og fleiri, því alls átti Þórður 14 börn.

c. Jón Ólafsson á Víðilæk, góð skytta, átti Valgerði Þorvaldsdóttur, Ólafssonar Brandssonar; börn:
aa. Oddný átti Henrik Filippusson og börn:
bb. Guðrún átti Magnús Magnússon, bl.
cc. Kristín giptist ekki, en átti 2 launbörn.
dd. Helgi.
ee. Ólafur.
ff. Halldóra.
gg. Valgerður.
hh. Henrik.
ii. Kristín önnur; af þeim er margt fólk.

d. Hannes Ólafsson, átti Margréti Hafliðadóttur; þ. b.:
aa. Jón átti Þorbjörgu Illhugadóttur; þ. b.:
aaa. Kristján.
bbb. Guðrún.
bb. Halldóra átti Guðmund Egilsson í Kimblavík og börn.

e. Guðríður á Kongsbakka, átti Ögmund Sigurðsson; b:
aa. Helgi átti Guðrúnu Steindórsdóttur og börn.

g. Guðrún (dóttir Ólafs á Sauðafelli Hannessonar), átti séra Ögmund Torfason í Otrardal; börn:
aa. Steinvör átti Þórð Snæbjörnsson; þ. b.:
aaa. Guðrún móðir Torfa á Kinnarstöðum.

bb. Gróa átti Eyjólf í Hrísdal, þ. s.
aaa. Eyjólfur.
cc. Magnús Ögmundsson.
h. Þórunn Ólafsdóttir átti Ívar Jónsson (al. Jón son Jóns Ívarssonar frá Neðrabæ); þ. b.:
aa. Ívar.
bb. Jón.
Svo átti Þórunn Jón Þórðarson frá Hænuvík (Jón drukknaði 1671); börn:
cc. Guðríður.
dd. Sigríður.
ee. Ólafur.
ff. Gyðríður.
gg. Jón.
hh. Ástríður.
Olafur giptist síðar, og âtti Steinunni Björnsdóttur; þ. b. voru:
i. Magnús.
k. Andrés.
l. Guðríður.
m. Halldóra.

Ólafur átti og mörg fleiri börn, alls 31, urðu flest lánlítil og örm. — Ólafur átti fyrst meir en 20 jarðir eða sjálfur yfir þrjú hundruð hundraða, og fyrri kona hans eitt hundrað hundraða í jörðum. Hann var ei fallinn til búskapar og seldi smátt og smátt jarðir sínar. Bjó fyrst á Sauðafelli, það seldi hann hálft séra Þórði í Hítardal, flutti þá að Bár og þar misti hann Halldóru konu sína, giptist svo aptur og átti fjölda barna með Steinunni dóttur Björns á Laxamýri; varð um síðir örsnauður og deyði í elli sinni í Otrardal, hjá Guðrúnu dóttur sinni, sem átti séra Ögmund í Otrardal.

H. Guðrún dóttir Gísla lögmanns átti Magnús lögmann Björnsson (sjá Vaðlaþing).

I. Jórunn Gísladóttir. (Hér greinir á ættartölur, því í flestum er sagt, að Jórunn, sem dó 1657, og átti séra Jón Ormsson á Kvennabrekku (sjá

Barðastrandarsýslu) hafi verið dóttir Gísla á Staðarfelli og í Galtardalstungu, Jónssonar á Svarfhóli, Ólafssonar sýslumanns Guðmundssonar (sjá Strandasýslu). En þó hefur Jórunn verið ættarnafn Gísla lögmanns, því Jórunn hét móðir Gísla lögmanns og Jórunn hét dóttir Astríðar Gísladóttur lögmanns (sjá Dalasýslu). Vitum vér ei, hvort Jórunn dóttir Gísla lögmanns hefur verið kona séra Jóns Ormssonar eða sú áðurnefnda; má hver þar um halda sem vill. En hafi Jórunn dóttir Gísla lögm. ei andast ógipt, lítur það líklega út, að hún hafi átt séra Jón Ormsson, því annarsstaðar finn eg hennar ei getið, en hvorttveggja getur staðizt tímans vegna)[1].

K. Sigurður nefnist og sonur Gísla lögmanns, en hvergi get eg fundið ætt frá honum[2]).

Gísli Þórðarson fæddur nalægt 1545, iðkaði lærdómsmenntir öndverða æfi sína, og fór ungur utan til lærdómsiðkana. Hann kom sér vel við kongsvaldið á Bessastöðum, svo hann gerðist valdsmaður í ýmsum sýslum. Eg hygg hann hafa haldið Gullbringusýslu í umboði Dana fyrir og um 1580, því þar lét hann dóm ganga að sumra sögn 1583, og er meining mín, að hann hafi þá og stundum verið umboðsmaður í Kjósarsýslu. En nokkru þar eptir hefur hann tekið að vísu hálft Árnesþing, og þar var hann orðinn sýslumaður þá hann 2. maí 1590 lét dóm ganga að Bakkarholti um Skál-

1) Það er áreiðanlegt, að Jórunn kona séra Jóns Ormssonar var dóttir Gísla Jónssonar í Galtardalstungu, en ekki Gísla lögmanns. Sbr. um hana og börn hennar II, 330—331.

2) Í gamalli ættatölu (Lbs. J. S. 316 4to.) ritaðri um 1660—70 er nefnd laundóttir Gísla lögmanns:

L. Guðríður, hennar f. m. Gísli Grímsson, þ. b.:
1. Gissur.
2. Jón.
3. Gísli á Skarði vestur.
4. Oddhildur ógipt.
5. Ragnhildur átti Jón Jónsson.
6. Guðrún átti Ara Brandsson.

holtsstaðarmark. Í Hirðstjóraannál kallast og Gísli sýslumaður í Árnesþingi. 1596 nefnir Gísli 6 menn í dóm um kapalsölu fátæklings, hvers börn voru í Skeiðahrepp; sýnist þá sem hann hafi haldið hálfa sýsluna; er ei ólíklegt, að Jón Marteinsson hafi stundum verið hans umboðsmaður, þá Gísli var fjarlægur. Nálægt þeim tíma mun hann hafa sleppt Árnesþingi og tekið Kjósarsýslu, því 1598 er getið dóms hans, var þó jafnframt aðstoðarmaður föður síns í Borgarfjarðarsýslu, því þar lét hann dóm ganga 1597 og optar. Einnig hefur hann þá og stundum haft Gullbringusýslu, því 1603 lét hann dóm ganga að Býjaskerjum þann 2. maí um utansveitarmenn.

1606 þá Þórður lögmaður frásagði sér lögmannsembættið vegna elliburða var Gísli son hans kosinn í hans stað, og næsta ár tók hann Snæfellsnessýslu og Stapaumboð (1607). Jón Dalasýslumaður tengdasonur hans var þar hans umboðsmaður (sjá Dalasýslu). Það lítur svo út sem Gísli hafi ásamt lögmannsdæminu tekið Borgarfjarðar- og Mýrasýslu 1606 eptir föður sinn, og haldið þeim til síns dánardægurs. — 1611 (al. 1612) fékk Gísli lögmaður hjá kongi skólameistaraembætti í Skálholti handa Steindóri syni sínum, en af því honum dvaldist utanlands í þjónustu Steins Brahe, hins tignasta manns, var Árni son Odds biskups settur skólameistari, þá tvítugur að aldri. Steindór kom ei út fyr en 1613 og giptist strax Guðrúnu og komst þá í jarðaþrætumál við Guðbrand biskup. (Sjá um hann við Snæfellsnessýslu).

1613 hafði Herluff Daae Gísla lögmann fyrir ýmsum sökum; var það ein, að hann hefði leyft á Snæfellsnesi fálkatekju útlendum manni og fleira þess háttar. Þröngvaði hann svo að Gísla lögmanni, að mælt er að lögmaður hafi mátt bæta höfuðsmanni 500 rd. specie. Þá sagði lögmaður af sér Snæfellsnessýslu og Stapaumboði. 1614 var Gísli lögmaður og Jón Sigurðsson lögmaður í lögréttu og sögðu þá lög, en Gísli sagði af sér að þinglokum 1614, en Gísli Hákonarson var þá tekinn til lögmanns. Gísli lögmaður Þórðarson var þá og þrotinn að heilsu, en hniginn að aldri.

1619 andaðist Gísli lögmaður Þórðarson, var hann þá yfir sextugt eða nær hálfsjötugur, einum vetri fátt í[1]). Hafði

1) Eptir því sem að framan er sagt um fæðingarár Gísla lögmanns (1545) hefur hann verið 74 ára, er hann andaðist, en ekki 64.

hann lengi búið á Innrahólmi seinni hluta æfi sinnar og þótti ágætur höfðingi og auðmaður mikill. Kynsæll maður varð hann og eru fjölmennar ættir af honum komnar, þar af urðu sumir mikilmenni og margt bændafólk.

Nokkrir eigna Gísla lögmanni Hákonarsyni, sem þá bjó í Laugarnesi, að hafa spillt fyrir Gísla lögmanni Þórðarsyni við höfuðsmann Envold Kruse. Hafi til orsaka verið fundið Gísla lögmanni Þórðarsyni rangsleitni í tekjum og ofmikil ágirnd með ýmsu móti með fleiru, en hafi skort séðleik að fara vel og klóklega þar með. Var hann að sögn mikill fjárgæzlumaður og auðugur. En hafði heldur skaða en ábata við töku Stapaumboðs og sleppti því þessvegna.

## Ormur Vigfússon.

(Sjá um hann við Kjósarsýslu). Hann meina eg tæki þessarar sýslu suðurpart eptir Gísla lögmann 1620; þó hef eg ei séð dóma hans í þessari sýslu, utan þann sem hann let ganga á Heggsstöðum þann 8. júní 1631[1]), og kallast hann þá sýslumaður konungs. 1635 nefnist hann í þingbókinni sýslumaður í Þverárþingi. Ormur sleppti þessari sýslu 1636 og gerðist Skálholtsstaðar-ráðsmaður, en 1649 var hann orðinn sýslumaður í Kjós, sleppti þeirri sýslu 1662, þá 86 ára, deyði 1675, 99 ára gamall. Dóma í þessari sýslu hef eg fundið eptir Orm vorið 1635, sem þá komu til alþingis. 1636 og 1638 var Ormur í sýslumannatölu á alþingi.

## Árni lögmaður Oddsson.

(Sjá um hann við Árnesþing). Þá Ormur sleppti Borgartjarðarsýslu hafði Árni lögmaður sýsluna 1636 litla hríð eða í hans umboði lét þar ganga einn dóm.

## Hinrik Gíslason.

*Faðir*: Gísli lögmaður Þórðarson (sjá hér á undan).
*Móðir*: Ingibjörg dóttir Árna sýslumanns á Hlíðarenda (sjá hér á undan).
*Kona*: Guðrún dóttir Magnúsar sýslumanns í Ögri og

1) Hinn 9. maí 1632 lét Ormur dóm ganga í Reykholti.

Bæ á Rauðasandi Jónssonar; giptust 1606, hún dó á Innrahólmi 1652[1]).

*Börn*: A. Þórður sýslumaður (sjá síðar).

B. Guðrún fyrri kona Jóns Jónssonar Skön, bl.

C. Jórunn (dó 1693) giptist Benedikt sýslumanni Halldórssyni (sjá Hegranesþing)[2]).

D. Pálmi launson Hinriks bjó á Varmalæk. Móðir hans Gróa dóttir Sæmundar klénsmiðs. Hann varð seinni maður Ragnheiðar dóttur Eggerts í Snóksdal Hannessonar[3]), þ. b.:

a. Sigurður átti Margréti dóttur Jóns Erlingssonar (bróður Brynjólfs í Lóni). Sigurður bjó á Breiðabólsstað í Sökkólfsdal og átti þá jörð. Hann varð þá eltist hálf vanmáttugur. Sigurður lögréttumaður dó 1729, börn:

aa. Þorsteinn drukknaði í Álptafirði á ver-ferð.

bb. Pálmi lögréttumaður á Breiðabólsstað í Sökkólfsdal eptir foreldra sína, giptist 1720 Sigþrúði dóttur séra Þorleifs á Kvennabrekku, börn:

aaa. Þorleifur.

bbb. Margrét.

ccc. Guðrún.

cc. Þorgils skólalærður, var 2 eða 3 ár locator og síðan ráðsmaður í Skálholti, átti Guðrúnu systur Jóns biskups Árnasonar, þ. b.:

aaa. Séra Jón í Hellnaþingum.

bbb. Ólafur.

ccc. Oddur.

ddd. Þorsteinn.

eee. Margrét.

fff. Guðrún.

---

1) 22. september (Ísl. Ártíðaskrár bls. 196).

2) I, 382—385.

3) Barna Pálma og Ragnheiðar er getið II, 319.

dd. Halldóra Sigurðardóttir í Skörðum, ógipt[1]).

Launbarn átti Sigurður með Arndísi:

ee. Solveig fyrri kona Tuma á Gautastöðum[2]).

b. Guðlaug Pálmadóttir þriðja kona Sigurðar Þorsteinssonar í Hlíð, þ. b.:

aa. Jón í Tungu átti Guðrúnu Aradóttur og börn.

bb. Eggert átti Steinunni Þórðardóttur og börn[3]).

Fyrri kona Pálma Hinrikssonar var Guðlaug dóttir Snorra á Varmalæk, þeirra börn:

c. Marín átti Einar son Galdra-Brands í Stóra-Skógi, þ. b.:

aa. Pálmi á Svelgsá[4]).

---

1) Halldóra er ekki nefnd meðal barna Sigurðar Pálmasonar í ættatölum Snókdalíns.

2) Tumi var Einarsson. Voru 3 dætur hans og Solveigar, Ingibjörg, Sigríður og Solveig, er allar giptust.

3) Snókdalín telur fleiri börn Sigurðar og Guðlaugar en þá Jón og Eggert, nfl.:

cc. Jón yngri í Hlíð.

dd. Pálmi. Hans synir:

a) Hinrik á Litlafjalli.

b) Guðmundur faðir Pálma á Ósi í Bolungarvík föður Þórdísar, er átti Hallgrím Laurentiusson Erlendssonar sýslumanns Ólafssonar, þeirra son Laurentius faðir Ólafs á Gelti við Súgandafjörð,

ee. Ingveldur var tvígipt.

4) Pálmi átti Guðrúnu Bárðardóttur frá Neðri-Lág í Eyrarsveit, þ. b.:

1. Sigurður á Staðarbakka átti Vigdísi Illhugadóttur, þ. b.:

a. Herdís átti Jón Helgason Steindórssonar sýslumanns Helgasonar.

b. Kristín átti Jón í Bjarnarhafnarkoti Þorsteinsson frá Hrísum Einarssonar, þ. d. Kristín átti Jóhannes Sveinsson.

c. Elizabet átti Guðmund Guðmundsson í Hraunsfirði og börn.

bb. Jón[1]).
cc. Hinrik[2]).
dd. Brandur[3]).
d. Hinrik.
e. Anna.
f. Arndís. Af þeim öllum er komið almúgafólk.

Hinrik bjó á Innrahólmi eptir föður sinn, og er mælt

---

d. Guðrún átti Þorlák Einarsson hattasmiðs Hannessonar á Narfeyri Daðasonar Hannessonar Daðasonar á Hrafnabjörgum Gíslasonar, þeirra son Daði faðir Guðlaugs á Heinabergi.

1) Jón átti fyr Sigríði Sigurðardóttur Hannessonar eldra Daðasonar, bl., síðar Guðrúnu Oddadóttur og börn.

2) Hinrik telur Snókdalín að hafi átt Magnhildi, (er sumir kalla Ragnhildi), Björnsdóttur lögsagnara Jónssonar (sbr. bls. 174), en á öðrum stað telur hann mann Magnhildar Hinrik á Litlafjalli Pálmason Sigurðssonar í Hlíð Þorsteinssonar (sjá hér áður), en það er líklega skakkt.

3) Launbörn Brands voru:
1. Einar í Kambsnesi. Hans son:
   a. Þorlákur í Miðskógi faðir Brands á Sauðafelli, Einars á Geitastekk o. fl.
2. Guðrún átti Þorkel Tómasson, þ. b.:
   a. Ingveldur átti Jón Hálfdanarson í Saurlátri.
   b. Brandur átti Guðrúnu Guðbrandsdóttur.
   c. Loptur.
   d. Arnljótur.
   e. Maren.
   f. Ragnheiður átti fyr Jón Sigurðsson í Hraunsfirði og börn, síðar Jón á Kaldárbakka Magnússon frá Kongsbakka Bjarnasonar í Lækjarbug Magnússonar, þ. b.:
      aa. Þorkell í Yztugörðum tvíkvæntur. Son hans með s. k. Kristínu Finnsdóttur frá Brúarfossi Árnasonar á Gaul Jónssonar var:
         × Finnur í Yztugörðum faðir Finns, er um tíma var kaupmaður í Reykjavík.
   g. Tómas átti Þórunni Ólafsdóttur.
   h. Þorkell. Launson hans:
      aa. Árni í Einarslóni faðir Þorkels í Bárðarbúð við Hellna.

hann hafi þaðan farið sjóveg til Bæjar á Rauðasandi, þá hann giptist Guðrúnu Magnúsdóttur 1606. Hinrik meinast að hafa verið umboðsmaður föður síns, en tekið Kjósarsýslu fyrir 1619. Það ár fór hann utan upp á taxtann. 1620 kom hann út og vann þá á alþingi sinn hollustueið. 1636 sleppti hann Kjósarsýslu, en tók Borgarfjarðarsýslu sunnan Hvítár, lifði þar eptir 2 ár og deyði 1638[1]). Hinrik var haldinn mesti ágætismaður.

1635 lýsti hann brigðum á Knör, Hraunlöndum og fleirum jörðum, sem Steindór bróðir hans hafði selt af arfi sínum. 1637 var hann meðdómsmaður á alþingi.

## Þórður Hinriksson.

*Faðir*: Hinrik sýslumaður á Innrahólmi nýnefndur.
*Móðir*: Guðrún Magnúsdóttir.
*Kona*: Anna Pétursdóttir dönsk að ætt[2]).
*Börn*: A. Pétur, (dó 1671)[3]), átti Ragnhildi dóttur Jóns sonar Jóns lögmanns Sigurðssonar á Reynistað (sjá Húnavatnsþing), börn:

a. Þórður lögréttumaður á Innrahólmi (dó 1730) atti fyrst Margréti Sigurðardóttur, barnlaus. Svo Kristínu Ísleifsdóttur og svo barnlaus, seinast Ragnheiði dóttur séra Árna í Hruna Halldórssonar, barn:

aa. Margrét átti Eirík son séra Vigfúsar Eiríkssonar[4]), þeirra börn:

aaa. Vigfús dimissus[5]) átti fyr Kristínu Sveinsdóttur og börn[6]). Svo Valgerði Árnadóttur og barn.

---

1) Hann dó 2. júní (Ártíðaskrár bls. 195).

2) Hún dó á Innrahólmi 10. júlí 1647.

3) Ártíð hans er 11. ágúst.

4) Eiríkur var stúdent og bjó í Ási í Melasveit, dó 1744 (II, 331).

5) Vigfús stúdent dó í Galtarholti í Skilmannahrepp 22. september 1788. (Sjá framætt hans II, 331, 359).

6) Eitt barna Vigfúsar stúdents og f. k. hans Kristínar Sveinsdóttur prests í Hvammi Guðlaugssonar var:

bbb. Margrét.

---

1. Eiríkur prestur á Stað í Súgandafirði († 18. apríl 1838) átti Ragnheiði Halldórsdóttur frá Látrum Eiríkssonar, þ. b.:

a. Vigfús í Breiðadal átti Þorkötlu Ásgeirsdóttur prófasts í Holti Jónssonar, þ. b.:

aa. Kristján í Breiðadal átti Málmfríði Kjartansdóttur frá Tröð Ólafssonar, þ. b.: Kristján á Bíldudal, Viktoría kona Daða á Dönustöðum og Jónína. Launbörn hans með Guðrúnu Mósesdóttur: Kristján snikkari og Marsibil á Jón Guðmundsson á Kirkjubóli.

b. Halldór á Grafargili í Valþjófsdal. Hans börn:

aa. Eiríkur á Þorfinnsstöðum átti Jóhönnu Jónsdóttur frá Mosdal Magnússonar, þ. b.:

× Guðmundur Ásgeir hreppstjóri á Þorfinnsstöðum átti fyr Þórunni Sveinbjarnardóttur, þau bræðrabörn, þ. b.: Kristín kona Einars Helgasonar garðyrkjufræðings í Reykjavík, Halldór, Guðrún, Jófríður, Sveinbjörn, Jón Ágúst, Eiríkur dó um tvítugt. S. k. Guðmundar Anna Brynjólfsdóttir Guðmundssonar dbrm. á Mýrum Brynjólfssonar, þ. b.: Þórunn Halldóra og Brynjólfur.

× Vigfús í Tungu í Valþjófsdal kvæntur Guðrúnu Sveinbjarnardóttur frá Kirkjubóli.

× Bjarni ókvæntur.

× Þórunn á Guðmund Jónsson skósmið á Ísafirði.

× Jóhanna á Sumarliða Jónsson í Önundarfirði.

× Guðbjörg átti Eirík Þorsteinsson, fór til Ameríku.

× Rikey, óg. bl.

bb. Sveinbjörn á Kirkjubóli átti Kristínu Kjartansdóttur frá Tröð Ólafssonar, þ. b.:

× Þórunn f. k. Guðmundar Eiríkssonar (sjá hér áður).

× Guðrún gipt Vigfúsi Eiríkssyni bróður hans.

× Halldór.

× Jón.

× Kjartan.

cc. Halldór á Hóli á Hvylftarströnd, kvæntur, átti 18 börn, þar á meðal: a) Bersabe á Kristján Guðmundsson á Kirkjubóli.

dd. Friðgerður dó ógipt bl.

c. Bjarni dó ókvæntur.

d. Elín giptist.

e. Björn á Sela-Kirkjubóli kvæntur átti börn.

ccc. Ragnheiður[1]).

Laundóttir Þórðar Péturssonar var:

bb. Margrét átti Bjarna Pétursson Pálssonar, þeirra börn deyðu ung.

B. Guðrún átti launbarn, var gerð arflaus, giptist þó seinna Jóni syni séra Ólafs í Saurbæ, börn:

a. Jón átti Guðnýju Grímsdóttur, þ. d.:

aa. Guðrún.

b. Elín átti Guðmund Gíslason.

C. Hinrik átti launson[2]):

a. Pálmi. Hinrik fór utan þar eptir.

D. Jón á Bakka, (dó 1719), átti Helgu Sigurðardóttur[3]), barnlaus.

E. Björn.

F. Hans.

*Kona* Þórðar *seinni*, hverri hann giptist 1648 var Þorlaug (al. Guðlaug)[4]) Einarsdóttir, áttu ei börn saman.

Þórður var til mennta settur ungur[5]), var svo stundum

---

1) S. m. Margrétar Þórðardóttur móður Vigfúsar stúdents í Galtarholti var Oddur stúdent Eiríksson prests í Hrepphólum Oddssonar á Fitjum. Hann var útskrifaður úr Skálholtsskóla um 1733, skrifaður í stúdentatölu við Hafnarháskóla 20. desember 1735, kom inn aptur og kvæntist nokkru síðar Margréti. Bjó hann um hríð á Stað í Grindavík, en flutti með séra Þórði Jónssyni á Stað mági sínum austur að Kálfafelli í Fljótshverfi um 1774, en talið er að hann hafi dáið í Stóra-Botni á Hvalfjarðarströnd nokkru eptir 1780. Hann var fremur óreglumaður. Ætt frá honum er ekki fullkunn, en talið er að Guðrún dóttir hans og Margrétar hafi átt Þorvald bónda á Þorkötlustöðum, þeirra son Oddur í Vatnsholti í Flóa faðir Ámunda í Vatnsholti, Þorvarðar í Vælugerði og Þorvaldar í Merkinesi föður Árna, er síðast bjó á Innrahólmi.

2) Að þessi Hinrik hafi átt launson Pálma að nafni mun rangt hjá Boga og málum blandað við Pálma Hinriksson, föðurbróður Hinriks Þórðarsonar.

3) Helga var dóttir Sigurðar í Leirárgörðum Árnasonar lögmanns Oddssonar.

4) Líklega réttara Guðlaug. Hún er talin dóttir Einars Nikulássonar á Héðinshöfða.

5) Hann sigldi til háskólans og er skrifaður þar í stúdentatölu 13. nóvember 1626.

við umboð hjá Bessastaða valdsmönnum og föður sínum, og þá Hinrik sleppti Kjósarsýslu 1636 sýnist sem Þórður hafi hana tekið af þeim dómi, sem hann það ár lét þar ganga. Við dauða föður síns eða um 1638 fékk Þórður veiting fyrir Borgarfjarðarsýslu sunnan Hvítár og bjó þar eptir á Innrahólmi. 1645 gerðist og Þórður alþingisskrifari. Hann hélt lénum sínum til þess hann deyði 1652[1]). Þótti hann í mörgu mikill maður, en ei jafnoki föður síns. 1645 lét Þórður sýslumaður ganga dóm um jarðaábúð og kúgildadráp.

## Snorri Ásgeirsson.

*Faðir*: Séra Ásgeir á Lundi Hákonarson sýslumanns.
*Móðir*: Ingibjörg Guðmundsdóttir.
*Kona fyrsta*: Marín dóttir séra Erasmusar á Breiðabólsstað Villadssonar. (Marín deyði 1607)[2]).
*Börn*: A. Séra Sigurður á Rafnseyri, (dó 1647), seinni maður Dísar dóttur séra Bjarna í Selárdal Halldórssonar prests sama staðar.
B. Séra Erasmus á Skúmsstöðum[3]) átti fyr Gróu Jónsdóttur, þeirra börn:
a. Gísli átti Guðrúnu Halldórsdóttur.
b. Ingibjörg átti Sæmund Ásmundsson[4]).

---

1) Hann andaðist 6. febrúar (Ísl. Ártíðaskrár bls. 194).

2) Hún dó í Vatnsdal í Fljótshlíð 14. apríl (1607) Bisks. II, 648.

3) Séra Erasmus dó 1647.

4) Sæmundur var son Ásmundar Brynjólfssonar á Minnivöllum á Landi kominn í beinan karllegg frá Torfa í Klofa. Ingibjörg var á lífi í Sumarliðabæ 1729 86 ára. Son Sæmundar og hennar:
1. Gísli í Sumarliðabæ átti Þóru Þórisdóttur, þ. b.:
a. Jón átti Hlaðgerði Einarsdóttur frá Vetleifsholtshelli Árnasonar, þ. b. Jón.
b. Erasmus í Hvammi í Kjós, dó 1780, átti Vilborgu Árnadóttur.
c. Gottskálk í Syðstu-Mörk átti Margréti Filippusdóttur frá Seljalandi Jónssonar systur Magnúsar »bíts«, þ. b.:
aa. Steinunn átti Gísla Guðmundsson í Hjallanesi, þ. b.:
aaa. Sæmundur smiður á Skarði í Lundareykjadal átti Valgerði Sæmundsdóttur og mörg börn.
bbb. Björn í Hjallanesi átti Hildi Filippusdóttur, þ. b.:

c. Halla átti með Einari Gunnlaugssyni[1]) laun-dóttur, hét:

---

× Filippus í Stekkunum í Flóa átti Sigríði Sveinbjarnardóttur, þ. b. Sveinbjörn o. fl.

× Guðrún, (lifir enn 1907 89 ára) átti Svein á Kjóastöðum í Biskupstungum Jónsson frá Keldnaholti (Kjarnholtum) Gíslasonar s. st. Jónssonar í Gýgjarhólskoti Jónssonar í Hólum Tómassonar og var s. k. hans, þ. b.: a) Guðjón ókvæntur og b) Hildur átti Egil Þórðarson á Kjóastöðnm (bræðrabörn), þ. d. Steinunn og Þórdís gipt Þorsteini klæðskera á Ísafirði Guðmundssyni frá Bergsstöðum í Biskupstungum Ögmundssonar á Efri-Reykjum Sæmundssonar í Helludal Sæmundssonar.

× Jón í Austvaðsholti á Landi átti Vigdísi Guðmundsdóttur, er áður var tvígipt.

× Vigdís fór til Utah í Ameríku.

× Björn í Hjallanesi átti Guðrúnu Jónsdóttur Finnbogasonar og mörg börn.

× Sigurður í Bjálmholti átti Rannveigu Bjarnadóttur, þeirra son Sigfús á Stóra-Hofi í Eystrihrepp.

× Anna átti Tómas Jónsson á Skammbeinsstöðum og mörg börn.

× Steinunn dó ógipt bl.

× Knútur á Efrahvoli og víðar.

× Ólafur.

× Guðný átti fyr Jón Guðnason frá Brattholti Runólfssonar, síðar Guðmund í Gröf í Ytrihrepp, þeirra son Guðmundur, er um tíma var fulltrúi bæjarfógetans í Reykjavík, nú dáinn.

ccc. Margrét átti Guðmund Guðmundsson.

ddd. Guðbjörg átti fyr Halldór Einarsson, síðar Þorstein Jónsson frá Holtsmúla Þorsteinssonar.

eee. Guðrún átti Guðmund Ólafsson í Hrólfsstaðahelli, þ. b.:

× Guðmundur í Hrólfsstaðahelli átti Guðrúnu Jónsdóttur frá Þorkelsgerði í Selvogi, þ. b.: Guð-

---

1) Einar var son Gunnlaugs prests Snorrasonar á Stað á Reykjanesi og bjó á Reksstöðum, þau Halla voru bræðrabörn.

aa. Þorgerður, og giptist Ögmundi Þórðarsyni[1]), börn :

---

mundur skáld, Guðjón, Guðfinnur Kristinn, Sesselja.
× Sæmundur bóndi á Þingskálum.
d. Þorsteinn í Sumarliðabæ átti Guðrúnu Bjarnadóttur frá Litlutungu í Holtum Magnússonar, þ. b.:
aa. Árni í Kaldárholti átti Margréti Gísladóttur, þ. b.:
aaa. Guðrún átti Jón Þorkelsson í Strympu.
bbb. Margrét átti Teit Finnsson í Snjallsteinshöfða, þ. b.:
× Margrét átti Magnús Jónsson í Snjallsteinshöfða, er enn lifir (1907) á tíræðisaldri, þeirra synir Jóhann og Teitur, bændur í Snjallsteinshöfða.
× Ingibjörg átti Bárð í Seli Brynjólfsson frá Þingskálum Jónssonar.
× Guðrún átti Þorstein Þorsteinsson í Skarði á Landi.
ccc. Sigríður átti Erlend Jónsson á Auðnum á Vatnsleysuströnd, þeirra synir: Jón á Auðnum og Þórður faðir Erlends verksmiðjustjóra á Reykjafossi og Guðbrands skósmiðs í Reykjavík.
ddd. Guðmundur í Kaldárholti.
eee. Þorsteinn í Kaldárholti átti Guðrúnu Daníelsdóttur frá Akbraut Jónssonar, þeirra son Daníel í Kaldárholti.
fff. Gísli í Kaldárholti átti Ingibjörgu Jónsdóttur frá Giljum Þorbjörnssonar, þ. b.:
× Árni leturgrafari í Reykjavík átti Guðlaugu Grímsdóttur Melbye Bjarnasonar.
bb. Þórir á Rauðalæk, dó 1809, átti Margréti Högnadóttur frá Neðradal undir Eyjafjöllum Þorleifssonar, þ. b.:
aaa. Snjáfríður.
bbb. Agnes átti Filippus Sveinsson frá Markaskarði Þórarinssonar Sveinssonar á Reynifelli Snorrasonar, þ. b.:
× Guðný s. k. Jóns Jónssonar í Hellisholtum.
× Margrét.
× Filippus.
× Agnes átti Jóhann Magnússon í Kotleysu.

---

1) Faðir Ögmundar var Þórður Snæbjarnarson Árnasonar prests í Látrum Jónssonar af Reykhólaætt.

aaa. Gunnlaugur í Flatey[1]).

---

e. Ásmundur á Kambi í Holtum. Hans börn:
aa. Gísli á Syðri-Rauðalæk átti Guðrúnu Árnadóttur, þ. b.:
aaa. Ásmundur á Syðri-Rauðalæk átti fyr Helgu Árnadóttur, þ. b.:
× Sigurður á Skriðufelli kvæntur.
× Margrét átti Guðmund Þórðarson frá Hömrum.
× Guðfinna átti Vigfús Vigfússon frá Álfsstöðum Helgasonar.
× Halldóra átti Helga Snorrason.
S. k. Ásmundar Valgerður Jónsdóttir, þ. d.:
× Helga.
bbb. Jón á Herríðarhóli í Holtum átti fyr Gunnvöru Jónsdóttur, síðar Ingveldi Bjarnadóttur frá Kotferju Árnasonar, þ. b.:
× Bjarni á Eiði í Mosfellssveit, nú í Reykjavík, kvæntur Gróu Gestsdóttur Ólafssonar Gestssonar prests á Kjalarnesi Þorlákssonar.
× Jón. Son hans Jón læknir í Hróarstunguhéraði kvæntur Ingibjörgu Sigurðardóttur.
× Guðrún.
× Guðrún önnur á Jón Tómasson í Sauðholti.
ccc. Auðbjörg átti Þorgils í Kambi Sigurðsson Þorgilssonar á Reynifelli Þorgilssonar og var f. k. hans. Þorgils var bróðir Eyjólfs á Neistastöðum og Egils í Akbraut.
ddd. Halldóra átti Bjarna Ingimundsson á Læk. Ein dóttir þeirra Rannveig kona Sigurðar Björnssonar í Bjálmholti (sjá áður).
eee. Guðrún var s. k. Helga í Bjálmholti Einarssonar s. st. Egilssonar.
fff. Rannveig bl.
ggg. Vigfús bl.

---

1) Gunnlaugur átti Sigríði Ólafsdóttur Oddssonar, föðursystur Einars í Skáleyjum, þ. b.
a. Geirlaug átti Árna Sveinbjörnsson í Látrum, föðurbróður Eyjólfs dbrm. í Svefneyjum, þ. b.
aa. Gunnlaugur í Látrum, o. fl.
b. Einar átti Sæborgu Þórðardóttur og börn.

bbb. Guðrún[1]).
ccc. Einar[2]).
Halla giptist síðar Þorleifi almúgamanni.
Séra Erasmusar seinni konu börn voru:
d. Bjarni.
e. Guðrún.
f. Gróa.
g. Margrét.
C. Helga átti séra Einar Sigurðsson á Stað í Steingrímsfirði, börn:
a. Séra Ásgeir í Tröllatungu, (dó 1702), átti Sigríði Björnsdóttur, börn:
aa. Séra Snorri í Tröllatungu[3]).
bb. Sigurður[4]).
cc. Gísli[5]).

---

bb. Jón Ásmundsson kvæntist ekki.
cc. Þóra giptist ekki.
f. Agnes Gísladóttir átti Eyvind nokkurn, bl.
g. Guðrún.

---

1) Guðrún átti Jón Steingrímsson fálkafangara í Múla á Langadalsströnd, þ. b.:
a. Sveinn í Múlakoti átti fyr Geirlaugu Jónsdottur, bl. síðan Ingibjörgu Snjólfsdóttur.

2) Einar átti Kristínu Einarsdóttur, bl.

3) Synir séra Snorra Ásgeirssonar voru:
1. Einar lögréttumaður á Heydalsá.
2. Guðmundur átti Guðrúnu Símonardóttur, þ. b.:
a. Brynjólfur á Heydalsá átti Húnbjörgu Arnfinnsdóttur, þ. b.:
aa. Arnfinnur faðir Guðmundar í Húsavík, Gísla í Miðhúshúsum í Kollafirði o. fl.
bb. Jón í Miðdalsgröf átti Þuríði Ólafsdóttur, systur Eggerts í Hergilsey, þ. b.
aaa. Einar dbrm. á Kollafjarðarnesi faðir Ásgeirs alþm. á Þingeyrum, Torfa alþm. á Kleifum og þeirra fleiri systkina.

4) Einn son Sigurðar Ásgeirssonar var Bjarni faðir Sigurðar á Næfranesi.

5) Gísli átti Halldóru Arnórsdóttur.

dd. Guðlaug[1]).
ee. Björn[2]).
ff. Helga[3]).
gg. Einar[4]).
Séra Ásgeirs seinni kona var Þuríður Jónsdóttir, þ. d.:
hh. Solveig, sem átti Guðmund Pétursson.

b. Séra Árni fyrst kapellan hjá föður sínum (misti prestsskap fyrir barneign) átti Guðrúnu Björnsdóttur; börn:
aa. Helga.
bb. Guðrún.

Laundættur séra Árna voru:
cc. Guðrún fædd 1643.
dd. Sigríður fædd 1646.

c. Séra Magnús prófastur Einarsson á Stað í Steingrímsfirði, prestur 59 ár, dó 1707, átti Guðrúnu Halldórsdóttur[5]); börn:
aa. Séra Halldór í Árnesi.
bb. Andrés[6]).
cc. Magnús.
dd. Snjólfur.
ee. Jón.
ff. Guðrún.
gg. Kristín.
hh. Briget.
ii. Séra Þorvarður í Sauðlauksdal.

d. Séra Teitur Einarsson í Bitruþingum, átti fyrr Þóru Arnfinnsdóttur; börn:

---

1) Guðlaug átti Jón Bjarnason frá Arngerðareyri, bl.

2) Björn átti Kristínu Þórðardóttur og tvö börn.

3) Helga átti séra Sigurð Hallsson á Rafnseyri.

4) Einar átti Gróu Jónsdóttur.

5) Frá séra Magnúsi Einarssyni er afarmikil ætt komin, er hér yrði oflangt að rekja.

6) Son Andrésar var Jón prestur í Arnarbæli († 1780), faðir Vigfúsar prests í Miðdal († 27. okt. 1818).

aa. Arnfinnur.
bb. Finnur.
cc. Sigurður eldri.
dd. Sigurður yngri.
ee. Snorri.
ff. Sigríður eldri.
gg. Sigríður yngri.
hh. Halldóra.
ii. Guðrún.
kk. Helga.
ll. Hólmfríður[1]).

Seinni kona séra Teits var Oddný Guðnadóttir; þ. s.

mm. Guðni.

e. María Einarsdóttir átti Guðmund í Kollabæ, Gíslason, Diðrikssonar; þ. b.:
aa. Séra Sigurður í Fljótshlíðarþingum.
bb. Anna[2]).

f. Sigþrúður átti séra Jón Loptsson; börn:
aa. Séra Jón á Staðarstað.
bb. Séra Árni í Hvítadal.
ee. Guðrún.
dd. Þórunn.
ee. Pétur.

D. Guðrún Snorradóttir seinni kona séra Jóns Sigurðssonar á Breiðabólsstað, barnlaus.

E. Guðrún yngri, átti séra Jón Bergsson í Fljótshlíðarþingum; börn:

a. Séra Henrik á Eiðum, dó ógiptur 1664, hans launbarn:

---

1) Hólmfríður átti Hall Guðnason á Kolbítsá, þ. s.:
a. Guðni í Húsavík í Steingrímsfirði. Hans son:
aa. Þorkell prestur á Stað í Hrútafirði, faðir Vernharðs prests í Reykholti.

Frá börnum séra Teits Einarssonar er mikill ætthringur kominn.

2) Anna átti Guðmund son Vigfúsar Magnússonar á Höfðabrekku og Höfðabrekku-Jóku, þ. b.:
a. Ásmundur á Voðmúlastöðum.
b. Jórunn átti Jón Jónsson á Kirkjulæk.

aa. Þormóður[1]).
b. Séra Sigurður í Ögurþingum, dó ógiptur 1665, barnlaus.
c. Kristín átti Árna Arnoddsson frá Berjanesi, þeirra dóttir:
aa. Guðrún.
d. Marín (al. Málfríður) átti Jón Vigfússon á Herjólfsstöðum[2]).
e. Bergur átti Bergljótu Hallsdóttur.
F. Guðlaug fyrri kona Pálma Hinrikssonar (sjá hér á undan)[3]).

*Kona* Snorra hin *seinni* var Anna dóttir Árna sýslumanns Gíslasonar á Hlíðarenda. (Hún hafði áður átt Guðmund Þórðarson)[4]), barn:

G. Séra Gunnlaugur á Stað á Reykjanesi átti Kristínu Gísladóttur[5]), börn:

---

1) Son Þormóðs Hinrikssonar gæti verið sá Hinrik Þormóðsson, er býr á Torfastöðum í Grafningi 1729 47 ára (f. um 1682) og átti Helgu Finnsdóttur frá Búrfelli Jónssonar. Meðal barna þeirra: Þormóður, bjó hingað og þangað, Jón bóndi á Torfastöðum, kvæntur Helgu Sæmundsdóttur prófasts á Miklabæ Magnússonar og Guðný, er átti Guðbrand Þorvarðsson á Villingavatni.

2) Faðir Jóns var Vigfús á Herjólfsstöðum son Jóns prests í Kálfholti Stefánssonar prests í Odda Gíslasonar biskups og bróðir Guðna í Tungufelli föður Sigurðar í Ásgarði, sem Ásgarðsætt (ætt Jóns Sigurðssonar) er frá komin (sbr. bls. 248). Jón Vigfússon býr í Tungu í Landeyjum 1709 og er enn á lífi 1729 89 ára í Minni-Hildisey, og gæti það verið sami maður og Jón Vigfússon frá Herjólfsstöðum. En son Jóns Vigfússonar í Tungu var Jón í Minni-Hildisey, er verið hefur faðir Sighvats á Kúhóli og síðar Tjörnum undir Eyjafjöllum, föður Jóns dbrm. í Njarðvík. En vitanlega er þessi framætt hans til Gísla biskups ekki fullkomlega viss.

3) Fyrri konu börn Snorra Ásgeirssonar eru talin Bisks. II, 648—649.

4) Þ. e. Guðmund son Þórðar lögmanns (sjá hér áður).

5) Kristín var dóttir séra Gísla Einarssonar á Stað á Reykjanesi, bróður Odds biskups.

a. Hannes í Reykjarfirði læknir átti Önnu Þorleifsdóttur (al. Þorkelsdóttur), þ. s.:
aa. Jón í Reykjarfirði átti Hallbjörgu Ásgeirsdóttur og mörg börn[1]).
b. Bjarni á Arngerðareyri átti 1669 Margréti dóttur séra Torfa á Kirkjubóli Snæbjörnssonar prests, börn:
aa. Séra Torfi á Snæfjöllum[2]).

---

1) Meðal barna Jóns Hannessonar og Hallbjargar voru:
1. Ari á Kúlu í Arnarfirði. Hans synir:
a. Þórður á Eyri í Ísafirði. Hans dóttir Guðrún 2. kona séra Torfa Magnússonar í Kirkjubólsþingum, bl.
b. Guðmundur á Kúlu átti Guðbjörgu Sæmundsdóttur Sigmundssonar frá Hrauni í Dýrafirði Sæmundssonar, þ. b.:
aa. Guðmundur skutlari í Vigur faðir Kristjáns á Borg í Arnarfirði.
bb. Guðrún. Launson hennar með séra Daða Jónssyni á Söndum:
aaa. Benóní í Meðaldal.
Svo átti Guðrún Bjarna Bjarnason Steindórssonar og síðar séra Jón Ásgeirsson á Rafnseyri, þ. b.: Ásgeir á Álptamýri, Guðbjartur o. fl.
cc. Ari.
dd. Jón átti Guðrúnu Jónsdóttur frá Gemlufelli Jónssonar í Stapadal Guðmundssonar.
c. Ingibjörg átti Magnús Ólafsson í Heydal, þ. b.:
aa. Torfi prestur í Kirkjubólsþingum o. fl.
d. Kristín f. k. Jóns Jónssonar verzlunarstjóra á Ísafirði, bl.
2. Níels á Hrauni í Dýrafirði.
3. Anna átti Þorstein á Laugalandi Pálsson Þorsteinssonar í Skjaldfannardal Guðmundssonar, þ. b.:
a. Ásgeir á Rauðamýri. Hans synir:
aa. Ásgeir á Rauðamýri faðir Ásgeirs kaupmanns eldra á Ísafirði.
bb. Þorsteinn átti Margréti Guðmundsdóttur, þ. b.: Guðmundur, Ásgeir, Guðrún.
b. Páll á Ósi í Steingrímsfirði kvæntur.

2) Séra Torfi dó 1754. Hann var tvíkvæntur. Synir hans og f. k. Þuríðar Eyjólfsdóttur:
1. Magnús faðir Sveins í Purkey.

bb. Þorsteinn[1]).
cc. Ragnhildur[2]).
dd. Torfi á Smirlabergi[3]).
ee. Guðfinna.
ff. Guðrún.
gg. Sigríður.
hh. Gísli.
ii. Jón.
kk. Dýrfinna.

c. Einar Gunnlaugsson á Reksstöðum átti Rannveigu dóttur Jóns í Flatey Torfasonar, börn:
aa. Jón hrekkur[4]).
bb. Guðný[5]).

---

2. Gunnlaugur átti Hallberu Pálsdóttur, þ. b.:
a. Þuríður s. k. séra Þorleifs Þorlákssonar á Kirkjubóli, bl.
b. Sigríður átti fyr Hafliða Jónsson í Ármúla, en síðar Jón lækni í Ármúla Einarsson frá Auðsholti í Ölfusi Magnússonar á Selfossi Magnússonar á Dísastöðum Pálssonar, og var s. k. hans, þeirra synir:
aa. Ólafur átti Sigríði Ásgeirsdóttur frá Rauðamýri Þorsteinssonar og börn.
bb. Jón átti Kristínu Ásgeirsdóttur systur hennar og börn.

Son séra Torfa og s. k. hans Guðrúnar Þórðardóttur frá Sellátrum var:

3. Bjarni á Arngerðareyri. Hans son Bjarni, er eptir hann bjó á Arngerðareyri faðir Ólafs á Rauðamýri föður Guðbjargar móður séra Matthíasar Eggertssonar í Grímsey.

1) Þorsteinn átti Steinunni Sigurðardóttur Ásgeirssonar prests í Tröllatungu Einarssonar.

2) Ragnhildur átti Jón Jónsson Þorsteinssonar prests á Stað í Aðalvík Jónssonar, þeirra son Bjarni.

3) Réttara mun að Torfi yngri hafi búið á Smirlhóli í Dölum. Hann átti Guðrúnu Gísladóttur, þ. b.:
1. Gísli á Mjóabóli átti Ragnheiði Bjarnadóttur Ívarssonar, þ. d.: Guðrún átti Guðmund Arason undir Hafurshesti í Önundarfirði.

4) Jón hrekkur bjó í Æðey, og er frá honum komin allfjölmenn ætt vestra.

5) Guðný átti Snæbjörn Þorláksson, bróður séra Þorleifs á

cc. Kristín[1]).
Laundóttir Einars á Reksstöðum Gunnlaugssonar var Þorgerður, sem átti Ögmund Þórðarson[2]).
d. Anna átti séra Bjarna á Brjánslæk Bjarnason, þ. d.:
aa. Guðrún, sem átti Eggert Snæbjörnsson[3]).
e. Sigríður deyði barnlaus.

Snorri hefur fyrst gipzt og búið í Rangárþingi[4]) og þar missti hann fyrri konu sína 1607. Þar mun hann og hafa gipzt Önnu dóttur Árna Gíslasonar, þá ekkju. Mun því Gísli Árnason, sem þá hélt Rangárþing, hafa tekið Snorra fyrir sinn umboðsmann, því þar finn eg hans dóma árin 1609, 1610, 1611 (sjá þar um við Rangárþing). Hvað lengi hann hefur þar verið er mér dulið, en þar eptir hefur hann flutt sig að Varmalæk, og verið mjög lengi lögréttumaður. Þórður sýslumaður Hinriksson hefur stundum brúkað hann fyrir lögsagnara, því 1640 þann 20. apríl hefur hann á Indriðastöðum í Skoradal nefnt 6 menn í dóm um stefnumál Nikulásar til Sigríðar fyrir að hafa selt jörðina Neðrihrepp, en ekki tilboðið hana fyrst systur sinni. Margopt finnst hans getið í lögréttu sem lögréttumanns. Mun hann hafa orðið háaldraður, því yfir 40 ár lifði hann eptir að hafa misst sína fyrri konu. Hann tjáist að hafa dáið 1648 og verið í góðu áliti jafnan, hlotið göfug kvonföng og komið börnum sínum til góðrar menningar.

## Björn Gíslason.

*Faðir*: Gísli bóndi son Björns prófasts Gíslasonar, (bróður Árna sýslumanns á Hlíðarenda). Gísli var

---

Kirkjubóli, þeirra synir: Torfi og Einar faðir Einars á Auðnum á Hjarðarnesi og Gísla á Vattarnesi föður Snæbjarnar.

1) Kristín átti séra Jón Þórðarson á Söndum, þeirra börn mörg.

2) Sbr. hér áður bls. 444.

3) Guðrún átti Jón son Eggerts Snæbjörnssonar; þau dóu bæði í stórubólu 1707.

4) Í Vatnsdal í Fljótshlíð, því að þar dó Marín.

merkilegur maður og auðugur. Hann seldi Æsustaði nyrðra fyrir Hól í Hörðudal, en Þórunn kona hans átti Hrafnabjörg og önnur 60 hundr. Gísli bjó á ýmsum jörðum sínum í Dölum, byggði þær upp ágætlega, leigði þær síðan öðrum. Lengst bjó Gísli á Hrafnabjörgum. Er ritað hann hafi þá haldið 12 vinnumenn, og látið 6 af þeim vera við heyskap, en aðra 6 suður á Langavatnsdal. Hann hafði 3 sel, eitt í Mjóadal, annað í Þrúðardal og þriðja heima. Tjáist hann hafa haft kýr í einu selinu, en ásauð í hinum. Þau Gísli og Þórunn áttu 10 börn, sem til aldurs komust. Voru haldin stór-höfðingshjón, þó ei hefði Gísli kongssýslu svo eg viti.

*Móðir* Björns en kona Gísla var Þórunn dóttir Hannesar í Snóksdal Björnssonar Hannessonar hirðstjóra Eggertssonar riddara og lögmanns í Víkinni í Noregi. Þórunn giptist Gísla þá hún var 18 vetra, en deyði ekkja hjá dóttur sinni Málmfríði á Prestsbakka í Hrútafirði 1646.

*Kona* Björns Gíslasonar var Ingibjörg dóttir Orms sýslumanns í Eyjum; giptust þau Björn 1626, en hún deyði 1671, þá hún hafði þrjá vetur hins áttunda tugar.

*Börn*:
A. Sigurður lögmaður (sjá Kjósarsýslu).
B. Séra Hannes í Saurbæ 44 ár, giptist 1659[1]) Steinunni dóttur séra Jóns yngra í Reykholti Böðvarssonar. Séra Hannes deyði 1704, börn:
a. Séra Torfi í Saurbæ 31 ár, dó 1728 58 ára[2]), átti 1699 Elínu dóttur séra Jóns Guðmundssonar. Elín dó 1737 72 ára, börn:
aa. Þorlaug (dó 1746) átti Sigurð Sigurðsson Magnússonar í Miðfelli, þeirra son:
aaa. Helgi etc.

1) Þau séra Hannes og Steinunn giptust 1. maí 1659 (Ártíðaskrár bls. 190).

2) Séra Torfi var fæddur 23. maí 1670. Hann drukknaði 8. febr. 1728 (sbr. bls. 98).

bb. Helga átti fyr Guðmund Stefánsson Kjartanssonar, þ. s.:
aaa. Torfi átti Ólöfu dóttur séra Ketils Einarssonar.
Seinni maður Helgu Gísli lögréttumaður Ólafsson í Bæ, barnlaus[1]).
b. Þuríður[2]) átti Eirík son séra Sigurðar á Skorrastað, þ. b.:
aa. Séra Sigurður á Skeggjastöðum 37 ár, dó 1768, átti Margréti Ólafsdóttur[3]).
bb. Kristín.
c. Jón[4]) átti 1699 Þórunni Nikulásdóttur, börn:
aa. Kristín[5]).
bb. Sigurður.
cc. Gísli.
dd. Eiríkur.
d. Þórunn fædd 1661[6]) átti fyr Jón lögréttumann Jónsson[7]), þ. b.:
aa. Séra Þórður í Reykjadal[8]).
bb. Sigfús[9]).

---

1) Um afkomendur séra Torfa Hannessonar er getið ítarlega bls. 98—99.

2) Þuríður var fædd 6. marz 1660.

3) Hún var dóttir séra Ólafs Stefánssonar í Vallanesi. Son Sigurðar prests og hennar hét Ólafur.

4) Jón (yngri) var fæddur 13. september 1666.

5) Kristín átti Pál Ólafsson.

6) Hún var fædd 17. marz (Ártíðaskrár).

7) Jón lögréttumaður bjó í Laugardalshólum. Hann var son Jóns Jónssonar yfirbryta á Hömrum og Arnleifar Björnsdóttur frá Skildinganesi Tómassonar, en bróðir Finns á Búrfelli.

8) Séra Þórður dó ókv. bl. 1776. Hann var sérvitur mjög og einkennilegur og eru um hann ýmsar sagnir.

9) Sigfús var lögréttumaður átti Ingibjörgu Sigurðardóttur úr Eyjafirði Hallssonar Arnbjörnssonar, þ. b.:
a. Hannes, bl.
b. Þórunn, bl.

cc. Guðríður[1]).
Síðar Eyjólf Jónsson Teitssonar.

---

c. Torfi drukknaði í Djúpadalsá.
d. Sigríður († 1799) átti fyr Runólf Þorsteinsson í Bitru í Flóa, þ. b.:
aa. Þorsteinn í Hæringsstaðahjáleigu átti Katrínu Erlendsdóttur frá Hæringsstöðum Helgasonar, þ. d.:
aaa. Þórdís átti Jón í Kakkarhjáleigu Þorsteinsson á Brú í Flóa Pálssonar í Árhrauni Ketilssonar í Vaðnesi Þorgeirssonar s. st. Þórðarsonar, þ. b.:
× Þorsteinn héraðslæknir í Vestmanneyjum, nú í Reykjavík.
bb. Þórður.
cc. Ingibjörg átti Magnús á Minna-Ámóti Magnússon Pálssonar og Gunnvarar Sigurðardóttur Alexíussonar, þ. b.: Jón á Kambi, Brynjólfur í Meðalholtshjáleigu, Guðmundur í Bár, Ásdís kona Sigurðar Sigurðssonar í Gljákoti og Guðríður.
dd. Guðríður átti Björn í Dvergasteinum á Eyrarbakka Jónsson á Uppsölum í Flóa Teitssonar (Roða-Teits) á Skálholtshamri Loptssonar.
ee. Árni. } tvíburar.
ff. Sigríður. }
gg. Hannes bjó í Ranakoti átti Vilborgu Ingimundsdóttur, þ. b.: a) Evlalía átti Aron Guðmundsson í Kakkarhjáleigu bróður Bjarna ættfræðings, b) Jónas í Eyfakoti, átti börn, c) Hannes á Skipum, börn hans: Gísli, Ingvar, Þuríður, Guðlaug.

S. m. Sigríðar Sigfúsdóttur Eyjólfur í Langholti í Flóa Jónsson Teitssonar, bróðir Björns í Dvergasteinum (sjá hér á undan).

S. m. Þórunnar Hannesdóttur er talinn Eyjólfur Jónsson Teitssonar, en það er rangt og auðsjáanlega blandað saman við Eyjólf s. m. Sigríðar sonardóttur hennar. Þórunn er á lífi í Laugardalshólum 1729 hjá Sigfúsi syni sínum, er þá býr þar, ókvæntur 27 ára gamall (f. um 1702).

1) Guðríður er bústýra í Laugardalshólum 1729 hjá Sigfúsi bróður sínum, þá talin 30 ára að aldri. Mun hafa dáið ógipt, bl.

Ennfremur voru börn séra Hannesar Björnssonar og Steinunnar:
e. Sesselja, tvíburi við Þuríði, er voru elztar barnanna, fæddar 6. marz 1660. Sesselja hefur ekki gipzt. Hún er í Laugardalshólum 1729 með

C. Ingibjörg eldri átti Sigurð á Knör 1659 son Jóns Steindórssonar (sjá Snæfellsnessýslu).

D. Ingibjörg yngri, (dó 1677), gipt 1663 Sigurði Magnússyni á Suður-Reykjum, börn:

a. Magnús, dó 1709, átti Rannveigu Þórðardóttur, börn:

aa. Sigríður, dó 1747, fyrri kona séra Þorvarðar Auðunnssonar, barnlaus.

bb. Sigurður.

cc. Guðrún.

b. Þóra, dó 1707, átti Erasmus Ólafsson, bl.

c. Grímur átti 1710 Aldísi Jónsdóttur, börn:

aa. Ingibjörg.

bb. Ólafur.

cc. Sveinn.

dd. Jón yngri.

ee. Jón eldri[1]. Af þeim eru ættir.

---

Þórunni systur sinni 69 ára gömul (sbr. manntal í Árnesþingi).

f. Björn f. 16. maí 1662, var á lífi 1686 (Bisks. II, 605), en hefur andazt ungur.

g. Jón eldri f. 13. október 1663, dó í Gaulverjabæ 13. febrúar 1679.

h. Ingibjörg f. 2. nóvember 1672, andaðist ógipt í stórubólu.

i. Guðríður f. 14. október 1674. Hefur dáið ung.

k. Ormur f. 4. febr. 1679, dó 28. marz 1683.

1) Jón eldri Grímsson bjó í Melkoti í Leirársveit, átti Jódísi Jónsdóttur Þorkelssonar og Salvarar Styrsdóttur Torfasonar, þ. b.:

a. Böðvar átti Snjálaugu, þ. b.:

aa. Margrét átti fyr Jón Eiríksson í Örnólfsdal Ketilssonar og börn, síðar Jón Þorvarðsson bróður Eleasars í Þingnesi og börn.

bb. Guðrún átti Ásgrím Nikulásson á Akranesi.

cc. Jódís átti fyr Guðmund Helgason í Kjalardal, bl., síðar Sigurð á Efraskarði Pétursson í Vogatungu Kolbeinssonar, þ. b.:

aaa. Pétur á Steinsstöðum í Reykjavík átti Jarþrúði Jónsdóttur frá Torfastöðum í Grafningi Guðnasonar í Reykjakoti Jónssonar Eysteinssonar og börn.

Grímur átti launson:
ff. Svein.
d. Auðunn[1]).
e. Björn.
f. Vilborg.
g. Guðríður[2]).

Björn Gíslason er borinn 1604 sem bóndamaður; mannaðist hann vel og fékk til ekta Ingibjörgu Ormsdóttur 1626, var hann þá tvo um tvítugt, en hún 6 vetrum eldri. Setti hann bú í Bæ, svo á Vatnsenda í Skorradal og gerðist brátt rausnarmaður, skýr og réttsýnn. Þegar Hinrik sýslumaður deyði var hann um tíma settur sýslumaður til þess Þórður við tók Borgarfjarðarsýslu 1638. Hann gerði og þar eptir stundum sýslumannsverk í umboði Þórðar, svo sem 1642 þann 4. júní nefndi hann menn í dóm um ómaga, sem í ættir skiptist. Þá Þórður sýslumaður deyði 1652 nefndi hann menn í dóm að Saurbæ á Hvalfjarðarströnd eptir skipun Árna lögmanns Oddssonar.

Þorkell Guðmundsson á Þingeyrum, sem 1652 fékk sér veitta Borgarfjarðarsýslu tók og Björn lögréttumann fyrir umboðsmann í sinni fjarveru, því Þorkell bjó þá að Stóruborg í Húnavatnsþingi og seinna á Þingeyrum og átti örðugt opt að sækja til Borgarfjarðarsýslu[3]). — 1630 þá Hvanneyrarbær

---

bbb. Sigurður á Kambi átti Solveigu Sölmundardóttur Ormssonar, þ. b.: Jódís átti Jón Guðmundsson á Vindási o. fl.
ccc. Jódís átti Jón Þórðarson í Hlíðarhúsum (sbr. bls. 278).
ddd. Ingibjörg.

1) Auðunn féll í dulsmál 1703 með Karítas (ekki Katrínu, (sbr. bls. 104) Þorvarðsdóttur frá Hvítanesi Erlendssonar og strauk svo, en henni var drekkt.

2) Aðrir nefna hana Þuríði.
Enn er talin dóttir Sigurðar Magnússonar og Ingibjargar yngri Björnsdóttur f. k. hans:
h. Ingibjörg átti 1703 Jón á Draghálsi Jónsson Þórðarsonar.

3) Í umboði Þorkels sýslumanns útnefndi Björn dóm á Leiðmóti við Laxá 21. júlí 1653.

brann tók Björn Pál landskrifara, konu hans og barn um veturinn til þess hann gat aptur húsað bæ sinn, því Björn var rausnarmaður. Seinna flutti Björn að Bæ í Borgarfirði og þar deyði hann 1656[1]), þá hann hafði tvo vetur hins sjötta tugar og þótti ágætur maður. Var hann á alþingi í dómum álitinn hygginn. Eptir hann orti séra Hallgrímur Pétursson og hrósaði honum að réttu. Séra Hallgrímur tjáir hann hafa gipzt 23 ára og dáið 60 ára gamall.

1651 dag 18. maí lætur Björn Gíslason dóm ganga að Saurbæ við Hvalfjörð mót beit á túni fyrir vordaga, áður landseti til jarðar kemur, að sá burtfarandi má ei beita hestum á túnið.

## Þorkell Guðmundsson.

(Sjá um hann við Húnavatnsþing)[2]). Þorkell giptist Solveigu frá Munkaþverá 1647, tók sér bústað á Stóruborg um það skeið og sótti um sýslur, en þær lágu eigi lausar fyrir. 1652 þá Þórður Hinriksson deyði tók hann Borgarfjarðarsýslu sunnan Hvítár, og það til sanninda, að Þorkell var þar orðinn sýslumaður, að 1653 dag 12. maí að Heynesi lét hann dóm ganga um forlag Guðrúnar Þórðardóttur, er Pétur Hinriksson skyldi miðla, og annan um arf eptir Kristínu Magnúsdóttur, báðar í Borgarfjarðarsýslu. Björn Gíslason var þar hans umboðsmaður þá Þorkell var fjarri eða hindraður. 1656 tók Þorkell Húnavatnsþing, en sleppti þó ei Borgarfjarðarsýslu. Það til merkis: 1658 þann 17. maí að Höfn í Melasveit yfirheyrði Þorkell sýslumaður Guðmundsson Guðrúnu Þorvarðsdóttur um hennar barns-faðernislýsingu upp á norðlenzkan mann Bjarna Salómonsson. Sigurður sýslumaður Jónsson frá Einarsnesi gerði þó stundum sýslumannsverk fyrir Þorkel frá dauða Björns og til 1662, að Þorkell deyði á Þingeyrum, hvert klaustur hann hafði þá tekið fyrir 3 árum.

## Sigurður Jónsson.

*Faðir*: Jón Mýrasýslumaður Sigurðsson (sjá Mýrasýslu).
*Móðir*: Ragnheiður Hannesdóttir Björnssonar frá Snóksdal.

---

1) Hann dó 2. ágúst. (Ártíðaskrár bls. 190).

2) I, 562—565.

*Kona*: Kristín dóttir séra Jóns í Hítardal Guðmundssonar frá Hvoli í Saurbæ, giptust 1645.

*Börn*: A. Jón eldri skólalærður, fór utan til lærdómsframa og var þar 4 ár, giptist þar 1672, kom þar eptir út og tók Reynistaðarklaustur í umboði föður síns 1676, hálfa Húnavatnssýslu 1678, drukknaði sama ár í Straumfjarðará (sjá framar um hann við Húnavatnsþing)[1].

B. Jón yngri sýslumaður (sjá um hann við Mýrasýslu).

C. Guðmundur lögréttumaður á Álptanesi og lögsagnari í Kjósarsýslu (sjá Kjósarsýslu).

D. Ragnheiður Sigurðardóttir átti Sigurð lögmann Björnsson (sjá Kjósarsýslu).

Sigurður er borinn 1618, mannaðist hann vel, bæði að lærdómi og listum. Hann tók Snæfellsnessýslu 1642, hafði þó áður verið við sýsluverk. 1642 keypti hann Laugarbrekku og setti þar bú sitt, giptist og 1645 í Hítardal; voru honum þá talin til giptingar níutíu hundruð, en Kristínu konu hans eitt hundrað hundraða. Þá faðir hans deyði 1648 var honum veitt Mýrasýsla (eg meina 1649 snemma ársins), hafði þó það ár meðfram Snæfellsnessýslu og máske lengur. Frá Laugarbrekku flutti Sigurður sýslumaður að Einarsnesi og bjó þar síðan alla æfi. Eptir 1656 að Björn Gíslason í Bæ deyði var Sigurður opt til aðstoðar Þorkeli sýslumanni í Borgarfjarðarsýslu. Þá Þorkell deyði 1662 tók Sigurður sýslumaður og svo að höfuðsmannsveitingu Borgarfjarðarsýslu. Sigurður gerðist lögmaður 1663, kongur staðfesti hans lögmannsembætti 1664, en embættis- og hollustueið sinn sór Sigurður lögmaður á alþingi 1666.

Jóni yngra Vigfússyni hafði verið veitt utanlands allt Þverárþing, og varð Sigurður lögmaður án vitanlegra orsaka og móti vilja sínum að sleppa því öllu til Jóns sýslumanns 1666. Það orsakaði óvild Sigurðar lögmanns til Jóns sýslumanns, sem síðar kom fram.

Þá Jón sýslumaður Vigfússon var frá dæmdur sýslumannsembætti í öllu Þverárþingi 1672, tók Sigurður lögmað-

---

1) I, 585—586.

ur á ný Borgarfjarðarsýslu sunnan Hvítár, en frásagði sér hana aptur 1676, hélt þó stöðugt lögmannsdæminu. Sigurður lögmaður hélt ýmsa umboðsmenn í sýslum sínum á seinni árum, meðal hverra var Torfi Þorsteinsson. Óljóst er mér hverrar ættar sá Torfi var eða hvað lengi lögsagnari.

Mörg dómaraverk liggja eptir Sigurð lögmann, bæði sem sýslumann og lögmann, sem virðist óþarft að framfæra hér, þar enginn er ágreiningur um valdaár hans, eptir það hann tók Mýrasýslu, en um valdaár hans í Snæfellsnessýslu hefur hjá sumum lærðum mönnum verið meir óvíst (sjá Snæfellsnessýslu).

1652 þann 25. október útnefndi Sigurður Jónsson dóm að Smiðjuhóli um barns-faðernislýsingu. 1660 lét hann dóm ganga að Leirá um jarðakaup og skipti. 1664 þann 14. apríl útnefndi Torfi Þorsteinsson í umboði Sigurðar lögmanns dóm að Lækjarbug með 6 dómsmönnum um húsgangsfólk; dæmdist úr Dala-, Snæfellsnes- og Mýrasýslum lofuð ein umferð á sumrin þeim, sem ei geta sér unnið fæði. Úr öðrum landsfjórðungum skyldi ei umferð leyfa. 1664 var og lýst Guðrúnu Bjarnadóttur frá Dalsmynni, einnig Jóni Ólafssyni úr Norðurárdal. 1665—1666 dómar um jarðabrigði.

1677 tók Sigurður lögmaður sótt þá, er hann eptir átta daga legu leiddi til bana þann 4. dag marzmánaðar, þá hann skorti einn vetur í sextugt. Hafði verið lögmaður 14 vetur, en sýsluvöld hafði hann haft 36 vetur, giptur 32 ár. Hann var haldinn spakur að viti, og sóttur mjög að málum um land allt. Lítillátur við alla, ör af fé, gjöfull og gestrisinn. Hélt hann virðingu sinni til dauðadags. Útför hans var gerð heiðarleg og lík hans lagt til hvíldar fyrir framan altari í Borgarkirkjukór.

Þorlákur Markússon ritar í sínum annál, að Sigurður lögmaður Jónsson hafi fengið Reynistaðarklaustur 1665 og haldið því í 13 ár, (mun réttara 12 ár). Var þar hans umboðsmaður Þorsteinn Benediktsson, Jón eldri son hans og fleiri. Hélt Sigurður klaustrið til síns dauða.

## Jón yngri Vigfússon.

*Faðir*: Vigfús sýslumaður Gíslason (sjá Rangárþing).
*Móðir*: Katrín dóttir Erlends sýslumanns á Hvoli austur

Ásmundssonar á Stórólfshvoli launsonar Þorleifs lögmanns Pálssonar á Skarði.

*Kona*: Guðríður fædd 1641, gipt 1668, dó skyndilega á Leirá 1706, lítil vexti, snotur, skynsöm og vel gáfuð bústandskona. Hún var dóttir Þórðar prófasts í Hítardal Jónssonar.

*Börn*: A. Þórður, útskrifaðist hér innan tvítugs aldurs, því hann fæddist 1672, en var við Kaupmannahafnarháskóla um tvítugs aldur[1]), þá hann lét uppstefna dómi þeim, er fallinn var yfir föður hans, og vann það mál fyrir hæstarétti. Var Þórður þá utanlands, er Jón biskup Vídalín fór utan eptir biskupsvígslu 1697, og þá svo hálærður og í miklum metum, að ei var langt frá hann yrði biskup. Kom hann út 1698 og gerðist um haustið skólameistari í Skálholti og var við það embætti í 3 vetur.

Árið 1700 giptist Þórður Margréti einkadóttur séra Sæmundar í Hítardal sonar Odds Þorleifssonar á Borg á Mýrum og Salvarar Vigfúsdóttur frá Stórólfshvoli. Er mælt, að fé Margrétar hafi verið VI hundr. hundraða. Sama ár vígðist Þórður til prests að Staðastað, (því séra Páll gaf upp staðinn og hálfa inntekt og flutti að Slítandastöðum, en séra Þórður að Staðastað 1702). Þá gerðist hann og prófastur og hélt þeim embættum til þess hann deyði 1720 þann 21. ágúst, 48 ára, en Margrét ekkja hans deyði í Máfahlíð þann 6. október 1725 þá 46 ára; hafði hún gipzt 21 árs gömul. Börn þeirra voru:

a. Katrín, (dó 1762), fyrri kona séra Vigfúsar Jónssonar[2]), börn:

aa. Séra Eiríkur í Reykholti[3]).

---

1) Þórður er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 20. september 1688.

2) Þ. e. séra Vigfús í Hítardal bróðir Finns biskups.

3) Séra Eiríkur dó 20. júlí 1808, þá kominn að Stafholti,

b. Þorbjörg kona (1733) séra Ásmundar á Breiðabólsstað Jónssonar, börn:
aa. Séra Jón sama staðar átti Sigríði[1]), bl.
bb. Þuríður átti Jón sýslumann Eggertsson[2]).
c. Salvör, (dó 1771), giptist á Hólum í Hjaltadal Halldóri próf. Jónssyni, börn:
aa. Helga, (fædd 1755, dó 1784), gipt 16 vetra Magnúsi sýslumanni Gíslasyni[3]).
d. Sæmundur, (dó 1749), átti Kristínu Guðmundsdóttur, börn:
aa. Guðmundur í Þerney.
bb. Guðrún á Hálsi[4]).
Launson Sæmundar með Unu Guðmundsdóttur var:

---

átti Sigríði Jónsdóttur biskups á Hólum Teitssonar. Einkason þeirra:
a. Vigfús Reykdal, síðast prestur í Miðdalaþingum († 6. marz 1862), átti fyr Arnbjörgu Jónsdóttur, bróðurdóttur Björns Gottskálkssonar í Hrappsey, þ. b.:
aa. Eiríkur Reykdal bjó í Melasveit átti Sigríði Davíðsdóttur frá Sæunnarstöðum í Hallárdal Guðmundssonar og börn.
S. k. séra Vigfúsar Salbjörg Jónsdóttir frá Breiðsstöðum Jónssonar, þ. b.:
bb. Ragnheiður átti Hjört í Öxney Ögmundsson frá Geitareyjum Guðmundssonar prófasts á Staðastað Jónssonar, þ. b.:
aaa. Ögmundur í Vífilsdal í Hörðudal á Málmfríði Hansdóttur Hjaltalín.
bbb. Vigfús var nyrðra.
cc. Katrín. dd. Sigríður. ee. Solveig Ásta.
Launsonur séra Vigfúsar með Sigríði Gunnarsdóttur frá Skíðastöðum:
ff. Vigfús snikkari í Utanverðunesi. Hans son Þorlákur Reykdal í Reykjavík.

1) Sigríður átti síðar Boga Benediktsson í Hrappsey og var síðasta kona hans. Sjá hér síðar.

2) Sjá hér síðar.

3) Sjá um afkomendur þeirra I, 621—622.

4) Sjá um þessi börn Sæmundar bls. 153.

cc. Einar[1]).

e. Gísli átti Önnu Lárusdóttur[2]), bl. (Þeim gekk örðugt).

f. Jón fæddur 1711, varð landþingsskrifari og settur sýslumaður, drukknaði 1741[3]) ógiptur, barnlaus.

g. Kristín.

B. Gísli Jónsson skólalærður[4]), var einn vetur heyrari í Skálholti, giptist 1701 Margréti dóttur Magnúsar lögmanns á Ingjaldshóli Jónssonar. Bjó Magnús fyrst á Reykhólum, flutti svo að Brimilsvöllum, keypti Máfahlíð af kongi fyrir aðrar jarðir og flutti þangað, en seinna að Ingjaldshóli hvar hann dó. Bjó Gísli á Reykhólum, svo á eignarjörð hennar Máfahlíð, þeirra börn:

a. Magnús fæddur 1704, lærður utan- og innanlands, gerðist landþingsskrifari 1728, svo lögmaður sunnan og austan 1732, settur amtmaður 1752, virkilegur 1757, deyði 1766. Hans frú Þórunn dóttir Guðmundar lögréttumanns á Álptanesi (Kjósarsýslu), þ. d.:

aa. Sigríður, frú stiptamtmanns Ólafs.

b. Guðríður átti Finn prófast í Reykholti, er síðar varð Skálholtsbiskup, börn:

aa. Séra Halldór í Hítardal.

bb. Séra Jón í Hruna.

cc. Steindór sýslumaður í Árnesþingi.

dd. Ragnheiður frú.

ee. Margrét frú.

ff. Dr. Hannes biskup.

c. Ragnheiður Gísladóttir átti séra Jón Jónsson í Stafholti, börn:

---

1) II, 648.

2) Anna var dóttur Lárusar Hanssonar Schevings og Soffíu Daðadóttur (I, 255).

3) Jón drukknaði 1743 (Árb. Esp. X. 1).

4) Gísli er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 4. apríl 1690.

aa. Jón sýslumaður í Rangárþingi.
bb. Sigríður.
Aptur giptist Gísli 1713 Katrínu Björnsdóttur frá Staðarfelli, bl. Gísli drukknaði 1715. (Sjá framar um Gísla í Máfahlíð við Snæfellsnessýslu)[1].

C. Vigfús Jónsson á Leirá, var 6 vetur heyrari í Skálholti, giptist 1709 Kristínu, (sem dó 1733), Guðbrandsdóttur, barnlaus. Vigfús drukknaði í Hvítá í Borgarfirði 1728. Hann tjáist að hafa verið spakur maður og valmenni.

D. Magnús skólameistari í Skálholti[2], drukknaði 1702, bl.

E. Þórdís seinni kona Magnúsar Sigurðssonar í Bræðratungu, þau giptust 1689. Magnús dó 1707, börn:
a. Séra Sæmundur.
b. Jón.
c. Elín.
d. Sigríður.
e. Oddur.
(Sjá framar um þeirra börn við Þingeyjarþing)[3].

F. Sigríður eldri átti Magnús Björnsson á Stórahóli. (Sjá þeirra börn við Vaðlaþing)[4]

G. Sigríður yngri frú Jóns biskups Vídalíns, dó 1730 53 ára, bl. Þau giptust 1699.

H. Helga Jónsdóttir giptist í fyrra sinn 1700 Vigfúsi á Hofi Gíslasyni Vigfússonar sýslumanns. (Vigfús á Hofi deyði 1709 36 ára, al. 1707 í bólunni), þeirra börn:

---

1) Um afkomendur Gísla í Máfahlíð sjá bls. 163—168.

2) Magnús er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 28. september 1698 og er þá talinn 19 ára að aldri. Hann drukknaði á Efferseyjargranda (Hólmsgranda), hafði dottið í sjóinn seint um kveld drukkinn, og fannst lík hans étið af marflóm.

3) I, 102—103.

4) I, 242—244.

a. Jón klausturhaldari á Reynistað, dó 1752, átti Þórunni Hannesdóttur Schevings, börn:
aa. Vigfús.
bb. Guðlaug.
cc. Karítas.
dd. Jón[1]).
b. Guðrún Vigfúsdóttir, (dó 1757 66 ára), átti Hans Scheving klausturhaldara á Möðruvöllum, börn:
aa. Davíð sýslumaður.
bb. Vigfús sýslumaður.
cc. Hannes.
dd. Þórunn.
(Sjá um þau börn við Vaðlasýslu)[2]).

Helga átti seinna Jens Spendrup (sjá Hegranesþing).

F. Jón son Jóns sýslumanns, (er seinna varð biskup), fylgdist með móður sinni og dó í stórubólu 1707, ógiptur, barnlaus.

Jón yngri Vigfússon er borinn 1643, lærði hér sinn skólalærdóm, fór svo utan til meiri frama 1664[3]), þá einn um tvítugt. Komst hann í þénustu hjá höfuðsmanninum Hinrik Bjelke, sem veitti honum allt Þverárþing 1666 dag 11. marz (30. maí stendur í lögþingisbókinni 1667). Kom hann út sama ár og birtir veitingu sína; varð það ógeðfelt og öfundsamt Sigurði lögmanni og hans vinum.

Jón sýslumaður gerðist brátt umfangsmikill og útvegasamur, tók hann sér fyrst bústað í Hjörtsey og bjó þar 2 ár, en flutti síðan að Leirá 1670. 1668 giptist og Jón að Leirá Guðríði, sem áður er sagt. Stóð svo um hríð, að hann þótti fédrægur.

1670 bar Jóni sýslumanni til við skipara nokkurn í Straum-

---

1) Um börn Jóns klausturhaldara og Þórunnar sbr. I, 262—263.

2) I, 254

3) Jón biskup er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 26. október 1664, og varð þar »baccalaureus« í heimspeki 29. maí 1666, en 30. s. m. var honum veitt allt Þverárþing

firði, og eptir framburði skipherrans slegið sig, og hótað að hann skyldi fá ólukku og ei komast klaklaust heim með skipið, bað því um veðsetning fyrir skipi og gózi, ella mætti hann láta skipið þar vera kyrt. Þetta var álitin hræðsla ein skipherrans, og var því lítill gaumur gefinn. Skipherrann hélt því af stað, en svo vildi til að skipið braut fyrir Suðurlandi. Byrjaði þá á ný umræða um þetta mál og kom þar loks, að Jón sýslumaður varð að fría sig eptir dómi með svofeldum eiði: „að hann hefði aldrei galdur eða fordæðu lært né brúkað, og aldrei í ráði verið vitorði, eða samsinningu með fjölkyngismönnum, og ei sé hann valdur töpunar þess skips eða manna, sem í Straumfirði voru og strönduðu á Kotfjörum í Vestri-Landeyjum á Íslandi“. Þann eið skyldi hann vinna þann 8. júlí að Smiðjuhóli í Mýrasýslu í návist fógetans Jóhanns Klein. Jón sýslumaður vann honum tildæmdan eið.

1671 flutti Jón (eptir sumra sögn) að Leirá. Það vor kom Torfi son Hákonar Bjarnasonar á hollenzkri duggu í Krossavík á Akranesi. Hafði hann staðfestu í Hollandi, en kom á fiskiduggum til Íslands á sumrin og verzlaði til framfæris sér. Var hann frómur maður, en óheppinn með fjárhag sinn; fór hann til fundar við Jón sýslumann frænda sinn, kannaðist hver þeirra við annan. Fór sýslumaður til skips með Torfa, en ei er getið, hvað þeim fór á milli. Einn morgun litlu síðar kom Torfi í land á Skipaskaga og tveir hollenzkir bátsmenn með 6 tóbaksrullur og báru í búð Hannesar Teitssonar ærlegs manns, er opt geymdi eitt og annað fyrir sýslumann; tók Hannes við þeim í þeirri meiningu, að þær mundu tilheyra sýslumanni. Hann lét og mann sinn flytja þær á hestum heim að Leirá. En á meðan duggan beið eptir Torfa og Torfi eptir verðinu komu menn frá Bessastöðum, tóku hann og dugguna og fluttu suður þangað. Var Torfi hafður upp á alþing til viðtals og andsvara við sýslumann, og lýsti því yfir í lögréttu, að þær tvær tóbaksrullur hefði sýslumaður keypt af sér og heitið verði fyrir, en ei afhent, og í þeirri meiningu kvaðst hann hafa þær í land flutt til Hannesar eptir umtali þeirra. Því mótgekk sýslumaður, og kvaðst þar í skipinu hafa markað þær undir konungsmark með krít K. og M. og þær svo eptir skilið. Voru þær fluttar fjórar að forlagi

sýslumanns til Bessastaða og vógu þær tvær vættir og tvo fjórðunga með tré og mottum og stóð svo um hríð.

1672 varð Jóni sýslumanni sundurorða við Jóhann Klein. Lét hann því stefna sýslumanni til Hegranesþings fyrir dóm Sigurðar lögmanns þann 3. ágúst. Var þá svarinn framburður Torfa og að ekkert sýnilegt mark hefði verið á rullunum, þá í land voru fluttar, utan það sem þær hefðu frá Hollandi. En sýslumaður gat ei sannað sinn framburð. Var þá dæmt að hann hefði af sér brotið léni sitt; voru þá lögsagnarar settir í sýsluna[1]).

1673 fór Jón sýslumaður utan til að fá uppreisn í máli sínu, ef hann mætti; sat hann þann vetur í Kaupenhöfn, kom sér og máli sínu fram fyrir Pétur Griffenfeld cancellera, sem frambar það fyrir konung. Þar af orsakaðist það, að 1674 kom Jón út með bréf Kristjáns konungs 5., er Griffenfeld hafði útvegað honum, að hann skyldi vera vicebiskup á Hólum og taka við eptir Gísla biskup Þorláksson, og að biskup Brynjólfur skyldi veita honum biskupsvígslu. Var tíðrætt þar um og gátur hversu það væri tilkomið. Biskup Brynjólfur hlýddi kongsboðinu, og sat Jón biskup vígður að Leirá um hríð.

1680 sótti hann um Staðastað og fékk ekki.

1684 þá Jón biskup sannspurði lát Gísla biskups reið hann norður að taka Hólabiskupsstól; var honum tekið illa, hélt þó prestastefnu á Flugumýri og lét upplesa kongsbréfið fyrir biskupsdómnum í viðurvist landfógeta Heidemanns þann 26. ágúst. Lagði Heidemann heldur í móti því, að hann settist á stólinn, en Ari prófastur setti aðra prestastefnu á Flugumýri 5. september um biskupskosningu. Jón biskup beið ei þess og reið suður að Leirá. En prestar héldu stefnu sína, ásökuðu Jón biskup fyrir galdrameðferð, ófría höndlun og fleira. Kusu nokkra, sem þeim þótti hæfilegastir til biskups. Jón biskup gaf ei gaum að því, reið norður um haustið og sat um veturinn á Hólum með einn svein og við óbreyttan kost.

1685 um vorið fyrir fardaga reið Þórður biskup norður

1) **Daði Jónsson** sýslumaður í Kjósarsýslu hélt leiðarþing á Sandatorfu 26. ágúst 1673 og 17. maí 1675 útnefndi hann dóm á Heggsstöðum (J. S. 64 fol. í landsbókasafninu).

að Hólum og ásamt bræðrum sínum séra Skúla, Guðbrandi og Jóni, afhenti hann þá meistara Jóni Vigfússyni Hólastað og dómkirkjuna með öllum eignum og inventario, (en tók þá til sín prentverkið). Kongsbréf kom þá til Þórðar biskups og landfógeta Heidemanns, að þeir í tiltekinn tíma skyldu tilkalla prófasta og presta að rannsaka ákærur þær, er 16 klerkar Hólastiptis hefðu fyrra árið utan sent móti Jóni biskupi og stefna norðanprestum til sama fundar á Þingvöll þann 3. júlí.

Eptir stefnunni mætti Jón biskup og margir norðanprestar, en hinir sendu forföll sín. Áklagendur höfðu á móti biskupi, að honum hefði verið borinn galdur etc. Biskup kvaðst óneyddur hafa því af sér hrundið að taka fyrir alla grunsemd. Þeir kváðu hann hafa verið dæmdan fyrir ófría höndlun og síðan okrað út tóbak og brennivín. Hann kvaðst að sönnu hafa selt það nokkuð dýrara til framfæris sér og fjölskyldu sinni, þar sem hann hefði í mörg ár engar inntektir haft utan af sínum eigin eignum. Þeir báðu hann framvísa sín testimonia academica etc. Hann kvaðst hafa þeim nógu svarað og gekk burt; vildi og ei aptur koma, þó kallaður væri. Margt fleira ásökuðu þeir hann fyrir. Var þetta próf sent utan um sumarið.

Biskup Jón ætlaði þá utan um haustið vestur í Rifi, en skipið lestist degi áður en af stað skyldi fara, reið hann því norður að Hólum og sat þar um veturinn.

1686 kom kongsbréf til Þórðar biskups og landfógeta Heidemanns, að sætta Jón biskup og mótstöðumenn hans með lögmanna og annara beztu manna ráði, einnig húsfrú Ragnheiði og biskup út af náðarári hennar og gera skilnað á deilum þeirra, ef ei yrði öðru við komið, því séra Þorsteinn Gunnarsson áklagari Jóns biskups hafði utan farið og kom engu til leiðar um málið, þar Sjálandsbiskup mótstóð honum.

1687 á alþingi tilnefndi Heidemann báða lögmennina Sigurð og Magnús samt sex helztu sýslumenn, að skoða misklíð Jóns biskups og frú Ragnheiðar. Álitu þeir, að haldast skyldi eptir bréfi Friðriks kongs 1650 um náðarár prestsekkna; hafði þó engin biskupsfrú utan Helga Jónsdóttir áður þess notið. Það samþykkti biskup Jón. Var þá og samið millum hans og prestanna, báðum að óvirðingarlausu; sat svo biskup enn á Hólum.

1688 kom inn klögunarmál reiðaranna og kaupmanna, sem höfðu ófrægt Jón biskup utanlands fyrir ófrjálsan kaupskap og okur á tóbaki og óþörfu krami. Reið því amtmaður Möller og fógeti Heidemann norður ásamt fleirum að prófa þetta mál; var Jóni biskupi og öllum, er nokkuð höfðu að kæra móti honum stefnt til Viðvíkur, og þar þingað í nokkra daga. Var eptirleitan sú með mikilli frekju, og af mörgum ósparlega borið honum á móti; var alt bókað, eins svör biskups upp á sérhvað, allt vitnað og svarið sem fullt þingvitni. Báru sumir, að biskup hefði sent þá og gert út til kaupskapar við hollenzka, lögðu fram bréf og önnur líkindi, einnig að stólslandsetar, einkum í Fljótum, hefðu verið neyddir af honum til að selja honum hálf skip þeirra, ella heitið sér ofurkostum. Víða hafði aukið verið kúgildum á stólsjörðum, sett óvenjuleg lambafóður og fleiri nýungar; var allt hið ítrasta bókað. Að því búnu fóru amtmaður og landfógeti suður, en sendu utan aðgerðir sínar.

1689 bar meistara Jóni biskupi og landfógeta Heidemann til, útaf Skarði og Daðastöðum; var þá felt á Jón biskup ósannindaorð.

Það ár kom kongsbréf til amtmanns Müllers, biskups Þórðar, beggja lögmanna Sigurðar Björnssonar og Magnúsar Jónssonar, að þeir með helztu prestum og sýslumönnum skyldu ítarlega prófa og dæma síðan þær ýmsar ákærur, er komnar voru fyrir konginn yfir Jóni biskupi Vigfússyni, bæði um hörð viðskipti við alþýðu og höndlun við útlenda. Annað kongsbréf kom til Heidemanns að vera saksóknari sakar þeirrar. Riðu þeir amtmaður því norður, settu þing í Viðvík og kölluðu fjórðungsþing þann 18. ágúst til að taka nýtt próf í málinu, en meistari Jón biskup var þá allur á brott. Hafði hann riðið vestur í Grundarfjörð og hét skipara, er þar var, að sjá honum borgið fyrir öllum skaða, ef hann flytti sig. Lítið varð þá af rannsókninni í Viðvík, er biskup var brott. Ei fékk biskup farið, fyr en hann veðsetti skipara alla aleigu sína, hefði þó sá skipari sætt ákærum seinna, nema hann hefði áður dáið. Jón biskup kom til Kaupenhafnar og fékk enga áheyrslu, því styrktarmenn hans voru frá, en þeir sem nokkru voru ráðandi þóttu mál hans ófögur og vildu þeim ekki sinna. Kom þá kongsskipan, að hann

skyldi fara til Íslands með fyrsta skipi, og verja þar sitt mál fyrir þeim, er það var umboðið, en skjóta síðan þeim dómi til hæstaréttar, ef þættist vanhaldinn. Sat Jón biskup um veturinn í Kaupenhöfn. 1690 kom Jón biskup út snemma um vorið suður í Hólmi, lét þá Heidemann kunngera við votta, að hann hefði um vorið norður á Hólum látið lesa stefnu til hans, að mæta á alþingi og svara þar til mála sinna. Biskup reið skyndilega norður, bjó sig síðan til alþingisferðar. En amtmaður Müller lét kyrsetja inntekt Hólastaðar, áður en nokkur dómur gengi. Voru þá með heitingum, ef eigi væri hlýtt til alþingis stefndir prófastar og skynsömustu prestar Skálholtsbiskupsdæmis; þótti þá mörgum með ærnu kappi sótt málið. Jón biskup bjóst til alþingis, en tók þá krankleik af hverjum hann lézt, hinn síðasta dag júnímánaðar heima á Hólum, þrem vetrum miður en fimmtugur. Var hann fyr sýslumaður í 6 ár, en biskupsefni og meðbiskup í 10 vetur, og virkilegur biskup þar að auk 6 vetur, og hafði í embættum sínum meiri armæðu, umbrot og ásókn en sæld eða hóglífi, einkum þau 6 ár, sem hann var einnsaman biskup á Hólum. Sýnist því hafa valdið öfund norðanlandsklerka, er allir þóttust verðugri fyrir biskupstign en meistari Jón Vigfússon, gátu þó ekki ásakað hann fyrir embættisfærslu í biskupssýslu sinni. Hin helztu afbrigði hans sem biskups sýnist að hafa verið fjárfíkn um of og álögur við Hólastóls landseta, einnig hans kaupmannsskapur ekki samboðinn embætti hans. Kaup við framandi þjóðir í sjálfu sér saklaus, urðu að lagaafbrigði, þar konungur hafði bannað stranglega svoddan. Annars hefur meistari Jón biskup verið duglegur framkvæmdamaður, útvegasamur og búhöldur mikill. Var og margt annað vel um hann.

Þann 7. júlí voru á alþingi útnefndir 12 prestar og 12 sýslumenn sem meðdómendur í málum meistara Jóns biskups Vigfússonar, að auk yfirmanna; var fyrirkallið svarið og dæmt löggilt, en er taka skyldi til varna gekk Egill Sigfússon skólameistari á Hólum að og bar fram, að Jón biskup hefði ásett sér að koma sjálfur, og þinglest hans verið á leið komin, en þá hefði hann tekið hasta og stríða sótt, og andast um morguninn þess 30. júnímánaðar heima á Hólum. Bréf eða skjöl komu engin að norðan og enginn svaramaður af bisk-

ups hendi, Valdsmenn þóttust ei fá sett honum, eða hans ungu og mörgu ómyndugu börnum svaramann svo á naumum tíma. Dómsmenn kváðu, að þeir vissu ekki hverjar málsbætur til vera kynnu, sem yfirvegast ætti áður en dómsályktun væri lögð á þetta vandamál. Þá vildu nokkrir dómendur ekki fara lengra, en útsetja málið, en það fékkst ekki fyrir kappi sækjandans. Dæmdu þá dómendur að sökum þess, að þeir þóttust klárlega og útþrykkilega finna, það Jón biskup hafi í sínu biskupsembætti stórum brotið móti útþrykkilegum kongsins lögum og landsrétti (og greindu þó ekkert brot berlega), þá dæmdu þeir af fé hans tíu hundruð ríxdali til kongsins, fimmtíu dali til fátækra prestekkna í Hólabiskupsdæmi, aðra fimmtíu til fátækra í Skagafirði og sex hundruð ríxdali til Kristophers Heidemanns, og skyldi alt goldið fyrir næsta alþing amtmanni Müller í hendur. Þar þeir þóttust ei kunna að dæma, hvort biskup Jón hefði forbrotið sitt embætti í lifandi lífi, settu þeir til kongs, hvort ekkja hans mætti njóta náðarárs. Þá þetta fram fór var Þórður son biskups við lærdóm í Kaupmannahöfn. Hann frétti dóminn og fékk útverkað að fá hann skrifaðan, skaut honum svo til hæstaréttar, hvar dómsúrskurður varð: Kommissariorum harði dómur ber ekki að koma sál. meistara Jóni Vigfússyni í hans gröf, ei heldur nokkrum af hans náungum til minnkunar, prejudice, hindrunar eða skaða á nokkurn hátt, ei heldur til frekari peningaútláta, en að erfingjar sál. meistara Jóns gjaldi til landfógetans Kristophers Heidemanns 100 Rdle í málskostnað. Svo byrjar og þeirri gerðu kyrrsetningu á biskupsinntektum, að vera öldungis úti og endaðri, og að ekkjan og erfingjarnir njóti náðarársins, sem siður hefur verið.

Dómur þessi var auglýstur á alþingi 1693, því Þórður hafði áður utan stefnt öllum þeim, er dæmdu með commissariis og sjálfum þeim í máli föður síns. Frú Guðríður flutti að Leirá og naut ei náðarárs eptir kongsbréfinu; en 1692 var Hólastaður úttekinn til handa Einari biskupi Þorsteinssyni er þá var útkominn biskup. Það gerði Lárus Gottrup og Þorsteinn Benediktsson, Páll Jónsson prófastur á Melstað, Ari Guðmundsson prófastur í Skagafirði og 6 lögréttumenn; var gert álag 3 hndr. og 50 álnir á kirkjuna. Með nauðung galzt sú kyrsetta biskupsinntekt, en ei náðarársins, hafði þó

frú Guðríður nægtir fjár meðan hún lifði og var ágæt kona. Frá börnum þeirra Jóns biskups er áður nokkuð sagt. Jón biskup varð kynsæll maður og hafa flestir merkismenn á Íslandi til nálægs tíma, átt kyn sitt að rekja til hans.

Jón biskup Vigfússon er og að því merkilegur, að hann er sá eini biskup á Íslandi síðan siðaskiptin urðu, sem bæði var sýslumaðnr og biskup, og undir eins að hann gaf cancellera Griffenfeld 1000 Rdle fyrir biskupsembættið, sem Griffenfeld sjálfur viðurkennir í sínum málum og segir það hafi verið með leyfi konungs.

Af biskupum síðan um siðaskiptin, var og Jón biskup hinn mesti æfintýramaður. Hvorki mun hann hafa gert öðrum í öllu rétt, eða aðrir honum. Varð honum biskupstignin öfundssöm, sem áður er sagt. Hann var þó í mörgu mikill maður.

## Sigurður Jònsson
### lögmaður.

(Sjá um hann hér að framan). Þá magister Jón Vigfússon var frádæmdur sýslumannsembætti í Þverárþingi, var Sigurði lögmanni fenginn þess hluti fyrir sunnan Hvítá 1672; meina eg að hann hefði þar þá lögsagnara. Það sýnist sem hann hafi sleppt Borgarfjarðarsýslu 1676 til Guðmundar bróður síns, svo að Guðmundur skyldi sleppa Mýrasýslu til Jóns Sigurðssonar, er þá tók bústað í Einarsnesi og tók Þverárþing vestan Hvítár (sjá um hann hér á eptir).

## Guðmundur Jònsson.

*Faðir*: Jón sýslumaður í Mýrasýslu Sigurðsson. Hann bjó í Einarsnesi.

*Móðir*: Ragnheiður dóttir Hannesar í Snóksdal, Björnssonar Hannessonar hirðstjóra. Guðmundur giptist ekki, var þó haldinn kvennamaður mikill. Guðmundar launson hét Ólafur, varð ekki að manni.

Guðmundur fæddist 1620, var albróðir Sigurðar lögmanns. Hvort hann (ɔ: Guðmundur) eða Guðmundur á Fróðá var það, sem gerðist lögsagnari í Snæfellsnessýslu, 1652—1656 er eg óviss um. En það var víst þessi Guðmundur, sem umboðsmaðurinn á Bessastöðum Tómas Nikulásson sendi veturinn 1663 til Stapa, að stefna Matthíasi sýslumanni fyrir

skuldir. Matthías tók Guðmundi forkunnarvel og gaf honum kostulega treyju, en Guðmundur lét niðurfalla stefnuna. Þar eptir finn eg Guðmundar ekki getið við málaferli eða sýsluverk fyr en 1672, þá Jón Vigfússon misti Þverárþing og Guðmundur var þá settur fyrir Mýrasýslu. En fyrir tilhlutan Sigurðar lögmanns bróður síns mun hann hafa sleppt Mýrasýslu, en tekið Borgarfjarðarsýslu 1676, óljóst hvort sem umboðsmaður eða hann hefir þar fyrir haft veiting, því eg finn, að Jón Sigurðsson bróðurson Guðmundar gerir sýslumannsverk í Borgarfjarðarsýslu 1678. 1680 var Guðmundur á alþingi ásamt öðrum sýslumönnum. Aptur er Guðmundur Jónsson talinn sýslumaður í Borgarfirði 1684, þá Jón Hreggviðsson drap böðulinn. Var þá Jón tekinn, en slapp úr járnum frá Bessastöðum og komst til hollenzkra. Guðmundur sýslumaður og hans fylgjarar höfðu verið nokkuð drukknir og riðið á undan, en þá hafði Jón ráðizt á böðulinn, sem átti að gæta hans og kæfði hann í feni, því aflsmunar kenndi. Þess getur enn, að Guðmundur hafði gefið manni leiðarbréf dagsett 9. maí 1685; það fékk Jón í hendur þá hann strauk.

Hvað lengi Guðmundur hefur verið sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu er mér dulið, en um hríð bjó hann á Hvítárvöllum. Jón sýslumaður í Einarsnesi, bróðurson Guðmundar, hafði veiting fyrir öllu Þverárþingi 1686; hafi Guðmundur þar eptir gert þar sýslumannsverk, er líkast að það hafi verið í umboði Jóns sýslumanns. Guðmundur deyði 1703, þá hann hafði þrjú ár hins níunda tugar; var hann þá undir umsjón Jóns sýslumanns bróðursonar síns.

Fáar sagnir hefi eg um Guðmund; er líkast til, að hann hafi lengst af verið umboðsmaður bróður síns Sigurðar lögmanns og Jóns sýslumanns sonar hans. Guðmundur var haldinn kvennamaður, þó hann giptist ekki, eða ætti börn, sem honum væri kend, utan eitt. Guðmundur var annars haldinn mætur maður í mörgu.

## Markús Snæbjörnsson.

(Sjá um hann við Vestmannaeyjasýslu). Markús sýnist eptir þingbók 1683 að hafa verið viðriðinn sýslumannsverk í Borgarfjarðarsýslu, máske ekki utan settur í einstaka máli.

## Jón Sigurðsson
### yngri.

*Faðir:* Sigurður lögmaður Jónsson í Einarsnesi (sjá hér að framan).

*Móðir:* Kristín dóttir séra Jóns í Hítardal Guðmundssonar.

*Kona:* Ragnheiður (gipt 1676 dó 1712, 60 ára) dóttir séra Torfa í Gaulverjabæ, Jónssonar frá Núpi vestra (sjá Ísafjarðarsýslu).

*Börn:* A. Sigurður sýslumaður á Hvítárvöllum (sjá síðar).

B. Séra Jón í Stafholti (dó 1740) átti fyr 1709 Kristínu (dó 1717) dóttur Guðmundar á Álptanesi[1]); börn:

a. Margrét átti séra Gísla Snorrason í Odda; þ. b.

aa. Guðmundur (fæddur 1759, dó 1835) í Kalastaðakoti, lánleysingi[2])

b. Ragnheiður

c. Torfi, dóu barnlaus[3])

Seinni kona séra Jóns Ragnheiður (fædd 1706, dó 1758) dóttir Gísla í Máfahlíð[4]); börn:

d. Jón sýslumaður á Móeiðarhvoli (sjá Rangárþing).

e. Sigríður átti fyr séra Jón á Breiðabólstað Ásmundsson, bl. svo Boga í Hrappsey Benediktsson (hans þriðja kona) börn:

aa. Ragnheiður.

---

1) Þau hjón voru bræðrabörn, því að Guðmundur á Álptanesi var son Sigurðar lögmanns Jónssonar.

2) Barna Guðmundar Gíslasonar er getið II, 692. Sigurður Vigfússon sonarson hans andaðist í Stóra-Botni 21. nóvember 1906. Ein dóttir hans, auk þess sem talið er II, 692, er Sigurbjörg kona Oddgeirs P. Ottesens óðalsbónda á Ytrahólmi.

3) Torfi var stúdent, dó úr bólu nýkominn til Kaupmannahafnar snemma í október 1736, jarðaður 12. október. Hann átti launson með Önnu Hildibrandsdóttur.

4) Sbr. bls. 164.

bb. Kristín.
cc. Guðrún.
dd. Ingveldur.
ee. Ragnheiður yngri.
ff. Bogi. } dóu ung[1]).
gg. Halldóra }

C. Þóra (fædd 1687 dó 1725) átti Runólf lögréttumann í Bæjum, Ólafsson, bróðurson Þórðar prests í Ögurþingum, Sveinssonar; börn:
 a. Séra Runólfur capellan á Setbergi (dó 1747) átti Ragnheiði dóttur Sigurðar sýslumanns á Hvítárvöllum; börn:
 aa. Hólmfríður átti séra Erlend Hannesson.
 bb. Ingibjörg ógipt, barnlaus.
 b. Ragnhildur átti Jón Jónsson,[2]) barnlaus.
 c. Ólafur átti Guðrúnu Ásbjörnsdóttur; bl
 d. Herdís seinni kona Ólafs á Lundum; bl.
 e. Sigríður ógipt; barnl.
 f. Guðrún.

D. Helga (gipt 1708, dó 1730) átti séra Hannes í Reykholti Halldórsson; þ. b.:
 a. Ragnheiður átti Þorgrím sýslumann (sjá Mýrasýslu).
 b. Þorkell[3]).
 c. Halldór[4]).
 d. Björn.
 e. Ragnheiður, öll barnlaus.

---

1) Börn Boga og Sigríðar eru talin bls. 164—165.

2) Jón var son Jóns prests Eyjólfssonar í Hvammi í Norðurárdal. Hann bjó á Skarðshömrum og Laxfossi.

3) Þorkell var útskrifaður úr Skálholtsskóla 24. apríl 1738 og skrifaður í stúdentatölu við háskólann 17. desember 1740, varð baccalaureus í heimspeki 23. júní 1742, en andaðist seint í júlí 1743 og var grafinn í Þrenningarkirkjugarði 1. ágúst.

4) Halldór var skrifaður í stúdentatölu við háskólann 21. desember 1742, þá talinn 22 ára. Hann andaðist í Kaupmannahöfn úr gulu snemma í júlí 1743 og var grafinn í Þrenningarkirkjugarði 11. júlí. Báðir bræðurnir hafa því dáið í sama mánuði.

E. Helga yngri (dó 1764, 71 árs) átti Hannes á Hólmi Hákonarson[1]); börn:
a. Hákon.
b. Ragnheiður.
c. Helga.
d. Helga.

F. Magnús á Brennistöðum í Flókadal (fæddur 1695, dó 1764) giptist fyr 1721 Margréti (dó 1725) dóttur Guðmundar á Álptanesi, Sigurðssonar; börn:
a. Ragnheiður giptist ekki.
b. Guðrún átti Guðmund Teitsson sýslumanns Arasonar[2]); börn:
aa. Séra Guðmundur í Reykjadal[3]).

---

1) Hannes var son Hákonar Hannessonar sýslumanns í Rangárþingi (sjá um hann þar).

2) Sbr. II, 124.

3) Séra Guðmundur átti Hólmfríði Hjálmarsdóttur, systur séra Páls og Halldórs konrektors Hjálmarssona, þ. b.:
1. Hjálmar prestur á Hallormsstað († 1. febr. 1861) átti Guðrúnu Gísladóttur frá Laugardalshólum Þórðarsonar á Minni-Ólafsvöllum Gíslasonar, þ. b.:
a. Gísli læknir, dó í Kollafirði 1867, átti Guðlaugu Guttormsdóttur prófasts í Vallanesi Pálssonar, þeirra einkadóttir:
aa. Guðrún átti Eirík Briem prestaskólakennara son Eggerts Gunnlaugssonar Briem sýslumanns (I, 288), þ. b.:
aaa. Eggert óðalsbóndi í Viðey kvæntur Katrínu dóttur Péturs Thorsteinsons kaupmanns á Bildudal Þorsteinssonar í Æðey Þorsteinssonar prests í Gufudal Þórðarsonar, eiga börn.
bbb. Ingibjörg, dó uppkomin, bl.
b. Margét átti Jón Jónsson á Brekku í Fljótsdal og Guðlaugar Styrbjarnardóttur († 1866 96 ára), þ. b,
aa. Gísli á Hafursá átti Sigríði Árnadóttur frá Ekkjufellsseli Þórðarsonar, þeirra son Hjálmar dó í lærða skólanum.
bb. Hólmfríður átti fyr Jón Sigurðsson á Hrafnkelsstöðum, þ. b.:
aaa. Sigurður prestur á Lundi kvæntur Guðrúnu Sveinsdóttur snikkara í Reykjavík Sveinssonar prófasts Níelssonar.

bb. Grímur[1]).

---

bbb. Guðrún gipt Hermanni Jónassyni alþm., ráðsmanni við Laugarnesspítala, þ. b.:
× Hallgrímur og Sigríður.
S. m. Hólmfríðar Sæbjörn Egilsson á Hrafnkelsstöðum, þ. b.:
ccc. Magnús læknir í Flatey, kvæntur danskri konu.
cc. Guðlaug Margrét átti séra Jón Guttormsson í Hjarðarholti og börn (sjá síðar).
dd. Hjálmar.
ee. Katrín Margrét.
c. Hólmfríður dó 23. apríl 1823 17 ára.
Séra Guðmundur átti launson með Vigdísi Ólafsdóttur lögréttumanns á Lundum Jónssonar, er hann var í skóla, það var:
2. Guðmundur bjó í Móakoti í Garðahverfi, dó 1834 62 ára, átti Hlaðgerði Einarsdóttur frá Jórvík í Flóa Þorkelssonar, er skilið hafði við mann sinn Jón Eyvindsson frá Bakkarholti í Ölfusi Erlendssonar og var móðir Þorkötlu móður Egils bókbindara Jónssonar.
Séra Guðmundur átti hórbarn með Þóru Helgadóttur vinnukonu í Úthlíð og missti fyrir það prestskap 1782; það dó ungt. Hórson séra Guðmundar með Elínu Þórðardóttur giptri vinnukonu á Hjálmsstöðum í Laugardal hét
3. Guðmundur f. 5. desember 1794.
Laundóttir séra Guðmundar með Guðrúnu Einarsdóttur Erlendssonar, systkinabarni við konu hans er og talin:
4. Ingunn († 11. marz 1839) átti Guðmund († 1812) Bernharðsson frá Ölvatnsholti í Flóa Jónssonar og var s. k. hans [Son Guðmundar með f. k. var Arnþór stúdent, er drukknaði í Vestmanneyjum með Jóni sýslumanni Þorleifssyni 22. apríl 1815], þ. b.:
a. Jón ritstjóri Þjóðólfs († 31. maí 1875) átti Hólmfríði Þorvaldsdóttur prófasts Böðvarssonar, þ. b. Þorvaldur fyr læknir á Ísafirði, Sigurður fangavörður í Reykjavík og Kristín gipt Haraldi Krabbe í Kaupmannahöfn.
Ingunn ekkja Guðmundar Bernharðssonar bjó síðar með Guðmundi Grímssyni frá Galtarholti í Skilmannahrepp Einarssonar og var son þeirra:
b. Ólafur Rósenkranz í Miðfelli í Þingvallasveit, átti Sæunni Sigmundsdóttur frá Fossi í Grímsnesi Hallssonar í Norður-

---

1) Grímur bjó á Steðja í Reykholtsdal, dó ókv.. bl.

cc. Jón[1]).

dd. Ástríður.

ee. Halldóra[2]).

c. Ragnhildur átti séra Magnús á Þingvöllum[3]); þ. b.:

aa. Séra Guðmundur á Kálfatjörn[4]).

bb. Guðrún dó 1766, bl.

Magnús giptist síðar Þórunni dóttur séra Árna í Saurbæjarþingum Jónssonar; börn:

d. Séra Gísli í Sauðanesi og Arnarbæli[5]), bl.

e. Séra Páll á Valþjófsstað (dó 1788), átti Sigríði Hjörleifsdóttur[6]); börn:

---

garði á Skeiðum Vigfússonar s. st. Gíslasonar, þeirra son Ólafur Rósenkranz leikfimiskennari í Reykjavík.

Ingunn átti og enn fleiri börn með ýmsum, þar á meðal eitt með Birni Björnssyni, bróður Þórðar sýslumanns i Garði (I, 129) hét:

c. Kristín. Launson hennar með Hróbjarti Ólafssyni Valdasonar er

aa. Kristján, enn á lífi í Reykjavík (1907).

1) Jón var á flækingi um Vestfirði, átti Sigríði Sigurðardóttur frá Engidal Þórðarsonar s. st. Pálssonar, þ. b. talin (hjá Ó. Sn.) Sigríður og Hildur.

2) Launson Halldóru með Jóni »valinglað« Jónssyni var

a. Jens sá er orti vísuna um Castenskiöld stiptamtmann (Árb. Esp. XII, 68). Því næst fór Jens suður í Keflavík. Halldóra átti síðar Hjört Gíslason, bróðurson séra Guðmundar prófasts Jónssonar á Staðarstað, þau komust í þjófnaðarmál.

3) Séra Magnús Sæmundsson á Þingvöllum (I, 102) drukknaði ofan um ís á Þingvallavatni nálægt Arnarfelli 1780 á heimleið frá Úlfljótsvatnskirkju.

4) Séra Guðmundur var síðar prestur í Hrepphólum og dó þar 16. júlí 1816. Hann átti Ingibjörgu dóttur Brynjólfs sýslumanns Sigurðssonar í Hjálmholti. (Sjá um börn þeirra Árnesþing).

5) Séra Gísli dó 5. apríl 1788, fannst dauður í dýi, fastur í því upp undir hendur (J. S. 74 fol. í landsbókasafninu). Hann átti Guðrúnu Árnadóttur frá Ásbrandsstöðum í Vopnafirði († 30. okt. 1797) ekkja séra Árna Skaptasonar á Sauðanesi.

6) Hún var dóttir Hjörleifs prófasts Þórðarsonar á Valþjófsstað.

aa. Guttormur rektor[1]).

---

1) Guttormur prófastur í Vallanesi († 3. ágúst 1860) átti Margréti Vigfúsdóttur prests á Valþjófsstað Ormssonar prests í Keldnaþingum Snorrasonar, þ. b.:

1. Bergljót átti Sigurð prófast Gunnarsson á Hallormsstað, þ. b.:
   a. Margrét f. k. Jóns prófasts Jónssonar á Stafafelli; þ. b.: Sigurður. (II, 398).
   b. Elísabet átti Pál stúdent Vigfússon, þau systkinabörn sjá síðar).
   c. Guðlaug dó 1876 28 ára óg., bl.
2. Málmfríður f. k. séra Jóns Jónssonar Austmanns síðast í Stöð, þ. d.:
   a. Helga f. k. Baldvins Sigurðssonar í Garði í Aðaldal.
3. Vigfús prestur í Ási í Fellum († 19. marz 1874), átti fyr Björgu Stefánsdóttur prests á Valþjófsstað Árnasonar, þ. b.:
   a. Stefán dó ungur.
   b. Guttormur prestur á Stöð átti fyr Málmfríði Önnu, dóttur séra Jóns Austmanns og s. k. hans Helgu Jónsdóttur frá Sörlastöðum Gunnlaugssonar, þ. d.:
      aa. Helga átti fyr Stefán Baldvinsson verzlunarmann á Brekku í Mjóafirði, en síðar Hallgrím Austmann kaupmann á Akureyri.

   S. k. séra Guttorms á Stöð Friðrika Þórhildur Sigurðardóttir frá Harðbak á Sléttu Steinssonar Hákonarsonar á Grjótnesi Þorsteinssonar, eiga mörg börn.
   c. Páll stúdent á Hallormsstað († 16. maí 1885) átti systkinabarn sitt Elísabetu Sigurðardóttur, þ. b. Sigrún, Guttormur.
   d. Halldór.
   e. Páll.
   f. Jón.
   g. Stefán annar.

   S. k. séra Vigfúsar í Ási var Guðríður Jónsdóttir frá Gilsá í Breiðdal Einarssonar prests á Desjarmýri Jónssonar, þ. b.:
   h. Björgvin sýslumaður á Höfðabrekku (sjá Skaptafellssýslu).
4. Guðlaug átti Gísla Hjálmarsson lækni (sjá hér áður).
5. Vigfús annar dó ungur.
6. Sigríður dó á 1. ári.
7. Sigríður átti séra Vigfús Sigurðsson á Sauðanesi, bl.
8. Þórunn átti fyr Metúsalem Árnason á Bustarfelli, en síðar Benedikt í Höfða á Völlum, Þorkelsson prests á Stafafelli Árnasonar, þ. b.:

bb. Magnús[1]).
cc. Bergljót[2]).

---

a. Guttormur varð úti á Smjörvatnsheiði.
b. Margrét dó ógipt bl.
c. Hjörleifur.
d. Jón.

9. Sigurlaug dó 1842, 25 ára gömul.
10. Ragnheiður dó 1843, 24 ára.
11. Margrét f. k. Einars Ásmundssonar alþingismanns í Nesi, þ. b.:
    a. Gunnar kaupmaður í Reykjavík átti fyr Andreu Jónu Sigurðardóttur frá Möðrudal Jónssonar, þ. b.: Einar cand. phil. ritstjóri í Reykjavík, en síðar Jóhönnu Friðriksdóttur og börn.
    b. Guttormur á Ósi í Hörgárdal.
12. Pálína dó ung.
13. María dó ung.
14. Páll var aðstoðarmaður hjá Gísla lækni Hjálmarssyni, dó 1860 33 ára.
15. Ingunn dó 1854, 26 ára gömul.
16. Jón dó ungur.
17. Jón prófastur í Hjarðarholti, yngstur barnanna, dó 3. júní 1901, sjötugur, átti Guðlaugu Margréti Jónsdóttur frá Brekku í Fljótsdal Jónssonar og Margrétar Hjálmarsdóttur (sjá hér á undan), þ. b.:
    a. Guttormur trésmiður í Reykjavík.
    b. Páll verzlunarmaður á Djúpavogi.
    c. Jón héraðslæknir á Blönduósi, kvæntur Sigríði Arnljótsdóttur prests á Sauðanesi Ólafssonar.
    d. Gísli.
    e. Guðlaug gipt Andrési Bjarnasyni söðlasmið í Reykjavík.
    f. Ragnheiður.

1) Magnús var undarlegur í skapi og einkennilegur. Eru um hann ýmsar sagnir eystra. Hann kvæntist og bjó um tíma í Vopnafirði, átti engin börn, drukknaði um 1844 í Gilsá hjá Hrafnkelsstöðum, hafði sagt áður, að hann mundi í þessari á drukkna. Lík hans fannst aldrei.

2) Bergljót átti séra Hjörleif Þorsteinsson á Hjaltastað, þ. b.:
a. Þórður stúdent, útskrifaður úr Bessastaðaskóla 1810, var á Bakka í Borgarfirði, drukknaði 1814 með þeim hætti, að hann stökk á ísjaka, er sporðreistist undir honum.
b. Sigríður átti séra Þórð Gunnlaugsson í Ási, þ. b.:
aa. Gunnlaugur stúdent, dó í Kaupmannahöfn 1862.

dd. Halldóra[1]).

---

bb. Bergljót.
cc. Elinborg.

c. Einar prestur í Vallanesi († 19. ágúst 1881) átti fyrst Elínu Vigfúsdóttur prests í Garði Björnssonar, bl., svo Þóru Jónsdóttur vefara Þorsteinssonar prests á Krossi Stefánssonar, þau bræðrabörn, þ. b.:

aa. Guttormur, dó 1860 ókv., bl.

bb. Þórey átti Þórarinn á Skjöldólfsstöðum Stefánsson prests á Skinnastað Þórarinssonar, þeirra synir: Þórarinn prestur á Valþjófsstað og Brynjólfur bóndi á Brekku.

cc. Hjörleifur prestur á Undirfelli, átti fyr Guðlaugu Eyjólfsdóttur frá Gíslastöðum Jónssonar, þ. b.: a) Einar Gísli, fyr ritstjóri í Reykjavík, b) Sigurður Jón læknir, ritstjóri »Norðurlands«, c) Jósep Kristján prestur á Breiðabólsstað á Skógarströnd († 6. maí 1903). S. k. séra Hjörleifs Björg Einarsdóttir frá Mælifellsá í Skagafirði, eiga börn.

dd. Margrét átti Sölva Jónsson smið á Víkingsstöðum, þ. b.: Þórður.

ee. Þórður á Skjöldólfsstöðum átti Þórdísi Eiríksdóttur, þeirra son Einar prestur á Desjarmýri, býr á Bakka í Borgarfirði.

ff. Jón á Bóndastöðum átti Guðlaugu Einarsdóttur frá Firði Halldórssonar Pálssonar.

gg. Björn.

hh. Bergljót átti fyr Þórð í Sauðhaga son Jóns prests Austfjörð á Klyppstað, svo Einar í Sauðhaga bróður hans.

ii. Elín átti Schou verzlunarstjóra á Húsavík.

kk. Stefán á Gaitastöðum og Sörlastöðum átti Þórunni Magnúsdóttur prests í Heydölum Bergssonar, bl.

ll. Árni.

Síðasta kona séra Einars í Vallanesi Jórunn Stefánsdóttir prests á Völlum Þorsteinssonar, systir sammæðra Jóseps læknis Skaptasonar, þau bl.

d. Helga átti fyr séra Þorkel Árnason á Stafafelli († 17. jan. 1836), þ. b.:

---

1) Halldóra átti Pétur gullsmið Brynjólfsson læknis Péturssonar, þeirra son:

a. Páll, síðast prestur í Hillerslev og Kaastrup í Álaborgarstipti, dó í Lögstör 7. júlí 1862, 66 ára gamall, átti danska konu, Karen Möller († 1873); áttu eina dóttur.

cc. Oddný.

G. Ragnheiður (fædd 1686) átti Eggert á Alptanesi Guðmundsson (sjá Kjósarsýslu).

H. Margrét[1]) (f. 1683) átti Þórð Guðlaugsson í

---

aa. Benedikt átti Þórunni Guttormsdóttur prófasts Pálssonar (sjá hér áður).

bb. Bergljót átti Björn á Brekkuborg í Breiðdal Snorrason prests í Heydölum Brynjólfssonar.

cc. Hjörleifur á Selsstöðum átti Ingibjörgu Hermannsdóttur.

dd. Árni.

ee. Þuríður átti Andrés í Fagradal í Breiðdal.

ff. Margrét átti Vigfús á Arnheiðarstöðum Guttormsson stúdents Vigfússonar prests Ormssonar, þ. b.:

aaa. Guttormur umboðsmaður og alþm. í Geitagerði.

bbb. Sölvi bóndi á Arnheiðarstöðum.

ccc. Einar fyr prestur á Desjarmýri, nú í Ameríku.

ddd. Halldóra s. k. séra Gunnlaugs Halldórssonar á Breiðabólsstað í Vesturhópi.

eee. Guðlaug s. k. séra Jóns prófasts Jónssonar á Stafafelli. [Í II, 398 er hún ranglega nefnd Guðrún].

fff. Þórey.

S. m. Helgu Hjörleifsdóttur Sigurður Sveinsson prests í Berufirði Péturssonar.

e. Margrét átti séra Jón Jónsson Austfjörð á Klyppstað, bróður séra Péturs á Valþjófsstað, þau bræðrabörn, þ. b.:

aa. Þórður í Sauðhaga.

bb. Einar í Sauðhaga átti hver eptir annan Bergljótu Einarsdóttur prests í Vallanesi Hjörleifssonar (sjá áður).

1) Á lausu blaði með hendi séra Sigurðar Sivertsen á Útskálum er sagt, að Margrét dóttir Jóns sýslumanns hafi átt Jón nokkurn, er drukknað hafi undir Jökli með Þórði syni sínum. Sonur Jóns þessa og Margrétar hafi og verið:

a. Eyleifur, er átti Alríði Einarsdóttur frá Giljum í Hálsasveit Grettissonar. (Einar kom suður í stóru bólu 1707, varð tíræður og átti 21 barn). Dóttir Eyleifs og Alríðar:

aa. Margrét átti Ólaf Þorvarðarson í Gröf í Skilmannahrepp, þ. b.: Ólafur í Leirvogstungu, Guðrún átti Nikulás Hannesson, Eyleifur, Hinrik, Þorvarðar tveir, er dóu ungir.

Að ættfærsla þessi sé öldungis áreiðanleg þori eg ekki að ábyrgjast. En hún getur t. d. verið rétt að því leyti, að Eyleifur Jónsson hafi verið launson, (en ekki hjónabandsbarn), Margrétar frá

Hvalgröfum, þau deyðu bæði í stóru bólu 1707, börn:

a. Guðrún (fædd 1704, deyði 1788), giptist 1732 séra Jóni Jónssyni á Gilsbakka, sem dó 1771 (77 ára), þ. b.:

aa. Séra Jón á Gilsbakka, dó 1796, átti Ragnheiði dóttur séra Jóns Sigurðssonar, börn:

aaa. Halla[1]).

bbb. Kristín[2]).

ccc. Séra Jón[3]).

bb. Vilborg dó 1810 átti séra Jón Finnsson, þ. b.:

aaa. Torfi.

bbb. Jón prestur í Hruna og Klausturhólum[4]).

cc. Arndís átti séra Kolbein Þorsteinsson[5]), fékk Sandfell 1757, Miðdal 1765, dó 1783, börn:

---

Einarsnesi, annaðhvort þeirrar, er átti Þórð Guðlaugsson eða Margrétar laundóttur Jóns sýslumanns.

1) Halla átti Jón stúdent Árnason á Leirá (sjá hér síðar).

2) Kristín átti Jón Friðriksson Thorarensen stúdent í Víðidalstungu (II, 275, 615), þ. b.: Ragnheiður kona séra Jóns Sigurðssonar á Breiðabólsstað í Vesturhópi og Páll Vídalín í Víðidalstungu, faðir Jóns Vídalíns konsúls og systkina hans.

3) Séra Jón á Bergsstöðum, dó 30. maí 1839, átti Dýrfinnu Jónsdóttur frá Hornsstöðum í Laxárdal Jónssonar í Litla-Langadal Gunnlaugssonar Arasonar Gunnlaugssonar, (hún átti síðar Jón Samsonsson alþm. í Keldudal), þ. b.:

a. Jónas bjó í Arnarholti í Stafholtstungum átti Þorbjörgu Stefánsdóttur, föðursystur séra Sigurðar í Vigur, þ. b.: Þorbjörn kaupm. í Rvík, Stefán fór til Noregs og Helgi, er átti Halldóru Guðmundsdóttur Guðnasonar.

4) Um afkomendur þeirra bræðra séra Torfa og séra Jóns sjá bls. 165—167.

5) Séra Kolbeinn í Miðdal var son Þorsteins Kolbeinssonar í Tungufelli og Guðrúnar Hallvarðsdóttur frá Efra-Seli í Ytrihrepp Halldórssonar.

aaa. Jón eldri beykir[1]).
bbb. Jón yngri kaupmaður[2]).
ccc. Séra Eyjólfur[3]).
ddd. Guðrún[4]).
eee. Margrét[5]).
fff. Halldóra[6]).

---

1) Jón beykir var yngri en Jón kaupmaður bróðir hans. Hann var 3 ár í Vestindíum, en mun hafa andazt í Kaupmannahöfn.

2) Jón kaupmaður í Stykkishólmi var stúdent (útskrifaður úr Skálholtsskóla 1784) og vel að sér. Hann dó 8. nóvember 1836, átti Ragnheiði Jónsdóttur, systur Eggerts prests á Ballará, þeirra son Pétur Kolbeinsen stúdent og kaupmaður í Stykkishólmi, dó í Kiðey 18. jan. 1858, átti Guðrúnu Jóhannesdóttur frá Nautabúi í Hjaltadal Arasonar prests Þorleifssonar, þ. b.: a) Pétur, drukknaði 1858. b) Bjarni drukknaði 1861. c) Margrét. d) Jón. e) Guðrún.

3) Séra Eyjólfur var síðast prestur á Eyri við Skutulsfjörð, dó 12. apríl 1862 92 ára, átti Önnu dóttur Péturs Kúlds kaupmanns í Flatey og fjölda barna, þar á meðal voru: Friðrik faðir Halldórs yfirkennara og Jóhanna Friðrika kona Ólafs prófasts Sivertsens í Flatey.

4) Guðrún eldri átti fyr séra Sigurð Ólafsson aðstoðarprest í Miðdal, er dó á Minna-Mosfelli 17. júlí 1793, þ. b.: Kolbeinn dó ungur og Sigurður Lyngdal hattasmiður, en síðar Eirík dannebrogsmann á Reykjum á Skeiðum Vigfússon Gíslasonar prests á Ólafsvöllum Erlingssonar og fjölda barna, er ef til vill verður síðar getið nánar (við Rangárþing).

5) Margrét († 25. febr. 1826) var þrígipt, átti fyrst Þórð stúdent Sæmundsson, er andaðist úr bólu á Mosfelli í Grímsnesi 11. janúar 1786, svo átti hún séra Hilaríus Illhugason á Mosfelli og var s. k. hans, þau bl., en síðast séra Jón Jónsson í Klausturhólum og var miðkona hans, áttu tvær dættur (sbr. bls. 166—167).

6) Halldóra († 1807) var s. k. Árna í Kalmannstungu Þorleifssonar Ásmundssonar á Bjarnastöðum í Hvítársíðu Ólafssonar, þ. b.:
a. Jón stúdent á Leirá (sjá hér síðar).
b. Kolbeinn á Hofsstöðum í Hálsasveit átti Ragnheiði Vigfúsdóttur prests á Reynivöllum Eyjólfssonar, þ. b.:
aa. Rannveig átti Þórð á Leirá Þorsteinsson Þiðrikssonar og börn.

ggg. Guðrún yngri[1]).

---

bb. Halldóra átti Sigurð á Hofsstöðum Jónasson prests í Reykholti Jónssonar.
cc. Guðrún, dó bl., o. fl., er dóu ung.
c. Guðný dó ung.
d. Arndís átti Bjarna í Straumfirði Einarsson frá Kalmannstungu Þórólfssonar, bróður Halldórs sýslumanns í Höfn (sjá hér síðar), þ. b.:
aa. Jón Straumfjörð prestur í Meðallandsþingum († 28 jan. 1890), ókv., bl.
bb. Einar í Straumfirði átti Herdísi Sigurðardóttur og skildi við hana, flutti suður í Keflavík.
cc. Guðríður átti Jón Sigurðsson í Álptártungu.
dd. Bjarndís átti Bjarna Jónsson.
ee. Arndís átti Sigurð Sigurðsson.
ff. Bjarni á Austurvelli á Kjalarnesi.
gg. Guðný gipt Þorsteini í Bakkabúð í Reykjavík Helgasyni frá Mel í Hraunhrepp Brandssonar á Saurum Helgasonar á Beigalda Gunnlaugssonar Nikulássonar, þ. b.: Bjarni prestur á Siglufirði, Ólöf gipt Benóní Benónissyni kaupm. í Rvík, Einar, Þorsteinn kaupm. í Bakkabúð, kvæntur Guðrúnu Brynjólfsdóttur frá Engey Bjarnasonar, Arndís gipt, Guðríður, Halldór Kristján og Kolbeinn skipstjórar.

1) Guðrún yngri († 27. marz 1809) átti Einar í Bryðjuholti Bjarnason frá Sóleyjarbakka Jónssonar rauðs í Fjalli Jónssonar og var f. k. hans, þ. b.:
a. Kolbeinn í Laugardalshólum.
b. Ingiríður átti fyr Ketil í Skálholti Þorgeirsson frá Vaðnesi Ketilssonar s. st. Þorgeirssonar og var s. k. hans, þ. b.:
aa. Helga átti Bjarna Loptsson í Núpstúni.
bb. Guðrún átti Gísla Þórðarson í Unnarholtskoti, þ. b.: Ketill.
cc. Guðrún önnur átti Bjarna Bjarnason í Vaðnesi.
dd. Þorgeir dó ungur.
S. m. Ingiríðar 1828 Ólafur Helgason í Skálholti, þ. b.:
ee. Ketill dó ungur.
ff. Guðrún átti Guðmund Bjarnason í Jötu þ. b.: Guðríður, Ketilríður, Sigurbjörg, Ólafía.
gg. Ingibjörg átti Magnús Ólafsson á Laugarbökkum, þ. b.: Ketill skósmiður á Ísafirði, Helgi, Ólafar tveir og Guðjón bóndi á Laugarbökkum.

dd. Jón Jónsson eldri í Norðtungu átti Helgu Bjarnadóttur sýslumanns Nikulássonar, þeirra barn:

---

hh. Sigríður átti Guðlaug Guðmundsson á Fossi í Ytrihrepp bróður Lýðs í Hlíð, þ. b.: Ketill o. fl.
ii. Helgi í Skálholti og síðar í Drangshlíð átti Valgerði Eyjólfsdóttur frá Vælugerði Gestssonar Eyjólfssonar.
c. Bjarni í Götu í Ytrihrepp. Synir hans:
aa. Guðmundur í Jötu átti Guðrúnu Ólafsdóttur, þau systkinabörn (sjá hér á undan).
bb. Einar kaupmaður í Reykjavík, fór til Ameríku með konu og börn.
d. Arndís átti Guðmund í Birtingaholti Magnússon s. st. Snorrasonar í Ási hjá Hruna Jónssonar í Miðfelli Magnússonar, þ. d.:
aa. Guðrún átti Helga í Birtingaholti Magnússon alþingismanns í Syðra-Langholti Andréssonar Narfasonar í Efstadal Einarssonar, þ. b.: Guðmundur prófastur í Reykholti, Magnús kennari við Flensborgarskólann, Kjartan prestur í Hruna, Ágúst bóndi í Birtingaholti o. fl.
e. Sigurður í Gelti í Grímsnesi átti Ingunni Bjarnadóttur frá Seli Ólafssonar, þ. b.:
aa. Kolbeinn á Seli í Grímsnesi og víðar átti Ingigerði Ögmundsdóttur frá Bíldsfelli Jónssonar, þeirra son Ögmundur bóndi í Hjálmholti kvæntur Ágústu Ólafsdóttur Þormóðssonar, systur Sigurðar sýslumanns í Kaldaðarnesi.
bb. Bjarni í Miðengi í Grímsnesi, flutti til Reykjavíkur, átti Guðbjörgu Þórðardóttur frá Hömrum í Grímsnesi.
cc. Sigurður á Hæðarenda, flutti til Reykjavíkur, átti Sigríði Ögmundsdóttur frá Bíldsfelli, þ. b.: Sigurmundur læknaskólakandídat o. fl.
dd. Guðrún átti Einar Einarsson í Eyvík, þeirra synir: Jóhannes á Ormsstöðum og Sigurður kaupmaður á Stokkseyri.
ee. Guðrún yngri átti fyr Þorkel Guðmundsson á Stóruborg og börn, síðan Eirík Jónsson á Sólheimum og mörg börn.
ff. Úlfhildur átti Eyjólf Narfason í Hverakoti og börn. Úlfhildur fór til Ameríku með börnin.
gg. Arndís átti Ólaf Ögmundsson í Hvassahrauni, bróður Ingigerðar og Sigríðar (sjá hér á undan).

Son séra Kolbeins og Arndísar var ennfremur:

hhh. Þorsteinn dó um tvítugt, var fáráðlingur og heilsulaus.

aaa. Bjarni dimissus[1]), miðmaður 1779 Oddnýjar Brandsdóttur ekkju, dó bl.

ee. Sigríður seinni kona séra Guðbrands á Brjánslæk, þ. b.:

aaa. Séra Einar á Hjaltabakka[2]).

bbb. Gunnlaugur Briem sýslumaður (sjá Vaðlasýslu)[3]).

ccc. Sigríður kona séra Hjalta á Stað í Steingrímsfirði[4]).

---

1) Bjarni stúdent í Norðtungu dó 1814.

2) Séra Einar var síðast prestur á Auðkúlu og andaðist þar 21. nóv. 1842. Hann var tvíkvæntur, fyr Ragnheiði Jónsdóttur ekkju séra Jóns Jónssonar á Gilsbakka (sjá hér áður), en síðar Ingibjörgu Magnúsdóttur sýslumanns Gíslasonar (I, 622), bl. með báðum.

3) I, 286—290.

4) Börn séra Hjalta Jónssonar á Stað og Sigríðar:

a. Guðbrandur í Kálfanesi átti Petrínu Eyjólfsdóttur prests Kolbeinssonar og var s. m. hennar, þ. b.:

aa. Sigríður.

bb. Evlalía.

cc. Hildur átti fyr Þórólf Magnússon á Hrófá, hann drukknaði 1869, síðar Árna Jónsson, þ. b.: Benedikt.

b. Daníel gullsmiður í Hlíð í Þorskafirði, dó 1877, átti Kristínu Grímsdóttur, þ. b.:

aa. Sigríður.

bb. Anna átti Brand Sigmundsson á Kollabúðum.

cc. Daníel Eggert Briem.

dd. Kristín átti Jón Andrésson.

ee. Guðríður.

ff. Ástríður.

gg. Bjarni.

Daníel átti 3 launbörn, eitt með Valgerði Jónsdóttur:

hh. Steinunn átti Jón Guðmundsson frá Selskerjum og börn.

Annað launbarn Daníels með Solveigu Magnúsdóttur:

ii. Jórunn átti Jón Jónsson á Svanshóli í Bjarnarfirði, þ. b.: Ingimundur í Veiðileysu o. fl.

Þriðja launbarn Daníels með Kristínu Jóhannesdóttur:

kk. Benjamín á Laugalandi í Þorskafirði átti Jóhönnu Friðriku Benediktsdóttur frá Marðareyri Jónssonar og börn.

Seinni maður Sigríðar Jónsdóttur Bjarni Þórðarson á Siglunesi, bl.[1]).

---

c. Jón dó ungur.

d. Andrés síðast prestur í Flatey († 22. júlí 1882), átti fyr Margréti Ásgeirsdóttur frá Rauðamýri Ásgeirssonar, systur Ásgeirs kaupmanns eldra á Ísafirði, þ. b.:

aa. Jón Hjaltalín skólastjóri á Akureyri átti Margréti Guðrúnu dóttur Jóns Thorsteinsens landlæknis, bl.

bb. Sigurður átti Hildi Jónsdóttur prests á Rafnseyri Benediktssonar, þ. b.:

aaa. Ásgeir Þorsteinn kaupmaður í Reykjavík (»Edinborgarverzlun«) kvæntur enskri konu.

bbb. Hjalti verzlunarmaður í Reykjavík, kvæntur amerískri konu.

ccc. Margrét átti Ólaf Ófeigsson verzlunarstjóra í Keflavík.

cc. María var á Ísafirði, ógipt, bl.

S. k. séra Andrésar Eggþóra Eggertsdóttir prests í Stafholti Bjarnasonar landlæknis, þ. b.:

dd. Þórunn gipt Brynjólfi Jónssyni í Reykjavík.

e. Jón á Hrófá og Kjóey á Breiðafirði átti Valgerði Sveinsdóttur, þ. b.: Hjalti í Rifgirðingum o. fl.

f. Sigríður átti Einar Jónatansson á Víðivöllum í Staðardal, þ. b.:

aa. Þórólfur í Lambadal í Dýrafirði, varð úti 1869, átti Guðrúnu Þorsteinsdóttur frá Gilsfjarðarmúla Hallgrímssonar, bl.

bb. Jón átti Elizabetu Guðmundsdóttur.

cc. Guðbjörg giptist ekki, en átti 3 börn með kvæntum manni, Einari Jónssyni.

dd. Monika átti Guðna Jónatansson á Brúará föðurbróður sinn og börn.

g. Rannveig, dó 8. marz 1880, átti Svein Þorvaldsson gullsmið í Hvammi í Dýrafirði, þ. b.:

aa. Guðrún átti Einar Magnússon rokkasmið í Hvammi og fjölda barna.

bb. Sveinbjörn smiður, drukknaði á Dýrafirði, ókv., bl.

cc. Þorbjörg, dó ógipt, bl.

dd. Þorvaldur, dó ókv., bl.

---

1) Enn var son séra Jóns á Gilsbakka og Guðrúnar Þórðardóttur:

ff. Markús stúdent, dó í Kaupmannahöfn 22. október 1772.

b. Halldóra átti Pál Þorsteinsson[1]) bónda á Skeljabrekku eystri, þ. b.:
aa. Þórður[2]).

---

ee. Sigríður fór suður á Álptanes.
h. Gunnfríður átti Guðmund Þorsteinsson á Kirkjubóli í Staðardal og mörg börn (Guðrún, Rögnvaldur, Sveinbjörn, Hjalti, Jóhann).
i. Guðríður varð gömul, giptist aldrei.
k. Þorbjörg, dó 2. des. 1863, átti Sigfús Þorleifsson í Skálmarnesmúla, þ. b.:
aa. Kristján Sigurður.
bb. Guðmundur átti Sólbjörtu ekkju Jóns Jóhannessonar í Flatey.
l. Sigríður yngri, dó ung.

1) Páll var son Þorsteins prests Þórarinssonar í Miðdalaþingum († 1695). Halldóra kona hans var laundóttir Þórðar Guðlaugssonar, en ekki dóttir hans og Margrétar, því að Guðrún var einbirni þeirra. Ætt frá Páli og Halldóru er því ekki komin frá Jóni sýslumanni í Einarsnesi, en eg hef samt rakið hana hér nokkuð niður, enda er þetta skylt Gilsbakkafólki á fyrtéðan hátt. Kaupmáli Páls og Halldóru fór fram í Einarsnesi 9. okt. 1727 (Kaupmálabréfabók frá Stafholti í Landskjalasafninu). Þar er nefndur Halldór Guðlaugsson sammæddur bróðir Halldóru.

2) Þórður á Högnastöðum átti fyr Ingveldi Guðmundsdóttur, þeirra börn:
a. Páll í Litlabæ átti Guðríði Jónsdóttur, þ. b.:
aa. Þorsteinn á Krossi í Lundarreykjadal átti Guðríði Ólafsdóttur, þ. d.: Guðríður, Ragnheiður.
bb. Gísli á Hellissandi átti Kristínu Björnsdóttur og börn.
cc. Þórður kvæntist ekki, átti launson Jón.
dd. Jón í Haukatungu átti Ingibjörgu Böðvarsdóttur og börn, þar á meðal var Jón í Haukatungu faðir Jóns, sem nú býr á Skiphyl og Oddný móðir séra Ingvars Nikulássonar á Skeggjastöðum.
ee. Sigurður í Rifi átti Kristínu Guðmundsdóttur og börn. Þessara barna Páls er stuttlega getið bls. 260.
b. Jón í Kvíslhöfða átti Guðrúnu Jónsdóttur á Hamri Aðalsteinssonar, þ. b.:
aa. Eyjólfur smiður í Kvíslhöfða átti Oddfríði Þorvaldsdóttur frá Þverholtum Sigurðssonar, þ. b.: a) Þorvaldur átti Guð-

bb. Rósa[1]).
cc. Sigríður[2]).
dd. Þorsteinn.
ee. Sigurður[3]).
ff. Sesselja.
gg. Guðbjörg[4]).

---

rúnu Bergþórsdóttur frá Lambastöðum Þorvaldssonar, þau systkinabörn (sjá bls. 344), b) Ármann, c) Guðrún.

bb. Guðrún átti Jón Sighvatsson eldra í Galtarholti og börn.

cc. Guðný átti Guðmund Guðmundsson á Smiðjuhólsveggjum og börn: Torfa, Guðna, Sigurð, Matthildi, Ólaf.

dd. Jón rokkasmiður í Galtarholti átti Sesselju Guðmundsdóttur og börn.

ee. Þórður.

ff. Guðrún yngri.

gg. Elizabet.

c. Dýrfinna átti fyr Bjarna Torfason á Hofsstöðum, þeirra synir: Steindór á Hamraendum og Bjarni.

S. k. Þórðar Pálssonar Guðrún Sæmundsdóttir frá Hafþórsstöðum Andréssonar, bl.

1) Rósa átti Jósep Jósepsson Árnasonar, þ. b.:

a. Þorsteinn átti Sesselju Jónsdóttur.

b. Þórunn átti Helga Jónsson á Helgavatni.

c. Jósep.

d. Jón.

e. Sigríður. Launson hennar með Þorbirni Ólafssyni gullsmið á Lundum (sbr. II, 713) var:

aa. Sigurður í Belgsdal átti Helgu Jónsdóttur prófasts í Hvammi Gíslasonar [sbr. II, 389, en þar er þessi Sigurður ranglega talinn son Þorbjarnar og Þorkötlu konu hans].

Laundóttir Rósu með Þórði Guðmundssyni frá Steðja Jónssonar prests á Torfastöðum Gíslasonar var:

a. Halldóra átti Gunnar Ólafsson frá Hreðavatni Gíslasonar, bl.

2) Sigríður átti Markús í Háteig á Akranesi, bl.

3) Sigurður í Hrepp í Skorradal átti Ólöfu Styrsdóttur Torfasonar, þ. b.:

a. Torfi sigldi, varð sjómaður.

b. Ragnhildur átti Vigfús Narfason á Akranesi, bl.

4) Snókdalín nefnir hana ekki meðal barna Páls og Halldóru og heldur ekki Þorstein eða Sesselju, en í þess stað tvær dætur:

I. Kristín og[1])
K. Margrét, tvíburar, fæddar 1683[2]).
L. Rannveig[3]) (al. Ragnhildur), f. 1689.
M. Torfi, f. 1692.
N. Halldóra, fædd 1683, öll barnlaus[4]).
O. Séra Páll á Tjörn[5]), launson Jóns sýslumanns, barnlaus.

Jón sonur Sigurðar lögmanns fæddist 1648, og var til mennta settur þá hann hafði aldur til, fyrst í heimaskóla og

hh. Herdís átti Ásgrím Guðmundsson á Tyrfingsstöðum, þ. b.:
aaa. Sigurður smiður á Smiðjuhóli átti Þóru Erlendsdóttur frá Geldingaholti Runólfssonar, þ. b.:
× Ólafur smiður átti Guðríði Jónsdóttur frá Garðhúsum í Vogum Þorkelssonar og börn.
× Ragnheiður.
× Sveinn.
× Ingibjörg.
× Ásgrímur.
× Þórunn.
ii. Þorbjörg. Laundóttir hennar með Hannesi nokkrum:
aaa. Guðrún átti Sigmund Jónsson á Kvígsstöðum í Andakíl, þ. b.: Sigmundur, Bárður, Þorsteinn.

1) Kristín dó ógipt og bl. eptir 1740.

2) Þetta mun ekki rétt hjá Boga. Séra Jón Halldórsson segir, að Margrét þessi hafi verið laundóttir Jóns sýslumanns með Vigdísi Jónsdóttur frá Grímsstöðum Marteinssonar, og hafi hún dáið í stóru bólu 1707, ógipt.

3) Rannveig dó ógipt bl. 1725 (Ættat. séra J. H.).

4) Ragnhildur, Torfi og Halldóra, börn Jóns sýslumanns, dóu öll barnlaus í bólunni 1707 að vitni séra Jóns Halldórssonar. Fæðingarár barna Jóns sýslumanns munu nokkuð sett af handahófi hér hjá Boga og sum bersýnilega röng.

5) Séra Páll dó 1706, nývígður prestur til Vesturhópshóla. Móðir hans hét Jóhanna Hallsdóttir (Ættat. séra J. H.).

síðan í Skálholtsskóla. Þá hann var í Skálholtsskóla veturinn 1668—69 var og í Skálholti fósturdóttir Brynjólfs biskups, en dóttir séra Torfa í Gaulverjabæ, að nafni Ragnheiður. Hún var fædd 1652, mannvænleg og glaðsinna; höfðu þau Jón mikinn ástarþokka fengið hvort til annars, og var ei trútt um, að þau legðust á hugi. Þá var og kirkjupresturinn í Skálholti, Loptur Jósepsson, sem vildi fá Ragnheiðar og meina Jóni ástar hennar. Svo bar til veturinn 1668—69, að flog nokkur og andvökur komu að Jóni, þá hann var í Skálholti (líkast af áhuga til Ragnheiðar etc.). Hugðu menn það væri af galdri, og eignuðu Lopti presti Jósepssyni og Skapta bróður hans. Höfðu þeir hótað Jóni nokkuð svo, og það sagði Jón, að prestur hefði fengið sér stafi nokkra við svefnleysi, en sér hefði heldur orðið við verra en betra. Kvaðst hafa látið þá í bók, og mundi Skapti þá frá sér tekið hafa, því hann hefði skilað sér bókinni; kvað og Skapta sett hafa 2 stafi á hálsband sitt. Þar um var haldin prestastefna, og átti Loptur að færa sig undan með tylftareiði. Það gat hann ei, var því grunaður um meðvitund, síðan settur af prestsskap, fór hann utan og var lengi í Danmörku og Holsetalandi, en kom seinna til Íslands og var í Skálholti. En um þessar mundir átti Ragnheiður barn og kenndi það Jóni frá Einarsnesi; fékk það Brynjólfi biskupi mikils, því hún bar nafn Ragnheiðar móður hans, var fríð sýnum og vel menntuð, 17 eða 18 ára að aldri. Vildi Jón fá hennar, en þess var enginn kostur hjá biskupi. Jón var þar eptir litla hríð hjá föður sínum, og fór síðan utan til meiri frama sér. Nálægt 1675 kom Jón út og var áhangandi föður sínum við sýslumannsverk, átti og um það leyti barn með skikkanlegri kvennpersónu.

Sigurður lögmaður útvegaði Jóni Mýrasýslu að veiting 1676, en Guðmundur bróðir Sigurðar tók þá Borgarfjarðarsýslu. 1676 fékk Jón Ragnheiðar sinnar, því biskup Brynjólfur hafði dáið árinu fyrir. Bjó Jón þar eptir í Einarsnesi og gerðist ágætur maður og vitur.

1676 lét Jón Sigurðsson dóm ganga að Hjarðarholti um kongs-kúgilda restans. Dómurinn kom til alþingis s. á., (er sá fyrsti, sem eg hef eptir hann séð), og sama ár þann 11. maí á Dýrastöðum í Norðurárdal um jörðina Dalsmynni.

Hvort Jón fékk Borgarfjarðarsýslu ásamt að veiting 1678 er ei fullvíst, en sýslumannsverk gerði hann þar það ár. Hitt er víst, að 1686 hafði Jón veiting fyrir öllu Þverárþingi, og er líkara, að Guðmundur föðurbróðir hans hafi verið lögsagnari Jóns sunnan Hvítár, en Jón hafi 1676 fengið allt Þverárþing. Má hver það um ætla, sem vill. Espólín fróði telur að Jón Sigurðsson hafi 1678 fengið sýslu fyrir sunnan Hvítá.

1679 var Jón í lögmannskjörum með Þorsteini Þorleifssyni og Magnúsi Jónssyni frá Reykhólum, er þá hlaut lögmannsembættið. Má þar af ráða, að hann hefur þá þótt með helztu sýslumönnum að lagavizku. Hann var og hafður við lagareglur, sem tilsettar voru í þá daga, svo sem 1684 og optar.

1704 sleppti Jón sýslumaður Borgarfjarðarsýslu sunnan Hvítár til Sigurðar sonar síns.

1712 missti Jón sýslumaður Ragnheiði konu sína, og bjó þar eptir ekkjumaður hniginn að aldri[1]).

1718 deyði Jón sýslumaður í Einarsnesi sjötugur að aldri (al. 69 ára)[2]), maður vel að sér og ágætur höfðingi á sinni tíð. Hann átti barn í skóla, þá hann var útskrifaður þaðan einn um tvítugt við Ragnheiði Torfadóttur, þá 17 eða 18 vetra, er síðar varð hans ektakvinna, og alls átti hann 3 launbörn. Var hann haldinn kvennamaður. Hann giptist átta um tvítugt Ragnheiði sinni, þá fjóra um tvítugt (1676) og hafði sýslur að veiting í tvö ár hins fimmta tugar. Lifði í hjónabandi í 36 ár. Var aldrei ásakaður fyrir embættisfærslu sína. Bjó í Einarsnesi 42 ár, og hafði ætíð nægtir í búi, þó ei

---

1) Á manntalsþingi á Lækjarbug í Hraunhrepp 19. apríl 1717 dæmdi Jón sýslumaður um framfæri Sigríðar Egilsdóttur og er Magnús Hrómundsson fyrrum sýslumaður (í Hnappadalssýslu) þar fyrstur dómsmanna. S. d. fer þar fram sætt nokkur millum hjónanna Þorsteins Hafliðasonar og Guðríðar Jónsdóttur og er Magnús einnig vottur við þann gerning. Þetta er tekið eptir bréfabók séra Jóns Halldórssonar í Hítardal í landskjalasafninu, og sést af því, að Magnús Hrómundsson er enn á lífi 1717 og virðist þá hafa átt heima í Mýrasýslu. Er þessa hér getið til frekari skýringar við það, sem sagt er á bls. 280—281 n.m. hér að framan.

2) 69 ára segir séra Jón Halldórsson. Hann andaðist í fardögum um vorið.

væri hann stórauðugur. Hann hélt metorðum og virðingu sinni til dauðadags.

Jóns sýslumanns mörgu dómaraverk læt eg hjá líða að ritfæra hér, þar nóg er vissa fyrir, nær hann tók eður sleppti sýslunni; meðal annars 18. aldar Eptirmæli og Árbækur Espólíns.

## Sigurður Jónsson.

*Faðir:* Jón sýslumaður Sigurðsson, nýnefndur.

*Móðir:* Ragnheiður Torfadóttir, nýnefnd.

*Kona:* Ólöf, (fædd 1686, dó 1778 á Setbergi, 92 ára), dóttir Jóns á Eyri Magnússonar sýslumanns á Eyri í Seyðisfirði Magnússonar sýslumanns í Haga Jónssonar sýslumanns eldra í Haga Magnússonar sýslumanns. Ólöf giptist fyr Hákoni syni séra Guðbrands í Vatnsfirði, voru þau saman mánuð, því Hákon deyði í stóru bólu 1707. Varð Ólöf þá ekkja einn um tvítugt; giptist aptur með kongsleyfi Sigurði sýslumanni 1709.

*Börn:* A. Séra Jón í Hvammi í Norðurárdal[1]) átti Kristínu, (dó 1785), dóttur Eggerts á Álptanesi Guðmundssonar sama staðar Sigurðssonar lögmanns, börn:
- a. Sigurður, (dó 1800), átti Kristínu dóttur séra Snorra, bl.[2]).
- b. Ragnheiður, átti séra Jón, (dó 1796), yngra á Gilsbakka Jónsson, börn[3]):
  - aa. Séra Jón.
  - bb. Halla.
  - cc. Kristín, öll gipt.

B. Ragnheiður Sigurðardóttir (dó 1796), átti séra

---

1) Séra Jón dó 2. ágúst 1780.

2) Sigurður dó í Kalmannstungu. Kristín Snorradóttir var f. k. hans og andaðist 22. marz 1789, en hin síðari var Guðrún Jónsdóttir frá Kalmannstungu Magnússonar Nikulássonar, bl.

3) Sbr. hér á undan bls. 483. S. m. Ragnheiðar séra Einar Guðbrandsson á Auðkúlu. Hun dó 1816.

Runólf, (dó 1747), kapellán á Setbergi Runólfsson (sjá hér að framan), börn:
a. Hólmfríður átti séra Erlend Hannesson[1], börn:
aa. Séra Runólfur á Læk.
bb. Vigfús dó í skóla, og fleiri.
b. Ingibjörg giptist ei, dó barnlaus.
c. Sigurður deyði í skóla, í bólu 1762.

C. Rannveig[2]) átti fyrst launbarn með Tómasi Guðmundssyni, svo annað með Guðlaugi stúdent Sveinssyni, þau giptust saman. Hann fékk uppreisn, varð prestur á Snæfjöllum 1756, á Kirkjubóli 1766, í Vatnsfirði 1780 og prófastur í Ísafjarðarsýslu norðurparti, dó 1807, börn:
a. Rannveig átti fyr Matthías stúdent á Eyri Þórðarson[3]), börn:
aa. Séra Jón[4]).

---

1) Séra Erlendur í Gufudal (÷ 12. des. 1813) var sonarson Vigfúsar sýslumanns Hannessonar (sjá Árnessýslu).

2) Rannveig var f. k. séra Guðlaugs, dó 13. maí 1794.

3) II, 127.

4) Séra Jón Matthíasson í Arnarbæli átti Ingibjörgu Pálsdóttur prests í Vestmanneyjum Magnússonar, þ. b.:
a. Matthías kaupmaður í Reykjavík átti Guðrúnu Steindórsdóttur (sbr. bls. 147).
b. Páll prestur í Arnarbæli átti Guðlaugu Þorsteinsdóttur frá Núpakoti Magnússonar, þ. b.:
aa. Jón Guðmundur verzlunarstjóri »Hlutaveltunnar« í Reykjavík, dó ókv. bl.
bb. Jens Ólafur Páll, prófastur í Görðum á Álptanesi, kvæntur Guðrúnu dóttur Péturs Gudjohnsens organleikara, bl.
cc. Ingibjörg kona séra Ólafs Ólafssonar í Hjarðarholti, eiga börn.
c. Kristján óðalsbóndi á Hliði á Álptanesi átti Elizabetu Vigfúsdóttur frá Núpstúni Þórðarsonar, þ. b.: Ragnheiður f. k. Jóns Tómassonar í Hjarðarholti í Stafholtstungum, Ingibjörg og María kona Halldórs Þórðarsonar bókbindara í Reykjavík. Launson

bb. Ólafur[1]).
cc. Rannveig, öll gipt[2]).

---

Kristjáns með Þuríði Þorbjörnsdóttur frá Yxnalæk Jónssonar hét Guðmundur.

d. Árni verzlunarmaður í Hafnarfirði átti Agnesi Steindórsdóttur (sbr. bls. 147).
e. Guðlaugur í Öxney á Breiðafirði átti Guðrúnu Grímsdóttur prófasts á Helgafelli Pálssonar, þau systkinabörn, þ. b.:
aa. Ingibjörg átti Jón Matthíasson í Gröf í Mosfellssveit, þau bræðrabörn.
bb. Solveig átti Runólf Þorstein Stefánsson aðstoðarprests í Viðvík Björnssonar, bl.

Allir synir séra Jóns í Arnarbæli kölluðu sig Matthiesen.

f. Guðrún átti launbarn áður en hún giptist með Hans Ásgrímssyni frá Króki í Ölfusi Stefánssonar og Sigríðar Hansdóttur Jónssonar prests í Selvogi Magnússonar, hét Grímur, átti svo Jón Jónsson silfursmið á Elliðavatni og var s. k. hans, þ. b.:
aa. Ingibjörg átti Jón snikkara í Rvík Þorkelsson Runólfssonar kaupmanns Klemenssonar og mörg börn. Fór allt til Ameríku. Synir þeirra eru Páll Clemens verkfræðingur og Jón Clemens, er varð prestur vestra.
bb. Kristrún giptist í Ameríku.
cc. Guðmundur snikkari var á Seyðisfirði, átti Önnu Stefánsdóttur aðstoðarprests í Viðvík Björnssonar, þ. d.: Stefanía Anna leikkona, gipt Borgþór Jósepssyni verzlunarmanni í Reykjavík.
dd. Jón.
ee. Jens dó ungur.
ff. Guðrún gipt í Ameríku.
gg. Sigríður gipt í Ameríku.

1) Ólafur á Hóli í Bolungarvík, drukknaði 1830, átti Helgu Jónsdóttur prófasts í Holti Asgeirssonar, þ. b.:
a. Arnfríður átti Ólaf Jónsson á Skjaldfönn.
b. Þorkatla átti Árna Eggertsson.
c. Rannveig átti Ásgeir á Kleifum Magnússon prests á Rafnseyri Þórðarsonar, þeirra son Magnús læknir, er var á Dýrafirði.

2) Rannveig átti Ásgeir prófast Jónsson í Holti í Önundarfirði, þeirra börn:
a. Jón prestur á Rafnseyri átti Guðrúnu Guðmundsdóttur frá Kúlu í Arnarfirði Arasonar og börn (sjá hér áður).

b. Helga átti Sveinbjörn snikkara Arnórsson[1]) Holt, börn:
aa. Séra Guðlaugur[2]).
bb. Rannveig.
cc. Helga.
dd. Elizabet.
c. Ólöf átti séra Sigurð Þorbjörnsson frá Lundum, börn:
aa. Guðlaugur.
bb. Þorbjörn.
cc. Sigurður.
dd. Rannveig.
ee. Sigríður[3]).
d. Sveinn dó utanlands á háskólanum[4]).

---

b. Þorkatla átti Vigfús í Breiðadal Eiríksson prests á Stað í Súgandafirði Vigfússonar (sjá hér áður bls. 440).
c. Matthías átti Kristínu Gunnlaugsdóttur prests á Hafsteinsstöðum Magnússonar.
d. Matthildur átti séra Magnús Þórðarson á Rafnseyri, þ. b: Ásgeir á Kleifum o. fl.
e. Magnús verzlunarmaður á Ísafirði átti Friðriku Steenbach frá Dýrafirði, systur Christense konu Árna sýslumanns Þorsteinssonar (bls. 241).
f. Halldóra átti fyr Guðmund skipherra Guðmundsson og síðar Guðmund smið Jónsson og börn með báðum.
g. Ásgeir skipherra á Ísafirði átti Mikkelínu Eyjólfsdóttur prests Kolbeinssonar, þ. b.: Jón og Anna María.

S. m. Rannveigar Guðlaugsdóttur var Kristján Guðmundsson dbrm. í Vigur († 21. okt. 1852) og var hún f. k. hans, þau bl.

1) Hann var launson Arnórs sýslumanns Jónssonar í Belgsholti (sjá hér síðar).

2) Séra Guðlaugur var síðast prestur í Hvammi í Norðurárdal, dó 1874. Sjá um börn hans og 1. k. hans Karítasar Þorbjarnardóttur II, 715. Önnur kona hans var Rannveig Guðmundsdóttir ekkja Guttorms Einarssonar á Moldbrekku, þau bl., en hin síðasta var Halldóra Jónasdóttir prófasts í Reykholti Jónssonar, og giptist hún honum blindum, bl.

3) Sjá um þessi börn séra Sigurðar Þorbjörnssonar og Ólafar II, 713—714.

4) Sveinn kallaði sig að auknefni Sander, útskrifaður úr Skál-

e. Jón dó á háskóla utanlands[1]).
f. Sigurður sýslumaður (sjá Snæfellsnessýslu).
D. Þóra Sigurðardóttir átti Vigfús prófast Erlendsson á Setbergi, barnlaus.
E. Páll brann inni í Hvítárvallabruna 1751, þá hann hafði mörgum hjálpað úr eldinum, og var þá enn að bjarga þeim, er inni voru. Páll tjáist að hafa verið mesti viðbrigðamaður; dimissus[2]).
F. Jón dimissus úr Hólaskóla[3]), varð úti á heimferð í kafaldsbyl á Bröttubrekku 1738, bl.

Sigurður sýslumaður er borinn í Einarsnesi 1679, lærði hér og fór utan til meiri lærdómsframa, kom út og gerðist aðstoðarmaður föður síns, sem afstóð við hann Borgarfjarðarsýslu 1704. Þorbjörg eldri Björnsdóttir, ekkja séra Árna á Setbergi, testamenteraði Sigurði sýslumanni allt sitt lausafé 1708, kongur staðfesti það 1710.

1709 giptist Sigurður Ólöfu, sem áður er sagt; setti hann bú saman á Hvítárvöllum. Hann fékk Hvítárvelli til eignar eptir þá bræður Ólaf og Sigurð Hinrikssyni, sem voru hjá honum vinnumenn, en drukknuðu í mannskaðaveðri með fleirum (sjá um börn Hinriks við Kjósarsýslu). Guðríður systir þeirra bræðra, sem átti Jón Jónsson Egilssonar, vildi hafa fengið Hvítárvelli, en orkaði því ekki, eg veit ei hvers vegna. Er það sögn, að téð Guðríður hafi farið kringum Hvítárvallabæ með mestu óbænum.

---

holtsskóla 1775, skrifaður í stúdentatölu við háskólann 19. febrúar 1777, las málfræði og tók próf í henni 29. apríl 1779 með 1. einkunn, en andaðist snögglega úr mislingum í janúar 1781, 22 ára gamall. Var fluggáfaður maður.

1) Jón var útskrifaður úr Skálholtsskóla 1782, en andaðist í Kaupmannahöfn úr mislingum í nóvember 1784, grafinn í Þrenningarkirkjugarði 23. nóv.

2) Páll var útskrifaður úr Skálholtsskóla 1747. Hefur verið 27 ára, er hann lézt.

3) Jón þessi mun ekki hafa verið stúdent, er hann varð úti, heldur í skóla (sbr. Árb. Esp. IX, 135). Í sumum ættatölum er hans ekki getið meðal barna Sigurðar sýslumanns.

Sigurður sýslumaður var framan af æfi sinni mikill uppgangsmaður og gerðist auðugur. Sagði hann af sér sýslunni 1740, þar honum þótti hún að inntektum ekki ómaksins verð, en hafði þó nokkrar kongsjarðir í léni. Bjó hann þannig með velmegun á Hvítárvöllum embættislaus.

Svo bar við nóttu fyrir þorra 1751, að (af tóbakspípueldi) brann bær hans á Hvítárvöllum með miklum auðæfum og 7 mönnum, þar á meðal Páli syni hans. Var þetta af hjátrúarfullum mönnum eignað óbænum áðurnefndrar Guðríðar. Veturinn eptir brennuna var Sigurður með Ólöfu konu sinni og Rannveigu dóttur sinni á Leirá hjá þáverandi lögmanni Magnúsi Gíslasyni til þess bæjarhús á Hvítárvöllum voru uppbyggð. Bjó hann þar eptir á Hvítárvöllum um hríð, hnignaði þá velmegun hans og tók sjálfur fast að eldast. Er og mælt, að hann hafi eptir brennuna aldrei orðið samur maður að sálarstyrkleik; hafi hann mest sett fyrir sig missi Páls sonar síns, sem hafði fyrst bjargað sér og móður sinni úr eldinum, og síðan við mannbjörgun hætt sér um of, því hann fannst eptir brunann á vegi til bæjardyra með sitt ungmenni undir hvorri hendi. Lasburða og háaldraður hætti hann búskap og flutti með konu sinni að Setbergi í Eyrarsveit til séra Vigfúsar og Þóru dóttur sinnar, hvar hann deyði 1761, þá hann hafði þrjá vetur hins níunda tugar. En Ólöf kona hans lifði til 1778, þá hafði hún tvo vetur hins tíunda tugar; þau bæði eru jörðuð norðan til við altari í Setbergskirkju, og yfir þau lagður marmaralegsteinn. Sigurður sýslumaður tjáist að hafa verið mannborlegur maður, mikilmenni að kröptum og áliti, og að mörgu valmenni.

Þess er hér að geta, þótt lítt sé merkilegt, að um og eptir 1730 var orðfleygt, að draugur gengi um á Hvítárvöllum og spillti þar öllu. Var það kölluð Hvítárvallaskotta. Er líkast að þetta hafi verið slunginn maður, sem annaðhvort af óvild eða keskni hefur þar til útgert sig. En orð þar um varð því meira, sem lengra dró frá, og sýnir það óvizku-þenkingarhátt alþýðu svo seint á öldum, sem enn er ekki alstaðar útdauður. Það bætti og til, að fáeinir afkomendur Sigurðar sýslumanns fengu snert af niðurfallssótt, sem alþýða eignaði lengi fjölkyngi.

## Arnór Jónsson.

*Faðir:* Jón í Ljáskógum; lögréttumaður gerðist hann 1708 og lögsagnari P. Vídalíns 1718 til þess Jón deyði 1726. Hann var sonur Arnórs Ásgeirssonar (sjá um hann við Dalasýslu).

*Móðir:* Guðrún Sveinbjarnardóttir (sjá Dalasýslu).

*Kona:* Steinunn, (dó 1784, al. 1786), dóttir séra Jóns í Hjarðarholti Þórarinssonar prests á Hrafnagili Jónssonar í Hafrafellstungu.

*Börn:* A. Jón Snæfellsnessýslumaður (sjá þar).
B. Jón sýslumaður á Ísafirði (sjá þar).
C. Sveinbjörn Holt snikkari (sjá hér fyrir framan).
D. Steinunn[1]) átti Árna biskup Þórarinsson, börn:
a. Séra Magnús, (fæddur 1772), í Steinnesi átti Önnu dóttur séra Þorsteins í Stærraárskógi og dætur margar[2]).

---

1) Steinunn dó 7. nóvember 1799.

2) Dætur séra Magnúsar og Önnu voru:

a. Guðríður átti fyr Georg Pétur Hjaltested á Helgavatni í Vatnsdal, son Einars Ásmundssonar Hjaltesteds og Guðrúnar Runólfsdóttur á Þingeyrum, þ. b.: a) Björn járnsmiður í Reykjavík, faðir séra Bjarna Hjaltesteds og Georgs Péturs Hjaltesteds stjórnarráðsritara og Sigríðar konu Pálma Pálssonar kennara. b) Ólafur faðir Guðríðar, er fyr átti Þorvarð Andrésson Kjerúlf lækni, en síðar séra Magnús Blöndal Jónsson í Vallanesi. c) Einar söðlasmiður átti Önnu Guðmundsdóttur Gunnlaugssonar í Breiðholti Brynjólfssonar, þ. b.: Pétur Hjaltested úrsmiður o. fl. d) Magnús gullsmiður átti Valgerði Jónsdóttur og börn. e) Guðríður s. k. séra Gunnars Ólafssonar í Höfða. f) Guðrún átti séra Guðmund Einarsson Johnsen í Arnarbæli og fjölda barna. g) Sigurlaug átti fyr Guðmund Guðmundsson á Ingunnarstöðum, en síðar Jón Pétursson Ottesen í Hrísakoti. h) Anna átti Gunnar Gunnarsson prests í Höfða Ólafssonar. i) Margrét f. k. Stefáns Ólafssonar Thorarensens í Lönguhlíð.

S. m. Guðríðar Magnúsdóttur Einar Guðmundsson á Læk í Melasveit, þ. d.: Kristín átti séra Jóhann Þorkelsson dómkirkjuprest, þ. b.: Guðmundur stúdent í Ameríku, Vernharður stud. med. við háskólann, Þuríður, Guðríður, Jóhann.

b. Helga átti fyr Björn Kortsson á Möðruvöllum í Kjós, þ. b.: Jónas prestur í Sauðlauksdal, Anna s. k. Ólafs hreppstjóra Guð-

b. Séra Páll á Felli í Skagafirði tvígiptur, átti og nokkur börn[1]).

---

mundssonar í Mýrarhúsum, Kristrún átti Jóhannes Jónsson á Hóli í Lundarreykjadal, Lárus á Kongsbakka o. fl.

S. m. Helgu Jón Einarsson á Hóli í Lundarreykjadal.

c. Sigríður og
d. Margrét, er séra Jón Halldórsson í Stórholti átti hvora eptir aðra. Dóttir hans og Sigríðar f. k. hans var Jakobína, er átti séra Jón Bjarnason Thorarensen í Stórholti, en með s. k. Margréti voru börn hans: Theódór, Steinunn og Sigríður, er átti Stefán á Brandagili Ólafsson prófasts á Melstað Pálssonar.
e. Þórdís átti Einar Skúlason stúdents á Stóruborg Þórðarsonar, þ. b.: Skúli Lárus, Jóhann, Þórður, Ásta, Margrét og Anna, er átti Eggert á Kleifum Jónsson Ormssonar.
f. Rannveig.
g. Anna.
h. Þórarinn.
i. Jakob, dóu öll bl.

1) Séra Páll var þríkvæntur, átti fyrst Helgu Finnsdóttur Arnórssonar, bl., svo Þórdísi Stefánsdóttur prests Schevings í Presthólum Lárussonar (I, 259), þ. b.:

a. Jóhann á Syðri-Bægisá átti Katrínu Tómasdóttur, þ. b.: a) Árni prestur í Glæsibæ. b) Tómas á Hallgilsstöðum. c) Þórdís átti Jónas Gunnlaugsson dbrm. á Þrastarhóli. d) Páll á Bakka. f) Jóhann.
b. Árni í Syðraholti í Svarfaðardal átti fyr Sigurbjörgu Þórðardóttur frá Kjarna Pálssonar, þ. b.: a) Páll í Fljótum. b) Þórdís átti Þorlák á Hvarfi Björnsson í Fornhaga Þorlákssonar. c) Anna átti Friðbjörn Björnsson bróður hans. d) Guðrún átti Tómas Jóhannsson á Hallgilsstöðum, þau bræðrabörn. e) Árni. S. k. Árna Pálssonar Rósa Sveinsdóttir frá Hofi í Svarfaðardal Björnssonar Egilssonar prests í Stærraárskógi Þórarinssonar, þ. b.: f) Elín.
c. Helga Steinunn átti Friðfinn Þorláksson dannebrogsmanns í Skriðu Hallgrímssonar, þ. b.: a) Páll á Féeggstöðum og b) Steinunn kona Jóns Jónssonar í Skriðu.
d. Anna átti Magnús á Kjarna Jónsson frá Stórholti í Fljótum Ólafssonar, þeirra son Páll á Kjarna (Ameríku-Páll).
e. Sigríður átti fyr Jóhannes Ásmundsson á Þríhyrningi, þ. b.: a) Jón. b) Pálína. c) Jón Vilmann Friðfinnur kaupm. í Winnipeg,

c. Séra Arnór kapellán til Bólstaðarhlíðar etc., átti dóttur séra Björns í Bólstaðarhlíð og börn[1]).
d. Jóhann konrektor átti Þóru[2]) og börn.
e. Guðmundur[3]).
f. Þórarinn[4]).
g. Ástríður.
h. Rannveig[5]).

---

nefnist mr. Finney. S. m. Sigríðar Bergur Bergsson á Rauðalæk, þ. b.: Páll realstudent, fór til Ameríku, kom aptur 1908.
f. Þorbjörg var 1. kona Kristjáns Jónssonar Kjærnesteds á Vindheimum á Þelamörk, þ. b.: Þorlákur, Friðfinnur, Páll, Elín, Jón og Þórdís, er átti mr. Finney í Winnipeg, þau systrabörn. Síðasta kona séra Páls Árnasonar var Guðrún Hrólfsdóttir frá Íbishóli Þorsteinssonar, þau bl.

1) Börn séra Arnórs og Margrétar:
a. Björn prestur í Garði í Kelduhverfi átti Helgu Eiríksdóttur prests á Staðarbakka Bjarnasonar, þ. b.: Arnór á Narfastöðum o. fl.
b. Þorgrímur prestur í Þingmúla átti Guðríði Pétursdóttur í Engey Guðmundssonar (sbr. bls. 235) og börn.
c. Arnór gullsmiður á Gauksmýri. Hans son Elíeser faðir Jóseps á Signýjarstöðum í Hálsasveit.
d. Guðmundur á Skúfi átti Sæbjörgu Jónsdóttur prests í Vesturhópshólum Mikaelssonar.
e. Margrét átti Svein Tómasson á Reykjum.
f. Ingibjörg átti fyr Jóhannes Guðmundsson frá Móbergi, síðar Helga Benediktsson á Svínavatni.
g. Steinunn átti Árna Sigurðsson á Reykjum.
h. Jón á Blöndubakka.
i. Árni dó ókv., bl.

2) Jóhann var um tíma settur kennari við Reykjavíkurskóla, dó 24. marz 1804, átti Þóru Jónsdóttur prests Hannessonar, þau systrabörn, bl.

3) Guðmundur var stúdent, dó í Kaupmannahöfn 13. september 1800 26 ára gamall.

4) Þórarinn dó úr bólu í Gaulverjabæ 20. febr. 1786 11 ára.

5) Ástríður og Rannveig dóu báðar ungar. Ennfremur var eitt barna Árna biskups og Steinunnar:

i. Þórður dó í bólunni 1786 13 ára.

E. Sigríður átti séra Jón Hannesson, börn:
a. Séra Arnór í Vatnsfirði á Sigríði Sveinsdóttur, barn:
aa. Séra Hannes þar kapellán á Þórunni Jónsdóttur og börn[1]).
b. Séra Auðunn (dáinn) átti Sigríði[2]) og börn.

---

1) Um séra Hannes og börn hans sbr. II, 388.

S. k. séra Arnórs var Guðrún Magnúsdóttir, systir samfeðra séra Finnboga Rúts (sbr. bls. 209), þar sem þau séra Arnór og Guðrún eru talin barnlaus, en þau áttu tvö börn. Magnús son þeirra var á Ísafirði.

2) Sigríður var dóttir Magnúsar á Indriðastöðum Árnasonar á Grund í Skorradal Sigurðssonar Árnasonar lögmanns Oddssonar.

Börn séra Auðunnar og Sigríðar:

a. Jón bjó á Eyri í Ísafirði vestra, knár maður og harðger, dó 1866, átti Kristínu Runólfsdóttur prests á Brjánslæk Erlendssonar, þ. b.:
aa. Auðunn, dó um tvítugt.
bb. Baldvin.
cc. Sigríður.
dd. Guðrún.
ee. Runólfur í Heydal.

b. Vigdís átti Vigfús á Grund í Skorradal Gunnarsson frá Hvammi á Landi Einarssonar, þ. b.:
aa. Auðunn á Varmalæk átti Vilborgu Jónsdóttur frá Gullberastöðum Þórðarsonar, þ. b. mörg, þar á meðal Guðmundur á Skálpastöðum og Jón á Marbakka á Akranesi.
bb. Gunnar á Hamri í Borgarhrepp. Son hans:
aaa. Jón verzlunarstjóri í Hafnarfirði kvæntur Soffíu Þorkelsdóttur prests á Reynivöllum Bjarnasonar.
cc. Magnús á Miðseli við Reykjavík kvæntur Guðrúnu Jónsdóttur frá Hlíðarhúsum Þórðarsonar (sbr. bls. 278) og mörg börn.
dd. Árni á Heimaskaga á Akranesi. Son hans Jón skipstjóri.
ee. Bergsteinn á Torfastöðum í Fljótshlíð átti mörg börn. Ein dóttir hans er Kristín s. k. Jóns bónda Sigurðssonar á Búrfelli í Grímsnesi.
ff. Kristín átti Pétur Þorsteinsson á Grund í Skorradal, þ. b.: Bjarni á Grund, Þorsteinn á Miðfossum, Vigfús á Gullberastöðum o. fl.

c. Steinunn átti Ingjald Þorkelsson[1]) og barn:
aa. Séra Jón[2]).
d. Þóra átti fyr Jóhann Árnason biskups og börn, síðar Árna stúdent Davíðsson[3]).
F. Ingibjörg Arnórsdóttir.

---

gg. Sigríður átti Vigfús Höskuldsson á Mosfelli í Húnavatnssýslu og börn.
c. Guðrún átti Ólaf á Núpi í Fljótshlíð Einarsson stúdents í Skógum Högnasonar, þ. b.: Högni, Auðunn, Helga, Ragnhildur, Gróa.
d. Sigríður átti Einar Ísleifsson á Seljalandi, þ. b.: Bergsteinn á Tjörnum, Auðunn, Arnór, Una, Einar.
e. Þóra s. k. séra Þórðar Árnasonar á Mosfelli í Mosfellssveit, þ. d.:
aa. Sesselja kona séra Þorleifs Jónssonar á Skinnastöðum, þ. b.: Þóra gipt Grönfeldt mjólkurskólastjóra á Hvítárvöllum, Svafa og Jón.
f. Gróa átti Stein Steinsson í Bakkakoti á Bakkabæjum, bróður Torfa söðlasmiðs, þ. b.: Steinn í Bakkakoti.
g. Steinunn átti Jón í Eyvindarmúla Þórðarson s. st. Jónssonar fálkafangara Ísleikssonar, áttu mörg börn, þar á meðal: Halldór fór til Ameríku, Auðunn bóndi í Eyvindarmúla og Bergsteinn söðlasmiður á Eyrarbakka († 1894) átti Þórdísi yfirsetukonu Símonardóttur frá Kvígstöðum í Andakíl Sigurðssonar.

1) Ingjaldur var son Þorkels í Þerney Sigurðssonar á Búðarhóli í Landeyjum Þorkelssonar Þorgautssonar.

2) Séra Jón var síðast prestur í Húsavík og dó þar 12. október 1876 76 ára gamall (f. 7. jan. 1800), átti fyr Gunnhildi Teitsdóttur klæðavefara í Reykjavík Sveinssonar, bl., síðar Sigríði Þorbergsdóttur, bl.

Önnur börn Ingjalds og Steinunnar:
bb. Sigríður átti Jónas Einarsson í Saltvík, þ. b.: Einar í Vilpu og Ingjaldur.
cc. Brynjólfur.
dd. Hannes.
ee. Þorkell.

3) Börn Árna stúdents og Þóru:
a. Jóhann sýslumaður í Þingeyjarsýslu (I, 131—132).
b. Arnór sýslumaður í Húnavatnssýslu (I, 132—133, 634).
c. Hannes kennari við prestaskólann († 1. des. 1879) kvæntur danskri konu, bl.

G. Finnur Arnórsson[1]) átti Helgu Hannesdóttur frá Hólmi (sjá hér að framan).

H. Þórður stúdent[2]).

Arnór var ekki latínulærður, en skýr maður og gerðist í æsku handskrifari Páls lögmanns Vídalíns. 1727 næsta vor eptir dauða Jóns Vídalíns sendi Páll Vídalín skrifara sinn Arnór að reka Vaðlasýslu. Hjá P. Vídalín var Arnór 3 eða 4 ár. Eptir andlát Páls Vídalíns fór Arnór vestur í Dalasýslu og giptist nokkru þar eptir, gerðist og lögréttumaður í Dalasýslu 1737. Arnór bjó fyr á Dunk í Hörðudal, svo á Bæ í Dölum í 4 ár til þess hann fékk Borgarfjarðarsýslu.

1740 var Arnór settur sýslumaður í Þverárþingi sunnan Hvítár, en fékk veiting fullkomna árið eptir 23. febr. 1741, flutti hann þá að Belgsholti og bjó þar meðan lifði. Hann sagði af sér Borgarfjarðarsýslu 1756[3]) og var þar eptir embættislaus til þess hann deyði háaldraður 1785 (al 1786)[4]).

Arnór var smár vexti, kviklegur á fæti og í viðmóti, vel gáfaður, bezti búhöldur. Hann lét 2 syni sína læra og fara utan, þann þriðja lét hann læra handverk ytra. Steinunni dóttur sinni kom hann til frú Sigríðar Magnúsdóttur til að læra hannyrðir og siðgæði; dvaldi hún í þeirra höfðingshjóna húsum 9 vetur, til þess hún á 33. ári aldurs síns

---

d. Sigríður dó ógipt í Reykjavík 30. október 1900.

Árni stúdent Davíðsson í Belgsholti faðir þessara systkina drukknaði við Akranes 20. apríl 1816. Þóra ekkja hans giptist í 3. sinn Birni Teitssyni í Belgsholti.

1) Finnur var launson Arnórs sýslumanns. Dóttir hans og Helgu Hannesdóttur Hákonarsonar var:

a. Helga 1. kona séra Páls Árnasonar á Bægisá, þau systkinabörn, bl., (sjá hér áður).

2) Þórður var skilgetinn son Arnórs sýslumanns. Hann var útskrifaður úr Skálholtsskóla 1755, en andaðist á Bessastöðum í apríl 1761 og var þá við læknfræðinám hjá Bjarna landlækni Pálssyni.

3) 1758 fékk hann 10 ríkisdali árlega í eptirlaun, og með kgs.úrsk. 29. apríl 1766 6 rd. í viðbót, alls 16 dali.

4) Hann andaðist 12. júní 1785 84 ára »með góðri sjón og heyrn, minnugur og skarpur maður« segir í prestþjónustubók Melaprestakalls (Landskjalasafnið).

giptist á Bessastöðum þáverandi presti til Seltjarnarnesþinga, er síðar varð Hólabiskup, séra Árna Þórarinssyni. (Steinunn fæddist 1737, giptist 1770, varð ekkja 1787, deyði 1799). Arnór tók og Árna Þórarinsson til menningar, er síðar varð Hólabiskup og hans dótturmaður, og fleira merkilegt lá eptir Arnór sýslumann.

## Jón Eggertsson.

*Faðir:* Eggert, (dó 1767), bóndi á Álptanesi, sonur Guðmundar sama staðar Sigurðssonar lögmanns í Einarsnesi Jónssonar sýslumanns sama staðar.

*Móðir:* Ragnheiður dóttir Jóns sýslumanns í Einarsnesi Sigurðssonar lögmanns, (voru þau Eggert bræðrabörn).

*Kona fyrri:* Guðrún dóttir Brynjólfs sýslumanns í Árnesþingi Sigurðssonar sýslumanns, dó barnlaus af barnsförum.

*Kona seinni:* Þuríður dóttir séra Ásmundar á Breiðabólsstað á Skógarströnd Jónssonar prests sama staðar Jónssonar bónda Jónssonar silfursmiðs á Narfeyri Árnasonar bónda sama staðar Sigurðssonar á Narfeyri Narfasonar Þorvaldssonar. Þau giptust 20. okt. 1774. Þuríður dó 4. júní 1817 74 ára[1]).

*Börn:* A. Jón lektor á Bessastöðum er fæddur á Hvítárvöllum þann 31. janúar 1777, dimitteraðist 1796 og varð þá skrifari hjá stjúpföður sínum, Markúsi prófasti Magnússyni í Görðum á Álptanesi, sem þá var í biskupsstað. 1797 fór hann utan, en skipið fékk langa hrakferð og komst ei til Kaupmannahafnar fyr en á jólaföstu. 1798 tók hann examen artium. 1803 í júlí tók hann attestas (öll examen með laudabili titli) og fór sama haust með póstskipi til Íslands, en komst ei þangað fyr en 12. marz 1804, (því póstskipi hlekktist á og lá í Noregi til aðgerðar). Veturinn eptir var hann í Görðum og kenndi nokkrum skólapilt-

1) S. m. hennar var Markús stiptprófastur Magnússon í Görðum, bl.

um, en dimitteraði nokkra. 1805 í október var hann constitueraður adjunctus af stiptamtmanni og biskupi við Bessastaðaskóla og árið eptir settur af skóladirectioninni.

Um þetta leyti gipti hann sig jómfrú Karítasi dóttur séra Illhuga Jónssonar á Kirkjubóli í Langadal og Sigríðar dóttur Magnúsar prófasts í Vatnsfirði Teitssonar prests á Eyri í Skutulsfirði. 1810 var hann constitueraður lektor (eptir þeirrar tíðar venju, því þá voru flestir, einkum verzlegir embættismenn, constitueraðir). 1815 var hann gerður virkilegur lektor og því embætti þjónaði hann í sífellu. Hann varð að sönnu mjög sjúkur um 1840, og lá lengi, réttist þó við og efaði um, að hann gæti þénað embætti sínu, sagði því þá af sér, en sama ár fékk hann heilsubót, svo hann sótti aptur um embættið og fékk sér það veitt. Einnig fékk hann þá dannebrogsriddaranafnbót, hélt svo áfram sínu lektorsembætti til þess skólanum á Bessastöðum var upp sagt vorið 1845, þá hann hafði fengið eptir beiðni lausn frá því. Kvaddi hann með ræðu sinni kennendur og skólans lærisveina. En þá kammerherra og stiptamtmaður Hoppe, einnig kammerherra og stiptamtmaður Bardenfleth það frétti, heimsóttu þeir lektor og báðu hann við vera næstkomandi vetur 1845 og 1846, hvað hann fyrir bón þeirra gerði.

Lektor hafði í fyrstu til launa og lengi fram eptir 500 rd., en fékk síðar 300 rd. viðbót, svo laun hans urðu 800 rd. Árið 1845 hefur lektor verið við sitt embætti í 40 ár, og dimitterað mikið á þriðja hundrað skólapilta. 1846 hélt hann sama áfram til fardaga. Lektor Johnsen fór þá til sonar síns séra Ásmundar prests í Reykjavík. Hann er hálærður og

góðmenni mikið, og lifir af pensíon sinni 800 rd.[1]). Börn (Jóns og Karítasar):

a. Ásmundur varð prestur í Odda á Rangárvöllum, síðan í Reykjavík[2]).
b. Markús varð prestur í Holti undir Eyjafjöllum, svo í Odda. Báðir þeir bræður voru attestati, og giptir dætrum Þorgríms skólahaldara og gullsmiðs á Bessastöðum, eiga börn[3]).
c. Markús dó barn.

B. Jens dó utanlands við Kaupmannahafnarháskóla 1810[4]).

---

1) Jón lektor andaðist í Odda hjá séra Ásmundi syni sínum 14. júní 1860. Karítas kona hans var fædd 5. september 1764, en andaðist 10. júní 1837.

2) Ásmundur prófastur í Odda dó 18. marz 1880. Hann átti Guðrúnu († 14. jan. 1860) Þorgrímsdóttur gullsmiðs á Bessastöðum Tómassonar, systur dr. Gríms Thomsens, þ. b.:

a. Þorgrímur fyrverandi héraðslæknir á Akureyri, nú til heimilis í Reykjavík, kvæntur Soffíu Geirþrúði Katrínu Havsteen, systur Júlíusar Havsteens amtmanns og þeirra systkina, bl.
b. Jón sýslumaður á Eskifirði (sjá Suðurmúlasýslu).
c. Þóra átti Guðmund prófast Helgason í Reykholti, þ. b.: Guðrún, Laufey, Ásmundur, Helgi.
d. Þuríður dó ógipt, bl.
e. Ingibjörg ógipt.
f. Jens dó ungur.
g. Markús lyfsali á Seyðisfirði, fórst þar í snjóflóði 18. febrúar 1885, ókv. bl.

3) Séra Markús í Odda dó 30. júní 1853, átti Kristínu Þorgrímsdóttur († 19. ágúst 1871) systur Guðrúnar konu bróður hans, þeirra einkadóttir:

a. Karítas átti séra Ísleif Gíslason í Arnarbæli († 1892), þ. b.: Gísli sýslumaður í Húnavatnssýslu, Kristín átti séra Ólaf Helgason á Stóra-Hrauni, Ingibjörg kona Ólafs Finsens héraðslæknis á Akranesi, Guðrún kona Sigurðar Briem póstmeistara (sbr. bls. 249), Sigrún kona Björns Ólafssonar augnlæknis í Reykjavík, Jórunn og Ása, dóu uppkomnar og Markús dó ungur.

4) Réttara 1809 í júlímánuði, var þá í lífverði konungs. Hann

C. Þorbjörg.

D. Ásmundur, dóu börn.

Jón Eggertsson[1]) lærði utan og innan lands. Var 1753—4 settur sýslumaður í Dalasýslu, unz Magnús sýslumaður Ketilsson tók þar við. 1756 var Jón Eggertsson settur sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu, þá Arnór sýslumaður sleppti henni. 1757 dag 8. marz fékk hann kongsveiting fyrir sýslunni. Jón Eggertsson bjó fyrst í Höfn í Melasveit, svo á Hvítárvöllum og hafði fjárnægtir. Hann hélt sýslunni í 28 ár til þess hann deyði 1784. Jón var haldinn mætur maður í mörgu og allvel að sér í lagavísindum, var þó opt við málaferli. Varð 63 ára gamall.

Þuríður ekkja hans giptist seinna Markúsi prófasti í Görðum á Álptanesi Magnússyni, bl. Með sínum fyrra manni átti Þuríður 4 börn, hvar af tvö deyðu ung. Honum giptist hún 1774 þann 20. október, lifðu þau saman í 10 ár, þar til hann deyði 1784[2]); keypti hún þá Bæ í Borgarfirði, flutti þangað og bjó þar til þess hún giptist séra Markúsi í Görðum 1787 þann 14. júní. Hún var fædd á Breiðabólsstað á Skógarströnd þann 6. ágúst 1743, en deyði í Görðum á Álptanesi þann 4. júní 1817 ekki fullra 74 ára.

Það finnst ritað, að Jón sýslum. Eggertss. hafi fyrst ætlað að eiga Ingveldi Björnsdóttur, systur Magnúsar gullsmiðs í Gilhaga, en hún deyði áður af tvíbura barnsförum; þar eptir fékk hann Guðrúnar (sjá hér að framan), þeirra börn dóu ung. Hún testamenteraði honum sína fjármuni. Jón var fæddur 1721.

---

var skrifaður í stúdentatölu við háskólann 10. maí 1800 með 1. einkunn.

1) Jón sýslumaður var fæddur á Álptanesi á Mýrum um 1722, og útskrifaður úr heimaskóla. Mælt er, að hann hafi tekið próf í lögum við háskólann, þótt ekki sé þess getið í Lögfræðingatali M. Stephensens. En heimildir fyrir því skortir. Hann finnst ekki innritaður í stúdentatölu við háskólann í afskript Jóns Sigurðssonar Lbs. 536 4to.

2) Jón sýslumaður andaðist nóttina milli 26. og 27. desember (1784) úr »blóðgangi« segir í prestsþjónustubók Hvanneyrar- og Bæjarsókna (Landskjalasafnið). Er hann þá talinn sextugur að aldri og ætti eptir því að vera fæddur um 1724, en réttara mun 1721—22. Var jarðsunginn 2. janúar 1785.

## Guðmundur Ketilsson.

(Sjá um hann við Mýrasýslu). Þá Jón sýslumaður Eggertsson deyði 1784 var Guðmundur hér settur sýslumaður til þess Sigurður við tók 1786; aptur var Guðmundur settur eptir dauða Þórarins sýslumanns Liljendals um hríð 1793 til þess Finnur Jónsson við tók 1794. 1778 fékk Guðmundur sér veitta Mýrasýslu og 1787 tillagðist Hnappadalssýsla Mýrasýslu. Fékk lausn frá embætti með pensíon 1806, deyði þann 30. nóvember 1809.

## Sigurður Sigurðsson.

*Faðir:* Séra Sigurður í Flatey 45 ár[1]), son Sigurðar lögsagnara í Barðastrandarsýslu (sjá þar).

*Móðir:* Guðrún Tómasdóttir Jónssonar Finnssonar í Flatey.

*Kona:* Ásta[2]) dóttir séra Sigurðar í Holti í Önundarfirði[3]) Sigurðssonar prests sama staðar Jónssonar prests í Vatnsfirði Arasonar sýslumanns Magnússonar sýslumanns.

*Börn:* A. Séra Tómas[4]) í Garpsdal átti Guðrúnu dóttur

---

1) Séra Sigurður dó 29. september 1753.

2) Ásta dó í Vestmanneyjum 11. marz 1770, að því er séra Tómas son hennar segir í æfiágripi sínu (aptan við prestsþjónustubók Holts í Önundarfirði), en sé hann fæddur 14. maí 1768, sem líklega er rétt, hefur hann verið á 2. en ekki 3. ári, eins og hann segir, er hann missti móður sína, nema hann rangminni um árið, og hún hafi andazt 11. marz 1771, (en ekki 1770). Hér verður ekkert haft til samanburðar, því að aldur Elínar dóttur Sigurðar sýslumanns og Ástu, er talin er 27 ára, er hún andaðist (1797) virðist fremur benda á, að Ásta hafi ekki andazt fyr en 1771, en á þessari aldursákvörðun er auðvitað lítið að byggja, því að samkvæmt henni getur Elín hafa verið fædd síðla árs 1769 eða snemma árs 1770 og móðir hennar látizt litlu síðar það ár.

3) Séra Sigurður í Holti dó 21. janúar 1761 (ekki 1760, eins og segir í Prestatali Sveins Níelssonar).

4) Séra Tómas var fæddur 14. maí 1768 á Oddsstöðum í Vestmanneyjum, að því er hann sjálfur segir. Fór 1784 til séra Þorvalds Böðvarssonar á Flókastöðum í Fljótshlíð til lærdóms og

séra Sigurðar á Ökrum sonar séra Jóns í Hítarnesi Högnasonar, börn:
a. Sigurður stúdent, prestur lengi í Grímsey[1]).

---

fermdi Þorvaldur hann. Fluttist 1785 með föður sínum að Hvanneyri, og lærði fyrst latínu hjá séra Arngrími á Melum og síðan hjá séra Sigurði Jónssyni á Ökrum. Útskrifaður 1796 af Hannesi biskupi Finnssyni eptir 5 ára skólaveru, og var vígður 2. sd. e. trin. 1797 af Markúsi stiptpróf. Magnússyni aðstoðarprestur séra Sigurðar á Ökrum. 17. júní 1799 giptist hann Guðrúnu dóttur séra Sigurðar og 21. ágúst s. á. andaðist faðir hennar. Bjó Tómas síðan brauðlaus 7 ár í Einholtum í Mýrasýslu og 2 ár á Hrísum í Helgafellssveit, þar til hann varð 1807 aðstoðarprestur séra Þorkels Guðnasonar í Múla á Skálmarnesi og bjó í Flatey. Fékk Flateyjarprestakall 10. jan. 1809, Garpsdal 3. maí 1823, Holt í Önundarfirði 23. apríl 1836, sagði af sér brauðinu 1848, og andaðist 13. okt. 1849, en ekkja hans dó 28. ágúst 1851 hjá séra Lárusi Johnsen eptirmanni hans. — Gísli Konráðsson lýsir séra Tómasi á þessa leið: »Hann var með stærstu mönnum á vöxt, herðamikill og hraustmenni, dökkleitur á hár og ærið brúnamikill, dökkeygur og holmikill í máli og rómi. Lærdómsmaður þótti hann enginn, en sagnfróður í landsins sögu, því hann las helzt sögubækur; gekk honum treglega allur skólalærdómur, en alúðarsamur var hann í embættisverkum mörgum og þótti alþýðu hann sæmilegur kennari. Hann var fram yfir sjötugs aldur ölkær mjög og þótti þá svaðamenni«.

Daði fróði lýsir séra Tómasi þannig (í prestaæfum sínum):

»Hann er mikill maður vexti og útlimastór, mikilleitur og stórfallinn í andliti, ramur að afli, háraddaður og digur í málrómi, hefur mikið hár jarpt, er gestrisinn og góðgerðasamur, skrifari góður, óstilltur í skapi og lítt prúður í hegðan, heldur drykkjugjarn og bakmáll, prédikari allgóður, þegar á því vill taka, hefur optast átt erfitt í búi; það sem nöglinni ræður er brotið framan af vísifingri hans á vinstri hendi og barst það svo að: hestur hans var bundinn við stein og fældist snögglega; prestur ætlaði að leysa hann frá steininum, en hesturinn rykkti í tauminn og marði taumurinn framan af fingrinum við steininn. Prestur sló högg eitt á vangann með hnefanum, svo brotnaði kjálkinn; varð því að drepa strax hestinn, svo hann lifði ekki við örkumsl«.

1) Séra Sigurður var fæddur í Einholtum í Mýrasýslu 20. júní 1804, lærði undir skóla hjá séra Friðrik Jónssyni á Stað á Reykjanesi, útskrifaður úr Bessastaðaskóla 1830 eptir 8 ára skólaveru, var svo skrifari hjá Ísak Jakob Bonnesen sýslumanni í Rangárvalla-

b. Tómas drukknaði[1]).
c. Guðný[2]) átti launbarn, giptist svo Jóni Laxdæling.

---

sýslu, átti þar laundóttur, er Margrét hét með Margréti Þórhalladóttur prests á Breiðabólsstað Magnússonar. Hún dó ung. Því næst fór hann til foreldra sinna vestur að Garpsdal og með þeim að Holti í Önundarfirði, vígðist aðstoðarprestur til föður síns 9. október 1836, kvæntist 11. júní 1838 Abígael Þórðardóttur »grástakks«, er barnakennari varð í Færeyjum Þorsteinssonar prests á Stað í Súgandafirði Þórðarsonar, þ. d.:

a. Guðrún Ágústína (f. 16. ágúst 1838) s. k. J. Vedholms veitingamanns á Ísafirði. Son þeirra:
aa. Viggo Vedholm átti Friðrikku Haraldsdóttur Magnússonar Ásgeirssonar prófasts í Holti Jónssonar (sbr. bls. 497).

Séra Sigurður lagðist í drykkjusvall meðan hann var aðstoðarprestur í Holti og skildi við konu sína, gat þá lítt stundað prestsverk. 1849 var hann skikkaður til að þjóna Grímsey og fluttur norður þangað á kostnað Önfirðinga vorið 1850, fékk það brauð 25. júlí 1853 og kvæntist þar ráðskonu sinni Valgerði (f. 24. sept. 1812) Einarsdóttur frá Hreðavatni í Norðurárdal Bjarnasonar, systur Brynjólfs á Hreðavatni (sbr. bls. 271) og höfðu þau átt börn saman ógipt.

Séra Sigurður dó í Grímsey 1. febrúar 1867.

Daði fróði segir, að hann hafi verið meðalmaður á vöxt, snotur að áliti, ljósjarpur á hár, sæmilegur prédikari, ekki mikill raddmaður, þótti drykkjugjarn í meira lagi vestra m. fl. Í Grímsey var hann allvel látinn. Hann kvað hafa verið hraustur að afli og góður glímumaður á yngri árum.

1) Tómas var fæddur 25. september 1805, drukknaði ókvæntur um þrítugt með fiskiskútu úr Stykkishólmi. Hann átti eitt launbarn.

2) Guðný var elzt systkina sinna, fædd árið 1800. Hún átti barn 18 ára gömul í föðurgarði í Flatey, og var það kennt Jóni Guðlaugssyni vinnumanni séra Ásgeirs Jónssonar á Brjánslæk (síðar í Holti), en séra Tómas sagði, að enginn annar en húsbóndi Jóns ætti barnið, er Solveig hét (f. 25. des. 1818), og kallaði hann hana Ásgeirsdóttur. Hún andaðist í Holti hjá afa sínum og ömmu af barnsförum 28. marz 1849, átti barn með giptum manni, Vigfúsi Eiríkssyni í Breiðadal, hét Friðrik, dó 14. apríl s. á., en Guðný fór suður í Miðdali og giptist þar Jóni Jónssyni Laxdæling, ætt-

B. Guðrún átti Ólaf frá Hamraendum Benediktsson[1]), bl.

C. Elín[2]), og 10 önnur, dóu barnlaus.

Sigurður fæddur 1723, lærði skólalærdóm, fór utan, var þar og við lærdóm. En 1758 fékk hann veiting fyrir Vestmanneyjasýslu. 1760 þá Erlendur sýslumaður var frá settur var Sigurður settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu og hélt þar lögsögn til 1768, þá hann veik aptur til Vestmanneyja og hélt þá sýslu til þess honum var veitt Borgarfjarðarsýsla 1786. Hann stillti caution 1788 fyrir Borgarfjarðarsýslu og aptur 1791 með 5 hndr. í Flatey. Ekki þótti Sigurði sýslumanni Borgarfjarðarsýsla arðsöm eða vandalítið þar að vera yfirvald, frásagði sér því sýsluna 1792, en fékk lausn frá henni í náð 1794.

Sigurður brá til utanferðar á Stapaskipi 1795 og deyði í Kaupmannahöfn 1797; er mælt hann hafi þá verið þar snauður af fé og þrotinn að heilsu[3]).

---

uðum frá Hóli í Hörðudal. Bjuggu þau lengi á Svarfhóli í Geiradal. Börn þeirra:

aa. Jón.

bb. Halldóra.

cc. Ingibjörg átti Hannes í Svínaskógi Hannesson frá Litla-Holti í Saurbæ Guðmundssonar, þ. b.:

aaa. Magnús í Svínaskógi.

bbb. Jón drukknaði á Ísafirði ókv., bl., um 1885.

ccc. Guðmundur.

ddd. Októina.

Ein dóttir séra Tómasar og Guðrúnar:

d. Ásta, f. í Flatey 8. okt. 1812, dó 22. apríl 1813.

Tvö önnur börn áttu þau að minnata kosti, er dóu ung.

1) Ólafur var son Benedikts prests Hannessonar í Miðdalaþingum og bróðir séra Björns í Hítardal. Hann var stúdent og andaðist á Hamraendum 1. júlí 1820, en Guðrún dó 1842.

2) Elín andaðist ógipt, bl., 1797 hjá Magnúsi lögmanni Ólafssyni á Meðalfelli, 27 ára. Að Sigurður sýslumaður og Ásta hafi átt 10 börn önnur en þessi 3, sem nefnd eru, er eflaust rangt.

3) Um Sigurð sýslumann þykir rétt, að bæta við nokkru frekar en hér er sagt. Hann mun hafa verið fæddur í Flatey 1726, (en ekki 1723), lærði fyrst undir skóla hjá föður sínum, en var settur

Opt átti hann örðugt með embættisverk í Borgarfjarðar-

---

í Skálholtsskóla 1744 og útskrifaður þaðan af Einari skólameistara Jónssyni 20. apríl 1749. Eptir það var hann um hríð skrifari hjá Ólafi biskupi Gíslasyni, en var skrifaður í stúdentatölu við háskólann 16. desember 1752, og er þá talinn 23 ára gamall, sem er skakkt, því að hann hefur þá verið 26 ára. Hinn 11. marz 1758 tók hann embættispróf í lögfræði með 3. einkunn. Sótti hann þá þegar um Vestmanneyjasýslu og mælti Rantzau stiptamtmaður með honum og var honum veitt sýslan 15. maí (1758). 1760 var hann settur lögsagnari í Ísafjarðarsýslu, þegar Erlendur sýslumaður Ólafsson átti í málum sínum, en meðan Sigurður dvaldi vestra var Þorlákur Guðmundsson, fyrrum prestur í Selárdal, lögsagnari í Vestmanneyjum, og var hann þar til 1768, að Einar Jónsson fyrrum skólameistari í Skálholti var settur þar lögsagnari, en hann mun að eins hafa verið stutta stund, því að það ár kom Sigurður sýslumaður aptur til sýslu sinnar í Vestmanneyjum eptir 8 ára dvöl vestra. En tvö síðustu árin (1766—68) mun hann þó ekki hafa verið settur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu vegna þess, að hann lenti í málum við Erlend sýslumann. Var þá Jón trölli á Gróustöðum settur 1767 lögsagnari eða dómari í málum Erlends sýslumanns, en dómar hans voru ónýttir í yfirrétti og hann dæmdur óhæfur til dómaraverka 1769. Sigurður sýslumaður sótti flest málin móti Erlendi, en 1767 sótti Erlendur hann og Einar Magnússon fyrrum sýslumaður í Strandasýslu, en höfðu litla virðingu af (Árb. X, 86). 1767 sótti Sigurður um Eyjafjarðarsýslu eptir lát Þórarins sýslumanns Jónssonar, en fékk hana ekki, og 1768 hvarf hann aptur til sýslu sinnar í Vestmanneyjum. Mun hann hafa búið á Oddsstöðum þar í eyjunum, því að líklega er réttara, að Tómas sonur hans sé þar fæddur, eins og hann segir í æfiágripi sínu, heldur en í Stakkagerði, eins og hann segir annarsstaðar (í manntali 1816 framan við prestþjónustubók Flateyjar [Landskjalasafnið]). Sigurður sýslumaður mun hafa kvænzt vestra skömmu eptir 1760. Hann fékk opt launaviðbót t. d. 20 ríkisdali 19. september 1773, 10 ríkisdali 7. desember 1778 og 15 ríkisdali 15. marz 1784, sakir fátæktar hans, og hafði hann þá alls 55 rd. í laun. En þetta mun samt hafa reynzt ónógt og þess vegna gaf konungur honum af sínu fé 100 dali með bréfi 14. júní 1786 og litlu síðar 9. ágúst s. á., fékk hann veitingu fyrir Borgarfjarðarsýslu og gaf konungur hann þá lausan við að svara hinum svonefndu »festupeningum« (»Fæste«), er sýslumenn urðu að gjalda, er þeir fengu nýtt embætti. Meðan Sigurður var sýslumaður í Borgarfirði bjó hann á Hvanneyri, en

sýslu. Hann var maður óríkur og sumir sýslubúar gerðu honum lágt undir höfði. Af því hann var dimmleitur gáfu þeir honum afheyris auknefni (skuggi)[1].

---

ekki mun fjárhagur hans hafa stórum batnað við embættaskiptin. Leið ekki á löngu áður en ýmsar sakir voru bornar á hann út af embættisfærslu hans, og þótti honum takast margt ófimlega og segir Espólín (Árb. XI, 67), að vesöld og aðdugnaðarleysi hafi meir valdið sumu eða öllu, er hann var hafður fyrir en illvilji. Ætlaði Meldahl amtmaður að víkja honum frá sýslunni 1792, en þá sagði Sigurður af sér eptir ráðum Ólafs stiptamtmanns og 9. apríl 1794 fékk hann algerlega lausn frá sýslunni með 30 ríkisdala eptirlaunum frá nýári og 28. maí s. á. var honum gefin upp 130 rd. skuld.

Hann fór þá fyrst að Ökrum til séra Sigurðar Jónssonar og Ingibjargar systur sinnar, en 1795 sigldi hann til Hafnar og var þar síkveinandi og kvartandi. Hafði hann 1786 gert kröfu um að fá greidda 684 ríkisdali, og fékk tvisvar 300 ríkisdala þóknun eða uppbót, en nú vildi hann fá uppgjöf á 885 ríkisdala skuld, er hann var í við verzlanina vegna launaleysis að hann sagði, og auk þess heimtaði hann 397 ríkisdali í launaskyni. Upp úr þessu kvabbi hafði hann það, að með konungsúrskurði 16. september 1796 var honum veitt 100 dala náðargjöf, en með því skilyrði, að hann færi til Íslands þá þegar með póstskipinu og kæmi aldrei aptur né sækti um nokkrar skaðabætur. En ekkert varð úr því, að Sigurður færi heim og skutu ýmsir landar skjólshúsi yfir hann og styrktu hann, einkum Jón Ólafsson frá Svefneyjum (bróðir Eggerts Ólafssonar). Sigurður sýslumaður andaðist á Friðriksspítala 18. ágúst 1798, að því er Steingrímur biskup telur (í ættatölum sínum), og er það eflaust réttara en 1797, sem venjulegast er talið. Dánardagurinn (18. ágúst) er tekinn eptir lausu blaði með hendi Jóns Sigurðssonar í safni hans (536 4to).

1) Auknefnið »skuggi« mun hann hafa fengið, er hann var vestur í Ísafjarðarsýslu, fremur en í Borgarfirði. En þar mun það hafa verið, er séra Jón Þorláksson orti um hann vísu þessa, sem prentuð er í ljóðabók hans II. hluta bls. 417:

»Skuggi hingað skauzt á hesti fúsum,  
skuggi gisti nótt í amtmannshúsum,  
skuggablakkur, skuggahnakkur, skuggastakkur  
skreið og sprakk í lúsum«.

Gísli Konráðsson segir (í Prestatali Lbs. 375 4to), að auknefnið »skuggi« hafi hann fengið af því, að hann var koldökkur

Hann fór alls utan 6 sinnum og átti 13 börn, en Vestmanneyjasýslumannalaun voru fyrst þá hann fékk þar sýslu frá 10 til 20 rd. (Seinna urðu það 90 rd.). Sigurður var 74 ára[1]), þá hann létzt.

## Þórarinn Sigvaldason Liliendahl.

*Faðir:* Séra Sigvaldi á Húsafelli, son séra Halldórs sama staðar Árnasonar Eiríkssonar.

*Móðir:* Helga dóttir séra Torfa á Reynivöllum Halldórssonar prófasts í Reykholti Jónssonar prests sama staðar.

Þórarinn var settur sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu þá Sigurður sagði henni af sér 1792, en deyði sjálfur sama ár. Var því Guðmundur sýslumaður settur 1793, sem fyr er sagt. Þórarinn fór utan til lærdómsframa, gerðist svo stiptamtmannsþénari á Bessastöðum. Giptist ekki eða átti börn[2]).

## Finnur Jónsson.

*Faðir:* Jón Hólabiskup Teitsson prests á Skutulsfjarðareyri Pálssonar sýslumanns á Ísafirði Torfasonar (sjá Ísatjarðarsýslu).

*Móðir:* Margrét dóttir biskups Finns Jónssonar.

---

á hár og skegg. En í óvirðingarskyni hefur honum verið nafn þetta gefið, enda þótt dregið væri af útliti hans.

1) Hann hefur verið 72 ára, er hann andaðist.

2) Þetta er ekki fullkomlega rétt. Þórarinn Liliendahl er fæddur um 1753, útskrifaður úr Skálholtsskóla 1775, skrifaður í stúdentatölu við háskólann 30. september 1778 með 2. einkunn, las lögfræði, en tók ekki próf í henni, var lengi skrifari í hinu íslenzka lærdómslistafélagi, kom út með Meldal amtmanni 1790 og var skrifari hans á Bessastöðum þangað til amtmaður andaðist 19. nóvember 1791, var svo Þórarinn settur fyrir Borgarfjarðarsýslu 5. marz 1792, en andaðist á Bessastöðum 22. desember s. á. ókvæntur, en tvö launbörn átti hann, annað með Þórunni Einarsdóttur hét:

1. Vigdís, f. í Víðidalstungu 24. okt. 1777, dó ungbarn. En hitt með Valgerði Þorsteinsdóttur hét:
2. Brynjólfur, f. í Víðidalstungu í janúar 1778. Hann hefur verið heitinn eptir Brynjólfi stúdent Eiríkssyni í Bræðratungu, er dó síðla árs 1777.

*Kona:* Úlfdís[1]) dóttir Jóns bóndamanns í Botni við Hvalfjörð Ísleifssonar bóndamanns, barnlaus, (giptust 1797)[2]).

Launsonur Finns: Kristján[3]).

Finnur[4]) lærði hér skólalærdóm, fór svo utan[5]), en sló þar slöku við lærdóm, hafði litla peninga og var með þá eyðslusamur upp á ei sem beztan máta, komst því í hald fyrir skuldir, þó loks þaðan útleystur, kom út og var hjá móður sinni á Neðra-Ási í Hjaltadal um hríð. En 1792 var hann settur sýslumaður í Snæfellsnessýslu um veturinn eptir að Jón sýslumaður Arnórsson deyði. Jóni fróða Espólín hafði sama ár verið veitt utanlands sýslan, og tók við henni 1793. Þar um kváðu Jöklamenn, er höfðu óvild á Finni:

Lukkan þegar ljúf og fín
lét bezt honum Finni,
að utan kom hann Espólín,
af því varð hún minni.

---

1) Hún varð bráðkvödd á Stóru-Drageyri í Skorradal 16. desember 1815. Sjá framætt hennar II, 570.

2) 7. júlí.

3) Kristján var launson Finns sýslumanns með Kristínu Markúsdóttur. Kristján bjó á Melaleiti, dó 25. júní 1834, 44 ára, átti Þorbjörgu Ólafsdóttur Þorsteinssonar á Þyrli Magnússonar, þ. b.:
a. Sigurður átti fyr Þórunni Guðmundsdóttur, þ. b.: Guðlaugur, síðar Ásgerði.
b. Ólafur í Halakoti á Vatnsleysuströnd átti Kristínu Aradóttur, bl.
c. Þorbjörg átti Teit Benediktsson í Skarðsbúð á Akranesi, þ. b.: Ingibjörg, Benedikt, Dýrfinna, Kristján.
d. Sigríður átti Ólaf Ólafsson á Neðra-Sýruparti á Akranesi, þ. b.: Magnús, Kristján, Sigríður.
e. Friðrik. f.—i. Guðmundar tveir, Kristján, Ingibjörg, dóu ung.

4) Finnur er fæddur í Gaulverjabæ 1760 eða nálægt því. Artalið ekki fullvíst. Hann lærði fyrst hjá föður sínum, en mun hafa siglt til Hafnar 1773.

5) Finnur sýslumaður var útskrifaður úr heimaskóla í Höfn og gaf Einar Bjarnason Thorlacius, síðar prestur á Grenjaðarstað, honum burtfararvottorð, en 27. janúar 1779 er hann skrifaður í stúdentatölu við háskólann og er þá talinn 19 ára.

Helzta orsök til óvildar Jöklamanna í það sinn við Finn var, að nokkrir höfðu farið að grafa í kongsjörðu og leita að peningum. En sýslumaður Finnur gerði að því mikinn rekstur og lét þá sæta útlátum. Þótti hann og fédrægur. Þar eptir varð Finnur embættislaus, þar til Borgarfjarðarsýsla losnaði; var hann þar þá settur 1793, en fékk veiting 28. maí 1794 fyrir sýslunni. Skipti henni aptur við Jón sýslumann Espólín fróða 1796 (kongsveitingarbréf þar upp á dat. 16. sept. 1796) og tók Snæfellsnessýslu 1797[1]). Bjó hann þar á

1) Um viðskipti þeirra Finns og Jóns Espólíns, segir svo í sögu Jóns Espólíns Khöfn 1895 bls. 49—50.:

»Þeir bræður Stefán á Hvanneyri og Björn á Hvítárvöllum riðu nú af þingi (1798), og með þeim Espólín og Finnur, sýslumenn, og komu þeir Espólín og Finnur í kappræðu, er þeir riðu Botnsheiði; þá bræður bar þá undan, því miklu höfðu þeir betri hestana; er og sumra sögn, að lítt hirtu þeir, þó þeir sýslumenn ættust illt við; kom þá svo, að Espólín barði Finn nokkur högg á hrygginn, að því er hann segir sjálfur, og kveðst hafa gert það fyrir þá sök, að hann kenndi bleyðuskap hans, en eigi af hatri, því ella léti hann ei af ofsóknum við sig og fláræði, er hann hefði sér áður sýnt. En haft er það eptir meðreiðarmanni þeirra, að Espólín losaði þá um brækur hans; riðu þeir síðan að Leirá, og var þar milli þeirra talað; kom svo að Finnur gerði þar fyrirgefningarbréf til Espólíns um ósannar ákærur við hann, og voru þeir þá að kalla sáttir. En það er frá Finni að segja, að hann bjó síðan á Sveinsstöðum, jörð þeirri, er Scheving létzt mundi byggja Espólín áður, og þótt að betra hefði hann í Snæfellsþingi en Espólín, kom svo fyrir drykkjuskap hans og embættisglöp með öðru ósæmilegu framferði, og þar með drakk kona hans, að í óvirðing var hann mikilli, örsnauður og afarskuldugur, og miklu ver var hann kominn en Espólín nokkru sinni. — Páll skáldi kvað og níð um þau, er honum var títt og kallaði Passíusálm. [Hann er prentaður í sögu Jóns Espólíns bls. 50—53]. — Páll sveifst eigi að snúa svo einum píslarsálmi Hallgríms prests upp á Finn, er hann fór utan með Hölter kaupmanni, og mátti það kalla guðleysi mikið, og svo kvað hann um Úlfdísi með öðru:

Varla lúin blóma bar,
baga' óslakan henti,
Úlfdís frúin ölvuð var
uppspjó sakramenti.

Og þó að margt kynni að vera satt sagt um þau Finn og

Sveinsstöðum og húsaði vel þá jörð og gekk og til hlítar í búi um hríð. Eptir 1800 kom misklíð millum hans og umboðshaldarans Stefáns Schevings; var meining manna, að Finnur vildi ná Stapaumboði undan honum, hafði því klagað Scheving fyrir ýmislegt. En Scheving og aðrir fleiri, sem þóttust eiga sakir við Finn, guldu honum skæðari klögun. Finnur hafði farið utan 1802, en þar lítið sér til nota aðhafzt, gekk fyrst í þrasi millum Finns og Schevings. Loks kom þar, að báðum var vikið frá embættum. Þáverandi kammersecreteri Gunnlaugur Briem var settur dómari, en sýslumaður Skúli Magnússon áklagari Finns; gekk í Snæfellsnessýslu mikill og margbrotinn málarekstur árin 1805—06, átti þar margur hlut að, einnig settir sýslumenn Ebenezar Þorsteinsson og Sigurður Guðlaugsson. Dæmdist Finnur loks frá embætti 1806. Vegna skulda var bú Finns sett til auctionar og hrökk ekki til skulda-lúkningar. Finnur sýslumaður vildi ákæra dóminn fyrir hæstarétti, fór til Norðurlands 1807 og drukknaði í á á Höfðaströnd í þeirri ferð[1]). Mest varð Finni til falls, að hann

---

konu hans, er til ósæmdar horfði, má ætla sumt væri orðum aukið, er áður var illmæli á komið, og þeim var allt virt til ósæmdar«. (Sama rit bls. 53).

1) Um fráfall hans er allnákvæm skýrsla í sögu Jóns Espólíns Khöfn 1895. Þar segir svo:

»Á engjaslætti um sumarið (1807) kom Finnur sýslumaður vestan úr Snæfellsnessýslu nauðþrengdur mjög til Gísla bróður síns að Hólum; vildi Finnur þá utan fara og freista að verja mál sín, en engi vildi fá honum leiðarbréf, er það bar, til utanfararinnar. Stóð og óhamingjusamlega á, því Stephensen jústisráð var utan farinn og margir aðrir til Kaupmannahafnar, er urðu teknir, því enskir hófu óvörum ófrið við Dani. Þeir bræður Gísli og Finnur riðu þá í Viðvík til fundar við Espólín, er aumkvaði þá mjög, hve illa Finnur var staddur, þó ærin óvild hefði verið með þeim áður, og var það þá með atbeina Gísla, að Espólín hét að gefa honum leiðarbréfið, þó öndvert mundi það lögum. Reið Finnur við það í Hofsós og tók sér far, og ætlaði síðan að ríða þaðan heim til Viðvíkur að kveðja sýslumann; þar var og staddur í kaupstaðnum Gísli bróðir hans og við öl sem optar, varð þeim Finni að orðum og skildu við það, að Gísli keyrði hest Finns og bað hann ríða

hafði undir sig dregið dánarbúafé, gert uppspennta og ólögmæta reikninga, einnig skuldir til konungskassa. Framúrskarandi drykkjuskapur hans og konu hans og þar af fljótandi hirðuleysi um bú og embættisverk orsökuðu honum örbirgðar, ágengni og ofmikill sérdráttur, þá hann gat því við komið. Hann þótti og óheill maður; varð hann af öllu þessu óvinsæll. Annars var Finnur vel viti borinn, en mælt hann hefði opt brúkað það til hrekkja. Hann var góður skrifari og stílaði vel fyrir sig. Einnig tjáist hann hafa verið allgóður í lögum og búþegn og útsjónarmaður í betra lagi, hvað hann vanræktaði með ofmiklum drykkjuskap. Það aflaði honum og óvinsældar, að hann þótti óheill og viðsjármaður. (Hann var og haldinn mjög kvennsamur). Af öllu þessu missti hann virðing og ástsæld sinna sýslubúa; var þó almæli, að hann hefði vel komizt frá málum sínum að lokum, hefði ei óvinsældir og drykkjuskapur hans hamlað. Umboðshaldari Scheving var þar á móti af flestum vel þokkaður, góðmenni, bjargvættur og leitaðist ei við að skaða nokkurn mann. Þó honum væri frá embætti vikið og Ólafur Björnsson smiður í hans stað settur fyrir Stapaumboð, var Scheving afhent aptur umboðið 1809 og hélt því til 1829, þá hann frá sagði sér það eptir að hafa yfir því verið yfir 40 ár.

Um eða eptir 1831 flutti St. Scheving að Leirá, hver honum til erfða féll eptir bróður sinn Jónas sýslumann Scheving. A seinustu aldursárum seldi St. Scheving Jóni stúdent í Kalmannstungu Leirá; hafði þó sjálfur part Leirár til ábýlis meðan hann lifði[1]).

---

allósnoturlega, og varð það nú að Finnur drukknaði af hesti sínum í Grafará skammt fyrir innan kaupstaðinn, en sveinn sá, er með honum var, komst af og sagði til Sigurði hreppstjóra Andréssyni í Ártúnum, en er það spurðist, kvað Eggert prestur í Glaumbæ:

Gaulver hrakti frá sér Finn,
furðu grámórauður,
svo reið hann í ána inn,
eptir á fannst þar dauður.

Drukknaði Finnur hinn 21. dag september og var jarðaður á Hólum í Hjaltadal hinn 2. dag okt. næst eptir, og var Espólín þar að boði og margir fleiri« (Saga Jóns Espólíns bls. 91—92).

1) Stefán Scheving dó á Leirá 8. júlí 1844 á 78. aldursári (fæddur 4. september 1766).

## Jón Espólín hinn fróði.

(Sjá um hann við Hegranesþing) [1]. Hann fékk sér veitta Snæfellsnessýslu 1792, skipti við Finn sýslumann sýslum 1796 og tók Borgarfjarðarsýslu; aptur skipti hann henni við cansellíráð Jónas Scheving 1802 og tók Hegranesþing. Þar frá fékk hann umbeðna lausn í náð 1825 eptir 34 ára embættisfærslu með pensíon. Nú fróðasti og mesti sagnaskrifari á Íslandi. Annars góður og ágætasti maður. Heiðursmeðlimur Fornfræðafélagsins [2].

---

1) I, 421—430. Þá er hann er skrifaður í stúdentatölu við háskólann 2. maí 1789 er hann nefndur: »Johan Frider. Espolin« (J. S. 536 4to), og ætti samkvæmt því að hafa heitið fullu nafni Jón Friðrik, en hvergi finnst þess getið annarsstaðar, og má þó vel rétt vera.

2) Með því að afkomenda Espólíns sýslumanns er áður í riti þessu lítt getið (sbr. I, 421) þykir rétt að geta þeirra hér nokkru frekar.

Séra Hákon Espólín var vígður 19. maí 1834 að Stærra-Árskógi, en fékk 13. ágúst 1861 Kolfreyjustað og lausn frá embætti 1874 og andaðist á Brimnesi við Fáskrúðsfjörð 14. apríl 1885.

Fyrri kona hans var Sigríður Jónsdóttir prests lærða í Núpufelli Jónssonar. Hún andaðist á Hraunum í Fljótum 17. júlí 1864, þ. b.:

a. Jón Espólín (f. 17. sept. 1823, dó 7. marz 1828).
b. Jón Espólín annar (f. 16. jan. 1825), var garðyrkjumaður og bjó á Frostastöðum í Skagafirði og dó þar 15. júní 1853. Kona hans var Ingibjörg Árnadóttir og áttu þau eitt barn, er dó á fyrsta ári.
c. Jakob (f. 11. febr. 1828), er enn á lífi, var 30 ár í Ameríku og kom upp aptur 1904. Kona hans var Rannveig Skúladóttir frá Axlarhaga, þ. b.:
  aa. Sigríður fór með foreldrum sínum til Ameríku.
  bb. Jón Magnús.
d. Rannveig Sigríður (f. 17. maí 1830), gipt 4. okt. 1856 Jóni síðar bónda á Höfða á Höfðaströnd Jónatanssyni bónda í Litlaskógi á Árskógsströnd Ögmundssonar, þ. b.:
  aa. Sigríður (f. 15. nóv. 1859), kona Konráðs kaupmanns á Brekku í Mjóafirði Hjálmarssonar dbrm. á Brekku Hermannssonar í Firði Jónssonar pamfíls Jónssonar í Skriðu Hjálmarssonar Sigurðssonar prests á Skorrastað Árnasonar, þ. b.: Jón, Sigfríður.

## Jónas Scheving.

(Sjá um hann við Hegranesþing)[1]. Hann gerðist aðstoðarmaður föður síns í sýslumannsembætti í Hegranesþingi 1795, fékk veiting fyrir Skagafjarðarsýslu 1800, skipti sýslum við Espólín fróða 1802[2]), flutti þá að Leirá í Leirársveit, hvar hann bjó meðan lifði. Sýslumaður Jónas varð cansellieráð 1816. Frá sagði sér Borgarfjarðarsýslu 1827, fékk umbeðna lausn með pensíon 1828. Deyði á Leirá 1831[3]).

## Eiríkur Sverrisson.

(Sjá Mýrasýslu og Snæfellsnessýslu). Honum var þessi sýsla veitt 1827, en 1828 dag 24. maí Mýrasýsla.

## Stefán Gunnlaugsson.

*Faðir:* Séra Gunnlaugur á Hallormsstað sonur séra Þórðar á Refstað, Ási í Fellum og Kirkjubæ, er átti Guðrúnu Gunnlaugsdóttur frá Skjöldólfsstöðum. Séra Þórður vígðist 1756, dó 1791. Hans faðir séra Högni, fyrst prestur á Stafafelli í Lóni og 1726 prófastur í Skaptafellssýslu. Fékk Breiðabólsstað í Fljótshlíð 1750, sleppti honum til Stefáns sonar síns 1764, deyði sjálfur 1770. Hans faðir var séra Sigurður, fékk Einholt 1679, gerð-

---

bb. Hólmfríður.
cc. Jón.
dd. Guðrún.
ee. Þóra.
ff. Rannveig.

e. Helga (f. 13. okt. 1831), gipt 18. jan. 1861 Sigurði járnsmið Jónassyni bónda í Tungu á Tjörnesi Péturssonar, þ. b.:
aa. Elína Paulína.
bb. Sigríður.

Seinni kona séra Hákonar var (25. sept. 1865) Ingibjörg Jónsdóttir, þ. b.:

f. Guðrún Sigríður (f. 9. maí 1866).

1 I, 420.

2) 21. apríl.

3) Hann andaðist 13. maí.

ist prófastur í Skaptafellssýslu 1720 og deyði í því embætti 1732. Var prestur 53 ár. Hans kvinnur voru: Guðrún dóttir séra Böðvars á Valþjófsstað, (móðir séra Högna og Ingibjargar, konu séra Þorleifs Björnssonar). Sú önnur hans kona var Solveig dóttir séra Guðmundar í Fljótshlíðarþingum Guðmundssonar. Faðir séra Sigurðar var séra Högni í Einholtum í 29 ár, deyði 1679. Hann var Guðmundsson Ólafssonar. Séra Högni átti Steinunni dóttur Eiríks lögréttumanns á Búlandi Sigvaldasonar Halldórssonar sýslumanns Skúlasonar Guðmundssonar Sigvaldasonar langalífs.

*Móðir:* Ólöf Högnadóttir Torfasonar Pálssonar Ámundasonar frá Skógum undir Eyjafjöllum.

*Kona:* Ragnhildur[1]) dóttir landsyfirréttar-assessors Benedikts Gröndals, sonar séra Jóns á Skútustöðum Þórarinssonar. Faðir séra Jóns var séra Þórarinn víða prestur norðanlands, í Grímsey og Nesi. Hans fyrri kona var Helga Ólafsdóttir, móðir séra Jóns, en seinni kona Ragnhildur Illhugadóttir. Faðir séra Þórarins var séra Jón Guðmundsson í Stærra-Árskógi, (dó 1696), átti Ingibjörgu dóttur séra Þórarins á Bægisá í Yxnadal. Faðir séra Jóns (og séra Ara prófasts á Mælifelli) var Guðmundur lögréttumaður í Flatatungu (Arason Guðmundssonar Einarssonar) átti Guðrúnu dóttur Björns á Laxármýri Magnússonar í Stóradal Árnasonar Péturssonar Loptssonar Ormssonar Loptssonar ríka.

Frú Þuríður, (giptist Benedikt Gröndal laudabilista juris, er varð vicelögmaður 1791, virkilegur lögmaður 14. jan. 1800, og 6. júní 1800 landsyfirréttar-assessor), var dóttir Ólafs bónda Jónssonar á Frostastöðum í Skagafirði, en systir Ólafs riddara og lektors juris í Kongsbergi í Noregi. Faðir Ólafs bónda var Jón bóndi í Framnesi í Skagafirði. Faðir Jóns í Framnesi var Ólafur bóndi Kársson.

---

1) Ragnhildur var fædd 29. maí 1801, giptist 3. apríl 1830, andaðist 15. október 1841 af barnsförum að tvíburum.

Faðir Kárs bónda var Bergþór lögréttumaður, sem dó 1647, 56 ára, merkilegur maður. Faðir Bergþórs var séra Sæmundur í Glaumbæ, fæddur 1556, prestur að Barði 1591, svo að Glaumbæ 1594, dó 1638. Faðir séra Sæmundar var Kár bóndi, (sem átti 16 börn). Kona séra Sæmundar í Glaumbæ var Ragnheiður dóttir Sigurðar sýslumanns og klausturhaldara á Reynistað Jónssonar frá Svalbarði (sjá Hegranesþing og Vaðlaþing). Kona Bergþórs lögréttumanns var Björg dóttir Skúla Einarssonar á Eiríksstöðum. (Hún var systir Þorláks biskups). Kona Kárs Bergþórssonar var Rannveig Jónsdóttir prests í Miklabæ Stígssonar. Kona Ólafs Kárssonar var Málfríður dóttir Þorsteins á Álfgeirsvöllum Bjarnasonar s. st. Hrólfssonar sterka Bjarnasonar Hrólfssonar. Kona Jóns á Framnesi var Ingibjörg Jónsdóttir lögréttumanns í Fljótum, (sem átti Ingibjörgu dóttur séra Ara á Mælifelli), en Jón var son Steingríms lögréttumanns á Hofi í Skagafirði Guðmundssonar frá Vatnshlíð. Kona Ólafs bónda á Frostastöðum var Kristín dóttir séra Björns á Tjörn fyrir 1730, svo til Flugumýrar 6 ár, dó 1759. Séra Björn var son Skúla lögréttumanns Ólafssonar djákna á Reynistað Bergþórssonar lögréttumanns Sæmundssonar (sjá hér að framan).

*Börn:* A. Ólafur Bjarni Verner Lúðvík fæddur 3. apríl 1830[1]).

B. Benedikt Gröndal fæddur 18. janúar 1832[2]).

---

1) Ólafur var fæddur í Belgsholti 20. janúar 1831. Foreldrar hans giptust einmitt 3. apríl 1830. Ólafur útskrifaðist úr Reykjavíkurskóla 1848, tók aðgöngupróf (examen artium) við háskólann s. á. með 2. einkunn og annað lærdómspróf í nóvember 1850 einnig með 2. einkunn, varð katólskur og fór víða um lönd, varð dr. phil. við háskólann í Löwen í Belgíu, lengi ritstjóri í Parísarborg og andaðist þar 22. júlí 1894, kvæntur rússneskri konu (sbr. Þjóðólf 24. ágúst 1894).

2) Hann var fæddur í Belgsholti 20. janúar 1832, en andaðist 5. febrúar s. á.

C. Ólöf Þrúður[1]) fædd í janúar 1833.

Stefán er fæddur 1802 þann 12. október[2]). Byrjaði með latínulærdóm í heimaskóla, en var settur í Bessastaðaskóla 1821, var þar 2 ár í neðri og 3 ár í efri bekk; útskrifaður þaðan 1825 og var þá haldinn einhver fljótskarpasti piltur. Fór hann utan samsumars og lagði fyrir sig lögvísindi, tók hann svokallað danskt lagapróf haustið eptir (ɔ: 1826) með góðri heppni, gaf sig frá 1826—1827 fyrir handskrifara (contorista) hjá þáverandi stiptamtmanni Moltke í Álaborg. Haustið 1827 tók Stefán reynslupróf í listum (examen artium með laudabili) nefndur lofsverður. Um veturinn 1827—28 næstum blindur (af cron. inflammation) tók hann þó reynslupróf í tungumálum með meðalheppni, (examen philologicum með haud illlaudabili) þann 18. apríl; mátti þá hætta vegna augnveiki. Fékk og veiting fyrir Borgarfjarðarsýslu sunnan Hvítár þann 24. maí 1828 og kom út til sýslu sinnar.

Stefán var og settur sýslumaður í Kjósarsýslu og héraðsdómari í Gullbringusýslu veturinn 1828—29, þá sýslumaður Finsen fór utan til þess hann kom út um vorið.

---

1) Réttara: Ólöf Þuríður fædd í Belgsholti 20. febrúar 1833, dó ung.

Önnur börn Stefáns Gunnlaugssonar og Ragnhildar voru:

D. Vilhelmína, f. í Reykjavík 14. október 1836.

E. Högni, f. s. st. 25. desember 1837, dó 2. jan. 1838.

F. Bertel Högni, f. s. st. 29. maí 1839, fór víða um heim, jafnvel til Mekka, lærður mjög vel í Austurlandamálum. Var alllengi í Chicago, en nú í nánd við borgina Tacoma í Washingtonríkinu. Um æfiatriði hans sjá nánar Þjóðólf 47. árg. nr. 40 (16. ágúst 1895 grein eptir séra Matthías Jochumsson).

Síðari kona Stefáns Gunnlaugssonar, er hann kvæntist 21. nóvember 1844 var Jórunn Guðmundsdóttir frá Króki í Hraungerðishreppi Hannessonar í Króki Magnússonar á Skúfslæk Þorvarðssonar Magnússonar, systir Hannesar bónda á Hjalla í Ölfusi. Þau Stefán og Jórunn skildu. Hún andaðist í Kaupmannahöfn snemma árs 1871. Börn þeirra voru:

G. Ragnhildur, f. í Reykjavík 5. júlí 1847, giptist í Kaupmannahöfn.

H. Brynjólfur, f. s. st. 29. ágúst 1849, sigldi til Hafnar.

2) Réttara 9. október.

Stefán giptist þann 3. apríl 1830, flutti til sýslu sinnar og setti bú saman í Belgsholti. Stefán hefur opt fært mál fyrir landsyfirrétti vonum betur. Hann fór enn utan með póstskipi veturinn 1833, og kom út með kaupmannsskipi um vorið sama; ei vitum vér með skilríkjum erindi hans, en mælt er hann hafi fengið eptirgjöf á hálfu sýslugjaldinu.

1834, þá kammerráð O. Finsen hafði af kongi hlotið assessorsembætti við landsyfiréttinn, var Stefán sýslumaður settur fyrir Gullbringu- og Kjósarsýslu að gegna þar sýslumannsverkum. 1835 fékk hann kongsveiting fyrir téðum sýslum, en sleppti þá Borgarfjarðarsýslu, hverja konungur þá veitti Halldóri Einarssyni.

Stefán sýslumaður keypti Kross á Akranesi og byggði sér þar stofu skammt frá bænum og flutti þangað frá Belgsholti[1]), en 1835, þá honum var veitt Gullbringusýsla, flutti hann til Reykjavíkurkaupstaðar.

Þegar Stefán hafði sleppt Gullbringu- og Kjósarsýslum, byggt sér nýtt kostnaðarsamt íveruhús í Reykjavík og var orðinn þar land- og bæjarfógeti, missti hann sína fyrri húsfrú Ragnhildi Benedikts Gröndalsdóttur, féll hann þá upp á að gipta sig aptur bóndadóttur fátækri úr Ölfusi að nafni Jórunni Guðmundsdóttur í því tilliti, að sjá um barna sinna uppfóstur og sínar innanhússakir, þar hann þurfti bæði að hafa duglegan og ferðugan skrifara og reikningsmann og nokkuð verkafólk; var því mannmargur, en svo að kalla að landbúnaði við þurt hús, eins og flestir í Reykjavíkurbæ.

Skaptfellinga alþingismaður og fyr klausturhaldari Jón Guðmundsson gerðist 1847 hans fullmektugur við landfógetaembættið, þá sjálfur Stefán var ei við látinn, þar hann hafði á hendi bæjarfógetaembættið ásamt landfógetadæmi. 1847 þann 28. júní fékk hann kammerráðsnafnbót frá kongi[2]).

---

8) Hann flutti að Krossi (Krossholti) 1833.

9) Hann fékk lausn frá embættum sínum 1848, en þjónaði þó landfógetaembættinu til 1. ágúst 1849. Var hann þá settur fyrir Borgarfjarðarsýslu og þjónaði henni þangað til Brynjólfur Svenzon tók við 1850. Hann sigldi til Kaupmannahafnar 1852 með tvö fyrri konu börn sín Vilhelmínu og Bertel, en skildi konuna eptir. Hann bjó upp frá því í Kaupmannahöfn og andaðist þar rúmlega

## Halldór Einarsson.

*Faðir:* Einar bóndi í Kalmannstungu etc. Hans faðir Þórólfur bóndi á Fitjum og Síðumúla, átti fyr Signýju, (sem dó 1753), dóttur Vermundar á Svanga og Ragnheiðar, börn: Einar laxafangari og Elín, hún giptist og átti börn.

Seinni kona Þórólfs var Guðríður dóttir Einars bónda á Hvanneyri Bjarnasonar Sveinssonsr Steindórssonar bænda, börn: Jón, Signý, Halldóra og Einar fyrnefndur, þau giptust öll og áttu börn. Faðir Þórólfs var Ari, sem fyr átti Ingveldi Nikulásdóttur í Þingnesi Einarssonar Jónssonar. Nikulás átti Kristínu dóttur Magnúsar á Suður-Reykjum Þorvarðssonar s. st. Þórólfssonar frá Hjalla Eyjólfssonar (sjá Rangárþing). Börn: Guðrún og nefndur Þórólfur, giptust og áttu börn. Seinni kona Ara var Hallfríður Björnsdóttir, þ. d.: Ingibjörg giptist og átti börn, (eitt þeirra var séra Ari Skordal).

Faðir Ara var Sigurður, sem dó 1707, átti Þorbjörgu Ásmundsd. bónda á Bjarnastöðum í Hvítársíðu og Höllu Halldórsdóttur Ólafssonar. Faðir Sigurðar var Ari á Fitjum, átti Katrínu laundóttur Jóns hæverska í Tungu Þórðarsonar Halldórssonar Guðmundssonar á Dunk Finnssonar á Ökrum. Faðir Ara á Fitjum var Sigurður Ásgeirsson prests frá Lundi (sjá Borgarfjarðarsýslu). Kona Sigurðar var Sesselja dóttir Einars í Ási og Hvanneyri sonar séra Eiríks í Reykholti Jónssonar ríka á Hvanneyri Þórðarsonar frá Borg Sigurðssonar.

*Móðir* Halldórs sýslumanns, en fyrri kona Einars Þórólfssonar var Kristín dóttir Jóns í Kalmannstungu Magnússonar Nikulassonar Einarssonar í Þingnesi Jónssonar. Kona Jóns í Kalmannstungu var Ingibjörg Bjarnadóttir Þóroddssonar. Kona Magnúsar Nikulássonar var Valgerður dóttir Jóns í Þing-

---

áttræður 13. apríl 1883. Hann þótti nokkuð einkennilegur í háttum og undarlegur og ekki við alþýðuskap.

nesi launsonar Jóns í Svignaskarði. Kona Nikulásar í Þingnesi Einarssonar var Kristín dóttir Magnúsar á Suður-Reykjum Þorvarðssonar s. st. Þórólfssonar frá Hjalla Eyjólfssonar.

Kristín Jónsdóttir áður nefnd átti fyr Bjarna son Jóns á Melum í Hrútafirði Jónssonar s. st. Auðunnssonar, þ. d.: Helga átti Árna Guðmundsson á Bjarnastöðum. Svo varð Kristín fyrri kona Einars Þórólfssonar, þ. b.: 1. Bjarni í Straumfirði. 2. Ingibjörg. 3. Ljótunn, dó 1828. 4. Jón, öll gipt, og 5. Halldór sýslumaður 1835. (Bændafólk í framættir báðar að honum undanteknum).

Halldór Einarsson fæddur 25. desember 1799[1]), útskrifaður úr Bessastaðaskóla 1818, gerðist þénari hjá amtmanni Stefáni Ólafssyni Stephensen 1819, fór svo utan til meiri lærdómsframa 1823, tók venjuleg reynslupróf, og það síðasta í rómverskri lögvísi 1827 með bezta heiðurstitli[2]). Varð volenteur í Rentukammeri 1826—1830, þar eptir gerðist hann 1830 copíisti leyndarskjala. Af því íslenzka bókmenntafélagi var hann útvalinn aukaforseti félagsins 1832—33 og aptur 1835. En fyrir Borgarfjarðarsýslu fékk hann kongsveiting dag 11. apríl 1835. Kom sama sumar til sýslu sinnar, dvaldi um hríð á Ytrahólmi, en veturinn 1835—36 bjó hann í stofu á svokölluðu Krossholti á Akranesi, hverja sýslumaður Gunnlaugsen lét þar fyr byggja, og keypti loks af Gunnlaugsen téða stofu. 1837 brá hann til utanferðar, en kom út 1838. Hann tók síðan til ábýlis Höfn undir Hafnarfjalli og bjó þar með ráðskonu til þess hann deyði 23.3) nóvember 1846. Hann giptist ekki eða átti börn, og var ekki við konu kennd-

1) Halldór sýslumaður var fæddur á Bjarnastöðum í Hvítársíðu 25. desember 1796 (ekki 1797, eins og segir í Lögfræðingatali M. St. Tímar. Bókm.fél. III, 222).

2) Það var 27. október 1827, er hann tók próf í hinum »teoretiska« hluta með 1. einkunn, en hann gekk 5 sinnum upp í hinum »praktiska« hluta prófsins (1828, 1829, 1830 tvisvar og 1831) og fékk fjórum sinnum 2. einkunn í því, en í 5. sinn 1. einkunn 2. nóvember 1831.

3) Réttara 22. nóvember.

ur. (Eptir Reykjavíkurpósti er Halldór fæddur á Bjarnastöðum í Hvítársíðu árið 1797[1]) þann 23. desember. 1811 fór Halldór í Bessastaðaskóla, útskrifaðist 1818, 1823 fór hann til Khafnarháskóla, 1828 tók hann attestas í lögvísi með bezta titli, fékk Borgarfjarðarsýslu 1835).

Halldór sýslumaður var fatækur og af fátækum kominn; varð sjálfur að hafa ofan af fyrir sér við háskólann, hlaut inntektalitla sýslu. Keypti í skuld bújörð sína Höfn, var í þjóðbraut og mesti greiðamaður. Bújörð sína prýddi, uppbyggði og ræktaði hann vel, kostaði þar til miklu, einkum með túngirðingu og þúfnasléttun. Forstandsmaður reyndist hann mikill, svo að við hans dauða varð sterfbú hans svo mikið, að meir en borguðust allar hans skuldir. Ljúfur og viðræðisgóður var hann í umgengni og ástundaði vel og löglega sitt embætti. Hann var jafnan heilsugóður til þess litlu fyrir andlát sitt, þá hann gerðist vanheill, snerist upp í köldusýki um nokkrar vikur.

Hann var fullkominn meðalmaður á vöxt, en varð snemma ellilegur í andlitsfalli, þó annars ekki ófríður, nokkuð ljósleitur með jarpt hár. Hann dó á 49. aldursári[2]).

## Jón Árnason.

*Faðir:* Árni bóndi í Kalmannstungu son Þorleifs bónda á Hofsstöðum Ásmundssonar Ólafssonar bænda.

*Móðir:* Halldóra dóttir séra Kolbeins í Miðdal Þorsteinssonar bónda Kolbeinssonar.

*Kona:* Halla dóttir séra Jóns á Gilsbakka Jónssonar prests s. st. Jónssonar prests s. st.[3]).

---

1) Réttara 1796 (sjá áður).

2) **Þórður Guðmundsson**
sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu (sjá Árnessýslu) var settur sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu eptir fráfall Halldórs sýslumanns og hélt manntalsþing í Borgarfirði vorið 1847, áður en Jón Pétursson tók við. Þótt hann þjónaði sýslunni þennan vetur var hann samt búsettur í Reykjavík, en fór upp eptir til réttarhalda.

3) Sjá hér áður. Halla, er mun hafa heitið Halla Kristín fullu nafni, dó 24. júní 1847. Þau áttu 13 börn og komust 7 þeirra til aldurs.

*Börn:* A. Árni f. 1822[1]).
B. Ragnheiður[2]).
C. Halldóra[3]).
D. Guðný[4]).
E. Helga[5]).

---

1) Árni, (f. 19. júní 1822), bjó á Hlíðarfæti í Svínadal, átti Þorbjörgu Gunnarsdóttur stúdents á Hlíðarfæti Þorsteinssonar, er síðar átti Helga Sveinbjarnarson á Hlíðarfæti, þ. b.:
a. Jón.
b. Halla gipt Böðvari í Vogatungu Sigurðssyni á Fiskilæk Böðvarssonar (sbr. II, 102), þau systkinabörn, þ. b.: Halldór, Árni, Sigríður.
c. Svanhildur.
d. Kolbeinn kaupmaður á Akureyri.

2) Ragnheiður átti Eggert á Fossi í Vesturhópi Halldórsson prófasts á Melstað Ámundasonar, þ. b.:
a. Margrét átti Stefán Jónsson í Galtarnesi, þ. b.:
aa. Halldór Georg læknaskólakandídat o. fl.
b. Dýrfinna átti Brand Brandsson á Bjargasteini í Stafholtstungum, þ. b.:
aa. Eggert snikkari o. fl.
c. Kristín átti Jósep Gunnlaugsson Gunnlaugssonar prests á Stað í Hrútafirði Gunnlaugssonar.
d. Jóhanna átti Jakob Daníelsson á Auðunnarstöðum og börn.
e. Halla Ragnheiður átti Jóhann Kristján Skarphéðinsson á Hvoli í Vesturhópi Einarssonar.

3) Halldóra átti Sigurð smið á Fiskilæk Böðvarsson á Hofsstöðum Sigurðssonar á Litlu-Brekku Guðnasonar, þ. b. (sbr. II, 102):
a. Jón í Kalastaðakoti á Hvalfjarðarströnd.
b. Böðvar í Vogatungu átti Höllu Árnadóttur, systkinabarn sitt (sjá hér á undan).
c. Sigurður á Rauðamel, fór til Ameríku, átti Ragnheiði Þórveigu Þórðardóttur frá Leirá Þorsteinssonar Þiðrikssonar, áttu mörg börn.
d. Guðni átti Höllu Eggertsdóttur, þau systkinabörn, fóru bæði til Ameríku.

4) Guðný, (f. 22. okt. 1824), átti Jónas söðlasmið Jóhannsson prests í Hestþingum Tómassonar, bl.

5) Helga átti Jón Jónsson í Deildartungu Jónssonar Þorvalds-sonar Arngrímssonar Grímssonar og börn.

F. Jón[1]).

Jón Árnason er borinn um 1795[2]) og var settur til mennta

1) Jón umboðsmaður í Vík í Mýrdal, (f. 30. júlí 1830, † 28. apríl 1878), átti Guðlaugu Halldórsdóttur frá Vífilsstöðum Þorsteinssonar og Sigríðar Þorsteinsdóttur frá Efra-Apavatni Bjarnasonar á Helgastöðum Guðmundssonar Þórðarsonar Guðmundssonar í Auðsholti í Biskupstungum Þórðarsonar Þorleifssonar í Auðsholti Þórðarsonar, en sá Þorleifur kvæntist 1578 Guðrúnu Teitsdóttur sterka í Auðsholti Gíslasonar. Börn Jóns umboðsmanns og Guðlaugar:

a. Halldór umboðsmaður í Vík átti Matthildi Ólafsdóttur frá Höfðabrekku Pálssonar prófasts í Hörgsdal Pálssonar og 4 börn.
b. Halla f. k. Jóns yngra í Bólstað Gunnsteinssonar í Hvammi í Skaptártungu Runólfssonar Gunnsteinssonar.
c. Sigríður átti fyr Sigurð Ólafsson lækni í Skaptafellssýslu og eina dóttur, svo Sigurð Ólafsson sýslumann í Kaldaðarnesi (sjá Árnessýslu).

Enn var son Jóns Árnasonar á Leirá og Höllu f. k. hans:

G. Eggert, (f. 19. okt. 1837), bjó í Fróðhúsum, síðar á Hrafnabjörgum í Hörðudal, átti Sigríði Jónsdóttur frá Deildartungu Jónssonar, fóru til Ameríku 1887, þ. b.:
   a. Árni kaupmaður í Winnipeg.
   b. Halla átti Guðna Sigurðsson Böðvarssonar, systkinabörn (sjá hér áður), fóru einnig til Ameríku.

Síðari kona Jóns Árnasonar, er hann kvæntist 1848, var Ragnhildur Ólafsdóttir frá Lundum Þorbjörnssonar (II, 715). Þau áttu 7 börn og komust 5 til aldurs:

H. Halla Kristín dó uppkomin, bl.
I. Ólafur hreppstjóri á Geldingá, ókv. Sonur hans Hallvarður.
K. Jónas Eggert bóndi í Sólheimatungu, tvíkvæntur, átti fyr Guðríði Tómasdóttur frá Skarði í Lundarreykjadal Jónssonar, þ. b.: Ragnhildur gipt Jóni kaupstjóra í Borgarnesi Björnssyni frá Svarfhóli Ásmundssonar, Tómas, Guðríður, síðar Kristínu Ólafsdóttur.
M. Ragnhildur gipt Sigurði Magnússyni á Vilmundarstöðum, eiga mörg börn.
N. Hinrik fór til Ameríku.
O. Sigríður.

2) Hann var fæddur í Kalmannstungu 16. febrúar 1797, út-

í heimaskóla, og síðan í Bessastaðaskóla. Þaðan útskrifaður gipti hann sig og fór að búa á erfðajörð sinni Kalmannstungu. Þá Stefán Scheving fyr administrator á Ingjaldshóli var fluttur á eignarjörð sína Leirá, talaðist svo til, að hann seldi téða jörð Leirá Jóni stúdent Árnasyni fyrir Kalmannstungu og fleiri jarðir, sem Jón átti.

1847 fékk Jón sýslumaður Pétursson hann fyrir sinn umboðsmann meðan Jón sýslumaður þurfti að gegna amtmannsverkum á Stapa. — Jón Árnason telst annars mikill búþegn og vel auðugur af fasta- og lausafé. Sumir halda hann að vera kvennhollan og þó ærumann og meðal bænda mikilmenni. Hann hefir lítt skeytt um eða stundað upp á prestlegt embætti eða lærdómsfræði síðan hann kom úr skóla, en stundað vel bú sitt.

## Jón Pétursson.

(Sjá um hann og ætt hans við Strandasýslu) [1]). Honum var veitt Borgarfjarðarsýsla 1847 og ætlaði þangað að flytja, en þar conferenzráð amtmaður B. Thorsteinsson fór utan fékk

---

skrifaður úr Bessastaðaskóla 1820 og kvæntist fyrri konu sinni sama ár. Bjó fyrst í Kalmannstungu, en flutti að Leirá 1839. Var sæmdur heiðursmerki dannebrogsmanna 1854 og andaðist 5. september 1862. — Segir í Íslendingi III. árg. bls. 142, að hann hafi 8 sinnum verið settur sýslumaður, en of opt mun það talið. Frá 5. ágúst 1837 var hann í fjarveru Halldórs sýslumanns settur sýslumaður á hans ábyrgð þangað til Halldór kom út aptur 1838. Svo þjónaði hann fyrir Jón sýslumann Pétursson 1847—48, og eptir lát Brynjólfs sýslumanns Svenzons í nóvember 1851, var hann settur sýslumaður þangað til Lassen kom sumarið 1852. Eptir burtför Lassens 1858 var Jón settur sýslumaður um tíma, þangað til Jón Snæbjörnsson tók við, og í fjarveru Jóns sýslumanns þjónaði hann sýslunni sem settur frá því í október 1859 þangað til í júní 1860, en dómarastörf hafði þá á hendi Bogi Thorarensen sýslumaður í Mýrasýslu. Eptir lát Jóns sýslumanns Snæbjörnssonar var Jón dbrm. enn settur sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu og þjónaði henni þá nálega 2 ár eða frá því í septemberbyrjun 1860 þangað til í ágúst 1862, að Jón Thoroddsen tók við, og hafði Jón dbrm. jafnframt dómarastörf á hendi þann tíma.

1) Sbr. einnig við Mýrasýslu hér að framan bls. 374.

hann Jón sýslumann að gegna í sinn stað amtmannsverkum; fékk því Jón sýslumaður stúdent Jón Árnason á Leirá að gegna því nauðsynlegasta í Borgarfjarðarsýslu um veturinn, en var sjálfur á Stapa. 1848, þá Snæfellinga sýslumaður Árni Thorsteinsson deyði, setti Jón sýslumaður Pétursson administrator Þorvald Sívertsen fyrir Snæfellsnessýslu, en Árna kaupmann Thorlacius fyrir Stapaumboð í bráð.

1848 þann 15. júlí giptist Jón sýslumaður Pétursson jómfrú Jóhönnu Soffíu Bogadóttur frá Staðarfelli Benediktssonar (var þeirra brúðkaup haldið á Staðarfelli). En þá hann með konu sinni kom á suðurferð sinni til Mýrasýslu, frétti hann um veiting kongs sér til handa fyrir Mýrasýslu 1848. Jón sýslumaður hafði tekið sér aðsetur í timburstofu, sem er í Höfn undir Hafnarfjalli. En nú mátti hann nauðugur viljugur fara til Mýrasýslu og fékk pláss hjá hreppstjóra Birni í Hjarðarholti sem húsmaður 1848. Var þó af stiptamtmanni Rósenörn settur fyrir Borgarfjarðarsýslu 1848.

---

# Viðauki.

## Stefán Gunnlaugsson

(sjá hér áður) var settur sýslumaður í Borgarfjarðarsýslu 20. júlí 1849, og þjónaði henni þangað til Brynjólfur Svenzon tók við árið eptir.

## Brynjólfur Benediktsson Svenzon (sbr. II, 147).

*Faðir:* Benedikt Sveinsson síðast prestur í Hraungerði († 12. júlí 1839).

*Móðir:* Oddný Helgadóttir bónda á Hliði á Álptanesi Jónssonar.

Brynjólfur sýslumaður kvæntist ekki, en átti 3 launbörn, eitt með Önnu Kristínu Eiríksdóttur dannebrogsmanns í Ási í Holtum Sveinssonar, þau bræðrabörn, hét:

A. Steinunn, fædd í Ási 26. júlí 1829, átti Grím

Ólafsson á Hólmi í Seltjarnarneshrepp. Sonur þeirra Brynjólfur er í Reykjavík, ókv.

Annað með Kristínu Gunnarsdóttur bónda í Hvammi á Landi Einarssonar, var:

B. Borghildur, fædd í Hvammi 27. september 1832, átti Þórð í Sumarliðabæ í Holtum Þórðarson frá Sýrlæk Einarssonar á Vatnsleysu Halldórssonar og mörg börn.

Þriðja launbarn Brynjólfs hét:

C. Brynjólfur fæddur um 1832, var alinn upp í Árbæ í Holtum, flutti í vinnumennsku í Eystrihrepp og átti þar barn, er fæddist andvana, með Guðnýju Höskuldsdóttur frá Ásólfsstöðum Höskuldssonar í Haga Sverrissonar Oddssonar.

Brynjólfur sýslumaður var fæddur á Vogsósum í Selvogi 21. júlí 1796[1]), útskrifaður úr Bessastaðaskóla 1823, var svo nokkur ár skrifari hjá Bonnesen sýslumanni í Rangárvallasýslu, fór utan og tók próf í dönskum lögum 2. maí 1831 með 1. einkunn í báðum prófum, kom svo inn aptur og var tæpt ár skrifari hjá Grími amtmanni á Friðriksgáfu, dvaldi svo um tíma hjá Ara lækni á Flugumýri, sigldi aptur til Hafnar og var þar alllengi við ýms störf, helzt skriptir. Varð svo skrifari um hríð hjá Stefáni Gunnlaugssyni landfógeta, fékk veitingu fyrir sýslumannsembætti í Barðastrandarsýslu 10. maí 1847, en 16. maí 1850 var honum veitt Borgarfjarðarsýsla. Hann andaðist úr lungnabólgu í Höfn í Melasveit 7. nóvember[2]) 1851, ókvæntur. Var allmikill drykkjumaður.

## Niels Waldemar Lassen,

danskur maður, var fæddur í Kaupmannahöfn 10. september 1817, útskrifaður úr heimaskóla 1835, tók embættispróf í lögum 24. október 1844 með 2. einkunn í báðum prófum, fékk veitingu fyrir Borgarfjarðarsýslu 23. apríl 1852 og flutti

---

1) Fæðingarár hans og dagur 13. júlí 1799 er rangt í Lögfræðingatali M. Stephensens (sbr. einnig II, 147). Það sést af prestþjónustubókum Selvogsþinga.

2) Dánardagur hans er ranglega talinn 14. nóv. í Lögfr.tali M. St.

að Höfn í Melasveit, kvæntist 9. október 1855 íslenzkri stúlku Rannveigu Arnórsdóttur kaupmanns í Reykjavík († 4. okt. 1851) Gunnarssonar, systur Bjarna stúdents Gunnarsens á Akureyri[1]). Bjuggu þau í Höfn, en 31. október 1857 fékk Lassen sýslumaður embætti í Danmörku, og varð þá héraðsfógeti og skrifari í Hvetbohéraði. Fór héðan alfarinn með konu sína vorið 1858. 1867 varð hann bæjarfógeti og bæjarskrifari í Nysted á Lálandi, og birkidómari og skrifari í Nystedbirki, og þjónaði því embætti til dauðadags. Hann andaðist í Nysted 14. janúar 1892, hálfáttræður að aldri. 8. apríl 1888 varð hann riddari af dannebrog. Hann átti nokkur börn með konu sinni og voru tvö þeirra: *María Frederikka* og *Ella Rannveig* fædd hér á landi.

## Jón Snæbjörnsson.

*Faðir:* Snæbjörn prestur í Ofanleiti í Vestmanneyjum (f. 12. maí 1800, † 17. jan. 1827) Björnsson prests í Hítardal († 17. okt. 1828) Benediktssonar prests í Miðdalaþingum († 4. júní 1816) Hannessonar prests á Kvennabrekku († 1782) Björnssonar.

*Móðir:* Ingibjörg (f. 3. febr. 1795) Jakobsdóttir bónda í Kaupangi Þorvaldssonar á Vargá Oddssonar á Rúgsstöðum Jakobssonar[2]).

---

1) Sjá framætt hennar hér áður (bls. 146).

2) Ingibjörg móðir Jóns sýslumanns giptist aptur eptir séra Snæbjörn látinn Jónasi Vestmann snikkara í Vestmanneyjum, syni Einars Þorvaldssonar skósmiðs í Reykjavík. Hann drukknaði 5. marz 1834. Þau áttu ekki börn saman.

Alsystkin Ingibjargar (fyrri konu börn Jakobs Þorvaldssonar í Kaupangi) voru:

1. Sigurður Jakobsson, drukknaði ungur suður á Álptanesi 1818, átti Arnbjörgu Bjarnadóttur frá Kálfárdal í Gönguskörðum, nafnkennds sigamanns í Drangey Jónssonar á Skálárhnjúk Gíslasonar á Ingveldarstöðum Jónssonar, þeirra son Kristján Frímann, bjó austur á Jökuldal. S. m. Arnbjargar var Jörgen Kérúlf læknir eystra, þeirra son Andrés Kérúlf á Melum í Fljótsdal faðir Þorvarðar Kérúlfs læknis.
2. Anna Jakobsdóttir átti Steingrím á Litlaseli við Reykjavík Ólafsson í Laugarnesi Jónssonar í Varmadal Oddssonar, þ. b.:

*Kona:* Clara Margrethe Henriette, dönsk að ætt. Þau gipt-

---

a. Ólafur á Litlaseli átti Guðnýju Eyleifsdóttur, þ. b.: Sigríður, Steingrímur og Guðmundur Kristinn.
b. Jakob á Litlaseli. Son hans Grímur, ennfremur Anna, Snæbjörn, Guðmundur.
c. Sigurður.
d. Jón.

3. Kristján Jakobsson kaupmaður í Reykjavík († 23. jan. 1851) átti Þuríði Önnu Margréti Melbye, dóttur Hendriks Nielsens Melbye beykis í Reykjavík og Sigríðar Árnadóttur frá Þorvaldsstöðum í Skriðdal Jónssonar, þ. b.:
a. Sigríður Hendrikka.
b. Kristjana Soffía.
c. Anna Margrét. Eru allar í Kaupmannahöfn (»Jacobsens-systur«), hafa ekki gipzt.
d. Ingiríður, dó í Kaupmannahöfn 31. jan. 1908, óg., bl.
e. Hendrik Wilhelm. f. Guðrún María. g. Pétur Kristján Jón, dóu öll ung.

4. Þorvaldur Jakobsson sigldi ungur til Kaupmannahafnar og varð þar tollþjónn, kvæntist danskri konu, átti 3 syni og 3 dætur. Einn sonurinn og ein dóttirin voru mál- og heyrnarlaus.

5. Jóhanna Jakobsdóttir átti fyr séra Þorlák Björnsson Thorgrímsen á Auðkúlu († 11. febr. 1832), bróður Sigurðar landfógeta, bl., en síðar átti hún Jóhann gullsmið í Reykjavík Pétursson frá Vatnsleysu í Skagafirði Bjarnasonar, þ. b.:
a. Pétur J. Petersen, lengi bókhaldari við Duus-verzlun í Keflavík, átti Katrínu Illhugadóttur og börn.
b. Þorlákur Gísli dó ungur.
c. Guðrún.

Systur samfeðra þessara systkina (dætur Jakobs Þorvaldssonar og s. k. hans Ingibjargar yngri Davíðsdóttur frá Stóruvöllum í Bárðardal Indriðasonar) voru:

6. Sigríður Jakobsdóttir átti Ketil Sigurðsson í Miklagarði, þ. b.:
a. Davíð á Akureyri átti Margréti Hallgrímsdóttur Thorlacius Einarssonar prests Thorlaciusar í Saurbæ Hallgrímssonar, þ. b.: Þorvaldur kaupmaður á Akureyri, dó í heilsuhæli í Silkeborg á Jótlandi, Hallgrímur verzlunarmaður, Jón, Jakobína, Ketill og Sigríður.
b. Sigurður bjó í Miklagarði átti Sigríði Einarsdóttur frá Völlum Einarssonar og eina dóttur Aðalbjörgu.
c. Kristinn átti Salóme Hólmfríði Pálsdóttur og börn.

ust í Kaupm.höfn haustið 1859. Hún er enn á lífi í Kaupmannahöfn, og nýtur eptirlauna úr landsjóði. Hefur nú verið ekkja 47 ár.

Jón sýslumaður Snæbjörnsson var fæddur í Reykjavík 30. september 1824, útskrifaður úr Reykjavíkurskóla 1847, tók aðgöngupróf (examen artium) við háskólann 1848 með 2. einkunn og annað lærdómspróf í apríl og nóvember 1849 einnig með 2. einkunn, tók embættispróf í lögum 15. júní 1857 með 2. einkunn í hinu teoretiska og 3. einkunn í hinu praktiska prófi, fékk veitingu fyrir Borgarfjarðarsýslu 26. maí 1858 og fór þá til heimilis næsta vetur í Höfn í Melasveit, fór utan haustið 1859 og kvæntist í Kaupmannahöfn, kom út aptur vorið 1860 og fór til embættis síns, en konan varð eptir í Reykjavík, og ætlaði að vera þar um veturinn, því að Jón sýslumaður hafði þá ekki fengið sér fastan bústað. Um sumarið (í júlímánuði) 1860 fór hann snögga ferð til Reykjavíkur, en lagðist þar banalegu fám dögum síðar og andaðist 31. ágúst, tæpra 36 ára að aldri. Hann var talinn mesta valmenni[1]).

**Jón Þórðarson Thoroddsen** (sbr. II, 148).

*Faðir:* Þórður Þóroddsson beykir á Reykhólum (sbr. bls. 282).

---

d. Sigurbjörg átti Jón Hallgrímsson Thorlacius, bróður Margrétar konu Davíðs.

e. Jakobína átti Kristján Abrahamsson í Hlíðarhaga. Son þeirra Jóhannes, fór til Ameríku.

f. Aðalbjörg dó ógipt, bl.

7. Kristina Sigurbjörg Jakobsdóttir († 16. ágúst 1850) var f. k. Jóns Jónssonar á Munkaþverá. Son þeirra:

a. Jakob Júlíus snikkari, fór til Ameríku 1875, býr í Dakota, kvæntur Önnu Björnsdóttur fyrrum alþingismanns Péturssonar prests á Valþjófsstað Jónssonar, þ. b.: Ólafía, Kristín, Páll, Þorgerður, Petrína, Sveinn.

Systkin Jóns sýslumanns Snæbjörnssonar voru: Snæbjörn Benediktsen verzlunarstjóri í Reykjavík, er drukknaði á póstskipinu 1857 og Sigríður, er átti séra Þorvald Böðvarsson í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd († 1896).

1) Sbr. Þjóðólf XII. árg. 10. sept. 1860 bls. 137. Í lögfræð-

*Móðir:* Þórey Gunnlaugsdóttir prests á Hafsteinsstöðum Magnússonar.

*Kona:* Kristín Ólína (f. 24. júní 1833, † 27. nóv. 1879) Þorvaldsdóttir Sivertsens umboðsmanns í Hrappsey (II, 738). Þau giptust 29. ágúst 1854.

*Börn:* A. Þorvaldur (f. 6. júní 1855) dr. phil., prófessor að nafnbót, fyrrum kennari við lærða skólann, nú búsettur í Kaupmannahöfn, kvæntur 29. sept. 1887 Þóru Pétursdóttur biskups Péturssonar, þeirra einbirni:

1. Sigríður dó í Kaupmannahöfn 7. apríl 1903 á 15. ári.

Dóttir dr. Þ. Th. áður en hann kvæntist:

2. María var kjördóttir Stefáns Stephensens umboðsmanns á Akureyri, andaðist úr lungnatæringu á heilsubótarhæli í Vejle á Jótlandi 17. febrúar 1907.

B. Þórður Jónas (f. 14. nóv. 1856) fyrrum héraðslæknir á Suðurnesjum, nú gjaldkeri við Íslandsbanka í Reykjavík, kvæntur Önnu dóttur Péturs Gudjohnsens organleikara í Reykjavík, þ. b.:

1. Pétur stúdent.
2. Kristín giptist 1906 Steingrími Matthíassyni settum héraðslækni á Akureyri.
3. Jón aðstoðarritari við Íslands banka.
4. Emilía dó ung.
5. Emil Þórður.
6. Þórður Jónas dó ungur.
7. Þorvaldur Skúli Sigurður.

C. Skúli (f. 6. jan. 1859) fyrrum bæjarfógeti á Ísafirði og sýslumaður í Ísafjarðarsýslu (II, 251), ritstjóri „Þjóðviljans“, býr á Bessastöðum, kvæntur Theodóru dóttur Guðmundar prófasts Einarssonar á Breiðabólsstað á Skógarströnd, þ. b.:

1. Unnur.

---

ingatali M. St. er það ekki rétt, að Jón sýslumaður hafi andazt í Höfn í Melasveit.

2. Guðmundur stúdent í Kaupmannahöfn.
3. Skúli og m. fl.

D. Sigurður (f. 16. júlí 1863) cand. polyt, fyrrum landsverkfræðingur, nú kennari við lærða skólann, kvæntur Maríu dóttur Jean Valgarðs van Deurs Claessen gjaldkera landsjóðs í Reykjavík og fyrri konu hans Kristínar Eggertsdóttur Briems sýslumanns, þ. b.:
1. Sigríður.
2. Kristín Anna.
3. Jean Valgard.

Dóttir Jóns sýslumanns Thoroddsens, áður en hann kvæntist, með Ólöfu Hallgrímsdóttur prófasts Thorlaciusar á Hrafnagili Hallgrímssonar var:

E. Elín Guðrún (f. á Hrafnagili 9. ágúst 1841) átti Pál Jakob Blöndal héraðslækni í Stafholtsey son Björns Blöndals sýslumanns (I, 632), þeirra son:
1. Jón Blöndal héraðslæknir í Stafholtsey, kvæntur frændkonu sinni Sigríði dóttur Björns Blöndals sundkennara Lúðvígssonar Björnssonar sýslumanns Blöndals

Jón Thoroddsen var fæddur á Reykhólum 5. október 1819, útskrifaður úr Bessastaðaskóla 1840, tók aðgöngupróf (examen artium) við háskólann 1841 með 2. einkunn og annað lærdómspróf 11. apríl 1842 og 24. október 1843 einnig með 2. einkunn, tók ekki embættispróf í það sinn, en gekk í herþjónustu með Dönum gegn Þjóðverjum vorið 1848, fékk lausn úr henni um haustið, er vopnahlé var samið, kom til Íslands vorið 1850, og var þá settur sýslumaður í Barðastrandarsýslu, en sigldi aptur 1853 og tók próf í dönskum lögum 25. janúar 1854 með 1. einkunn í báðum prófum, kom s. á. út hingað, kvæntist um sumarið og var fyrsta veturinn í Flatey á Breiðafirði, en reisti bú á hálfum Haga á Barðaströnd vorið 1855, en bjó síðar á allri jörðinni. Hinn 25. maí 1861 var honum veitt Borgarfjarðarsýsla og flutti sig þangað sumarið 1862. Reisti þá bú að Leirá. Andaðist þar 8. marz 1868. Hann var ágætt skáld, eins og ljóðmæli hans

bera vott um, ritaði og skáldsögur, er náð hafa mikilli alþýðuhylli t. d. „Piltur og stúlka“ og „Maður og kona“. Á síðari árum hneigðist hann til drykkju um of, var þó jafnan vinsæll af sýslubúum sínum, og tryggasti vinur vina sinna. Æfisaga hans er prentuð framan við „Maður og kona“ Kaupm.h. 1876.

## Eggert Theodor Jónassen.

Hann var settur fyrir Borgarfjarðarsýslu eptir lát Jóns sýslumanns Thoroddsens 1868 og þjónaði henni þangað til Böving tók við henni vorið 1869. (Sjá um hann Mýrasýslu) [1]).

## Præben Theodor Emanuel Böving.

Hann fékk veitingu fyrir Borgarfjarðarsýslu 12. september 1868, en þjónaði sýslumannsembætti sínu í Snæfellsnessýslu (sbr. bls. 248) til vorsins 1869, að hann flutti til Borgarfjarðar, en 13. apríl 1871 var honum veitt Norður-Múlasýsla (sjá um hann þar).

---

Með konungsúrskurði 11. október 1871 var Borgarfjarðarsýsla sameinuð Mýrasýslu, og hin sameinaða sýsla veitt s. d. *E. Th. Jónassen* sýslumanni í Mýrasýslu og þjónaði hann þar til 1878 (sbr. Mýrasýslu bls. 379). Síðan hafa verið sýslumenn í Mýra- og Borgarfjarðarsýslu sameinaðri: *Guðmundur Pálsson* (1878—1886) og *Sigurður Þórðarson* (frá 1886) sbr. bls. 380—81 hér að framan. En Jóhannes sýslumaður Ólafsson (bls. 380) kom aldrei til sýslunnar, þótt veitingu fengi fyrir henni 5. nóvember 1886.

---

1) Bls. 379 hér að framan. Þar er mishermt, að hann hafi verið barnlaus með f. k. sinni. Þau áttu eina dóttur, Margréti, er dó ung.